# PRÉDIKANIR,

ÆTLAÐAR TIL

## HELGIDAGA LESTRA Í HEIMAHÚSUM

EPTIR

Dr. P. PJETURSSON.

---

ÚTGEFANDI:

EGILL JÓNSSON Í REYKJAVÍK.

1856.

# FORMÁLI.

Þegar eg í fyrra þjónaði dómkirkjuprestsembættinu hèr í Reykjavík um tíma, fór einhver sóknarmaður þess á leit við mig, að eg gæfi út á prenti þær prèdikanir, sem eg þá flutti. En við þessum tilmælum gat eg ekki orðið, einkanlega af því, að eg ekki gat búizt við, að þær prèdikanir mundu gánga út, þegar þær ekki næðu nema yfir nokkurn hluta ársins. Samdi þá herra Egill bókbindari Jónsson við mig um að láta sig fá einn árgáng af prèdikunum, sem hafðar yrðu til helgidaga lestra í heimahúsum, og átti eg að vera búinn að skila honum handritinu búnu til prentunar nú í haust, svo þær yrðu prentaðar í vetur. Þannig er það fyrir áræði þessa ötula og framtakssama manns, að þessar ræður koma hèr á prenti fyrir almenníngs sjónir, og eru sumar þeirra þær hinar sömu sem eg áður hefi flutt í dómkirkjunni, nema hvað eg hefi lagað þær eptir tilgángi bókarinnar; sömuleiðis hefi eg, vegna þess stutta tíma, sem eg fèkk til að undirbúa þetta verk, orðið að nota nokkrar eldri ræður mínar með breytíngum, og eins mèr til lèttis sumstaðar haft útlendar ræður mèr til stuðníngs og hliðsjónar. Af þessu kemur það líka, að eg, ef til vill, ekki hefi getað alstaðar vandað orðfærið eins vel og eg þó má ske hefði getað, ef eg hefði haft leingri umhugsunartíma; en eg vona þó, að svo vel sè frá því geingið, að menn þess vegna geti haft full not af bókinni, ef mèr annars hefur tekizt það, sem mèr

var mest umhugað, að hafa ræðurnar einfaldar og kristilegar, því á þessu þykir mèr mest ríða.

Þó sjötti sunnudagur eptir þrettánda og tuttugasti og sjöundi sunnudagur eptir trinitatis komi ekki fyrir á sama ári, og guðspjallið sè því hið sama báða þessa daga, hefi eg þó búið til tvær ræður, sína fyrir hvorn þeirra, og geta menn þá valið um, hvorja ræðuna þeir heldur vilja lesa. Þó bænirnar sèu hafðar á undan ræðunum í bókinni, má eins lesa þær á eptir þeim, og er það, ef til vill, fullt eins viðkunnanlegt í heimahúsum.

Orðfærið á guðspjöllunum hefi eg nokkuð lagað víðast hvar eptir því, sem það er í hinni nýju íslenzku útleggíngu biflíunnar.

Eg læt svo þessar ræður fara frá mèr, án þess að mæla fleira fyrir þeim; en fel Drottni ávextinn, því hann er sá, sem ávöxtinn gefur.

Reykjavík, 3. dag október mánaðar 1855.

*Höfundurinn.*

# INNTAK RÆÐANNA.

Á 1. sunnudag eptir trinitatis. Margur er fátækur í mikilli auðlegð og margur ríkur í sinni fátækt.

Á 2. sunnudag eptir trinitatis. Hvílík fásinna það er að hafna Guðs náð.

Á 3. sunnudag eptir trinitatis. Þessi tekur að sèr bersynduga menn og etur með þeim.

Á 4. sunnudag eptir trinitatis. Að sýna öðrum miskunsemi og umburðarlyndi.

Á 5. sunnudag eptir trinitatis. Hvernig maðurinn á að gegna bæði sinni tímanlegu og sinni eilífu köllun.

Á 6. sunnudag eptir trinitatis. Guð lítur á hjartalagið.

Á 7. sunnudag eptir trinitatis. Hvernig viðhald vors líkamlega lífs minnir oss á vorar andlegu þarfir.

Á 8. sunnudag eptir trinitatis. Í hverju sannur kristindómur sè innifalinn, eða: hvaða munur sè á yfirskyni guðhræðslunnar og hennar krapti.

Á 9. sunnudag eptir trinitatis. Dauðinn fer eins með oss alla.

Á 10. sunnudag eptir trinitatis. Hvernig Jesú spádómur um eyðileggíngu Jerúsalems borgar er fullur viðvörunar fyrir hina vantrúuðu, en huggunarfullur fyrir hina sannkristnu og trúuðu.

Á 11. sunnudag eptir trinitatis. Með hvaða hugarfari vèr eigum að nálgast Guð, til þess hann nálgist oss með sinni blessun.

Á 12. sunnudag eptir trinitatis. Mannlegt málfæri, eða sú Guðs gjöf að geta talað.

Á 13. sunnudag eptir trinitatis. Hvaðan kristileg mannelska eigi að spretta, og hvernig hún eigi að sýna sig.

Á 14. sunnudag eptir trinitatis. Drottinn sendir oss sjúkdómana í gæðskuríkum tilgángi.

Á 15. sunnudag eptir trinitatis. Traust á Guðs forsjón (oftraust, vantraust).

Á 16. sunnudag eptir trinitatis. Hvaða hugvekju jarðarför framliðinna geti gefið oss.

Á 17. sunnudag eptir trinitatis. Til hvers sunnudagurinn sèr í lagi er ætlaður.

Á 18. sunnudag eptir trinitatis. Elskan til Guðs.

Á 19. sunnudag eptir trinitatis. Hvernig trúin á Jesúm ekki eingöngis huggar oss með því að fullvissa oss um fyrirgefníngu vorra synda, heldur veitir oss einnig hug og dug til lífernis betrunar; eða með öðrum orðum: sambandið milli rèttlætíngar og helgunar.

---

# Á 1. sunnudag í aðventu.

## Bæn.

Aldrei fáum vèr fullþakkað þèr, himneski faðir! fyrir alla þína náð og miskunsemi. Sèrhvert fótmál, er vèr stígum á skeiðfleti lífsins, sèrhver breytíng tímans minnir oss á þína eilífu föðurgæðsku, á þína óþreytanlegu þolinmæði og þínar velgjörðir við oss. Hið umliðna kirkjuár er ein af þínum óteljandi velgjörðum, og hið nýupprunna kirkjuár er eins og sèrhvert augnablik lífsins gefið oss í gæðskuríkum tilgángi til að leiða oss til fullkomnunar og farsældar. En vèr megum allir játa það, góði Guð! að vèr höfum ekki varið tímanum eins vel og þú ætlast til, að vèr höfum einatt sóað honum í hirðuleysi og syndum, í stað þess að verja honum eptir þinni gæðskuríku tilætlun oss til framfara í þínum ótta og elskunni til þín. Æ! fyrirgefðu oss, himneski faðir! í Jesú nafni þetta gáleysi vort, þessa vanbrúkun tímans, og gefðu oss náð til þess að færa oss þínar bendíngar eptirleiðis í nyt og snúa oss til þín af öllu hjarta: þá mun hið nýja náðarár, sem þú sendir oss í dag, leiða oss til sameiníngar við þig og verða blessunarríkt fyrir oss, því að í sameiníngunni við þig er öll blessun og sæla fólgin. Amen.

## Guðspjallið

(Matth. XXI., 1.—9.).

Í þann tíma. Og þá er þeir tóku að nálgast Jerúsalem, og komu til Betfage hjá fjallinu Olívetí, sendi Jesús tvo af lærisveinum sínum, og sagði til þeirra: farið þèr í það kauptún, sem gagnvart yður er, og strax munuð þèr finna ösnu bundna og fola hjá henni, leysið hana og leiðið til mín. Og ef einhver segir nokkuð til yðar, þá segið, að herra yðar hafi þeirra þörf, og jafn-

snart mun hann sleppa þeim við yður. En það skeði, svo að uppfylltist hvað sagt er fyrir spámanninn, er svo segir: segið dótturinni Zíon: sjá! þinn konúngur kemur til þín hógvær, sitjandi á ösnu og á fola klifbærrar ösnu. En lærisveinarnir geingu á burt, og gjörðu svo sem Jesús bauð þeim, og leiddu með sèr ösnuna og folann, lögðu klæði sín yfir þau og settu hann þar upp á. En margt fólk breiddi sín klæði á veginn, og aðrir hjuggu kvistu af trjánum og dreifðu þeim á veginn; en múgurinn, sem fyrir þeim gekk og eptir fylgdi, kallaði og sagði: Hósíanna syni Davíðs! blessaður sè sá, sem kemur í nafni Drottins! Hósíanna í hæstum hæðum!

### Inngángur.

Hið upplesna heilaga guðspjall tilheyrir eiginlega pálmasunnudeginum, sem dregur nafn sitt af þeim pálmaviðargreinum, sem fólkið dreifði á veginn, þegar Jesús sem konúngur hèlt innreið sína í Jerúsalem, þegar hann var að búa sig undir sína pínu og sinn dauða. En forfeður vorir hafa líka tileinkað þessum degi þetta heilaga guðspjall, og það á sèrlega vel við og er næsta þýðíngarmikið, því að í dag byrjar nýtt kirkjuár, og það minnir oss á, að Krists ríki er ekki af þessum heimi, en að hann þó er æfinlegur konúngur sinnar kirkju. Hans ríki er á himnum; þaðan rèttir hann út veldissprota sinn yfir allar þjóðir og konúnga, og heldur verndarhendi sinni yfir sínum söfnuði og hverjum þeim, sem þjónar honum í anda og sannleika, því hans ríki er ekki einúngis á himnum, heldur og í hjörtum allra þeirra, sem hafa umgeingni sína á himnum, sem í þessum heimi fagna honum sem konúngi og veita honum inngaungu í hjarta sitt. Við hlið ennar helgu borgar stendur hann ekki leingur, en á dyr hjartna vorra knýr hann; þar vill hann fá inngaungu til að gjöra þau að helgu musteri Guðs; og sælir eru þeir, sem opna hjörtu sín fyrir honum og segja: blessaður sè sá, sem kemur í nafni Drottins! það er guðlegri náð að þakka, að hann enn þá kemur

til vor og vitjar vor með nýju kirkjuári; af náð og kærleika bíður hann enn eptir því, að vèr sýnum ávexti trúarinnar í heilögu líferni. Þú sèr, Drottinn! hvað oss vantar, og vilt gefa oss tíma og tækifæri til að hugleiða það. Til þess viljum vèr og verja þessari helgu stundu og hugfesta það:

Að Guð sendir þetta nýja kirkjuár oss til framfara og fullkomnunar í hinu góða; að hann sendir það til að bæta úr vorri andlegu þörf.

Hvað vantar oss þá? hvers höfum vèr þörf? Marga vantar elsku til Guðs og viðbjóð við syndinni. Nýtt kirkjuár er upprunnið, og Drottinn vill enn gefa oss tíma og tækifæri til að breyta þessu og bæta úr því. Hann gefi það af náð sinni, að margir geti hagnýtt sèr þenna náðartíma til að snúa frá villu síns vegar, til að byrja nýtt líf og taka framförum í guðsótta og kristilegum dyggðum! Því er miður, að marga vantar enn þá elsku til Guðs og viðbjóð við syndinni, af því þeir hafa ekki viljað leyfa Guðs anda inngaungu í hjörtu sín. Guð hefur opt kallað þá; hann hefur sent þeim bendíngar og áminníngar; hann hefur látið sitt orð minna þá á, hvað til þeirra friðar heyrði; en þeir hafa ekki gefið því gaum, af því þeir eru háðir syndinni og hennar þrælar. Í syndinni leita þeir sèr hvíldar og unaðsemdar, og verða þess ekki varir, hve svikul þessi værð þeirra er. Að sönnu hafa þeir heyrt ena helgu rödd lögmálsins, en þeir hafa látið hana sem vind um eyrun þjóta; þeir hafa aldrei gefið sèr tíma til að standa við og skoða sjálfa sig í spegli guðsorða, og því hafa þeir ekki sèð, hvað þá vantaði og hvers þeir höfðu þörf; þeir hafa fleygt sèr í straum tímans, í straum girnda og geðshræríngа, og láta hann bera sig fram til grafarinnar: að grafarbarminum ná hugsanir þeirra, en ekki leingra; þeim stendur, ef til vill, ótti af að hugsa leingra fram; þess vegna sökkva þeir sèr meir og meir niður í hið stundlega, niður í munað þessa lífs, svo hið andlega líf þeirra deyr útaf að lokunum, og getur ekki endurlifnað meðan þeir lifa syndinni. Segið mèr, kristnir bræður! var ekki líkt ástatt fyrir yður meðan þèr fóruð villir vegar? vantaði yður ekki elskuna til Guðs, þángað til hans andi snart hjörtu yðar, þángað til augu yðar lukust upp og þèr með iðrun og ángri sáuð yðar eymdarfulla sálarástand? Það var

Guðs andi, sem vakti yður og leiddi yður til lífernisbetrunar, og þá fyrst lærðuð þèr að þekkja Guð, þá fyrst lærðuð þér að þekkja hans óumræðilegu náð og miskunsemi, sem ekki vill dauða syndugs manns, heldur að hann snúi sèr og lifi; þá sáuð þèr, hvernig Guð breiddi föðurfaðm sinn út á móti yður og vildi leiða yður á lífsins veg. En á meðan maðurinn heldur iðrunarlaust áfram í syndunum, þá hvorki þekkir hann Guð nè elskar hann; á meðan maðurinn ekki snýr sèr til Guðs og verður snortinn af hans anda, þá er hann óhæfilegur til alls góðs, hversu ásjáleg sem hans ytri háttsemi kann að vera, því innri maður hans er spilltur; en rotið trè getur ekki borið góðan ávöxt.

Sè nú nokkur sá á meðal vor, sem enn þá hefur ekki fundið til Guðs náðar í hjarta sínu, þá gefi það góður Guð, að þessi nýji náðartími geti snúið honum, betrað og fullkomnað hann og bætt úr hans andlegu þörf! Nýtt kirkjuár rennur upp í dag frá þèr, Drottinn! þú sendir það út til þess enn á ný að reyna til að leiða hina iðrunarlausu til betrunar og sáluhjálpar; og eins og þú forðum sendir tvo af lærisveinum þínum til að gjöra það, er þú bauðst þeim, eins sendir þú enn í dag út þá tvo þjóna þína: lögmál þitt og evangelíum, til að leysa sálir þær, sem eru fjötraðar í syndunum, og leiða þær til þín. Í margar aldir hafa þessir þjónar þínir farið út um heiminn og leitað að hinum týndu og sagt þeim, hvers þeir hefðu þörf, og óteljandi hafa lært að sjá að sèr, hafa orðið gagnteknir af ríkdómi þinnar náðar og síðan lifað og dáið í þínu nafni. Innilega biðjum vèr þess og vonum, að einnig þetta nýja náðarár verði í þessu tilliti blessunarríkt fyrir marga!

Hvað vantar oss enn fremur? hvers höfum vèr þörf? Marga vantar fúsa hlýðni og stöðuga trú. Vèr höfum nýlega talað um þá, sem þurfa betrunar við; nú viljum vèr snúa athygli voru til þeirra, sem vantar ávexti betrunarinnar. Í guðspjallinu stendur, að lærisveinarnir hafi geingið burt og gjört eins og Jesús bauð þeim, og lýsir þetta þeirri ótakmörkuðu hlýðni, er þeir sýndu honum. Í þessu tilliti veitir svo mörgum af oss ervitt að feta í þeirra fótspor. þeir hefðu á margan hátt getað færzt undan boði frelsarans, hreift margvíslegum mótbárum, úrtölum og efasemdum; en þetta gjörðu þeir ekki,

af því þeir elskuðu hann og treystu honum. Já, bræður góðir! meðan hið kaldsinna hyggjuvit er að leggja hlutina niður fyrir sèr, skoða þá í krók og kríng og bera sig sundur og saman, þá er kærleikurinn farinn af stað, kominn aptur og búinn að afljúka Drottins erindi. En margur má játa, að hann er kominn skammt áleiðis í þessum kærleika og hlýðni, að hann vantar stöðuglyndi í trúnni og elskunni. Guðsorð átti hægt með að gjöra áhrif á sálu þína, kristinn maður! en hitt gekk ógreiðara að fá þig til að hlýðnast því í verki; þú meðtókst orðið með fögnuði, en það var eins og það aldrei ætlaði að geta fest rætur hjá þèr eða borið ávöxt; þú varst fljótur til að tárast og gefa Guði heit þín, en tregur og seinn til að efna þau og sýna ávextina í stöðugri trú, í fúsri hlýðni og undirgefni undir hans vilja. Æ! í þessu er þèr vissulega mikið ábótavant. Mörg náðarár hefur góður Guð látið þig lifa og alltaf hefur miskunsemi hans verið söm og jöfn, en þú hefur enn ekki getað orðið sjálfum þèr líkur, eða sjálfum þèr samhljóða, og sèrhver dagur og sèrhver stund lýsir því, að þú ert enn ekki orðinn einhuga við hið góða. Verið getur, að eitthvað gott finnist í fari þínu, að þú hafir einhverjar dyggðir til að bera; en þær liggja á víð og dreif eins og afhöggnir kvistir, af því þær vantar stöðugt og lifandi samband. Sjáir þú nú, hvað þig vantar, þá taktu þann einlæga ásetníng fyrir þig, að hafa stöðugt gát á sjálfum þèr, svo þú getir komið einíngu og samhljóðun á líferni þitt. Guð hefur sèð kviklyndi þitt og staðfestuleysi; þess vegna sendir hann þèr þetta nýja náðarár til að stýra fótum þínum á friðarins veg, svo þú reynist ekki leingur ótrúr og óáreiðanlegur, heldur góður og trúlyndur þjón og gjörir vilja Drottins þíns, þángað til hann kemur og kallar þig til sín og gefur þèr trúrra þjóna verðlaun.

Hvað vantar oss enn fremur? hvers höfum vèr þörf? Marga vantar reynslu og trúarpróf. Þetta nýja kirkjuár flytur með sèr þessi nauðsynlegu og nytsamlegu sáluhjálparmeðul. Frá alda öðli hefur það verið sagt, að þetta líf sè reynsluskóli; margir segja það af eigin reynslu, margir vita það einúngis af annara reynslu og þekkja það því ekki til hlítar, og þó að þeir, sem ekki reyna neitt misjafnt, sèu farsælli í heimsins augum enn hinir, sem þetta verða að reyna, þá eru þeir það þó ekki ætíð

í raun og veru; mörgum hverjum hættir við því í meðlætinu, að slíta sig lausan frá Guði og gleyma honum, þakka sèr og forsjálni sinni alla hluti, ofmetnast og forðast allt sem minnir hann á auðmýkt, á undirgefni undir Guðs vilja og þakklátsemi við gjafarann allra góðra hluta. Einnig þessum mönnum hefur Guð sjálfsagt ætlað eitthvert heilsumeðal á þessu nýbyrjaða kirkjuári, og þareð hann einatt lætur sorg og sjúkdóma og annan krossburð miða til þessa, þá er gott fyrir þá, sem baða í rósum, að hugleiða það fyrir fram, að það er Guðs náðarhönd, sem hirtir þá, að það er sá sami Guð, sem hirtir og huggar, slær og græðir. Guð þekkir bezt, hvers þeir hafa þörf, og því sendir hann þeim nýja reynsludaga til að draga þá nær sínu föðurhjarta. Gleðin í solli veraldarinnar verður svo tíðum að syndsamlegu gjálífi, svo menn gleyma gleðinni í Guði: þeirri sönnu gleði, og því er mótlætið nauðsynlegt til að snúa huga þeirra til Guðs og hans himnesku fagnaðar heimkynna. Eins og stormanna þarf við í náttúrunnar ríki til að hreinsa loptið, eins eru stormar mótlætínganna nauðsynlegir í náðarinnar ríki, til þess að sálin geti andað að sèr hinu hreina og himneska lopti eilífs lífs. Það sèst ekki, hvort trúin er sönn og lifandi, fyrr enn á hana reynir og á móti blæs; hún er ekki sönn nema hún, eins og Jakob forðum, gángi á hólm við Guð og sleppi honum ekki fyrr enn hann blessar hana. Það er einkenni guðsbarna, að þau með þolinmæði taka hverju því, sem hann lætur þeim að höndum bera, treysta honum eins í mótlæti og meðlæti og láta hvorki blítt nè strítt, hvorki líf nè dauða skilja sig við hans kærleika. Eins vitjar þetta nýja kirkjuár þeirra, ef til vill, með sjúkleika og krossburði, til að rótfesta þau enn betur í elskunni til Guðs, til þess þau fái enn betra næði og tómstund til að tala við sinn himneska föður og sameinast honum. Það vitjar hins heilbrigða, sem gefur sig allan við veraldlegum sýslunum, sem velkist í sorgum og áhyggjum þessa lífs, og minnir hann á að leita guðsríkis, sem er hið eina nauðsynlega; það vitjar hins lèttúðarfulla, sem leitar sèr unaðsemdar í nautn munaðar og syndsamlegra lystisemda, og minnir hann á alvöru lífsins og hans eilífu ákvörðun; það vitjar hins drambsama, sem þykist einkis þarfnast, og minnir hann á, að Guð upphefur og lítillækkar og að hann hrindir dramblátum af stóli;

það vitjar, ef til vill, hinna glöðu með sorg og söknuði, með ástvina missi og annari mæðu, og leggur hinum trúaða þessi Jobs orð í munn: Drottinn gaf, Drottinn burttók, sè nafnið Drottins vegsamað! Þannig mun margvísleg reynsla og trúarpróf bíða vor á þessu nýbyrjaða náðarári; en það vitjar vor í náðarríkum tilgángi, oss til framfara og fullkomnunar í hinu góða, til að bæta það, sem oss vantar.

Hvað vantar oss enn fremur? hvers höfum vèr þörf? Marga vantar gleði, hjálp og huggun. Nýtt kirkjuár er upprunnið, það er sent af Guði til að færa hinum þreytta hvíld, hinum þjáða og hrellda hjálp og huggun. Eins og gleðin þarf temprunar við, drambsemin hirtíngar og andvaraleysið þess, að það sè vakið af svefni sínum, eins þarf hryggðin huggunar við og neyðin hjálpar. Hryggð og neyð eiga sèr víða stað á jörðunni, því hún er táradalur, og eingum yðar, kristnir bræður! mun vera öldúngis ókunnugt um þessa hlið mannlegs lífs. Margir stynja undir krossins þúnga og margvíslegur er krossburðurinn; marga þjáir heilsuleysi, sjúkdómar, eða ellilasleiki, marga örbyrgð og volæði, sem vinna baki brotnu, en geta þó ekki aflað nægilegs viðurværis handa sèr og sínum; margir standa einmana og yfirgefnir í veröldinni, sem dauðinn hefur svipt athvarfi þeirra og slitið frá þeim þá, sem þeir unnu heitast; margir mega saklausir þola rángindi, álas og ofsóknir vondra manna; margir eiga við ýmsar freistíngar að stríða og þeim veitir þúngt að berjast góðri baráttu trúarinnar, því andinn er að sönnu reiðubúinn, en holdið er veikt; margir þjást af átölum samvizkunnar og endurminníngu drýgðra synda. Æ! allir þurfum vèr þinnar hjálpar og huggunar við, himneski faðir! og þú sendir oss þetta nýja náðarár til að minna oss á, að hjá þèr einum er huggunar og hjálpar að leita, að ekkert fær bætt úr margvíslegum þörfum vorum, ekkert veitt oss sanna hjálp og hugsvölun nema þitt heilaga orð; sá sem í því leitar sèr huggunar og friðar, hann mun reyna, að það er kraptur Guðs til sáluhjálpar hverjum þeim sem trúir, hann mun reyna, að Jesús gefur sálum vorum sanna hvíld, að í elskunni til hans og sameiníngunni við hann hverfur allur ytri og innri ófriður þessa lífs. Æ! komið þá til Jesú allir þèr, sem erfiði og þúnga eruð hlaðnir, hann mun endurnæra yður; hann mun

kenna yður að lypta huganum upp yfir sorg og mæðu þessa lífs til enna himnesku friðarins bústaða, og sannfæra yður um, að mótlætíngar og þjáníngar þessa tíma komast ekki í samjöfnuð við þá dýrð, sem þèr eigið í vændum!

þannig, kærir bræður! er þetta nýja náðarár ætlað oss til þess, að vèr á því tökum framförum í hinu góða; það kemur með nýjar áminníngar til hinna iðrunarlausu, nýjar uppörfanir til þeirra, sem eru veikir fyrir og óstöðugir í hlýðni sinni við Guð; það kemur með nýja reynslu og trúarpróf til þeirra, sem líttreyndir eru, með hjálp og huggun til þeirra, sem stynja undir krossins byrði, og þeim, sem þú, Drottinn! eptir þínu alvísa ráði sèr að ekki þarfnast annars enn að leysast hèðan og komast til hvíldar, þeim færir það sáluhjálplegan dauða, eilífan frið og fögnuð. Amen.

---

## Á 2. sunnudag í aðventu.

### Bæn.

Upp til þín, himneski faðir! lyptum vèr huga vorum og hjörtum á þessari helgu stundu til að biðja og ákalla þig. Gef þú oss náð til þess að geta meir og meir losað huga vorn og hjörtu við hið stundlega og hverfula og lært að hafa vora umgeingni á himnum hjá þèr og frelsara vorum Jesú Kristi. Láttu þitt orð vera ljós á vorum vegum og lampa vorra fóta, láttu það upplýsa vorn skilníng og helga vor hjörtu í þínum ótta, svo vèr lifum þèr einum og þjónum þèr í anda og sannleika, svo vèr sèum árvakrir og stöðugt á bænum, þángað til vor lausnarstund upprennur og þú kallar oss hèðan til eilífs lífs og eilífrar sælu. Bænheyr það í Jesú nafni. Amen.

### Guðspjallið

(Lúk. XXI., 25.—33.).

Í þann tíma. Jesús sagði til sinna lærisveina: Fyrirburðir munu sjást á sólu, túngli og stjörnum, og

á jörðu ángist meðal þjóðanna og örvíngslun; sjór og bylgjur munu hljóða, og menn munu deyja af ángistarfullri eptirvæntíngu þess, er yfir allan heiminn mun koma; því kraptar himnanna munu hrærast, og þá munu menn sjá mannsins son komanda í skýjunum með makt og mikilli dýrð. En nær þetta tekur að ske, þá lítið upp, og upphefjið yðar höfuð, af því lausn yðar er í nánd. Og hann sagði þeim þessa eptirlíkíngu: Gætið að fíkjutrènu og öðrum trjám, þegar aldini þeirra taka út að sprínga, þá vitið þèr, að sumarið er nálægt; sömuleiðis, nær þèr sjáið þetta ske, þá vitið, að guðsríki er nálægt. Sannlega segi eg yður, að þessi kynslóð mun ekki undir lok líðin áður enn allt þetta framkemur: himin og jörð munu forgánga, en mín orð bregðast eigi.

Inngángur.

Hið upplesna helga guðspjall er tekið úr þeirri hátignarfullu ræðu, sem Jesús hèlt fyrir lærisveinum sínum, þegar þeir spurðu hann að, hvenær musterið í Jerúsalem mundi verða eyðilagt, eins og hann skömmu áður hafði fyrirsagt þeim, og hver verða mundu merki tilkomu hans og enda veraldarinnar (Matth. 24., s.). þessar spurníngar tekur frelsari vor saman í eitt og svarar þeim í einu lagi, svo að þessi spádómur hans nær yfir mörg tímabil og til margvíslegra atburða, allt frá eyðileggíngu Jerúsalems musteris til hins fjarlægasta og síðasta tíma: til hinnar miklu opinberunar hans á efsta degi. Tilgángur þessarar spámannlegu ræðu var sá, að undirbúa lærisveinana undir þær stórkostlegu byltíngar, sem hlutu að verða samfara útbreiðslu hans ríkis á jörðunni, að undirbúa þá undir þær þjáníngar, þær eymdir og ofsóknir, er þeir mundu sæta, svo þeir skyldu ekki láta hugfallast þegar þar að kæmi, heldur minnast þess, að hann hafði sagt þeim þetta fyrir, og standa stöðugir allt til enda; hann vildi styrkja trú þeirra á sig og gróðursetja þann sannleika djúpt í hjörtum þeirra, að þó himin og jörð fyrirfærist, þá mundu þó sín orð ekki fyrirfarast; að þó allir

jarðneskir hlutir hyrfu sjónum þeirra, þá væri hann þó með þeim allt til enda veraldarinnar. En það sem skrifað er, það er skrifað oss til lærdóms, eins og Páll postuli segir í þessa dags heilaga pistli, og þessi spádómur frelsara vors minnir oss einnig á, að hinir jarðnesku hlutirnir eru hverfulir og breytíngum undirorpnir, og að það er því næsta heimskulegt fyrir oss að treysta þeim eða festa huga vorn við þá. Þess vegna er það mjög áríðandi fyrir oss, kristnir bræður! að rannsaka sjálfa oss og íhuga, á hvað vèr setjum traust vort, hvort það er á Guð eða heiminn, hvort það er á hið eilífa, eða hið stundlega; og til að gjöra þessa rannsókn auðveldari fyrir oss, viljum vèr á þessari helgu stundu hugleiða:

Hverjir það eru, sem ókvíðnir geta sèð á bak öllum jarðneskum hlutum.

1. Þeir sem leitast við að gjöra sína útvalníngu vissa, geta án hræðslu og kvíða hugsað til þess, að allir jarðneskir hlutir muni líða undir lok. Í stað þess að hræðast slíka tilhugsun, er hún guðsbörnum fremur til fagnaðar og gleði, því nær þetta tekur til að ske, upphefja þau sín þreyttu höfuð og vita, að lausn þeirra er í nánd. Þau hafa einatt þráð lausnarstund sína, lausn úr sorgar og synda fjötrum, og einatt andvarpað á vegferð sinni hèr og sagt: hversu mig leysast lángar, lifandi Guð, þú sèr! Þau hafa einatt rennt augum trúarinnar til hins fyrirheitna sælunnar lands og leitað sèr þaðan liðs og huggunar í stríði og baráttu þessa lífs, og glaðzt af að hugsa til þess, að þau alltaf meir og meir nálgast það ríki, sem þeim er fyrirhugað: þángað stefnir hugur og hjarta þeirra, bænir þeirra og andvarpanir. Þeir beztu og ágætustu hlutir, sem þessi jörð og þetta líf getur veitt þeim, minna þá á það sæluhnoss, sem bíður þeirra á himnum, og eru ekki annað í augum þeirra, enn fyrirmyndan þeirrar enn veglegri dýrðar, sem þeir eiga í vændum. Þegar þeir sjá sumarsins blíðu og blómgun náttúrunnar, hugsa þeir til sumarblíðu og blómgunar í æðra skilníngi: um útbreiðslu og eflíngu guðsríkis, um eilífar framfarir og fullkomnun andans. Allt, sem þeim er gleði að í þessu lífi, verður þannig til að minna þá á, að kjör þeirra verða enn þá yndislegri á sælunnar landi. Og þegar þessir jarðnesku hlutir hverfa sjónum þeirra, þá vita

þeir, að hið eilífa nálgast, og þurfa þá ekki leingur hins sýnilega við til að minna sig á hið ósýnilega: þá vita þeir, að guðsríki er í nánd. Hvaða eptirsjón getur þeim þá verið í þeim jarðnesku hlutum, sem þeir svo opt höfðu reynt, að eru hverfulir og óstöðugir, nær þeir í trú og elsku eru sameinaðir honum, sem er upprisan og lífið og sem hefur sagt: hver sem trúir á mig hann mun lifa þótt hann deyji, og hvers orð aldrei bregðast, þó himin og jörð fyrirfarist. Tímanlegt mótlæti og missir stundlegra gæða, hrörnun líkamans og ellilasleiki, skortur á skemmtunum og glaðværð, örbyrgð, vesæld og volæði — allt þetta vekur ótta og kvíða einúngis hjá þeim, sem leita hlutskiptis síns og farsældar sinnar í jarðneskum munum, sem þrátt fyrir allar áminníngar ekki vilja leita sèr neins æðra og áreiðanlegra athvarfs, og hrinda frá sèr einmitt því, sem getur friðað sálir þeirra og veitt þeim sanna og varanlega huggun. þeir sem svo eru sinnaðir verða ekki huggaðir; þeim má standa ótti af öllu því, sem minnir þá á dauðann og óstöðugleika jarðneskra hluta; sèrhvert visnað strá, sèrhvert laufblað, sem fellur til jarðarinnar, hlýtur að raska rósemi þeirra, því líf þeirra er staðfestulaust, það skelfur og titrar hve lítið sem á móti blæs. það sem þeir styðjast við og reiða sig á svíkur þá þegar minnst vonum varir, og þegar það hrynur, sem þeir byggja gæfuvon sína á, þá fyllast þeir óþreyju og óþolinmæði, og þegar þar að kemur, að þeir missa sjónar á hinu jarðneska, og sól og túngl og stjörnur hverfa þeim, þá hverfur og von þeirra, því hún var ekki byggð á Guði, heldur einúngis á hinum sýnilegu hlutum. Til þess vèr þess vegna getum án ángistar og örvínglunar sèð á bak hinum jarðnesku hlutum, hljótum vèr að setja allt vort traust á Drottin og halda oss fast við hann, og þá munum vèr, hvað sem fyrir oss kemur og hvaða mótlæti sem oss ber að höndum, ókvíðnir geta sagt: Drottinn! þegar eg hefi þig að eins, þá hirði eg hvorki um himin nè jörð.

2. þeir sem elska guðsorð og láta það vera ljós á sínum vegum og lampa sinna fóta, geta verið hughraustir og ókvíðnir, þó hinir jarðnesku hlutirnir líði undir lok. Himin og jörð munu fyrirfarast, en mín orð mega ekki fyrirfarast, segir Jesús. það einasta, sem þannig er óbrigðult og áreiðanlegt af þeim

hlutum, sem vèr verðum varir við, er guðsorð og sá sannleiki, sem í því er opinberaður. Um hvað ætti oss þá að vera meira hugað enn að veita því athygli og eptirtekt? það er ljósið, sem lýsti feðrum vorum og það á að lýsa börnum og niðjum vorum um ókomnar aldir á friðarins veg. En því minni gaumur sem því er gefinn, því minna sem hirt er um að taka það til ráðaneytis, því meir sem það er forsmáð og fyrirlitið af sjálfbyrgíngum og veraldlega sinnuðum mönnum, því meir útbreiðist vanþekkíngar og villu myrkur, þess meiri verða yfirráð syndarinnar og þess þýngra hennar ánauðarok. Vanrækt og fyrirlitníng guðsorðs leiðir það af sèr, að skynsemin myrkvast og viljinn til hins góða veiklast, og að maðurinn missir það eina, sem getur veitt honum huggun og hugrekki í mótlætinu, þegar veröldin fer að snúa við honum bakinu. Getur nokkurt ástand verið aumkunarverðara til enn það, að vera dreginn á tálar af ginníngum heimsins og vera ókunnugur þeim huggunarríku fyrirheitum, sem Guð hefur gefið oss í sínu orði? Gætið yðar, kristnir bræður! að rata ekki í þetta ástand, því það er óbærilegt, fullt af ángist og örvæntíng! En sá sem þekkir Guðs fyrirheit og treystir þeim, lætur aldrei hugfallast, og hvaða mótlæti sem honum ber að höndum, getur hann sagt með sálmaskáldinu: „Guð fær ei sínum gleymt í hryggð, geð mitt sá þánki nærir, von, sem á orð þín er uppbyggð, aldrei kinnroða færir". Munu ekki flestir hafa reynt það, þegar einhver mæða kom fyrir þá, að sálir þeirra feingu svölun af einhverri huggunargrein úr guðsorði? Mun ekki sú hafa orðið raunin á, að þeim reyndist það betur lagað til að græða sár hjartans, blessunarfyllra og heilsusamlegra enn nokkur jarðnesk huggun? Og ef vèr höfum reynt þetta í daglegu lífi, í þeim raunum, sem minna var í varið, hversu ómissandi, hversu blessunar- og huggunarfullt hlýtur þá guðsorð að vera, þegar eymd og ángist gagntekur hjörtu vor, eða þegar að því kemur, að vèr eigum að flytja hèðan og segja skilið við þetta líf, þegar dauðans nákalda hönd hrífur oss með sèr og vèr hljótum af alvöru að spyrja sjálfa oss: á hvað get eg nú reitt mig? hvað getur nú huggað mig?. Sælir eru þeir, sem eiga athvarf og huggun í orði og fyrirheitum Drottins; sælir eru þeir, sem hafa byggt von sína á þessu óbifanlega hellubjargi, og með auðmjúku

trúnaðartrausti bíða þar dauðans og dýrðlegrar opinberunar guðsbarna. Skilníngsljós náttúru vorrar er ekki fært um að tvístra dauðans myrkri eða lýsa oss út yfir takmörk þessa lífs. Auk þess sem það opt villir sjónir fyrir oss og leiðir oss afvega, þá getur það ekki fullnægt þörfum sálna vorra í tilliti til hins ókomna. það skilur oss eptir í því myrkri, sem vèr fáum ekki úr komizt, nema einúngis við ljós guðsorða. þess vegna verður sú áminníng aldrei nógu innilega brýnd fyrir oss, að hafa guðsorð kostgæfilega um hönd, hugfesta þess heilsusamlega lærdóm og gæta þess, að það er vissast og varanlegast allra hluta. þó vèr sjáum, að það sè ýmislegum miskilníngi undirorpið og misjafnt kennt, megum vèr ekki láta það kæla elsku vora til þess eða laungun vora eptir að heyra það; því misskilníngur og misjöfn kennsla spretta af mannlegum ófullkomlegleika og sýna, að það þarf mikla alúð og ástundun til að ná rèttum skilníngi á guðlegum efnum, og að það er ekki nóg að heyra guðsorð kostgæfilega, heldur verða menn að geyma það vandlega í hjarta sínu til þess það geti borið blessunarfullan ávöxt og leitt þá til eilífs lífs. það væri rángt að kenna þessari dýrmætu guðsgjöf um það, sem er veikt og ófullkomið hjá sjálfum oss. Sólarbirtan er ekki minni fyrir það, þó þeir sjái hana ekki, sem eru blindir eða byrgja augu sín. Látum oss hugglaðir taka guðsorð oss í hönd; það mun hugga sálir vorar og fullnægja þörfum þeirra. það sem oss ríður mest á að vita, það er, Guði sè lof! svo skýrt og greinilega útlistað, að vèr getum ekki villzt á því. Sá sannleiki, að vèr eigum Guð fyrir föður og Jesúm Krist fyrir frelsara og bróður, er svo ljóslega birtur og boðaður, að um hann getur einginn sá efazt, sem leyfir Guðs náð inngaungu í hjarta sitt. Sá sannleiki, að vèr erum syndarar, sem þurfum endurlausnar við, að vèr erum týndir sauðir, sem þurfum hirðis við, til þess aptur að komast á veginn til Guðs og himinsins, er svo einfaldur og augljós, að sèrhvert barn getur skilið hann. Segjum því ekki, að vèr getum ekki komizt að inntaki guðsorðs, eða náð þeim andlegu fjársjóðum, sem í því eru fólgnir; það er eingum óskiljanlegt, nema þeim, sem hafa óbeit á að hugsa um það, eða eru þóttafullir sjálfbyrgíngar, sem ekkert annað ljós vilja hafa enn ljós veraldlegrar vizku, en snúa bakinu við hinu sanna ljósinu, sem kom

í heiminn til að upplýsa alla og gjöra þá sáluhólpna. Ef vèr viljum fá að vita eitthvað um Guð, eins og oss ber að vita það; ef vèr viljum læra að þekkja ófullkomlegleika sjálfra vor og hvernig því rèttlæti er varið, sem hjá Guði gildir; ef vèr viljum fá að vita, hvaðan vèr fáum náð og krapta til að geta geingið lífsskeið vort óstraffanlega; ef vèr viljum vita, hvernig vèr eigum að bera kross og mótlæti, hvernig vèr fáum glaðir tekið á móti dauða vorum, og í hvaða sambandi hið jarðneska og tímanlega stendur við hið himneska og eilífa: hvort getum vèr þá farið til að fræðast og huggast, nema til hans, sem hefur orð ens eilífa lífsins og er með oss allt til enda veraldarinnar: Ef vèr ekki leitum Guðs í hans orði, þá finnum vèr hann ekki.

3. En vèr leitum Guðs ekki rèttilega í hans orði nema það beri ávexti innra hjá oss og vekji árvekni og bæn í hjörtum vorum. Þess vegna geta þeir einir, sem vaka og biðja, hughraustir sèð á bak jarðneskum hlutum. Vèr dauðlegir menn erum næsta skammsýnir; vèr þekkjum ekki dauðastund vora og því síður þá stund, nær kraptar himnanna taka til að hrærast og mannsins sonur kemur í skýjunum með makt og miklu veldi, nær allt hið stundlega hverfur og tíminn breytist í eilífð. Hvað eigum vèr þá að gjöra? Þessu svarar Jesús, er hann segir (Lúk. 21., 34.—36.): „En gætið yðar, að hjörtu yðar ekki ofþýngist við óhóf í mat eða drykk, eða búksorg, að ekki komi þessi dagur á yður óvart; því eins mun hann koma og tálsnara yfir alla þá sem á jörðu búa. Verið því ávalt vakandi og stöðugt á bænum, svo þèr verðið álitnir þess verðugir að umflýja allt þetta, sem fram mun koma, og mæta frammi fyrir mannsins syni.“ Það er ekkert aumkunarverðara ástand til fyrir manninn enn að bíða dauða síns og dóms í andvaraleysi, og svipta sig þannig öllu samfèlagi við gæðskuríkan Guð, bæði hèr og síðar meir. En þó gáleysið og kæríngarleysið sè mikið meðal mannanna, getum vèr þó ekki ímyndað oss, að nokkur vilji deyja í syndum sínum, eða skilja við þetta líf án iðrunar og betrunar. Og þó er mörgum burtkippt mitt í syndum þeirra; margir burtkallast, sem nýbúnir eru að fremja einhver glæpaverk; margan sælkera hrífur dauðinn burt mitt í hans munaðarlífi, og tekur snögglega fyrir kverkar á mörgum þeim, sem fyrir skemmstu lèt óbænir og bölvun framgánga af munni sínum,

og nákuldi nístir einatt skyndilega hjörtun, sem stóðu í björtu báli óhreinna og syndsamlegra girnda. En eingum þessara manna kom til hugar, að dauðastundin væri svo nálæg; flestir þeirra hugsuðu, að hin síðasta kölhunin mundi enn þá dragast nokkra stund, þeir mundu enn þá fá tíma til að sjá að sèr, til að ráðstafa sínu húsi og fara hèðan í friði. Æ! margir mega eilíflega gráta það, að þetta var ekki þannig, að von þeirra brást og var ekki annað enn draumur. Þess vegna býður Jesús öllum að gæta þess, að þessi dagur komi þeim ekki á óvart. Þar að auki er það næsta fávíslegt, að ætla sèr einúngis að verja þeim seinustu stundum æfinnar til betrunar og undirbúníngs undir eilífðina, þar sem þó Guð einmitt til þessa gaf oss lífið og *alla æfi* vora. Á ekki Drottinn ráð á öllum lífdögum vorum? Eigum vèr ekki að vera í hans þjónustu á öllum aldri, bæði í æsku og elli? Hví selja menn þá líf sitt, þessa Drottins eign, í hendur syndinni og heiminum, og láta sèr lynda að gefa Guði fáein augnablik rètt undir andlátið, og eiga þó ekki einu sinni víst að geta ráðið þessum seinustu augnablikum lífsins? Er þetta að efla sína sáluhjálp með ótta og andvara? getur þvílíkt hugarfar vænt sèr náðar og miskunar af heilögum og rèttlátum Guði? Þess vegna býður Jesús oss að vera vakandi og stöðugt á bænum, svo Drottins dagur komi oss ekki að óvörum, heldur hitti oss rèttilega undirbúna. Til þess að geta með gleði rennt huganum til dauðastundar vorrar, þá verðum vèr í tíma að segja skilið við allt syndsamlegt athæfi og halda oss frá öllu ránglæti. Margir hafa sökkt sèr niður í áhyggju og búksorg og hugsað, að það væri sèr ekki til fyrirstöðu á sáluhjálparinnar vegi; margir hafa sökkt sèr niður í svall og ofdrykkju, af því þeir hafa viljað vera eins og heimurinn, og ekki þótt þörf á að leggja hart á sig eða sýna sjálfsafneitun. Meðan þeir stærðu sig af frelsi sínu, misstu þeir frelsi sitt; meðan þeir töluðu um að vera sjálfum sèr ráðandi, misstu þeir vald yfir sjálfum sèr og urðu ánauðugir þrælar. Jesús mundi vissulega ekki hafa minnzt á ofát eða ofdrykkju, eða búksorg, eins og hann gjörði í þeirri ræðu, sem vort helga guðspjall er tekið úr, ef þetta væri ekki illt og syndsamlegt, ef það væri ekki hans endurleystu bræðrum til óvirðíngar og fyrirstöðu á leið þeirra til himnaríkis. Ekki mundu þá heldur

mennirnir á vorum dögum í flestum löndum hafa farið að stofna fèlög til að reisa skorður við ofáti og ofdrykkju, hefðu þeir ekki gefið gætur að Jesú orðum, hefðu þeir ekki sèð, hvernig holdlegur munaður gjörir manninn óhæfilegan fyrir himneska sælu, hefðu þeir ekki sèð, hve miklu illu ofdrykkjan hefur komið til leiðar eina öld eptir aðra, hefðu þeir ekki sèð, hve skaðleg áhrif eptirdæmi hinna eldri hefur á hjörtu ennar ýngri og uppvaxanda kynslóðar, hvernig efnilegir únglíngar einatt spilla gæfu sinni, andlegri og tímanlegri. Þèr foreldrar! ef þèr viljið skemma börn yðar á únga aldri, ef þèr í lifanda lífi viljið sjá þau kafin eymd og vafin volæði, þá leiðið þau til svalls og drykkjuskapar; segið þeim, að þau hafi nógan tíma, nóg þrek til að gæta að sèr, þegar flaungunin sè vöknuð; segið þeim, að það sè óþarfi að láta á móti sèr; kennið þeim að gjöra gis að öllum aðvörunum Guðs og manna: þá munuð þèr bráðum ná tilgángi yðar, þá munuð þèr bráðum sjá börn yðar fullnuma í lastanna skóla. Ef þèr þar á móti eruð kristilega sinnuð og viljið, að börnum yðar vegni vel og að þau lifi leingi í landinu, sèr og öðrum til blessunar og heilla, þá innrætið þeim snemma þessi Jesú viðvörunarorð: gætið yðar, að hjörtu yðar ofþýngist ekki af ofáti og ofdrykkju; innrætið þeim snemma bæn og árvekni, svo hjörtu þeirra festist ekki of mjög við heiminn, heldur leiti til himins, svo þau geti með gleði sèð á bak enum jarðnesku hlutunum, og verði jafnan viðbúin nær sem Drottni þóknast að kalla þau hèðan.

Látum oss jafnan vera vakandi og stöðugt á bænum; biðjum góðan Guð af náð sinni, að sú árvekni og aðvörun, sem hann í dag lætur prèdika, megi koma mörgum til að sjá að sèr og bæta ráð sitt. Í þessa dags helga guðspjalli heyrum vèr aðvörunarrödd, er segir oss, að dagur Drottins muni koma skyndilega og að óvörum, og þetta á að kenna oss, að vera jafnan viðbúnir við komu Drottins, vaka jafnan yfir girndum vorum og tilhneigíngum, eins og hvert augnablik lífsins væri vort síðasta hèr á jörðunni, og biðja stöðuglega, að guðsríki megi koma til vor og vèr á síðan megum finnast þess verðugir að mæta frammi fyrir mannsins syni og verða í tölu hans barna. Meðan vèr á þessari helgu stundu höfum verið að hugleiða aðvörunarorð frelsara vors, höfum vèr þokast nær dauða vorum,

og margir meðbræðra vorra hafa á meðan skilið við þenna heim og eru inngeingnir til ljóssins — eða myrkursins; og erum vèr ekki sömu forlögum háðir og þeir? Áður enn oss varir er máske vort skeiðhlaup á enda runnið, áður enn oss varir, er máske sól og túngl og stjörnur og allt hið sýnilega hvorfið sjónum vorum: Æ! þá mun oss ekki iðra þess að hafa haft umgeingni vora í himnum, að hafa vakað og beðið, að hafa elskað Guðs heilaga orð og hlýðnast því; því þó himin og jörð fyrirfarist, munu þó hans orð ekki fyrirfarast. Amen.

---

## Á 3. sunnudag í aðventu.

### Bæn.

Öll þín handaverk, himneski faðir! eru dýrðleg og dásamleg; en þó er það miskunarverk þitt einna mest og veglegast, að þú sendir þinn eingetinn son í heiminn til að frelsa oss synduga menn frá synd og dauða og afreka oss eilíft líf. Þú lèzt hans líf vera fullt af dásemdarverkum, af kærleikans heilögu verkum, til að sannfæra oss um, að hann væri sendur af þèr, að hann væri sá, sem koma skyldi. Verk hans og orð, líf hans og dauði bera vitni um þig og þína eilífu föðurgæðsku. Láttu þessa sannfæríngu jafnan vera lifandi í vorum hjörtum, láttu hana hvetja oss til að líkjast honum í mannelsku og kærleikans verkum. Og þegar synd og sorg særir vor hjörtu og sviptir oss samvizkunnar friði, láttu oss þá líta augum trúarinnar upp til hans, sem læknar allar meinsemdir andlegar og líkamlegar, og veittu oss í hans nafni fyrirgefníngu syndanna og hvíld vorum sálum; leggðu oss til þess lið og krapta að geta barizt góðri baráttu trúarinnar og reynzt þèr trúir allt til dauðans. Bænheyr oss! faðir vor, þú o. s. frv.

### Guðspjallið

(Matth. XI., 2.—10.).

Í þann tíma. En þá er Jóhannes heyrði í fángelsinu verkin Krists, sendi hann til hans tvo af sínum lærisveinum, og lèt þá spyrja hann: ertu sá, sem koma skal, eða eigum vèr að vænta einhvers annars? Jesús

P. Pjetursson. Prèdikanir.

svaraði og sagði til þeirra: Farið aptur og kunngjörið Jóhannesi hvað þèr sjáið og heyrið: blindir fá sýn, haltir gánga, líkþráir hreinsast, heyrnarlausir heyra, dauðir upprísa og fátækum verða guðsjöllin boðuð; en sæll er sá, sem ekki hneyxlast á mèr. En þegar þeir voru burtfarnir, hóf Jesús ræðu sína til fólksins um Jóhannes á þessa leið: Hvað fóruð þèr að sjá út á eyðimörku? reyr þann, sem af vindi er skekinn? eða hvað fóruð þèr að sjá? mann skrautbúinn? sjáið! þeir sem í skraut eru búnir eru í konúnganna höllum; eða hvað fóruð þèr að sjá? einn spámann? Eg segi yður fyrir satt: þann sem meiri er enn nokkur spámann; því þessi er sá, um hvern skrifað er: sjá þú! eg sendi minn eingil undan þèr, er greiða skuli þèr veg.

## Inngángur.

**Ertu sá sem koma skal, eða eigum vèr að vænta annars?** Hvað mun Jóhannesi skírara hafa geingið til að láta lærisveina sína spyrja Jesúm á þessa leið? Hafði hann ekki sjálfur boðað Krists komu, þegar hann kallaði og sagði: sjáið að yður, því himnaríki er nálægt (Matth. 3., 2.)? Hafði hann ekki sjálfur sagt: sá er nú kominn á meðal yðar, sem þèr þekkið ekki, sá sem koma mun eptir mig, hvers skóþveingi eg em ekki verðugur að leysa (Jóh. 1., 26.—27.)? Hafði hann ekki sjálfur sagt um Jesúm: sjá það Guðs lamb, sem burt ber heimsins syndir (Jóh. 1., 29.)? Hafði hann ekki, þegar Jesús skírðist, heyrt rödd af himnum, er kallaði og sagði: þessi er sonur minn elskulegur, á hverjum eg hefi velþóknun (Matth. 3., 17.)? Hvers vegna sendi hann þá til Jesú og lèt spyrja hann að, hvort hann væri sá fyrirheitni Messías? Mun sannfæríng hans hafa verið farin að veiklast um Jesú guðlegu köllun, af því hann stofnaði ekki veraldlegt ríki? eða munu þjánfngar sjálfs hans í fángelsinu hafa gjört hann hnugginn og efablandinn? Hvorugt getur átt sèr stað; því bæði vissi hann, að Krists ríki var ekki af þessum heimi, og var líka sú guðs-

hetja, sem mótlæti ekki beit á. Hann var ekki reyr sá, sem af vindi er skekinn: hann líktist ekki þeim mönnum, sem hugsa eitt í dag og annað á morgun, sem laga sig eptir kríngumstæðunum og lofa það í dag, sem þeir lasta á morgun; heldur var hann rödd hrópandans á eyðimörku, sem sagði öllum sannleikann án manngreinaráliits, voldugum og vesælum, háum og lágum. Hver mun þá hafa verið tilgángur hans með að senda til Krists? Guðspjallamaðurinn segir oss, að hann hafi gjört það, þegar hann í fángelsinu heyrði verkin Krists, þegar hann heyrði getið um þau dásamlegu kraptaverk, er Kristur gjörði. Þau gátu ekki veikt, heldur hlutu þau að styrkja sannfæríngu hans um það, að Kristur væri sá, sem koma skyldi. Líklega ætlaði hann með spurníngu sinni að fá frelsarann til að játa það opinberlega, að hann væri sá fyrirheitni Messías; en þó hefur hitt eflaust verið aðaltilgángurinn, að sannfæra lærisveina sína um þetta, því áður, meðan Jóhannes kenndi og skírði, höfðu þeir borið sig upp um það við hann, að allir færu til Jesú, og þó Jóhannes segði þeim með berum orðum, að Kristur væri sèr lángtum meiri (Jóh. 3., 29.—30.), voru þeir þó efablendnir og leituðu ekki á Krists fund. En ekki einúngis þeirra vegna er þetta skeð og skráð, heldur og vegna allra þeirra, sem viðstaddir voru, og vegna allra, sem það lesa og heyra. Í svari því, sem frelsarinn gaf Jóhannesi uppá spurníngu hans, tekur hann fram bæði sín kraptaverk og sinn náðarlærdóm sem sönnun fyrir sinni guðlegu sendíngu í heiminn, og viljum vèr í þetta sinn láta hugann dvelja sèr í lagi við hans

kraptaverk.

Menn hafa kallað Krists kraptaverk yfirnáttúrleg, og er það rètthermt, því það voru verk hins almáttuga og heilaga vilja, sem er höfundur og herra náttúrunnar og hefur vald yfir henni; yfirnáttúrleg voru þessi verk líka að því leyti sem vèr ekki getum heimfært þau til þess náttúrulögmáls, er vèr þekkjum. — En vèr þekkjum næsta lítið til hinnar miklu alheimsbyggíngar — þessa ómræðilega dásemdarverks Drottins — og þurfum aldrei við því að búast hèr í lífi, að geta skilið Krists kraptaverk, sem öll eru sprottin af hinu eina kraptaverki: holdtekju hans. Í öðru lífi, þegar vèr losumst við syndanna fjötur, og önnur æðri náttúra birtist oss bæði í sjálfum oss og í al-

heimsríkinu, þá munum vèr sjá, hvernig því er varið, sem oss hèr í tímanum er óskiljanlegt. „Ef þèr trúið mèr ekki“, sagði Jesús við Nikódemus, „þegar eg segi yður jarðneska hluti, hvernig munuð þèr þá trúa, ef eg segi yður himneska hluti? Einginn hefur stigið til himins nema sá, sem niðurstè af himni: mannsins sonur, sem er á himni“ (Jóh. 3., 12.—13.). Þó hann væri niðurstiginn á jörðina, var hann þó enn á himni, og sannaði þetta með sínum kraptaverkum og sínum guðlega lærdómi. Kraptaverkin og lærdómurinn eru eins náskild og líkami og sál. Þessa verðum vèr jafnan að gæta, svo vèr sjáum, hvernig á því stóð, sem Kristur sagði, „að falskennendur mundu gjöra tákn og undur“ (Matth. 24., 24.). Hvað Krists kraptaverk snertir, þá hafa þau að vísu öll á sèr guðlegan blæ — eins og vèr síðar munum sýna — en þó megum vèr ekki fyrr draga ályktun um himneskan uppruna frelsara vors af kraptaverkum hans, enn vèr höfum sèð og sannfærzt um, að allt, sem hann talaði og kenndi, að hugarfar hans og hegðun og allt, sem hann gjörði á náttúrlegan hátt, samsvarar þeirri æðstu hugmynd, sem skynsemi vor getur gjört sèr um sannleika og rèttlæti, speki og dyggð; og í þessu skyni hefur Jesús boðið oss a prófa sig og sinn lærdóm, þegar hann sagði: „Hver yðar getur sannað uppá mig nokkra synd? en ef eg tala sannleikann, hví trúið þèr mèr ekki?“ (Jóh. 8., 46.), og: „Sá, sem vill gjöra vilja hans, er mig sendi, hann mun komast að raun um, hvort lærdómurinn er af Guði eður eg tala af sjálfum mèr“ (Jóh. 7., 17.). En þó það sè víst og satt, að sú náð og sá sannleiki, sem Krists lærdómur hefur að geyma, bæði sannfæri oss um hans guðlegu sendíngu og sè aðaltilgángur hennar, þá er hitt þó eins óyggjandi, að þessum tilgángi hefði ekki orðið náð, Krists kirkja hefði ekki orðið stofnuð, nè guðsríki útbreitt, hefði hann ekki með sínum kraptaverkum sannað, að hann væri sá, sem koma skyldi. „Verkin, sem eg gjöri í míns föðurs nafni, bera vitni um mig,“ segir Jesús sjálfur. „Ef eg gjöri ekki verk míns föðurs, þá trúið mèr ekki“ (Jóh. 10., 37.). „Ef eg hefði ekki gjört þau verk á meðal þeirra, sem einginn annar hefði gjört, þá hefðu þeir ekki synd; en nú hafa þeir sèð þau og hafa bæði hatað mig og föður minn“ (Jóh. 15., 24.). Og að Jesús með þessum verkum lítur til kraptaverka sinna, sèst

af orðunum sjálfum og samanheinginu á þessum stöðum. Til þeirra skírskotar hann líka í því svari, sem hann gaf lærisveinum Jóhannesar skírara og sem vèr nýlega höfum heyrt. Þegar vèr nú nákvæmar virðum Krists kraptaverk fyrir oss, þá sjáum vèr, að hann gjörði þau ópinberlega, án alls undirbúníngs, optastnær með einu almættisorði, og stundum fjarstaddur einúngis með sínum heilaga vilja (smbr. Jóh. 4., 49.—51.; Matth. 8., 5.—13.); og þau lýsa því svo berlega, að hann hafði vald yfir lífi og dauða, eins og hann sagði sjálfur: „allt hvað faðirinn gjörir, það sama gjörir og sonurinn"; verk hans lýsa því eins og orðin, að hann var fullur náðar og sannleika: hvorttveggja lýsa hans dýrð, sem hins eingetna sonar föðursins. En hvað kom þá til, að Jesús opt bannaði að tala um sín kraptaverk og bar Gyðíngum á brýn, að þeir heimtuðu tákn og stórmerki? Það kom til af því, að hann aldrei gjörði neitt í ótíma, af fordild, yfirlæti, nè hègómadýrð, heldur vildi hann, að menn skyldu sjálfir afla sèr þekkíngar á hans lærdómi og verkum, og af eigin trú og sannfæríngu leiðast til að þekkja hann, sem hinn fyrirheitna frelsara, sem mannsins son, sem öll fyllíng guðdómsins bjó í líkamlega (Kól. 2., 9.). Það sem hann bar Gyðíngum á brýn var vantrú þeirra, sem ekkert gat eytt eða burtrýmt, hvorki þau dásemdarverk, er þeir sáu hann gjöra, nè þau dásamlegu orð, er þeir heyrðu hann tala, og sú eptirvæntíng þeirra, að Messías mundi birtast með táknum og undrum, eða jafnvel á sýnilegan hátt líða niður af himnum. Eins og Jesús ávítaði þær borgir, þar sem hann hafði gjört flest kraptaverk, fyrir vantrú þeirra og þverúð hjartans (Lúk. 10., 13.), eins vitnaði hann bæði fyrir sínum nánustu lærisveinum (Jóh. 14., 10.—11.) og öllum lýðnum til verka sinna og orða, ekki einúngis því til sönnunar, að hann væri Messías, heldur og hinu, að hann og faðirinn væru eitt. „Ef eg gjöri ekki verk míns föðurs", sagði hann, „þá trúið mèr ekki. En ef eg gjöri þau, þá trúið verkunum, þó þèr ekki viljið trúa mèr; svo þèr þekkið og sannfærizt um, að faðirinn er í mèr og eg í honum" (Jóh. 10., 37.—38.)!

En Krists kraptaverk eru ekki einúngis sprottin af guðlegu almætti, heldur og af guðlegum kærleika, guðlegri mannelsku, og þetta er því meir áríðandi fyrir oss a hugfesta,

sem vèr í því tilliti eigum að breyta eptir Krists heilaga eptirdæmi. Vegna sjálfs sín gjörði hann aldrei kraptaverk, ekki einu sinni á eyðimörkinni, þegar hann hafði húngrað í fjörutíu daga og fjörutíu nætur, og hann þó hefði getað, eins og freistarinn rèði honum til, breytt steinum í brauð, eins og hann seinna með fimm brauðum og tveimur fiskum saddi fimm þúsundir manna auk kvenna og barna. Vèr vitum allir, að hann gekk í kríng og gjörði gott og hjálpaði öllum; hvar sem hann kom „færðu menn til hans alla sjúka, sem af ýmislegum kránkleikum og þúngum sjúkdómum haldnir voru, djöfulóða, túnglsjúka, máttvana, og læknaði hann þá alla“ (Matth. 4., 24.). Eingan, sem hans leitaði í andlegri eða líkamlegri neyð, lèt hann synjandi frá sèr fara.

Jafnframt því að hugleiða mannelskuna í kraptaverkum frelsara vors, skulum vèr gæta að því, hve þýðíngarmikil þau eru. Hann var ekki kominn í heiminn til þess að lækna sjúkleika líkamans, nè til að hjálpa þeim einum, sem nálguðust hann á hans hèrvistardögum, heldur til að frelsa alla menn frá synd og dauða. Þær líkamlegu lækníngar hans á Gyðíngalandi voru fyrirmyndun þeirrar andlegu lækníngar, sem öllum er gefinn kostur á í náðarinnar ríki. Eins og hann á sínum hèrvistardögum lèt blinda sjá, daufa heyra, halta gánga, líkþráa hreinsast og dauða upprísa, eins dásamlegri breytíngu kemur hann enn til leiðar í andlegum efnum hjá öllum þeim, sem trúa og treysta hans orði og leyfa hans anda inngaungu í hjörtu sín. Enn vill hann, ef vèr flýjum til hans með einlægri iðrun og trúnaðartrausti, upplýsa vorn blinda skilníng, styrkja vorn veika vilja og hreinsa vor saurguðu hjörtu: já! hann vekur oss enn frá dauðum og gefur oss eilíft líf. Þess vegna bar hann vorn kránkleika og sampíndist vorum eymdum; þess vegna gaf hann sjálfan sig í dauðann. Látum oss betur íhuga þetta efni. Í andlegu tilliti erum vèr allir blindir þángað til guðleg náð vekur og upplýsir oss. Í barnæskunni þurfum vèr tilsagnar og handleiðslu annara við, sem eru eldri og reyndari; þegar vèr drögumst á legg og þykjumst vera sjálffærir, rötum vèr í allrahanda villur. Syndin spillir ekki einúngis hjörtum vorum, heldur villir hún og sjónir fyrir skilníngi vorum. Opt veljum vèr eintóman reyk og skugga í stað hins sanna og verulega,

tökum hið hverfula fram yfir hið varanlega, já! hið illa fram yfir hið góða. En þó vèr sèum blindir af náttúrunni og vegna heimsku vorrar og lasta, þá getum vèr þó feingið sjónina aptur fyrir náðarríka aðstoð hans, sem er ljós heimsins. „Hver sem fylgir mèr, segir hann sjálfur, mun ekki gánga í myrkri, heldur hafa lífsins ljós (Jóh. 8., 12.). Ef vèr treystum þessu og biðjum hann af hjarta, eins og þeir tveir blindu menn á leiðinni til Jeríkó: „herra! miskuna þú oss“! þá munum vèr öðlast bænheyrslu. Hann mun opna augu sálna vorrá, svo vèr sjáum hið andlega ljósið, sjáum, hvernig hann með sínu orði og eptirdæmi vill leiða oss á lífsins veg til hins eilífa ljóssins. — þegar hann gefur blindum sýn, þá lætur hann einnig halta gánga. þegar hann upplýsir skilníng vorn um guðleg sannindi og guðlega náð, þá styrkir hann líka vorn góða vilja og glæðir vora trú. Trú vor er næsta veik og hlýðni vor næsta óstöðug. Í dag tökum vèr, hrærðir af Guðs náð, eptir því sem oss finnst, einlægan ásetníng að kæfa einhverja syndsamlega girnd, leggja af einhvern vondan vana, sem er betrun vorri til hindrunar. En æ! á morgun látum vèr eptir þessari sömu girnd og föllum aptur í þenna vonda vana. Hvað er þetta annað enn andleg helti, sem meir eða minna seinkar framförum vorum á helgunarinnar vegi? Að eg ekki tali um þá hræsnara, sem lifa í grófum löstum, en nálgast Guð með vörunum og útvortis guðræknisæfíngum, sem tæla sjálfa sig og aðra með yfirskyni guðhræðslunnar, en afneita hennar krapti. „Hversu leingi haltrið þèr til beggja hliða?“ hrópaði Elías til Ísraels manna; „sè Drottinn yðar Guð, þá aðhyllizt hann; en sè Baal það, þá aðhyllizt hann“ (1. Kóng. b. 18., 21.). Og frelsarinn sjálfur varar oss við þessari andlegu helti, þessari hálfvelgju með þessum orðum: „einginn getur þjónað tveimur herrum í senn“ (Matth. 6., 24.). þó viljum vèr þjóna bæði Guði og heiminum, láta eptir vorum syndsamlegum tilhneigíngum og öðlast eilíft líf. Vèr höldum, að vèr sèum guðsbörn, þó vèr sèum þrælar heimsins; margir, sem alla æfi einúngis sækjast eptir tímanlegum hagnaði, vona þó, að þeir muni ekki missa af þeirri himnesku arfleifð, því eilífa lífi. Sjáðu að þèr í tíma, syndugur maður! sem haltrar milli góðs og ills; gættu að því, að ljósið hefur ekki samfèlag við myrkrið, nè Kristur við Belíal (2. Kor. 6., 14.—15.)

Afsakaðu þig ekki með breyskleika náttúru þinnar, því þú getur flúið til hans, sem í breyskum er máttugur, og leyfir þú hans orði og anda að vekja hjá þèr sanna iðrun og trú og alvarleg betrunaráform, þá mun hann losa þig við þinn syndavana og veita þèr krapta til að standast freistíngarnar: til að „standa upp“ sem nýr maður og gánga í nýju líferni. Hann, sem lèt blinda sjá og halta gánga, læknaði og þá, sem líkþráir voru. Menn hafa líkt þessum andstyggilega sjúkdómi saman við syndaeymd mannanna. Gyðíngar hèldu, að þessi sjúkleiki yrði ekki læknaður með náttúrlegum meðulum, heldur þyrfti til þess sèrlegan æðri mátt, sem spámennirnir höfðu þegið af Guði, og eins getur heldur ekkert hreinsað oss af syndasaurgun vorri nema verkanir guðlegrar náðar. Eins og Jesús svaraði hinum líkþráa manni, sem tilbað hann og sagði: „herra! ef þú vilt, getur þú hreinsað mig“: „eg vil, vertu hreinn! og strax varð hann hreinn af líkþrá sinni“, eins mun hann og einúngis með sínu almættisorði, með sínum gæðskuríka vilja hreinsa þig, iðrandi syndari! af þinni syndaspillíngu, ef þú leitar hans með því trúnaðartrausti, að hann bæði vilji gjöra þig hreinan og geti gjört það. En syndin er ekki einúngis andlegur sjúkdómur, heldur er hún einnig andlegur dauði, því hún skilur oss við Guð. Þareð vèr sökum vantrúar vorrar, vors holdlega og veraldlega hugarfars og vors syndsamlega lífernis, erum viknir af lífsins vegi, höfum yfirgefið lífið í Guði, hvernig eigum vèr þá að komast aptur á rètta leið? hvernig eigum vèr að ná aptur hinu sanna lífi? getur nokkur mannleg rödd vakið oss? getur nokkur náttúrlegur kraptur endurlífgað oss? Nei! það getur einginn nema hann, sem sagði: „eg er upprisan og lífið; hver, sem trúir á mig, hann mun lifa, þótt hann deyji (Jóh. 11., 25.). Þetta sagði hann í sama sinn og hann uppvakti Lazarus frá dauðum, og gaf með því til kynna, að hann hefði vald ekki einúngis yfir hinum líkamlega dauða, heldur og hinum andlega dauða; og þetta tekur hann enn betur fram á öðrum stað með þessum orðum: „Hver sem heyrir mitt orð og trúir þeim, sem mig sendi, sá hefur eilíft líf og kemur ekki til dómsins, heldur er hann farinn frá dauðanum til lífsins. Sannlega, sannlega segi eg yður, sá tími mun koma og er þegar kominn, að hinir dauðu munu heyra raust Guðs sonar, og þeir sem heyra

munu lifa“: þeir sem heyra frelsarans raust og á hann trúa munu lifa. En margir eru þeir, sem ekki heyra, ekki vilja heyra, heldur láta hans orð og áminníngar eins og vind um eyrun þjóta. þeir eru í andlegu tilliti heyrnarlausir og byrgja eyru sín fyrir rödd samvizkunnar og guðsorða. Hver fær bætt þetta andlega heyrnarleysi mannanna? Eingìnn nema hann sem kallar hina dauðu til lífsins; hann einn getur svoleiðis vakið athygli vort og eptirtekt á því náðarorði, sem oss er boðað, að það verði oss kraptur Guðs til sáluhjálpar.

Af þessu sjáum vèr, kristnir bræður! að þau líkamlegu kraptaverk, sem Jesús vitnar til, til sönnunar því, að hann væri sá, sem koma ætti, merkja líka þau andlegu áhrif, sem hann enn þá vekur í hjörtum vorum með sínu orði og sínum anda. En þar að auk hafa þau aðra þýðíngu, sem vèr nú loksins skulum hugleiða. þegar vèr gætum að mönnunum yfirhöfuð, sjáum vèr, að þeir hafa mjög misjöfnu láni og lukkukjörum að hrósa; margir eru blindir, haltir og heyrnarlausir, margir hrumir og heilsulausir, geðveikir og vitskertir, og eru annaðhvort fæddir þannig, eða eru orðnir það af einhverjum óhappatilviljunum, án þess þeir sèu sjálfir valdir að böli sínu. Hafa nú ekki þessir fullkominn rètt til að spyrja: hvers vegna er eg svo afskiptur og eins og fæddur til eymdar og armæðu? hvað hefi eg fremur öðrum til þess unnið? Hverju geta menn svarað þessum umkvörtunum öðru enn því, sem Jesús svaraði, með því að lækna alla, sem hans leituðu og þúngt voru haldnir á sál eða líkama? Með því gaf hann til kynna, að í því guðsríki, sem hann var kominn til að stofna, og sem ekki er af þessum heimi, mundi það allt jafnast og lagast, sem í þessu lífi fer aflaga, mundi allur sá ójöfnuður og þær misfellur bætast, sem spretta, ekki einúngis af rángsleitni mannanna, heldur og af óblíðu náttúrunnar og mislyndi lukkunnar. þegar lærisveinar Jesú spurðu hann, hvort sá, sem fæddur var blindur, hefði syndgað, eða foreldrar hans? svaraði hann: „hvorki syndgaði þessi nè hans foreldrar, heldur er þetta skeð, svo að Guðs verk verði á honum opinbert“ (Jóh. 9., 2.—3.); en „Guðs verk“ kallaði Jesús það, að hann gaf honum sjónina og sýndi með því, ekki einúngis að hann er ljós heimsins, heldur bætir einnig allt böl hèr í tímanum, eins það, sem ekki hefur upptök sín

af mannlegum tilverknaði. þessar dásamlegu velgjörðir, sem hann auðsýndi einstökum mönnum, vóru ekki einúngis vottur um hans almennu mannelsku, heldur og fyrirmyndan þeirrar endurlausnar, sem hann afrekaði öllu mannkyninu. þessi endurlausn snerti að vísu einkum syndina, sem er hið mesta mein og ógæfa mannanna, og hinn eilífa dauða, sem er hennar hegníng; en þó frelsumst vèr líka að lokunum fyrir sáluhjálplegan dauða frá öllu öðru illu, sem með syndinni er komið inn í heiminn, ef vèr tilheyrum frelsara vorum og hlýðum og fylgjum honum og reynumst trúir allt til dauðans. Af þessu sjáum vèr, kristnir bræður! hversu þýðíngarmikil Krists kraptaverk eru. Oss má ekki furða það, þó nú sè tekið fyrir kraptaverkagáfuna, því tilgángi þeirra er fyrir laungu síðan náð; en hann var sá, ásamt með Krists lærdómi, að vitna um hans guðlegu sendíngu. þó er ekki tekið fyrir þær andlegu náðarverkanir, sem samsvara kraptaverkunum, eins og áður er ávikið. þegar Krists lærdómur hefur þau áhrif á þverbrotinn syndara, sem hæðist að öllum helgum hlutum, að hann vaknar af sínum syndasvefni, iðrast og fæðist að nýju og verður guðsbarn, er það ekki eins dásamlegt og yfirnáttúrlegt, eins og þegar hinir veiku urðu heilbrigðir að Jesú boði og hinir mállausu tóku til að tala? það er sèr í lagi í náðarinnar ríki, sem frelsari vor enn þá gjörir kraptaverk. En jafnvel í tímanlegum efnum, megum vèr, ef vèr sjálfir ekki vanrækjum það, sem í voru valdi stendur, reiða oss á hann, sem í eyðimörkinni mettaði mannfjöldann, og á sjónum hastaði á vindinn. Eins frelsar hann oss enn frá húngursneyð og lífshættum, og ósýnilega gengur hann enn í kríng og gjörir gott með því að vekja mannelsku í hjörtum sinna trúuðu, sem í hans nafni seðja húngraða, klæða nakta, hýsa húsvillta, vitja sjúkra, uppala munaðarlausa og hjálpa þeim, sem í hættum eru staddir á sjó eða landi. Öllum verður ekki hjálpað; margir þjást af kránkleika líkamans, margir af örbyrgð og volæði, mótlæti og sorg. En þó er einginn svo aumur til, að hann geti ekki fundið huggun og frið af þeim „guðspjöllum, sem fátækum eru boðuð“.

Gætum að þessum merkilegu orðum, sem Jesús endaði með svar það, er hann gaf lærisveinum Jóhannesar; því með þeim gaf hann til vitundar, að kraptaverkin sönnuðu, hver hann væri,

*af því að* þau stæðu í sambandi við þann náðarlærdóm, sem hann boðaði fátækum, ekki einúngis þeim, sem eru fátækir af tímanlegum gæðum, heldur öllum, sem finna til sinnar andlegu fátæktar og kannast við hana. Fátækir erum vèr allir; fátækir af því, sem oss mest á ríður, af því, sem hefur gildi í guðsríki, sem gagnar oss í eilífðinni; en það er sönn og lifandi trú, ávaxtarsöm í kærleikanum. Meðan vèr hugleiðum þessa vora andlegu fátækt, þessa vora andlegu þörf, er frelsari vor oss andlega nálægur og kallar oss til sín með þeim náðarríku orðum, sem hann talaði um leið og hann vegsamaði sinn himneska föður fyrir það, að hann hefði opinberað smælíngjum það, sem vitríngum var hulið: „komið til mín allir þèr, sem erfiði og þúnga eruð hlaðnir, eg skal endurnæra yður!" Þannig ávarpar hann ekki einúngis þá, sem þjást af líkamlegu erfiði, heldur alla krossberendur og alla, sem stynja undir sinni syndabyrði. Æ! komum þá til hans og leitum hjá honum endurnæríngar og hugsvölunar; en gætum þess jafnframt, hvað hann af oss heimtar. „Takið á yður mitt ok", segir hann, „og lærið af mèr, því eg em hógvær og af hjarta lítillátur, og munuð þèr finna hvíld sálum yðar, því mitt ok er sætt og mín byrði lètt" (Matth. 11., 28.—30.). Gef þú oss náð til þess, góði frelsari! að geta lært af þèr og fylgt þèr; lèttu af oss oki syndar og sorgar, en legðu aptur á oss þitt ok, sem er ok kærleikans og mannelskunnar, og láttu oss í sameiníngunni við þig finna hvíld vorum sálum! Amen.

---

## Á 4. sunnudag í aðventu.

### Bæn.

Allir megum vèr ángraðir játa það, Drottinn! að vèr erum syndarar og að oss skortir þá hrósun, sem hjá þèr gildir. Því betur sem vèr rannsökum vor hjörtu og vora hegðun, þess betur sannfærumst vèr um, að syndin hefur fest djúpar rætur hjá oss og að vèr getum ekki sjálfir upprætt þetta illgresi úr náttúru vorri; en því meiri orsök höfum vèr til að lofa og veg-

sama þína eilífu föðurgæzku, sem ekki hefur látið oss hjálparlausa, heldur veitt oss þá óumræðilegu velgjörð að láta oss fæðast í því ríki, sem þinn eingetinn sonur, vor frelsari Jesús Kristur, stofnaði hèr á jörðunni. Þú hefur feingið oss þitt sáluhjálplega orð og þín náðarmeðul í hendur, til þess vèr getum barizt góðri baráttu trúarinnar og staðið stöðugir í freistínganna stríði; æ! gefðu oss náð til að hagnýta oss þetta rèttilega, gefðu oss náð til þess, að geta fetað þann lífsins veg, sem þú í þínu orði vísar oss á, náð til þess að geta orðið sannkristnir og þín elskuleg börn. Æ! bænheyr oss í Jesú nafni! Amen.

## Guðspjallið
(Jóh. I., 19.—28.).

Þessi er vitnisburður Jóhannesar, þegar Gyðíngar sendu frá Jerúsalem presta og levíta, að þeir skyldu spyrja hann að: hver ert þú? Hann játti og neitaði ekki og sagði: Ekki em eg Kristur. Þeir spurðu hann enn þá að: hvað ertu þá? ertu Elías? Hann sagði: ekki em eg. Ertu þá spámaður? Og hann svaraði: nei. Þá sögðu þeir við hann: Hver ertu þá? svo að vèr getum gefið svar þeim, er oss sendu; hvað segir þú af sjálfum þèr? Hann sagði: Eg em hrópanda rödd í eyðimörku: „greiði þèr götu Drottins", eins og Esaías spámaður hefur sagt. En þeir sem út voru sendir, voru af faríseum. Þeir spurðu hann þá og sögðu: Hví skírir þú þá, fyrst þú ert ekki Kristur, ekki Elías og ekki spámaður? Jóhannes svaraði þeim og sagði: Eg skíri í vatni; en sá er nú kominn meðal yðar, sem þèr þekkið ekki; hann er sá, sem eptir mig mun koma, hann var og á undan mèr, skóþveingi hans er eg ekki verðugur að leysa. Þetta skeði í Betabara, hinu megin Jórdanar, þar sem Jóhannes skírði.

## Inngángur.

„Hver ert þú? Hvað segir þú um sjálfan þig?" Þessi spurníng, sem farísearnir lögðu fyrir Jóhannes skírara, er ein

af þeim mörgu áríðandi spurníngum, og, ef til vill, sú mest áríðandi spurníng, sem hver maður þarf að leggja fyrir sjálfan sig, til að geta lært að þekkja sitt andlega ástand, lært að sjá, hvaða götu hann geingur, hvort það er sú, sem leiðir til lífsins, eða hin, sem leiðir til dauðans. Þó eru það margir, sem hljóta að játa, að þeir hafa ekki gjört sèr grein fyrir líferni sínu, nè ákvörðun lífsins. En þó hinum lèttúðarfulla og holdlega sinnaða manni hljóti að falla það illa að þurfa að grennslast eptir breytni sinni og sálarástandi sínu, verður hann þó að gjöra það; því annars getur hann ekki náð neinni staðfestu í lífinu, nè fundið til sannrar hugarrósemi. Með sjálfsprófun hlýtur maðurinn að komast til meðvitundar um samband sitt við Guð; það er eina ráðið til að geta nálgast Guð, til að geta sameinast honum og náð þeirri ákvörðun, sem Guð hefur ætlað honum að ná. Sú spurníng: hver ert þú? hvað segir þú um sjálfan þig? þarf því alvarlegrar umhugsunar við. Jóhannes svaraði þeim, sem spurðu hann: „eg em hrópanda rödd í eyðimörku.“ Og sannarlega má oss opt virðast mannlegt líf vera áþekkt eyðimörku og vort líf líkjast hrópanda röddu. Þegar vèr erum mitt í framkvæmdum vorum, í bezta geingi og blóma lífsins og látum hvað mest til vor heyra í háreysti og glaumi veraldarinnar, þá þagnar einatt og allt í einu vor hátalaða rödd, af því dauðinn kallar oss burt, og vèr skiljum hèr þá einúngis eptir minníngu vora sem hverfandi bergmál. Hvað höfum vèr þá eptir af öllu voru amstri og áhyggjum? af lystisemdum heimsins og lífsins hverfulu gleði? En er þetta hin sanna þýðíng lífsins? á því þannig að vera varið? nei! Að sönnu er líf vort hrópanda rödd í eyðimörku; en þessi rödd á ekki að vera hljómandi málmur og hvellandi bjalla, heldur á hún að taka undir með hinum óteljandi röddum í hinum eilífa lofsaung, sem allir skapaðir hlutir syngja Drottni til dýrðar. Þá er líf vort eins og það á að vera, því oss er ekki gefið það til þess, að vèr skulum verja því eptir vorum eigin geðþótta, eins og fýsn holdsins ræður oss til, heldur eigum vèr að þekkja það og finna til þess, að vèr höfum aðra æðri köllun, og að öll vor iðja er fánýt og einkisverð, ef vèr einúngis stundum vorn eiginn tímanlega hagnað, og leitum einkis betra enn þess, sem vor eigingjarni vilji bendir oss á. Þeir miklu og ágætu eiginlegleikar, sem heiðnir heimspekíngar fundu hjá manninum,

eru einmitt innifaldir í því, að hann getur skynjað og vitað annað enn það, sem blindar fýsnir og holdlegt hugarfar bjóða honum. Og vèr, sem lifum í því ljósi, sem um svo margar aldir var hulið mönnunum, köllum þessa yfirburði vora guðlegt eðli vors anda og þekkjum í þeim vísi hins eilífa lífsins. Því undir eins og vèr verðum þess varir, að vèr höfum yfirburði yfir skynlausar skepnur og að hugur vor nær út yfir þá veröld, sem skilníngarvitin eru bundin við, hlýtur það að verða vort fyrsta verk að íhuga, til hvers vèr eigum að verja þessum vorum æðri eiginlegleikum. Vèr sjáum oss stadda á takmörkum annars æðra heims, sjáum, að leið vor liggur þángað, og þurfum því að hugsa um, að búa oss undir það líf, sem þar byrjar, þareð vèr einhvern tíma, þegar oss sízt varir, getum burtkallazt frá þessu lífi. Þegar lífið þannig á von á að ýngjast upp í dauðanum, í stað þess að kulna þar út, þá verður það lángt þýðíngarmeira enn áður; en því þýðíngarmeira sem það er, þess meir áríðandi er það fyrir oss að vita, hvað vèr eigum að hugsa um sjálfa oss.

Þegar vèr nú hugleiðum breyskleika vorn og ófullkomlegleika og hversu lítið gott vèr getum framkvæmt af sjálfsdáðum, þá megum vèr í auðmýkt játa, að vèr erum syndugir menn; en þegar vèr þar á mót gætum þess, að Guð af náð sinni hefur gefið oss ódauðlegt eðli og ætlað oss eilíft líf og feingið oss pund í hendur, sem vèr eigum að verja eptir hans vilja og lúka honum reikníngsskap af, þá megum vèr með gleði finna til þess, að vèr erum kristnir menn; og til þessa hvorstveggja verðum vèr að finna: *að vèr erum syndugir menn og kristnir menn*, ef vèr eigum að geta gegnt vorri köllun rèttilega. Til að hugleiða þetta hvorttveggja viljum vèr þá með Guðs náð verja þessari guðræknis stundu.

Ritníngin kennir oss, að vèr allir sèum undir syndina seldir, að í náttúru vorri búi ekkert gott, heldur sèum vèr eptir eðlisfari voru reyðinnar börn og að oss vanti þá hrósun, sem hjá Guði gildir. Þenna lærdóm ritníngarinnar staðfestir bæði reynslan og mannleg meðvitund. Vèr hljótum að viðurkenna ekki einúngis ófullkomlegleika vorn, skammsýni vora og þrekleysi í að gjöra hið góða, heldur einnig tilhneigíngu vora til hins illa, sem gjörir oss ekki að eins snauða, heldur og synduga í

Drottins augum. En þótt vèr vildum kenna vanmætti og breyskleika náttúru vorrar um brot vor og bresti, mundum vèr þarfyrir vera sýknir saka í raun og veru? það er svikul og fánýt sjálfsprófun, sem nemur staðar við þá veiku afsökun, að menn hafi gjört svo mikið gott og breytt svo vel, sem þeir hafi getað. Hver maður hefur nokkurn tíma gjört allt það gott, sem hann hefði getað gjört? Æ! hèr á þessu ófullkomlegleikans landi verður ætíð svo mikið eptir ógjört og óbætt, að eingi inn maður getur sagt um sig, að hann hafi gjört nógu mikið gott, eða varið öllum sínum kröptum til að efla sína eigin betrun og annara heillir. þar á mót hlýtur hann með ángri að verða þess var, þegar hann betur rannsakar hjarta sitt, að hann vill heldur láta eptir girndum sínum og tilhneigíngum, en gánga helgunarinnar veg, að hann er fúsari á að lifa heiminum og hans lystisemdum enn Guði. þessi meðfædda spillíng mannsins og tilhneigíng hans til að lifa og láta fyrirberast í syndinni, heiminum og hègómanum er sú undirstaða, sem frjálsræði hans síðan byggir ofan á, svo að líf hans verður að rótgrónum syndavana og ber þá ógæfunnar ávexti, sem af syndinni spretta. Allir verðum vèr því að játa, að vèr erum syndugir menn. En þessi játníng vor má ekki nema staðar á miðri leið; það er ekki nóg, að vèr játum það lauslega með vörunum, að vèr allir brjótum margfaldlega, heldur hljótum vèr að finna til þessa innst í hjörtum vorum. þessi auðmjúka tilfinníng hjartans er rót og undirstaða sannrar iðrunar, hún er hið fyrsta fótmál á helgunarinnar vegi, og hún leiðir oss frá íhugun vors synduga manneðlis til þeirrar æðri og háleitari hugleiðíngar, að vèr erum líka kristnir menn; auðmjúk tilfinníng vanmáttar vors og breyskleika vekur trúna og laungun eptir endurlausn í hjörtum vorum og knýr oss til að leita Krists. En sú játníng: að vèr erum menn — þó syndugir sèum — er líka í öðru tilliti mikilvæg, því hún leggur oss skyldur á herðar, sem vèr eigum að gegna af alúð og ítrustu kröptum, til þess að geta orðið hæfilegir fyrir eilíft líf og eilífa sælu; því sem menn erum vèr ekki einúngis hegníngarverðir og dauðasekir að því leyti sem vèr erum syndugir, heldur erum vèr einnig skynsemigæddar skepnur Guðs, sem hann elskar og elur önn fyrir; vèr erum verur, skapaðar af honum með háleitum eiginlegleikum í háleitum

tilgángi. Sá dauðadómur, sem uppkveðinn er yfir oss, er einmitt fyrir þá skuld felldur yfir oss, að vèr höfum yfirgefið þá háleitu köllun, sem vèr erum kallaðir til, vanrækt þá ákvörðun, sem oss var ætlað að ná, og vanbrúkað þá eiginlegleika, sem áttu að vera oss til ágætis hèr í lífi, ef vèr hefðum helgað þá, og voru ætlaðir til að gjöra oss hæfilega fyrir arftöku heilagra í ljósinu. þegar vèr því finnum til þess, að vèr erum hluttakandi í hinni almennu spillíngu mannkynsins, að vèr allir brjótum margfaldlega og erum hegníngarverðir, þá má það svíða oss enn meir, að hugsa til þess, að vèr vorum kallaðir og ætlaðir til annars betra. Umhugsunin um vora himnesku köllun, sem vèr höfum vanrækt, á að vekja hjá oss innilegt ángur og söknuð, h ú n g u r o g þ o r s t a e p t i r r è t t l æ t i n u, svo að iðrun vor nemi ekki staðar við eintómar sviða og sárinda tilfinníngar, eða við þekkíngu á voru syndaástandi, heldur leiði oss til sannrar lífernisbetrunar. Sú játníng, að vèr erum syndugir menn, innibindur það enn fremur í sèr, að vèr skynjum ekki annað enn það, sem oss er gefið að vita hèr í tímanum; vèr hljótum að sjá og viðurkenna, að þekkíng vor er í öllum greinum takmörkuð og ófullkomin og þó einkanlega í þeim efnum, sem snerta annað líf, og að reynsla vor hèr í lífi er stutt og skorðum bundin. Vèr hljótum að játa, að það er margt, sem hèr blindar augu og villir sjónir fyrir oss, svo að vèr vart mundum sjá nokkurn bjarma annars lífs, ef vèr værum látnir sjálfráðir og hefðum ekkert æðra við að styðjast, einga æðri leiðsögn enn náttúruljós vort. Sú játníng, að vèr erum hluttakandi í mannlegum ófullkomlegleika, gjörir því ráð fyrir, að vèr getum ekki sjálfir aflað oss þekkíngar á þeim hlutum, sem liggja fyrir utan vorn jarðneska verkahríng. Með þessari játníngu viðurkennum vèr, að vèr þurfum á æðra og fullkomnara ljósi að halda, að vèr þurfum g u ð l e g r a r o p i n b e r u n a r við. Sá sem ekki getur sagt annað um sjálfan sig, enn að hann sè syndugur maður, stendur á lágu sjónarmiði; hann sèr ekki annað enn myrkur í kríngum sig og heyrir ekki annað enn hegníngardóm uppkveðinn yfir sèr. En játníng vor verður að innibinda meira í sèr; sjálfsprófun vor verður að ná leingra; vèr verðum enn þá að bæta þessu við: *eg er kristinn maður.*

Sú játníng, að vèr sèum kristnir, hefur sælutilfinníngu í för með sèr, er verður því inndælli, þess dýpri rætur sem hún festir í hjörtum vorum. Margur nemur, því miður, staðar við þá hugsun, að hann sè breyskur maður, og kynokar sèr við að íhuga þann sannleika, að hann á að vera kristinn, og þá hlýtur játníng hans að verða sorgleg, eins og áður er sýnt. Hann verður að viðurkenna, að hann er syndugur, hjálpar þurfandi og hegníngar verður, þángað til að hann lærir að þekkja það heilaga ljós, þá himnesku huggun og þá guðlegu sælu, sem kristileg trú veitir; en þegar hann er kominn svo lángt áleiðis, að hann finnur, að hann af sjálfsdáðum ekki fær skynjað eða skilið þá hluti, sem viðvíkja hans eilífu sáluhjálp, og ljós guðlegrar opinberunar er farið að renna upp í huga hans og boðar honum, að sjálfur Drottinn hafi auglýst sitt alvísa ráð og sinn vilja í hans sáluhjálparefnum — þá kviknar líka trúin í hjarta hans. Að vísu er trú og apturhvarf mannsins, iðrun hans og betrun samfara stríði og baráttu, því það er ekki fyrirhafnarlaust að útrýma hjá sèr þeirri geðþekkni á syndinni, þeirri lyst til hennar, sem vaninn er búinn að gefa honum, eða þeim efasemdum og afsökunum, sem aptur og aptur vakna í huga hans; en þó má hann ekki teljast undan þessu stríði, heldur á hann að neyta allrar orku til að deyða hinn gamla manninn innra með sèr, hafa stöðugt gát á sjálfum sèr og án afláts biðja Guð að leggja sèr lið og krapta til að geta barizt góðri baráttu trúarinnar.

Í þeirri játníngu, að vèr sèum kristnir, innifelum vèr þannig bæði vora trú og von, vora iðrun og vor betrunaráform. Að vera kristinn innibindur mikið í sèr, og þó margir kalli sig þessu nafni, þá er hætt við, að fjöldi þeirra við nákvæmari rannsókn megi játa, að þeir beri það ekki með rèttu. þetta nafn heimtar, að menn aðhyllist sannindi, sem hinn holdlega sinnaði hefur ýmugust á, og skyldur, sem hann vill ekki kannast við. Sannkristinn maður þarf ekki leingur að skoða sig sem reiðinnar barn; hann þarf ekki leingur að óttast dauða nè dóm, því hann veit, að hans lausnari lifir, og að Jesús Kristur hefur með sínum friðþægjandi dauða afplánað hans syndasekt og opnað honum aðgáng til föðursins; hann þarf ekki leingur

að óttast vald hins illa í sínu eigin brjósti, því Jesús er með oss alla daga til enda veraldar og sendir sinn anda í vor hjörtu, sem gefur oss sigur yfir heiminum og holdsins freistíngum; hann þarf ekki leingur að óttast skammsýni sína eða vaða í villu og svíma um sín sáluhjálparefni, því hið himneska sannleiksljós er fyrir náð heilags anda upprunnið í sálu hans, og guðsorð er lampi hans fóta, svo hann getur geingið þann veg, sem liggur til eilífs lífs. þessi kristilega trú vekur hjá manninum nýtt líf, nýjan mann, sem eptir Guði er gjörður í helgun og réttlæti. það er því bæði háleit og fögur köllun að vera kristinn, að vera Krists þjón og lærisveinn, að fylgja honum og hafa hans heilaga dæmi jafnan fyrir augum sèr; því þó maðurinn þekki Krists líf og dauða og hans velgjörðir við oss mennina, þá er hann ekki kristinn fyrir það, og ekki fyrr enn hann af eigin reynslu þekkir Krist í hjarta sínu og finnur til þess, að hið sanna lífið er í honum, í samfèlagi við hann, í hans anda og kærleika; og þetta samfèlag kristins manns við frelsara sinn í daglegri breytni, í bæn og árvekni, lýsir sèr í sannri helgun, sem er Guðs æðsta og unaðarfyllsta náðarverkan í mannlegum sálum. það er unaðarfullt að tilheyra honum, að að verða talinn meðal hans útvaldra, að vera hans barn í lífi og dauða; því þeir, sem honum tilheyra, þeir, sem hann kallar sína vini, þeir, sem krossfesta holdið með girndum þess og tilhneigíngum og deyja með honum: þeir verða og hluttakandi í hans eilífu dýrð.

Hvað segir þú um sjálfan þig? Finnur þú til þess, að þú ert syndugur maður og hluttakandi í hinni almennu spillíngu mannkynsins? Sæll ert þú, ef þú getur bætt því við, að þú sèrt kristinn, að þú sem sannkristinn maður hafir sáluhjálplega trú, huggaða samvizku og helgaða þekkíng. þá hefur þú ekki lifað til ónýtis; þá getur þú með gleði játað að miskunsemi Drottins við þig er ómræðileg, eins og öll hans náð og speki; þá muntu líka viðurkenna, að hann leiðir þig eptir sínu alvísa ráði á rèttum vegi, þó þeir, sem spyrja þig, skilji ef til vill ekki þessa játníngu þína; því holdlega sinnaðir menn, sem lítið hirða um sín sáluhjálparefni og ekki hafa hlutdeild í Kristi, þekkja ekki þá sælufullu meðvitund, sem býr í brjósti sannkristins manns, sem er gleði hans í lífinu og athvarf hans í

dauðanum. Yfir þessum mönnum, sem eru ókunnugir anda og eðli kristilegrar trúar, þó þeir sèu kristnir að nafninu til, sem ekki þekkja kristindómsins innsta líf í kærleika og trú, í bæn og árvekni, yfir þessum mönnum, segi eg, heyrist enn í dag þessi umkvörtun: mitt á meðal yðar stendur sá, sem þèr þekkið ekki. Já vissulega eru margir hverjir enn þá kallaðir kristnir, sem ekki þekkja Krist. En eins og það er víst, að hann áráugurslaust hefur með sínu orði og sínum náðarmeðulum kallað þá til hluttekníngar í þeirri eilífu sáluhjálp, sem hann hefur afrekað oss, eins er hitt áreiðanlegt, að hann einnig á síðan mun birtast þessum þverbrotnu og óhlýðnu syndurum; en þá birtist hann þeim ekki leingur sem frelsari, er leitar að hinum villuráfandi til að leiða þá á rèttan veg, heldur sem dómari í skýjum himins, þegar hann kemur í dýrð sinni til að dæma lifendur og dauða.

Hvað segir þú um sjálfan þig, syndugur maður? Hverju hefur þú að treysta? hvað hefur þú að reiða þig á? þú þekkir ekki frelsara þinn. Æ, þú átt þó hægt með að þekkja og finna hann, ef þú einúngis fyrst þekkir sjálfan þig. Rannsaka þú hjarta þitt; rannsaka þú það af alvöru og einlægni, og þó þú hljótir að hryggjast af syndum þínum og ávirðíngum, þá muntu einmitt í þessari hryggð finna meðal til að slíta þig lausan frá heiminum og nálgast lausnara þinn; en þessi hryggð verður að vera hryggð eptir Guði, sem leiði af sèr betrun þína til sáluhjálpar; það verður að vera sú hryggð, sem er samhljóða Guðs vilja, samfara auðmýkt og trúnaðartrausti. Prófa þú sjálfan þig, hvort þú ert sannkristinn, og þú munt komast að raun um, að þú þarft á himneskri leiðsögn og ljósi að halda, og þetta ljós mun skína móti þèr úr guðsorði og verma hjarta þitt með krapti heilags anda, svo að guðsandi beri þínum anda vitni um það, að þú sèrt Guðs barn og samarfi Jesú Krists: erfíngi þeirrar eilífu dýrðar, sem öllum sannkristnum er fyrirhuguð á sælunnar landi. En þèr, sem fyrir alvarlega sjálfsprófun eruð vaknaðir af syndanna svefni til andlegs æðra lífs, sem hafið fundið til hryggðar af syndum yðar og iðrazt þeirra, sem finnið til Jesú nálægðar í hjörtum yðar, þèr vitið, hvað sælufullt það er, að vera sannkristinn, þèr hafið reynt og reynið daglega þá huggun og hugarrósemi, sem það veitir yður. Vissu-

lega kom mörg sorgarstund fyrir yður á umliðinni æfi; en þá kom Jesús til yðar og ávarpaði yður með þessum blíðu huggunarorðum: grát þú eigi; vissulega kom fyrir yður mörg freistíngarstund, en þá hèlt hans ósýnilega hönd yður aptur á barmi glötunarinnar; vissulega kom fyrir yður mörg ángistarstund, og þá funduð þèr til þess með hrærðum hjörtum, að hann vill ekki brjóta brákaðan reyr nè slökkva líttloganda hörkveik, og þèr feinguð styrk af hæðum, hugrekki og djörfúng; án efa lifðuð þèr marga bænar og guðræknisstund, og þá stöðvuðust andvörp og óþreyja hjartans við íhugun Krists huggunarríka náðarlærdóms; vissulega kom fyrir yður mörg sár skilnaðar og saknaðar stund við banasæng og legstaði framliðinna ástvina; en þá heyrðuð þèr þetta hans fyrirheit: eg skal ekki skilja yður eptir föðurlausa, og þetta huggunarorð: þèr munuð aptur sjást, barst yður til eyrna úr andanna heimi og þerraði saknaðartárin af kinnum yðar. Gefðu oss öllum, ljúfi lausnari! að reyna krapt og huggun þinna orða; vertu ljós á vorum vegum og vor leiðtogi í öllum byltíngum þessa lífs, og í voru dauðastríði, þegar ekkert hèr á jörðunni leingur hjálpar oss nè huggar, æ, styrktu þá trúna í vorum hjörtum, því *trúin* á þína friðþægjandi náð er sá sigur, sem yfirvinnur heiminn og dauðann! Amen.

---

## Á Jóladaginn.(*)

### Bæn.

Þökk sè þèr, eilífi, gæðskuríki Guð og faðir! fyrir það, að þú sendir þinn eingetinn son í heiminn til að frelsa oss frá synd og dauða, til að leiða oss frá myrkrunum til ljóssins og gefa hverjum þeim eilíft líf, sem á hann trúir. Lofað og vegsamað sè þitt heilaga nafn fyrir það, að þú lèzt hann

*) Miðkaflinn úr þessari ræðu er áður prentaður í „Nýjum Hugvekjum" bls. 357—66.

stofna þitt ríki á jörðunni; en þitt ríki er sannleikans, kærleikans og friðarins ríki. Styrktu oss, Drottinn! í trúnni, í þekkíngu sannleikans og í kærleikanum, svo vèr fáum frið við þig og fögnuð í þínum anda. Gef þú einnig náð til þess, að vorar guðrækilegu hugleiðíngar á þessari stundu geti miðað til að efla þitt ríki meðal vor, þína dýrð, þinn frið og þína velþóknun í vorum hjörtum; gef þú þína náð og blessun til þess, að þessar vorar hugleiðíngar og öll vor bænaiðja hafi helgandi áhrif á vor hjörtu og vora daglegu breytni, svo vèr jafnan sèum þèr og vorum frelsara sameinaðir í trúnni og kærleikanum; svo vèr reynumst trúir þegnar í þínu og þíns sonar náðarríki hèr í tímanum, og fáum á síðan inntöku í þitt dýrðarríki á himnum. Bænheyr það í Jesú nafni! Faðir vor o. s. frv.

## Guðspjallið

(Lúk. II., 1.–14.).

Um þessar mundir kom það boð frá Ágústus keisara, að taka skyldi manntal um allan heim. Þetta manntal varð fyrst, þegar Cýreníus var landstjórnari á Sýrlandi. Fóru þá allir til manntals, hver til sinnar borgar. Þá fór og Jósep frá Galíleu, úr borginni Nazaret, upp í Júdeu, til Davíðs borgar, Betlehem, af því hann var af ætt og kyni Davíðs, til manntals, með Maríu heitmey sinni, sem þá var með barni. En svo bar við á meðan þau dvöldu þar, að það kom að þeim tíma, að hún skyldi ala barnið; fæddi hún þá sinn frumgetinn son, vafði hann í reifum, og lagði hann niður í jötuna; því hún fèkk ekki annað rúm í gestaherberginu. Og fjárhirðar voru þar í sama byggðarlagi um grandana við fjárhúsin, sem geymdu og vöktu yfir hjörð sinni um nóttina. Og sjá! eingill Drottins stóð hjá þeim, og Guðs birta ljómaði í kríngum þá, en þeir urðu mjög óttaslegnir. Eingillinn sagði við þá: Óttizt ekki! því eg flyt yður mikinn fagnaðarboðskap, sem viðkemur öllu fólki; því í dag er yður frelsari fæddur, sá að er Drottinn Kristur, í borginni Davíðs, og hafið það til marks, að þèr munuð finna reifað barn liggjanda í jöt-

unni. Og jafnsnart var þar hjá einglinum mikill fjöldi himneskra hersveita, sem lofuðu Guð og sögðu: dýrð sè Guði í upphæðum, friður á jörðu og Guðs velþóknan yfir mönnunum!

## Inngángur.

Drottinn! þú hefur frelsað sál mína frá dauðanum, auga mitt frá tárunum og fót minn frá hrösuninni. þessi þakkargjörð Davíðs konúngs, þessi vitnisburður hans um náð og miskunsemi Drottins, sem lesa má í sálminum 116., samsvarar þeim þakklætis og gleði tilfinníngum, sem á þessum degi og á þessari stundu eiga að gagntaka hjörtu vor og allra kristinna manna; því að í dag er enn þá ný jólahátíð upprunnin, og hún minnir oss á fæðíngu frelsara vors og setur oss lifandi fyrir sjónir Guðs eilífu náð og kærleika til vor syndugra manna. Að hjörtu vor eigi að vera gagntekin af þakklætis og gleði tilfinníngum, höfum vèr þegar viðurkennt með því, að vèr höfum eflaust í morgun óskað hver öðrum, óskað vinum og vandamönnum gleðilegrar hátíðar, og meiníng þessarar óskar — hafi annars hugur fylgt máli — hlýtur að vera sú, að þeir, sem vèr þannig höfum óskað gleðilegrar hátíðar, mættu verða hluttakandi í þeirri gleði og þeim fögnuði, sem Jesú fæðíng hlýtur að vekja í hjörtum allra sannkristinna manna, í þeim fögnuði, sem eingill Drottins forðum boðaði hirðurum í Betlehems byggðarlagi með þessum orðum: sjáið! eg boða yður mikinn fögnuð þann er viðkemur öllu fólki, því í dag er yður frelsarinn fæddur, og til þess að gleði vor geti verið hrein og fullkomin, höfum vèr á þessari stundu snúið hjörtum vorum til Guðs með bæn og þakkargjörð og guðrækilegum hugleiðíngum, höfum vèr ásett oss að fagna fæðíngu frelsara vors með því, að þakka vorum himneska föður og gefa honum dýrðina fyrir allar þær náðarríku velgjörðir, sem hann hefur veitt oss í sendíngu sonarins. það sè því inntak vorra guðrækilegu hugleiðínga á þessari hátíðarstundu að íhuga:

fagnaðarefni vort kristinna manna í dag, og hvernig vèr hljótum að vera sinnaðir, til þess að

vèr getum innilega fagnað fæðíngu frelsara vors. Legg þú oss til þessa lið og krapta, himneski faðir, og láttu þinn anda leiða oss í allan sannleika!

Jólahátíðin er fagnaðarhátíð kristinna manna, og mikið og háleitt er fagnaðarefni vort í dag; því eins og öll dásemdarverk lausnara vors, sem hann gjörði meðan hann dvaldi hèr á jörðunni, eru greinir á sama stofni, sprottin upp af því eina dásemdarverki: holdtekju hans, eins felur þessi hátíð í sèr allan fögnuð kristinna manna, og sèrhver sönn og inndæl gleði lífsins bendir til hennar sem uppsprettu sinnar, og því er þessi hátíð móðir allra annara hátíða, og því hefur þessi dagur allt frá upptökum kristninnar verið talin dýrðlegastur allra daga; á honum upprann hið mikla ljós heimsins, á honum birtist hann, sem var ímynd Guðs veru og ljómi hans dýrðar, hann sem var í dýrð hjá föðurnum áður enn heimurinn var til og sem gjörði Guð dýrðlegan á jörðu.

Mikið og háleitt er fagnaðarefni vort kristinna manna á þessari hátíð, því það er fæðíngarhátíð hans, sem stofnaði guðsríki á jörðunni; en guðsríki er *sannleikans* ríki.

Laungun eptir að komast til þekkíngar á sannleikanum er af skapara vorum djúpt gróðursett í hjörtum vorum. Það er öllum skynsemi gæddum verum eðlilegt, að vilja taka eptir því, sem þær sjá og heyra, eptir því, sem þær finna til og fram við þær kemur, að grennslast eptir orsökum og afleiðíngum hlutanna, að renna augunum yfir hið umliðna og virða fyrir sèr hið ókomna. Sálarinnar sanna líf er innifalið í því, að leita sannleikans og fylgja honum. En hversu skammt kemst þó hugur mannsins á sínu flugi án þess að þreytast og sundla; hversu skammt kemst hann í eptirgrennslun sannleikans án þess að rekast á boða og blindsker, án þess að komast í vafa og villur, í óvissur og efasemdir. Óteljandi eru þær spurníngar, sem verða á vegi mannsins, þegar hann fer að leita sannleikans. Hvað er eg, og hvað eru hlutirnir í kríngum mig? — svoleiðis spyr þá maðurinn sjálfan sig — Hvaðan er eg, og hvaðan eru allir þessir hlutir komnir? til hvers er allt þetta ætlað? hvað mun verða af mèr? hvað mun verða af öðrum eptir dauðann? ræður speki eða tilviljan eða ósveigjandi forlög

fyrir viðburðanna rás? er nokkrum auðið að finna sannleikann, eða að verða dyggðugur og farsæll? eða eru þetta alltsaman þýðíngarlaus orð? Laungun eptir sannleikanum knýr manninn til að leggja fyrir sig þessar spurníngar, en skynsemin hikar sèr við að leysa úr þeim með óyggjandi vissu; þær verða því eins og ráðgátur eptir í sálinni og gjöra hana óþreyjufulla og hafa truflandi áhrif á líferni mannsins, af því hans rètta líf er í sannleikanum og hann lifir af sèrhverju því orði, sem framgeingur af sannleikans eða Guðs munni. Á öllum öldum hafa menn því þráð það orð, sem framgeingi af Guðs munni, sem gæti verið þeim lífsins orð og talaði til þeirra af guðlegu valdi, er burtrýmdi öllum efasemdum úr sálum þeirra; á öllum öldum hafa menn fundið til þess, að þeir þurftu á æðri leiðtoga og skærara ljósi að halda, enn því sem skynsemin veitti þeim. Að sönnu var sannleiki til á jörðunni áður enn kristur kom í þenna heim, því hin alsanni og heilagi Guð hafði skapað manninn eptir sinni mynd og líkíngu; hann hafði talað til feðranna á marga vegu, bæði í dásemdum náttúrunnar, í röddu samvizkunnar og fyrir munn sinna spámanna; en mynd Guðs í manninum aflagaðist af syndinni, og hinar raddirnar voru ekki færar um að halda manninum á sannleikans vegi; að vísu voru það geislar sannleikans, en þeir voru svo strjálir og mennirnir svo sljófskyggnir, að þeir misstu sjónar á þeim. Að vísu gátu þeir þekkt almætti og speki í niðurröðun náttúrunnar, guðlegt lögmál í samvizkunni og guðlega forsjónar hönd í viðburðanna rás; en Guð sjálfan, hans sanna eðli og hans auglit sáu þeir ekki, og fyrr verður þó ekki þorsta mannsins eptir sannleikanum: eptir hinu eilífa, fullkomlega svalað. Þó leiddi Guð mannkynið við þessi geislabrot þekkíngarinnar allt fram að fyllíngu tímans; þá lèt hann ásjónu sína lýsa yfir oss í sínum elskulega syni, í honum, sem var getinn af heilögum anda, sem var vegurinn, sannleikurinn og lífið og hafði orð hins eilífa lífsins; í honum, sem sagði: sá, sem sèr mig, hefur sèð föðurinn; eg og faðirinn, við erum eitt; þó himin og jörð fyrirfarist, mega þó mín orð eigi fyrirfarast; í honum, sem postulinn segir, að guðdómsins fyllíng hafi búið í líkamlega. Þetta var hinn mikli spámaðurinn, fullur náðar og sannleika, hið mikla og bjarta ljósið, sem heiðíngjarnir fálmuðu

eptir og Gyðíngarnir þráðu. Hann hefur opinberað oss föðurinn og þannig kennt oss að þekkja þann einasta sanna Guð og þann, sem hann útsendi, Jesúm Krist; hann hefur leitt oss til þekkíngar á upptökum, viðhaldi og augnamiði allra hluta, á Guðs alvísu og gæðskuríku stjórn, á eðli og eiginlegleikum sálar vorrar og vorri eilífu ákvörðun: hann hefur leitt í ljós lífið og ódauðlegleikann. Frá Jesú lærdómi útbreiðist ljós og regla, fegurð og fullkomnun yfir alla hluti, því hann kennir oss, að allir hlutir sèu handaverk og ráðstafanir eilífrar speki og gæðsku. Hann hefur opnað oss inngaungu í sannleikans helgidóm og veitir sínum börnum sinn anda, sem er sannleikans andi, svo þeim finnst hans ok sætt og hans byrði lèttbær, svo þeim finnst dyggðanna vegur vera beinn og bjartur, og þau sjá, að hann liggur til sannleikans og sælunnar bústaða. Nú höfum vèr ljós og leiðsögn Jesú orða yfir þenna dimma dal og dauðans skugga, svo vèr getum ekki villzt á vorri vegferð, ef vèr trúlega fylgjum þeim, og megum þá ókvíðnir gánga mót dauðanum og eilífðinni; því hann, sem kom í heiminn til að bera sannleikanum vitni, hefur sagt: faðir! eg vil, að þeir, sem þú gafst mèr, sèu þar sem eg er, og: sá sem trúir á mig, hann skal lifa þótt hann deyji. Leitið hjá Jesú að saðníngu og svaladrykk, allir þèr sem húngrið og þyrstið eptir þekkíngu sannleikans; gætið að hans lærdómi og fylgið honum; leitið hans grandgæfilega í hinum helgu bókum biflíunnar, og lærið æ betur og betur að trúa og treysta hans orði, sem leiða mun yður í allan sannleika!

Mikið og háleitt er fagnaðarefni vortkristinna manna á þessari hátíð, því það er fæðíngarhátíð hans, sem stofnaði guðsríki á jörðunni; en guðsríki er *kærleikans* og *friðarins* ríki. Þegar Jesús fæddist, var að vísu friður í heiminum; en það var ekki sá sanni friður, sem sprettur af kærleikanum; heimurinn lá í svikulli værð, því hann lá í hinu vonda; og Rómverjar, sem þóttust hafa sigrað heiminn, voru sjálfir sigraðir af heiminum, það er að skilja: af girndum sínum og tilhneigíngum, af guðleysi og munaðarlífi. Þess vegna segist Jesús vera kominn „að senda eld á jörðu“ (Lúk. 12., 49.), og á öðrum stað (Matth. 10., 34.) segir hann: „ætlið ekki, að af minni komu muni friður standa; ekki mun hún friði valda,

heldur styrjöldum“. Við Jesú komu í heiminn truflaðist heimsins friður, af því hann „sannfærði heiminn um syndina, rèttlætið og dóminn“; en hann færði oss annan æðri frið: frið við Guð, og sætti mannkynið við hann með sinni friðþægíngu. það getur ekkert ástand hugsazt eymdarfyllra enn að vera ósáttur við heilagan Guð, eins og líka að hinu leytinu öll sæla er í því innifalin, að vera sáttur við hann og vita sig honum sameinaðan. Hve eðlilegt það sè mönnunum að vilja hafa frið við Guð, sýna fórnir allra fornaldarþjóða og allar þær tilraunir, sem menn hafa gjört til að mýkja reiði Drottins og bæta fyrir syndir sínar. En þó fundu þeir alltaf, að þessir mannlegu viðburðir voru ónógir; þeir fundu til þess, að sannarleg friðþægíng varð að koma frá Guði sjálfum; og því var þessum tilraunum alltaf samfara laungun eptir guðlegri opinberun, og hjá Gyðíngum traust á Guðs fyrirheitum. Og Guðs fyrirheit brugðust ekki; frá honum kom friðþægíngin í fyllíngu tímans. Við Jesú komu í heiminn heyrðist sá huggunarfulli boðskapur, að Guð hefði velþóknun á oss mönnunum, og því hefði hann fyrir öndverðu elskað oss í syninum og af elsku til vor sent hann í heiminn; Guð væri ekki einúngis heilagur löggjafi og rèttlátur dómari, heldur og eilífur kærleiki og faðir allrar miskunar. Jesús var sýnileg ímynd hins eilífa kærleika, og líf hans og dauði miðaði til að sætta oss við Guð og sameina oss honum í kærleikanum; með sinni heilögu hlýðni við Guð sigraði hann heiminn og syndina, og gaf oss þannig kost á að fylgja sèr og verða Guðs börn; í sínu kærleiksfulla hjarta bar hann syndir vorar upp á tréð og fullvissaði oss um náð og fyrirgefníngu syndanna, þegar vèr tileinkum oss hans rèttlæti með sannri iðrun og lifandi trú. Af því að Jesús sætti oss við Guð, þá sætti hann oss líka við vora eigin samvizku. Samvizkan er rödd Guðs í manninum; sárar og beiskar eru átölur hennar hjá þeim, sem finnur til synda sinna; en þó er svefn hennar hættulegri hjá hinum, sem ekki finna til þeirra. Jesú eigum vèr að þakka sannan frið og sanna rósemi sálarinnar, og þeir, sem honum sameinast í trúnni og kærleikanum, reyna það á sjálfum sèr, „að það er eingin fordæmíng framar yfir þeim, sem eru í Kristi Jesú“, og þeir geta hughraustir tekið undir með postulanum og sagt: „hver mun ásaka

Guðs útvalda? Guð er sá, sem rèttlætir; hver mun fordæma? Kristur er sá, sem dáinn er, og það sem meira er, líka upprisinn, og er Guði til hægri handar og biður fyrir oss". Af því Jesús sætti oss við Guð, sætti hann oss einnig við mennina; hann elskaði ekki einúngis sína allt til enda, heldur og óvini sína og bað þeim líknar og miskunar á krossinum; hann kenndi oss, að elska til náúngans væri lík hinu æðsta boðorði: elskunni til Guðs; hann sagði: „nýtt boðorð gef eg yður, að þèr elskið hver annan". Og þetta boðorð var nýtt, af því að það var byggt á nýrri undirstöðu: á kærleika Guðs, sem elskaði oss að fyrra bragði meðan vèr enn þá vorum syndarar, og með sinni elsku til vor hefur Jesús ekki einúngis sýnt oss, hvernig vèr eigum að elska hver annan, heldur einnig skuldbundið oss til að halda einíngu andans í bandi friðarins, með því „vèr erum einn líkami og einn andi, eins og vèr einnig erum kallaðir í einni von köllunar vorrar, með því vèr höfum einn Drottin, eina skírn, einn Guð og föður allra, sem er yfir öllu, alstaðar og í öllum hlutum". Og hve berlega hefur Páll postuli með þessum orðum tekið fram ekki einúngis samband Jesú Krists við sinn söfnuð, heldur einnig þá blessun, sem af því leiðir fyrir limi safnaðarins og þá skuldbindíngu, sem vèr höfum, að elska hver annan. Jesús er oss jafnan nálægur í kærleikanum, og í honum og fyrir hann er Guðs elsku úthellt í vor hjörtu, svo vèr getum sameinazt honum í kærleikanum, og elskað hver annan og feingið að reyna þá huggun og gleði, sem elskunni til Guðs og manna er samfara. Af því Jesús sætti oss við Guð, sætti hann oss einnig við náttúruna, við allt, sem oss mætir í þessu lífi og við sjálfan dauðann. Hann kenndi oss að sjá í náttúrunni og öllum vorum lífskjörum einbera speki og gæðsku vors himneska föðurs, sem „lætur allt þèna þeim til góðs, sem hann elska", sem „gaf oss soninn og gefur oss alla góða hluti með honum". Vèr þurfum nú ekki framar að óttast dauðann sem synda hegníngu, þegar vèr deyjum í trúnni á Jesúm og í samfèlagi við hann, heldur getum vèr skoðað hann sem væran svefn og hvíld, sem lausn frá allri lífsins mæðu og eðlissambandi voru við syndugt mannkyn, sem sendiboða Drottins, er leiðir oss til eilífs fagnaðar og friðar; því þess vegna, segir postulinn, „hlaut Jesús, eins og

börnin, að verða hluttakandi í holdi og blóði, svo að hann með sínum dauða gæti svipt yfirráðanda dauðans sínu afli, og frelsað þá, sem af ótta fyrir dauðanum lifðu allan aldur sinn undir ánauðaroki" (Hebr. 2., 14.—15.).

Mikið og háleitt er fagnaðarefni vort kristinna manna á þessari hátíð; og hver þekkir þó til hlítar, eða fær upptalið allar þær velgjörðir, sem Guð hefur veitt oss í sendíngu sonarins? Getur nokkur komið orðum að því lífi og því ljósi, sem Jesús kveikti í heiminum, og til fulls útlistað alla þá blessun, andlega og tímanlega, sem frá honum hefur runnið út um heiminn frá kyni til kyns eina öld eptir aðra? þá blessun, sem nær ekki einúngis til þessa lífs, heldur og hins ókomna? þó oss væri gefið að sjá það eymdarástand, sem mannkynið hefði verið í, hefði Jesús ekki komið í heiminn, og eymd allra þeirra, sem annaðhvort ekki þekkja Jesú, eða vilja ekki aðhyllast hann; eða þó vèr tækjum saman í eitt alla reynslu hinna mörgu þúsunda, sem um liðnar aldir hafa leitað sèr huggunar og helgunar hjá Jesú, sem hafa lifað og dáið í Jesú nafni, og þó vèr feingjum að heyra alla þá lofgjörð og þakkargjörð, sem á þessari hátíð stígur upp í himininn að hásæti hins eilífa frá vörum og hjörtum kristinna manna: þá gætum vèr þó ekki til fulls útlistað vort fagnaðarefni, aldrei með orðum tæmt þá fagnaðar uppsprettu, sem Jesú koma í heiminn hefur í sèr fólgna. þessi uppspretta er eilíf í eðli sínu, og eilífðin ein vinnst til að leiða fullkomlega í ljós, hve mikið vèr eigum Guði að þakka í Jesú Kristi. Nú getum vèr einúngis tekið undir með postulanum og sagt: „Ó, þá dýpt náðarnægðar, speki og þekkíngar Guðs! hversu óútgrundanlegir eru dómar hans og órekjandi vegir hans!"

En hversu mikið og háleitt sem fagnaðarefni vort kristinna manna er á þessari hátíð, getur það þó því að eins vakið hjá oss innilegan fögnuð yfir fæðíngu frelsara vors, að vèr meðtökum hann í trúnni, að hjörtu vor komist við af sannindum og dýrmæti þessa fagnaðarboðskapar. það tjáir ekki að sýna blindum manni birtu sólarinnar, eða fegurð náttúrunnar; hann sèr það ekki og getur því ekki glaðzt af því; eins getur ekki heldur sá, sem vantar trúna, glaðzt af fæðíngu frelsarans, því trúin er auga sálarinnar, og vanti trúna, getur ekki ljós guðs-

orða skinið inn í sálir vorar; að vísu getur skynsamleg hugleiðíng greitt götu trúarinnar, en trúna sjálfa fær hún ekki vakið; það getur einginn nema hann, sem er höfundur og fullkomnari trúarinar, og til hans verðum vèr því að snúa hjörtum vorum og biðja hann að auka vora trú, og hann mun eflaust bænheyra oss, ef vèr útrýmum því úr hjörtunum, sem trúnni er til fyrirstöðu; en það er einkanlega heimselskan og sjálfsþóttinn. „Ljósið kom í heiminn, en mennirnir elskuðu myrkrið meir enn ljósið, því verk þeirra voru vond"; þeir, sem elska myrkrið, þrá ekki ljósið, þeir, sem elska heiminn, þrá ekki Jesúm og fagna því ekki tilkomu hans; þess vegna segir postulinn: „það er án efa mikill leyndadómur guðhræðslunnar, að Guð er auglýstur í holdinu" (1. Tím. 3., 16.), og gefur með því til vitundar, að það þurfi guðrækilegt hugarfar til að geta meðtekið þenna leyndardóm með fögnuði og lifandi trú, að til þess að trúin á Drottin vorn geti orðið lifandi, verði hún að samlaga sig kærleikanum og guðelskandi hugarfari. Sá, sem er fullur sjálfsþótta, getur ekki heldur glaðzt af fæðíngu frelsarans; hann er svo ástfánginn í sínu rèttlæti og sinni speki, að hann þráir hvorki neinn frelsara nè fræðara; hann þykist vera heilbrigður og hafa alls nægtir, en heilir þurfa ekki læknisins við; lærdómurinn um kærleikann og krossinn hefur ekki áhrif á aðra enn þá, sem eru andlega volaðir, sem í auðmýkt hjartans finna, að þeir eru náðarþurfar og að þeir hafa Guðs náð í Jesú Kristi allt að þakka. Margt finnst manninum þúngskilið, af því hjartað kemst ekki við af því; margt er syndugum manni þúngskilið í endurlausnarverkinu, meðan hann ekki lærir að þekkja sjálfan sig, nè finnur til sannleika þessara orða: „faðir, eg hefi syndgað í himininn og fyrir þèr!" En sá, sem segir þetta af hjarta og fullri alvöru, sá, sem kannast við sálarþörf sína og að hann af sjálfsdáðum ekki getur úr henni bætt, hann þráir að heyra þessi huggunarfullu orð af sannleikans munni: „sonur, þèr eru þínar syndir fyrirgefnar!" hann tekur fagnandi móti frelsaranum og trúir því, að oss er ekkert annað nafn gefið, sem oss byrjar sáluhólpnum í að verða. Viljir þú því, kristinn maður! innilega geta fagnað fæðíngu frelsara þíns, þá bið þú föður þinn á himnum að skapa í þèr hreint hjarta, svo Kristur geti tekið sèr þar bústað með sannleikans og kær-

leikans anda; bið þú hann að gefa þèr auðmjúkt og barnslegt hugarfar og halda þèr stöðugt við einfaldleik trúarinnar: þá munt þú fá að reyna, að Guð „opinberar það smælíngjum, sem vitríngum var hulið“ og að bljúgu og barnslegu hugarfari heyrir guðsríki til. Og sannarlega er börnunum eiginlegt að fagna fæðíngarhátíð frelsara vors; en, eins og þau fagna hinum fögru ljósum, sem þá eru kveikt í kirkjum og heimahúsum, eins taka guðsbörn fagnandi móti því guðlega ljósi, sem á þessari hátíð upprann heiminum og af hvers fyllíngu vèr allir höfum meðtekið náð á náð ofan. Og með því vèr nú viljum allir vera ljóssins börn, þá látum oss alla í auðmýkt hjartans fagna þessu ljósi; látum þenna fögnuð hafa áhrif á vort hugarfar, svo að fæðíngarhátíð frelsara vors megi verða oss andleg endurfæðíngarhátíð, til að endurnýjast í anda vors hugskots og lifa honum, sem fyrir oss er dáinn og upp aptur risinn: þá mun sannleiki hans orða upplýsa vorn skilníng og helga vor hjörtu, og hans kærleiki og friður ávalt fylgja oss, svo vèr getum tekið undir með postulanum og sagt: „eg lifi nú ekki framar, heldur lifir Kristur í mèr.“ Látum oss höndla lífið í Kristi, því lífið í honum er eilíft líf! Þetta vort jarðneska líf er svo veikt og fallvalt, að sèrhver dagur og því heldur sèrhver jóladagur mætti minna oss á, hve mjög oss ríður á því, að höndla í tíma hið æðra eilífa líf í Kristi, svo að vor innri maður endurnýjist, þó hinn ytri hrörni. Gæti þá ekki einnig þessi jóladagur minnt oss á þann sannleika, að einginn okkar veit, nema þessi jólahátíð verði hans síðasta hèr á jörðunni, og að hin næsta kunni að upprenna yfir legstað hans, en sjálfur verði hann þá kominn þángað, hvar umskipti tímans ekki eru framar til? og ætti ekki einnig þessi hugleiðíng að hvetja oss til að fagna frelsara vorum í dag og verja þessum jóladegi til lofgjörðar og þakklætis við hann? Eða, ef þessi hugleiðíng væri fjarlæg einhverjum af oss, af því að hann teldi sig eiga marga jóladaga enn eptir ólifaða, berst þá ekki hugurinn samt sem áður ósjálfrátt áfram að hinum seinasta jóladegi æfinnar, sem einhvern tíma, fyrr eða síðar, rennur upp yfir sèrhverjum af oss? eða segir ekki Jesú lærdómur oss, að hinn mikli fæðíngardagur himins og jarðar muni einhvern tíma upprenna þegar að kemur ný jörð og nýr himin, þegar Jesús kemur í annað

sinn í heiminn til að dæma lifendur og dauða? og hvernig munum vèr þá geta fagnað hans síðari tilkomu, ef vèr aldrei höfum fundið til fagnaður af hans fyrri tilkomu? Nú kemur hann til vor í sínum miskunandi og helgandi kærleika; þá kemur hann í sínum heilaga og alvalda kærleika, og vèr höfum heyrt, hvað hann þá muni segja við hina kærleikslausu: „eg þekki yður ekki", það er að skilja: eg finn eingan kærleika hjá yður; en vèr höfum líka heyrt þessi huggunarfullu orð; „komið blessuð börn míns föðurs og eignizt það ríki, sem yður er fyrirbúið frá veraldar upphafi!" þetta ríki stofnaðir þú á jörðunni, vor guðdómlegi frelsari! þegar þú af einskærri elsku til vor íklæddist voru holdi og tókst á þig þjóns mynd og varst hlýðinn allt til dauða á krossi. Æ! taktu þèr bústað í vorum hjörtum með þínum anda, svo að vèr heyrum þèr til, hvort sem vèr lifum eða deyjum, svo að hvorki hið nálæga nè hið ókomna, hvorki líf nè dauði, geti skilið oss við þig! Amen.

---

# Á annan jóla dag.

## Bæn.

Æ! hvernig getum vèr nógsamlega þakkað þèr, vor himneski frelsari! fyrir þína óumræðilegu elsku til vor syndugra manna, fyrir þínar óteljandi velgjörðir við oss, fyrir þína fæðíngu, þitt líf og þinn dauða! Aldrei geta tilfinníngar vorra hjartna samsvarað þinni náð og miskunsemi; aldrei getum vèr komið orðum að því, hve margt og mikið þú hefur gjört fyrir oss. Ofstutt er æfi vor hèr til þess að geta nógsamlega víðfrægt þína dýrð; því þèr ber eilíft lof og ódauðlegar þakkir. Hèr er vort barnakvak veikt og ófullkomið; en á landi lifenda, í fullkomlegleikans himnesku bústöðum munum vèr á síðan ásamt einglum og útvöldum vegsama þig um alla eilífð. Mikið og háleitt er fagnaðarefni vort á þessari þinni fæðíngarhátíð, og innileg ætti gleði vor og fögnuður að vera. — En æ! það er eitt, sem dregur úr vorri gleði, sem hryggir oss og ángrar, það er umhugsun um breyskleika vorn og syndir vorar. Vèr hryggjumst af því, að syndin vill skilja oss við þig og hindra oss frá að færa oss þína endurlausn rèttilega í nyt. Láttu þessa vora hrygð vera eptir Guði, svo hún geti leitt oss til sannrar iðrunar og lífernis betrunar!

þá mun vor hryggð snúast í fögnuð, fögnuð yfir því, að hafa með þinni aðstoð unnið sigur á syndinni og sjálfum oss; þá mun vor gleði yfir þinni holdtekju verða hrein og fullkomin og fylgja oss á fagnaðarins land, og þá munum vèr með himneskum fögnuði undirtaka með öllum útvöldum og segja: blessaður sè sá, sem kemur í nafni Drottins!

## Guðspjallið

(Matth. XXIII., 34.—39.).

Í þann tíma. Jesús sagði til Gyðíngafólksins og kennimannahöfðíngjanna: Sjáið! eg mun senda til yðar spámenn, spekínga og skriptlærða, suma þeirra munuð þèr lífláta og krossfesta, en suma munuð þèr húðstrýkja í samkunduhúsum yðar, og hrekja þá úr einni borg í aðra. Þannig munuð þèr sekir verða um líflát allra guðsmanna, sem saklausir eru af dögum ráðnir, frá morði Abels hins rèttláta allt til Sakaríasar Barakías sonar, sem þèr drápuð á millum musteris og altaris. Sannlega segi eg yður, að allt þetta mun koma yfir þessa kynslóð. Jerúsalem! Jerúsalem! þú sem líflætur spámennina, og grýtir þá, er til þín eru sendir, hversu opt hefi eg viljað samansafna sonum þínum, eins og þegar hænan safnar úngum sínum undir vængi sér, en þèr hafið ekki viljað? Sjáið! yðar hús skal yður í eyði látið verða; því eg segi yður, að þèr munuð ekki sjá mig hèðanaf, þángað til þèr segið: Blessaður sè sá, sem kemur í nafni Drottins!

## Inngángur.

Í gær heyrðum vèr þetta huggunarfulla ávarp: „yður er frelsarinn fæddur.“ Vèr heyrðum þenna einglanna lofsaung: „dýrð sè Guði á hæðum, friður á jörðu og mönnum góður vilji.“ Vèr heyrðum, hvernig Jesús hefur stofnað guðsríki á jörðunni, og að þetta ríki er sannleikans, kærleikans og friðarins ríki. Í dag fáum vèr annað að heyra; þessa dags heilaga guðspjall er allt annars

og ólíks efnis; náðarinnar himin, sem nýlega var heiður og bjartur, er í dag hulinn myrkri og mökkva, og blóð rèttlátra rennur þar, sem ljós og friður og fögnuður fagurlega upprann. Í dag heyrum vèr umkvörtun frelsara vors yfir syndum Gyðíngaþjóðarinnar og spádóm hans um þær ofsóknir, sem liggja mundu fyrir lærisveinum hans, um ófarir Gyðínganna og eyðileggíngu Jerúsalems musteris. En hvers vegna er þetta alvarlega og sorglega efni valið oss til hugleiðíngar í dag? hvers vegna er gleði vor á þessari miklu fagnaðarhátíð skerð og trufluð með þeim hugleiðíngum, sem hirtíngarræða og hegníngardómur Drottins hlýtur að vekja hjá oss? Vèr þurfum ekki að leita lángt að svarinu. Veröldin þarf aðvörunar og áminníngar við, af því hún lítilsvirðir þá náð og sáluhjálp, sem þessi hátíð boðar henni, og heldur hátíðina með holdlegu hugarfari, sem er óvinátta gegn Guði; og sömu áminníngar og aðvörunar þurfum vèr við; því ef vèr með hreinskilni aðspyrjum samvizku vora, þá mun hún segja oss, að einnig vèr erum vanþakklátir og kærleikslausir, að einnig vèr erum minni allri Guðs miskunsemi og trúfesti og ómaklegir þeirrar elsku og náðar, sem hann hefur auðsýnt oss með því að senda sinn son í heiminn oss til frelsis og sáluhjálpar. Þess vegna þurfum vèr einnig að heyra vekjandi og aðvarandi rödd lögmálsins. Lögmálið verður ekki aðskilið frá evangelio, og þeir, sem ekki vilja heimfæra til sín Guðs náðarfyrirheit í evangelio með trúuðum og iðrandi hjörtum, eru undirorpnir hinni sömu bölvun lögmálsins og hinir þverbrotnu Gyðíngar, sem ekki einúngis útskúfuðu sendiboðum Drottins, heldur og Drottni sjálfum. Þess vegna snertir líka sú hirtíngarræða frelsarans, sem stendur í guðspjallinu, einnig oss, kristnir bræður! og viljum vèr af henni taka oss tilefni til að hugleiða: Jesú umkvörtun yfir oss syndugum mönnum.

Jesús samlíkir Guðs óendanlegu elsku og þeirri óþreytandi þolinmæði, sem hann auðsýnir oss syndugum mönnum, við þá nákvæmu hjúkrun og aðhlynníngu, sem fuglarnir sýna úngum sínum. Himnafaðirinn hættir ekki að bjóða mönnunum, með sínu orði og sínum bendíngum, skjól og athvarf undir vængjum sinnar miskunar; en þeir líkjast ekki úngum fuglanna; þeir hlýða ekki hinni kallandi og laðandi röddu; þeir safnast ekki

saman undir vernd og skjóli vængjanna. **Þeir vilja ekki.** Þessi orð í guðspjallinu: „þèr viljið ekki" snerta oss einkanlega og eiga því að vekja athygli vort. Vèr getum getið því nærri, með hve sárri viðkæmni Jesús muni hafa talað þessi orð: „þèr viljið ekki" og hve óvenjulega sárt hann muni hafa tekið það, að þeir sjálfir ekki vildu sína frelsun, hann sem einmitt til þess var af himnum kominn að frelsa mannkynið og lèt lífið til frelsis og sáluhjálpar. Þegar hann talaði þessi orð, hugsaði hann ekki einúngis til hins spillta lýðs í Jerúsalem, heldur til allra þeirra meðal allra þjóða og á öllum öldum, sem ekki vilja meðtaka hann í trúnni, ekki hlýða hans boðum nè fylgja honum. Hann hugsaði þá einnig til vor; hann hugsar til vor á þessari stundu, og er oss andlega nálægur. „Þèr viljið ekki" segir hann einnig til vor; en enn þá segir hann það ekki sem hinn rèttláti dómarinn, heldur sem áminnandi vinur og bróðir, sem frelsari vor og árnaðarmaður hjá sínum himneska föður. Hann setur oss fyrir sjónir hin óttalegu afdrif Jerúsalemsborgar innbúa og spyr oss, hvort vèr ekki viljum verða sáluhólpnir. Hann vekur í stuttu máli athygli vort á því, að það er vilja vorum, eða rèttara sagt, viljaleysi voru að kenna, ef vèr förum á mis við þá sáluhjálp, sem vèr erum kallaðir til og sem hann hefur afrekað oss. Vilja sinn á maðurinn að ábyrgjast, og undir vilja hans er hans eilífa farsæld og ófarsæld komin. — En getur þá maðurinn af sjálfsdáðum afrekað sèr sáluhjálpina? Gæti hann það, þá þyrftum vèr ekki á frelsara að halda; þá væri hið mikla endurlausnarverk óþarft. En ef vèr höfum ekki not af því, hverjum er það að kenna nema sjálfum oss, vorum vonda vilja, sem mótstendur guðlegri náð, er hann kallar og dregur oss með til sín, sem mótstendur hans orði og anda og þeim guðlegu hugarhræríngum, sem hann vekur í sálum vorum? Það hafa sumir haldið, að Guð hafi þegar í öndverðu ætlað suma til eilífrar sælu, en suma til eilífrar ófarsældar; en þessi kenníng er raung, af því hún stríðir bæði móti Guðs rèttlæti og gæðsku. „Svo sannarlega sem eg lifi," segir Drottinn, „hefi eg einga þóknun á dauða hins óguðlega, heldur að hinn óguðlegi snúi sèr frá sinni breytni og lifi" (Esek. 33., 11.). Guðs náð og gæðska nær til allra; hann hefur framselt sinn son í dauðann fyrir alla menn, og hann vill, „að allir verði

hólpnir og komist til þekkíngar á sannleikanum“ (1. Tím. 2., 4.). En Guð vill ekki svipta manninn þeim frjálsa vilja, sem hann gaf honum, því þá gæti maðurinn ekki komizt til frelsis guðsbarna, heldur yrði að láta blindar fýsnir leiða sig eins og skynlausu skepnurnar; en í því eru yfirburðir mannsins yfir þær fólgnir, að hann hefur feingið hæfilegleika til að laga sinn vilja eptir Drottins vilja, svo að viljinn verði góður og heilagur. Undir þessu er sáluhjálp mannsins komin; vilji hann ekki trúa nè beygja sig undir Guðs vilja, heldur vanbrúki náðarmeðulin og kæfi niður verkanir heilags anda í sálu sinni, þá er hann sjálfur valdur að spillíngu sinni og getur ekki orðið sáluhólpinn af því hann vill ekki verða það. — En — kann einhver að segja — trúin er ekki vort verk, heldur er hún Guðs verk í vorum innra manni. Að sönnu er trúin Guðs verk; en hún er það ekki beinlínis, eða þvert á móti vilja vorum. Heilagur andi hefur áhrif á hjörtu vor með guðsorði, bæninni og sakramentunum, og trúin nær ekki einúngis til skilníngs vors, heldur og til viljans. Trúin er ekki innifalin í því, að vèr bíðum aðgjörðalausir eptir þeirri endurlausn, sem oss fyrir Guðs náð er afrekuð í Jesú Kristi, og því síður er það nóg til trúarinnar, að vèr þekkjum þessa endurlausn, eða aðhyllumst Krists náðarlærdóm einúngis með vörunum, eða með köldum og kærleikslausum hjörtum, heldur er trúin það traust á guðlegri náð, sem vekur hjá oss einlæg betrunaráform og stöðuga viðleitni eptir að framkvæma þessi betrunaráform í verkinu, og sem kemur því til leiðar, að vèr alltaf meir og meir frelsumst, ekki einúngis frá þeirri ángist og ótta fyrir hegníngu, sem syndasektin hefur í för með sèr, heldur og frá yfirráðum syndarinnar. Þó vèr sèum allir endurleystir af Kristi, getur þó einginn haft sönn not af þessari endurlausn nema hann vilji sjálfur skilja við syndina og fylgja frelsara sínum, sem leysir hann úr fjötrunum og leiðir hann til föðursins á himnum. En nú segir Páll postuli, „að það sè Guð, sem eptir sinni velþóknun komi því til vegar í oss, bæði að vèr viljum og framkvæmum“ (Filipp. 2., 13.). Það er víst og satt, að af sjálfsdáðum getur einginn vakið þann góða vilja, sem heyrir til sannrar trúar, því til þess þarf endurfæðíngu, eða endursköpun hins innra manns, sem einginn nema Guðs andi getur komið til leiðar.

En postulinn segir þó rètt áður: „eflið yðar sáluhjálp með áhyggju og andvara“, og gjörir því ráð fyrir, að vèr getum sjálfir stuðlað til vorrar sáluhjálpar, þó í veikleika sè, og eigi því að vera með áhyggju og andvara. Þegar postulinn talar um, að Guð komi viljanum til vegar hjá oss, meinar hann þann vilja, sem helgaður er af guðlegri náð, en ekki hinn, sem kemur oss til að veita náðarverkunum heilags anda móttöku, eða hafna þeim. Þetta hlaut að vera lagt á vort vald, og í því er innifalið það, sem vèr köllum frjálsræði; ef vèr ekki hefðum það, þá hefðum vèr einga ábyrgð á gjörðum vorum, og þá væri einginn munur á rèttlátum og ránglátum, guðhræddum og óguðlegum, iðrandi mönnum og iðrunarlausum.

Iðranin sjálf og apturhvarfið er þó Guðs verk. Þess vegna á syndugur maður fyrst af öllu að andvarpa og biðja: „snú þú mèr, Drottinn! þá verður mèr snúið“ (Jer. 31., 18.); en einmitt í þessari bæn lýsir sèr frjálsræði mannsins; í henni lýsir það sèr, að hann vill, að sèr verði snúið á rètta leið. Á óteljandi stöðum áminnir heilög ritníng oss um, að láta af hinu illa og snúa oss til Guðs, að sjá að oss og bæta ráð vort, og þetta sýnir, að betrun vor hlýtur að nokkru leyti að vera komin undir oss og vilja vorum. „En þèr viljið ekki“. Þannig hljóðar Jesú umkvörtun í guðspjallinu, og hann kvartar ekki einúngis yfir þeim, sem hvorki vilja heyra hans orð nè hlýða því, heldur og yfir oss, sem hèr sitjum undir heyrn hans orða og erum sem stendur hrærðir af hans blíðu aðvarandi röddu. Það er alvara viljans, sem oss vantar, og þess vegna er trú vor svo dauð og fjörlítil. Það er eingin alvara í vorum bænum, eingin alvara í vorri guðsþjónustu, eingin alvara í vorri betrun; og hvernig getur þá verið alvara hjá oss í trúnni? Sè viljinn hreinskilinn og trúin lifandi, þá verður mönnum með Guðs aðstoð ágeingt í verki helgunarinnar, og Guð, sem í veikum er máttugur, gefur þeim krapta til að vinna sigur í sèrhverri baráttu lífsins. Þegar þú, kristinn maður! sem ert trúr þjón og lærisveinn Jesú Krists, vilt það af huga og hjarta, sem rètt er, það sem skylda þín og samvizka og guðsorð býður þèr, og þú í þessu efni reiðir þig ekki á sjálfan þig, þó þú gjörir allt, sem í þínu valdi stendur, heldur á þá hjálp, sem kemur hèr að ofan, þá munt þú reyna, að trúin styrkir vilja þinn til að gjöra það

sem er samkvæmt Guðs vilja. Vilji þèr það til, að trú þín taki til að bila og þú takir til að sökkva, eins og Pètur forðum, þegar hann ætlaði að mæta Drottni á sjónum (Matth. 14., 28. o. s. frv.), þá getur þú að vísu ekki sjálfur hjálpað þèr fremur enn hann; en þá átt þú eins og hann að kalla: „hjálpa þú mèr, herra!“ og grípa eins og hann þá hönd, sem Drottinn rèttir þèr; haltu fast í hana með trúartrausti, og þá mun hann leiða þig, eins og hann leiddi Pètur, inn í skipið, þar sem hann sjálfur er nálægur og gætir þín í ofviðri og ólgusjó þessa lífs, svo þú náir hinum eilífu friðarins höfnum.

En hvernig getur þetta traust á frelsaranum átt sèr stað hjá þèr, ef þú ekki gefur gætur að hans lærdómi, ef þú fótum treður hans boðorð og fremur það sem er rángt og syndsamlegt, vísvitandi og af ásettu ráði? Eins og þú ekki getur betrazt eða jafnvel tekið fyrir þig einlæg betrunaráform, nema þú trúir á Jesúm og treystir hans friðþægíngu, eins getur ekki heldur trú þín verið sönn, nema þú stöðugt leitist við að breyta eptir hans boðum og feta í hans fótspor. Af þessu sjáum vèr, kærir bræður! að trúin er hvorki innifalin í eintómri þekkíngu, nè tilfinníngu, heldur í því að höndla guðsnáð í Kristi og fylgja honum, og að hún þannig að miklu leyti er komin undir vilja mannsins; þess vegna segir og Jesús um Gyðíngana, þegar hann ber þeim á brýn vantrú þeirra: að þeir hafi ekki viljað.

Jafnframt þessu segir Jesús Gyðíngunum fyrir þá ógæfu, sem af syndum þeirra muni leiða; og er þetta einnig skrifað oss til viðvörunar, því sambandið milli syndar og hegníngar er og verður æ hið sama, og sá, sem iðrunarlaust heldur áfram í syndunum, hlýtur að sæta þeirri hegníngu, sem af syndinni leiðir. — En — kann einhver að spyrja — hvernig verður sá hegníngardómur, sem felldur var yfir Jerúsalem, uppkveðinn yfir oss? Vèr höfum hvorki krossfest postula Drottins, nè grýtt spámennina og þá, sem af Drottni eru sendir. Með þessu afsökuðu þeir sig í Jerúsalem, sem Jesús bar þetta á brýn. „Hefðum vèr,“ sögðu þeir, „lifað á dögum feðra vorra, skyldum vèr ekki hafa verið með þeim að lífláti spámannanna“ (Matth. 23., 30.). Þó leið ekki lángt um þángað til þeir sýndu með breytni sinni við sjálfan frelsarann og postula hans, að það var satt, sem Jesús svaraði þeim: „að þeir voru niðjar þeirra,

sem tóku spámennina af lífi, og fylltu mæli synda feðra sinna." Hvað oss snertir, kærir bræður! þá er vissulega einginn sá meðal vor, sem geti komið önnur eins óhæfa til hugar og frelsarinn ásakaði Gyðínga fyrir. En þegar Drottinn rannsakar, hvernig vèr höldum fimmta boðorðið, mun hann þá einúngis gæta að því, hvort hendur vorar eru ataðar í blóði? Mun hann ekki einnig hyggja að hjörtum vorum og líta eptir því, hvort þau eru full af hatri, öfund og illsku? Er ekki hver sá manndrápari í hans augum, sem hatar bróður sinn? Manndráp getur atvikazt af óvarkárni, og án þess það sè framið af ásettu eða yfirlögðu ráði; en sú heipt og það hatur, sem þú daglega elur í hjarta þínu, er manndráp, sem þú fremur með huganum; þó það brjótist ekki út í verkinu, og með því sýnir þú, að þú hefur Kains hugarfar, þó þú hafir ekki gjört þig sekan í sama glæp og hann. Eins eru það margir í kristnum söfnuði, sem hafa líkt hugarfar og þeir, sem drápu Sakarías millum musteris og altaris. Hvers vegna var hann líflátinn? Vegna þeirra sannninda, sem hann kenndi á enum helga stað, vegna hegníngardóma þeirra, sem hann boðaði. Eru þeir ekki enn til í kristnum söfnuði, sem, í stað þess að heimfæra til sín guðsorð þegar það kemur við kaun þeirra, reiðast þeim, sem það prèdikar, þótt hann ekki sneiði neinn einstakan, heldur tali til allra yfirhöfuð, ekki í sínu nafni, heldur í umboði Drottins, sem hefur sent hann til að prèdika bæði lögmálið og náðarlærdóminn. Eða þó menn ekki reiðist prèdikara guðsorðs, þá hættir þó mörgum við að kasta þúngum steini á náúnga sinn og eins og grýta hann í huga sínum, þegar þeir heimfæra til hans allar hirtíngar og áminníngar guðsorðs, en taka ekkert af þeim til sín, þó þeir gætu gjört það með rèttu. Margir hlýða guðsorði með hjartað fullt af heipt og hatri til annara samkristinna bræðra, og dæma og sakfella hver annan, þar sem þeir þó, þá stundina að minnsta kosti, ættu einúngis að hugsa um sína eigin syndasekt. — Þannig stælast þeir upp í vonzku sinni, í stað þess að hrærast til iðrunar og apturhvarfs. Það sem þó tekur út yfir og er enn þá hegníngarverðara enn synd Kains og þeirra, sem drápu Sakarías, er það: að neyta Drottins kvöldmáltíðar með heiptræknu og iðrunarlausu hjartalagi, að fyrirgefa ekki náúnganum þegar menn leita sjálfir fyrirgefníngar hjá Guði,

að hatast við náúnga sína og vandamenn, en krjúpa þó niður við Jesú kross, þar sem hann bað jafnvel fyrir þeim, sem kvöldu hann og hæddu. þeir, sem þannig breyta, eru hegníngarverðari enn þeir, sem í Jerúsalems musteri líflètu þjóna Drottins, því þeir verða sekir við Drottins líkama og blóð. En ekki einúngis með óverðugri nautn heilagrar kvöldmáltíðar, heldur með sèrhverri synd, sem vèr af ásettu ráði drýgjum með oftrausti á Krists endurlausn, bökum vèr oss líka hegníngu og Gyðíngarnir, þegar þeir í blindni sinni æptu: „krossfestu hann! krossfestu hann! hans blóð komi yfir oss og börn vor!“ Og það má með rèttu svo að orði kveða, að vèr hæðum Krist og krossfestum hann að nýju. Óttalegt er að hugsa til þess, hvernig þessar óbænir Gyðínga rættust á sjálfum þeim, þegar Jerúsalem var eyðilögð og börn og foreldrar fyrirfórust fyrir eldi og sverði. þótt vèr nú ekki þurfum að óttast fyrir slíkum hegníngardómi hèr í tímanum, þótt vèr í þessu lífi gætum komizt hjá allri hirtíngu ens hegnanda rèttlætis, fylgir oss þó í andlegum skilníngi sama óblessun, nema vèr flýjum á náðir Drottins meðan tími er til. Já, á hinum mikla endurgjaldsdegi mun yfir óguðlega og iðrunarlausa koma það blóð, sem meira er í varið enn Abels og Sakaríasar blóð: hið helga blóð Guðs sonar, sem á krossinum er úthellt þeim til frelsis og sáluhjálpar. „Upp frá þessu munuð þèr ekki sjá mig“, sagði Jesús við Gyðíngana. þeim var gefinn tími til að sjá og heyra frelsarann; þenna tíma styttu þeir sjálfir þegar þeir rèðu hann af dögum; þessum tíma burtsóuðu þeir sjálfir, þegar þeir útskúfuðu honum, sem var sendur þeim til frelsis og sáluhjálpar. Einnig oss, kristnir bræður! er gefinn náðartími, og sælir erum vèr, ef vèr verjum honum vel. En ef vèr þar á mót burtsóum honum í syndsamlegu athæfi, ef vèr forherðum hjörtu vor í vantrú og þvermóðsku, þá ávarpar hann oss með þessum orðum: „upp frá þessu munuð þèr ekki sjá mig“. Vèr getum ekki vænzt þess, að fá að sjá hann í öðru lífi, ef vèr höfum ekki hèr leitað hans í hans orði, nè fundið hann í vorum hjörtum. þeim einum, sem hèr í lífi fylgja honum sem sannir vinir og lærisveinar, hefur hann heitið, að þeir skuli koma þángað sem hann er og sjá hans dýrð. Án helgunar fær einginn Guð að sjá, og hún verður að byrja hèr í tímanum, þó hún fullkomnist ekki fyrr

enn í eilífðinni. „Farið burt frá mèr“, segir hann við þá, sem standa honum til vinstri handar, og þeir fara í hin yztu myrkur, þar sem hans eilífa ljós ekki skín. þótt einhverjir þeirra, sem þar eru, færu að ákalla Jesúm af ángist, og spyrðu: því hann, sem kom til að frelsa alla menn, hefði ekki frelsað þá; hvaða svar mundu þeir fá? ekki af honum, því þar getur einginn framar heyrt hans rödd, heldur af samvizkum sjálfra þeirra, — hvaða svar mundu þeir fá annað enn þetta: *þèr hafið ekki viljað*. Í þessu svari eru allar helvítis píslir fólgnar. Meðvitundin um að vera sjálfur valdur að sinni eilífu glötun er sá ormur, sem ekki deyr, og sá eldur, sem ekki slokknar. Ættum vèr þá ekki nú, meðan tími er til, að spyrja sjálfa oss að því, hvort vèr viljum frelsaðir verða? En hver mun neita því? munu ekki allir svara: það vil eg feginn? þó ætti sèrhver vandlega að rannsaka, hve alvarlegur og einlægur vilji hans er í þessu efni; því verið getur, að hann vilji komast hjá eilífri glötun, en vilji ekki skilja við syndina. þó þú, kristinn maður! sækir rækilega kirkju, sèrt árlega til altaris, lesir guðsorð og hlýðir því kostgæfilega í heimahúsum, og þó breytni þín sè óaðfinnanleg, þá þarftu þó að rannsaka hjarta þitt og gæta þess, hvort það í öllu tilliti vill láta sèr stjórna af Guðs anda, hvort það er ekki ætíð eitthvað, sem þú undanskilur og áskilur sjálfum þèr, hvort þú ekki í einhverju vilt fylgja þínu holdlega, drambláta, heiptrækna og Guði óhlýðna hugarfari. Allir hljótum vèr að játa, að þessi vondi vilji, sem veitir Guðs vilja mótstöðu, loðir við oss, suma meir en suma minna; og þó guðlegri náð takist að yfirbuga hann, svo vèr ekki leingur látum hann stjórna oss, gjörir hann þó alltaf vart við sig í hjörtum vorum og reynir alltaf til að ná aptur þeim yfirráðum, sem hann áður hafði yfir oss. Allir þurfum vèr því að gefa gætur að þessari eptirtektaverðu viðvörun frelsara vors: „þèr viljið ekki“. Allir þurfum vèr að hugleiða þá hættu, sem vèr stofnum oss í, ef vèr ekki sífellt höfum vakanda auga bæði á hjörtum vorum og framferði, ef vèr ekki leyfum Guðs helgandi náð inngaungu í vor hjörtu, svo að vèr með sjálfsafneytun og fullkominni undirgefni undir Guðs vilja getum af hjarta beðið og sagt: „verði þinn vilji, svo á jörðu, sem á himni“! En

Jesús vildi ekki skilja við þá vantrúuðu og vanþakklátu þjóð, sem skömmu seinna negldi hann á krossinn, án þess að mæla neitt miskunarorð. Um leið og hann því segir: „upp frá þessu munuð þèr ekki sjá mig“, bætir hann við þessum huggunarríku orðum: „þángað til þèr segið: blessaður sè sá, sem kemur í nafni Drottins“. Þýðíngu þessara orða útlistar Páll postuli, þar sem hann lætur þá von sína í ljósi, „að þegar fyllíng heiðíngjanna sè innkominn“ í guðsríki, þá muni öll Gyðíngaþjóðin taka kristni og verða hluttakandi í þeirri sáluhjálp, sem hún var kölluð til. Við oss vill frelsarinn ekki heldur skilja huggunarlausa; enn þá kallar hans blíða rödd oss til betrunar og helgunar; enn þá útbreiðir guðleg náð „vængi“ sína til að safna oss undir skjól og skugga þeirra. — „Í dag, á meðan þèr heyrið Drottins rödd, þá forherðið ekki hjörtu yðar“! „Í dag“, segir postulinn, því hver okkar veit, hvort hann fær að heyra hana á morgun. „Sjá! nú er sú æskilega tíð, sjá! nú er dagur hjálpræðisins“ (2. Kor. 6., 2.). Í hvaða skyni mun vor mildiríki frelsari áminna og aðvara oss? mun það ekki vera til þess að draga oss til sín með sinni náð, að leysa oss úr fjötrum syndarinnar og gjöra oss eilíflega sáluhólpna? og ætti ekki þessi hans gæðska að hræra hjörtu vor og vekja hjá oss einlæga iðrun? ætti hún ekki að knýja oss til að leita lausnara vors og halda hans fæðíngarhátíð með innilegri gleði yfir hans miskunsemi og kærleika og með alvarlegum betrunar ásetníngi? Æ! veittu oss þína náð til þess, himneski faðir! að þessi dagur megi verða oss „dagur hjálpræðisins“, og að vèr upp frá þessum degi helgum þèr alla ókomna æfidaga vora, svo vèr getum ókvíðnir tekið á móti dauðans nótt og fáum á eilífðarinnar morgni að sjá þig augliti til auglitis og lifa æfinlega hjá þèr og vorum frelsara Jesú Kristi! Amen.

---

# Á sunnudaginn milli jóla og nýárs.

## Bæn.

Með öllu móti leitast þú, góði Guð! við að leiða oss til þín; þú hefur gefið oss þitt heilaga orð og ætlast til, að það sè ljós á vorum vegum, meðan vèr erum vegfarendur um þenna dimma dal og dauðans skugga; þú lætur þitt orð vekja, áminna, hirta og hugga; þú lætur það vera beittara hverju tvíeggjuðu sverði og vera krapt til sáluhjálpar hverjum þeim, sem trúir. Með þessu andlega sverði vilt þú deyða heimselskuna í vorum hjörtum og hreinsa oss af allri saurgun holdsins og andans, svo að elskan til þín geti lifnað hjá oss og vèr komizt aptur til heilsu í trúnni. En eins og þú á andlegan hátt talar til vor í þínu sáluhjálplega orði, eins lagar þú öll vor lífskjör þannig, að vèr við sèrhvert fótmál, er vèr stígum á skeiðfleti lífsins, getum bersýnilega sèð þína handleiðslu og þreifað á þinni eilífu föðurgæðsku. Í þessu skyni sendir þú oss mæðu og mótlæti, og ætlast til að það skuli losa huga vorn og hjörtu við hègóma veraldarinnar og fá oss til að lypta þeim upp í hæðirnar til þín. Þjáníngarnar eru því líka sverð í þinni mildiríku hendi, sem þú lætur smjúga gegnum sálir vorar, til að vekja hjá oss meðvitund um vorar syndir, um vanmátt og breyskleika vorn, vekja hjá oss sára iðrun og apturhvarf og koma oss til að leita lækníngar hjá þèr. En æ, því miður! verða allar þínar bendíngar, allar þínar ráðstafanir oss til frelsis og sáluhjálpar, svo opt til ónýtis á oss; hjörtu vor eru opt svo dofin og tilfinníngarlaus, að vèr verðum þess ekki varir, og finnum ekki til þess, þó þín sverð smjúgi gegnum sálir vorar; þitt orð látum vèr eins og vind um eyrun þjóta, og í mótlætinu möglum vèr móti þèr og þinni handleiðslu; vèr festum hug og hjörtu svo mjög við þessa jarðnesku og stundlegu hluti, að þín náðarmeðul geta ekki skilið oss við þá eða komið oss til að safna oss fjársjóðum á himnum. Æ! hvað getur þá hjálpað oss? hvað getur í tíma vakið oss og leitt oss á lífsins veg? Ekkert — nema þú, Drottinn! þèr er ekkert ómögulegt; þess vegna flýjum vèr enn á þínar náðir, og biðjum þig í Jesú nafni bæði um fyrirgefníngu vorra synda og um fulltíngi þíns heilaga anda til að geta iðrazt og betrazt og orðið sáluhólpnir. Amen.

## Guðspjallið
(Lúk. II., 33.—40.).

En Jósep og móðir hans undruðust yfir því, sem um hann var spáð. Og Símon blessaði þau, og sagði til Maríu móður hans: sjá þú! þessi er settur til að verða mörgum Ísraelsmönnum til falls og mörgum til viðreisnar, og til að verða það tákn, sem móti verður

mælt (en sverð mun þína eigin sál í gegnum smjúga), svo að augljós verði hugskots hjörtu margra. Þar var þá Anna spákona, dóttir Fanúels af kyni Assers; hún var þá hnigin á efra aldur, hafði verið sjö ár í hjónabandi með manni sínum, er fèkk hennar meyjar. Þessi ekkja hafði nær fjóra vetur um áttrætt; hún var jafnan í musterinu, þjónandi Guði nótt og dag með föstum og bænahaldi. Hana bar þar að í því sama; lofaði hún Guðs gæðsku og lagði út af henni fyrir öllum þeim í Jerúsalem, sem frelsarans væntu. Nú er þau höfðu lokið öllu, er lögmál Drottins bauð, snèru þau aptur til Galíleu, til borgar sinnar Nazaret. En sveininn óx upp og styrktist í anda, fullur vísdóms, og Guðs náð var með honum.

## Inngángur.

„Sál þína mun og sverð í gegnum smjúga".

Þessi orð, sem heimfæra má til allra manna, voru töluð til Jesú móður, þegar hún í musterinu helgaði Guði sinn frumgetna son. Vèr getum getið því nærri, hve mjög þessi spádómsorð hafa hlotið að særa hennar glaða og viðkvæma móðurhjarta, og að þau muni eins og sverð hafa stúngið sálu hennar, og þó hefur hún ekki skilið þýðíngu þeirra til fulls fyrr enn hún stóð undir Jesú krossi; þá nísti sverðið sálu hennar og þá fann hún, að spádómur Símeons rættist fullkomlega; sèrhver broddur á þyrnikórónu frelsarans, sèrhver nagli, sem hann var krossfestur með, sèrhvert háðúngaryrði, sem til hans var talað, varð þá að bitru sverði, sem gekk gegnum hjarta hennar. Vèr vitum ekki, hvort hún hefur skilið betur enn lærisveinarnir, að Kristi „bar þetta að líða og síðan inngánga í sína dýrð"; en það vitum vèr, að hún hefði ekki getað umborið svo mikla sorg, hefði hún einga æðri huggun haft að styðjast við, enn þá, sem veröldin og tímaleingdin veitir. — Vissulega munum vèr, kristnir bræður! einhvern tíma á umliðinni æfi hafa feingið sáran sorgarstíng í hjörtu vor, og þó vèr höfum ekki reynt það

híngað til, þá mun það þó fyrr eða síðar liggja fyrir oss. Þú, sem nú ert glaður og ánægður og hefur láni og lukkukjörum að hrósa, bú þú þig í tíma undir mótlætið, því annars getur þú ekki umborið það, þegar það ber að höndum þèr; leitaðu þèr liðs og krapta af hæðum, og gjör þú það nú þegar, og taktu síðan ókvíðinn ókomna tímanum. En þó einhver væri svo heppinn, eða rèttara sagt, óheppinn, að veröldin aldrei veitti honum neitt hjartasár, þá ætti hann þó að láta guðsorð „smjúga gegnum sálu sína". — Guðsorð líkist mótlætinu í því, að það er eins og sverð, sem stíngur og særir hjörtu vor; en það læknar aptur sárin, græðir aptur allar meinsemdir sálarinnar og gjörir hana heilbrigða í trúnni. Bæði þessi sverð getum vèr skoðað í einu lagi, því þau hafa bæði sama tilgáng, sem er: að skera sundur þau bönd, sem fjötra oss við heiminn, svo hið æðra og eilífa líf geti sprottið upp af þessu voru stundlega lífi. Látum oss því á þessari guðrækinsstundu virða fyrir oss:

„Guðsorð og mótlætið, sem eru þau tvö sverð, er smjúga gegnum sálir vorar, til þess að vèr getum dáið heiminum og lifað Guði.

„Ætlið ekki, að eg sè kominn til að senda frið á jörðu", sagði Jesús við lærisveina sína; „eg er ekki kominn til að senda frið, heldur sverð" (Matth. 10., 34.). Undarlegt má oss virðast það, kærir bræður! að Jesús skuli taka svo til orða, þareð bæði spámennirnir höfðu lýst honum sem friðarhöfðíngja og einglar súngið við fæðíngu hans um frið á jörðu, eins og hann líka sjálfur við burtför sína hèðan sagðist „senda lærisveinunum frið" (Jóh. 14., 27.), og hèt þeim, að þeir „skyldu hafa frið í sèr" (Jóh. 16., 33.). Hvernig verður þessu komið heim við það, að hann sè kominn að senda sverðið? Það er hægt að sjá, að þegar þau himnesku sannindi, sem Jesús kenndi, fóru að ryðja sèr til rúms innan um villu og spillíngu veraldarinnar, þá hlaut þetta að vekja styrjöld og sundurþykkt. Jesús sá það fyrir, að hjá þessu mundi ekki verða komizt, og því segist hann vera kominn að senda sverð, sem líka merkir styrjöld. En það sverð, sem hann sendi, getum vèr líka tekið um þann lærdóm, sem hann kenndi. Lærdómur hans var sverð í höndum postulanna, þegar þeir beittu honum í stríðinu við „höfðíngja og

maktarvöld, við heimsdrottna þessa myrkurs“ (Efes. 6., 12.) og „ónýttu með honum hverja hæð, sem hóf sig upp á móti Guðs þekkíngu“ (2. Kor. 10., 5.) og niðurbrutu þau „hervirki“, sem heiðíngleg vantrú hafði byggt og varið í margar aldir með alls konar vopnum holdlegs hugarfars og veraldlegrar vizku. Þó guðsorð eigi nú ekki í öðru eins stríði og forðum og þess vegna beri nú minna á þess sigursæla krapti, reynum vèr þó enn með sjálfum oss, „að það er lifandi og kröptugt og beittara hverju tvíeggjuðu sverði og þreyngir sèr milli sálar og anda, liðamóta og mergjar og dæmir þánka og hjartans hugrenníngar“ (Hebr. 4., 12.).

Salómon segir, „að orð spekíngsins sèu sem broddar og eins og naglar“ (Prèd. 12., 11.). Hvað megum vèr þá segja, þegar vèr lesum heilaga ritníngu, vèr, sem höfum ekki einúngis „Móses og spámennina“, heldur og Krist og hans postula? Finnum vèr ekki til þeirra orða í hjörtum vorum eins og „brodda“, sem særa oss með meðvitund synda vorra; eins og „nagla“, sem fyrir trúna festa oss við Guð og frelsara vorn? Hvers vegna flýr hinn óguðlegi þessi himnesku orð? hvers vegna er honum svo leitt að koma þángað og vera þar, sem þau eru höfð um hönd? Af því hann finnur, að þau stínga og særa hann. „Er ekki mitt orð sem eldur“, segir Drottinn, „og eins og hamar, sem sundurmolar klettana“? (Jer. 23., 29.). Þó eru hjörtu sumra manna harðari enn klettur, svo á þau vinnur hvorki þrumurödd lögmálsins, nè hið blíða ávarp guðlegrar náðar. En eg tala ekki um þá, sem forherða svo hjörtu sín í syndunum, að þeir missa alla tilfinníngu fyrir helgum og guðlegum hlutum, heldur tala eg um mennina yfirhöfuð og um oss, sem hèr höfum guðsorð um hönd; þegar það snertir *vorar* sálir, þá er eins og komið sè við þær með sverði; og þetta á sèr stað ekki einúngis um lögmálið, sem segir oss, hvernig vèr höfum syndgað á móti rèttlátum Guði og hvaða hegníngu vèr því höfum verðskuldað, heldur og um náðarlærdóminn, þegar hann sýnir oss, hvernig vèr vanrækjum og vanbrúkum Guðs náð og hvernig vèr látum það allt til ónýtis verða, sem frelsari vor hefur gjört oss til sáluhjálpar. Hlýtur ekki þessi tilhugsan að vera sár og svíðandi? að minnsta kosti ætti hún að vera það, til þess að barátta milli holdsins og

andans gæti vaknað hjá oss og hinn ósanni friður í vorum sofandi samvizkum yrði truflaður; því annars getum vèr ekki náð hinum sanna friði, Guðs friði, sem öllum skilníngi er æðri. Alstaðar þar sem guðsorð er boðað, flýgur úr því „ör" í einhvers hjarta, sem stíngur hann ekki einúngis meðan það er haft um hönd, heldur stundum eptir á, þegar hann velkist í sorgum og áhyggjum þessa lífs, eða í glaumi þess og lystisemdum. Opt verða menn þessa ekki varir fyrr enn þeir víkja af hinum rètta vegi, þá vekur það óþreyju hjá þeim sem hrasar, þó það geti ekki komið í veg fyrir hrösun hans. Þegar þú, kristinn maður! verður var við þessar verkanir guðsorðs í hjarta þínu, þá fyrirlít þú þær ekki, heldur skoða þú þær sem „sigurör" frá Drottni (2. Kóng. 13., 17.). Kipptu ekki þessari „ör" út úr hjartanu af drambsemi, sjálfbyrgíngskap og oftrausti á menntun þinni og mannkostum. Því sárari sem sviðinn er, þess heilsusamlegra er það fyrir þig. Leita þú þèr ekki neinnar þeirrar lækníngar, sem einúngis lýkur aptur sárinu og linar í bráð, en upprætir ekki meinsemdina sjálfa. Snú þú þèr til hins rètta læknisins, Jesú Krists, „sem bar vor sár og lagði á sig vor harmkvæli" (Es. 53., 4.), sem sjálfur „var freistaður á allan hátt eins og vèr, þó án syndar, svo að hann gæti sampínzt vorum veikleika" (Hebr. 4., 15.), sem sjálfur tæmdi dauðans beiska bikar, svo að hann gæti leitt oss frá dauðanum til lífsins. Flý þú til hans, sem ekki einúngis læknar sár samvizku þinnar, heldur og hreinsar þig af allri saurgun syndarinnar! Verið getur, að þèr í fyrstunni finnist hann ekki vera svo ljúfur og huggunarríkur eins og þú hafðir búizt við; verið getur, að þú farir að titra og skjálfa þegar þú sèr hinn blóðlitaða kross, þar sem þú átt að leita þèr lækníngar. Eða væri ekki öll von til, að það feingi á þig og hrærði hjarta þitt, þegar þú hugleiðir, hver þar leið kvöl og píslir og hvers vegna hann varð þetta að líða? Getum vèr gleymt því, að „hann var vegna vorra misgjörða særður og fyrir vorra synda sakir lemstraður"? (Es. 53., 5.). Vèr sjáum bezt, hvernig syndinni er varið, þegar vèr nemum staðar hjá Jesú krossi og heyrum Guðs eingetinn son kalla hárri röddu og segja: „Guð minn! Guð minn! hví hefur þú yfirgefið mig"? (Matth. 27., 46.). Geta ekki þessi orð lausnara þíns haft nein áhrif á hjarta þitt, synd-

ugur maður? Getur þú ekki komizt við af því, að hinn elskulegi eingetni sonurinn, vegna þinna synda, var yfirgefinn af sínum eilífa föður? Smýgur ekki harmakvein hans eins og sverð gegnum sálu þína?

Þannig á vor gamli maður að deyðast, svo að hinn nýji maður geti lifnað við; þannig eigum vèr að deyja heiminum, svo að vèr fáum lifað Guði. Í þessum tilgángi hefur Guð sent sitt orð út um heiminn; í sama tilgángi sendir hann oss mótlætið, sem er hitt sverðið, er vèr höfum ásett að virða fyrir oss.

Þó þú á heilbrigðu dögunum hafir ekki orðið var við neinn mun á holdinu og andanum, á sál og líkama, þá munt þú verða hans var, þegar líkaminn verður veikur; þó þú á meðlætisdögunum hafir ekki orðið var við neinn mun á heiminum og Guði, þá munt þú verða hans var, þegar þú ratar í raunir og mótlæti. Sèrhver sárindi minna oss á vort andlega eðli og aðgreina sálina frá þeim hlutum, sem valda henni sársauka, hvort heldur það er hinn veiki líkami eða aðrir ógeðfeldir hlutir; og í því tilliti eru þjáníngarnar nytsamlegar, að þær fá oss til að snúa athygli voru frá hinu líkamlega og stundlega, til hins andlega og eilífa. Vèr skoðum hèr sèr í lagi þær þjáníngar, sem á sèrlegan hátt vekja eptirtekt vora á fánýti veraldlegra hluta, á fávizku vorri og syndum vorum. Það má líkja þeim við „sverð í sálu vorri“, af því þær eins og kljúfa vorn innra mann og knýja hann til að leita náðar hjá Guði í Jesú Kristi. Þessar þjáníngar eru því að nokkru leyti ólíkar, ekki einúngis þeirri eymd, sem lastafullir óreglumenn sjálfir baka sèr með syndum sínum, heldur einnig þeim krossi, sem guðsbörn einatt verða að bera að dæmi lausnara síns. Krossburður guðsbarna miðar einúngis til að styrkja þau í stríðinu og halda þeim vakandi, svo þau sofni ekki í hættulegu andvaraleysi. Líka þurfa hjörtu þeirra, sem snúið hafa sèr til Guðs, alltaf meir og meir að losast við veröldina. Hin jarðnesku böndin verða að slitna eitt á fætur öðru, svo að sameiníngin við Guð geti orðið fullkomin.

Flestir menn eru staddir mitt á milli hinna þverbrotnu syndara og hinna trúuðu, og þeir þurfa sèr í lagi að gefa vel gætur að þessum andlegu sverðum, svo þau ekki til einkis

smjúgi gegnum sálir þeirra. Opt eru þau furðanlega löguð eptir ástandi hvers eins, tilhneigíngum hans og ávirðíngum. Opt ber það við, að það, sem menn sækjast mest eptir, verður þeim til mæðu og mótlætis, og geta þeir, sem fyrir því verða, einatt þreifað á Guðs agandi hendi. Stundum eru dómar Drottins í þessu efni svo bersýnilegir, að dæmi þessara manna geta verið öðrum til viðvörunar. Þó megum vèr ekki dæma náúnga vorn, sem verður fyrir einhverju mótdrægu, heldur eigum vèr að gæta því betur að sjálfum oss, rannsaka líferni vort með tilliti til þess mótlætis, sem oss ber að höndum, og í sèrhverju óhappi kannast við Guðs föðurlegu handleiðslu. Þó það kunni að bera við, að vèr verðum fyrir einhverju mótkasti af vonzku eða vanþekkíngu annara manna, megum vèr þó yfirhöfuð kannast við vora syndasekt og eigum að skoða sèrhverja mæðu sem bendíngu Drottins, er miðar til að vekja oss af svefni syndanna og snúa oss til hans. En hversu fáir gefa gaum að þessum bendíngum, þó þær komi aptur og aptur með ýmsu móti. Þeir kvarta yfir eymd mannlegs lífs, sem þeir ekki hafa lært að þekkja nema frá hinni tímanlegu hlið, en þó snúa þeir ekki athygli sínu að hinni rèttu hlið þess: að hinni andlegu og eilífu hliðinni. Statt þú snöggvast við, aldraði maður! sem geingur á barmi grafarinnar, og virtu fyrir þèr þá veröld, sem þú enn þá ekki hefur getað losað hjarta þitt við, þó þú sèrt orðinn þreyttur af mótlætinu, saddur af gleðinni og gramur af þeirri rángsleitni, sem þú þykist hafa orðið fyrir. Þú sóttist eptir auði og alls nægtum og fannst ekki annað enn sorgir og áhyggjur; þú sóttist eptir solli og munaði, og fannst ekki annað enn leiðindi og þreyjuleysi; þú sóttist eptir upphefð og metorðum, og fannst ekki annað enn niðurlægíngu og virðíngarskort; þú sóttist eptir alþýðu lofi og almenníngs hylli, og fannst ekki annað enn öfund og álas. Veröldin lofaði öllu fögru, en sveik þig um það allt; þó hlustar þú enn á loforð hennar, glæpist enn á ginníngum hennar og seilist eptir hennar svikulu gæðum. Þú hefur tæmt lífsins beiska bikar, og þó ert þú enn að sötra dreggjarnar. Þèr er illa við veröldina, og þó saknar þú hennar, hún hefur snúið að þèr bakinu, og þó ert þú að elta hana. Snú þú þèr, vesall maður, til Guðs! snú þú þèr til frelsara þíns! og þá munt þú öðlast þann frið, sem

þig vantar og sem heimurinn ekki getur gefið þèr og ekkert nema hann, sem sigrað hefur heiminn. — þetta apturhvarf heyrir ellinni til, hugsar hinn glaði æskumaður, sem ekki er farinn að reyna neitt mótdrægt í lífinu. Á eg þá að yfirgefa heiminn á mínum bezta aldri? spyr hann. Á eg að taka mig út úr mannlegu fèlagi og gefa mig einúngis við guðlegum hugleiðíngum í iðjulausri einveru og þannig spilla þeim kröptum og gáfum, sem mèr eru gefnar? Á eg að læsa mig inni til að andvarpa og biðja, þar sem eg þó get komið mörgu góðu til leiðar í kríngum mig? Á eg ekki að njóta neinnar gleði í lífinu, þar sem þó allir hlutir minna mig á þetta? Á eg, í stuttu máli, að deyja í lifanda lífi, þar sem þó öllum lifandi skepnum er innrætt laungun eptir að lifa og njóta lífsins? Allar þessar spurníngar sýna, að menn ekki skilja rètt þetta orðatiltæki: að deyja heiminum. þegar Jesús hóf augu sín til himins og bað fyrir lærisveinum sínum og öllum trúuðum, sagði hann: „ekki bið eg, að þú takir þá úr heiminum, heldur að þú geymir þeirra við illu“ (Jóh. 17., 15.). Í heiminum eigum vèr að lifa og starfa, en ekki á þann hátt, að vèr tökum þátt í spillíngu hans. þó vèr sèum vegfarendur hèr á jörðunni, eigum vèr þó að horfa upp til himins; hann sjáum vèr alstaðar hvelfast yfir höfðum vorum, og jafnvel líkamabyggíng vor minnir oss á að lypta þángað augum vorum. Guðsorð og mótlætið á að smjúga gegnum sálir vorar eins og sverð, ekki einúngis til þess, að vèr skulum deyja heiminum, heldur og til þess, að vèr skulum lifa Guði. En hvað er að lifa Guði? Er það ekki að lifa eptir Guðs vilja í trú og kærleika? Er það ekki að halda hans boðorð? En það er hans boðorð, að vèr, hver í sinni stöðu, verjum vel þeim kröptum og gáfum, sem hann hefur gefið oss. það er án efa gott og þarflegt fyrir sjálfa oss, að vèr tökum oss tómstundir til guðrækilegra hugleiðínga í einrúmi; en þó því að eins, að vèr vanrækjum ekki þarfyrir skyldur köllunar vorrar og kristilega mannelsku. Vèr deyjum heiminum, ef vèr deyjum syndinni. þó er það ekki einhlítt, að vèr forðumst hið illa í heiminum; vèr megum heldur ekki meta þau gæði, sem hann býður oss, meir enn svo, að vèr getum skilið við þau án eptirsjónar, hve nær sem vera skal. það er fjærri sannkristnum manni að festa hug og hjarta við auð, völd, metorð eða munað, því hann veit, hve stopul og

fallvölt þessi gæði eru og að þau eru, ekki eptirsóknarverð í sjálfum sèr, heldur einúngis sem meðul til að geta eflt með þeim annara heillir. Kristur sjálfur hafði samneyti bæði við tollheimtumenn og Farísea; þó sagði hann: „minn matur er að gjöra vilja þess, sem mig sendi, og leysa hans verk af hendi“ (Jóh. 4., 34.). Sá sem það gjörir þarf hvorki að fælast mannblendni nè nokkra saklausa skemmtun; en hann neytir stundlegra gæða, ekki einúngis í hófi, heldur og með hreinu hjarta; „hann brúkar heiminn“, að boði postulans, „eins og sá, sem ekki brúkar hann; því fegurð heimsins hverfur“ (1. Kor. 7., 31.). Hún er allt af smátt og smátt að hverfa meðan vèr lifum, því smátt og smátt dofna tilfinníngar vorar, og hún hverfur algjörlega sjónum vorum, þegar vèr deyjum. Heimurinn sjálfur ber guðsorði vitni um það, hve fallvaltir hinir stundlegu hlutir eru, ekki einúngis þau svo kölluðu lukkunnar gæði, heldur og allir skapaðir hlutir umhverfis oss. Í náttúrunni er allt af líf og hreifíng, en þar er og allt af dauði og eyðileggíng. Gakk þú út, ekki á veturna, því þá sýnist náttúran sjálf vera dauð, ekki á haustin, því þá minnir allt á dauðann, heldur um hásumartímann, þegar náttúran er í blóma sínum. Hve mörg fótmál getur þú þá geingið, án þess fölnuð blóm, visin strá og fótum troðnir ormar minni þig á, hvernig þú sjálfur munir rotna, visna og verða að moldu? En þú þarft naumast að fara út, til að verða minntur á dauða þinn; líttu einúngis á gáng sólarinnar, sem stígur á hverju kveldi niður af braut sinni á himinhvelfíngunni, til þess að láta nóttina minna oss á dauðann, og einginn hlutur í náttúrunni er betur lagaður til þess enn umskipti dags og nætur. Sèrhver lífdagur vor er ekki einúngis hlekkur í lífsfesti vorri, sem getur slitnað með honum, heldur og heill lífstími út af fyrir sig. Er það ekki nýtt líf, sem þú byrjar, í hvert sinn sem þú vaknar? Og þegar þú ert sofnaður, veizt þú þá, hvort þú enn þá ert lifandi? Svefninn er dauðans bróðir. Þegar þú sefur, þá ert þú dauður heiminum, dauður sjálfum þèr. En þú vaknar og verður aptur var við sjálfan þig og veröldina í kríngum þig; þú lifir aptur og vilt lifa. En legg þú höndina á hjartað og finn þú, hvernig það slær, og hugsaðu til þess, að hjartað getur hætt að slá á einu augnabragði. Hvers vegna verður þèr svo bilt við þessa

hugsun? þú ert hræddur við dauðann. þá mættir þú allt af vera hræddur við hann, á hverjum degi og hverri stundu, því á hverjum degi og hverri stundu getur það aðborið, að líkamabygging þín hrynji. En þú hugsar ekki um þessa lífshættu, sem á hverjum degi og hverri stundu vofir eins og sverð yfir höfði þèr. — þegar náttúran gaf þèr lífið, gróðursetti hún hjá þèr von um áframhald þess; hún sýnir þèr einúngis það, sem runnið er af tímaglasi þínu, en hylur hitt, sem enn er órunnið. Og sjáum vèr ekki, hve dásamlega þessu er tilhagað? Hverju góðu mundi verða framgeingt og komið til leiðar, ef einginn hugsaði um annað enn að deyja? Hvaða gleði mundum vèr hafa af lífi voru, ef vèr lifðum allt af í hræðslu fyrir dauðanum? Er þá náttúran, eða rèttara sagt, náttúrunnar höfundur og herra sjálfum sèr sundurþykkur? Lætur hann himin og jörð á hverju augnabliki kalla til mannsins: þú átt að deyja! en kallar þó sjálfur í hjarta hans enn þá hærra: þú átt að lifa? — þó þú deyir, þá munt þú þó lifa. Með því nú einginn ágreiníngur eða sundurþykkt getur hugsazt hjá þeirri alvitru, gæzkuríku og almáttugu veru, sem hefur skapað alla hluti, þá hlýtur meiníng náttúrunnar að vera samhljóða því, sem skýrt er tekið fram í Guðs opinberaða orði, sem sè: að maðurinn á á hverjum degi að rísa á fætur með nýju lífi, til að vinna meðan dagur er, og gleðjast af lífi sínu; en vera þó á hverjum degi viðbúinn að skilja við það: að hann á hverjum degi á að deyja frá því, sem er jarðneskt og tímanlegt, til þess í sálu sinni að lifa eilífu lífi hjá Guði.

Sverð mun smjúga gegnum sálir vorar, kærir bræður! að minnsta kosti í dauðanum, þó það verði ekki fyrr, og láta oss finna mismun á andanum og holdinu, heiminum og Guði, tímanum og eilífðinni. En Guð náði oss, ef vèr verðum ekki þessa mismunar varir, fyrr enn vèr eigum í voru dauðastríði, eða vöknum í eilífðinni! Ímyndum oss, að vèr stæðum hjá banasæng einhvers manns, sem hefur lifað eins og einginn Guð væri til. Vèr þurfum ekki þarfyrir að hugsa oss hann sem grófan glæpamann; en hann hefur aldrei haft hugann á því, sem er andlegt og eilíft; hann hefur aldrei hugsað um Guð, að minnsta kosti ekki með trúuðu og kærleiksfullu hjarta; hann hefur heldur viljað vera föðurlaus og framandi á jörðunni, enn

gánga fyrir Guðs augliti þann veg, sem liggur til hans ríkis; hann hefur aldrei þakkað Guði fyrir gjafir sínar, aldrei kannazt við hans handleiðslu, aldrei látið hans bendíngar eða áminníngar hans orða aptra sèr frá neinni holdlegri gleði eða tímanlegum ábata: hann hefur, í stuttu máli, verið holdsins og heimsins þræll. En hann hefur safnað auði, náð upphefð og áliti; hann hefur, eins og hinn ríki maður, „klæðzt perli og purpura og lifað hvern dag í dýrðlegum fögnuði". Fær hann að halda nokkru af þessu í dauðanum? Verður hann ekki að segja eins og Job: „nakinn kom eg af móðurlífi; nakinn mun eg aptur hèðan fara" (Job. 1., 21.)? því allt, sem hann hefur haft mætur á, sókzt eptir og feingið, hlýtur hann nú að skilja eptir. Og hve óvenjulega sárt má honum eigi vera það, að skilja við hið jarðneska, sem allur hugur hans loddi við, og sem ekkert getur slitið hann frá nema dauðinn! og þessi sári söknuður hverfur ekki í dauðanum, heldur fylgir honum inn í eilífðina, því hann kemur ekki til af því, að líkaminn sundurleysist, heldur af því, að sálin varð að skilja við sín einustu og æðstu gæði. Söknuðinum hlýtur að fylgja ángur og ótti. Til eilífs ángurs hlýtur hann að finna af því að hafa burtsóað lífi sínu hèr, og ángrinu er ótti samfara: ótti fyrir Guðs eilífa rèttlæti, sem gjalda mun einum og sèrhverjum eptir hans verkum. Eymd hans í eilífðinni fylgir honum þángað úr þessu lífi, því að í brjósti sínu ber hann þann orm, sem ekki deyr og þann eld, sem ekki slokknar. Hvað er eilífðin fyrir þann, sem er skilinn við Guð, annað enn auðn og hin yztu myrkur? þar skín eingin stjarna; þar upprennur einginn morgun; þar er Guð hulinn þeim, sem ekki leituðu hans hèr, nè fundu hann; þar lætur hann ekki ásjónu sína lýsa yfir þeim, „sem ekki trúa á ljósið nè gánga í því, meðan þeir hafa ljósið" (Jóh. 12., 35.). En eigum vèr, kærur bræður! að staðnæmast við þessa hræðilegu tilhugsun? höfum vèr ekki þá von, að geta öðlazt eilífa sáluhjálp með því að feta þann veg, sem til lífsins liggur? er það ekki einlægur ásetníngur vor að deyja heiminum en lifa Guði? og höfum vèr ekki varið þessari stundu til guðrækilegra hugleiðínga í því skyni að leita til þessa liðs og krapta í guðsorði? og eigum vèr þá að enda hugleiðíngar vorar um *sverð*, án þess að minnast eitt orð á *frið?* Að efla hjá oss andlegan frið og leiða oss til eilífs

friðar, er þó tilgángur hins eilífa kærleika með því að senda oss sverð mótlætisins og síns sáluhjálplega orðs. „Lát þú nú, Drottinn! þjón þinn í friði fara“, sagði Símeon. Óskum vèr ekki allir að geta sagt það, þegar vor burtfararstund er komin? og það getum vèr sagt, ef vèr eins og hann leitum vorrar æðstu farsældar hjá Guði, en ekki í heiminum; ef vèr eins og hann trúum á Krist og auðsýnum vora trú í ráðvendni og guðsótta. Þá mun friður Guðs, náð hans og blessun fylgja oss frá þessu ári, sem nú er þegar á enda liðið, til hins nýja ársins, sem fer í hönd, fylgja oss í öllu stríði og baráttu þessa lífs, fylgja oss í voru dauðastríði inn á friðarins land. Friður Drottins sè með oss öllum í Jesú nafni! Amen.

---

## Á nýársdag.

### Bæn.

Ó, þú eilífi aldanna faðir! upp í hæðirnar til þín lyptum vèr auðmjúkum og hrærðum hjörtum á þessum fyrsta degi hins nýja árs, til að lofa og vegsama þitt heilaga nafn, til að þakka þinni óendanlegu föðurgæðsku og biðja þig um nýja náð og blessun. Eitt árið kunngjörir öðru þína dýrð og þínar dásemdir og syngur þèr lof og þakkargjörð. Æ! leyf þú oss einnig að kvaka í auðmýkt, og þakka þèr, eilífi faðir allrar miskunar! fyrir þína föðurlegu handleiðslu á oss á næstliðnu ári og alla æfi vora, en biðja þig í Jesú nafni um fyrirgefníngu allra vorra synda og ávirðínga. Æ! miður enn skyldi höfum vèr verið liðna árinu; brotið þín boðorð margfaldlega, verið tregir til hins góða og vanrækt margt af því, sem vèr áttum að gjöra og hefðum getað gjört; já, samvizkan segir oss, að vèr höfum syndgað í himininn og fyrir þèr og að vèr erum minni allri þinni miskunsemi og trúfesti. Þó dirfumst vèr í trausti til þinnar náðar að stíga fæti vorum inn í þetta nýja ár með því auðmjúka bænarandvarpi, að þú í nafni frelsara vors Jesú Krists enn þá haldir þinni verndarhendi yfir oss, enn þá blessir oss með ríkdómi þinnar náðar. Vèr viljum ekki biðja þig um tímanleg gæði, heldur fela það þinni föðurlegu forsjón á hendur, hvað þú vilt gefa oss af þeim; því þú elur önn fyrir oss og veizt, hvað oss er fyrir beztu. En vèr þörfnumst sèr í lagi þinnar andlegu blessunar, og það, sem vèr einkanlega biðjum þig um, er náð til þess að geta elskað þig af

öllu hjarta, náð til þess að geta varið tímanum rèttilega til undirbúnings undir eilífðina, náð til þess jafnan að hafa það hugfast, að vor kjör í eilífðinni eru komin undir því, hvernig vèr hagnýtum oss þann náðartíma, sem gæðska þín hefur gefið oss hèr, en vitum ekki, hve leingi þessi náðartími varir. Æ, Drottinn! vertu oss jafnan nálægur og náðugur á þessu nýja ári! Vertu vor Guð og faðir í lífi og dauða!

## Guðspjallið

(Lúk. II., 21.).

**Þegar liðnir voru átta dagar, og barnið skyldi umskerast, var hann nefndur Jesús, eins og hann var kallaður af einglinum áður enn hann var getinn í móðurlífi.**

### Inngángur.

Árin líða skjótt og vèr erum á flugi. Já, þau líða skjótt, og eins þetta ár, sem upprann í morgun, og vèr fljúgum sjálfir burt, ef til vill, áður enn það er liðið. Eitt ár er eins og einn dagur, eins og eitt augnablik, þegar vèr lítum aptur; og þegar vèr erum komnir til elliára, sjáum vèr, að allt hið liðna líf vort er flogið burt, eins og eitt ár, eins og einn dagur, eins og eitt augnablik. „Árin líða skjótt og vèr erum á flugi". Þessi orð má lesa í sálminum 90., sem tileinkaður er Móses. Fyrst lyptir hann huga vorum til Guðs, sem „var til áður enn fjöllin fæddust, áður enn jörðin og veröldin voru sköpuð", sem er „Guð frá eilífð til eilífðar"; því fyrir hans augum eru „þúsund ár sem dagurinn í gær, þá hann er liðinn, og eins og næturstund"; því hann er, í stuttu máli, hafinn yfir tímann og öll tímaskipti. Þessu næst sýnir hann með nokkrum samlíkíngum, hve stutt og stopult mannlegt líf sè. Hann líkir því við vatnastraum; því tíminn rennur einlægt áfram eins og strángur straumur, og snýr aldrei aptur; hann líkir því við gras; því æska og heilsa, fegurð og auðæfi, upphefð og metorð, og allt, sem prýðir lífið og gjörir það inndælt, blómgast í dag og visnar á morgun; hann líkir því við draum; því, auk þess sem líferni sumra manna er svo dautt og dáðlaust, að það er eins og þeir allt af sofi, þá má öllum, jafnvel hinum ötulustu

og atorkusömustu mönnum finnast, þegar þeir horfa yfir sitt liðna líf, að það hafi ekki verið annað enn svefn og draumur. Loksins segir hann: „vorir æfidagar eru sjötíu ár, og með sterkri heilsu áttatíu ár, og það þeirra hið kostulegasta er sorg og mæða; því þau líða skjótt og vèr erum á flugi“. Móses skoðaði manndauðann í eyðimörkinni sem hegníngardóm Drottins fyrir syndir Ísraelsmanna. En þeir vildu ekki kannast við ávirðíngar sínar, nè búa sig undir dauðann með því að bæta ráð sitt. Þá bað Móses og sagði: „Drottinn! kenn oss þó að telja vora daga, að vèr verðum forsjálir“. Þetta bænarandvarp þekkja flestir; en því miður! munu færri hafa það hugfast, eða hugleiða hvað það þýðir. Í hverju tilliti eigum vèr að verða forsjálir með því að telja vora daga? Án efa fyrst í því, að vèr leitum ekki vorrar æðstu farsældar í tímanlegum gæðum, sem vèr missum þegar vèr deyjum. En dauðinn er ekki einúngis viðskilnaður við þetta stundlega líf, heldur er hann einnig inngángur til eilífs lífs, og þar eru bæði bústaðir ljóssins og gleðinnar og myrkursins og glötunarinnar; því á eptir dauðanum kemur dómurinn. Þess vegna er sú forsjálni, sem vèr eigum að afla oss með því að telja vora daga, einnig í því innifalin, að vèr sækjumst eptir þeim hlutum, sem hafa gildi í guðsríki, eptir þeim andlegu fjársjóðum, sem fylgja oss út yfir gröf og dauða og gjöra oss hæfa til að mæta fyrir dómstóli Drottins á efsta degi. Og hvað er þetta annað enn það, sem allt guðsorð minnir oss á, og sem jafnvel merkíng *Jesú* nafns í þessa dags heilaga guðspjalli brýnir fyrir oss, það sem sè: að þegar vèr með harmþrúngnum hjörtum játum syndir vorar og ávirðíngar og með einlægri iðrun og trú snúum oss til Jesú vors frelsara, þá verðum vèr sökum hans friðþægíngar frelsaðir frá valdi syndarinnar og dauðans. Þegar vèr daglega búum oss undir dauðann, þá lifum vèr voru sanna lífi í trúnni, kærleikanum og voninni, og getum þá hugglaðir, hve nær sem dauðann aðber, sagt eins og Símeon: „Drottinn! lát þú nú þjón þinn í friði fara“! og ef vèr þannig, glaðir í Guði, höfum umgeingni vora á himnum, þá megum vèr líka gleðjast af þeim tímanlegum gæðum, sem vèr öflum oss með leyfilegu móti, og neyta þeirra í hófi með þakklæti við gjafarann og mannelskufullu hjartalagi. Þetta er sú sanna forsjálni, sem vèr lærum af því

að telja vora daga; þetta er að verja tímanum rèttilega. En þetta eins og allt annað lærum vèr af eingum betur enn vorum frelsara Jesú Kristi. „Eptir að átta dagar voru liðnir og barnið skyldi umskerast“, segir guðspjallið. Þetta sýnir oss, hvernig Guðs eingetinn sonur gaf sig á vald tímans, þegar hann íklæddist voru holdi. Eins og vèr taldi hann ár og daga, til þess með hverju ári og hverjum degi að fullkomna það verk, sem honum var í hendur feingið af hans himneska föður. „Eru ekki tólf stundir í deginum“? sagði hann. „Mèr ber að vinna verk þess, er mig sendi, meðan dagur er; nóttin kemur þá einginn getur unnið“ (Jóh. 9., 4.). Þannig er Jesús oss til fyrirmyndar í því, hvernig vèr eigum að verja tímanum; og með því vèr vitum, að hann mun á síðan kalla oss til reikníngsskapar fyrir hvert ár, hvern dag og hverja stund, er vèr höfum lifað, þá sjáum vèr, hve áríðandi það er að verja tímanum, eins og hann hefur kennt oss í sínu orði og með sínu dæmi. Mósis orð minna oss á, að tíminn er hraðfær, og guðspjallið sýnir oss, að hann fylgir vissri röð og reglu. Hvorttveggja þetta viljum vèr taka til greina, um leið og vèr hugleiðum:

hve viturlega og dásamlega Drottinn hefur niðurraðað tímanum.

Fyrst viljum vèr íhuga niðurröðun tímans og samband hans við vora tímanlegu og eilífu farsæld, og síðan, hve fljótt hann líður, og láta það hvetja oss til lífernis betrunar. En þú, sem hefur niðurraðað tímanum, gef þú náð til þess, að þessari stundu sè vel varið!

„Verði ljós á festíngu himinsins, svo þau aðgreini dag frá nótt og sèu teikn tímum, dögum og árum“! (1. Mós. 1., 14.). Svo bauð hinn almáttugi skapari, og það varð svo. — Sólin rann upp og gekk undir, og það varð morgun og kveld, dagur og nótt. Túnglið óx og mínkaði, vika aðskildist frá viku, mánuður frá mánuði. Dagarnir styttust og leingdust og vetur og vor, sumar og haust fylgdi hvað á eptir öðru. Svo var það í upphafi tímans, og eins er það enn. „Og Guð sá, að það var gott“ (1. Mós. 1., 18.). Og jafnvel vèr sljófskyggnir menn sjáum, að það er gott, sjáum, að þessi niðurröðun tímans er sprottin af speki og gæðsku. Hvað væri líf vort á

jörðunni, ef ekki væru til umskipti dags og nætur, eða nein tímaröð? Vèr getum ekki gjört oss greinilega hugmynd um það, og naumast aðra enn þá, að allt vort líf mundi uppþorna og eyðast, hefðum vèr ekki þau umskipti á vinnu og hvíld, sáníng og uppskeru, endurminníngu og von, sem komin er undir daga og ára skiptum. En við það, að tíminn líður jafnt og stöðugt dag frá degi, ár eptir ár, fá allir hlutir í kríngum oss líf og hreifíngu; allt af vekja nýjir og nýjir viðburðir athygli vort, og tímabreytíngin vekur allt af sjálfa oss til nýrra starfa og sýslana. þeir, sem víða fara í veröldinni, sjá og heyra margt, sem hinir ekki þekkja, er heima sitja; en vèr höldum aldrei kyrru fyrir, heldur berumst allir á straumi tímans, og allt af bera nýjir hlutir og nýjar hliðar lífsins fyrir augu vor. Veröldin umhverfis oss breytist; mennirnir breytast, koma og fara, fæðast og deyja, byggja og rífa niður, og sjálf náttúran lætur lög sín og öfl, sem í sjálfum sèr eru ómbreytanleg, leiða nýjar og nýjar myndir í ljós og breytir einlægt útliti sínu. þessi breytíng er oss bæði til gagns og gleði, hún er skilyrði fyrir rèttri reglu í verkum og hugsunum vorum. þegar vèr á morgnana sjáum himin og jörð koma fram úr næturmyrkrunum, þá lítur þetta út eins og ný veraldarsköpun, og þá erum vèr sjálfir eins og endurskapaðir og gaungum með nýjum kröptum til vinnu vorrar, glaðir og ánægðir. Sèrhver dagur hefur að vísu sína þjáníngu og mæðu, en hann hefur líka sína ánægju og gleði, og umskipti dags og nætur hressa og gleðja huga vorn. Er ekki næturhvíldin inndæl eptir erfiði dagsins? Er það ekki inndælt, að geta varpað öllum áhyggjum sínum og sorgum í næturinnar skaut? Ber það ekki einatt við, að sá rís glaður og ánægður úr rekkju, sem að kveldi gekk hryggur og hnugginn til sængur? Börnin sofna einatt grátandi og hafa gleymt allri sinni sorg þegar þau vakna. En vèr erum allir börn í Guðs augum, og hann bjó oss öllum þessa huggun í hryggð vorri og sorgum, þegar hann aðskildi nótt og dag, og bauð oss á kveldin að sofna í skjóli sinnar föðurlegu verndar. Ekki er sú blessun minni, sem áraskiptin hafa í för með sèr. Hve mjög þráum vèr ekki vorið, því þá er eins og náttúran lifni við og allir hlutir fái nýtt líf; hve fegnir viljum vèr ekki fá að halda sumrinu með blóma þess og

fegurð; eða mundi nokkur vilja missa af haustinu með aflafaungum þess og vetrarforða? Jafnvel sjálfur veturinn er oss kærkominn, þareð hann er hvíldartími fyrir menn og skepnur og náttúruna, sem á honum safnar nýjum kröptum, eins og hann líka uppljómar skammdegið með sínum alstirnda himni og sínum blikandi norðurljósum. Og þegar sólargángurinn fer aptur að hækka, hve mjög fögnum vèr þá ekki hverri stundu, sem dagurinn vinnur frá nóttunni? Og þegar vèr svo sjáum jörðina endurnýja útlit sitt og skrýðast grænum grösum og blómum, þá er eins og vèr sjálfir lifnum við og ýngjumst upp aptur. — þareð tímaskiptin þannig hafa svo mikilvæg áhrif á vora tímanlegu velferð, ber oss þá ekki í þessu sem öðru að kannast við speki Guðs og gæðsku og vegsama hann fyrir það á hverjum degi og hverri stundu? Vegsömum hann einnig fyrir það, að hann gaf oss hæfilegleika til að verða varir við tímans breytíngar og til að laga vora lifnaðarháttu eptir þeim! það heyrir til yfirburða vorra yfir skynlausu skepnurnar, að vèr lifum ekki einúngis í hinum yfirstandanda tíma, heldur og í umliðna og ókomna tímanum, að vèr í dag getum afráðið, hvað vèr ætlum að gjöra á morgun, að vèr í æskunni getum sáð því, sem vèr á elliárunum ætlum að uppskera. „Allt hefur sinn ákvarðaða tíma“, segir Prèdikarinn (3., 1.) „og stund er til alls áforms undir himninum“. Öll reglusemi er komin undir því, að menn hagnýti sèr tímann, en regluseminni fylgir þrifnaður og gleði; þar á mót leiðir eymd og ógæfu af því, að spilla tímanum og sóa honum burt. Geta menn ætlazt til, að þeir auðgi anda sinn að nytsamlegri þekkíngu, sem eyða æsku sinni í iðjuleysi? Eða að þeir verði mannlegu fèlagi til sannarlegs gagns, sem leggjast í svall og alls konar óreglu? Margir leiða ógæfu yfir sig og sína, einúngis af því að þá vantar skynsamlega fyrirhyggju, af því þeir hafa einga aðgæzlu á tímanum, og hugsa ekki um það í dag, hvað þeir eigi að gjöra á morgun, og því síður, hvað fyrir þeim liggi í eilífðinni.

Tíminn flytur með sèr mæðu og stríð, en hann læknar þetta líka. Hvaða sár getur ekki tímaleingdin grætt? Hvaða sorgir getur hún ekki sefað? Auk endurminníngar og vonar, færir tíminn oss tvö önnur læknismeðul, sem koma hinu sama til leiðar, þó þau sèu næsta ólík. Annað er vaninn, sem gjörir

mótlætið því bærilegra þess leingur sem það varir. Hitt eru breytíngar mannlegs lífs. Þar sem öll mannleg hjálp er þrotin og það þykir ómögulegt að fá nokkra bót eða raunalètti, þar lætur Guð tímann hugga og hressa og leiða nýjar svölunarlindir í ljós. „Um kvöldtímann heimsækir oss grátur, en að morgni gleðisaungur“ (Sálm. 30. „ 6.). Hugleiddu þessi orð ritníngarinnar, harmþrúngna sál! Hrygg leggst þú til hvíldar og lángt fram á nótt eru augu þín þrútin af gráti og full af tárum. En þerra þú tárin burt og sofna þú í Guðs nafni, því bráðum ljómar dagur og með honum upprennur ný huggun. Æ nei! svarar þú, sumt böl er svo þúngt, að það verður ekki bætt, sumar sorgir svo miklar, að þær vara alla æfi. — Það er satt; sá sem hefur misst það, er hann hafði fest allan hug og hjarta við, og sem var hans einasta yndi í þessu lífi, grætur bæði kveld og morgna, í hans augum er hver dagurinn öðrum líkur, hvert árið öðru líkt og hann getur eingrar breytíngar vænzt á böli sínu, nema þeirrar, sem dauðinn færir honum. Hugsa þú þá um dauðann eins og sannkristinn maður, og bú þú þig undir komu hans, svo að á þèr rætist í æðra skilníngi þessi orð: „um kvöldtímann heimsækir oss grátur, en að morgni gleðisaungur“. Skoða þú þetta líf eins og kvöldtíma og bú þú þig með undirgefni undir Guðs vilja, undir dauðans nótt, undir svefnhöfga þinn á grafarinnar beð: þá munt þú vakna upp á eilífðarinnar morgni í friðarins og gleðinnar himnesku bústöðum, þar sem hvorki tár eða tregi framar eru til, heldur eilífur fögnuður í heilögum anda.

Að vísu er niðurröðun tímans áríðandi fyrir vora tímanlegu farsæld, en þó er hún það enn meir fyrir vora eilífu sáluhjálp. Í tímanum er endurlausnarverkið framkvæmt; í tímanum fæddist, lifði og dó frelsari vor; í tímanum útbreiðir hann ríki sitt með sínu orði og sínum anda; og þegar tíminn tekur enda og breytist í eilífð, þá mun hann koma aptur, til þess að kalla oss til reikníngsskapar fyrir það, hvernig vèr höfum varið hverju ári þessa lífs, hverjum degi og hverri stundu þess. Hèr í tímanum er oss ætlað að bæta ráð vort og búa oss undir eilífðina. Dásamleg er Guðs speki í fyrirkomulagi veraldarinnar, í sambandinu milli himins og jarðar, milli tímans og eilífðarinnar, milli líkamlegra og andlegra hluta. Allt sýnir oss og

sannar, að það er ákvörðun vor að flytja héðan í aðra æðri veröld; allt kallar oss til Guðs og eilífs lífs; allt býður oss á hverjum degi og hverri stundu, „að bæta ráð vort, því himnaríki sè nálægt“ (Matth. 3., 2.). Getur ekki tíminn minnt oss á himnaríki með því að sýna oss, hvernig hann sjálfur myndast af himinhnattanna rás? Getur ekki sjón hins ómælilega himinhvolfs lypt huga vorum upp frá jörðunni? Getur það ekki vakið athygli vort á alvizku og hátign skaparans? Ætti það ekki að minna oss á það, að eins og himinhnettirnir hlaupa að Guðs boði sínar afmældu leiðir, og eins og eingin stjarna í hinum ótölulega grúa er annari til fyrirstöðu, heldur þekkir hver sinn veg og sinn tíma; eins eigum vèr og, án þess að hindra hver annan, að renna vort skeiðhlaup, og gæta hver að sínum vegi samkvæmt því sem Guð hefur boðið oss. Já, þegar vèr biðjum í drottinlegri bæn: *„verði þinn vilji svo á jörðu sem á himni“*! hljótum vèr ekki einúngis að hugsa til enna heilögu eingla, sem í öllum hlutum fylgja þeirri röð og reglu, sem sett er í Guðs eilífa ríki, heldur einnig til þess ómbreytanlega lögmáls, sem heldur saman allri hinni sýnilegu himinhnatta mergð.

Niðurröðun tímans sýnir oss þannig, hvers oss ber að gæta í líkamlegum og andlegum efnum. Hitt, sem vèr ætluðum að hugleiða, var það: hvernig tímans hraða rás hvetur oss til betrunar.

það finnst ekki öllum tíminn líða eins fljótt, heldur er þetta komið undir því, á hvaða aldri menn eru. Hin ókomnu árin eru laung í augum únglíngsins, sem bíður þeirra með óþreyju; þar á mót eru liðnu árin stutt í endurminníngu hins aldurhnigna, sem hugsar til þeirra með eptirsjón og söknuði. Öðrum finnst ein stund vera eins og heilt ár, en hinum heilt ár eins og ein stund. Hvað er líka hinn leingsti lífstími, hvað er áttræðis- eða níræðisaldur, þegar hann er liðinn og litið er aptur? Ekki annað enn morgun og kvöldstund. þeir, sem hafa náð háum aldri, eru vanir að kvarta um armæðu lífsins, eins og vonlegt er, þegar bæði sálar og líkama kraptar veiklast og mínka; en þó þykir þeim lífið vera ofstutt. þetta kemur ekki ætíð til af því, að þeir vilji lifa leingur, heldur af þeirri orsök, að í ellinni sljófgast tilfinníngarnar, áhrifin verða minni

og menn muna því síður til þeirra. Þegar menn eru orðnir miðaldra, þá verða þeir þess einkanlega varir, hve fljótt tíminn líður; þá fara árin að hlaupa með hraðri rás og æfin að líða niðurávið. En auk þess sem liðnu árin styttast, en ókomnu dagarnir leingjast í huga vorum, þá getum vèr og bæði stytt og leingt yfirstandandi tímann. Margir stytta tímann, eða rèttara sagt, eyða honum, sumpart með heimskulegum og árángurslausum fyrirtækjum, sumpart með lastafullu líferni, sumpart með ómennsku og iðjuleysi, sem gleymir tímanum og veit ekki af því, að hann líður, rètt eins og sofandi maður.

Þó getur sá, sem ekkert þarflegt tekur sèr fyrir hendur, ekki ætíð gleymt tímanum, því iðjuleysið vekur leiðindi, og hann verður líka loksins leiður á þeim skemmtunum, sem hann ætlar að hafa sèr til dægrastyttíngar. En það, sem leingir yfirstandandi tímann, er eptirvæntíng hins ókomna, hvort heldur það er eitthvað gott, sem menn eiga í vændum, eða eitthvað illt, sem þeir vilja komast hjá. Lángur finnst tíminn öllum krossberendum, sem annaðhvort þjást af veikindum eða eru einhverjum öðrum eymdum og sorgum hlaðnir. Lángt finnst líka þeim úr verða, sem á öllum tímum ársins þurfa að vinna baki brotnu og geta þó naumast aflað viðurværis handa sèr og sínum. Leingja má tímann í öðrum skilníngi, þegar honum er vel varið, annaðhvort sèr til einhverrar nytsamlegrar uppfræðíngar, eða til einhverra loflegra framkvæmda. En það, sem mest og bezt leingir tímann, það, sem gjörir hann líkan eilífðinni og veitir manninum eilíft líf, er það, að verja tímanum eptir Guðs vilja í trú og kærleika, til að vinna það ætlunarverk, sem oss er fyrirsett hèr á jörðunni. Tíminn er bæði stuttur og lángur fyrir þann, sem með alúð og samvizkusemi leitast við að gegna sínum skyldum og reynir til að koma svo miklu góðu til leiðar, sem hann getur. Tíminn er stuttur fyrir hann, af því hann hefur allt af nóg að gjöra og ánægju og yndi af því; en lángur er tími hans, af því hans góðu verk gefa lángvinnar afleiðíngar, hvort heldur hann ver tímanum til að koma góðri reglu á í mannlegu fèlagi, eða til að upplýsa almenníng og leiðbeina honum, eða til að uppfræða únglínga, uppala og annast munaðarlausa, hjálpa nauðstöddum, hjúkra sjúklíngum, eða til annara mannelskuverka, sem heimta stöðuga alúð og sjálfsafneitun. Til

þessa heyra einnig þær stundir, sem sannkristinn maður hefur sèr til menntunar í guðsorði, til bænahalds og guðrækilegra hugleiðínga, sem lypta huga hans upp yfir hið tímanlega og miða til að styrkja hann til góðra verka. þannig verður stutt stund að heilu ári og að heilli öld, þegar henni er varið til að vinna eitthvert góðverk, sem hefur heillaríkar afleiðíngar fyrir eptirkomendurna og óbornar kynkvíslir. — Já, í æðra heimi mun allt sannarlega gott, sem hèr er gjört, bera óendanlega ávexti; og þegar sál hins trúaða, sem lifði hèr í samfèlagi við Guð og ástundaði að vinna hans verk, horfir niður af eilífðarinnar himni fram eða aptur á tímann, sem hèr er að líða, þá mun einnig í hennar augum einn dagur verða sem þúsund ár og þúsund ár sem einn dagur, eins og það er í augum Drottins. En hvað sem mennirnir hugsa um tímann og hvort sem þeir reyna til að leingja hann eða stytta, þá líður hann jafnt og stöðugt, án þess að truflast af gjörðum eða hugsunum þeirra. Tíminn líður, hvort sem vèr vökum eða sofum, vinnum eða hvílumst, rækjum eða vanrækjum vorar skyldur; hann stendur aldrei við, hvað fegnir sem vèr kynnum að óska þess; ekki snýr hann heldur við, heldur rennur áfram eins og straumur. Ekki leyfir hann oss heldur að snúa við; vèr getum ekkert farið upp aptur af þeim vegi, sem vèr erum búnir að fara; það eina, sem vèr getum gjört, er að líta aptur, annaðhvort með ángri og eptirsjón, eða með gleði og góðri samvizku. Hvorki með tárum nè bænum getum vèr feingið tímann til að skila oss aptur einu augnabliki af voru liðna lífi; allar þær stundir, sem vèr höfum burtsóað eða atað með syndum, eru liðnar ásamt tímanum og verða ekki aptur kallaðar; það, sem tíminn flytur með sèr, fæst ekki aptur fyrr enn í eilífðinni; sèrhvert ár, sèrhver mánuður, sèrhver vika, sèrhver dagur og sèrhvert augnablik, hrífur af oss hvaðeina, sem vèr höfum gjört, talað og hugsað, og ber það með sèr á sinni rás og leggur það af sèr hjá dómstóli hins eilífa, og þar bíður það vor þángað til á efsta degi. þetta líf, kærir bræður! er sáðtíminn, en annað líf er uppskerutíminn; á hverjum degi og hverju augnabliki sáum vèr, og það, sem vèr sáum, grær og vex og ber ávöxt, ekki einúngis hèr í tímanum, heldur og í eilífðinni. Margvíslegar og ófyrirsjáanlegar eru þær afleiðíngar, sem gjörðir vorar hafa

hèr í tímanum, og hvað mun það þá ekki verða í eilífðinni? og þessar afleiðíngar eru annaðhvort góðar eða vondar; þær vekja enn þá í eilífðinni gleði eða ángist: himneska gleði, eða helvítis ángist. Megum vèr ekki titra við þessa tilhugsun? Ættum vèr ekki á hverjum degi og hverri stundu að hafa þessi orð postulans í minni: „það sem hver einn sáir, það mun hann uppskera; sá, sem í holdinu sáir, mun þar af glötun uppskera; en sá, sem í andanum sáir, mun af andanum uppskera eilíft líf“? Mannlegt líf er sáðtími, en það er líka vegferð. Báðar þessar samlíkíngar koma fyrir í heilagri ritníngu, og eiga vel við. Vort jarðneska líf er vegferð; en hún er ekki farin rètt að gamni sínu fram og aptur, eða eitthvað út í loptið, heldur stefnir hún að vissu takmarki og er gjörð í áríðandi erindi á fyrirsettu tímabili. Á þessari vegferð er sèrhvert fótmál, sèrhvert augnablik mikilvægt, og um fram allt ríður á því, að vèr förum rèttan veg. Sèum vèr hræddir um, að vèr sèum orðnir villtir, hvað eigum vèr þá til bragðs að taka? Eigum vèr ekki að standa við til að litast um og spyrja til vegar? Sjáir þú einhverja hæð, hvaðan þú getir sèð í allar áttir, þá far þú þángað og glöggva þú þig á því, hvar þú ert, hvaðan þú ert kominn og hvort þú átt að halda til að komast á rètta leið. Þegar þú ert orðinn viss um það, getur þú óhræddur haldið áfram. Á slíkri sjónarhæð stöndum vèr nú milli hins umliðna og hins nýja árs. Hið liðna árið sýnir oss ávirðíngar vorar og yfirsjónir; það varar oss við þeim freistíngum, sem hafa komið oss til að syndga, og þeim sorgum, sem syndir vorar hafa haft í för með sèr; þar á mót hvetur hið nýja ár oss til að byrja nýtt líf og heitir oss nýjum kröptum til þess. Hið gamla árið minnir oss á hinn spillta gamla manninn hjá oss, sem vèr eigum að deyða ásamt syndum hans og girndum. Hið nýja árið sýnir oss þann nýja mann, sem Guð vill skapa hjá oss, og sem æfinlega mun lifa hjá Guði í helgun og rèttlæti; hið nýja ár segir þeim af oss, sem eru úngir og uppvaxandi, að eins og þeir hvert ár fara vaxandi að aldri og þroska líkamans, eins eigi þeir að vaxa í vizku og náð hjá Guði og mönnum; það segir hinum eldri, að þó hinn ytri maður eyðist og hrörni, þá eigi þó hinn innri maður að endurnýjast meir og meir á hverju ári og hverjum degi, þángað til vor

lausnartími kemur. Allir þurfum vèr að betrast, kærir bræður! Ekki einúngis þurfa hinir iðrunarlausu áminníngar, uppfræðíngar og tilsagnar við, svo þeir komist af glötunarinnar vegi á þann veg, sem til lífsins liggur, heldur þurfa og hinir endurfæddu daglega að hafa gát á sálfum sèr, daglega að vaka og biðja, til þess að geta staðið stöðugir og tekið framförum í helguninni. Óguðlegir syndga af ásetníngi, en sannkristnir af breyskleika; en vèr þurfum líka með einlægri iðrun að biðja Guð fyrirgefníngar á vorum breyskleikasyndum, annars verða þær smátt og smátt að vísvitandi syndum, og vèr erum, áður enn oss varir, horfnir frá Guði og komnir undir myrkranna vald.

Prófa þú því sjálfan þig, kristinn maður! sem vilt vera guðsbarn; statt þú við og renndu augunum yfir hið liðna ár! Hefur ljós trúar þinnar allt af skinið jafnskært og fagurt? Hefur það ekki stundum verið dauft og dapurt og næstum því dáið? Hefur þú ekki sofið, þegar þú áttir að vaka, hörfað undan, þegar þú áttir að gánga fram og berjast? Verður þú ekki að ásaka þig fyrir það, að þú hefur sóað burt mörgum degi og margri stundu; að þèr hefur margt og mikið yfirsèzt, að þú opt og einatt hefur verið tómlátur í að gegna skyldum þínum; hlýtur þú ekki af hjarta að játa: „að ónotuð stund leið allmörg hjá, sem aldrei framar gagna má“, ónotuð til að breyta vel og gjöra gott? Gæt þú ekki einúngis að háttalagi þínu, heldur og að hjartalagi þínu, og þá munt þú verða þess var, hve skammt þú ert kominn áleiðis á vegi helgunarinnar. Hvað kemur til þess? Ætli það komi til af skorti á guðlegri náð? nei; þig vantar ekki náð, heldur trú. Hefur þú ekki einatt, þegar þú ætlaðir að hugsa til Guðs og biðja hann, látið huga þinn hvarfla híngað og þángað, látið hann fjötrast af tímanlegum og veraldlegum hlutum, svo að bænariðja þín varð köld og snèrist uppí hègómlegar hugsanir? — Þú verður hræddur og hryggur af þessum spurníngum, og það er til vonar; en þó mátt þú ekki láta hræðslu og hryggð snúast upp í örvæntíngu, heldur átt þú að vaka og biðja og berjast hraustlega við óvini sálar þinnar, við girndir þínar innra hjá þèr og heiminn fyrir utan þig, og þá munt þú vinna sigur trúarinnar og fá að reyna, „að Guðs kraptur er í veikum máttugur“ (2. Kor. 12., 9.). Enn þá er nýtt náðarár runnið upp yfir þèr, og hvort sem þú lifir marga

eða fáa daga þess, mun það, sem þú átt eptir ólifað, verða nógu lángt fyrir hann, sem byrjað hefur með þèr hið góða verkið, til að fullkomna það, ef þú af öllu hjarta felur þig honum á hendur og lætur þèr stjórna af hans anda, og þá þarft þú ekki að óttast dauðann, „því eilíft líf byrjar hver sá hèr, hreina iðrun sem gjörði“: þú byrjar þá eilíft líf hèr í tímanum í elskunni til Guðs og sameiníngunni við hann. En þú, sem híngað til iðrunarlaust hefur haldið áfram í syndunum, ætlar þú enn að burtsóa þessum nýja náðartíma? ætlar þú aldrei að gefa gætur að tímans aðvarandi röddu? Ætlar þú aldrei að láta tímaskiptin minná þig á, að lífstími þinn er liðinn óðar enn þig varir, og að þá er líka sá tími liðinn, sem þèr var gefinn til iðrunar og apturhvarfs? Gættu að þèr í Guðs nafni! snúðu við, snúðu þèr til Drottins og skjóttu því ekki á frest til morguns, því þú átt ekki ráð á morgundeginum! þá ert þú, ef til vill, liðið lík. Æ! snúum oss allir til miskunsemdanna eilífa föðurs, og biðjum hann í Jesú nafni, að blessa oss á þessu nýbyrjaða ári með ríkdómi sinnar náðar í andlegum og líkamlegum efnum, svo að vèr á hverjum degi og hverri stundu eflum vora sáluhjálp með ótta og andvara og tökum framförum í dyggð og guðsótta. Ef vèr biðjum þessa af hjarta, ekki einúngis nú, heldur æ og iðulega, þá munum vèr öðlast bænheyrslu, og þá megum vèr ókvíðnir byrja þetta ár, ókvíðnir taka hverju því, sem að höndum ber, hvort heldur það verður blítt eða strítt, líf eða dauði, fullvissir um, að það kemur frá vorum himneska föður og miðar til að leiða oss til hans; þá munu einnig vorir ókomnu æfidagar ekki einúngis flytja oss nær gröf og dauða, heldur og nær himninum, nær voru rètta föðurlandi, sælunnar og friðarins landi. Æ, Drottinn! láttu þetta ár verða oss öllum þínum börnum gott og gleðilegt ár! Bænheyr það í Jesú nafni! Amen.

---

# Á sunnudaginn milli nýárs og þrettánda.

## Bæn.

Í þínu orði, Drottinn! eru öll vizkunnar auðæfi fólgin; það kennir oss að þekkja þinn heilaga vilja og þína eilífu náð og miskunsemi; það kennir oss, hvernig vèr eigum að breyta á þessari vorri tímanlegu vegferð, til þess vèr getum dáið kristilega og komizt á þinn fund og frelsara vors Jesú Krists. Góði himneski faðir! lát þú þitt orð jafnan vera ljós á vorum vegum og lampa vorra fóta, svo vèr framgaungum, ekki sem fávísir, heldur sem vísir; láttu oss halda fast við einfaldleik trúarinnar, en forðast slægð og vèlabrögð veraldarinnar; sendu þinn anda í vor hjörtu, anda ráðs og skilníngs, sem leiði oss í allan sannleika og kenni oss að gánga þann veg, sem liggur til þín, til eilífs lífs og eilífrar sælu! Amen.

## Guðspjallið
(Matth. II., 16.—18.).

Þegar Heródes sá, að hann var gabbaður af vitríngunum, varð hann reiður, sendi því út, og lèt drepa öll sveinbörn í Betlehem og í þeim hèruðum, er þar voru í grennd. tvævetur og þaðan af yngri, sem svaraði þeirri tímaleingd, er hann hafði komizt eptir af vitríngunum. Sannaðist þá það, sem spámaðurinn Jeremías segir: „Í Rama heyrðust hljóð, kveinstafir, grátur og vein mikið: Rakel syrgði sonu sína, og vildi ekki huggast láta, því það var útgjört um þá.

## Inngángur.

Svo eru hyggindi, sem í hag koma, segir máltækið. Vèr getum ekki heldur kallað það sannarleg hyggindi, sem ekki koma að sönnum notum, en sönn not eru einúngis innifalin í því, sem eflir vora sönnu, það er að skilja, vora andlegu og eilífu farsæld; „því hvað stoðar það manninn, þó hann eignist allan heiminn, ef hann líður tjón á sálu sinni“. Þau sönnu hyggindi eru því ekki innifalin í því, að komast áfram í heiminum, að afla sèr fjár og frama, heldur í því, að komast nær himninum og afla sèr þeirra auðæfa, sem hvorki mölur nè ryð fær grandað, og ná þeirri tign, að vera guðsbarn,

sem meira er í varið enn alla upphefð og öll metorð hèr á jörðunni. Breytni vitrínganna, sem guðspjallið getur um, minnir oss á, hvernig hinum sönnu hyggindum sè háttað; þar á mót sýnir dæmi Heródesar konúngs oss, hvernig hrekkvísi þessa heims barna er varið. Látum oss verja þessari helgu guðræknisstundu til að bera þetta hvorttvegja saman og gæta að þeim mismun, sem er á syndsamlegri slægvizku og sannarlegri vizku.

Í raun rèttri er einginn vitur nema Guð einn, því hann einn veitt alla hluti, bæði þá, sem verið hafa og verða munu; hann telur stjörnur himinsins og öll vor höfuðhár; hann einn sèr það, sem í myrkrunum felst og rannsakar hjörtu vor og hugrenníngar; hjá honum einum er alfullkomin þekkíng sameinuð heilögum vilja og óendanlegu almætti; hann einn sèr ætíð takmarkið, er hann stefnir að, og það er ætíð hið bezta og rèttasta, og hann einn sèr ætíð veginn, sem leiðir að takmarkinu, og tekur ætíð það ráðið, sem bezt á við allar kríngumstæður, og framkvæmir ásetníng sinn á fljótasta og bezta hátt. Guð einn er alvitur og frá honum sprettur öll vizka; „hann er", eins og postulinn kemst að orði, „faðir ljósanna, og frá honum kemur öll góð og fullkomin gjöf, og hjá honum er hvorki umbreytíng nè umbreytíngar skuggi" (Jak. 1., 17.). Öll vizka kemur frá Guði, því hjá honum var öll speki og þekkíng fyrir öndverðu. Í Salómons Orðskviðum er spekin sjálf látin bera vitni um þetta með svofeldum orðum: „Drottinn tilreiddi mig sem byrjun sinna vega áður enn hann byrjaði sín handaverk; eg em fædd, áður enn undirdjúpin voru til, áður enn lindirnar, þúngaðar af vatni, voru til, þegar hann tilbjó himininn, var eg hjá honum, þegar hann sirklaði hríng hafsins, þegar hann setti hafinu sín föstu takmörk, þegar hann festi jarðarinnar grundvöll, þá var eg hjá honum og eg var hans yndi dag hvern" (Orðsk. 6. 8., 22. 27. 29.—30.). Hin eilífa spekin, sem var í huga Guðs, áður enn hin sýnilega veröld varð til, vann með honum að sköpunarverkinu og birtist í gjörvallri náttúrunni. Þess vegna hefur líka sú mannlega vizka, sem skynsemin getur aflað sèr með skoðun sköpunarverksins, upptök sín frá Guði, að svo miklu leyti sem hún er sönn og samhljóða, ekki einúngis sjálfri sèr og sínum lögum, heldur og hlutunum eins og

þeir eru í raun og veru, samhljóða náttúrunni og þeim lögum, sem skaparinn hefur sett henni. En af því þessi náttúrlega vizka er opt raung og skökk og af því hún er ónóg, sökum þess að skilníngur vor er sljófgaður af syndinni, þá hefur Guð sèr í lagi opinberað oss sína speki í sínu heilaga orði, sem kennir oss það, sem einginn veraldar vitríngur hafði getað vitað eða upphugsað, og sem Páll postuli því kallar „speki Guðs leyndarráðs, er áður var hulin“ (1. Kor. 2., 7.), sem sè: hvernig Guð af sinni óumræðilegu elsku hafði ásett sèr að reisa hið fallna mannkyn á fætur aptur, friðþægja það við sjálfan sig og frelsa það frá yfirráðum syndarinnar og dauðans, en veita því hið heilaga, sælufulla, eilífa líf, sem hann í öndverðu hafði ætlað því. Það á hèr ekki við að tala um mismuninn á þeirri vizku, sem maðurinn fær af náttúruljósi sínu, og hinni, sem fæst af Guðs opinberaða orði; því vèr ætlum ekki að bera þá vizku, sem skynsemin og náttúran veita og sem hefur guðlegan uppruna, saman við þá kristilegu vizku, sem maðurinn aflar sèr af guðsorði, heldur ætlum vèr að bera þessa vizku saman við þá raungu vizku, eða þá syndsamlegu slægvizku, sem leiðir til vantrúar og guðleysis. Þessi samanburður gjörir ráð fyrir því, að þekkíng vor hafi áhrif á viljann og að vizkan komi ekki einúngis í ljós í hugmyndum, dómum og ályktunum, sem byggjast á þekkíngu og reynslu, heldur og í hjartalagi voru og breytni vorri, og því getum vèr heimfært híngað það, sem Jakob postuli segir um tvennslags vizku. „Sú speki“; segir hann, „sem ofan að er, hún er fyrst fölskvalaus, þar næst friðsöm, sannsýn, full miskunar og góðra ávaxta; fer ekki í manngreinarmun, er hræsnislaus“ (Jak. 3., 17.). Hún byggist, í stuttu máli, á greinilegri þekkíngu og lýsir sèr í öruggri sannfæríngu og lifandi trú, í kærleika og öllum kristilegum dyggðum. Þar á mót segir postulinn um hina vizkuna, sem hefur í för með sèr beiska öfund, flærð og lygi, að hún sè ekki einúngis „jarðnesk og holdleg, heldur og djöfulleg“ (3., 15.). Hún er jarðnesk, af því hún leitar einkis æðra enn jarðneskra og tímanlegra gæða, auðæfa, metorða, upphefðar, sællífis og munaðar. Hún er holdleg, af því hún reiðir sig eingaungu á mannlegt hyggjuvit, mannlegt vinfeingi og mannlegan mátt, en leitar ekki ráða nè aðstoðar hèr að ofan með því að biðja Guð eða hugleiða hans

orð: „hún gjörir holdið að sinni stoð og víkur með hjarta sínu frá Drottni“ (Jer. 17., 5.). Hún er djöfulleg, af því hún er óguðleg og leiðir frá Guði. Hún læzt ætla að losa manninn við hjátrú og hleypidóma, en steypir honum í djúp vantrúar og lasta. Sannleikann metur hún einkis, þegar eigingirni, metorðagirnd, hatur og heiptrækni eru annars vegar, og ætli sannleikurinn að reisa einhverjar skorður við þessu, leitar hún allra bragða og beitir alls konar vèlum til að bæla hann niður; hún kennir hinum vantrúaða að trúa á mátt sinn og megin og segja í hjarta sínu: „það er einginn Guð til“ (Sálm. 14., 1.) — þó varast hún að sýna sig í sinni rèttu mynd, varast að láta opinberlega í ljósi fyrirlitníngu fyrir Guði, hans þjónustu og hans orði, og stundum tekur hún á sig yfirskyn guðhræðslunnar til að geta komið vel ár sinni fyrir borð og hulið sín hrekkvísu áform; hún fer að eins og Satan, sem postulinn segir, „að snúi sèr í ljóss eingil“ (2. Kor. 11., 14.)

Merkilegt dæmi uppá þessa djöfullegu vizku sjáum vèr af breytni Heródesar konúngs, sem guðspjallið getur um. Þegar vitríngarnir úr austurlöndum spurðu um hinn nýfædda konúng Gyðínga, varð Heródes konúngur skelfdur og öll Jerúsalem með honum. Heródes óttaðist fyrir því, að þessi Davíðs niðji mundi reka sig og ætt sína frá völdum. Þó lèzt hann taka innilega hlutdeild í þessum mikilvæga viðburði, og lèt samankalla alla æðstu presta og löglærða lýðsins og spurði þá: hvar Kristur ætti að fæðast, og þegar þeir sögðu honum: „í Betlehem“, sendi hann vitríngana þángað. En fyrst spurði hann þá vandlega „nær stjarnan hefði sèzt“, svo hann af því gæti gezkað á um aldur barnsins, og bauð þeim að koma aptur og segja, hvar þeir hefðu fundið barnið, svo hann gæti líka farið og sýnt því lotníngu. Allt þetta gjörði hann á laun, sem hann ekki hefði þurft, ef hann hefði gjört það í góðum tilgángi; en tilgángur hans var sá, að ná lífi barnsins, eins og sèst af ódáðaverki því, er hann framdi, þegar hann sá, „að hann var gabbaður af vitríngunum“. Þessi slægð Heródesar varð enn þá hegníngarverðari við það, að hann ráðfærði sig við guðsorð og spádómana til að geta komið fram sínum óguðlega ásetníngi. En eptirtektaverð er sú heimskulega mótsögn, sem hèr kom fram í slægvizku hans; meðan hann var að komast eptir því,

hvar barnið ætti að fæðast, lagði hann trúnað á spádóminn; en þegar hann hafði feingið það að vita, vildi hann koma í veg fyrir, að spádómurinn gæti rætzt. það ber opt við, að hugarfar hinna vantrúuðu er þannig í sjálfu sèr sundurþykkt. þó þeir fyrirlíti guðlega hluti og hafi þá einúngis fyrir skálkaskjól og til að hylja með lesti sína og klæki, eru þeir þó með sjálfum sèr hræddir við eitthvert ósynilegt andlegt vald; en leita þess heldur í myrkrinu enn ljósinu. þeir trúa ekki á Guð nè hans orð, heldur á Satan og tilbiðja hann, ekki einúngis með því að ákalla hans nafn, heldur og með því að aðhafast það, sem er að hans skapi og samkvæmt því hugarfari, sem vèr tileinkum honum. Dæmi Heródesar sýnir oss einnig, hvernig hrekkjafull slægvizka getur að vísu komið miklu illu til leiðar með þeim brögðum, sem hún beitir; en að hún þó állt fyrir það sjaldan nær tilgángi sínum. þegar Heródes sá, að hann var gabbaður af vitríngunum og hann hafði feingið að vita af hinum skriptlærðu, að Kristur ætti að fæðast í Betlehem, tók hann það til bragðs, að hann lèt drepa öll sveinbörn í Betlehem tvævetur og þaðan af ýngri, eptir því sem vitríngarnir höfðu sagt honum um aldur barnsins. En hverju áorkaði hann með þessu guðlausa níðíngsverki? „Eingill Drottins vitraðist Jósep í draumi", svo hann flúði með barnið til Egyptalands og Heródes náði ekki sínum óguðlega tilgángi.

það er ekki furða, þó oss, kærir bræður! hrylli við þessu ódáðaverki Heródesar, og vèr huggum oss með því, að það sè sjaldgæft, að hitta slík villidýr í mannsmynd. því fer betur, að fæstir hafa tækifæri til að drýgja þvílíka glæpi; en, því miður, er það hugarfar, hvaðan þeir spretta, ekki svo sjaldgæft í heiminum. Í hverju er þá þetta hugarfar innifalið? Í því, að menn meta sjálfa sig mest allra hluta; að menn gjöra sína eigin hagsmuni að sínu einasta og æðsta augnamiði; að menn, til að ná því, beita öllum brögðum, viðhafa allar vèlar og skeyta ekki um, hversu óleyfileg og rángsleitin sem aðferð þeirra er, ef þeir einúngis geta komizt klakklaust af og náð tilgángi sínum. Með þessari slægð og hrekkjum komast þeir til álits og valda í veröldinni og raka saman auð fjár. Opt líkjast þessir menn Heródesi einnig í því, að þeir eru harðstjórar á heimilum sínum,

eins og hann var; harðir og illir við alla, sem undir þá eru gefnir.

þèr, sem fótum troðið kærleikans heilaga lögmál, og fyrirlítið mannelskunnar heilaga boðorð; þèr, sem með harðýðgi og hatursfullri sambúð daglega særið hjörtu elskandi ektamaka; sem með heimskulegri hörku reitið börn yðar til reiði, spillið þeim með lastafullu eptirdæmi og leiðið þau á glötunarinnar veg; þèr, sem með slægð og vèlum leggið snörur fyrir nágranna, vandamenn og vini, sem fagnið yfir óförum og ógæfu annara manna, þèr, sem með öllu móti leitizt við að spilla góðum siðum yðar samkristnu bræðra, og svífizt jafnvel ekki við að taka á yður yfirskyn guðhræðslunnar og tæla þá með helgum hræsnissvip: þèr munuð allir á efsta degi í Drottins allsherjardómi verða settir við hlið Heródesar konúngs, þessa guðlausa manns, sem lèt drepa börnin í Betlehem og þar að auk konu sína og sonu. Yður vantar kærleikann eins og hann, og til yðar mun Kristur einnig segja: „eg þekki yður ekki“. Þá munuð þèr finna til þess, þótt þèr ekki verðið þess fyrr varir, að það er satt, sem Salómon segir, „að spekin kemst ekki inn í þá sál, sem illt bruggar, og býr ekki í þeim líkama, sem syndin þrælkar“ (Spek. b. 1., 4.). Á þessum sama stað í ritníngunni standa líka þessi eptirtektaverðu orð: „því sá helgi menntunar andi flýr hrekki og fer burt frá óskynsamlegum hugsunum, og þegar ránglætið nálgast, þá fælist hann burt“. Hversu slægvitrir sem hinir hrekkvísu eru, baka þeir sèr þó einatt eymd og ógæfu, jafnvel í tímanlegum efnum; af því þeir eru lastafullir og láta sèr stjórna af girndum sínum; þannig hlaupa þeir á sig og hugsanir þeirra verða óskynsamlegar. Við þessari hrekkjafullu slægvizku varar líka Páll postuli oss, þegar hann er að tala um þá, „sem hafa þótzt vera vitrir, en sèu orðnir heimskíngjar, af því þeir hafi skipt um sannleika Guðs fyrir lygi“ (Róm. 1., 22., 25.), og segir, „að með því þeir hafi ekki sinnt því, að hafa Guð þekktan, þá hafi Guð ofurselt þá fráleitu sinni“. Guð lætur þessa þverbrotnu syndara vera sjálfráða; hann lætur vantrú sjálfra þeirra verða þeim til kvalar og hegníngar, þó þeir ekki með opinberum glæpum steypi sèr í ógæfu, heldur geti með slægð og kænsku og útvortis siðsemi haldið áliti sínu óskertu í heimsins augum.

Í raun og veru er öll synd meðfram heimska; og þetta lýsir sèr, ekki einúngis hjá hinum hugsunarlausa og lèttúðarfulla, sem ofurselur sig girndum sínum, heldur og hjá kænum og slægvitrum mönnum, sem vandlega íhuga og leggja niður hvert fótmál, sem þeir stíga á vegi ránglætisins; þeir verða þess allir fyrr eða síðar varir, að með því að víkja frá hinu sanna og rètta, hafa þeir skaðað sjálfa sig eins og aðra og breytt fávíslega. „Því sá, sem sáir ránglæti, mun uppskera ógæfu og hans hegníngarhrís er reiðubúið“ (Orðskv. 22., s.). Eins og dyggðin er sín eigin verðlaun, eins er syndin vön að vera sín eigin hegníng, og það þegar í þessu lífi, og þó ekki beri á hegníngunni í heimsins augum, þá verður þó syndarinn, er sætir henni, var við hana með sjálfum sèr, og þá er hún hvað sárust og sviðamest, þegar hún brennir hjarta hans.

Eins og vèr af dæmi Heródesar sjáum hina syndsamlegu slægvizku, sem er „óvinátta gegn Guði“; þannig sýnir breytni vitrínganna úr austurlöndum oss hina sönnu vizku, sem kemur frá Guði og leiðir til hans. Vitríngar kölluðust þeir einkanlega af þekkíngu sinni á gángi stjarnanna og himintúnglanna, sem fornaldarþjóðir hèldu, að hefði áhrif á það, sem viðbar hèr á jörðunni. En það er ekki í þessu tilliti, sem þeir sýna oss hina sönnu speki. Stjörnufræðin er að sönnu mikilvæg vísindagrein; en hún kemur einúngis þeim við, sem leggja sig eptir henni, og nú taka menn ekki leingur mark á gángi stjarnanna eins og forðum. Þegar vèr nú sjáum einhverja stjörnu á himninum, þó hún væri ný og áður óþekkt, getur það ekki haft önnur áhrif á oss, enn vakið hjá oss undrun og lotníngu fyrir Guði og hans dásemdarverkum. Þegar vèr þar á mót virðum fyrir oss breytni vitrínganna, eigum vèr að gefa gætur að þeirra óbifanlegu trú. Þeir þekktu og lögðu trúnað á spádóminn (Mikk. 5. kap.) um þann konúng, er koma mundi, til að færa mönnunum frið og rèttlæti, og þess vegna hugðu þeir vandlega að hinni nýju stjörnu, og hèldu, að hún boðaði nýjan konúng, nýtt ríki, sem sè hið leingi eptirvænta guðsríki, sem átti að útbreiðast frá Síonsborg yfir allan heim. En þeir lètu sèr ekki lynda ætlun sína um, að hið mikla fyrirheit væri nú uppfyllt, heldur vildu þeir sjálfir sjá það og sannfærast um það. Þess vegna tókust þeir lánga og erfiða ferð á hendur og lètu

hvorki hættur nè torfærur halda sèr aptur, nè vèlabrögð Heródesar kongúngs blekkja sig, og þegar þeir komu til Betlehem, gátu ekki fátæklegar og lítilmótlegar kríngumstæður hans, „sem vera skyldi konúngur yfir húsi Jakobs að eilífu", veiklað trú þeirra, heldur „fèllu þeir fram og veittu honum lotníngu, opnuðu fjárhirzlur sínar og færðu honum gjafir: gull, reykelsi og myrru". þessi atburður er ekki einúngis merkilegur í því tilliti, að hann er eins og nokkurs konar spádómur um það, hvernig ljós evangelii bráðum mundi útbreyðast út yfir takmörk Gyðíngalands og vekja athygli þjóðanna, heldur er hann einnig lærdómsríkur fyrir oss. Ef vèr í staðinn fyrir stjörnuna, sem er hvorfin, setjum Krists lærdóm, sem nú hefur næstum því í tvö þúsund ár skinið hèr á jörðunni, þá sýnir frásagan um ferð vitrínganna úr austurlöndum oss, hvers vèr sem kristnir eigum að gæta á vegferð vorri um þenna heim. þegar vèr hugleiðum, hvílíka eptirtekt þeir veittu stjörnunni, sem teikni af himni, og hvernig þeir trúðu spádóminum, hugleiðum þeirra guðrækilega áform að leita þessa guðdómlega barns, forsjálni þeirra og stöðuglyndi í að framkvæma sitt helga áform, þeirra óbifanlegu trú, sem ekki haggaðist við það, þó ástand hins nýfædda barns væri lítilmótlegt í heimsins augum, og lotníngu þá, sem þeir veittu því — þá sýnir þetta allt oss, hvernig hinni sönnu vizku er varið. Sú sanna vizka nær, eins og áður er getið, ekki einúngis til þekkíngar vorrar, heldur og til hjartalags vors. Að vísu er hún fyrst og fremst innifalin í þekkíngu á öllu því, sem oss er nauðsynlegt og þarflegt að vita; vèr segjum: nauðsynlegt og þarflegt, því margur veit mikið og margt, en ekki það, sem hann einkanlega þarf að vita, ekki það, sem heyrir til köllunar hans eða sem hann gæti hagnýtt sèr til nytsamlegra fyrirtækja; þess vegna er hann, með allri sinni þekkíngu, fávís. Aptur eru það aðrir, sem hvorki hafa mikla nè djúpsæa þekkíngu, en vita það vel, sem heyrir til þeirra köllunar, það sem þeim í stöðu sinni ríður á að vita, og þegar þeir verja þessari þekkíngu sinni vel, þá mega þeir heita vel viti bornir. En hvaða þekkíng er það, sem er nauðsynlegust og mest áríðandi fyrir oss, alla í hverri helzt stöðu sem vèr erum og hvernig sem ástatt er fyrir oss? Er það ekki þekkíngin á því, sem viðvíkur vorum sáluhjálparefnum? Og þessa þekkíngu

fáum vèr af guðsorði. Ættum vèr þá ekki að kynna oss það eða gefa því gaum? Þar finnum vèr þá vizku, sem ritníngin segir, „að sè geisli þess eilífa ljóss, fegri enn sólin og efri öllum stjarnaröðum“ (Spek. b. 7., 26., 29.). Þannig er hinni opinberuðu vizku lýst í Gamlatestamentinu; og hve miklu æðri mun hún ekki vera í Nýjatestamentinu, eptir að hún sjálf stè niður af himnum í orðinu, „sem varð hold“ og dvaldi sýnilega hèr á jörðunni? „Hèr við urðum vèr vissari um spámannanna orð“, segir Pètur postuli, „og þèr breytið vel, ef þèr gefið gaum að því eins og ljósi, sem skín á myrkum stað, þar til dagur ljómar og morgunstjarnan upprennur í yðrum hjörtum“ (2. Pèt. 1., 19.). Ef vèr fyrst hugleiðum rit spámannanna og aðgætum, hvernig Drottins orð lýsti Gyðíngaþjóðinni eins og ljós á nóttu, þá verðum vèr enn þá innilegar hrærðir, enn þá vissari í vorri sannfæríngu, enn þá fastari í trú vorri, þegar vèr sjáum daginn ljóma í Nýjatestamentinu, og Krist renna þar upp eins og „skæra morgunstjörnu“. En hann rennur ekki einúngis upp fyrir augum skilníngsins og þekkíngarinnar, heldur og, eins og postulinn segir, í hjörtum vorum, þegar vèr opnum þau fyrir himneskum geislum þeirrar guðlegu náðar, sem í honum opinberaðist. En morgunstjarnan og sólin lýsa ekki þeim, sem sefur; hann getur ekki heldur risið á fætur til að gánga í ljósinu á lífsins vegi, nema hann sè áður vakinn. Þegar því Páll postuli áminnir oss með þessum eptirtektaverðu orðum: „Sjáið því til, að þèr gángið forsjállega, ekki sem fávísir, heldur sem vísir“, þá segir hann fyrst: „vakna þú, sem sefur, og rís upp frá dauðum, þá mun Kristur lýsa þèr“! (Efes. 5., 14., 15.). Þessi vekjandi rödd kallar ekki einúngis til stórsyndara og glæpamanna, sem sofa í holdlegu andvaraleysi, heldur einnig til þeirra, sem sofnaðir eru í trausti til síns eigin rèttlætis, hvort sem það heldur eru veraldlega sinnaðir menn, sem halda, að þeir þurfi ekki á öðru ljósi að halda enn dagsbirtunni, ekki annars leiðtoga við enn sinnar veraldlegu vizku og ytri siðsemi, eða það eru hræsnarar, sem hæla sèr af guðræknisiðkunum sínum og mannelskuverkum, sem hafa yfirskyn guðhræðslunnar, en afneita hennar krapti til að betra hjartað og líferníð. En vèr þurfum allir, kærir bræður! að gefa gaum að hinni vekjandi og aðvarandi röddu. Jafnvel

iðrandi menn og sannkristnir þurfa þess við, að þeir sèu daglega vaktir og áminntir, svo þeir sofni ekki í andvaraleysi; þeir þurfa daglega að endurminnast þessara frelsarans orða: „vakið og biðjið, svo þèr fallið ekki í freistni; andinn er að sönnu reiðubúinn, en holdið er veikt“! (Matth. 26., 41.). Á árvekni, það er að skilja, aðgæzlu á sjálfum oss, þurfum vèr að halda, jafnvel í tímanlegum efnum. Munum vèr þá geta verið án hennar í andlegum efnum? En lítið stoðar öll vor árvekni, nema henni sé samfara heit og innileg bæn. „En vanti einhvern yðar vizku“, segir postulinn, „sá biðji þann, sem gefur öllum eptirtölulaust og án brigzlyrða, og mun hún honum gefast; en hann biðji með trúnaðartrausti og efist ekki; því sá, sem er efablandinn, hann er líkur hafsins bylgjum, uppæstum og hröktum af vindi“ (Jak. 1., 5.—6.). Þar á mót ef vèr biðjum heitt og innilega og með trúnaðartrausti, þá munum vèr, eins og vitríngarnir úr austurlöndum, öðlast krapta til að þreyta vort skeiðhlaup og keppa áfram þann veg, sem oss er fyrirsettur, þángað til vèr náum friðarins höfnum; þá munum vèr halda beint og hvorki hræðast hættur nè torfærur, ekki láta oss tæla af vondri veröld nè gefa gaum að hótunum hennar eða ginníngum, heldur með stöðuglyndi leita á fund frelsara vors, tilbiðja hann, hlýða og þjóna honum. Þetta er sú vizka, sem kemur hèr að ofan og sem vèr öðlumst, ef vèr innrætum oss guðsorð og heimfærum það til vor með trúuðum hjörtum. Í því er sú sanna kristilega vizka innifalin, að vèr af guðsorði lærum að þekkja hans heilaga vilja og hans náðarríku ráðstafanir oss til sáluhjálpar, og að vèr með aðstoð hans anda tileinkum oss það í lifandi trú og leitumst við að laga líferni vort eptir því, með stöðugri árvekni og bæn, í trausti til þeirrar náðar, sem Jesús hefur oss afrekað, hann, „sem oss er orðinn speki frá Guði, til rèttlætis, helgunar og endurlausnar“ (1. Kor. 1., 30.).

Þú, sem með frómlunduðu og guðrækilegu hugarfari leitar þessarar vizku í guðsorði, þú munt með henni komast betur af, jafnvel í þessari veröld, enn heimsins börn með sinni syndsamlegu slægvizku.

Eins og stjarnan gekk undan vitríngunum þángað til hana bar yfir Betlehem, þar sem hið himneska barnið var; þannig

mun og úr orði Drottins upprenna ljós og leiðarstjarna, sem geingur undan þèr og segir þèr til vegar á lífsleiðinni, og sýnir þèr, hvort þú átt að keppa. Æ! fylg þú þessu ljósi í stríðu og blíðu, í gleði og sorg, og þegar dauðans nótt upprennur og þú missir sjónar á dagsbirtunni og öllum hinum sýnilegu ljósum, líttu þá trúaraugum þínum upp til himins! og þar munt þú enn sjá ljós guðsorða skína skært og fagurt og benda þèr á fund frelsara þíns, „sem er geisli þess eilífa ljóss, fegri enn sólin og ofar öllum stjarnaröðum". Guð gefi þèr og oss öllum sína náð til þess að komast á hans fund, í Jesú nafni! Amen.

---

## Á fyrsta sunnudag eptir þrettánda.

### Bæn.

Þú, Drottinn! ert faðir allra, sem börn kallast bæði á himni og jörðu; frá þèr er allt faðerni komið, því þú ert höfundur og skapari allra hluta; þú viðheldur og stjórnar öllu og elur föðurlega önn fyrir öllum þínum lifandi skepnum. En í eingu hefur þú sýnt oss mönnunum þína föðurgæðsku eins dásamlega og í sendíngu þíns eingetna sonar, frelsara vors Jesú Krists. Hann hefur auglýst oss þitt óendanlega náðareðli og með sinni friðþægíngu opnað oss aðgáng til þín og útvegað oss barnarèttinn. Æ! styrk þú oss, góði faðir! með náð þíns anda til að gæta þessa barnarèttar með lifandi trú og auðsveipinni hlýðni við þig, en forðast að skerða hann með syndsamlegu athæfi, svo að vèr jafnan megum vera þín börn, kostgæfin til allra góðra verka. Þá getum vèr í trausti til þinnar föðurlegu handleiðslu ókvíðnir runnið vort æfiskeið og hughraustir tekið hverju því, sem að höndum ber; þá getum vèr á vorri dauðastundu vonglaðir falið vorn anda í þínar föðurhendur, og þá munum vèr á eilífðarinnar morgni fá að heyra þessi fagnaðarríku orð af frelsarans munni: „komið blessuð börn míns föðurs og eignizt það ríki, sem yður er frá eilífð fyrirhugað"! Bænheyr oss í Jesú nafni, faðir vor! o. s. frv.

### Guðspjallið

(Lúk. II., 42.—52.).

Þegar Jesús var tólf ára gamall, fóru foreldrar hans upp til Jerúsalem, eins og siður var til á hátíðinni.

þegar hún var liðin, snèru þau aptur heimleiðis, en sveinninn Jesús varð eptir í Jerúsalem; en foreldrar hans vissu það ekki og hèldu, að hann mundi vera í flokki samferðamanna þeirra; fóru þau svo eina dagleið, og leituðu hans meðal frænda og kunníngja; en þá er þau fundu hann ekki, snèru þau aptur til Jerúsalem, og leituðu hans þar, og eptir þrjá daga fundu þau hann í musterinu, hvar hann sat meðal lærifeðranna, hlýddi á tal þeirra og spurði þá; en alla, sem heyrðu, furðaði á skilníngi hans og andsvörum. Og er þau sáu hann, hnikkti þeim við; en móðir hans sagði til hans: „Sonur minn! því breyttir þú svo við okkur? sjá þú! faðir þinn og eg leituðum harmþrúngin að þèr“. En hann sagði til þeirra: „því hafið þið leitað eptir mèr? vissuð þið ekki, að mèr byrjar að vera í þeim hlutum, sem míns föðurs eru“? En þau skildu ekki, hvað hann meinti. Og hann fór með þeim til Nazaret, og var þeim hlýðinn. En móðir hans geymdi öll þessi orð í hjarta sínu. Og Jesú óx aldur og vizka og náð hjá Guði og mönnum.

## Inngángur.

Hið upplesna guðspjall segir oss, „að Jesús hafi verið foreldrum sínum hlýðinn, og að honum hafi aukizt aldur og vizka og náð hjá Guði og mönnum“. Eins og gjörvalt Jesú heilaga líf er hið fegursta dyggðadæmi, sem vèr eigum að ástunda að líkjast eptir því sem vèr breyskir og syndugir menn framast megnum, þannig hefur hann og með hlýðni sinni við foreldra sína sýnt oss, hvernig börnin eiga að elska foreldra sína og hlýða þeim. En þó sjáum vèr af guðspjallinu, að Jesús þegar á únga aldri var sèr meðvitandi um sinn guðlega uppruna og háleitu ákvörðun. það sjáum vèr af því svari, sem hann gaf móður sinni, þegar hún sagði: „sjá þú! faðir þinn og eg leituðum harmþrúngin að þèr“ — hún meinti Jósep fósturföður hans —; þá svaraði hann: „vissuð þið ekki, að mèr byrjar að

vera í þeim hlutum, sem míns föðurs eru"? þetta eru þau fyrstu orð hans, sem guðspjallamennirnir hafa bókað, og með þeim gaf hann til kynna, að hann væri Guðs sonur og að hans rètti og sanni faðir væri á himnum. Guðspjallamaðurinn segir, að foreldrar Jesú hafi ekki skilið þessi orð hans; og er það meiníngin, að þó þau vissu, að hann var sá eptirvænti Guðs son, sem átti að stofna guðsríki á jörðunni, vantaði þau þó rètta og fullkomna þekkíngu á þessu, og hana feingu þau ekki fyrr enn hann með kenníngu sinni og kraptaverkum, með dauða sínum og upprisu var búinn að afljúka sínu háleita ætlunarverki. Svo er þessu líka varið fyrir oss. Til þess að vèr rètt skiljum, hver hann er sem Guðs son og hvernig Guð er hans og vor faðir, þá er það ekki nóg, að vèr vitum það, sem vèr frá blautu barnsbeini höfum heyrt og lesið um eingilinn, sem færði María Jesú móður og hirðurunum í Betlehem þau himnesku fagnaðartíðindi um fæðíngu frelsarans, heldur verðum vèr og, að dæmi lausnara vors, að ástunda, „að vera í þeim hlutum, sem vors himneska föðurs eru", og vera honum sameinaðir í trú og kærleika, svo að vèr finnum til þess með sjálfum oss, að hann er vor elskulegur faðir og vèr hans elskuleg börn. þess vegna er það mjög áríðandi fyrir oss, að hafa rètta hugmynd um það, í hvaða skilníngi Guð er vor faðir, og til þessarar hugleiðíngar viljum vèr verja þessari guðræknisstundu.

„Einn er faðir yðar, sá á himnum er", segir Jesús (Matth. 23., 9.), og í þessum orðum felst kjarni kenníngar hans og friðþægíngar. Bæði í náðarinnar og náttúrunnar ríki er Guð vanur að hafa hin einföldustu meðul. Alvizka hans hefur einatt það í náttúrunni, sem liggur næst og er almennast til að koma hinum mikilvægustu hlutum til leiðar í andlegum efnum. þannig er vatninu í skírninni varið, brauðinu og víninu í kvöldmáltíðinni; sá kraptur, sem þessir hlutir hafa til að hreinsa, endurnæra og styrkja líkamann, sýnir oss andlegar verkanir þessara sakramenta, þegar þeirra er verðuglega neytt. Eins er þeim orðatiltækjum háttað, sem Drottinn ávarpar oss með í sínu orði; þau eru að mestu leyti einföld og algeing og tekin úr mannlegu lífi, eins og það er venjulegast. þess vegna eru þau öllum svo skiljanleg og vel fallin til að efla almenna upplýsíngu.

þar á mót gjörir mannleg vizka sig til af orðaprjáli, sem opt gjörir hlutina óskiljanlegri í stað þess að skýra þá, og veldur óþarfaspurníngum, „sem leiða af sèr þráttanir“ (Tím. 2., 23.). Með slíkum óskiljanlegum orðatiltækjum hafa menn jafnvel afbakað hugmyndina um Guð, þegar þeir hafa verið að ígrunda hans eilífu veru, og annaðhvort blandað honum saman við veröldina, eða gjört hann að blindum forlögum, eða eintómum skugga. þetta gaf Jesús til vitundar þegar hann úthellti sínu guðlega, kærleiksfulla hjarta í þessum orðum: „eg þakka þèr faðir, Drottinn himins og jarðar! að þú hefur látið þessa hluti vera hulda fyrir fróðum mönnum og spekíngum, en auglýst þá fáfróðum“ (Matth. 11., 25.). þeir, sem eru þá fróðir í þeim skilníngi, að þeir reiða sig ekki á sitt hyggjuvit, heldur biðja Guð með sonarlegu hugarfari, finna til þess í hjarta sínu, að Guð er þeirra faðir; og hversu auðskilið, hversu fagurt og þýðíngarfullt er það ekki, að kalla hinn eilífa kærleika föður, sem hefur skapað alla hluti og viðheldur öllu! Hversu háleit, en þó einföld og auðskilin, hversu inndæl fyrir sálir vorar er ekki sú tilhugsun, að vèr eigum föður á himnum; að hinn eilífi og almáttugi skapari og drottinn himins og jarðar elskar oss og verndar, og elur önn fyrir oss sem sínum börnum, að hann annast þann lítilmótlegasta, fátækasta og fáfróðasta eins og þann voldugasta, ríkasta og mestu gáfum gædda; að hann er faðir allra föðurlausra, allra þeirra, sem ekkert skjól eða athvarf eiga hèr á jörðunni; að vèr í bænum vorum megum nálgast þenna alvalda konúng konúnganna og drottin drottnanna, eins og þegar góð börn biðja ástríkan föður; að hann ekki einúngis hèr í tímanum fylgir oss með sínu alskyggna auga og sinni föðurlegu handleiðslu, heldur og kallar oss, þegar reynslutími vor hèr er liðinn, heim til sinna himnesku föðurhúsa, og lætur oss lifa þar hjá sèr í eilífum fögnuði og friði! þessi tilhugsun, sem er kjarni Krists lærdóms, er betur löguð enn allt annað, til að verma hin köldu hjörtun, til að hughreysta þann ístöðulausa, styrkja þann veika, hugga þann sorgmædda. þegar vèr köllum Guð vorn föður, þá sameinum vèr það æðsta, sem vèr getum hugsað oss, við hjartans innilegustu og viðkvæmustu tilfinníngar, hina óendanlegu veru við vor barnahjörtu. Og þegar Drottinn á himnum leyfir oss breyskum og ófullkomnum

jarðarinnar börnum, að kalla sig föður, þá stráir þetta föðurnafn himneskum geislum á sambandið milli föðurs og barna hèr á jörðunni. Því ætti sèrhver faðir vel að varast, að vanhelga þetta nafn, sem Drottinn hefur gefið sjálfum sèr; en börnin geta líka af því sèð, hvernig þeim ber að breyta við föður og móður, sem himnafaðirinn hefur falið á hendur, að gæta þeirra og uppala þau.

En hefur kristileg trú komið upp með það, að ákalla Guð sem föður? Vorir heiðnu forfeður tilbáðu líka alföður. Þeir höfðu, eins og fleiri heiðnar þjóðir, einhverjar óljósar hugmyndir um skapara og viðhaldara allra hluta, sem líklega voru leifar af guðsþekkíngu vorra fyrstu foreldra. En látum oss bera saman þá guðsþekkíngu, sem skynsemin getur feingið af sjálfri sèr, við þá, sem Guðs opinberaða orð veitir, svo vèr getum sèð mismun þeirra.

Þegar vèr rekjum ættir vorar upp til hinna fyrstu manna og spyrjum, hvernig þeir hafi getað orðið til án þess að fæðast af öðrum mönnum, þá getur ekki mannlegur skilníngur, nè mannleg reynsla leyst úr þessari spurníngu; því hèr hættir sú niðurröðun hlutanna, sem vèr þekkjum; hèr verður ekki leingur komið við hinum venjulegu öflum náttúrunnar, nè þeim lögum, sem hún er vön að hlýða. Hèr verður skynsemin að leita að öðru afli fyrir utan náttúruna; en vèr þekkjum ekki slíkt afl, nema höfund náttúrunnar, eða sjálfan Guð. Guð hefur með almætti sínu skapað hina fyrstu menn, eins og hin fyrstu dýr og fyrstu ávexti af öllum tegundum. Þareð nú bæði hjarta vort og skilníngur segja oss, að höfundur allra hluta hljóti að vera algóður eins og hann er alvitur og almáttugur, og þareð gjörvöll náttúran ber vitni um gæðsku hans, kemur upp hugmyndin um alföður, sem verndar og elskar allar sínar sköpuðu skepnur. Í þessum skilníngi er Guð faðir „orma og anda“. En nú er spurt um, í hverju tilliti Guð sè faðir mannanna sèr í lagi. Skynsemin segir oss, að þareð maðurinn er sú einasta skepna á jörðunni, sem getur þekkt og elskað Guð og með frjálsum vilja hlýtt hans boðum, þá sè sambandinu milli hans og mannanna öðru vísi háttað enn því, sem er milli hans og hinna annara lifandi skepna, þó hann einnig gæti þeirra eins og allra hluta. Þó ýmsar skynlausar skepnur geti numið margt

og tekið miklum framförum, stendur þó dýraríkið yfirhöfuð í stað. þar á mót menntast og fullkomnast mannkynið allt af meir og meir fyrir tilstilli og handleiðslu guðlegrar forsjónar. En þó sú menntun, sem maðurinn fær af skynseminni, náttúrunni og reynslunni, hafi með tímanum tekið óvenjulegum framförum í öllu því, sem miðar til að efla tímanlega hagsæld og unað lífsins, hefur hún þó reynzt ónóg í þeim hlutum, sem heyra til mannanna æðri ákvörðunar; því þeir verða aldrei svo siðprúðir, að þeir finni ekki til syndasektar, sem á þeim liggur og sem þeir ekki geta af sèr lètt, og þó þeir hugsi sèr Guð sem góðan föður, sem er fús á að fyrirgefa bresti og yfirsjónir barna sinna, verður það þó ætíð óskiljanlegt, hvernig hann sem dómari getur gjört það, þareð samvizkan, eða meðvitundin um hið eilífa rèttlæti, heimtar fullkomið endurgjald fyrir hið góða og hið illa, hið rètta og hið ránga. Með því nú skynsemin getur ekki af sjálfri sèr leyst úr þeirri spurníngu, hvernig miskunsemi Guðs verði rímuð saman við hans rèttlæti, og því ekki til hlítar kennt oss að þekkja Guð sem föður, eða fullvissað oss um fyrirgefníngu vorra synda, viljum vèr stuttlega íhuga, hvað Guðs opinberaða orð kennir oss um þetta efni.

Af ritníngunni sjáum vèr, hvernig Guð bar umhyggju fyrir vorum fyrstu foreldrum eins og nákvæmur og nærgætinn faðir og veitti þeim allt, sem þeir viðþurftu sèr til lífsuppeldis, einnig eptir að þeir höfðu syndgað og hvorfið frá honum. En það, sem einkum lýsti Guðs föðurlega hjartalagi við sín föllnu börn, var það fyrirheit, sem hann gaf þeim, um frelsarann, sem skyldi sigrast á hinu vonda valdi, koma mönnunum aptur í samfèlag við Guð og gjöra þá aptur að hans börnum.

þessi nýji barnarèttur, sem mönnunum er veittur af guðlegri náð, byggist á endurlausninni og helguninni, eða endurfæðíngunni. Með endurlausninni er oss veittur kostur á að verða guðsbörn, og fyrir helgunina verðum vèr það. „En þegar sá tilsetti tími var kominn“, segir postulinn, „sendi Guð sinn son, fæddan af kvinnu, lögmálinu undirgefinn, svo að hann endurleysti þá, sem undir lögmálinu stóðu, og vèr feingjum barnarèttinn“ (Gal. 4., 4., 5.). Til að endurleysa oss frá yfirráðum syndarinnar og dauðans, stè Guðs eingetinn sonur niður á jörðina og birtist hèr í tímanum sem „mannsins son“. þannig

varð hann vor bróðir í holdinu, til þess að vèr yrðum hans bræður í andanum; hann varð vor bróðir hèr á jörðunni, til þess að vèr yrðum samarfar hans á himnum. „því sá sem helgar og þeir sem helgaðir verða“, segir postulinn, „eru allir börn eins föðurs; þess vegna fyrirverður hann sig ekki að kalla þá bræður, þar hann segir: eg vil kunngjöra þitt nafn bræðrum mínum“ (Hebr. 2., 11.—12.). Jesús kallar oss bræður, ekki einúngis af því, að hann lítillækkaði sig niður til vor, heldur og til þess að lypta oss upp til sín. Hèr á jörðunni var hann, eins og postulinn kemst að orði, „í öllu bræðrum sínum líkur, svo hann verða kynni miskunsamur; og hann var freistaður á allan hátt eins og vèr, þó án syndar, svo hann gæti sampínzt vorum veikleika“ (Hebr. 2., 17. 4., 15.). Hann gaf sig sjálfan í dauðann, svo hann með sínum dauða endurleysti oss, „sem af ótta fyrir dauðanum lifðum allan vorn aldur undir ánauðar oki“ (Hebr. 2., 15.). En Kristur kallar oss bræður, ekki einúngis í sinni niðurlægíngu, heldur og í sinni upphefð og dýrð; hann gaf oss þetta nafn þegar hann var risinn upp frá dauðum skömmu áður enn hann uppstè til himins. „Kona! hvað grætur þú“? sagði Jesús við Maríu, sem stóð hjá gröf hans og grèt. „Far þú til bræðra minna og segðu þeim, eg muni uppstíga til míns föðurs og yðvars föðurs, til míns Guðs og yðvars Guðs“ (Jóh. 20., 15., 17.). Já, Guðs eingetni sonur, sem íklæddist voru holdi til að verða vort ljós og leiðtogi, vor fræðari og frelsari, er til himins uppfarinn og biður sinn himneska föður fyrir oss, að vèr, sem hann kallar sína bræður og systur, fáum að koma þángað sem hann er og verða hluttakandi í arfleifð hans dýrðarríkis. þannig getum vèr, kærir bræður! ákallað Guð sem föður, ekki einúngis að því leyti sem hann er skapari vor og verndari, heldur og í æðra skilníngi vegna þess barnarèttar, sem Guðs son með holdtekju sinni og friðþægíngu hefur afrekað oss. En þó vèr sèum allir endurleystir, erum vèr þá allir þar fyrir sannarleg guðsbörn? Æ nei! því miður eru margir samt sem áður kyrrir í fjötrum og ánauð syndarinnar; en vèr getum allir losazt undan yfirráðum hennar, ef vèr gefum gaum að guðsorði og leyfum hans anda að vekja hjá oss sanna iðrun og trú. þá rèttir hann oss sína föðurhönd til að reisa oss á fætur; þá leysir hann oss úr syndanna fjötrum og leiðir oss

við ljós sinna lífsins orða, til vors rètta föðurlands, heim til sinna himnesku föðurhúsa. Til þessa erum vèr þegar í skírninni kallaðir; þess vegna segir postulinn: „þèr eruð allir orðnir guðsbörn fyrir trúna á Jesúm Krist; því svo margir af yður, sem eruð skírðir til að trúa á Krist, þèr hafið íklæðzt Kristi“ (Gal. 3., 26., 27.). En vèr megum ekki misskilja þessi orð postulans og halda, að vèr sèum guðsbörn einúngis af því, að vèr höfum hlotið skírn. Hann gjörir ráð fyrir því, að vèr höfum sanna og lifandi trú og að vèr með helgun hjartans og lífernisins höfum íklæðzt Kristi og tileinkað oss hans rèttlæti. Til að skilja orð postulans rètt, verðum vèr að gæta að því, sem hann segir rètt áður: „þannig var lögmálið vor tiptunarmeistari þángað til Kristur kom, svo að vèr af trúnni rèttlættumst“. Lögmálið er tiptunarmeistari vor allra, að því leyti sem það vekur hjá oss meðvitund um vora syndaeymd; það tiptar oss með órósemi samvizkunnar, með ótta fyrir dauðanum og dóminum. Svoleiðis knýr það oss til að leita Krists, því fyrir hann fáum vèr huggun og frið og rèttlætumst fyrir trúna. þetta er meiníng postulans, og þar af sjáum vèr, að til þess að ná þeim himneska barnarètti, sem oss í skírninni er veittur kostur á, verðum vèr fyrst að finna til bölvunar lögmálsins og vorrar syndasektar, og síðan, þegar vèr með einlægri iðrun og viðbjóði við syndinni, snúum oss til frelsara vors og með alvarlegum betrunarásetníngi leitum Guðs náðar í Kristi, þá stöndum vèr ekki leingur undir bölvun eða þrældómsoki lögmálsins. þá erum vèr ekki leingur þrælar, sem af ótta fyrir hegníngu hlýða boðum lögmálsins, heldur börn, sem af þakklátsemi og elsku eru föður sínum hlýðin. þegar vèr þannig með helgun hjartans og lífernisins leitum þess barnarèttar, sem frelsarinn hefur afrekað oss, þá getum vèr með sanni kallað Guð föður vorn; þá sýnum vèr líka, að vèr erum hans börn, með trúmennsku og hlýðni, ekki af þrælsótta, heldur af sonarlegri elsku. „þèr hafið ekki“, segir postulinn, „meðtekið þrældómsanda aptur til hræðslu, heldur hafið þèr meðtekið sona útvalníngar anda, í hverjum vèr köllum: Abba, elskulegi faðir“! (Róm. 8., 15.). — Ef vèr elskum Guð eins og föður, þá elskum vèr líka hver annan eins og bræður og systur. það hlýtur að uppörfa oss til að auðsýna hver öðrum bróðurlegan kærleika, að vèr erum

allir komnir af einum ættstofni og eigum kyn vort að rekja til enna sömu foreldra. En annað nánara, innilegra og helgara band sameinar oss líka sem bræður og systur í Jesú Kristi. þareð hann er bróðir vor allra, hefur endurleyst oss alla og útvegað oss öllum barnarètt, ættum vèr þá ekki allir að elska hver annan, þegar vèr elskum hann? „þetta er mitt boðorð“, segir hann, „að þèr elskið hver annan, eins og eg hefi elskað yður“ (Jóh. 15., 12.), og svo bætir hann þessu við: „meiri elsku hefur einginn enn þá, að hann láti líf sitt fyrir vini sína“; og Jóhannes lærisveinn hans segir oss, „að eins og Kristur hafi gefið lífið út fyrir oss, eins sèum vèr skyldugir að láta lífið fyrir bræðurna“ (1. Jóh. 3., 16.).

þareð nú kristilegur kærleiki heimtar, að vèr sèum reiðubúnir til að láta lífið hver fyrir annan þegar á þarf að halda, ættum vèr þá ekki að vera fúsir til að hjálpa og liðsinna hver öðrum þegar minna þarf að leggja í sölurnar, þegar náúngi vor einúngis þarfnast greiðvikni vorrar eða góðra ráða? „Sá sem hefur þessa heims auðæfi og sèr bróður sinn líða neyð, og apturlykur hjarta sínu fyrir honum, hvernig getur elskan til Guðs verið staðföst hjá honum“? (Jóh. 3., 17.). „Hver sem ekki elskar bróður sinn, sem hann sèr, hvernig getur hann elskað Guð, sem hann ekki sèr“? (1. Jóh. 4., 20.). „Framgángið í elskunni, eins og Kristur elskaði oss og gaf sig sjálfan út fyrir oss“ (Efes. 5., 2.). þannig bjóða Krists postular oss að elska hver annan, og sýna oss jafnframt, í hverju bróðurlegur kærleiki sè innifalinn. En einginn sýnir oss betur enn Jesús sjálfur með lærdómi sínum og dæmi, hvernig vèr sem börn vors himneska föðurs eigum að breyta hver við annan. „Allt sem þèr viljið að mennirnir gjöri yður, það skuluð þèr og þeim gjöra“, sagði hann (Matth. 7., 12.), og sjálfur gekk hann í kríng, gjörði gott og hjálpaði öllum. „Elskið óvini yðar, blessið þá, sem yður bölva, gjörið þeim gott, sem yður hata, biðjið fyrir þeim, sem yður gjöra skaða og ofsækja yður“! (Matth. 5., 44.). þetta bauð hann, og bað sjálfur fyrir þeim, sem hann krossfestu. Öll Jesú orð og verk eru sprottin af kærleika og guðlegri mannelsku. það votta líka þau orð, sem hann á síðasta degi mun segja við þá, sem honum tilheyra: „Hvað þèr gjörðuð einum af þessum minnstu bræðrum mínum, það hafið þèr mèr

gjört“ (Matth. 25., 40.). Sem bræður sína álítur vor guðdómlegi frelsari einnig þá af oss, sem eru aumastir og lítilmótlegastir; einnig þeim til frelsis hefur hann lítillækkað sjálfan sig, tekið á sig þjónsmynd og látið líf sitt á krossinum. þess vegna eigum vèr einnig að breyta við alla menn, ekki einúngis eins og vora, heldur og sem Jesú Krists bræður og systur, og þetta gjörum vèr glaðir og fúslega, ef vèr erum frelsara vorum innilega sameinaðir í trú og elsku, og þá komumst vèr fyrir hann í náið samfèlag við hans og vorn himneska föður.

„Rèttláti faðir“! þú sem bæði ert rèttlátur Guð og miskunsamur faðir, „heimurinn hefur ekki þekkt þig, en eg hefi þekkt þig“, segir hann, sem er hinn eingetni sonur föðursins, sem er hið eilífa „orðið“, er var hjá Guði fyrir öndverðu. þó veröldin hefði getað þekkt Guð og átt að þekkja hann sem skapara og viðhaldara allra hluta, hversu ófullkomin og huggunarsnauð hefði þó þessi þekkíng verið, ef vèr hefðum ekki feingið aðra æðri þekkíngu, sem betur fullnægði þörfum hjartans, af „Guði, sem var í Kristi og friðþægði heiminn við sjálfan sig“ (2. Kor. 5., 19.). Hann, sem var í dýrð hjá föðurnum áður enn veröldin var grundvölluð, hefur kennt oss að þekkja föðurinn, sem eilífan kærleika, sem svo mjög elskaði heiminn, að hann gaf í dauðann sinn eingetinn son, til þess að hver, sem á hann trúir, ekki skuli fyrirfarast, heldur hafa eilíft líf.

Vèr erum, kristnir bræður! skírðir til þessarar þekkíngar á Guði sem vorum föður, ekki einúngis að því leyti sem hann hefur skapað oss, heldur að því leyti, sem hann hefur endurleyst oss fyrir Jesúm Krist og helgar oss með sínum anda; þess vegna erum vèr skírðir í nafni föður, sonar og heilags anda. þá vorum vèr teknir í tölu guðsbarna, og snemma var oss kennt að biðja: faðir vor, þú sem ert á himnum! Prófum nú sjálfa oss og rannsökum hjörtu vor og hegðun! þó vèr sèum ekki öldúngis hvorfnir frá Guði, eða höfum að öllu leyti yfirgefið hann, munum vèr þar fyrir í öllu tilliti hegða oss, eins og guðsbörnum sæmir? Hvernig er guðhræðslu vorri varið? Er það þrælsótti, eða sonarlegur ótti fyrir því að styggja vorn gæðskuríka himneska föður? Hlýðum vèr honum af elsku, eða til að komast hjá hegníngu? Höfum vèr hann jafnan fyrir augunum og í hjörtunum, svo að vèr ekki

einúngis nálgumst hann með vörunum, heldur og með innilegustu tilfinníngum hjartnanna? Og í stuttu máli: erum vèr endurfæddir af hans anda? Vitnar hans andi með vorum anda, að vèr sèum guðsbörn? Æ! allir megum vèr blygðast vor, Drottinn! og ángraðir játa, að vèr brjótum margfaldlega; að hjörtu vor eru köld og kærleikslítil, og að breytni vor ber vitni um breyskleika vorn og ófullkomlegleika. Þó megum vèr ekki þar fyrir örvænta, kristnir bræður! heldur eigum vèr, undir eins og vèr verðum varir við brot vor og yfirsjónir, að flýja til Guðs himneska föðurhjarta, í hans nafni, sem einnig fyrir oss gekk í dauðann, sem einnig fyrir oss biður sinn föður á himnum. En ef vèr ekki iðrumst vorra synda, ef vèr ekki með iðrandi hjörtum snúum oss til Guðs, hvernig getum vèr þá tileinkað oss hans föðurlegu náð? Að sönnu getum vèr ekki af eiginn kröptum snúið oss og betrazt; en ef vèr höfum guðsorð kostgæfilega um hönd með eptirtekt og andakt, ef vèr iðuglega biðjum hann svo heitt og innilega sem vèr getum, og ef vèr leyfum hans anda inngaungu í vor hjörtu, þá munum vèr komast í samfèlag við Guð og finna til þess í hjörtum vorum, að vèr erum hans börn, og að hann er vor faðir, finna til þess, að frelsarinn einnig bað fyrir oss, þegar hann sagði: „heilagi faðir! varðveit þá í þínu nafni, er þú gafst mèr, svo að þeir sèu eitt eins og við erum eitt“. Amen.

---

## Á annan sunnudag eptir þrettánda.

### Bæn.

Þú hefur, algóði himneski faðir! auðgað þenna heim með margvíslegum gæðum, sem miða til þess að gleðja oss og styrkja krapta vora á vegferð vorri hèr í tímanum. Þú hefur einnig gjört oss hæfilega til að finna til fagnaðar og gleði af þessum gáfum þínum. Það er oss sjálfum að kenna, að vèr svo opt vanbrúkum þessi gæði, neytum þeirra í óhófi, festum hug og hjörtu við nautn þeirra og gjörum oss þannig óhæfilega til að njóta þeirra eins og þú ætlaðist til, óhæfilega til að njóta þeirrar æðri, andlegu

gleðinnar, sem sprettur af elskunni til þín og sameiníngunni við þig. Æ! kenn þú oss, góði faðir! að brúka svo heiminn, að vèr ekki vanbrúkum hann; að njóta lífsins gæða með þakklátu hugarfari við þig, gjafarann allra góðra hluta. Lát þú oss aldrei gleyma því, að frá þèr kemur öll góð og fullkomin gjöf, og að allar gjafir þínar miða til þess að leiða oss til þín! Þá munu gæði þessa heims aldrei villa svo sjónir fyrir oss, að vèr gleymum þèr og vorri eilífu ákvörðun; þá mun fögnuður þessa lífs aldrei leiða oss afvega, heldur munum vèr þá jafnan leita vorrar æðstu unaðsemdar í þèr og þínum ótta, þángað til þú kallar oss hèðan heim til þín í eilífan fögnuð og gleði. Amen.

## Guðspjallið

(Jóh. II., 1.—11.).

Í þann tíma var haldið brúðkaup í Kana í Galíleu, og móðir Jesú var þar; en Jesú og hans lærisveinum var líka boðið til brúðkaupsins. Og er þá þraut vín, sagði móðir Jesú til hans: þeir hafa ekki vín. Jesús svaraði og sagði til hennar: móðir! hvað kemur það þèr og mèr við? mín stund er enn þá ekki komin. Móðir hans sagði til þjónustumannanna: hvað helzt hann segir yður, þá gjörið það. En þar voru sex steinker sett, eptir venju hebreskra manna, til hreinsunar þeim, og tók hvert þeirra tvo eða þrjá mæla. Jesús sagði til þjónanna: fyllið nú kerin af vatni! Og þeir fylltu þau á barma. Jesús sagði: hellið nú af og færið kæmeistaranum! Þeir færðu honum; en þegar kæmeistarinn smakkaði vatnið, — sem þá var orðið að víni, og vissi ekki, hvaðan það kom, en þjónustumennirnir, sem vatnið sóttu, vissu það — kallaði hann á brúðgumann og sagði: allir menn veita fyrst góða vínið, en þegar gestirnir taka ölvaðir að gjörast, þá hið lakara; en þú hefur geymt góða vínið þángað til nú. Þetta kraptaverk, sem Jesús gjörði í Kana í Galíleu, var það fyrsta af jarteinum hans; hann opinberaði sína dýrð, og hans lærisveinar trúðu á hann.

## Inngángur.

Gleði og sorg skiptast á í mannlegu lífi eins og dagur og nótt. Vèr erum settir hèr í reynsluskóla; vèr erum hèr útlendir og erum að keppa til vors rètta föðurlands. þess vegna getum vèr ekki búizt við að komast hjá allri mæðu og mótlæti, nè vænt oss sífeldrar gleði. En hèr er ekki heldur sífeld sorg og mæða, vegur vor er ekki ætíð þyrnum stráður. Margvísleg gleði brosir móti oss á lífsleiðinni og margvísleg gæði liggja á leið vorri. Sèrhver aldur, sèrhver stètt og staða hefur að sönnu sína mæðu í för með sèr, en jafnframt sinn fögnuð og sína gleði. það er rángt, sem sumir hafa haldið, að guðhræðslunni þyrfti að fylgja dapurt og sorgbitið sinni. Mun Guð, sem er kærleikurinn sjálfur, geta haft óbeit á gleðinni? Eða getur nokkur hlutur vakið meiri gleði og inndælli tilfinníngar, enn elska til Guðs og náúngans, eða innilegt traust á náð og miskunsemi Drottins? Hina andlegu gleði, sem vèr höfum af sameiníngu vorri við Guð, af friði samvizkunnar og mannelsku tilfinníngum hjartans, getur einginn álitið óleyfilega eða syndsamlega. En tímanlega gleðin er líka gjöf hins algóða föðurs, sem ætlaði oss, ekki einúngis að vinna og starfa, heldur og að njóta lífsins gæða og unaðsemda, og þessi gleði, sè hennar rèttilega leitað og rèttilega notið, er ekki kristilegum dyggðum til tálmunar og hindrunar, heldur þeim til eflíngar. Miðar ekki fegurð og prýði náttúrunnar til að vekja fögnuð og gleði? og ætti þá maðurinn að apturloka hjarta sínu fyrir þessum tilfinníngum? Væri það ekki synd á móti skapara vorum, að skoða hans handaverk með óánægðu hugarfari? Væri það ekki vanþakklæti af manninum, að vilja ekki gleðjast af fegurð og nytsemi þeirra hluta, sem Drottinn hefur gefið þeim? þó megum vèr aldrei gleyma því, að tímanleg gleði og nautn stundlegra gæða er ekki hið eiginlega mark og mið lífsins. Hið tímanlega er hverfult og stopult og yndi þess er hvorfið áður enn oss varir, eða vèr erum orðnir óhæfilegir til að gleðjast af því. þess vegna megum vèr ekki festa hjörtu vor of mjög við það, nè sækjast svo mjög eptir glaðværð og skemmtunum, að vèr getum ekki án þeirra verið. þetta brýnir guðsorð iðuglega fyrir oss, og það sjáum vèr líka af því, að brúðkaupið í Kana,

sem guðspjallið getur um, var hið eina skipti, sem Jesús neytti almættis síns til þess, er vèr köllum, að skemmta öðrum eða gjöra þeim glatt í sinni. Öll önnur kraptaverk hans miðuðu annaðhvort til að frelsa aðra úr lífshættum, eða til að lækna sjúkleika líkamans og sálarinnar; en einkanlega miðuðu þau til að vekja og glæða hið andlega líf, og til að útbreiða Guðs dýrð og hans ríki á jörðunni. Þannig hefur hann með sínu dæmi kennt oss, að vèr fyrst og fremst eigum að láta oss vera annt um líf og heilsu sálarinnar, og að nautn tímanlegra gæða aldrei má koma oss til að gleyma vorum sálarþörfum. Látum oss betur íhuga þetta efni með því að hugleiða

*hvernig vèr eigum að gleðjast af tímanlegum hlutum.*

Hið fyrsta skilyrði fyrir þessari gleði vorri er, að hún sè kristileg, að vèr sèum glaðir í guðsótta. Sannur guðsótti er ekki þrælsótti heldur sonarlegur ótti. Þrællinn, sem óttast reiði herra síns, hatar hann og strýkur frá honum, þegar hann sèr færi á því, án þess honum komi til hugar að snúa aptur. Þannig breytir iðrunarlaus syndari. Ótti hans fyrir Guðs rèttlátu hegníngu kemur honum til að flýja Guð og forðast að hugsa til hans, ef þess væri kostur. Því leingur sem hann forherðir hjarta sitt í syndunum, þess meir fjarlægist hann Guð, en getur þó ekki dulið það fyrir sjálfum sèr, að hann hvergi fær umflúið hinn alsvitanda og alstaðarnálæga. Getur nú þvílíkur þrælsótti fyrir Guði verið samfara sannri gleði? Nei! viljir þú vera glaður í guðsótta, þá verður þú að óttast hann eins og barn. Barnið strýkur ekki burt frá föður sínum, þó því hafi orðið eitthvað á, heldur biður það hann fyrirgefníngar, játar með ángri yfirsjón sína og lofar af hjarta bót og betrun, og þegar faðirinn er búinn að fyrirgefa því, þá gjörir það með gleði það sem því hefur verið sagt, og tekur síðan þátt í þeim skemmtunum, sem því eru leyfðar. Ef vèr því ætlum oss að geta haft sannarlega gleði af tímanlegum hlutum, þá verðum vèr að vera í sátt við vorn himneska föður, verðum að hafa snúið oss til hans með heitri og innilegri bæn um hans náð og fyrirgefníngu vorra synda, verðum að iðrast þeirra af hjarta, og elska Guð og hlýða honum eins og góð börn. Þetta almenna skilyrði innibindur í sèr fleiri sèrstakleg, sem

verða að vera samfara vorri tímanlegu gleði, til þess hún geti orðið sönn og kristileg. Vèr megum ekki vinna það fyrir gleðina, að vanrækja skyldur vorar, heldur eigum vèr að ljúka því af, sem vèr eigum að gjöra, áður enn vèr gefum oss við því, sem einúngis miðar til að lífga og gleðja oss. Áður enn Jesús kom til brúðkaupsins, var hann að uppfræða lærisveina sína og gegna sinni heilögu köllun; og til hans heilögu köllunar heyrði líka þetta kraptaverk, þareð hann með því „auglýsti sína dýrð“ og styrkti trú lærisveina sinna. Þannig eigum vèr einnig að breyta. Að sönnu getum vèr ekki gjört kraptaverk, því oss vantar Jesú almætti; en í þess stað eru oss gefnir sálar og líkama kraptar og fjármunir, sem vèr getum glatt með sjálfa oss og aðra. Þessum fjármunum vorum, þessum sálar og líkama kröptum eigum vèr að verja til þess, í trúnni á Guð og elskunni til hans, að koma svo miklu góðu til leiðar, sem vèr getum, samkvæmt Guðs gæzkuríku boðum og að dæmi vors frelsara Jesú Krists. Þú sem með árvekni og iðjusemi, með sparneytni og hófsemi hefur í ótta Drottins leitað atvinnu þinnar, þú hefur einnig reynt, hvernig þessar dyggðir breyta vatni í vín og hafa Guðs blessun í för með sèr; gæt þú nú líka þess, að verja Guðs blessun eins og hann ætlast til, að gleðja samkristinn bróður þinn, og þegar þú gjörir þetta af þakklæti við gjafarann og kærleiksfullu hjarta, þá verður það sjálfum þèr til sannrar gleði; þá getur þú glaðzt í guðsótta. Sömuleiðis er það skilyrði fyrir kristilegri gleði af tímanlegum hlutum, að þeir sèu rètt feingnir. Sá sem gjörir öðrum rángt til, sá sem svíkur og ásælist aðra, til þess að geta sjálfur átt góða daga, nær sjaldan tilgángi sínum. Þótt hann fái það, sem hann sækist eptir, þá getur hann þó ekki haft sanna gleði af því, því hún truflast af sífeldum ótta og áhyggju. Þó hann gæfi sig við glaumi og glaðværðum og leiti sèr allra skemmtana, finnur hann þó til óþreyju í hjarta sínu og áreitist af átölum samvizkunnar. Skilyrði fyrir sannri gleði af gæðum þessa lífs er ekki einúngis það, að þau sèu rètt feinginn, heldur og, að nautn þeirra sè í sjálfri sèr leyfileg og sómasamleg. Þó vèr værum heiðíngjar, ættum vèr ekki að leyfa oss þær skemmtanir, sem stríða gegn góðum siðum. Hvernig mun það þá skarta á kristnum mönnum að sóa tímanum burt í svalli

og syndsamlegum lystisemdum? Blygðast mátt þú þín, kristinn maður! sem með slíkri breytni spillir þínum dýrmætu lífsstundum, gæfu, fjármunum og heilsu. Hvílík fásinna! Samvizkunnar og hjartans frið selur þú fyrir syndsamlega og skammvinna gleði. Til þess að geta svalað girndum þínum, sviptir þú þig þeirri gleði að mega lypta augum þínum upp til himins og ákalla Guð sem gæðskuríkan föður. Eða heldur þú, að það muni vera samkvæmt hans heilaga vilja, og getur þú haft sanna gleði og hugarrósemi af því, að hugsa til Guðs endrum og sinnum, þegar þú ert búinn að láta eptir girndum þínum, og látast þá biðja hann fyrirgefníngar, en veita þó ekki freistíngunum neina mótspyrnu, heldur falla fyrir þeim undir eins og þær benda þèr og lokka þig til að syndga? þannig verður líf þitt gleðisnautt og andstyggilegt í Guðs augum. En það, sem kristinn maður hefur sèr til skemmtunar og gleði, á ekki einúngis að vera saklaust í sjálfu sèr, heldur verður hann og að velja rètta stund og stað til að neyta þess; því opt getur staðið svo á, að það verði óleyfilegt, sem þó er í sjálfu sèr leyfilegt. Hve nær var það, sem Jesús breytti vatni í vín? Var það á rúmhelgum degi, þegar menn áttu að fara til vinnu sinnar? Eða þegar þeir áttu að koma saman til opinberrar guðsþjónustu? Nei! það var í brúðkaupi, á fagnaðardegi, þá fögnuðurinn helgast af kærleikanum og sprettur af æðri og hreinni gleði sálarinnar. Eins eigum vèr að varast að vinna það fyrir skemmtanir að vanrækja vora köllun, eða verja til þeirra þeim stundum, sem helgaðar eru þjónustu Drottins. Hvíldardagurinn er vissulega ekki einúngis ætlaður til þess, að vèr á honum skulum lypta huga vorum upp yfir hið jarðneska og stundlega, heldur og líkamanum til hvíldar og hressíngar; en þó megum vèr ekki vanrækja vora sálarþörf til þess að geta því betur hlynnt að líkamanum, og einúngis sá, sem rèttilega ver þeim stundum, sem helgaðar eru guðsþjónustu, getur með sannri kristilegri gleði haft hina tíma dagsins sèr til einhverrar saklausrar skemmtunar. En á vorum dögum leita, því miður, fæstir þeirrar gleði á helgum dögum, sem helguð er af guðrækilegum hugleiðíngum, heldur skoða þeir helgidagana eins og þeir væru eingaungu ætlaðir til iðjuleysis og lystisemda; að eg ekki tali um þá, sem ekki hafa þessa daga til annars enn

svalls og drykkjuslarks. Enn fremur er það skilyrði fyrir kristilegri gleði af tímanlegum hlutum, að menn gæti hófs í gleði sinni. Einhverjum kynni nú að koma til hugar, að þessu muni þó ekki hafa verið gætt í brúðkaupinu í Kana, því þar hafi orðið skortur á ölfaungum og þar sè talað um ölvaða gesti. En þess ber að gæta, þar sem kæmeistarinn talaði um ölvaða gesti, þá lítur það ekki til þeirra, sem viðstaddir voru, heldur er það sagt um fjölmennar veizlur yfirhöfuð, því þar gæta ekki allir hófsins eins og vera skyldi. Nei! þar sem Jesús var viðstaddur, þar gat ofdrykkja ekki átt sèr stað. — þegar vèr nefnum ofdrykkjuna, kærir bræður! þá leiðumst vèr ósjálfrátt til að hugsa, ekki einúngis um þenna mikla og algeinga löst, heldur um alla þá lesti, alla þá eymd og ógæfu, sem ofdrykkjan hefur í för með sèr. Verið getur, að það kunni að þykja tilgángslítið, að vara menn hèr við þessum lesti, sem, því miður, er allt of algeingur meðal vor, fyrst borgaraleg lög hafa enn ekki getað reist við honum skorður; en þó á ekki að láta það tækifæri ónotað, sem guðspjallið býður, til þess með orðum ritníngarinnar, að taka að minnsta kosti únglíngum vara fyrir ofdrykkjunni, áður enn þeir eru búnir að steypa sèr í þetta eymdanna djúp. „Vei þeim, sem upprísa árla morguns til þess að sækjast eptir áfeingum drykk! vei þeim, sem sitja fram á kvöld til þess að gjöra sig víndrukkna“! (Es. 5., 11.). „Hvar er vei? Hver ollir sèr meiðsla? Hvar eru deilur? Hvar klögun? Hver fær sár án orsaka? Hver glóðarauga? þeir sem leingi tefja hjá víninu“ (Orðskv. 23., 29.—30.). Með þessum og þvílíkum orðatiltækjum vöruðu spámenn og kennifeður Gyðínganna við ofrykkjunni. Hvað var þó ofdrykkjan hjá þeim hjá því sem hún er hjá oss? það vín, sem náttúran sjálf framleiðir, og sem Guð hefur ætlað mönnunum til að styrkja líkamann og lífga sálina, þegar þess er neytt í hófi, hefur í þeim löndum, þar sem það vex, ekki nærri því eins skaðlegar verkanir, og þeir áfeingu drykkir, sem hèr á norðurlöndum eru svo algeingir og svo mjög vanbrúkaðir. þeir eru hjá oss ólyfjan og átumein í mannlegu fèlagi, og ofneyzla þeirra leiðir eymd og ógæfu í líkamlegum og andlegum efnum yfir einstaka menn og heil heimili, veiklar heilsu foreldra og barna, styttir lífsstundirnar, drepur tímann, eyðir fjármunum, auk annara lasta,

sem ofdrykkjan einatt hefur í för með sèr. „Ofdrykkjumenn munu ekki erfa guðsríki“, segir ritníngin, og telur þá með öðrum glæpamönnum, sem uppkveðinn muni verða yfir sakfellíngardómur, ef þeir iðrast ekki í tíma og leita Guðs náðar. Skynsemin segir oss líka, að ofdrykkjan sè andstyggileg, ekki einúngis vegna þeirra lasta, sem af henni leiða, heldur af því, að hún sviptir manninn stjórn á sjálfum sèr og hæfilegleika til að gæta að því, hvað hann gjörir; hún gjörir hann auðvirðilegri enn skynlausar skepnur, því þær eru eins og þær hafa verið skapaðar; en drukkinn maður, sem hefur misst vitið, hefur sjálfur svipt sig því. „Gætið yðar“, segir Jesús, „að hjörtu yðar ofþýngist ekki við óhóf í mat og drykk, eða búksorg, að ekki komi þessi dagur á yður óvart“! (Lúk. 21., 34.); það er að skilja: dagur dauðans og dómsins. þessi aðvörun lítur ekki einúngis til þeirra, sem með iðuglegum drykkjuskap sljófga og slökkva allar góðar tilfinníngar og skynsamlega umhugsun., heldur og til allra holdsins þræla, sem leita gleði og unaðsemdar í því að láta eptir fýsnum sínum, veikla þannig sitt innra andlega líf og gjöra sig óhæfilega til að trúa og elska. Sá, sem ofurselur sig syndsamlegum girndum, efast um sèrhver sannindi, sem hann óttast, og loksins segir hann í hjarta sínu: „það er einginn Guð til“; og sè einginn Guð til, þá er ekki heldur neitt lögmál til, ekkert fagnaðarerindi, einginn frelsari, einginn munur á illu og góðu, á rèttu og raungu og einginn annar dómur til enn manna dómar. Svo talar sá maður, sem gefur sig allan við nautn holdlegs munaðar, sem reynir til að svæfa samvizkuna með því einúngis að festa hugann við þá hluti, sem kitla skilníngarvitin. En þó þetta holdlega hugarfar ali vantrúna í huga mannsins, getur hann þó aldrei algjörlega þaggað rödd, sem talar til hans í hjartanu, þegar allt er hljótt í kríngum hann og háreysti veraldarinnar glepur ekki fyrir, sem talar um ósýnilega hönd, er öllu stjórni, um auga, sem allt sjái, og um dómara, sem muni auglýsa og endurgjalda allt, sem í myrkrunum er hulið. Himin og jörð umhverfis oss og lögmál samvizku vorrar vitna svo berlega um guðlegt almætti og rèttlæti, að jafnvel sá, sem í orði og verki afneitar Guði, getur þó ekki afneitað honum í hjarta sínu, að minnsta kosti stundum, þegar hann eins og raknar við úr roti sinna holdlegu fýsna, og þá finnur hann með ótta og ángri til

eymdar sinnar; hann hræðist þá jafnvel sinn eiginn skugga, og hvort sem hann fer, finnast honum athafnir sínar fylgja sèr. þetta aumkunarverða sálarástand sækir marga heim á elliárunum, þó þeir hafi ekki gjört sig seka í stórglæpum, því þeir finna þá til þess, að þeir hafa sóað burt allri æfi sinni, þareð þeir ekki hafa sótzt eptir öðru enn veraldlegum ágóða og munaði, ekki trúað á annað enn það, sem þeir gátu sèð og þreifað á; en þetta sálarástand leiðir ekki einúngis af vantrú og búksorg, heldur og af því staðfestulausa og lèttúðarfulla hugarfari, sem um ekkert hugsar, nema að skemmta augum sínum og eyða tímanum í fánýtri stundargleði.

þú, sem enn ert óspilltur á æskuskeiði, vertu glaður, en glaður í guðsótta; gleð þú þig svoleiðis, að þú þurfir ekki að iðrast æskunnar gleði; gleð þú þig af heilsu þinni og kröptum, af frómlyndi hjarta þíns, af þeim sáttmála, sem þú hefur endurnýjað við frelsara þinn, af elsku foreldra, systkina og vandamanna, af þeirri velvild, sem þú ávinnur þèr hjá öðrum með siðprýði og iðjusemi! En ógæfusamur ert þú, ef þú lætur þèr ekki lynda hina hreinu, sönnu og varanlegu gleði, heldur vilt gjöra „það, sem hjarta þitt girnist og augum þínum þóknast". Varast þú að stíga eitt fótmál á lastanna vegi, því einu fótmáli fylgja fleiri, og þá leiðist þú frá einni synd í aðra og ert kominn fram á barm glötunarinnar fyrr enn þig varir. Og þèr foreldrar! vakið nógu snemma yfir breytni barna yðar, yfir hugarfari þeirra og hjartalagi, yfir skemmtunum þeirra og öllu, sem þau taka sèr fyrir hendur. Kennið þeim á únga aldri að lypta augum sínum og hjörtum upp til himins og leita þar hinnar sönnu gleðinnar, með því að lesa guðsorð og hugleiða Drottins handaverk, með því að hlýða hans boðum og treysta hans forsjón; sannfærið þau um það, að hin andlega gleðin er sönn og varanleg og það er sú einasta gleði, sem ekki skilur við þau í mótlæti, þjáníngum og dauða! Í hjónabandinu og á heimilum vorum hefur Guð búið oss sanna og varanlega gleði. þó er þetta ekki svo að skilja, að menn megi ekki leita sèr ánægju og gleði utan húss af samræðum góðra manna og öðrum saklausum skemmtunum. Hitt er víst, að sá sem getur fest yndi heima, eða notið þar nokkurrar gleði, finnur hana sjaldan annarstaðar. Kristilega gleði er einúngis þar að finna,

sem Kristur er nálægur, og sannkristin hjón hafa ekki einúngis boðið honum til brúðkaups síns, heldur biðja hann daglega að vera hjá sèr og hann kemur til þeirra á hverjum degi og þau tala við hann í bænum sínum sem sinn bezta vin, og úthella fyrir honum hjarta sínu í trú og elsku; hann ekki að eins kemur til þeirra, heldur býr hjá þeim, eins og hann hefur lofað, „að taka bólfestu hjá þeim, sem elska hann og hlýða honum" (Jóh. 14., 23.). Á slíku heimili gjörir Jesús enn hið sama, sem hann gjörði í brúðkaupinu í Kana; með því að blessa þar störf og vinnu breytir hann vatni í vín; og þar er vatnsins neytt með sömu gleði og þó það væri vín, og það hefur sama krapt til að svala hinum þyrsta, hressa hinn þreytta og endurnæra hinn sjúka. Sá, sem hefur Jesúm hjá sèr, getur ekki gleymt fátækum, veikum og bágstöddum; að hjálpa þeim og líkna eykur og helgar þá gleði, sem hann hefur af gæðum þessa lífs; ekki gleymir hann því heldur í gleði sinni að vegsama gjafarann allra góðra hluta með þakklátu hjarta; hann hefur ætíð Guð fyrir augum sèr, og jafnvel gleði hans af tímanlegum hlutum er gleði í Guði. Einginn hefur heldur meira tilefni til að vera glaður, enn sannkristinn maður, sem veit af sèr í náð hjá Guði og lætur sèr stjórna af hans anda; sem þegar hèr í lífi hefur umgeingni sína á himnum; hann þarf ekki að óttast mennina, því Guð er með honum, ekki örbyrgð nè fátækt, því hann er ríkur af trú og kærleika; ekki álas og fyrirlitníngu, því hann lætur sèr nægja Drottins náð; ekki sóttir, sjúkdóma nè þjáníngar, því hann veit, að þeir, sem líða með Kristi, munu með honum dýrðlegir verða; ekki gröf nè dauða, því þá byrjar hans rètta og sanna líf á landi gleðinnar og sælunnar: í guðsríki, sem er friður og fögnuður í heilögum anda. Þess vegna ávarpar einn af postulum Drottins alla sannkristna menn með þessum orðum: „gleðjið yður ávalt í Drottni, og enn aptur segi eg, gleðjið yður! Drottinn er nálægur" (Fil. 4., 4., 5.). Æ! vert þú oss jafnan nálægur, Drottinn! tak þú þèr bústað í vorum hjörtum og gjör þú þau að bústað hinnar hreinu og sönnu gleði, sem helguð er af elskunni til þín, svo að hvorki sorg nè gleði þessa lífs, hvorki hið nálæga nè hið ókomna, hvorki líf nè dauði fái skilið oss við þig! Amen.

---

## Á þriðja sunnudag eptir þrettánda.

### Bæn.

Lof sè þèr, himneski, góði faðir! fyrir allar ástgjafir þínar, sem þú veitir oss breyskum og syndugum mönnum; lof sè þèr fyrir líf og heilsu! Æ! kenn þú oss, Drottinn! að fara vel með þessar þínar gjafir; kenn þú oss að meta rètt heilsunnar dýrmæta hnoss, og verja henni vel: verja henni til að taka framförum í því, sem er gott og þèr þóknanlegt! En lof sè þèr líka, líknsami faðir! fyrir sóttir og sjúkdóma, því þetta eru einnig þínar gjafir; það eru þínar föðurlegu bendíngar, sem miða til að losa hjörtu vor við hið jarðneska og snúa þeim í hæðirnar til þín, miða til að styrkja vora trú og æfa oss í þolinmæði og undirgefni undir þinn blessaða vilja. Og þegar vèr sjáum aðra meðbræður vora þjást af sjúkdómi og heyrum þá veina og stynja undir veikindanna byrði, þá ætlast þú til, að það skuli vekja og glæða meðaumkun og mannelsku tilfinníngar í voru brjósti, svo að vèr veitum þeim alla þá hjúkrun og hjálp, sem í voru valdi stendur. Æ! virðst þú að styrkja hjá oss trúna og kærleikann; lát þú oss jafnan, hvort sem vèr erum heilbrigðir eða veikir, hafa vora umgeingni á himnum, vera stöðugir í bænaákallinu og reynast þèr trúir allt til dauðans! Bænheyr það í Jesú nafni! Amen.

### Guðspjallið

(Matth. VIII., 1.—13.).

Í þann tíma. Þegar Jesús gekk ofan af fjallinu, fylgdi honum mikill fjöldi fólks. Þá kom til hans líkþrár maður, tilbað hann og sagði: Herra! ef þú villt, þá getur þú hreinsað mig. Jesús rètti út höndina, snart hann og sagði: eg vil, vertu hreinn! og jafnsnart varð hann hreinn af líkþrá sinni. Jesús sagði til hans: varastu að segja þetta nokkrum, heldur far þú og sýn þig kennimanninum, og offra þeirri gáfu, sem Móses bauð, öðrum til sannindamerkis! En er Jesús gekk inn í Kapernaum, kom til hans hundraðshöfðíngi nokkur, biðjandi hann og sagði: þjónn minn liggur limafallssjúkur heima, og er mjög þúngt haldinn. Jesús sagði: eg skal koma og lækna hann. Hundraðshöfðínginn svaraði og sagði: Herra! eg er þess ekki verður, að þú gángir inn

undir mitt þak, heldur bjóð þú að eins með einu orði og mun þjónn minn heill verða, því nær eg, sem er yfirvaldi undirgefinn og hefi að ráða yfir stríðsmönnum, býð einum þeirra að fara, þá fer hann, og öðrum að koma, þá kemur hann, eða þræli mínum að gjöra eitthvað, þá gjörir hann það. En þegar Jesús heyrði þetta, undraðist hann og sagði til þeirra, er honum eptirfylgdu: sannlega segi eg yður, þvílíka trú hefi eg ekki fundið í Ísrael; en eg segi yður, að margir munu koma að austan og vestan og sitja til borðs með Abraham, Ísaak og Jakob í ríki himnanna, en þeir, sem ríkið var ætlað, munu verða útreknir í hin yztu myrkur, þar sem vera mun óp og gnístran tannanna. Og Jesús sagði til hundraðshöfðíngjans: far þú heim, verði þèr eptir trú þinni! og samstundis varð þjónn hans heilbrigður.

Inngángur.

Einhver hin bezta og dýrmætasta gjöf Drottins er heilsa og heilbrigði. Sannist það á nokkrum hlut, „að einginn viti hvað átt hefur fyrr enn misst hefur“, þá sannast það á henni. Meðan vèr erum heilir heilsu og kennum oss einkis meins, þá hugsum vèr sjaldnast um það, hvílíkur dýrgripur heilbrigðin er, gleymum að þakka Guði fyrir hana, og það er eins og vèr einatt gjörum oss far um að spilla henni með óvarkárni og óreglulegum lifnaði. Það er eins og vèr hugsum, að hún geti alrei bilað, eða að það sè ekki svo mikið í hana varið, að það sè ómaksins vert að reyna til að viðhalda henni, eða að það sè hægt að bæta sèr hana aptur þó hún missist. Þannig breyta, því miður, margir af oss á heilbrigðu dögunum. En þegar heilsan er farin, þegar vèr verðum veikir og þjáðir af heilsuleysi, þá finna flestir til þess, en opt um seinan, að þeir hafa mikils misst og að þeir hafa farið of illa með þessa dýrmætu guðsgjöf. En þó margir sèu valdir að vanheilsu sinni, þá getur þó sjúkleiki og heilsuleysi sótt hina heim, sem varlega fara, og fyrir flesta kemur það fyrr eða síðar á lífsleiðinni, að þeir leingur eða skemur verða að reyna einhvern heilsubrest. Fæstir komast svo af alla æfi, að þeir kenni einkis meins og

einginn svo, að hann þurfi aldrei að horfa uppá veikindi annara, að hann þurfi aldrei að nálgast sóttarsæng veikra náúnga og vandamanna, eða annara samkristinna bræðra. Yfir höfuð getur það að borið, þegar minnst vonum varir, að einhver af oss eða ástvinum vorum leggist veikur, og því ættum vèr nú þegar að hugleiða, hvernig oss ber að breyta, þegar svo ber undir, og það því fremur, sem hið upplesna helga guðspjall gefur oss tilefni til þess, með því það segir oss frá tveimur mönnum, sem leituðu lækníngar hjá Jesú, annar fyrir sjálfan sig, en hinn fyrir þjón sinn.

Látum það þá vera inntak vorra guðrækilegu hugleiðínga á þessu stundarkorni að íhuga:

*hvernig vèr eigum að breyta í veikindum annara og sjálfra vor.*

„Vèr eigum Guð að, sem er Guð hjálpræðisins, og Drottinn vor herra frelsar frá dauðanum". Þessi Davíðs orð (sálm. 68., 21.) sýna oss vora beztu huggun í veikindum og í sèrhverri annari neyð, sem fyrir oss kemur; og þegar vèr, kristnir menn, tökum oss þau í munn, þá eigum vèr að hugsa til Guðs, eins og hann hefur opinberazt, ekki einúngis í sköpun allra hluta, heldur og í endurlausnarverkinu. Þegar vèr ákölłum „Drottin, sem frá dauðanum frelsar", þá hugsum vèr til hans, sem með sínum dauða hefur dauðann sigrað, og snúum oss til hans, sem sampíndist vorum eymdum. Hann hefur frelsað oss frá hinum eilífa dauðanum, og því ættum vèr ekki að hræðast líkamlegan dauða; hann veitir sálum vorum „heilsu í trúnni", og því ættum vèr með þolinmæði að umbera líkamans veikleika. En einnig í þeim efnum, sem snerta líkamans heilsu, megum vèr, kristnir menn, treysta Jesú, því hann læknar bæði sál og líkama. Það sýndi hann á sínum hèrvistardögum, því hann læknaði alla sjúklínga, sem til hans komu og leituðu hans hjálpar. En einhver kann að hugsa, að Kristur gjöri nú ekki þetta leingur; hvorki gángi hann nú sjálfur um kríng til að lækna hina veiku, nè heldur fái þeir aptur heilsuna fyrir það, eins og á dögum postulanna, þó hans nafn sè ákallað. Þó er hann enn þá hinn sami frelsari bæði frá líkamlegri og andlegri neyð. Vèr sjáum hann ekki; en vèr sjáum ekki heldur Guð,

og þó er hann alstaðar nálægur og alstaðar verkandi; og sonurinn vinnur enn þá með föðurnum eins og í öndverðu, og hann segir sjálfur, „að allt, sem faðirinn gjöri, hið sama gjöri og sonurinn“ og „að sèr sè allt vald gefið á himni og jörðu“ (Jóh. 5., 19.). Sem kristnir menn megum vèr því í allri vorri neyð snúa bænum vorum eins til sonarins og til föðursins; og þegar vèr íhugum, hvernig allt hið illa í veröldinni hefur upptök sín frá syndinni, ættum vèr þá ekki að leita lækníngar hjá honum, sem kom í heiminn til að eyða valdi syndarinnar? En hvernig eigum vèr að leita Jesú og finna hann, þegar vèr þurfum hjálpar við? það sýnir oss dæmi þeirra tveggja manna, sem guðspjallið getur um. þegar hinn líkþrái sagði: „herra! ef þú vilt, þá getur þú hreinsað mig“, þá efaðist hann ekki um, að frelsarinn hefði vilja og mátt til að hjálpa öllum þjáðum og bágstöddum — um það var hann orðinn sannfærður, af því að Jesús áður hafði læknað svo marga sjúklínga —; en með auðmýkt og þolinmæði fól hann það á hendur hans velþóknanlegum vilja, hvort hann nú vildi neyta almættis síns til að gefa sèr heilsuna aptur. þannig eigum vèr og að biðja, þegar vèr erum staddir í einhverri tímanlegri neyð; vèr eigum að treysta almætti og gæðsku Guðs, en biðja þó með undirgefni undir hans blessaða vilja. Eins auðmjúkur í trú sinni var hundraðshöfðínginn, sem sagði: „herra! eg er þess ekki verðugur, að þú gángir inn undir mitt þak, heldur seg þú eitt orð, og mun þjónn minn heilbrigður verða“. Jesús sjálfur dáðist að trú þessa manns, sem ekki var Gyðíngur heldur heiðinn, og sagði: „gakk þú hèðan; verði þèr eptir trú þinni“! Trú hans var að vísu aðdáanleg; en eigi ber oss síður að gefa gætur að þeirri mannelsku og ástúðlegu nákvæmni, sem hann auðsýndi þjóni sínum, og af þessum heiðíngja getum vèr bæði lært kristilega trú og kristilegan kærleika.

þannig eigum vèr að biðja bæði í veikindum annara og sjálfra vor; biðja í Jesú nafni með auðmjúku trúnaðartrausti; og þó vèr ekki fáum bænheyrslu, hvað líkamlegan bata snertir — því vèr megum aldrei biðja fortakslaust um tímanleg gæði — þá munum vèr þó jafnan reyna, að trúuð bæn og fyrirbæn veitir oss andlega huggun. þegar postulinn Jakob segir (5., 15.): „trúuð bæn mun frelsa hinn sjúka og Drottinn mun reisa hann

á fætur, og sú synd, sem hann hefur drýgt, mun honum fyrirgefin verða", þá lítur hann einkanlega til sjúkleika sálarinnar og þeirrar bænar, sem biður um heilbrigði hennar. Til slíkrar bænar hvetur hann bæði sjúklínginn sjálfan og þá, sem að honum standa, eða heyra veikinda hans getið. það er líka fagurt og kristilegt að biðja fyrir sjúkum og öðrum krossberendum; það styrkir vora trú og glæðir mannelskutilfinníngar í vorum hjörtum. En hvað stoða bænir og fyrirbænir? segir hinn vantrúaði; það er komið undir eðlilegu ásigkomulagi og byggíngu líkamans, hvort hinum veika batnar eða ekki, og kraptaverka megum vèr ekki vænta á vorum dögum. það er satt, að Kristur gjörir ekki leingur það, sem ekki þarf leingur að gjöra; en þegar vèr lesum um þau dásemdarverk, sem hann á sínum hèrvistardögum auglýsti með almætti sitt og elsku, þá miðar það, ekki einúngis til að styrkja sannfæríngu vora um, að hann var sá fyrirheitni Messías, heldur einnig til að sýna oss, hvernig vèr enn þá megum treysta honum og flýja til hans í öllum vorum bágindum og andstreymi þessa lífs. „Trú þín hefur frelsað þig", var hann vanur að segja við þá, sem hann læknaði og sem komu til hans með iðrandi hugarfari; og eins munt þú, kristinn maður! þegar þú biður hann með trúuðu og iðrandi hjarta, fá andlega hugsvölun, þó þú fáir ekki líkamlegan bata. Og þegar vèr biðjum fyrir ástvinum vorum, þá getum vèr heimfært til vor þau huggunarorð, sem Jesús mælti, þegar María og Marta sendu til hans og lètu segja honum, að Lazarus bróðir þeirra, „sem hann elskaði", lægi veikur: þessi sótt er ekki til dauða (Jóh. 11., 1. o. s. frv.); en þá verðum vèr líka að skilja rètt þessi orð, er hann um leið sagði við Mörtu: „eg er upprisan og lífið; hver, sem trúir á mig, hann mun lifa, þótt hann deyji" (24. v.); því ekki meinti hann með því einúngis til þessa tímanlega lífs, heldur til hins andlega og eilífa lífsins. Og þegar þú biður fyrir einhverjum veikum, að hann fái að lifa, þá hugsar þú sem kristinn maður ekki einúngis til hans jarðneska lífs, heldur og til annars lífs; og þótt hann deyji, fær þú bænheyrslu, þegar þú hefur þá huggunarríku von, að hann hafi dáið sáluhjálplegum dauða. Vissulega er það þúngbært, þegar hjón, foreldrar, börn, systkin, eða aðrir elskandi ástvinir biðja Guð hver fyrir öðrum í veikindum

þeirra, biðja hann að gefa þeim heilsuna aptur og leingja lífsstundir þeirra, en öðlast ekki bænheyrslu. En Guð verður opt að hafa sorg og þjáníngar oss til betrunar og sáluhjálpar, og hann einn veit af alvizku sinni, hvað oss er fyrir beztu. þegar vèr því biðjum Guð á neyðar og eymda stundum, þá hugsum til þess, hvernig frelsari vor baðst fyrir í grasgarðinum, og segjum eins og hann: faðir minn! ef mögulegt er, þá víki þessi kaleikur frá mèr; þó ekki eins og eg vil, heldur eins og þú vilt. þegar vèr þannig biðjum, þá er það aldrei árángurslaust. það sem bæn hins guðhrædda astíð kemur til leiðar, er þolinmæði og andleg huggun bæði hjá sjálfum sjúklíngnum og eins hjá þeim, sem standa hann og hjúkra honum.

Eins og trúin þarf að vera örugg, til þess að bænin geti orðið heit og innileg, eins getur ekki örugg trú átt sèr stað, nema vèr sjálfir gjörum það, sem í voru valdi stendur, til að fá bænheyrslu. þannig er því einnig varið í veikindunum. Jafnframt því sem vèr biðjum Guð, eigum vèr að leita mannlegrar hjálpar og þeirrar lækníngar, sem vèr eigum kost á. Drottinn hefur svo lagað náttúruna, að menn með reynslu og eptirtekt geta sjálfir fundið ráð og meðul við margvíslegum veikindum. Vilji menn ekki hagnýta sèr þessi meðul, eða neyta skynseminnar og krapta sinna, þá fyrirlíta þeir Guðs gáfur og brjóta móti hans boðum. Margir halda, að þeir sýni einmitt traust á Guði, með því að leita sèr ekki neinnar lækníngar, og segja, að hann geti hjálpað þeim, ef hann vilji. það getur hann líka eflaust og það vill hann einnig; en hann vill, að til þess sèu höfð þau heilsumeðul, sem hann hefur útbúið náttúruna með. Værir þú staddur í húngursneyð og beiddir Guð hjálpar, mundir þú þá geta vænzt þess, að hann lèti brauð beinlínis detta niður af himnum? Eins þarft þú ekki að búast við því, að Guð muni hjálpa þèr í nokkurri annari neyð, ef þú ekki sjálfur vilt neyta krapta þinna og færa þèr í nyt þau hjálparmeðul, sem þú átt kost á. þess háttar traust á Guðs forsjón er syndsamlegt oftraust, eða þó öllu heldur vantraust, þar eð menn ekki vilja trúa Guði fyrir sèr, nema hann gjöri kraptaverk, og fyrir þetta vantraust ávítað Jesús Gyðíngana, sem ekki trúðu nema þeir sæu teikn og

stórmerki. — En eitthvert hið bezta heilsumeðal er sú nákvæma hjúkrun og aðhlynníng, sem kristileg mannelska býður oss að auðsýna öllum veikum, hvort þeir eru skyldir eða vandalausir. Látum oss yfir höfuð hugfesta það, að það er heilög skylda vor allra að hjálpa öllum, sem hjálpar viðþurfa, eins og vèr frekast megnum, og minnumst þeirra orða, sem frelsari vor á síðasta degi mun segja við þá, sem honum tilheyra: „sjúkur var eg og þèr vitjuðuð mín“, og „allt sem þèr gjörðuð einum af þessum mínum minnstu bræðrum, það gjörðuð þèr mèr“ (Matth. 25., 40.). — Þú trúlyndi Jesú vinur og lærisveinn! þegar þú vitjar sjúkra eða hjúkrar þeim, þá lætur þú þèr ekki einúngis annt um heilsu líkamans, heldur og um þeirra sálarheill; með blíðum og kærleiksfullum orðum reynir þú til að hugga þá, og þegar þèr gefst færi á og þú heldur, að það beri góðan ávöxt, leitast þú við að snúa huga þeirra til Guðs og fá þá til að hugsa um sitt sálarástand. Þetta er fagurt og kristilegt; en það má aldrei gjöra það í ótíma eða án sèrlegrar varkárni, svo það vekji ekki hjá hinum sjúka hugaránguir eða órósemi.

Á heilbrigðu dögunum höfum vèr daglega tilefni til að hugleiða vor sáluhjálparefni og hugsa um eilífðina; ættum vèr þá ekki að gjöra þetta í veikindum vorum? Sóttir og sjúkdómar minna oss á syndina; með syndinni er dauðinn inn kominn í heiminn, og með dauðanum allt, sem veikir og styttir mannlegt líf. Þetta kennir guðsorð oss, og dagleg reynsla sýnir, hvernig sumir lestir spilla heilsunni og loksins gjöreyða henni; ákafar og óstjórnlegar geðshræríngar, einkum þær sem spretta af vondum girndum og tilhneigíngum, hafa næsta skaðleg áhrif, ekki einúngis á sálina, heldur og á líkamann. Þó væri það ósanngjarnt og óviðurkvæmilegt, að dæma um siðferði annara manna af heilsufari þeirra, eða halda, að það komi til af einhverjum sèrlegum lesti eða synd, þegar einhver verður veikur; því margir fæðast með veikri líkamabyggíngu, margir taka veikindi í arf eptir foreldra sína, margir missa heilsuna af óvarkárni eða slysum, sem þeir gátu ekki sèð fyrir eða umflúið, eða af því þeir hafa orðið að stofna sèr í lífshættur til að geta gegnt skyldu sinni eða eflt almeníngs heillir; margir verða að erfiða með sálarkröptunum, svo þeir ofþreyta líkamann; og þó líkamlegt erfiði sè heilnæmt í sjálfu sèr, getur

það þó með of mikilli áreynslu orðið skaðlegt fyrir heilsuna; þaraðauk fara drepsóttir einatt yfir löndin og gjöra ekki mun á heimilum guðhræddra og óguðlegra, rèttlátra og ránglátra; margir verða veikir fyrir þá skuld, að þeir af mannelsku sinni hafa stundað aðra í næmum sjúkdómi, eða hafa tekið of nærri sèr til að frelsa aðra úr lífshættum.

Jafnvel þó vèr með vissu vitum, að náúngi vor hafi með óreglulegum lifnaði spillt heilsu sinni, þa eigum vèr að kenna í brjósti um hann og forðast að áfellast hann, en jafnframt eigum vèr að fá viðbjóð við hans löstum, og þess vegna reyna til, ef oss gefst færi á því, með kristilegri hógværð og kærleika að leiða athygli hans að þeim syndum, sem eymd hans er sprottin af, til þess að fá hann til að iðrast og sjá að sèr. Einkanlega eigum vèr að gjöra þetta við vora nánustu náúnga og fyrst og fremst við sjálfa oss. Sè það skylda vor að játa vorar syndir daglega fyrir Guði þegar vèr erum heilir heilsu, ættum vèr þá að gleyma þessu, þegar sjúkleikinn minnir oss á, hve stopult og fallvalt þetta líf vort er og hve fljótt dauða vorn getur að borið? Jafnframt því sem vèr játum oss hluttakandi í hinni almennu syndasekt mannkynsins — hvaðan öll eymd sálar og líkama er sprottin —, má sèrhver af oss viðurkenna, að hann sjálfur allt frá barnæsku hefur brotið Guðs boðorð á margan hátt; og þó vèr ekki sjáum sambandið milli synda vorra og þeirra veikinda, sem vèr þjáumst af, þá eigum vèr þó að láta umhugsun um breyskleika vorn, umhugsun um dauðann og eilífðina vekja hjá oss þá játníngu, að vèr höfum unnið til þeirrar eymdar, sem á oss liggur. Sannarlega er mikill munur á þeim þjáníngum, sem eru beinlínis afleiðíngar af fávizku og löstum manna og þeim, sem spretta af Guðs sèrlegri tilhlutun, og sem hann sendir ekki einúngis hinum lastafullu, heldur og sínum ástkæru börnum. Þjáníng óguðlegra er hegníng syndarinnar, sem getur miðað til þess, að þeir iðrist og bæti ráð sitt; en þjáníng guðsbarna er kross, sem þau verða að bera í fótspor frelsara síns til að styrkjast í trúnni og þolinmæðinni. Þegar Jesús segir: kom þú og fylg mèr! þá bætir hann þessu við: og tak þinn kross þèr á herðar! En þetta segir hann einúngis við sín börn, við þá, sem játað hafa syndir sínar fyrir Guði, sem iðrast þeirra og eru endurfæddir af guðlegri náð. Þannig viðurkenna einnig þessir, að

þeir hafi unnið til þeirra þjáníngа, sem Drottinn leggur þeim á herðar. Þó telja sumir sèr krossburðinn til gildis og gæta þess ekki, að vèr hvorki getum hrósað oss fyrir Guði af verkum vorum nè þjáníngum. — Að vísu getur þú, guðhrædda sál! skoðað þann kross, sem þú ber í fótspor frelsara þíns, eins og merki uppá Guðs náð, en þó fer því fjærri, að þú megir byggja von sáluhjálpar þinnar á þínum lítilfjörlega krossi. Páll postuli gladdist af öllum þeim þrautum, sem hann hafði orðið að þola fyrir Kristí nafns sakir, og sagði: „einginn mæði mig hèðan í frá, því eg ber merki Jesú Krists á mínum líkama (Gal. 6., 17.). En rètt áður segir hann: „lángt sè frá mèr að hrósa mèr af öðru enn krossi Drottins vors, Jesú Krists.“ Hann einn veitir oss þolgæði í þjáníngunum og huggun í dauðanum; og þegar þú, kristinn maður, með sannri iðrun og trú, styður þig við hans helga kross, þá getur þú einnig með þolinmæði borið þinn eiginn kross og staðið stöðugur í þrautum og þjáníngum; þá getur þú hughraustur tekið dauða þínum og hugsað til þeirrar stundar, þegar þú átt að mæta fyrir dómstóli Drottins; þá er sjúkleiki þinn „ekki til dauða“, heldur til eilífs lífs, og verður þannig „Guði til dýrðar“ og frelsara þínum, sem hefur eytt valdi syndarinnar og dauðans. En hvernig er nú hugarfari manna vant að vera háttað á sóttarsænginni? Eru þeir vanir að vera áhyggjufullir útaf hinu andlega, útaf sálarástandi sínu? Æ nei! þeir eru vanir að stynja af veikindum líkamans, en ekki af veikleika sálarinnar eða syndum sínum; þeir eru vanir að draga það svo leingi sem verður að hugsa um dauðann, og þeir, sem hjá þeim eru, eða vitja þeirra, eru vanir að sneiða hjá öllu, sem getur minnt þá á dauðann, af ótta fyrir, að þeim kunni að þýngja af því, eða það standi þeim fyrir bata. — Því miður mun það eigi vera svo sjaldgæft meðal kristinna manna, að alvarlegri umhugsun um dauðann er skotið á frest fram undir andlátið; þá er fyrst farið að búa sig undir burtförina hèðan. Þetta sinnuleysi getur haft margvíslegar orsakir. Flestir halda, að þeim muni aptur batna, og að þá sè nógur tími til að iðrast syndanna og bæta ráð sitt. Sumir finna ekki til synda sinna, af því þeir hafa eins og faríseinn alltaf borið sig saman við aðra menn; og þó þeir finni til þess, að þeir eru syndugir, þá

hugga þeir sig við það, að vèr sèum allir syndarar í Guðs augum. Sumir halda, að þeir sèu fullgóðir og ráðvandir af því, að þeir hafa ekki verið hneigðir til stórkostlegra lasta, eða gjört sig seka í stórglæpum. Sumir þykjast hafa gjört öðrum mikið gott, af því þeir hafa rètt þurfamönnum ölmusu, án þess meðaumkun hjartans og því síður guðhræðsla hafi átt þátt í gjöfum þeirra, eða þeir hugga sig með því, að þeir hafi sýnt dugnað og látið gott af sèr leiða í mannlegu fèlagi. En þó þetta hafi aflað þeim álits og sæmdar í veröldinni, þá stoðar það þá þó ekki í guðsríki, hafi þeir ekki unnið í ótta Drottins og af mannkærleika. Hversu mikils metnir sem þeir hafa verið í mannlegu fèlagi, þá kemur þeim það ekki að haldi, þegar þeir koma fram fyrir hinn alskyggna dómarann, sem lítur á hjartalagið og dæmir ekki einúngis eptir verkum vorum, heldur eptir því, hvað oss geingur til þess, er vèr gjörum, og í hvaða skyni vèr gjörum það. Sumir skoða sinn óreglulega lifnað, eins og lítilfjörleg bernskubrot, sem ekki sè meira í varið enn þær smáyfirsjónir, sem þeim kann að hafa orðið á, meðan þeir voru óvitar eða á æskuskeiði; en þeir gæta þess ekki, að líf vort er samföst heild, samanhángandi festi, og þótt vèr á vegferð vorri hèr gleymum miklu af þeim vegi, sem farinn er, þá munum vèr þó frá sjónarhæð eilífðarinnar sjá hann frá upphafi til enda, sjá sèrhvert fótmál, er vèr heimuglega höfum stigið og sèrhverja synd og yfirsjón, er vèr höfum drýgt, og muna eptir sèrhverri athöfn, sèrhverju orði og sèrhverri hugsun vorri: þá munum vèr hvorki geta dulið syndir vorar fyrir sjálfum oss nè öðrum, heldur munu þær allar fylgja oss með eilífu ángri, nema vèr í þessu lífi verðum frelsaðir frá þeim með sannri iðrun og lifandi trú á Jesúm Krist, sem getur afplánað syndasekt vora og friðþægt oss við heilagan og rèttlátan Guð. Hjá flestum, sem ekki finna til synda sinna, kemur það til af blindri eigingirni, sem hefur komið þeim til að gæta betur að annara framferði enn sínu eigin siðferðislega ástandi, að gæta að ögninni í auga bróður síns, svo þeir hafa ekki sèð bjálkann í auga sjálfra sín, og þess vegna gleyma þeir enn sem fyrr þessari aðvörun: „dæmið ekki hart, svo þèr verðið ekki hart dæmdir“! (Lúk. 6., 37.). Opt sprettur þetta andvaraleysi af fávizku og vanþekkíngu á guðsorði, þó þetta sè iðuglega

brýnt fyrir þeim og trúarlærdómarnir sèu hverjum manni auðskildir.

En hvaða merki er þá órækt og áreiðanlegt uppá það, að syndarinn sè tekinn til náðar af Guði? Hvað annað enn dagleg betrun hjartans og lífernisins? En hvort sá, sem ekki iðrast fyrr enn á sóttarsænginni rètt undir andlátið, og deyr síðan, mundi hafa haldið betrun sinni áfram og geingið á Guðs vegi, hefði hann aptur komizt til heilsu, það veit Guð einn. Getur þá nokkur af oss átt það víst að verða tekinn til náðar og fá sáluhjálplegan dauða, ef vèr ekki leitum náðarinnar fyrr enn á banasænginni? því miður sýnir reynslan, að margir, sem á sóttarsænginni hètu Guði bót og betrun, fellu til sinna fyrri lasta, undir eins og þeir höfðu náð heilsunni aptur. Hvernig mundi hafa farið fyrir þeim, hefðu þeir dáið úr sjúkdómi sínum? En Guð, sem sèr alla hluti fyrir, sá líka þá, að þó hjarta þeirra í þann svipinn væri hrært af ángri og guðlegum tilfinníngum, mundi það þó aptur hverfa til syndarinnar, aptur verða bústaður vondra girnda og hugrennínga. þannig var undirbúníngur þeirra undir dauðann ógildur í Guðs augum, þó hann væri guðrækilegur fyrir manna sjónum. Hafi nú einhver ástvinur vor, eða einhver af oss, verið í þessari hættu staddur, þá ætti það að sannfæra oss um, hve áríðandi það er, að skjóta ekki betrun vorri á frest þángað til á sóttarsænginni, heldur hugleiða í tíma, hvað til vors friðar heyrir.

Æ! mun nokkur sá vera meðal vor, sem ekki óski þess, að geta heimfært til sín á sóttarsænginni þessi huggunarríku orð frelsarans: þessi sótt er ekki til dauða; sem ekki óski þess, að ástvinir hans og náúngar megi, þegar hann er skilinn við, finna til huggunar af þessum orðum frelsarans: „vinur vor sefur, en eg fer nú til að vekja hann" (Jóh. 11., 11.)? Ættum vèr þá ekki að hugleiða, hvað til þess útheimtist, að Jesús geti kallað oss vini sína? Ættum vèr ekki nú þegar að láta hans anda vekja oss af vorum syndasvefni, af vorum andlega dauða? því hvað er líf þitt annað enn dauði, syndugur maður! þegar sál þín er skilin við Guð? Hvað er veröldin umhverfis þig annað enn myrkur, þegar þú ráfar í andlegu myrkri og ert af blindri vantrú þinni útilokaður frá ljósinu og himninum og af óhreinum og syndsamlegum girndum fjötraður

við jörðina? En Drottinn er enn reiðubúinn til að uppvekja þig af þínum andlega dauða, og ef þú hlýðir hans röddu og rís á fætur til að höndla hið sanna og eilífa líf, sem hann vill veita þèr, þá mun hann taka skýluna frá augum þínum, svo þú sjáir þá hættu, sem þú ert staddur í, og leysa þig úr dróma syndanna, svo að þú með aðstoð hans anda getir við ljós hans orða haldið áfram á betrunar og helgunar vegi.

Ef vèr þannig, bræður mínir! á heilbrigðu dögunum snúum oss til Drottins og búum oss í tíma undir dauðann og eilífðina, þá getum vèr hughraustir tekið hverju því, sem Drottinn lætur oss að höndum bera, þá getum vèr ókvíðnir á sóttarsæng vorri sagt: „þessi sótt er ekki til dauða", því þó líkamans hreisi hrynji og vèr ekki rísum upp þaðan framar til þessa lífs, þá höfum vèr þó höndlað hann í trúnni, sem er upprisan og lífið, og hann mun uppvekja oss til eilífs lífs og eilífrar sælu. — Æ! himneski lausnari! lífgaðu trúna í vorum hjörtum, trúna á þig og vorn himneska föður; tak þú þèr bústað í sálum vorum, svo vèr aldrei gleymum þèr á heilbrigðu dögunum, heldur fylgjum þèr í kærleikanum, svo vèr glaðir og þolinmóðir getum borið krossinn á eptir þèr, þegar þèr þóknast að leggja oss hann á herðar. Og þegar vèr gaungum krossgaungu vora til grafarinnar, æ! láttu þá þinn frið í dauðastríði voru leiptra niður í vorar sálir, svo vèr förum hèðan í friði og náum friðarins himnesku höfnum! Amen.

## Á fjórða sunnudag eptir þrettánda.

### Bæn.

Þú sèr og þekkir bezt allar þarfir vorar, eilífi miskunsemdanna faðir! og eingiun nema þú fær bætt úr þeim. Sannfær þú oss um það, að vèr þörfnumst einkis meir enn góðrar samvizku og sannrar hugarrósemi, til að geta orðið farsælir þessa heims og annars. Leið þú athygli vort á þessari helgu stundu að öllu því, sem vill aptra oss frá að hafa frið við þig, því undir því, að vèr sèum í sátt við þig, er friður vorra sálna kominn. Æ! veit þú oss þá huggunarríku fullvissu, að vèr sèum í náð hjá þèr: þá

getum vèr fetað vort æfiskeið hughraustir og ókvíðnir í trausti til þinnar föðurlegu handleiðslu; þá getum vèr líka huggaðir tekið dauðanum, því hann flytur oss úr ókyrrleik og ólgusjó þessa lífs í hinar eilífu friðarins hafnir, til þín í þitt himneska dýrðarríki, sem er friður og fögnuður í heilögum anda. Amen.

## Guðspjallið
(Matth. VIII., 23.—27.).

**Jesús steig á skip og lærisveinar hans með honum. Og sjá þú! að mikill ókyrrleiki gjörðist í sjónum, svo skipið lá undir áföllum, en hann svaf. Lærsveinarnir vöktu hann og sögðu: herra, hjálp þú oss! vèr förumst. Jesús sagði til þeirra: hvað hræðizt þèr, lítiltrúaðir! Þá reis hann upp, hastaði á vindinn og sjóinn; varð þá blíða logn. Þetta undruðust menn mjög og sögðu: hvílíkur er þessi, að bæði vindur og sjór skuli hlýða honum!**

### Inngángur.

Það er vant að samlíkja mannlegu lífi við sjóferð, og á það vel við eins og ýmsar fleiri samlíkíngar, sem teknar eru af náttúrunni umhverfis oss; því hún líkist í mörgu tilliti lífskjörum vorum, hvort heldur litið er til vors innra sálarástands, eða þeirra breytínga, sem hinar ytri kríngumstæður vorar eru háðar. Líf vort líkist sjóferð og vèr berumst á báru tímans til hins óþekkta landsins, sem liggur hinu megin við dauðans djúp. Eins og sjóferð er líf vort ýmislegum hættum undirorpið, og alla varkárni verðum vèr við að hafa, svo vèr ekki rekumst á boða og blindsker, svo vèr ekki tortýnumst í ólgusjó lífsins, eða hrekjumst af rèttri leið af þeim stormum og fellibyljum, sem opt renna á úr blíða logni og oss að óvörum. — Alla varkárni verðum vèr við að hafa á þessari vegferð vorri og gefa vel gætur að sèrhverri hættu, sem oss kann að mæta, og svo framarlega sem vèr ekki erum öldúngis skeytíngarlausir um vor afdrif og eilífu kjör, hljótum vèr að stunda vora sáluhjálp með ótta og andvara. Alltaf koma nýjar og nýjar hættur fyrir og því getum vèr aldrei verið kvíðalausir, aldrei með öllu óhræddir fyrr

enn vèr sjáum friðarins hafnir og náum þeim. Vèr líkjumst í þessu sjófarendum. Þó þeir sèu alvanir og hafi opt í förum verið, vekur þó sèrhver ný lífshætta, sem þeir komast í, athygli þeirra, og fæstir geta vanið sig á að horfa með köldu blóði á hafrótið, sem ætlar að gleypa skip það, sem þeir eru á. Dæmi uppá þetta sjáum vèr af guðspjallinu. Lærisveinar Jesú hafa eflaust á fiskiveiðum sínum optsinnis áður siglt yfir um sjóinn (eða stöðuvatnið) Tíberías og verið komnir hætt; en þó fèllst þeim nú hugur og þeir urðu hræddir og óttaslegnir. Það er þessi skortur á stillíngu og jafnaðargeði, hvort heldur hugurinn æsist upp af hræðslu eða öðrum geðshræríngum, sem gjörir lífið að ólgusjó, sem gjörir siglíngu vora á straumi tímans svo erfiða og hættulega. Það eru ekki einúngis hinar ytri breytíngar á kjörum vorum, sem gjöra líf vort svo órólegt, heldur kemur sá ókyrrleiki optastnær úr hjörtum sjálfra vor, sem spillir rósemi og farsæld vorri. Í sálum vorum geysa stormar, og þar æða öldur, svo lífi voru er einatt hætta búin. Sæll er því sá, sem hefur Jesúm hjá sèr og getur leitað hans hjálpar. Hann sem „reis upp og hastaði á vindinn og sjóinn svo þar varð blíða logn", getur líka sefað ókyrrleik hjartans og veitt oss sanna hugarrósemi; og þetta sè vort umhugsunarefni á þessari helgu stundu.

Þegar vèr nú, kærir bræður! förum að grennslast eptir því, hverjir það sèr í lagi sèu, sem vantar sanna hugarrósemi, þá verða þeir fyrst fyrir oss, sem vantar stillíngu og staðfestu í hinu góða, sem láta sèr stjórna af vondum girndum og tilhneigíngum. Ekkert líkist meir ólgusjó enn sálarástand slíkra manna. Hvort sem vèr skoðum þá með tilliti til sjálfra þeirra, eða samband þeirra við Guð og aðra menn, þá sannfærumst vèr um, að þeir eru öllum friði firrtir og að hugarfar þeirra hlýtur að vera æst og órólegt. Sá sem ekki veitir syndsamlegum tilhneigíngum neina mótstöðu, heldur fylgir þeim viðstöðulaust, sá sem ofurselur sig óstjórnlegum girndum og geðshræríngum; hann finnur til sífeldrar óeirðar og óþreyju í hjarta sínu. Þær syndsamlegu fýsnir, sem hann lætur ráða við sig, þeir lestir, sem hann temur sèr, vilja hver um sig fá yfirráðin, og það geingur ekki af baráttulaust. Drambsemi, ágirnd, munaðarlífi,

hègómadýrð, hatur og öfund komast einatt í hár saman í sömu sálu, svo maðurinn verður á stundum að þjóna mörgum herrum í senn, og verður, þegar svo ber undir, þræll gagnstæðra lasta. Hann hrífst af þeim ofsalegu geðshræríngum, sem hann reynir ekki til að halda í skefjum. Ótti, reiði, sorg og gleði hrjá hann og hrekja og líkjast æðandi öldum, sem rekast hver á aðra og æsa sjóinn æ því meir. Og mun þá samvizkan, sem Guð gaf manninum til að áminna hann, allt af þegja, þegar hann aðhefst hið illa? Mun hún ekki við og við láta til sín heyra og með átölum sínum ónáða hann og trufla værð hans í syndinni, og það á stundum, þegar honum gegnir verst og hann vildi mega neyta ávaxta forboðna trèsins í næði og makindum? Með hvílíkum ótta hlýtur sá að hugsa til Guðs, sem brýtur hans boðorð vísvitandi og fyrirlítur hans náð? Með slíku hugarfari getur hann ekki nálgast Guð sem föður, heldur verður að álíta hann sem rèttlátan dómara, sem hegnara alls óguðlegs athæfis, og hann hlýtur að titra og skjálfa við þá tilhugsun, að hinn alvaldi hefur nóg ráð og nóga vegi til að hegna hinu illa: að „vondir menn eru í hendi hans hirtíngarvöndur syndarans“, og að höfuðskepnurnar hlýða hans boðum. Hinn lastafulli getur ekki heldur haft rósamt geð í breytni sinni og sambúð við aðra menn. Stundum reynir hann til að skaða aðra og gjöra á hluta þeirra; því „hinn óguðlegi sefur ekk“, segir Salómon, „ef hann hefur ekki gjört eitthvað illt“. Stundum kvelst hann af öfund yfir láni og lukkukjörum annara; stundum af tortryggni, af ótta og kvíða fyrir því, að aðrir muni sitja á svikráðum við sig: hann hræðist bæði væna menn og vonda, því hann veit, að vænir menn eru honum næsta ólíkir og geta ekki fallizt á breytni hans, og að vondir menn geta ekki til leingdar verið sáttir nè sammála. Þeir eru vanir að áfellast það hjá öðrum, sem þeim þykir vænt um í sínu fari, og sýna það, að vinátta, tryggð og hollusta getur ekki átt sèr stað nema hjá guðhræddum og góðum mönnum. Hvernig sem iðrunarlaus syndari lokar hjarta sínu fyrir áminníngum guðsorða, fyrir verkunum guðlegrar náðar og ásökunum samvizkunnar, til þess að truflast ekki í sinni syndsamlegu værð og andvaraleysi; hvernig sem hann með yfirskyni guðhræðslu og dyggðar reynir til að friða hjarta sitt og hylja

hugarfar sitt bæði fyrir sjálfum sèr og öðrum, þá getur þó ekki þessi svikula rósemi haldizt við til leingdar; og þegar hún hverfur, þá kemur því meiri órósemi í hennar stað, rètt eins og þegar ofviður liggur niðri um stund, en kemur á aptur með enn meiri ofsa enn áður. Því þó hræsnaranum takist að skýla hugarfari sínu fyrir sjálfum sèr og öðrum mönnum, þá getur hann hvergi falið sig fyrir Guðs alskyggna auga, sem sèr og rannsakar hjartalag hans og hugrenníngar; og þessa hugsun fær hann aldrei með öllu umflúið, og hún hlýtur að vekja hjá honum hræðslu og kvíða, einkanlega þegar dauðinn nálgast. Á barmi grafarinnar vaknar hin óguðlegi einatt af sínum syndasvefni, vaknar með ótta og skelfíngu, þegar hann fer að renna augunum yfir sitt liðna líf, og lítur til eilífðarinnar og finnur til þess, að Guð muni gjalda þar sèrhverjum eptir hans verkum. Þessu órólega sálarástandi hinna óguðlegu er víða lýst í heilagri ritníngu; þannig segir Job: „Alla sína daga kvelur sá óguðlegi sig sjálfan; skelfíngarhljóð er fyrir eyrum hans og hann sèr alstaðar fram undan sèr sverð“ (15., 20., 21.), og Esaías spámaður samlíkir óguðlegum við „ólgufullt haf, sem aldrei getur kyrt verið“, og segir, „að þeir hafi eingan frið“ (57., 20., 21.).

En þessi órósemi og ókyrrleiki hjartans á sèr stað ekki einúngis hjá hinum óguðlegu og iðrunarlausu, heldur og hjá iðrandi mönnum og sannkristnum. Þeir mega ekki búast við því, að geta náð höfnum án þess að hafa haft mótbyr lukkunnar, ekki búast við því, að lifa hèr alla æfi án þess að finna til ótta, hryggðar og órósemi, því þetta líf er reynsluskóli, það er sífeldum ókyrrleik og breytíngum undirorpið; stundum eru þeir áreittir af hatri og ofsóknum vondra manna; stundum liggur þeim við af ótta fyrir mönnum að yfirgefa hið góða málefni og láta sig bera með straumnum; stundum eru þeir undirorpnir ýmislegum krossburði og þjáníngum, sem Drottinn sendir þeim; og þegar hann dregur hjálpina undan og það lítur svo út eins og hann gefi ekki gætur að þeirri neyð og hættu, sem börn hans eru stödd í, og heyri ekki bænarandvörp þeirra, þá liggur þeim við að segja eins og lærisveinarnir: „herra! hjálp þú oss, vèr förumst“! stundum verða þeir sturlaðir og órólegir af sínum eigin breyskleika og ófullkomlegleika; þeir ángrast af því, hve tregir þeir eru til hins góða, hve bágt þeir eiga með að verjast

áhlaupum freistínganna og leggja af bresti sína og hve lítið þeim verður ágeingt í þeirra betrunarverki. Já, einatt hræðast þeir dauðann og kvíða fyrir honum, þó þeir ekki þurfi þess, þareð þeir í trúnni eru sameinaðir lausnara sínum, sem hefur sigrað dauðann og leitt í ljós lífið og ódauðleikann. Og hve erfitt veitir það líka, þó skynsemi og trúarbrögð sèu tekin til hjálpar, að gæta hófs í þeim ótta, sem skapari vor af alvizku sinni hefur gróðursett í mannlegum hjörtum. Þenna ótta fyrir dauðanum getur þó einginn rèttilega sefað nema Jesús Kristur; hann einn megnar að sefa og stöðva allan ókyrrleik og órósemi sálarinnar; hann einn getur veitt oss sanna hugarrósemi.

Það er sagt í guðspjallinu, „að hann hafi risið upp, hastað á vindinn og sjóinn, og þar hafi orðið blíða logn“.

Eins og Jesús varð að bjóða vindinum að þagna og sjónum að lækka sig, til þess hann gæti hughreyst lærisveina sína, eins verður að burtrýma þeim hlutum, sem æsa hugann og geðshræríngarnar, til þess að maðurinn geti öðlazt sanna hugarrósemi. Þegar vèr nú fyrst lítum til hinna iðrunarlausu, þá verða þeir að læra að kefja sínar syndsamlegu girndir og tilhneigíngar, læra að stjórna sínum óreglulegu geðshræríngum, og að friða samvizkuna; þeir verða að læra að lypta trúar og vonar augum upp til Guðs, hlýða hans boðum með auðsveipni og glöðu geði og breyta þrældóms ótta sínum í sannan Guðs ótta, sem sprettur af elsku til hans; þeir verða að leggja af hatur, reiði og öfund, sem slítur sundur það friðarins band, sem á að samteingja kristna menn í bróðurlegum kærleika, en íklæðast, eptir áminníngu postulans, „hjartfólginni miskunsemi, góðvilja, auðmýkt, hógværð og þólinmæði, svo þeir umberi hver annan í kærleika“ (Kól. 3., 12.); þeir verða að forðast hræsni og skynhelgi og fá hjartanlegan viðbjóð við syndinni; þeir verða að stunda hreinskilni í hugsunum, orðum og verkum, svo allt þeirra háttalag lýsi því hjartalagi, sem vill þóknast Guði og elskar hann; þeir verða að reyna til að sigra þá hræðslu fyrir dauðanum og þann ótta fyrir eilífðinni, sem hlýtur að vera samfara iðrunarlausu og Guði fráhverfu hugarfari. En þessu verður ekki komið til leiðar, nema með sannri og einlægri iðrun; nema með því, að syndarinn sjái og sannfærist um sitt ófarsæla ástand, meðan hann er undir yfirráðum syndarinnar, og að hann

getur ekki vænt sèr neinnar sannrar hugarrósemi í þessu eymdarfulla ástandi; þess vegna hlýtur hann með einlægu ángri og trega að snúa sèr til Guðs, leita hans náðar og miskunar og biðja hann í Jesú nafni um fyrirgefníngu syndanna. Á þenna hátt getur syndarinn feingið sannarlega rósemi, sannarlega hvíld fyrir sálu sína, og þenna hjartans frið á hann frelsara sínum að þakka. Það er satt, sem stendur í vorri barnalærdómsbók, að „vèr getum ekki af eiginn kröptum snúið oss og trúað, þareð syndin hefur veikt oss.“ Apturhvarfið er náðarverkan Guðs í manninum; Jesús einn getur vakið hann af svefni syndanna. „Án mín“, segir hann, „megnið þèr ekkert“. Hann einn, sem hastaði á vindinn og sjóinn, svo þar varð blíða logn, getur sefað ókyrrleik hjartans. En gæt þú vel, syndugur maður! að þeim mismun, sem er á ólgu sjáfarins og hjartans, og að þeim mismun, sem er á því, hvernig Jesús sefar hvort um sig. Sjórinn varð allt í einu kyrr, þegar almætti hans bauð vindinum að þagna og bylgjunum að lækka sig; því hin dauða náttúra varð að hlýða heilögum vilja Drottins. En við þig beitir hann ekki almætti sínu, heldur fer hann með þig eins og skynsemi gædda og frjálsa veru, og þess vegna mátt þú ekki veita náðarverkunum hans mótspyrnu, eða með mótþróa þínum láta þær verða til ónýtis á þèr, heldur átt þú að umfaðma og aðhyllast guðlega náð og neyta allra krapta þinna til að vinna með henni að þínu betrunarverki; því þetta er hið eina ráð til þess, að þú getir feingið samvizkufrið og sálarrósemi. Hugleið þú þetta, svo þú tælir ekki sjálfan þig með þeirri huggun, að Jesús muni sefa ókyrrleik hjarta þíns, þó þú sjálfur sèrt aðgjörðalaus, þó þú sjálfur ekkert gjörir til að efla þína sáluhjálp, eða þó þú skjótir betrun þinni á frest. Hugsa þú ekki, að það sè nóg, að þú finnir til þarfar þinnar, að þú finnir til þess, að hugarrósemi er skilyrði fyrir farsæld þinni; hugsa þú ekki, að þú eigir heimtíng á friði við Guð og sjálfan þig, af því að Jesús hafi friðþægt mannkynið við Guð. Þú verður sjálfur að leita þessa sálarfriðar hjá honum, leita hans með heitri og innilegri bæn, með einlægri iðrun og þeim alvarlega ásetníngi að stunda það og sækjast eptir því, sem getur veitt sálu þinni frið og rósemi í lífi og dauða. Tak þú skynsemi þína þèr til hjálpar; tileinka þú þèr þau náðarmeðul, sem

hann hefur gefið þèr, og þær náðarverkanir, sem hann leitast við að betra með hjarta þitt: þá mun Jesús styrkja þína veiku skynsemi, blessa þèr náðarmeðulin og láta verkanir þeirra sjást í betrun lífernis þíns. Já, fylg þú í þessu, syndugur maður! þeirri ávísun, sem Jesús hefur sjálfur gefið þèr, þegar hann segir: „komið til mín allir þèr, sem erfiðið og þúnga eruð hlaðnir, eg vil gefa yður hvíld“! (Matth. 11., 28.).

Eins er það eptirtektavert, hvernig Jesús sefar allan ókyrrleik og órósemi hjartans hjá iðrandi mönnum og sanntrúuðum. „Hvað hræðizt þèr, lítiltrúaðir“! sagði Jesús við lærisveina sína. Af ístöðuleysi og veikri trú, eða vantrausti, sprettur líka einkanlega órósemi sannarlegra guðsbarna í þessu lífi. Væri trú þeirra nógu sterk, hefðu þau tilhlýðilegt traust á Guði, þá mundu þau sjaldnar láta hugfallast, sjaldnar finna til hræðslu og hugsýki. Jesús kennir þeim, hvernig þau eigi að útrýma óttanum, eða að minnsta kosti halda honum innan rèttra takmarka; hann styrkir þeirra veiku trú og sefar með því ókyrrleik og órósemi hjartans. En hvernig kemur hann þessu til vegar? Ekki með almætti sínu beinlínis, heldur óbeinlínis. Hann upplýsir skynsemi þeirra með sínu orði, svo þau geta metið þær ástæður og það tilefni, sem þau hafa til órósemi og hræðslu, og stjórnar ímyndunaraflinu, sem hætt er við að villast, þegar það er látið sjálfrátt; og með þessu móti leiðir hann þau til að gefa gætur að Guðs föðurlegu handleiðslu á þeim og styrkir þeirra trúnaðartraust á Guði. — Eitthvert hið bezta og kröptugasta huggunarmeðal er sú heilaga kvöldmáltíð, því hún felur í sèr læknisdóm hinna dýpstu sára, fyrirgefníngu syndanna og von eilífs lífs; hún styrkir trú hins trúarveika, huggar hin hryggu og harmþrúngnu hjörtun, veitir krapta og staðfestu í hinu góða, eflir traust vort á frelsaranum, og glæðir elskuna til hans í sálum vorum. Heilög kvöldmáltíð setur oss lifandi fyrir sjónir og kennir oss að heimfæra til vor öll þau náðarríku og huggunarfullu fyrirheit, sem Guð hefur gefið oss í sínu orði. Æ, hvað getur betur sefað harma lífsins, veitt oss hugrekki og djörfúng enn guðsorð og þau náðarmeðul, sem hann hefur gefið oss? þar finnur þú, kristinn maður! Guðs alvæpni, þar finnur þú sannleikann, brynju rèttlætisins og skjöld trúarinnar, og þegar þú íklæðist þessum vopnum, þá getur þú staðizt

vèlabrögð hins vonda, staðizt hatur og árásir vondra manna, lagt af ístöðuleysi þitt og ótta fyrir mönnum, en feingið djörfúng og hugrekki til að gegna skyldum þínum með alúð og trúmennsku; því „ef Guð er með þèr, hver getur þá verið á móti þèr“? Af guðsorði fær þú huggun og hugsvölun þegar hjarta þitt og samvizkan ásaka þig fyrir þann breyskleika og ófullkomlegleika, sem enn þá loðir við þig; því það fullvissar þig um, að „það er eingin fyrirdæmíng framar yfir þeim, sem eru í Jesú Kristi, sem ekki gánga eptir holdinu, heldur eptir andanum“ (Róm. 8., 1.), og þú getur huggað þig með þessum orðum postulans: „þó vort hjarta fordæmi oss, er Guð þó meiri voru hjarta og þekkir allt“ (1. Jóh. 3., 20.). Í guðsorði finnur þú allt það, sem bezt styrkir þolinmæði þína í þjáníngunum, og gefur þèr stöðuglyndi til að bera þann kross, sem Drottni þóknast að leggja þèr á herðar, þareð þú veizt, að þinn gæðskuríki faðir er að reyna trú þína með krossburðinum, svo að hún verði þèr til sáluhjálpar, en honum til lofs og dýrðar, sem er höfundur og fullkomnari trúarinnar. Já, í guðsorði finnur þú það, sem sefar alla dauðans ángist og ótta í brjósti þínu, svo þú getur ókvíðinn tekið dauða þínum, ef þú rækilega innrætir þèr þá skoðun á honum, sem guðsorð brýnir fyrir þèr, ef þú skoðar hann, ekki sem syndahegníngu, heldur sem inngáng til annars betra lífs. Í þínu nafni, Drottinn! viljum vèr lifa og deyja, og þegar vèr höfum þig að eins, þá hirðum vèr hvorki um himin nè jörð; því þó líf og sál vanmegnist, ert þú þó, Drottinn! vort hjartans traust og hlutskipti æfinlega. Amen.

---

## Á fimmta sunnudag eptir þrettánda.

### Bæn.

Lát þú þinn anda, Drottinn! þreingja sèr inn í hjörtu hinna andvaralausu og vekja þá af syndanna svefni, svo þeir sjái þá hættu, sem þeir eru staddir í, og snúi sèr til þín með sannri iðrun og lifandi trú. Láttu þinn anda

jafnan búa í vorum hjörtum og minna oss á að vaka og biðja, svo vèr ekki sofnum, svo vèr ekki gleymum því að stunda vora sáluhjálp með ótta og andvara. Vak þú yfir oss, himneski faðir! svo óvinurinn fái ekki færi á að sá illgresi í akur vorra hjartna, heldur megi hið góða sæði þinna orða bera hjá oss margfaldan ávöxt. „Vak þú, minn Jesú, vak þú í mèr, vaka lát þú mig eins í þèr; sálin vaki þó sofni líf, sè hún ætíð í þinni hlíf! Amen.

## Guðspjallið

(Matth. XIII., 24.—30.).

Aðra eptirlíkíngu sagði Jesús þeim og mælti: Himnaríki er líkt þeim manni, er sáði góðu sæði í akur sinn. En þegar menn sváfu, kom óvinur hans og sáði illgresi á meðal hveitisins og gekk síðan á burt. En er sæðið spratt upp og tók að bera ávöxt, þá kom og illgresið í ljós. Þá geingu þjónar húsbóndans til hans og sögðu: Herra! sáðir þú ekki góðu sæði í akur þinn? hvaðan kemur honum þá illgresið? Hann svaraði: það hefur óvinurinn gjört. Þjónustumennirnir sögðu þá: vilt þú ekki, að vèr förum og upprætum það? Hann svaraði: nei, ekki vil eg það, svo þèr ekki, nær þèr upprætið illgresið, rífið hveitið upp með. Látið hvorttveggja vaxa saman til kornskerunnar, og á kornskerutímanum skal eg segja til kornskurðarmannanna: lesið fyrst saman illgresið, og bindið það saman í bindini til að brenna því, en samansafnið hveitinu í mína kornhlöðu.

## Inngángur.

„Gátuð þèr þá ekki vakað með mèr eina stund?“ Með þessum orðum ávarpaði Jesús Pètur lærisvein sinn, þegar hann tók hann og þá tvo sonu Sebedeusar með sèr í grasgarðinn Getsemane seinustu nóttina sem hann lifði. Þá var frelsarinn staddur í dauðans ángist, því þá var sá tími kominn, að syndabyrði heimsins yrði lögð á hans syndlausu og heilögu herðar. Þúng var byrðin, en sterkur var kærleikurinn og þolinmóður. Einmana stóð nú lausnarinn í sinni djúpu hryggð,

yfirgefinn af öllum, nema fáeinum ístöðulausum lærisveinum, og við þá sagði hann: „Eg er í dauðans ángist, bíðið hèr og vakið með mèr“! En — hèr sjáum vèr dæmi uppá vorn mannlega veikleika — fáein augnablik gekk Jesús frá þeim til að biðjast fyrir, snèri síðan aptur til þeirra og fann þá sofandi. þeir höfðu gleymt orðum hans áður enn þau voru töluð; þeir gátu ekki lètt af sèr þeim „svefnþúnga, sem fallinn var á augu þeirra“; þá mælti hann með sömu blíðu og sama kærleika, sem endrarnær: „gátuð þèr þá ekki vakað með mèr eina stund?“ (Matth. 26., 40.). þegar þú les eða heyrir þetta, kristinn maður! kemur þèr þá ekki til hugar, að hinn trúfasti vinur og leiðtogi hefði mátt vænta meiri árvekni og hluttekníngar af þeim, sem hann að undanförnu svo ástúðlega hafði leitt og verndað, sem hann svo opt hafði hjálpað og frætt með sínum viturlegu samræðum? En varast þú að leggja harðan dóm á lærisveina Drottins; lít þú heldur í þinn eiginn barm! Hver vísaði þèr veg til himins, hver gætti þín á veginum fyrir hættum og slysum, hver afrekaði þèr barnarètt og aðgáng til föðursins, frið við Guð og sjálfan þig? Var það ekki sá sami Jesús Kristur, frelsari þinn og allra manna? Og hvernig hefur þú vakað, hvernig hefur þú þakkað honum alla þá náð og mildi, sem hann hefur auðsýnt og enn þá auðsýnir þèr? Mátt þú ekki með ángri játa, að svefnþúngi hefur einatt sigið á augu þín, svo þú hefur misst sjónar á Guði og frelsara þínum, að þig einatt hefur vantað árvekni í að gegna skyldum þínum, einatt sifjað þegar þú áttir að vaka yfir hugrenníngum þínum og girndum. Æ! þetta megum vèr allir viðurkenna, og því þurfum vèr allir að heimfæra til vor þessa áminníngu frelsara vors: „Vakið og biðjið, að þèr fallið ekki í freistni! andinn er að sönnu reiðubúinn, en holdið er veikt“. Árvekni og bænar þurfum vèr allir við, og um það fáum vèr einnig eptirtektaverða hugvekju af hinu upplesna helga guðspjalli, með því þar er sagt, að óvinurinn hafi komið *þegar menn sváfu* og sáið illgresi meðal hveitisins og svo farið á burt. — Að öðru leyti hefur Jesús sjálfur útskýrt þessa lærdómsríku dæmisögu. „Sá, er sáði því góða sæði“, segir hann, „þýðir mannsins son; akurinn þýðir veröldina; hinn góði ávöxturinn þýðir guðsbörn; illgresið þýðir börn hins vonda; en óvinurinn, er sáði því, merkir djöfulinn; korn-

skerutíminn merkir enda heimsins; kornskurðarmennirnir merkja einglana“ (Matth. 13., 37.—39.). Árvekni og bænar þurfum vèr allir við, kærir bræður! og til að innræta oss þetta því betur, viljum vèr með Guðs aðstoð verja þessari helgu stundu til að hugleiða: hve hættulegt andvaraleysið er.

„Þegar menn sváfu kom óvinurinn og sáði illgresi meðal hveitisins og gekk á burt“. Andvaraleysið er í þessari samlíkíngu gefið til vitundar með þeim orðum: *þegar menn sváfu*; þá læddist óvinur Drottins inn í hans akur og sáði illgresi syndarinnar innan um hveitið. Þetta sýnir oss hvernig hið illa læðist inn í huga mannsins þegar hann sefur, þegar hann vantar árvekni og hirðir ekki um að efla sína sáluhjálp með ótta og andvara. Í sèrhverri stètt og stöðu lífsins getur andvaraleysið átt sèr stað og er alstaðar jafnhættulegt fyrir sálarheill vora. Það er andvaraleysi, þegar foreldrarnir vanrækja uppeldi barna sinna, þegar þeir vanrækja að uppala þau í guðsótta og kenna þeim hans heilaga orð, þegar bæn og guðrækni eru látin sitja á hakanum og minna metin enn áhyggja og búksorg, þegar ekki er um annað hugsað nè að öðru spurt enn því: hvað eigum vèr að eta, hvað eigum vèr að drekka og hverju eigum vèr að klæðast? Það er andvaraleysi, þegar menn láta sèr mest um það hugað að kenna börnunum það, sem geti veitt þeim tímanlega hagsæld og tímanlegan ágóða; þegar allt er miðað við þetta hverfula og fallvalta líf, en ekkert við eilífðina; þegar menn halda, að þeir hafi aflokið skyldu sinni, ef þeir geta skilið börnum sínum eptir tímanlega fjármuni og að ábyrgðarhluti foreldranna nái ekki leingra. Það er andvaraleysi, þegar geingið er á undan börnunum með illu eptirdæmi, þegar þau eru látin heyra ljót og ósæmileg orð og venjast við agg, þrætur og ósamlyndi. Þetta er að sá illgresi í hin úngu hjörtun, sem getur haft tímanlegar og eilífar afleiðíngar fyrir þau, og er það mikil og þúng ábyrgð fyrir þá, sem þannig breyta. Það er andvaraleysi, þegar þeir, sem yfir öðrum eiga að ráða, sem til valda eru settir, gleyma stöðu sinni, gefa öðrum illt eptirdæmi og ala spillínguna, í stað þess að reisa skorður við henni, í stað þess að láta ljós sitt skína fyrir mönnum og verja valdi og áliti sínu til að gæta rèttarins og vernda hina saklausu; þegar þeir, sem á hverju

augnabliki ættu að vera boðnir og búnir til að setja öxina til rótar hins illa, skeyta ekki um að stemma stigu fyrir því, eða eru því heimuglega eða opinberlega meðmæltir og verða þannig sjálfir til að styðja og útbreiða lestina. Þetta andvaraleysi er því hættulegra, sem hættara er við, að fleiri feti í fótspor þessara manna; því „eptir höfðinu dansa limirnir" og „hvað höfðíngjarnir hafast að, hinir ætla sèr leyfist það". Það er andvaraleysi, þegar húsbændur fara illa með hjú sín; heimta allt af þeim, en vilja lítið eða ekkert láta af hendi rakna við þau, og þetta andvaraleysi er því syndsamlegra, þegar hjúin eru börn eða únglíngar, sem, ef til vill, eingan eiga að í veröldinni og sem einkis þarfnast meir enn að húsbændurnir gángi þeim í foreldra stað, sýni þeim gott atlæti, uppfræði þau í þeirra sáluhjálparefnum og kenni þeim að lypta trúaraugum upp til föðursins á himnum. Það er andvaraleysi, þegar menn gleyma því, að hið sanna líf mannsins er innifalið í trú og guðrækni; þegar menn hætta að hirða um að láta guðsorð búa ríkulega hjá sèr, vanrækja að hafa það um hönd í heimahúsum, vanrækja kirkjugaungu og altarisgaungu; hafa hvíldardaginn til alls annars enn guðrækilegra hugleiðínga, og í stað þess að hafa hann til hvíldardags í Drottni gjöra úr honum hvíldardag í synd og svalli. Það er andvaraleysi, þegar menn forðast allt, sem minnir þá á alvöru lífsins, á dauðann og eilífðina; þegar menn, í stað þess að keppast á hver við annan að afla sèr andlegra fjársjóða og verða ríkir í góðum verkum, í stað þess að leitast við að ávinna sèr samvizkunnar frið og von eilífs lífs, þrátta um tímanlegan hagnað og ágóða, metast hver við annan um álit og upphefð. Það er andvaraleysi, þegar kennendur guðsorðs vanrækja skylduverk sín og reynast ótrúir í sinni köllun, þegar þeir eru skeytíngarlausir í að sá og vökva, og gleyma því, að það er Guð sem ávöxtinn gefur og að hann getur gefið ríkulegan ávöxt, þó sæðið sýnist falla í grýtta jörð; þegar þeir, í stað þess að áminna og leiðrètta, sjálfir leiðast afvega og fylgja straumnum; þegar þeir hræðast sèrhverja mótspyrnu og skjálfa og titra af ótta fyrir mönnum; þegar þeir gleyma Guði, sem þeir á síðan eiga að standa reiknígnskap af því, hvernig þeir hafa gætt þeirra sálna, er þeim var falið á hendur að leiða til eilífs lífs. Þannig getur svefnþúngi sigið á augu mannsins

og andvaraleysið læðzt inn í sálu hans í sèrhverri stètt og stöðu lífsins, þegar hann gleymir að vaka og biðja; og því síður ættum vèr að gleyma þessu, þegar vèr hugleiðum, hve hættulegar afleiðíngar andvaraleysið hefur bæði um tíma og eilífð. „þegar menn sváfu“, segir Jesús, „kom óvinurinn og sáði illgresi meðal hveitisins“. þessi orð sýna oss, hve mjög oss ríður á að vaka og biðja; þau sýna oss, að spillíng mannsins mundi ekki af sjálfri sèr geta komið svo miklu illu til leiðar í Guðs akri, sem verndaður er og vökvaður af Guðs himnesku náð, ef ekki væri til annar máttgari óvinur sálnanna, sem situr á svikráðum við oss og leitast við að hindra vora betrun og sáluhjálp; þessi orð frelsarans sýna oss, að hið illa hefur dýpri rætur í tilveru hlutanna enn þær sem vèr sjáum, að myrkranna ríki dregur þá til sín, sem ekki gánga í ljósinu, sem loka augum sínum fyrir ljósi guðsorða og falla síðan í svefn andvaraleysisins. Finnir þú því, kristinn maður! til syndaeymdar þinnar, sèrt þú hryggur og harmþrúnginn af því, að þú ert svo skammt kominn á vegi helgunarinnar og að þèr verður svo lítið ágeingt í þínu betrunarverki, að þú enn þá, á þínum innilegustu andaktar og guðræknis stundum, dregst niður til jarðarinnar með ótal böndum, og ert eins og fjötraður við syndina, þá hugfestu þessi orð frelsarans: „þegar menn sváfu, kom óvinurinn og sáði illgresi meðal hveitisins“, því þau minna þig á árveknina, minna þig á hvílíka þörf þú hafir á að vaka og biðja og efla þína sáluhjálp með ótta og andvara. En sèrt þú þar á mót andvaralaus og óhræddur við breyskleika þinn og þann óvin, sem læðist inn í hjarta þitt, hve nær sem þú ekki hefur gát á sjálfum þèr, eins og manndrápari að legurúmi sofanda manns; gjörir þú lítið úr syndaspillíngu þinni, sem rennur um allar æðar tilveru þinnar, og að hinu ósýnilega valdi, sem æsir girndir þínar: þá ert þú eins og fávíst barn, sem leikur sèr að eldi, og veizt ekki fyrr til enn þú ert búinn að skaðbrenna þig og liggur hjálparlaus í loganda báli. Barnæskan er vortími æfinnar; hún er sáðtíminn; þá er sá rètti tími til að sá hinu góða sæðinu; og mikill er ábyrgðarhluti vor, ef vèr af andvaraleysi vanrækjum þetta og sláum hjarta og hendi af hinni úngu kynslóð, sem vex upp meðal vor; því æskan er ei síður undirorpin freistíngum og árásum óvinarins enn fullorðins árin, og því meir ríður

á að vaka trúlega yfir æskunni, sem hún er undirstaða seinni áranna, og fullorðins árin sýna það optast nær, hvernig því sæði hefur verið varið, sem sáð var í hin úngu hjörtun, því „hvað úngur nemur gamall temur“. Í barnæskunni er gott og illt að búa um sig, þó lítið á beri, og menn þá ekki sjái, hvaða stefnu barnið muni taka; þá getur hið viðkvæma föður- og móðurhjarta ekki leyst úr þeirri spurníngu, hvað úr barni þeirra muni verða; en því geta foreldrarnir ráðið, hverju sæði þeir sá í hjörtu barna sinna, og þeir ættu vel að gæta þess, að skortur á árvekni, að andvaraleysi í uppfræðíngu og uppeldi barnanna getur haft ófarsælar afleiðíngar fyrir þau bæði um tíma og eilífð. „En þegar grasið vóx upp og bar ávöxt, þá auglýstist og illgresið“. Flytjum nú huga vorn til seinni áranna. Hvað er orðið af þeirri blómlegu plöntu, sem grænkaði svo vel á vormorgni æfinnar? Einatt finnum vèr hana aptur þar sem illgresið er sem mest og vex sem óðast. Þessi únglíngur, sem hvorki gefur gaum að áminníngum Guðs nè manna, sem þaggar niður sèrhverja aðvörun samvizku sinnar, og í blindni sinni æðir út á lastanna og glötunarinnar veg, hann var einu sinni í tölu þeirra, sem Jesús tók sèr í fáng og sem hann sagði um, að „þvílíkum heyrði guðsríki til“; það var andvaraleysið, sem steypti honum í þessa ógæfu, andvaraleysi sjálfs hans og þeirra, sem áttu að gæta hans og leiða hann á friðarins veg. Þeir höfðu aldrei sjálfir sannfærzt um það, „að ótti Drottins er upphaf vizkunnar“, og því höfðu þeir ekki látið sèr vera annt um að innræta barni sínu ótta Drottins; þeir höfðu aldrei sjálfir sannfærzt um, að þetta líf er stríð milli ljóssins og myrkursins, milli holdsins og andans, og því höfðu þeir aldrei kennt barni sínu að vaka og biðja. Af því að þessi sannfæríng um baráttu lífsins, um nauðsyn árvekninnar og bænrækninnar, er ekki lifandi í hjörtum manna, þá útbreiðist einlægt andvaraleysið frá kyni til kyns og illgresið festir einlægt rætur og sprettur meðal hveitisins.

Á meðan hveitið og illgresið sprettur hvort hjá öðru og hvort innan um annað í sama akurlendi, má sannkristinn guðelskandi maður aldrei vera andvaralaus; ytra og innra er hann allt af umkríngdur af hættum, svo hann verður allt af að halda sèr vakandi, allt af eiga í stríði og baráttu við syndina bæði

í hjarta sínu og í heiminum; en hver mundi endast til þessa, ef honum veitist ekki styrkur og hjálp af hæðum, þegar hann andvarpar til Guðs og úthellir hjarta sínu fyrir honum? þess vegna verðum vèr ekki einúngis að vaka, heldur einnig að biðja, en bænin sameinar oss Guði, og því vakir Guð með oss og yfir oss. En ekki mun illgresið til eilífðar vaxa meðal hveitisins; ekki mun hinu illa og hinu góða æfinlega verða blandað saman eins og nú. „Látið hvorttveggja vaxa allt til kornskurðarins", segir Drottinn, „og á kornskerutímanum mun eg segja til kornskurðarmannanna: lesið fyrst saman illgresið og bindið það saman í bindini, til að brenna því, en samansafnið hveitinu í mína kornhlöðu"! þegar Guð hèr í tímanum hlífir hinum vondu ásamt hinum góðu, þegar hann lætur sína sól upprenna yfir ráðvanda og óráðvanda, þá auglýsir hann með því sína þolinmæði og að hann vill ekki dauða syndugs manns, heldur að hann snúi sèr og lifi; og fyrir það hefur margur villuráfandi syndari snúið aptur, komizt á rètta leið og öðlazt frið og frelsi; dæmi dyggðugra manna og samræður við þá hafa komið mörgum syndara til að sjá að sèr og snúið honum frá villu hans vegar. Og hinum trúlyndu þjónum Drottins er það einnig til góðs, að Guð hlífir vondum mönnum, því einmitt í stríðinu við þá reynist dyggðin, og fegurð hennar skín hvað skærast við lastanna hlið; þá reynir á þolinmæði, umburðarlyndi, sáttgirni og kristilegan kærleika; árásir hinna vondu gefa hinum góðu tilefni til sífeldrar árvekni og vond eptirdæmi eru öðrum eigi síður til viðvörunar enn til ásteytíngar; því „til þess eru vond dæmi að varast þau". Hvernig gætir þú, kristinn maður! verið sáttgjarn, ef þú hefðir einga mótgjörð að fyrirgefa? eða friðsamur, ef einginn gjörði á hluta þinn og þú hefðir eingum ófriði að afstýra? Í stuttu máli, eins og vèr þurfum á árvekni að halda, meðan vèr dveljum í þessum reynslunnar skóla, eins höfum vèr orsök til að vegsama speki Drottins í þessu sem öðru og þakka honum fyrir hverja reynslu, sem hann lætur oss að höndum bera. Mismunurinn á hinu góða og hinu vonda sæði verður allt af meiri og meiri eptir því sem frálíður og hvorttveggja kemur betur upp, þángað til það loksins verður að aðskiljast, og þessi aðskilnaðarstund kallast í guðsorði *uppskerutími*. þegar þú stendur hjá vöggu barnsins, þá getur

þú ekki sèð fyrir, hvað fyrir því muni liggja, hvernig það muni ráðast, og hvort farsæld eða ófarsæld muni verða hlutskipti þess; en þegar þú stendur hjá banasæng deyjanda manns, þá hrífst þú fremur af ótta eða von, því þá er sæðið komið upp og þú hefur sèð að minnsta kosti nokkuð af ávöxtum þess, þó þú sjáir þá ekki til fulls, því það getur einginn sèð nema Drottinn, því hann einn getur rèttilega dæmt um sálarástand hvers eins. En það vitum vèr, að á eptir dauðanum kemur dómurinn og að hinu megin grafarinnar verður fullkominn aðskilnaður gjör á góðum og vondum. Kristnir bræður! hvort heldur þèr lítið til uppskerutímans í eilífðinni, þar sem allir fá endurgjald athafna sinna, eða þèr skoðið þetta líf, hvern aldur, og hverja stètt og stöðu þess sèr í lagi, eða þèr skyggnizt inn í hjörtu sjálfra yðar, þá finnið þèr óteljandi áminníngar um að vera árvakrir og trúir, sem lærisveinar Jesú Krists og erfíngjar eilífs lífs. Liggi yður við að verða yfirbugaðir af freistíngum, að þreytast í stríðinu, þá hugsið til þess, að hvorttveggja varir að eins um stundar sakir, og gjörvöll æfi vor er ekki annað enn stutt stund í samanburði við eilífðina. „Gátuð þèr þá ekki vakað með mèr eina stund?" segir Jesús við yður, hann, sem hefur gjört yður meira gott enn þèr um alla eilífð fáið endurgoldið. Og hvernig hafið þèr vakað með honum allt til þessa? Í hverju ástandi hittir hann yður nú á þessari stundu? Ef til vill, sofandi og skeytíngarlausa um allt, sem hann hefur boðið yður; gleymna og vanþakkláta fyrir alla þá umönnun, sem hann hefur borið fyrir sálarheillum yðar; ef til vill, sokkna niður í synd og lesti, tilfinníngarlausa fyrir því, að þèr eruð hermenn og þjónustumenn Drottins; alvörulausa í því að efla og útbreiða guðsríki; árveknislausa í því að halda yður sem hveiti í hans akri, að halda yður hreinum og óflekkuðum af heiminum, og í stuttu máli: *andvaralausa.* „Gátuð þèr þá ekki vakað með mèr eina stund"? segir Jesús við oss alla. Og hvað er líf vort hèr á jörðunni annað enn fáeinar óvissar og hverfular stundir, sem eru liðnar áður enn oss varir? hvað eru þær í samanburði við þá eilífð, sem bíður vor? Er ekki lífstíð vor á fleygiferð fram til grafarinnar og dómsins? Getum vèr flutt þángað með oss nokkra jarðneska muni? Stöndum vèr þar ekki innan skamms allir saman, ríkir og fátækir, voldugir og vesalir,

stöndum vèr þar ekki innan skamms allir saman eins aumir og snauðir og við inngánginn til þessa lífs? Æ! svo „vöknum dauðinn áður enn kallar oss á óvæntri hèðan stund“! Æ! vöknum meðan enn er nokkuð eptir af æfidegi vorum! þó þessi dagur sè stuttur, þá er hann þó áríðandi, því hann hefur í hendi sinni vora eilífu farsæld eða ófarsæld, hann fylgir sumum til himins, sumum til glötunar. Kom þú því iðrandi, harmþrúngna sál! sem fyrir Guðs náð ert vöknuð til meðvitundar um syndir þínar, kom þú til frelsara þíns og gjör þú nánara samband og sáttmála við hann þá stund æfinnar, sem þú átt enn eptir ólifaða! þú hefur þegar gefið óvininum of mikið vald yfir þèr, og meðan þú svafst, sáði hann illgresinu meðal hveitisins í hjarta þínu, og illgresið hefur með hverjum degi farið vaxandi. það er þèr til þjáníngar og ama bæði innra hjá þèr og fyrir utan þig; því rennir þú augunum inn í hjarta þitt, þá sèr þú með ángri og trega, að þar hafa syndsamlegar girndir kippt vexti úr hinu góða sæði, sem Drottinn sáði, að þar hefur sprottið tregða í að hlýðnast boðum Guðs og samvizku þinnar, að kraptar þínir eru svo veikir, þegar þú ætlar að neyta þeirra til þess með enn meiri árvekni og trúmennsku að reka Drottins erindi; og staðfestir þetta þann sannleika, sem Jesús í dag brýnir fyrir þèr, að óvinurinn hefur vakað meðan þú svafst, að hann hefur ekki látið þig liggja sofandi á sama stað, heldur flutt þig fjær Guði og leingra inn í sitt myrkraríki. Og litist þú um í kríngum þig, þá sèr þú margar menjar þess, að óvinurinn er ekki aðgjörðalaus. Hvaðan sprettur öll eymd á jörðunni nema af andvaraleysi mannanna? nema af því, að mennirnir hafa slitið samfèlag sitt við Guð, rofið sáttmála sinn við hann og ofurselt sig hinu vonda valdi? Látum þess vegna vora og annara reynslu vara oss í tíma við andvaraleysinu, en vekja hjá oss árvekni og alúð í hinu góða. En gætum þess jafnframt, að árvekninni verður að vera samfara bænrækni, stöðug og innileg bæn um náð og aðstoð Drottins. Bænin heldur sálinni vakandi, glæðir og styrkir allar góðar tilfinníngar; hún lyptir oss á vængjum vonar og trúar upp í hæðirnar og sameinar oss vorum himneska föður, svo vèr snúum aptur frá honum niður í baráttu lífsins, styrktir og huggaðir og útbúnir með djörfúng og þolinmæði: íklæddir Guðs alvæpni, eins og postulinn að orði

kemst. Eins og loptið, sem vèr öndum að oss, er nauðsynlegt til þess, að sæðið, sem sáð er, geti lifnað við og sprottið, eins er bænin nauðsynleg til að viðhalda voru andlega lífi, því hún sameinar oss hinni eilífu lífsins uppsprettu, og þaðan andar sálin að sèr eilífu lífi. Látum oss enda vorar einföldu hugleiðíngar á þessari stundu með auðmjúku bænarandvarpi, látum oss með sálmaskáldinu biðja Guð af hjarta og ségja: „Hveitikorn þekktu þitt, þá upprís holdið mitt; í bindini barna þinna, blessun láttu mig finna! Amen.

---

## Á sjötta sunnudag eptir þrettánda.

### Bæn.

Herra Guð, himneski faðir! Lít þú náðarsamlega niður til vor, sem ráfum hèr í þessum dimma dal og dauðans skugga, sem eigum í stríði við sorg og synd, bæði í heiminum fyrir utan oss og innra með sjálfum oss. Æ! send þú geisla þinnar himnesku dýrðar niður í myrkur þessa vors jarðneska lífs, svo vèr gaungum í þínu ljósi og á þínum vegum, þángað til vèr í þínu dýrðarríki á himnum fáum að sjá þig augliti til auglitis og fullkomlega sameinumst þèr og honum, sem er ljómi þinnar dýrðar og eptirmynd þinnar veru; bænheyr það í nafni vors frelsara Jesú Krists! Amen.

### Guðspjallið

(Matth. XVII., 1.—9.).

Að sex dögum liðnum tók Jesús Pètur, þá bræður Jakob og Jóhannes, og fór með þeim einslega upp á hátt fjall og ummyndaðist að þeim ásjáendum. Hans ásjána skein sem sól, og klæði hans urðu svo björt sem ljós. Og sjá! að þeim birtust þeir Móses og Elías, sem töluðu við Jesú. Pètur sagði til Jesú: gott er hèr að vera, herra! ef þèr svo sýnist, þá viljum vèr reisa hèr þrjár tjaldbúðir, eina handa þèr, aðra handa Mósi og hina þriðju handa Elíasi. Þegar hann var þetta að tala, bar yfir þá bjart ský,

og úr því heyrðist rödd, er mælti: þessi er minn elskulegur sonur, á hverjum eg hefi velþóknun; hlýðið þèr honum! En — þegar lærisveinarnir heyrðu það, fèllu þeir fram á sínar ásjánir, og urðu mjög hræddir. Jesús gekk þá til þeirra, tók á þeim og sagði: standið upp, og verið óhræddir! en þegar þeir litu upp, sáu þeir eingan, nema Jesú einan. En þá er þeir geingu ofan af fjallinu, sagði Jesús til þeirra: þèr skuluð eingum segja frá þessari sjón, þar til að mannsins sónur er upp aptur risinn frá dauðum.

## Inngángur.

„Tíminn er kominn, að mannsins sonur vegsamist" (Jóh. 12., 28.). þetta markverða svar gaf Jesús, þegar lærisveinar hans sögðu honum, að nokkrir Grikkir vildu fá að sjá hann. Að hann með þessum orðum leit til þeirrar vegsemdar, sem leiða mundi af dauða hans og upprisu, sèst meðal annars af því, sem hann sagði rètt á eptir: Sannlega segi eg yður, deyji ekki hveitikornið, sem fellur í jörðina, verður það ófrjósamt; en deyji það, ber það mikinn ávöxt". þannig vísaði þá Jesús þeim, sem vildu sjá hann, til þess tíma, þegar hann mundi ekki leingur verða sýnilega nálægur hèr á jörðunni; hann gaf til kynna, að menn bezt gætu lært að þekkja sig af þeim náðarlærdómi, sem í hans nafni er boðaður; en þessi náðarlærdómur átti áður að staðfestast af pínu hans og dauða, og síðan eptir upprisu hans að útbreiðast um heiminn, og verða „kraptur Guðs til sáluhjálpar öllum þeim sem trúa". þannig átti Kristur að vegsamast meðal heiðíngjanna og allra þjóða, og því eru þessi orð hans: „tíminn er kominn, að mannsins sonur vegsamist", einnig fyrir oss næsta þýðíngarmikil. Eptir að Jesús hafði sagt dauða sinn fyrir, snèri hann sèr til síns himneska föðurs og bað, ekki einúngis um styrk og krapta fyrir sjálfan sig, heldur og um, að dauði sinn mætti verða honum til dýrðar. þá kom rödd af himni, sem fullvissaði hann um bænheyrslu; og það var í þriðja sinn sem himininn opnaðist til að bera vitni um Jesú guðlegu sendíngu: fyrst við

skírn hans, og í annað sinn á fjallinu helga, eins og vèr höfum heyrt af þessa dags helga guðspjalli. Vèr heyrðum nýlega sagt frá útlendum mönnum í Jerúsalem, sem vildu fá að sjá Jesú; og mundum vèr ekki einnig hafa girnzt hið sama hefðum vèr lifað á þeim tímum og í því landi, þar sem „hann gekk í kríng, gjörði gott og græddi alla"? Mundum vèr ekki hafa óskað að mega líta hans dýrðarásjónu á fjallinu helga? Og mundum vèr þá ekki hafa fallið fram á ásjónur vorar og tilbeðið hann í lifandi trú og brennandi kærleika? En „sælir eru þeir, sem trúa, þó þeir ekki sjái", segir Jesús, og nálgast oss og vill ummyndast fyrir oss, ef vèr leyfum honum inngaungu í vor hjörtu. Þessi andlega ummyndan í tímanum á að undirbúa hina eilífu ummyndun á himnum, þar sem vèr fáum að sjá hann augliti til auglitis í hans guðlegu hátign og mildi. Það er sagt um Móses, þegar hann tók við lögmálstöflunum af Drottni, að ásjóna hans hafi ummyndast og orðið svo björt, að Ísraelsmenn þoldu ekki að horfa framan í andlit hans, svo hann varð að heingja fyrir það skýlu. En Jesús þurfti ekki að byrgja sína ummynduðu ásjónu fyrir lærisveinum sínum, heldur sáu þeir hana bera, og það var sælufull sjón fyrir þá. Því þá tók þegar að rætast það sem Páll postuli segir um hið kristilega frelsi, að síðan bölvun lögmálsins er burt tekin og með henni sú skýla, sem hèkk yfir hinum gamla sáttmála, getum vèr í trúnni sèð Drottins dýrð og sjálfir orðið hluttakandi í henni með aðstoð hans anda. Að sönnu hefur „höfðíngi þessarar aldar", eins og postulinn að orði kemst, „blindað svo skilníng hinna vantrúuðu, að þeir sjá ekki birtu þess dýrðlega náðarlærdóms Krists, sem er Guðs mynd" (2. Kor. 4., 4.); en þó getum vèr fagnað með honum yfir því, „að Guð hefur látið sitt ljós skína í margra hjörtu, svo þekkíng Guðs dýrðar í Jesú Kristi skyldi augljós verða", og um þá segir Jesús hið sama sem hann forðum sagði um sína lærisveina í bæninni til síns himneska föðurs: „Eg er í þeim dýrðlegur orðinn" (Jóh. 17., 10.). Þetta viljum vèr nákvæmar íhuga með því að hugleiða:

hvernig Kristur gjörir sig dýrðlegan með sínu orði í hjörtum iðrandi og sanntrúaðra manna.

„Hèr er oss gott að vera“, sagði Pètur við Jesúm, þegar þeir voru komnir upp á fjallið helga og það var uppljómað af dýrð frelsarans. Hann stóð þar eins og á takmörkum himins og jarðar, takmörkum þessa og annars lífs; hann fann til unaðar og sælu af því að skoða Jesú himnesku ummyndun, og vegna þessarar sælu vildi hann skilja við heiminn og mannlegt fèlag og lifa og deyja á þessum yndislega stað. Hefðum vèr eins og hann feingið þessa himnesku vitrun; hefðum vèr eins og hann feingið að sjá geislaskinið í Jesú guðdómlegu ásjónu og heyrt þá himnesku rödd vitna um Guðs eingetna son: þá mundum vèr einnig hafa fundið hjá oss laungun til að skilja við heiminn og yfirgefa mannlegt fèlag, til þess að lifa þar heilögu lífi í dýrðarljóma Drottins og sambúð hinna sælu anda, sem honum birtust, lausir við spillíngu, ófrið og hègóma veraldarinnar. En ef vèr betur aðgætum þetta, munum vèr þá ekki, kristnir bræður! ætíð og alstaðar eiga kost á að finna til sömu himnesku gleði og Jesú lærisveinar í þetta sinn? Í hverju tilliti var þessi vitrun svo fagnaðarrík og sælufull fyrir þá? Mun það einúngis hafa verið af því, að þeir sáu „ásjónu hans skína sem sól og klæði hans verða svo björt sem ljós“, eða af því, að þeim birtust þeir Móses og Elías úr andanna heimi? Hefði einhver verið viðstaddur, sem ekki hefði áður þekkt Jesúm, eða vitað hver hann var, sem ekki hefði heyrt eða lesið neitt um Móses eða Elías, þá mundi þessi sjón ekki hafa haft lángvinn áhrif á hann, nema hann eptir á hefði leitað sèr greinilegri þekkíngar á frelsaranum. Pètur þar á mót og hinir lærisveinarnir, sem áður þekktu Jesúm, hlutu að skilja, hvað þessi sjón ætti að merkja, undir eins og þeir sáu hana, og hugsa: Nú er það augljóst, að Jesús er sá, sem vèr hèldum hann væri: Guðs son og frelsari heimsins, sem vèr elskum og fylgjum; nú er guðsríki til vor komið og dýrð hans og sæla er í nánd. Hvað kom þá Pètri til að segja með svo miklum fögnuði: „hèr er oss gott að vera“? Var það ekki sú trú á Jesúm, sem hann áður hafði, sem hann áður hafði látið í ljósi með þessum orðum: „þú ert Kristur, sonur Guðs lifanda“ (Matth. 16., 16.), sú trú, sem hann seinna lèt í ljósi með þessum orðum: „þú hefur orð eilífs lífs, og vèr höfum trúað og kannazt við, að þú ert sá heilagi Guðs“? (Jóh. 6., 68.).

An þessarar lifandi trúar hefði honum ekki komið til hugar að vilja taka sèr bólfestu á fjallinu helga; þessari trú var innileg elska til Jesú, auðsveipni og hlýðni við hann samfara. Hann hugsaði ekki um sjálfan sig, hann ætlaði ekki að gjöra tjaldbúð handa sjálfum sèr, heldur handa Jesú og hans himnesku vinum, og þó því að eins, ef Jesús vildi það. Krists líkamlega ummyndun varð þannig líka að andlegri ummyndun í sálu og hjarta hans, og í raun og veru var það hin andlega ummyndan, sem vakti fögnuð og sælu í brjósti hans. Hin líkamlega ummyndanin hefði einsaman út af fyrir sig einúngis vakið hjá honum undrun og ótta, sem hefði hvorfið aptur undir eins og vitranin sjálf. En hin andlega ummyndan veitti honum himneska gleði alla æfi þaðan í frá, og hann færir þessa vitrun því til sönnunar, sem hann hafði kennt „um krapt og tilkomu Drottins Jesú Krists“ (2. Pèt. 1, 16—17.). „Hèr við“ segir hann, að lærisveinarnir „hafi orðið vissari um orð spámannanna“, og áminnir um að gefa gætur að þeim, „eins og ljósi, sem skín á myrkum stað, þar til dagur ljómar og morgunstjarnan upprennur í hjörtunum“. Vèr, sem einnig höfum orð Krists og postulanna, sjáum sjálfan daginn ljóma, sjáum dag Drottins, eins og Abraham forðum sá hann í trúnni og gladdist af því. Morgunstjarnan upprennur í hjörtum vorum, það er Jesús Kristur, sem sjálfur kallar sig „skæra morgunstjörnu“, þegar hann boðaði komu sína í skýjum himins (Opinb. 22., 16.). Þetta er hann nú þegar orðinn fyrir alla þá, sem eru vaknaðir af syndasvefni sínum, sem hræðast myrkur villu sinnar og vantrúar og lypta augum trúarinnar upp til hans, sem með iðrandi hjörtum tileinka sèr það huggunarljós, er hann lætur boða þeim komu dagsins. Fyrst er hann morgunstjarna náðarinnar fyrir hinn iðrandi syndara, sem til hans flýr, og þegar syndarinn er kominn á rètta leið og hann er orðinn stöðugur í trúnni, verður hann fyrir hann sól rèttlætisins, sem með sínum lífgandi geislayl vekur hjá honum nýtt líf og leiðir hann til eilífs lífs. Að fá að sjá Jesú, var ósk vor allra, eins og hinna útlendu manna, sem getið var um í upphafi þessara hugleiðínga. Nú höfum vèr þegar sèð, að vèr í heilagri ritníngu getum skoðað hans dýrð „sem hins eingetna sonar föðursins“; látum oss enn fremur hugleiða,

hvernig vèr með augum trúarinnar og kærleikans sjáum dýrð hans í hjörtum sjálfra vor, um leið og vèr gefum gætur að því, sem bar fyrir lærisveinana á fjallinu. Þetta voru þeir sömu lærisveinar, sem Jesús tók með sèr í grasgarðinn, þegar að því var komið, að hann tæmdi kvalanna beiska bikar; það voru þeir Pètur, Jóhannes og Jakob; þá fèllu þeir í svefn meðan Jesús var að biðjast fyrir, og þegar hann kom aptur, sagði hann við þá: „Gátuð þèr þá ekki vakað með mèr eina stund? Vakið og biðjið, svo þèr fallið ekki í freistni! andinn er að sönnu reiðubúinn, en holdið er veikt“; og nú voru þeir líka áður enn Kristur ummyndaðist, yfirkomnir af svefni, eptir því sem Lúkas guðspjallamaður segir frá; en svefninn fór af þeim, þegar þeir sáu geislaskinið og heyrðu til ennar himnesku raddar; en þeir urða mjög óttaslegnir; þá kom Jesús til þeirra og sagði við þá: „standið upp og verið ekki hræddir“! Síðan fóru þeir með honum ofan af fjallinu og fylgdu honum, styrktir í trúnni og kærleikanum.

Þessi frásaga setur oss lifandi fyrir sjónir, hvernig syndugur maður vaknar og verður tekinn til náðar af Guði. Trúaða sál! sem sèr dýrðlega ummyndun frelsara þíns, hefur þú ekki feingið að reyna einmitt hið sama í andlegu tilliti? Þegar þú fyrst vaknaðir af syndasvefni þínum og heyrðir rödd af himnum, það er að skilja, guðsorð, sem þaðan er komið, vitna um hinn eingetna soninn, „sem faðirinn hefur velþóknun á“, heyrðir hana áminna þig um að hlýða honum; og þegar þú snèrir þèr til frelsara þíns í hans guðlega dýrðarljóma, þá varðst þú ekki einúngis var við þinn mildiríka lausnara, heldur einnig við Móses og Elías. Móses með töflur lögmálsins sýndi þèr þína miklu syndaskuld bæði við Guð og náúnga þinn, en Elías minnti þig á Guðs hegnanda rèttlæti; og þó þú þá heyrðir rödd af hæðum, er boðaði þèr náð og fyrirgefníngu synda þinna, rödd hins eilífa föðursins, sem „svo mjög elskaði heiminn, að hann gaf sinn son til þess, að hver, sem á hann trúir, fyrirfarist ekki, heldur hafi eilíft líf“, fèllst þú þó eins og lærisveinarnir fram á ásjónu þína, skjálfandi og óttasleginn og hugsaðir til þinna mörgu synda og ávirðínga; en þá kom Jesús til þín, ummyndaður og dýrðlegur í náð og kærleika, tók á þèr og sagði: stattu upp og vertu ekki hræddur! stattu

upp frá syndinni með einlægri iðrun og alvarlegum betrunar-ásetníngi, og vert þú ekki hræddur við dauðann og dóminn, ef þú trúir á mig og vilt fylgja mèr í hlýðni og kærleika! þegar þú þá stóðst upp og fannst til friðar og endurnæríngar og leizt augunum upp til þíns mildiríka frelsara, þá sást þú ásjónu hans skína sem sól, þá skoðaðir þú hann sem ljós heimsins, og fannst, að náðarlærdómur hans ekki einúngis upplýsti þig, heldur vakti hjá þèr nýtt líf; þá sást þú, að klæði hans voru björt sem ljós, það er að skilja: þú sást heilaga fegurð skína út úr öllum hans hugsunum, orðum og verkum; þú sást hans heilaga rèttlætis skrúða, sem þú einnig áttir kost á að íklæðast fyrir trúna á hans friðþægíngu, elskuna til hans og hlýðnina við hann; og í stuttu máli: þú sást hans dýrð sem föðursins eingetna, sást, að hann er fullur náðar og sannleika. Á þessari helgu stund var himininn opinn yfir höfði þínu og himneskri sælu úthellt yfir þig og þá hugsaðir þú eins og Pètur: hèr er oss gott að vera! þá vildir þú gjöra tjaldbúð, ekki einúngis fyrir frelsara þinn, heldur og fyrir Móses og Elías; en þegar þú leizt upp, sást þú ekki aðra enn Jesú einn saman. — þegar þú hefur hann, þá þarft þú ekki lögmálsins og spámannanna við, því að í honum hefur þú líka það og þá; og hann æskir ekki annarar tjaldbúðar af þèr enn hjarta þíns; þar vill hann taka sèr bólfestu; því hefur hann lofað þeim, sem elska hann og halda hans boðorð. Í þessari andlegu ummyndun Krists innra með oss í hjörtum vorum, sem eru upplýst, hugguð og helguð af Guðs náð, í þessu trúarsamfèlagi við hann, er hin sanna sæla innifalin, sem ekki er undirorpin byltíngum tímans eða komin undir dálæti heimsins, sú sæla, sem vesalir og snauðir geta aflað sèr eins og voldugir og ríkir, sem dauðinn ekki getur svipt oss, heldur verður í dauðanum að þeim fullkomna fögnuði, „sem auga hefur ekki sèð, ekki eyra heyrt og í einkis huga komið“ (1. Kor. 2., 9.).

Á fjalli því, sem Jesús ummyndaðist á, og sem haldið er, að hafi verið fjallið Tabor, var víðsýni mikið og fögur útsjón yfir hið fyrirheitna landið. Eins getum vèr einnig af andaktarinnar og helgunarinnar hæðum, þegar vèr nálgumst frelsara vorn og með trúarinnar augum sjáum hans dýrð, glaðzt og fagnað, ekki einúngis af sjón ens fagra himins, hvaðan

Móses og Elías stigu niður til að sýna oss glampa eilífrar sælu, heldur og af þeim margfalda unaði, sem þetta líf veitir oss, þó það hafi líka sína mæðu og erfiðleika. Þó vèr gaungum í „dimmum dal“ og sitjum í „dauðans skugga“, þá mun þó birta í kríngum oss, þegar vèr snúum oss til hans, sem er sól rèttlætisins, sem er vegurinn, sannleikurinn og lífið. Yfir höfði trúaðrar sálar hvelfist himin Guðs náðarnálægðar í þessum táradal, eins og forðum á fjallinu helga, og þó hún megi andvarpa á sóttarsænginni og stynja undir krossburðinum, þá er hún þó í guðsríki vegna trúar sinnar og elsku, vegna sinnar kristilegu vonar og þolinmæði. — Hugfestum það, góðir bræður! að Kristur ummyndaðist rètt eptir það, að hann hafði afráðið að fara upp til Jerúsalem til að láta þar líf sitt. Ættum vèr þá ekki með þolinmæði og stöðuglyndi að gánga þann veg, sem oss er fyrirsettur, hversu þúngt sem oss kann að falla það, og minnast þessara frelsarans orða: „hver sem ekki tekur sinn kross og fylgir mèr eptir, hann er mín ekki verður“ (Matth. 10., 38.)? Gætum þess jafnframt, að þó Jesús í sinni djúpu niðurlægíngu tæki á sig þjóns mynd og væri talinn með óbótamönnum, þá varð hann í sinni upphefð því hátignarfyllri og dýrðlegri; honum er gefin tign, sem er allri tign æðri, og allt vald á himni og jörðu. Megum vèr þá ekki vænta þess, að einnig vèr, ef vèr erum hans trúir lærisveinar og berjumst trúarinnar góðu baráttu, munum eptir dauðann fá þau dýrðlegu verðlaun, sem oss eru fyrirheitin? Segir ekki postuli Drottins, að ef vèr líðum með honum, þá munum vèr með honum dýrðlegir verða? Sagði hann ekki sjálfur við lærisveina sína: „Eg fer burt að tilreiða yður stað . . . svo að þèr sèuð þar sem eg er“ (Jóh. 14., 3.)? Bað hann ekki, og biður hann ekki enn sinn himneska föður, að þeir, sem honum til heyra, megi koma þángað sem hann er og sjá hans dýrð? Og þá sjá þeir Krists dýrðlegu ummyndun fullkomlega, þegar þeir fá að sjá hann í þeirri eilífu dýrð, sem hann hafði hjá föðurnum fyrir öndverðu.

Þannig höfum vèr þá, kærir bræður! með tilliti til viðburðar þess á fjallinu helga, sem guðspjallið segir frá, íhugað það, sem heyrir til andlegrar ummyndunar Krists í hjarta hins trúaða. En það, sem viðbar þegar Jesús steig niður af fjallinu

og sem guðspjallamennirnir segja frá í sambandi við hið undanfarna, gefur oss tilefni til að prófa sjálfa oss, hvort vèr stöndum upp á fjallinu þar sem Kristur ummyndaðist, hvort vèr finnum til hans dýrðlegu nálægðar í sálum vorum, eða erum í þeirra tölu, sem hann ávarpaði með þessum orðum: „ó, þú trúarlausa og rángsnúna þjóð! hversu leingi skal eg hjá yður vera? hversu leingi skal eg þola yður“? Meðan Jesús ummyndaðist, hafði fjöldi fólks komið til þeirra 9 lærisveina, er hann skildi eptir undir fjallinu, og þar á meðal maður nokkur, sem leitaði einka syni sínum lækníngar, er var túnglsjúkur og þúngt haldinn; en lærisveinarnir gátu ekki læknað hann. Þá bað faðirinn Jesúm hjálpar, en hann mælti: „það skal ske ef þú getur trúað; trúuðum er allt mögulegt“. Faðir sveinsins svaraði grátandi: já, eg trúi, en hjálpa þú trúarleysi mínu“. Þá læknaði Jesús sveininn samstundis (Mk. 9., 20.; Lúk. 9., 42.). En þegar lærisveinarnir spurðu Jesúm, hvers vegna þeir hefðu ekki getað læknað hann, svaraði hann: sakir trúarleysis yðar. — Trúarleysi ber hann einnig oss á brýn, kærir bræður! ekki einúngis hinum vantrúuðu og óguðlegu, heldur og mörgum þeim, sem vilja vera hans lærisveinar og heyra og lesa hans orð. Æ! megum vèr ekki allir daglega andvarpa og biðja: „Drottinn, eg trúi, en hjálpa þú trúarleysi mínu!“ Hvað þessa frásögu að öðru leyti snertir, þá megum vèr vera vissir um, að guðleg forsjón, sem svo viturlega hefur niðurraðað öllu í endurlausnarverkinu eins og öðrum hlutum, hefur einnig látið það hafa sèrlega þýðíngu, að þessi hryggilega sjón hins óða úngmennis undir rótum fjallsins kemur fyrir í sambandi við hina dýrðlegu sjón Krists ummyndunar uppi á fjallinu. Í mörgu tilliti er það lærdómsríkt, að bera hvorttveggja saman. Undir fjallinu sjáum vèr hina mestu mannlegu eymd. Það er ekki einúngis hinn óði únglíngur, sem kvelst og þjáist, heldur og hans harmþrúngnu foreldrar, sem eiga þenna einka son. Hann hafði frá blautu barns beini verið svona þúngt haldinn, og var því ekki sjálfur valdur að böli sínu. En hvernig sem þessu hefur verið varið, getum vèr skoðað þetta æði, sem merki upp á þau yfirráð, sem hið illa fær yfir syndugum manni, þegar hann gefur sig á vald þess, og upp á þá eymd, sem af því leiðir. Því miður eru þau heimili til í kristninni, þar sem

ástandið ekki er betra, heldur öllu verra. — Sjá þú hinn gráhærða mann, sem hugsar til fyrri tímanna, hugsar um hagsæld og hugarrósemi sína á hinum liðnu árum. Hvers vegna er hann nú svo órólegur og ángurvær? það kemur til af hans illa artaða og óguðlega syni, sem byrjaði með lèttúð og svalli, en fèll síðan dýpra og dýpra úr einum lesti í annan, þángað til hann var búinn ekki einúngis að spilla sinni gæfu, heldur og baka föður sínum gremju og hugarángurs. Ef vèr nú berum þessa feðga saman við þá, sem komu til Jesú, þá sjáum vèr, að ástand hvorratveggja er næsta bágborið. Bæði þessi úngmenni eru óð; en æði hins túnglsjúka kom til af óreglu í líkamanum, æði þessa sprettur af spillíngu sálarinnar; hinn missti bæði mál og vit, þessi heldur því, en hefur það til hrekkja og lygi, til að rægja aðra og vanhelga Guðs nafn. En einnig á þeim heimilum, sem að ytra áliti eru betur stödd, sem fyrir manna sjónum hafa láni og lukkukjörum að fagna, er þó hið innra ástand einatt bágborið, af því þar býr gremja, illdeilur og ósamlyndi, ýmist milli hjónanna sjálfra, ýmist milli foreldra og barna eða hjúa. Og hvað kemur til þessa? Hvað annað enn iðrunarleysi og vantrú? hvað annað enn það, að menn snúa sèr ekki til frelsarans og byrgja hjörtu sín fyrir þeirri náð og þeim sannleika, sem hann býður og boðar þeim. Syndugur maður! áður enn þú kemst upp á fjall helgunarinnar, sem er uppljómað af dýrð Drottins, verður þú að sjá og hugleiða þitt ógæfusama ástand, þar sem þú fjærri frelsara þínum situr í dimmum dal og dauðans skugga. Lát þú þessa íhugun knýja þig til að leita lausnarans og biðja hann að frelsa þig úr þinni syndaeymd. Bið þú Guð líknar og miskunar og segðu af hjarta: Drottinn, eg trúi, en hjálpa þú trúarleysi mínu! þá mun hann miskuna þèr og frelsa þig frá valdi hins illa; þá mun hann fyrirgefa þèr öll þín afbrot og um leið veita þèr krapta til þess hèr eptir að sigrast á freistíngunum. En þá verður þú líka sjálfur að vaka, biðja og stríða, jafnframt því sem þú fulltreystir hans hjálp og aðstoð. Hugfestum það að endíngu, Guðs börn! að, ef vèr viljum í öðru lífi geta feingið að sjá Drottin og skoða hans dýrð með eilífum fögnuði og gleði, þá hljótum vèr hèr að finna til dýrðar hans í trúuðum

og iðrandi hjörtum. Og þareð vèr vitum, að vèr jafnvel hèr á þessari stundu erum yfirskyggðir af hinu bjarta skýi, hvaðan sú himneska röddin kallar: „þessi er sonur minn elskulegur, hlýðið honum!“ ættum vèr þá ekki að gefa því gaum, nè komast við af því? þessi er minn elskulegur sonur, segir hinn eilífi faðirinn, og þó hefur hann framselt hann í dauðann fyrir oss, látið hann íklæðast voru holdi og deyja eins og syndara fyrir oss syndugar og aumar mannskepnur. Mættum vèr ekki falla fram á ásjónur af undrun og lotníngu, af auðmýkt og fögnuði, þakklæti og elsku? Og kærleiki sonarins, sem „ekki miklaðist af því, að hann var Guði líkur, heldur lítillækkaði sjálfan sig, tók á sig þjóns mynd og var hlýðinn allt fram í dauðann, já allt fram í dauðann á krossinum“: ætti hann ekki að gagntaka sálir vorar og sinni, fá oss til að hlýða honum, hlýða þeim sannleikans, náðarinnar, kærleikans og friðarins orðum, sem hann einnig í dag talar til vor og kallar oss með til sín, kallar oss til að verða Guðs börn og erfíngjar eilífs lífs? Æ! þó vèr híngað til höfum snúið að honum bakinu með iðrunarleysi og vantrú, eða tekið með tregðu og hviklyndi móti hans framboðnu náð, þá látum oss nú tileinka oss hana, nú er tími til þess, en vèr eigum ekki ráð á ókomna tímanum!

Harmþrúngna og iðrandi sál! hlýð þú og trúðu! Frelsari þinn kallar til þín á þessari helgu stundu, og ávarpar þig með svofeldum orðum: tíminn er kominn, að mannsins sonur vegsamist og verði dýrðlegur einnig í þínu hjarta, fyrir trú þína, kærleika þinn og hlýðni. Guð gefi þèr og oss öllum náð til þess að heiðra hann og hlýða honum! Amen.

---

# Á fyrsta sunnudag í níuviknaföstu.

## Bæn.

Frá þèr, eilífa gæðskunnar uppspretta! renna straumar náðar og miskunar til vor syndugra manna, sem þó erum alls góðs ómaklegir. Einnig í því sjáum vèr þína miskunsemi, að þú með þínu orði kennir oss að þekkja sjálfa oss og vora bresti. Æ! gef þú oss náð til þess að finna til þess, hve syndsamlegt það er að mögla yfir því, hvernig þú útbýtir oss þínum náðargjöfum og hve gagnstætt það er kristilegri mannelsku að sjá ofsjónum yfir þeim velgjörðum, sem þú veitir vorum bræðrum. Gef þú oss náð til þess að kannast við vorn óverðugleik og finna til þess, að vèr erum minni allri þinni miskun og trúfesti. Innræt þú oss auðmjúkt og þakklátt hugarfar, svo vèr látum oss nægja þína náð. Þá verðum vèr farsælir bæði í þessu og öðru lífi. Bænheyr það í Jesú nafni! Amen.

## Guðspjallið

(Matth. XX., 1.—16.).

Jesús sagði til sinna lærisveina þessa eptirlíkíngu: Himnaríki er líkt þeim húsföður, sem fór snemma morguns að leigja verkamenn í víngarð sinn. Og er hann hafði samið við þá um einn penníng fyrir dagsverkið, sendi hann þá í víngarðinn. Nærri þriðju stundu gekk hann út, og leit nokkra standa iðjulausa á torginu; hann sagði til þeirra: farið þèr einnig í víngarðinn, og hvað rèttvíst er mun eg gefa yður. En þeir geingu á burt þángað. Hann gekk aptur út um sjöttu og níundu stundu og gjörði slíkt hið sama. Nærri elleftu stundu gekk hann út, og fann enn nokkra standa iðjulausa. Hann sagði til þeirra: hvers vegna standið þèr hèr allan daginn iðjulausir? Þeir svöruðu: af því einginn hefur leigt oss. Hann sagði til þeirra: farið þèr í víngarð minn, og hvað rèttvíst er skuluð þèr fá. Þegar kvöld var komið, sagði víngarðsherrann við ráðsmann sinn: kalla þú verkamennina og

gjaltu þeim daglaunin, og tak til á hinum seinustu og enda á hinum fyrstu. Þá komu þeir, sem nærri elleftu stundu leigðir voru, og hver þeirra meðtók sinn peníng. En hinir, sem fyrstir komu, hugsuðu, að þeir mundu fá meira; en hver þeirra meðtók sinn peníng. Þegar þeir höfðu meðtekið hann, mögluðu þeir gegn húsföðurnum og sögðu: þessir hinir seinustu hafa eina stund erfiðað, og þú gjörðir þá jafna við oss, sem borið höfum hita og þúnga dagsins. Hann svaraði og sagði til eins þeirra: vinur! ekki gjöri eg þèr órètt; ertu ekki ásáttur orðinn við mig um einn peníng? taktu hvað þitt er og far á burt! en þessum seinustu vil eg gefa eins og þèr, eða leyfist mèr ekki að gjöra af mínu hvað eg vil? eða sèrðu ofsjónum yfir því, að eg er góðgjarn? Þannig munu hinir síðustu verða hinir fyrstu og hinir fyrstu síðastir, því margir eru kallaðir en fáir útvaldir.

## Inngángur.

Til þess að geta skilið þessa dæmisögu rètt, verðum vèr að gæta að því, sem Mattheus guðspjallamaður í 19. kap. segir, að hafi gefið tilefni til hennar. — Þegar Jesús hafði talað um, hversu örðugt það væri fyrir hina ríku að komast inn í guðsríki, hnykkti lærisveinum hans mjög við, ekki einúngis af því þeir hugsuðu til annara, sem ríkir voru, heldur og af því, að þeir sjálfir bjuggust við að hafa tímanlegan hagnað af því að fylgja Jesú, því þá voru þeir ekki enn komnir í skilníng um, að hans ríki var ekki af þessum heimi. Þess vegna sagði Pètur: „vèr yfirgáfum allt og fylgdum þèr, hvílík laun munum vèr hèr fyrir hljóta“? Því svaraði Jesús á þá leið, að „í endurskölpuninni, þegar mannsins sonur væri seztur á veldistól sinn“, mundu þeir verða hluttakandi í hans dýrð, fá margföld laun og öðlast eilíft líf. Hann meinti því til andlegrar vegsemdar og himneskrar arfleifðar, og með dæmisögunni, sem stendur í guðspjallinu, vildi hann sýna Pètri og hinum lærisveinunum, að þó þeir í öðru lífi gætu vænt sèr margfaldra verðlauna fyrir sjálfsafneitun þeirra í þessu lífi, þá gætu þeir þó ekki reitt sig á

verðskuldun sjálfra sín, heldur einúngis á Guðs náð, sem eptir sinni velþóknun geldur þeim verkamönnum, sem komu seinast, eins og hinum, sem fyrst komu; því, sagði hann, „svo verða seinastir hinir fyrstu og fyrstir hinir seinustu, og margir eru kallaðir en fáir útvaldir“. þannig hefur dæmisaga þessi andlega þýðíngu. Víngarður Drottins er það náðarinnar ríki, sem allir menn geta feingið inngaungu í alla æfi frá morgni hennar til kvölds, og þegar æfidagurinn er liðinn og farið er að gjöra upp reiknínginn, þá getur einginn skírskotað til verðskuldunar sinnar, heldur eiga allir allt undir Guðs náð í Jesú Kristi. Dæmisagan sýnir oss einnig, hversu ólík kjör mannanna eru í þessu lífi. Vèr sjáum hèr suma, sem vinna frá morgni til kvölds og bera hita og þúnga dagsins, suma, sem erfiða fáeinar stundir, og suma, sem ekki koma í víngarðinn fyrr enn kvöld er komið, eða um elleftu stund; og þó fá þeir allir sama verðkaup. þetta vekur öfund hjá þeim, sem fyrstir komu, og óánægju með það kaupgjald, sem um var samið. Svoleiðis er þessu líka varið í mannlegu lífi. Sumir eiga við bág kjör að búa, en það er eins og lán og hvers konar hagsæld elti aðra. Sumir fæðast af háum stigum og til mikillar auðlegðar; sumir aptur á mót í vesöld og volæði og geta aldrei meiru áorkað, þó þeir neyti allra sinna krapta, enn að vinna fyrir daglegu brauði handa sèr og sínum. Margir láta eptir sig mikil auðæfi, en sumir ekki nóg fyrir útför sinni. Marga ríkismenn og oflátúnga þessarar veraldar mætti spyrja á þessa leið: „hvers vegna standið þèr allan daginn iðjulausir? hvers vegna verjið þèr ekki lífi yðar til einhvers góðs, kröptum yðar og eigum til að efla almenníngs heillir? þar á mót hættir mörgum hverjum við, sem þykjast hafa farið varhluta af tímanlegum gæðum, að mögla líkt og þeir sem fyrst voru leigðir í víngarðinn, er sögðu: „þessir hinir seinustu hafa eina stund erfiðað, og þú gjörðir þá jafna við oss, sem borið höfum hita og þúnga dagsins“. Látum oss af þessu fá oss tilefni til að hugleiða:

**hve syndsamlegt það er, að vera óánægður með sín eigin kjör og öfundast yfir annara kjörum.**

Snemma hreifir öfundin sèr í mannlegu hjarta, því vèr verðum hennar varir jafnvel hjá börnunum; það er heldur

einginn löstur algeingari í heiminum. Hver elskar sjálfan sig mest, og vill heldur, að sèr hlotnist allt það, sem gott er, enn öðrum. Sè þessari sjálfselsku ekki stjórnað eptir Guðs og skynseminnar boðum, sprettur af henni óánægja með sitt eigið hlutskipti og öfund yfir annara kjörum. Báðar þessar ódyggðir eru vanar að fylgjast að, og hèr viljum vèr skoða þær í einu lagi. Mönnum er vant að vaxa í augum sèrhvað mótdrægt, sem þeir verða sjálfir fyrir, hversu lítilfjörlegt sem það er í sjálfu sèr, og því hafa þeir ætíð eitthvað að kvarta um. En hjá öðrum þykjast menn finna, stundum þetta, stundum hitt, er þá sjálfa vantar, og taka sèr það mjög nærri. Um marga, sem kveina og kvarta um kjör sín, má fullyrða, að fyndu þeir ekki til öfundar, þá mundu þeir ekki heldur finna til vansældar. þeir verða ekki varir við skort hjá sjálfum sèr fyrr enn þeir sjá, að aðrir hafa meira. Hve miklu láni og lukkukjörum sem maðurinn hefur að hrósa, getur honum þó fundizt hann vera ófarsæll, ef hann venur sig á að bera annara kjör saman við sín og verður óánægður af því og öfundsjúkur. það er ætíð eitthvað, sem aðrir hafa meira af enn þú; aptur hefur þú margt gott, sem aðra vantar. Og hvers vegna skoðar þú ætíð hagi þeirra, sem eru betur staddir enn þú? Hvers vegna lítur þú ekki líka á hinna kjör, sem eiga bágra enn þú, sem hafa farið varhluta af flestum þeim gæðum, er þèr hafa hlotnazt?

þegar vèr lærum betur að þekkja veröldina, sjáum vèr líka, að menn eru sjaldan öfundsverðir af þeim gæðum og yfirburðum, sem vant er að öfunda þá af. Margir, sem þykja vera lánsmenn, eru það ekki, þegar að er gáð. þeir sem sitja í völdum og komast hátt í veröldinni hafa marga byrði að bera, eiga marga óvini og mótstöðumenn og þeim er margt gjört til óvirðíngar. Sá sem hefur góða heilsu og daglegt brauð, getur í moldarkofum sínum átt lángt um rólegri daga, enn margir ríkismenn í reisuglegum húsum og valdsmenn í vandasömum embættum, einúngis ef hann sjálfur vill vera ánægður með stöðu sína og öfundar ekki aðra af því, sem þeir í raun og veru ekki eru öfundsverðir af. Í mannlegu fèlagi verður að vera einhver röð og regla; þess vegna verða þar að vera ýmislegar æðri og lægri stèttir, yfirboðnir og undirgefnir. Jafnvel á hverju heimili verður einhver að stjórna og ráða. En mun húsbóndinn ætíð vera sælli enn hjú hans? Hvílíkar umhyggjur heimtar það

ekki, að sjá fyrir öllu heimilinu? þegar hjúin þar á mót vinna trúlega verk sitt og hegða sèr ráðvandlega, geta þau verið áhyggjulaus og sofið í næði, þar sem það einatt heldur vöku fyrir húsbóndanum, að hann veit ekki, hvernig hann á að verjast skuldum. Eins er þessu varið í borgaralegu fèlagi. Yfirvöldin eiga í mörgu stríði, sem hinir undirgefnu eru lausir við. þegar þeir greiða skyldur og skatta og hlýða lögunum, geta þeir með „spekt og rósemi lifað" (1. Tím. 2., 2.). Í mannlegu fèlagi þarf hver á öðrum að halda; hinar æðri stèttirnar þurfa hinna lægri við, ríkismennirnir hinna fátækari. Vèr erum allir limir á sama líkama, segir postulinn, og „augað má ekki segja við hendina: eg þarf þín ekki við, eða höfuðið við fæturna: eg þarf ykkar ekki við, heldur eru miklu fremur þeir limir nauðsynlegastir, sem andyirðilegastir sýnast" (1. Kor. 12, 21., — 22.). Væri það þá tilhlýðilegt fyrir limi á sama líkama, að öfunda hver annan? En ekki situr þetta betur á kristnum mönnum. Annars eiga allir kost á að gánga gæfunnar veg; frá hinni lægstu stöðu í mannlegu fèlagi geta menn komizt til tignar og uppheföar, ef þeir hafa gáfur og hæfilegleika til þess og verja þeim vel. „Sèrhver er sinnar lukku smiður", segir máltækið, og reynist það opt svo, þó út af því beri. Af hverju kemur sá mismunur, sem er á kjörum manna í sömu stètt og stöðu? Optar af því, að einn er öðrum forsjálari, iðjusamari, sparsamari og atorkusamari; optar, segi eg, því ekki fer ætíð eptir því. „Eg snèri mèr við", segir Prèdikarinn (9., 11.) „og sá, hvernig tilgeingur undir sólunni. Skeiðið er ekki í valdi hins fljóta og bardaginn ekki í valdi hinna sterku, ei heldur brauðið í valdi hinna vísu, nè auður í valdi hinna framsýnu. Allt þetta er komið undir tíma og tilviljun". En tími og tilviljan eru í Guðs hendi. Móti hverjum möglar þú? Móti Guði; það er Guð, sem þú kvartar undan; það er hans stjórn, sem þú setur út á, það er hans speki og gæðska, sem þèr ekki líkar. þú kvartar yfir þínu rýra hlutskipti, yfir þinni lítilfjörlegu lífsstöðu. Átt þú heimtíng á nokkru af Guði? Er ekki allt, sem þú átt og hefur, líf þitt og tilvera, náðargjöf Guðs, án þess þú hafir nokkuð að því gjört, eða nokkuð til þess unnið? Og er þá lítið í það varið, að Guð hefur skapað þig í sinni mynd, að hann hefur gefið þèr líkama og sál,

augu, eyru og alla limi, skynsemi og skilníngarvit? Er lítið í það varið, að þú ert endurleystur af Guðs eingetna syni og átt kost á að verða Guðs barn og fá inntöku í hans ríki? En það eru ekki hin andlegu gæðin, er öllum standa jafnt til boða, sem þú ert óánægður með og öfundar aðra af. En hefur Guð þá ekki líka veitt þèr ótal velgjörðir í tímanlegum efnum? Hefur hann ekki látið þig, hversu fátækur sem þú ert, fá daglegt brauð, klæði og húsaskjól? Hefur hann ekki gætt þín og verndað þig fyrir slysum, hættum og öllu illu? Og hefur hann ekki gjört allt þetta af einskærri náð og föðurlegri gæðsku án allrar þinnar verðskuldunar? Og þó náúngi þinn hafi feingið meira enn þú, hvaða ástæðu hefur þú til að mögla yfir því, fyrst það er allt gjöf guðlegrar gæðsku? „Tak þú hvað þitt er", segir víngarðsherrann í guðspjallinu, „leyfist mèr ekki að gjöra af mínu hvað eg vil? eða ertu þar fyrir rángeygður, að eg er góðgjarn"? Góðgjarn er hann líka við þig, sem kvartar og möglar yfir fátækt þinni, og þykist hafa farið varhluta af mörgum tímanlegum gæðum. Þú mundir hafa orðið enn þá ófarsælli, hefði þèr verið lánað meira; annaðhvort hefðir þú þá feingið áhyggjur og sorgir, sem þú hefðir ekki getað borið, eða þú hefðir vanbrúkað gjafir Guðs, eða fallið til drambsemi og ótrúmennsku við hann. — Fulltreystu því, að sú staða, sem Drottinn hefur sett þig í, er bezt og hentugust fyrir þig; í henni getur þú bezt náð ákvörðun þinni og búið þig undir guðsríki; í henni getur þú líka hèr í tímanum verið ánægðastur og farsælastur. En þú kvartar ekki einúngis yfir því, að staða þín sè lág og lítilfjörleg, heldur og að þú sèrt undirorpinn eymd og þjáníngum, og, ef til vill, yfir því, að þú verðir saklaus fyrir órètti og ofsóknum. En þó þú ekki hafir unnið til þess af mönnum, að þeir þannig áreiti þig og gjöri á hluta þinn, ert þú þá saklaus í Guðs augum? Eða þarftu ekki þeirrar hirtíngar við, sem hann vitjar þín með? Hugsa þú til þess, að vondir menn eru í hendi hans hirtíngarvöndur syndarans; mundu til þess, að Guð sendir þèr mæðu og mótlæti í gæðskuríkum tilgángi til að betra hjarta þitt og leiða þig til sín; og hugga þú þig við það, að mótlætíngar þessa tíma komast ekki í samjöfnuð við þá dýrð, sem bíður þín í öðru lífi, ef þú með þolinmæði og undirgefni undir Drottins

vilja ber þann kross, sem hann leggur þèr á herðar. Vertu því ánægður með vilja Drottins og gæt þú að hans vísdómsfulla tilgángi. Ef þú geingur á hans vegum, mátt þú vera ánægður og ókvíðinn mitt í þrautum og þjáníngum, því hans nærgætna auga vakir yfir þèr, og hans forsjónar hönd leiðir þig; hann telur öll þín höfuðhár og huggar þig með sínu orði; hann kallar á þig bæði með gleðinnar og sorgarinnar rödd og fullvissar þig um, að þó móðirin gleymdi sínu barni, þá muni hann þó ekki gleyma þèr. En góð móðir gefur opt sínu veika barni beiskt heilsumeðal og óvitinn slær hendinni á móti því. Eins breytir þú, kristinn maður! þegar Drottni þóknast að rètta að þèr raunanna bikar og þú tekur við honum og tæmir hann með mögli og óánægju. Án hans verður þó ekki hjarta þitt heilbrigt eða sál þín hreinsuð af syndinni. Gæt þú þess, að sá einn rèttir þèr þenna blessunarfulla bikar, sem betur veit enn þú, hvað þèr er fyrir beztu. Hann heimtar ekki, að þú sèrt tilfinníngarlaus fyrir þrautum og þjáníngum, heldur hitt, að þú látir þær vekja hjá þèr árvekni og aðgæzlu á þínum sáluhjálparefnum, að þú látir þær vekja hjá þèr helga alvörugefni og efla þína guðrækni. Og það er ekki sagt, að þú þurfir allt af að reyna mæðu og mótlæti. Hafir þú lært að gjöra þig ánægðan með Guðs vegu, þá hefur algóður Guð ætlað þèr einnig hèr í lífi marga huggun og gleði. Það sem þig brestur í einu tilliti, getur hann bætt þèr með öðru móti; á lítilli stundu getur hann bætt úr því böli, sem í mörg ár hefur safnazt saman yfir höfði þèr. Hefur þú ekki einatt þreifað á þessu? Einhvern tíma mun þá stund að bera, að Guðs börn blessa þá beisku mæðu, sem stráð var á lífsleiðir þeirra, og þakka fyrir það andbyri lukkunnar, sem að lokunum flutti þau í friðarins og sælunnar hafnir. Já, Drottins vegir eru einber miskun og trúfesti; það eru einúngis vorir vegir, sem leiða til eymdar og glötunar. Yfir hverju mögla þá mennirnir? Yfir Guði og hans gæðskuríku ráðstöfunum ættum vèr ekki að mögla, heldur yfir sjálfum oss og syndum vorum.

Óánægja með sín kjör lýsir skorti á undirgefni undir Guðs vilja; þannig er þessi óánægja í sjálfri sèr syndsamleg og hættuleg fyrir oss; en það sem gjörir hana enn þá syndsamlegri og hættulegri er það, þegar hún er samfara öfund, eins

og hjá þeim mönnum, sem fyrstir voru-leigðir í víngarðinn; þegar vèr erum rángeygðir af því að Guð er góðgjarn, það er að skilja: þegar vèr lítum hornauga til þess, að Guð veitir öðrum velgjörðir sínar.

Öfundsýkin er óþverrandi óánægju uppspretta í veröldinni, því hinn öfundsjúki getur ekki vitað, að aðrir fái eins mikið og hann. Verkamennirnir í guðspjallinu voru ekki óánægðir af því, að þeir feingu þau verkalaun, sem víngarðsherrann hafði samið um við þá, fyrr enn hinir feingu eins mikið og þeir, og þetta var einúngis þeirra umkvörtunarefni: „þú gjörðir þá jafna við oss". Þannig er því einatt enn þá varið í veröldinni; margir mundu vera ánægðir með þau lukkunnar gæði, sem Drottinn hefur úthlutað þeim, hefði hann ekki gefið öðrum eins mikið. Margir reyna til að dylja öfund sína fyrir öðrum, af því þeir finna, hversu ósæmileg hún er, og þeir vilja jafnvel ekki kannast við hana fyrir sjálfum sèr; en þessi löstur er svo kvalafullur fyrir hinn öfundsjúka sjálfan, að það er ekki hægt að leyna honum. Sèrhver synd hefur hegníngu í för með sèr, en á eptir eingri synd fylgir hegníngin eins fljótt og öfundinni; aðrar syndir hafa, að minnsta kosti meðan verið er að drýgja þær, eitthvað þægilegt fyrir manninn, en svo er ekki öfundinni varið; hún er sár og svíðandi undir eins og hún kviknar í hjartanu, og því meir sem hún vex, þess óbærilegri verður hún; hún spillir hugarrósemi mannsins og gjörir hann óhæfilegan til alls góðs; hún er sannkölluð hörmúnga uppspretta og eiturormur, sem vefur sig utan um hjartað og spýr banvænni ólyfjan á gjörvallt lífið. Sjaldan getur öfundsjúkur maður leynt þessum lesti svo, að það komi ekki í ljós, sem í hjartanu býr. Honum hættir við að hallmæla öllum, sem hann þykist finna eitthvað hjá, er hann sjálfan vantar, og færa fyrir þeim alla hluti til verri vegar. Hjá sumum nemur ekki öfundin staðar við ómilda dóma, við last og lygi, heldur reyna þeir einnig til með vèlum og hrekkjum að skaða þá, sem þeir öfunda. Af þessu sjáum vèr, hve skaðleg áhrif óánægja með vort eigið hlutskipti og öfund yfir annara kjörum hefur ekki einúngis á sjálfa oss, heldur og á breytni vora við náúngann, þareð hún hindrar oss í að vinna með trúmennsku í þeim verkahríng, sem oss er úthlutaður af Drottni, hindrar oss frá að kannast við hans vel-

gjörðir og útbreiða hans dýrð; hún slítur sundur það eindrægnis og elsku band, sem á að sameina alla kristna menn, og vekur tortryggni, gremju, heipt og hatur í hjörtum þeirra. Ættum vèr þá ekki að reyna til að varast þenna skaðlega og syndsamlega löst? Ættum vèr ekki af alefli að leitast við að útrýma honum úr hjörtunum, undir eins og vèr verðum þess varir, að hann kviknar hjá oss? En hvað megnum vèr af sjálfum oss, nema vèr í sannri iðrun og trú snúum oss til Guðs og biðjum hann í Jesú nafni að senda oss lið og aðstoð síns anda, svo vèr getum varizt hinu illa og unnið sigur trúarinnar?

Ám trúarinnar, sannrar og lifandi trúar er ekki einúngis iðran vor árángurslaus, heldur og öll vor betrunaráform; þess vegna segir líka postulinn Páll, þegar hann er að hvetja oss til að veita myrkranna valdi mótstöðu: „umfram allt, grípið skjöld trúarinnar, með hverjum þèr munuð útslökkt fá öll eldleg skeyti hins vonda“ (Efes. 6.,16.); og hann fer mörgum öðrum orðum um þá baráttu trúarinnar, sem vèr þurfum að berjast, til þess að geta höndlað eilíft líf og öðlazt kórónu rèttlætisins. En hann sýnir oss líka, hvernig hin lifandi trú vinnur í kærleika og væri dauð án hans, og sem hin fyrstu einkenni kristilegs kærleika telur hann þessi þrjú, að „kærleikurinn er þolinmóður og umburðarlyndur og að hann er ekki öfundsjúkur“ (1. Kor. 13.,4.). þessar dyggðir verða ekki aðskildar heldur enn aðrar greinir kristilegs kærleika. þolinmæði og umburðarlyndi innibinda líka í sèr nægjusemi; því sá sem þolinmóðlega ber mæðu og mótlæti og mildilega umber annara bresti og mótgjörðir og er meðaumkunarsamur og fús á að rètta nauðstöddum hjálparhönd, hann er ekki óánægður með hlutskipti sitt og því síður öfundar hann aðra, þó þeim hafi verið meira lánað af lukkunnar gæðum. það er hið helgasta og háleitasta boðorð kristinnar trúar, að vèr skulum elskast af hjarta. Sem bræður og systur í Jesú Kristi sitjum vèr hèr undir heyrn Guðs orða, komum saman í Guðs húsi á helgum dögum og krjúpum sameiginlega hver með öðrum niður við náðarborð Drottins. En eigum vèr einúngis við þessi tækifæri að skoða hverjir aðra sem bræður og systur? Eigum vèr ekki einnig að gjöra það í mannlegu fèlagi, á heimilum vorum, í daglegri umgeingni?

Eigum vèr að líkjast heimsins börnum, sem með óánægju yfir sínum eigin kjörum og öfund yfir annara kjörum fylla sitt og annara líf með beiskju og böli? Æ! hvað stoða öll heimsins gæði, þegar vèr flytjum hèðan? hvað stoða þau oss í gröfinni og eilífðinni? — „Guðhræðslan er mikill ávinníngur samfara nægjusemi“ segir postulinn (1. Tim. 6.,6.). Látum oss því, kærir bræður! stunda guðhræðslu með nægjusemi; látum oss nægjast Guðs náð og þau gæði, sem gæðska hans úthlutar oss; verum þakklátir við hann og glaðir af hans miskunsemi við oss. Og þegar hugur vor leitar út yfir hið sýnilega og hið tímanlega til hins eilífa og oss liggur við að mögla yfir því, hve lítið vèr þekkjum til eilífðarinnar, æ! látum oss þá einnig nægjast Guðs náð og það sem hann í sínu orði hefur opinberað oss um kjör vor í eilífðinni, og þökkum honum fyrir það, að hann hefur kennt oss, að vegur dauðans er vegurinn til lífsins, að þeir, sem hèr þreyta skeiðhlaupið í trú og kærleika, verði kallaðir heim til föðurhúsanna, til þeirrar fullkomnunar og sælu, sem oss er ofvaxið að þekkja til fulls, meðan vèr dveljum hèr í tjaldbúð þessa vors dauðlega líkama.

Ó minn Guð! miskunsami góði Guð! æ, eg vil ekki kvarta yfir þinni stjórn, heldur einúngis yfir brestum mínum og breyskleika; eg vil vera ánægður með það, sem þú úthlutar mèr; hjálpa þú mèr, svo eg geti einhvern tíma orðið ánægður með sjálfan mig. Lènir þú mèr enn þá nokkra glaða daga, þá vil eg þakka þèr og gæta hjarta míns; en þóknist þèr að leggja mèr kross á herðar, þá vil eg líka þakka þèr og bera hann með undirgefni undir þinn blessaða vilja. Þinni föðurlegu forsjón fel eg mig og öll mín efni í lífi og dauða. Amen.

---

## Á annan sunnudag í níuviknaföstu.

### Bæn.

Æ margt er það innra hjá oss, Drottinn! sem er því til fyrirstöðu, að þitt heilaga sannleiksorð geti borið hjá oss sáluhjálplegan ávöxt. Með

ángri og trega finnum vèr til þess, að lèttúð og þverúð hjartans, að sorgir og áhyggjur þessa lífs kæfa þitt orð í sálum vorum. svo að vèr, sem eigum að vera þinn akur, verðum sáðreitur syndarinnar og berum ekki annan ávöxt enn illgresi lastanna. Þess vegna flýjum vèr nú til þín, himneski góði faðir! og biðjum þig að senda oss náð og aðstoð þíns anda, svo vèr með einlægri iðrun og trú getum upprætt illgresi syndarinnar úr vorum hjörtum, en gróðursett þar aptur þitt sáluhjálplega lífsins orð. Þú ert sá, sem ávöxtinn gefur og án þín megnum vèr ekkert; gjör þú vor hjörtu að góðu akurlendi og frjófga þú í þeim hið góða sæðið með ylgeislum þinnar náðar. Styrk þú oss, leið þú oss og undirbú þú oss svoleiðis, að vèr getum borið ávöxt eilífs lífs, og fáum þar að uppskera með fögnuði. ávöxtinn af því, sem hèr einatt var sáð með tárum og trega. Bænheyr oss í Jesú nafni! Amen.

## Guðspjallið.

(Lúk. VIII., 4.—15.).

Í þann tíma. Þá er margt fólk var samankomið, og það flykktist til Jesú úr stöðunum, sagði hann þeim þessa eptirlíkíngu: Sáðmaður nokkur fór út að sá akur sinn; en þegar hann sáði, fèll sumt sæðið utan hjá veginum, varð fótum troðið og fuglar loptsins átu það. Sumt fèll á hellu, en þegar það spratt upp, visnaði það, af því það vantaði vökva. Sumt fèll á meðal þyrna, en þyrninn spratt upp með og kæfði það. Sumt fèll í góða jörð, það vóx upp og bar hundraðfaldan ávöxt. Þegar Jesús hafði þetta sagt, kallaði hann og sagði: hver eyru hefur að heyra, hann heyri! Hans lærisveinar spurðu hann að, hvað þessi dæmisaga ætti að þýða. Jesús svaraði: yður er unnt að skilja leyndardóma guðsríkis, en hinum öðrum kenni eg í dæmisögum, því þó þeir sjái, er það sem sæu þeir ekki, og þó þeir heyri, sem heyrðu þeir ekki; en þessi er þýðíng dæmisögunnar: Sæðið er guðsorð; en hinir við veginn eru þeir, sem heyra það, en eptir það kemur djöfullinn, og tekur orðið burt úr þeirra hjörtum, svo þeir skuli ekki trúa og verða hólpnir. Það sem á helluna fèll eru þeir, sem meðtaka

orðið með fögnuði, þegar þeir heyra það, en af því þeir hafa einga rót, trúa þeir að eins um stundar sakir, en falla þar frá á freistíngar tímanum. Það, sem fèll á millum þyrnanna, eru þeir, sem það heyra og velkjast í sorgum, auðæfum og girndum þessa lífs, kefjast og færa eingan ávöxt. Það sem í góða jörð fèll eru þeir, sem heyra orðið; og geyma það í góðu og siðsömu hjarta, og bera ávöxt með þolinmæði.

## Inngángur.

Það sem sèr í lagi einkennir samlíkíngar frelsara vors og gjörir þær svo lærdómsríkar er það, að hann ávalt tók dæmi af þeim hlutum, sem daglega bera fyrir augun og koma svo opt fyrir í mannlegu lífi. Vor guðdómlegi fræðari bendir oss á hina sýnilegu hluti, til þess að leiða huga vorn frá þeim og lypta honum upp til hinna ósýnilegu hluta, sem heyra guðsríki til. Þess vegna þurfum vèr jafnan að gæta að samlíkíngunum sjálfum, til þess að geta skilið andlega þýðíngu þeirra. Í þessa dags heilaga guðspjalli hefur hann samlíkt guðsorði við fræ eða sæði, sem sáð er í jörðina, til að sýna nytsemi, krapt og frjófsemi guðsorðs. Eins og það verður að sá sæðinu „til að útleiða brauð úr jörðunni og korn mönnunum til nota", eins þurfti Kristur og eins verður enn að sá guðsorði í mannleg hjörtu til að viðhalda þeirra sanna, æðra og andlega lífi, og þessi andlega sáníng er þeim mun nauðsynlegri enn hin, sem sálin er æðri enn líkaminn, sem hið eilífa líf er æðra enn hið tímanlega; „því maðurinn lifir ekki af einusaman brauði, heldur sèrhverju orði, sem framgeingur af Guðs munni". Í frækorninu felst bæði lífsefni og lífsafl; moldin, sem það geymist í, sólin, sem vermir það, regnið, sem vökvar það, er nauðsynlegt til þess það geti tíngast og sprottið; en þó er það einkanlega lífsaflið í því sjálfu, sem gefur því vöxt og viðgáng. Á líkan hátt hefur guðsorð í sjálfu sèr krapt til að vekja og fræða, til að hugga og betra og endurskapa hugarfar mannsins; en þó útheimtist bæði hjá honum iðrun og trú og sú samverkan heilags anda, sem fæst með heitri og innilegri bæn til Guðs.

Á öllum öldum fyrr og síðar hefur guðsorð sýnt", að það er kraptur Guðs til sáluhjálpar öllum þeim, sem trúa. Um þenna sáluhjálplega krapt þess sannfærumst vèr, hvort heldur vèr lítum til útbreiðslu þess á jörðunni eða anda þess og eðlis. Það útbreiðist um allan heim frá kyni til kyns, í ótal túngumálum; svo hefur það verið og svo mun það verða; því þó himin og jörð fyrirfarist, mun þó guðsorð ekki fyrirfarast. Hjá þeim, sem gefa gætur að guðsorði, sýnir það sinn krapt, fyrst með því að vekja manninn af andvaraleysinu, vekja hjá honum þekkíngu á syndinni og sýna honum Guðs rèttlæti og syndasekt sjálfs hans. En guðsorð er líka náðarinnar og kærleikans orð, sem huggar hin harmþrúngnu hjörtun, þegar þau með heitri iðrun og trú flýja að Jesú krossi. Það veitir iðrandi sálu ekki einúngis fullvissu um fyrirgefníng syndanna, heldur og nýtt líf í sameiningu hennar við frelsarann; það sýnir henni ekki einúngis hans heilögu boðorð og hans heilaga dæmi heldur knýr hana einnig til að fylgja honum í kærleika og hlýðni; það gefur henni krapta til að vaka og stríða; það gefur henni frið jafnvel í sjálfu stríðinu, hugarrósemi í mótlætinu, huggun í sorginni, þolinmæði í þjáníngunum og sáluhjálp í dauðanum. Þenna krapt guðsorða hafa guðbræddir og sanntrúaðir menn reynt á öllum öldum. En hafi nú guðsorð ekki ætíð þær verkanir, sem eru samboðnar þess guðlegu upptökum, þess háleita eðli og sáluhjálplega tilgángi, hvað kemur þá til þess? Vèr viljum reyna til að leysa úr þessari spurníngu, með því á þessari helgu stundu, eptir ávísun guðspjallsins, að hugleiða:

hvað því sèr í lagi er til fyrirstöðu, að guðsorð geti borið ávöxt í vorum hjörtum. Styrk oss til þessa, góði Guð! með náð þíns anda í Jesú nafni!

Þó það kunni með fram að hindra guðsorð frá að bera tilhlýðilegan ávöxt í hjörtum manna, að því er, ef til vill, ekki alstaðar rèttilega sáð í kristnum söfnuðum, þá geta þó ekki þeir afsakað sig með þessu, sem eiga kost á að lesa guðsorð, eða heyra það lesið í ritníngunni og öðrum andlegum bókum, sem þeir hafa í heimahúsum, eða að minnsta kosti ættu að hafa þar. Samlíkíngin í guðspjallinu gefur oss ekki heldur tilefni til að tala um þetta, heldur vekur hún at-

hygli vort á því, hve ólíkur sá jarðvegur er, sem sæðið fellur í, það er að skilja: á þeim hindrunum, sem spretta af þverúð hjartna vorra og iðrunarleysi voru og sem eru því til fyrirstöðu, að það sem vèr lesum eða heyrum geti borið ávöxt hjá oss, geti betrað hugarfar og háttalag vort.

Hjá mörgum tilheyrendum líkist orðið því sæði, „sem fèll utan hjá veginum, varð fótum troðið og uppetið af fuglum loptsins". þessir menn eru svo hugsunarlausir og lèttúðarfullir, að þó þeir hlýði guðsorði, þegar þeir ekki geta komizt hjá því, þá veita þeir því þó einga eptirtekt; þeir hugsa aldrei um það og gjöra sèr aldrei grein fyrir sannleika þess nè guðlegu eðli. það hljómar um stund í eyrum þeirra, en það er tómur hljómur, sem hverfur undir eins og aðrar raddir láta til sín heyra, og getur því aldrei komizt inn í sálina eða haft áhrif á hjörtu þeirra og vilja. Sèu þeir spurðir um, hvað þeir hafi tileinkað sèr úr einhverri góðri prèdikun, sem þeir hafa hlýtt, úr einhverri góðri guðsorðabók, sem þeir hafa lesið, þá muna þeir ekkert af því, og muni þeir eitthvað, dettur þeim ekki í hug að heimfæra það til sín eða síns sálarástands. Undir heyrn guðsorða sitja þeir annaðhvort hálf-sofandi eða eru að hugsa um allt annað; og geti einhver áminníng vakið eptirtekt þeirra, þá líta þeir til náúngans til að dæma hann, en gleyma sínum eigin brestum og yfirsjónum. Hjá þessum mönnum geta eingar dyggðir, eingin góð áform fest rætur, því hjörtu þeirra eru eins og alfara vegur, sem ekki verður ræktaður; það sem þar er sáð, verður annaðhvort fótum troðið af hinni vitstola veröld, sem æðir viðstöðulaust áfram, eða því verður eytt af girndum og tilhneigíngum, sem uppeta það eins og hræfuglar, áður enn það getur fest rætur. Hvað stoðar þá þessa ógæfusömu menn allt sem þeir heyra? Af því þeir eru andvaralausir og hugsunarlausir um hið eina nauðsynlega, „kemur djöfullinn", eins og frelsarinn segir, „og tekur orðið burt úr þeirra hjörtum, svo þeir skuli ekki trúa og verða hólpnir". Ætti ekki þessi hræðilega tilhugsun að vekja þá af svefni andvaraleysisins?

Enn fremur segir frelsarinn í guðspjallinu: „sumt fèll á hellu; en þegar það spratt upp, visnaði það, af því það vantaði vökvann". — Með þessu meinar hann þá, sem eru hvik-

lyndir og þreklausir í hinu góða; og þetta hviklyndi og þrekleysi aptrar einnig guðsorði frá að bera ávöxt í hjörtum vorum. Því miður eru margir þannig sinnaðir í kristnum söfnuði; það verður ekki sagt um þá, að þeir fyrirlíti guðsorð, því þeir finna, að þeir þurfa þess við; þess vegna tileinka þeir sèr líka fyrirheit guðlegrar náðar og huggunargreinir úr guðsorði, en gjöra það ekki rèttilega, ekki á þann hátt, að það betri hjörtu þeirra eða styrki huga þeirra og krapta til hins góða. Þeir eru fljótir til að vikna; en hugarhræríngar þeirra eiga sèr ekki djúpar rætur; jarðvegurinn er lítill og grunnur, og innarlega í hjartanu er hann harður og hrjóstrugur eins og hella. Þessir menn vanrækja ekki kirkjugaungu, og það lítur út, eins og þeir hafi gagn af því sem þar er haft um hönd; þeir vanrækja ekki heldur altarisgaungu, og menn skyldu ætla, að sæðið væri fallið í góða jörð; en þó það spretti upp, visnar það aptur, af því það vantar vökvann, af því betrun þeirra er ekki innifalin í öðru enn nokkrum andvörpunum og tárum, eða, þegar bezt gegnir, í því, að þeir hafa rètt einhverjum nauðstöddum hjálparhönd. Leingra eru þeir ekki vanir að komast á vegi betrunnarinnar, og þetta láta þeir sèr lynda; það er eins og þeir hafi gjört Guði eitthvað til þægðar og með því lokið allri skuld sinni við hann; það er eins og þeim finnist, að þeir hafi lètt af sèr einhverri þúngri byrði; já þeir verða svo lèttir á sèr, að undir eins og einhver freistíng bendir þeim, hlaupa þeir aptur út í soll veraldarinnar og falla aptur til þeirra lasta, sem þeir erú búnir að venja sig á. Vakni nú aptur samvizkan hjá þeim og beri þeim á brýn breytni þeirra, þá hafa þeir sama ráð og áður, að tárast um stund yfir syndaeymd sinni, breiða síðan ofan á hana og gleyma henni; þeir hryggjast eins fljótt og þeir huggast; en hryggð þeirra er ekki eptir Guði, og því getur hún ekki komið þeim til að bæta ráð sitt; náðarlærdómur Drottins, sem þeir misskilja og vanbrúka, getur ekki endurskapað þá eða breytt hugarfari þeirra; þeir heimfæra hann til sín með oftrausti á guðlegri náð, og þær góðu geðshræríngar, sem snöggvast vakna í sálum þeirra, hjaðna niður aptur og verða að eingu. Hvaða gagn er þá að því, þó „þeir meðtaki orðið með fögnuði, þegar þeir heyra það?“ Þeir hafa einga rót, trúa um stundar sakir, en falla frá á freistíngar

tímanum“. þetta er hálfvelgja, það er alvörulaus og svikul trú. Guð gæfi, að þeir, sem þekkja sig og sálarástand sitt í þessari samlíkíngu lausnarans, vildu í tíma rannsaka sjálfa sig fyrir alvöru og hugleiða hvað til þeirra friðar heyrir.

„Sumt fèll á meðal þyrna“, segir frelsarinn; „en þyrninn spratt upp með og kæfði það niður“. Hverjir eru svo báglega á sig komnir? það eru þeir, sem eru sokknir niður í veraldlegar áhyggjur og láta sèr stjórna af holdlegum girndum. Hið veraldlega og holdlega hugarfar er því einnig, og ekki hvað minnst, því til fyrirstöðu, að guðsorð geti borið ávöxt hjá oss. þessir holdlega sinnuðu menn heyra líka guðsorð; það hefur krapt í sèr, sem þeir ekki geta að öllu leyti mótstaðið; það hefur þau sannindi að geyma, sem þeir ekki geta hrakið; en hjá þeim nemur það staðar við þurra og kalda þekkíng, en hefur eingin áhrif á hjörtu þeirra. þau eru svo full af hinu jarðneska, sem þeir hafa mestar mætur á, að eingin betri nè háleitari sannfæríng getur fest rætur hjá þeim, heldur deyr hún aptur áður enn hún fær nokkurt vald yfir viljanum, og visnar innan um hið rótgróna illgresi, sem dregur allan lífsvökva til sín. Slíkir menn bera ekki skynbragð á hið æðra og sanna líf; þeir þekkja ekki annað líf enn það, sem innifalið er í því að eiga góða daga og lifa eptir munni og maga, að láta eptir girndum sínum, afla fjár og eyða því og efla sína tímanlegu hagsmuni. Að sönnu finna þeir stundum til þess, að þá vantar eitthvað og komast ekki ætíð hjá því að hlusta eptir aðvarandi rödd guðsorða; en þær guðrækilegu tilfinníngar og áform, sem þetta stundum vekur hjá þeim, geta ekki náð neinni staðfestu nè þroska, af því „þeir velkjast í sorgum, auðæfum og girndum þessa lífs, kefjast og bera eingan ávöxt“. Sjáið hèr mynd yðar, holdsins og heimsins þrælar! og hugleiðið, hvern enda þetta muni fá og hver afdrif yðar muni verða!

Ef vèr því, kærir bræður! viljum, að guðsorð geti borið ávöxt hjá oss og sýnt á oss, að það er kraptur Guðs til sáluhjálpar, þá hljótum vèr að kappkosta að burtrýma öllu því úr hjörtum vorum, sem er þess blessunarfullu verkunum til fyrirstöðu. En þetta megnum vèr ekki af sjálfum oss án hjálpar og fulltíngis heilags anda, og því hefur Guð heitið oss, þegar vèr hann þar um biðjum. þess vegna eigum vèr að biðja Guð

í hvert sinn sem vèr lesum eða heyrum hans orð, biðja hann af hjarta og í trúnni. þegar vèr biðjum og iðjum trúlega, þá blessar Drottinn viðleitni vora, þá „fellur sæðið í góða jörð og ber hundraðfaldan ávöxt". Í hverju þetta sè innifalið, sýnir frelsarinn oss með þessum fáu en eptirtektaverða orðum: „það, sem í góða jörð fèll, eru þeir, sem heyra orðið og geyma það í góðu og siðsömu hjarta, og bera ávöxt með þolinmæði". Fyrst og fremst verða menn að heyra guðsorð; því með sínu orði vekur Drottinn oss, áminnir, fræðir og huggar, og í því veitir hann oss sína náð. En í orðinu talar Guð ekki einúngis til eyra vors og skilníngs, heldur og til hjartans; í hjartanu á orðið að staðnæmast og lifa, svo það geti borið ávöxt. Hjartað á að vera „gott og siðsamt", segir Jesús; það er að skilja: það á að taka fúslega á móti því, sem gott er, og vera hreinskilið í iðrun sinni. Hitt er ekki meiníngin, að sálir vorar þurfi að vera hreinar og heilagar til þess að geta veitt sannleikans og náðarinnar orði viðtökur. Æ! hver af oss aumum syndurum mundi þá geta veitt því móttöku eða geymt það? Nei, það er orðið, það er kraptur Guðs í því, sem hreinsar oss og helgar, þegar vèr tileinkum oss það með sannri iðrun og trú „til lærdóms, til sannfæríngar, til leiðrèttíngar og menntunar í ráðvendni" (2. Tím. 3., 16.). — þegar þú, kristinn maður! heyrir Guðs boðorð og hótanir lögmálsins, þá prófa þú sjálfan þig og ber þú sálarástand þitt saman við það, sem guðsorð og samvizkan heimtar af þèr, og þegar þú nú finnur, hve fjærri þú ert því helgunarinnar takmarki, sem þèr er ætlað að ná, þá flý þú til Guðs náðar, sem þèr er líka boðuð í hans orði, og bið þú hann að gefa þèr krapta til að geta *geymt* orðið sem lífsins orð, að geta geymt það í hreinskilnu hjarta, svo að hjarta þitt endurnýist dag frá degi í trú og kærleika, helgun og friði. þá fellur hið góða sæðið hjá þèr „í góða jörð og ber ávöxt með þolinmæði". þolinmæði á hèr ekki að skilja einúngis um það, að bera vel sorg og mótlæti, heldur og um það sálarþrek, sem með öðru nafni kallast stöðuglyndi og sem er ómissandi við sèrhvert verk, eigi það að heppnast og fara vel úr hendi. Menn verða að hafa þolinmæði, ekki einúngis við aðra, heldur og við sjálfa sig, og mega ekki hætta við sitt betrunarverk, þó því fyrst framan af sýnist verða lítið ágeingt. því mun þó

verða framgeingt, ef vèr höfum einlægan betrunar ásetníng og leitum Guðs aðstoðar með heitri og innilegri bæn. En til þolinmæðinnar heyrir líka þol í því að bíða eptir hjálpinni. Hjálpin dregst stundum; vèr verðum ekki ætíð strax varir við verkanir guðsorðs, heldur verðum áður að leggja alla stund á að hugleiða það og heimfæra það til sjálfra vor. þannig liggur og frækornið um stund í jörðinni, áður enn það kemur upp, þarf síðan lángan tíma til að vaxa og bera ávöxt og á í stríði við kulda og hvassviðri og ýmsar aðrar hindranir. Eins er guðsorði varið. það þarf tíma til að gróðursetjast og festa rætur í hjörtum vorum, og á í stríði við margar syndsamlegar tilhneigíngar hjá oss og margar freistíngar, sem fyrir oss koma. Maðurinn verður ekki allt í einu sannkristinn; æ nei! til þess verður hann, með stöðugri bæn um styrk af hæðum, leingi að stríða við sjálfan sig, við girndir sínar og heiminn. Menn mega ekki þreytast nè gefast upp, ekki örvænta eða hætta við hálfbúið verk, heldur eiga þeir að bera ávöxt með þolinmæði.

„Meðtakið því orðið með hógværð, sem í yður er gróðursett, það sem kröptugt er til að frelsa yðar sálir“ (Jak. 1., 21.). En margir, sem það er gróðursett hjá í æskunni, vanrækja það á fullorðins árunum og gleyma því. Í stað þess að taka framförum í þekkíngu guðsorðs, gleyma þeir öllu, sem þeir hafa lært og numið; þó þeir því endrum og eins gángi í guðshús eða hafi hans orð um hönd í heimahúsum, skilja þeir ekki það sem þeir heyra eða lesa; um þessa menn er sagt í guðspjallinu, „að sjáandi sjái þeir ekki, og áheyrandi skilji þeir það ekki“. þar á mót hættir sumum við, sem hafa guðsorð kostgæfilega um hönd, að vanbrúka það til að ala hjá sèr skinhelgi og andvaraleysi. Eg tala hèr ekki um þá, sem hræsna fyrir mönnum og reyna til með yfirskyni guðhræðslunnar að hylja brot sín og lesti, heldur um hina, sem hræsna fyrir sjálfum sèr og halda, að það sè nóg að sitja undir heyrn guðsorðs eða lesa það einhvern veginn, þó það eingin áhrif hafi á hugarfar og líferni þeirra: þeir gæta þess ekki, að það er guðsorð, ekki einúngis af því, að það er tekið úr heilagri ritníngu, heldur og að því leyti sem Guð hefur það til að vekja og fræða, áminna og hugga, rèttlæta og helga alla þá, sem ekki veita verkunum þess mótspyrnu með vantrú og iðrunarleysi.

Eins og hin sýnilega náttúra væri dauð og hreifíngarlaus, ef hún væri ekki lífguð af Guðs anda, sem hana hefur skapað, eins væri ekki heldur guðsorð annað enn dauður bókstafur, ef Guðs andi, sem það er sprottið frá, lífgaði það ekki í hjörtum vorum.

Fái guðsorð ekki á vorn innra mann, geti það ekki hrært vor hjörtu og vakið hjá oss krapt og vilja og stöðuga viðleitni eptir að breyta eptir því, þá er það ekki annað enn dauður bókstafur; þá nemur það staðar eins og hljóð í eyrunum, eins og utan að lærð þula í minninu, eins og köld og kjarnalaus hugsun í skilníngnum, eða eins og hjálíðandi hræríng í hjartanu, sem ekki leiðir af sèr betrun nè helgun lífernisins. Margir halda, að þeir geti lesið eða súngið sálu sína inn í himnaríki, þó þeir leggi ekki af lesti sína eða stríði við syndsamlegar girndir; en þetta er hraparleg og hættuleg villa.

„Sælir eru þeir, sem heyra guðsorð og geyma það", segir frelsari vor, og meinar þá geymslu í hjartanu, sem kemur því til leiðar, að orðið lifir þar og ber fyrir trúna ávöxt í kærleika og kristilegum dyggðum. Og sælir erum vèr, ef vèr þannig geymum guðsorð; þá getum vèr ekki verið lèttúðarfullir nè hirðulausir um vora eilífu sáluhjálp; með stöðugri og innilegri andakt hlýðum vèr þá guðsorði, rannsökum með hreinskilni hugarfar vort og háttalag og látum oss ekki lynda þær hverfulu hugarhræríngar, sem hvorki hafa áhrif á sálina nè líferníð; þá heyrum vèr orðið þannig, að það festir rætur í vorum hjörtum, kveikir ljós í sálum vorum, sýnir oss vort sanna sálarástand, ófullkomlegleika vorn og andlegar þarfir, kennir oss að hræsna ekki fyrir sjálfum oss eða fegra ávirðíngar vorar fyrir honum, sem þekkir oss og á síðan mun dæma oss. Það sem hann segir oss í sínu orði vitum vèr þá, að er sagt til þess, að vèr heimfærum það til sjálfra vor. Og þegar vèr gjörum það og gróðursetjum það í hjörtunum, þá styrkjast hjá oss góð og guðleg áform, sem aldrei framar „kefjast af sorgum, auðæfum og girndum þessa lífs".

Látum oss, góðir bræður! að boði Jakobs postula „ekki einúngis vera orðsins heyrendur, heldur og þess gjörendur" (1., 22.); góður Guð gefi það, að það sem vèr heyrum eða lesum af hans orði megi hafa þær verkanir hjá oss, sem postulinn Pètur talar um „hjá þeim, sem endurfæddir eru, ekki af for-

geingilegu sæði, heldur óforgeingilegu, með Guðs lífkröptuga lærdómi, er varir að eilífu" (1. 1., 23.); góður Guð gefi það, að hans orð megi búa ríkulega meðal vor, í hjörtum og á heimilum vorum, og bera margfaldan ávöxt í allri vorri breytni! Æ, vèr biðjum þig, himneski faðir! lát þú þitt orð vera ljós á vorum vegum og lampa vorra fóta; hreinsa þú og helga þú með þínum anda og þínu sannleiksorði akurlendi vorra hjartna, svo vèr getum borið mikinn ávöxt til eilífs lífs; þitt orð sè vort athvarf í sorg og gleði, í hættum og freistíngum þessa lífs; það sè vor huggun í voru dauðastríði og gefi oss styrk til að deyja kristilega, til að lypta augum trúar og vonar upp til þín og fela vorn anda í þínar himnesku föðurhendur! Amen.

---

## Á sunnudaginn í föstuinngáng.

### Bæn.

Himneski góði Guð og faðir! ó! hve sælufullt og fagnaðarríkt er það, að mega kalla þig föður og vera þitt barn, að mega lifa óhultur undir skjóli og skugga þinnar föðurlegu verndar, mega nálgast þig með bljúgu barnasinni og auðmjúku bænakvaki og eiga svo von á sælunni hjá sjálfum þèr í þínu dýrðarríki, þegar lífsstundir vorar hèr eru liðnar. Í skírninni vorum vèr teknir í tölu þinna barna; síðan var oss kennt, hvernig vèr ættum að gæta þess barnarèttar, sem þú hefur veitt oss, og loksins staðfestum vèr sjálfir skírnarsáttmála vorn og hètum því, að vera þín hlýðin börn allt fram í dauðann. En hvernig höfum vèr efnt þessi heit? æ góði Guð! vèr megum allir játa, að oss hefur margt og mikið yfirsèzt, að vèr einatt höfum gleymt þèr, þegar holdið og heimurinn freistaði vor, gleymt vorum barnarètti og vorri himnesku arfleið. Æ! fyrirgef þú oss í frelsarans Jesú nafni alla vora gleymsku, allt vort hviklyndi og alla vora ótrúmennsku; styrk þú vora veiku krapta, svo vèr fáum þrek til hins góða og stöðuglyndi í hlýðninni við þig, og öðlumst að lokunum þau eilífu verðlaun, sem þú hefur heitið þínum hlýðnu og trúlyndu börnum! Amen.

### Guðspjallið
(Matth. III., 13.—17.).

Um þessar mundir kom Jesús úr Galíleu til Jórdanar, til Jóhannesar, þess erindis, að skírast af honum; en Jó-

hannes skoraðist undan því og sagði: mèr er þörf á að eg skírist af þèr, og þú kemur til mín. Jesús svaraði: láttu nú svo vera; því svo ber oss allt rèttlæti upp að fylla. Jóhannes lèt það þá eptir honum. En þegar Jesús var skírður, og hann steig upp úr vatninu, þá lukust himnarnir upp yfir honum, en Jóhannes sá Guðs anda ofanstíga í dúfulíkíngu, og yfir hann koma, og rödd af himni sagði: þessi er sonur minn elskulegur, á hverjum eg hefi velþókknun.

Inngángurinn.

Það er til vonar, þó oss kunni að furða á því, eins og Jóhannes skírara, að Jesús, sem var syndlaus og heilagur, lèti skírast af honum, þareð skírn Jóhannesar miðaði til þess, eins og hirtíngarræður hans, að vekja hjá mönnum athygli á syndasekt þeirra, og sýna þeim, hvílíka þörf þeir hefðu á andlegri hreinsun og lífernisbetrun. Kristur sjálfur svarar oss, „að sèr bæri þannig allt rèttlæti upp að fylla“. En hvernig á að skilja þetta? Það er vant að taka það svo, að hann, sem ætlaði að stofna guðsríki hèr á jörðunni, vildi gánga á undan oss með góðu eptirdæmi í öllu því, sem heyrði til að koma á góðri reglu og rèttu skipulagi í þessu ríki. Þó sýnist það ekki heyra til þessa skipulags eða „rèttlætisins“, að hann, sem var án syndar, skyldi þurfa að taka skírn, sem miðaði til lífernisbetrunar; að hann skyldi þurfa þeirrar hreinsunar við, sem á að undirbúa syndugan mann undir trúna á frelsara sinn. Og þó vèr skoðum Krists skírn einúngis sem vígslu til hans kennaraembættis, þá er það þó sjálfu sèr gagnstætt, að hann skyldi hafa til þessa þá athöfn, sem gjörir ráð fyrir hluttekníngu í þeirri syndasekt, sem hann var kominn til að afplána. Hin rètta útskýríng er eflaust sú, að hann, með því að láta skírast, vildi um leið og hann hóf sitt kennimannlega embætti, gefa til kynna, að hann hefði tekið á sig þessa syndasekt. Þess vegna sagði líka Jóhannes við lærisveina sína, þegar hann sá Jesúm koma til sín: „sjá það Guðs lamb, sem burtber heimsins synd“ (Jóh. 1., 29.). — Hvað þá merkilegu viðburði snertir, sem voru samfara Jesú skírn, þá er það auðvitað, að

þeir voru ekki nauðsynlegir sjálfs hans vegna. — Himininn þurfti ekki að opnast hans vegna, því hann var kominn af himnum ofan og gat sagt um sig, að hann væri á himnum meðan hann dvaldi hèr á jörðunni (Jóh. 3., 13.); heilagur andi þurfti ekki að koma yfir hann, því hann var getinn af heilögum anda, og honum þurfti ekki rödd af himnum að boða, að hann væri Guðs sonur, því hann var það frá eilífð. þessir viðburðir áttu ekki einúngis að sannfæra Jóhannes skírara og þá sem viðstaddir voru og oss alla um, að Jesús væri sá sem koma ætti, að hann væri sá fyrirheitni Messías, heldur einnig vera til merkis um, að líkt kemur enn fram við þá, sem með skírninni eru teknir í fèlag kristinna manna. Himininn, sem var lokaður fyrir syndumspilltu mannkyni, opnast í skírninni af guðlegri náð, og heilagur andi gjörir þann, sem skírður er, að Guðs barni fyrir trúna á Guðs eingetinn son. þegar Guðs eilífi eingetni sonur steig niður á jarðríki til að endurleysa mannkynið úr ánauð syndanna, þá lèt hann sèr ekki lynda, að frelsa oss úr þessum þrældómi, heldur „gaf hann oss einnig kost á að verða Guðs börn“ (Jóh. 1., 12.), ef vèr trúum á hann og endurfæðumst af hans anda. Ættum vèr ekki að meta mikils þenna barnarètt? Ættum vèr ekki að kosta kapps um að halda honum? Og ef vèr höfum misst hann, ættum vèr ekki að verja þeim náðarmeðulum, sem Guð hefur gefið oss, til þess að ná honum aptur? Í þessu skyni viljum vèr, kærir bræður! á þessari stundu hugleiða:

hve gott og sælufullt það er að vera Guðs barn.

þegar svo ber við í mannlegu fèlagi, að góðir menn af meðaumkun við bágstadda foreldra taka að sèr til uppfósturs eitthvert sárvesalt aumíngja barn, húngrað og nakið; þegar þeir fæða það og klæða, sýna því gott atlæti, uppala það vel og kristilega, koma því til manns og láta kenna því allt gott, sem það hefur hæfilegleika til að nema, taka það síðan í barns stað og arfleiða það að öllu sínu: köllum vèr þá ekki þetta tökubarn lánsamt, og teljum vèr það ekki sjálfsagða skyldu þess, að sýna velgjörðaforeldrum sínum hjartanlega þakklátsemi og elska þá fram í andlátið? En hvað er tímanlegt lán og lukka í samanburði við eilífa sáluhjálp? Hvað eru öll jarðnesk

gæði í samanburði við hina himnesku arfleifð í guðsríki? Erum vèr ekki allir eptir eðlisfari voru andlega volaðir, vesalir og aumir? Hvað værum vèr, hvað væru sálir vorar, ef Guð hefði ekki sèð aumur á oss og miskunað oss? Værum vèr ekki húngraðir og naktir, munaðarlausir og glataðir? Værum vèr ekki öllum þeim eymdum hlaðnir, sem af syndinni leiða? En nú hefur Guð miskunað sig yfir oss auma syndara og sent sinn eingetinn son til að frelsa oss og reisa oss á fætur aptur, til að leiða oss til sín og gjöra oss hluttakandi í sinni föðurlegu náð hèr í tímanum og í þeim friði, fögnuði og sælu, sem bíður allra barna hans í hans eilífa ríki. En eins og hið auma og umkomulausa tökubarn ekki getur búizt við að halda hylli velgjörðaforeldra sinna eða fá að erfa þá, ef það artast illa, vill ekki hlýða þeirra áminníngum, nè fylgja þeirra ráðum, eins getur þú ekki heldur, kristinn maður! sèm í skírninni ert tekinn í tölu Guðs barna, búizt við að halda þessum barnarètti, ef þú vilt ekki trúa orðum þíns himneska föðurs, ekki leitást við að halda hans boðorð, ekki hagnýta þèr þau náðarmeðul, sem hann hefur gefið þèr. Þess vegna er skírnarsakramentið skoðað, ekki einúngis sem endurfæðíngarlaug, heldur og sem sáttmáli milli Guðs og þess, sem skírður er. Í hverju þessi sáttmáli sè innifalinn, sèst af því, að vèr erum skírðir í nafni föður, sonar og heilags anda, það er að skilja: til trúar á þríeinan Guð, sem hefur opinberazt í sköpuninni, endurlausninni og helguninni, og þessi trú getur ekki verið sönn og lifandi, nema hún beri ávöxt í kristilegri elsku til Guðs og náúngans. En það er ekki tilgángur vor í þetta sinn að útlista frekar, í hverju þessi sáttmáli sè innifalinn, heldur hitt, hve sælufullt það sè að vera Guðs barn.

Gætum þá fyrst að því, góðir bræður! að Guðs börn ætíð standa undir vernd og varðveizlu þeirra himneska föðurs, hvort sem þau fara og hvar sem þau eru hèr á jörðunni, og að þau mega ætíð flýja til hans í sèrhverju böli og bágindum þessa lífs, í sèrhverri líkamlegri og andlegri eymd og mæðu. Hans alskyggna auga sèr jafnan, hvernig þeim líður, hans himneska föðurhönd leiðir þau; hans himneska föðurhjarta breiðir jafnan sinn náðarfaðm út á móti þeim. En einhver kynni að segja: ber Guð ekki umhyggju fyrir öllum sínum sköpuðu skepnum,

smáum og stórum? Er hann ekki faðir allra sinna lifandi skepna? Fæðir hann ekki fugla loptsins og viðheldur þeim, svo einginn þeirra fellur til jarðar án hans vilja? Að vísu er þessu þannig varið; en þeir þekkja ekki þann himneska föður, sem elur önn fyrir þeim og gætir þeirra; þeir vita ekki af því og geta ekki lypt þakklátum hjörtum upp til hans fyrir það. Og því miður er þessu eins háttað fyrir mörgum mönnum, ekki einúngis meðal heiðíngja, heldur og meðal kristinna manna; þeir ættu að vita það og hugleiða það og gætu gjört það, en gjöra það þó ekki. „Guð lætur sína sól upprenna yfir vonda og góða og rigna yfir rèttláta og rángláta“, segir frelsarinn (Matth. 5., 45.); en hinir vondu og ránglátu verða einúngis varir við sólskinið og regnið, en hugsa ekki til hans, sem öll blessun kemur frá; þeir neyta gjafa hans án þess að kannast við hans gæðsku, og hafa snúið hjörtum sínum frá honum, eins og hann væri ekki til, eða ef þeir einhvern tíma lypta huganum upp til hans, þá gjöra þeir það með kvíða og hræðslu. Þar á mót framgánga trú og hlýðin Guðs börn jafnan fyrir hans augliti og umhugsanin um hann vekur hjá þeim frið og hugarrósemi. Eins og þau í meðlætinu og gleðinni lypta þakklátum hjörtum upp til ljósanna föðurs, sem öll góð og öll fullkomin gjöf kemur frá, þannig sýna þau og í mótlæti og sorg þolinmæði og undirgefni undir hans vilja og hugga sig ávalt við þá sannfæríngu, að þau eru undir Guðs vernd og varðveizlu, og að allt, sem hann gjörir, er rètt og þeim fyrir beztu. — Hvað er allt hið stundlega og veraldlega skjól og athvarf, sem svo margir setja allt sitt traust til? það stendur í dag, en hrynur á morgun. Hvað er hylli hjá mönnum? Hún breytist eins og veður í lopti. Hvað er jafnvel það traust, sem börn bera til foreldra sinna? Foreldrarnir falla frá þegar minnst vonum varir og vèr stöndum eptir einmana og yfirgefnir og horfum grátandi á gröf þeirra. Margir mega heita munaðarlausir, þó foreldrar þeirra lifi, þegar þeir fyrir fátæktar sakir ekki geta sjálfir uppalið börn sín, heldur verða að koma þeim til vandalausra, eða senda þau frá sèr eitthvað út í veröldina. Þetta getur komið fyrir hjá beztu foreldrum. Hvað gæti þá hughreist börn og foreldra, ef þeir vissu ekki, að himnafaðirinn er æ hinn sami og ómbreytanlegur og að honum einum má

fulltreysta bæði í lífi og dauða? Sèum vèr Guðs börn, getum vèr ætíð og alstaðar reitt oss á hans föðurlegu vernd og varðveizlu, og þetta sælufulla traust á Guði leiðir fyrst og fremst af því að vera hans barn; hin önnur afleiðíng þess er innifalin í því, að vèr getum nálgazt hann með hjartanlegri og innilegri bæn. Vissulega heyrir Guð rödd allra lifandi skepna, hann þekkir sèrhverja hugsun, sèrhverja tilfinníngu og sèrhvert andvarp hjartans; hann byrgir ekki heldur eyra sitt fyrir kveinstaf hinna óguðlegu. Vilji hinn óguðlegi fyrir alvöru snúa sèr til Guðs, þá nálgast Drottinn einnig hann og tekur miskunsamlega móti játníngu hans og þeirri bæn, sem kemur frá hans iðrandi og harmþrúngna hjarta. En einginn finnur fullkomlega til þess, nema sá, sem orðinn er sannarlegt Guðs barn, hvílík unun og sæla það er, að umgángast Guð sem ástríkan föður. Hugleiðum, kristnir bræður! hve sælufullt það er, að geta á hverjum degi og hverri stundu komið í bæn fram fyrir Guð og talað við hann, og vita það, að hann vill heyra öll vor andvörp, og veita oss náð og huggun í sèrhverri sorg og mæðu lífsins. Já, bræður góðir! þegar hèr á jörðunni getum vèr sem Guðs börn haft umgeingni vora á himnum. Guð er alsvitandi og alstaðar nálægur; það vita líka hinir lastafullu og óguðlegu; en trúaðir og guðhræddir menn finna til Guðs náðar nálægðar innra með sèr og verða varir við hana í hjarta sínu, þegar þeir með trúnaðartrausti biðja hann, eins og þegar góð börn biðja elskulegan föður. — Það sem í þriðja lagi leiðir af því að vera Guðs barn, er hluttekníng í þeim andlegu náðargjöfum, sem Guð hefur lofað öllum þeim, sem vilja vera hans trúlyndir þjónar. „Ef þèr, sem vondir eruð“ segir Jesús, „tímið að gefa börnum yðar góðar gjafir, hve miklu framar mun þá ekki faðir yðar á himnum gefa þeim heilagan anda, sem þess beiðast“ (Lúk. 11., 13.); og Páll postuli ávarpar alla sannkristna menn með þessum orðum: „þèr hafið ekki meðtekið þrældóms anda aptur til hræðslu, heldur hafið þèr meðtekið sonaútvalníngar anda, sem vèr köllum í: abba, elskulegi faðir! sá sami andi ber vorum anda vitni um það, að vèr erum Guðs börn“ (Róm. 8., 15.—16.). Þessum góða Guðs anda er það að þakka, að vèr verðum Guðs börn, þareð hann „endurfæðir oss með sannleikans orði“ (Jak. 1, 18.)

og hann viðheldur oss í þessum barnarètti, með því hann skýrir skilníng vorn, styrkir vora trú, gefur oss hug og dug til að hlýðnast Guðs boðum og stunda það sem gott er, kennir oss að vaka og biðja, hjálpar oss til að bera vorn kross með þolinmæði og til að stríða við allt, sem vill draga oss frá Guði og hans heilaga vilja, frá hans mildiríku náð og sáluhjálplega kærleika. Eins og Guðs andi frelsar oss frá þeim ótta og ángist, sem ásækir oss meðan vèr erum þrælar syndanna og stöndum undir oki og bölvun lögmálsins, eins verndar hann oss fyrir andlegri drambsemi, sem mörgum er hætt við þegar þeir bera sig sem Guðs börn saman við heimsins börn. þeir gæta þess ekki, hve illa þetta situr á þeirra sál, sem tekin er til náðar, gæta þess ekki, að sú guðlega náð, sem þeir gleðjast af, minnir þá einmitt á þá syndaskuld, sem búið er að uppgefa þeim, gæta þess ekki, hve mikið sjálfa þá vantar á að hafa náð „fullorðins aldri Krists“, eða fullkominni helgun lífernisins, og þetta gætu þeir þó sèð af því stríði, sem þeir einlægt eiga í, ekki einúngis við heiminn, heldur og við girndir sínar og tilhneigíngar, við sitt eigið holdlega hugarfar. Frá holdlegu hugarfari þeirra, en ekki af Guðs anda, spretta ómildir dómar þeirra um aðra, kærleikslaus ákafi og óvinveitt hugarfar. Til þess frómlundaða, auðmjúka og kærleiksfulla hjartaþels, sem Guðs börnum er eiginlegt, hafði frelsari vor tillit, þegar lærisveinarnir spurðu hann, hver þeirra mundi verða mestur í himnaríki, og hann setti barn eitt á meðal þeirra, og sagði: „sá sem lítillækkar sig eins og barn þetta, mun mestur verða í himnaríki“. þetta barnslega hugarfar getur vel sameinazt við það hugrekki, sem vèr þurfum á að halda í stríðinu við hið illa innra hjá oss og fyrir utan oss; því þessi kristilega hugprýði sprettur ekki af trausti til vorra krapta, heldur af trausti á aðstoð Drottins og hans anda, sem veitir oss ekki einúngis stöðuglyndi og sigur í freistíngunum, heldur og frið í sjálfu stríðinu, „þann Guðs frið, sem yfirgeingur allan skilníng og heldur hjörtum vorum og hugsunum stöðuglega við Jesúm Krist“ (Filipp. 4., 7.).

þessi miklu og háleitu gæði veitir Guðs barna rèttur oss þegar í þessu lífi; en eptir dauðann fylgir honum einnig himnesk arfleifð, eilíf sæla í Guðs dýrðarríki. „Ef vèr erum Guðs

börn“, segir postulinn Páll, „þá erum vèr líka erfíngjar, já erfíngjar Guðs, en samarfar Krists (Róm. 8., 17.), og hjá Jóhannesi má lesa merkilega útskýríngu þessa, þar sem hann segir (1., 3., 2.): „elskanlegir! nú þegar erum vèr Guðs börn, en það er enn þá ekki opinbert, hvað vèr verða munum; en það vitum vèr, að þegar frelsarinn birtist, munum vèr honum líkir verða, því að vèr munum sjá hann eins og hann er“. Vèr munum verða honum líkir, segir postulinn, eingúngis af því að fá að sjá hann eins og hann er, og lausnarinn sjálfur lætur oss ráða í það, hvernig þeir, sem honum tilheyra, muni verða sælir af því að sjá hann á himnum, þegar hann í bæninni til síns himneska föður sagði: „faðir! eg vil, að þeir, sem þú gafst mèr, sèu hjá mèr þar sem eg er, svo þeir sjái mína dýrð, sem þú gafst mèr“ (Jóh. 17., 24.). Með skírninni erum vèr allir honum gefnir; en munum vèr nú allir tilheyra honum? Hvað er skilyrðið fyrir því, að vèr og hann verðum eitt, eins og hann og faðirinn eru eitt? Vèr eigum að vera honum innilega sameinaðir og í samfèlaginu við hann sameinaðir Guði. Getur þessi sameiníng átt sèr stað, ef vèr lifum í löstum og höldum iðrunarlaust áfram í syndunum? Guð er kærleikurinn sjálfur; en hann er líka heilagleikinn sjálfur og rèttlætið sjálft. Rannsökum oss nú sjálfa, bræður góðir! Rennum huganum til æskuára vorra, þegar vèr fyrst feingum tilsögn í Jesú sáluhjálplega trúarbragða lærdómi, þegar verið var að búa oss undir staðfestíngu skírnarsáttmála vors og undir vora fyrstu altarisgaungu. Þá opnuðust augu sálna vorra, svo vèr lærðum að þekkja hann, sem hefur orð ens eilífa lífsins; þá hrærðust hjörtu vor af hans elsku, sem lèt líf sitt á krossinum vor vegna, til að frelsa oss frá valdi syndarinnar og dauðans; þá ásettum vèr oss, að lifa og tilheyra honum í trú og kærleika og leitast við að breyta eptir hans vilja. En því miður munu hjörtu margra af oss, sem þá höfðum alvarlegan áhuga á því að vera Guðs börn, hafa kólnað í solli veraldarinnar; já, því miður eru margir, sem þá voru Guðs börn, nú orðnir svo flæktir í fjötrum syndarinnar, að þeir eru búnir að gleyma öllum sínum góðu áformum og þekkja ekki leingur þær guðrækilegu tilfinníngar, sem þá hreifðu sèr í hjörtum þeirra. Þó erum vèr stöðuglega minntir á skírnar-

sáttmála vorn, ekki einúngis af Guðs orði, heldur og af tveimur öðrum hlutum, sem skírninni eru samfara. Annar þeirra er vatnið, sem útlistar fyrir oss þýðíngu skírnarinnar. Í hvert sinn sem vèr hagnýtum oss eða sjáum þetta hreinsunarmeðal, minnir það oss ekki einúngis á, hvílíka stund vèr eigum að leggja á að hreinsa sálir vorar af öllum syndsamlegum hugsunum og girndum, heldur og á endurfæðíngarinnar laug, sem gjörir ráð fyrir því, er stendur í fræðunum, „að hinn gamli maður í oss eigi daglega að drekkjast og deyðast, fyrir iðrun og yfirbót, með öllum syndum og vondum girndum, og síðan daglega framkoma og upp aptur rísa nýr maður, sem lifa skuli í rèttlæti og heilagleika fyrir Guði æfinlega“. Hitt, sem á hverju augnabliki minnir oss á skírnarsáttmála vorn, er það nafn, sem vèr hlutum í skírninni; það minnir oss á þá sameiníngu við Guð, sem helgaði barnæsku vora, á þann himneska barnarètt, sem oss var veittur, þegar vèr í fyrsta sinn vorum nefndir með nafni, þegar Drottinn sagði við oss, eins og forðum við Gyðíngalýð: „ęg kallaði þig með nafni; þú ert minn“ (Es. 43., 1.). Ætti ekki þessi endurminníng að fá á hjörtu vor? Ætti hún ekki að festa þau við föður vorn á himnum og knýja oss til að lypta þeim daglega upp til hans með þakklæti og elsku? Og í stuttu máli: ætti ekki vort kristna skírnarnafn að vara oss við öllu því, sem skilur oss við Guð og hans kærleika, við öllu því, sem sviptir oss vorum barnarètti og gjörir það að verkum, að frelsarinn getur ekki kannazt við oss sem sína lærisveina, heldur verður — ef vèr iðrunarlaust höldum áfram í því — að segja við oss í dauðanum og dómnum: „farið frá mèr bölvaðir“! (Matth. 25., 41.). Þú sem veizt með sjálfum þèr, að þú hefur rofið skírnarsáttmála þinn og ángrast nú af því í hjarta þínu; æ, snú þú í tíma aptur til þíns himneska föður og bið þú hann í Jesú nafni um náð og miskun og krapta til að geta haldið sáttmálann betur hèr eptir; og þú veizt og getur huggað þig við það, að þó vèr reynumst ótrúir, þá er hann þó trúr og getur ekki afneitað sjálfum sèr. En eins og þetta er huggunarríkt fyrir sanniðrandi syndara, eins hættulegt er að reiða sig á það fyrir þann, sem syndgar vísvitandi og af ásettu ráði. Þú, sem þannig breytir; þú, sem ætlar að aðhafast eitthvað syndsamlegt og

þaggar niður samvizku þína með þeirri hugsun, að Guð muni á eptir fyrirgefa þèr, ef þú þá iðrist og lofir bót og betrun; svík þú ekki sjálfan þig! þú notar þá huggun til syndar, sem þèr er gefin til helgunar; þú vanbrúkar Guðs náð og bætir þannig synd ofan á synd; þú ætlar að snúa þèr til Guðs, þegar þú ert búinn að svala girndum þínum, þegar þú ert orðinn þreyttur á veröldinni og leiður á hennar lystisemdum. En átt þú þá víst að fá til þess tíma og tækifæri? Getur þú ekki dáið mitt í syndum þínum? Fyrr eða síðar hljóta allir, sem með vísvitandi syndum hafa slitið samfèlag sitt við Guð, að finna til ógæfu sinnar, og margir finna það nú þegar; en þeirra iðrunarlausa sál þorir ekki að líta upp til himins, þó þeir finni ekki leingur frið nè huggun á jörðunni; því, þó þeir með fortölum vantrúarinnar reyni til að þagga niður ásakanir samvizkunnar, finna þeir þó til hræðslu og kvíða með sjálfum sèr, þegar þeir hugsa til hins heilaga og rèttláta Guðs. En þú, sem þekkir sjálfan þig í tölu þessara manna, hefur þú öldúngis gleymt því, sem þú í æskunni lærðir? Eru þèr öldúngis liðin úr minni þau heit, sem þú gjörðir Guði, þegar þú endurnýjaðir við hann skírnarsáttmála þinn? Ber þú nú sálarástand þitt eins og það er nú saman við það eins og það var þá! Finnur þú ekki laungun hjá þèr til að ná aptur þeim sálarfriði og fögnuði, sem þá bjó í brjósti þínu af því þú varst Guðs barn? þú ert hræddur um, að þetta verði nú ekki aptur feingið, það sè nú ekki leingur mögulegt. En hresstu upp hugann og hugsaðu um hinn týnda soninn. þegar hann var staddur í sinni dýpstu neyð, sagði hann: „eg vil taka mig upp og fara til föður míns og segja við hann: Eg hefi misbrotið við Guð og þig og er ekki leingur verður að heita sonur þinn“ (Lúk. 15., 18.—19.).

Gjör þú hið sama og hann; leggst þú ekki með örvæntíng niður í syndaeymd þinni, heldur tak þú þig upp með einlægan betrunarásetníng í hjarta þínu og far þú með trúaröruggri von til föður þíns á himnum. Já, faðir þinn er hann enn þá, þó þú megir játa, að þú sèrt ekki verður að kallast sonur hans; en þegar þú biður hann um að mega vinna í hans víngarði sem einn af hans verkamönnum, þá mun hann sjálfur koma á móti þèr og faðma þig að sínu guðlega föðurhjarta og segja:

„þessi sonur minn var dauður, en er nú lifnaður aptur; hann var týndur, en er nú fundinn. En þú, sem tókst úngbörnin þér í fáng og blessaðir þau, blessa þú vort betrunarverk og vora viðleitni eptir að verða sannarleg Guðs börn; lát þú sælufulla meðvitund um vorn himneska barnarétt jafnan búa í vorum hjörtum, þángað til sæla vor fullkomnast á landi sælunnar af því að sjá þig og þína dýrð, og af því að fá að heyra þessi fagnaðarríku orð af þínum munni: komið híngað blessuð börn míns föður og eignizt það ríki, sem yður er fyrirbúið frá upphafi veraldar! Amen.

---

## Á fyrsta sunnudag í föstu.

### Bæn.

Þegar vér hugsum til þess, himneski faðir! hve óstöðugir vèr erum í hinu góða, hve veikir fyrir í freistíngunum og ólíkir vorum endurlausnara, þá fyllast hjörtu vor af ángri og trega. Oss lángar þó til þess að vera þín börn, oss lángar þó til að elska frelsarann og fylgja honum; en þetta gleymist svo opt á freistínganna tímum, og þegar vèr erum hrasaðir, þá kemur á eptir hryggðin og ásökun samvizkunnar. Æ, á þetta allt af svo til að gánga? Á líf vort ekki að vera annað enn einlæg hrösun og hryggð? Úr þessu eymdanna djúpi sendum vér nú bænarandvörp hjartans upp í hæðirnar til þín, eilífi miskunsemdanna faðir! Sendu oss krapt af hæðum til að geta náð staðfestu í hinu góða, og legg þú oss ekki þýngri byrði á herðar enn vèr fáum borið; sendu oss þinn heilaga anda, svo vèr aldrei gleymum því að vaka og biðja; lát þú frelsarans heilaga dæmi jafnan lýsa oss á þessari vorri jarðnesku vegferð, svo vèr getum geingið á lífsins vegi, því hann er vegurinn, sannleikurinn og lífið. Bænheyr það í Jesú nafni! Amen.

### Guðspjallið

(Matth. IV.,1. —11.).

Jesús var leiddur af anda á eyðimörku, svo hann yrði freistaður af djöflinum. Þegar Jesús hafði fastað fjörutíu daga og fjörutíu nátta, húngraði hann.

Freistarinn gekk þá til hans og sagði: ef þú ert Guðs sonur, þá bjóð þú, að steinar þessir verði að brauðum. Jesús svaraði: skrifað er: maðurinn lifir ekki af einusaman brauði, heldur af sèrhverju því orði, sem framgeingur af Guðs munni. Þá tók djöfullinn hann með sèr í borgina helgu, fór með hann upp á musteris bustina og sagði til hans: ef þú ert Guðs sonur, þá fleyg þèr hèr ofan fyrir, því skrifað er: að Guð muni bjóða einglum sínum, að þeir beri þig á höndum, svo þú steytir ekki fót þinn við steini. Jesús svaraði: aptur stendur skrifað: ekki skaltu freista Drottins Guðs þíns. Djöfullinn flutti hann þá með sèr upp á ofurhátt fjall, og sýndi honum öll ríki veraldar og þeirra dýrð, og sagði: allt þetta mun eg gefa þèr, ef þú fellur fram og tilbiður mig. Jesús svaraði: far frá mèr, andskoti! því skrifað er: Drottin Guð þinn skaltu tilbiðja og honum einum þjóna. Þá yfirgaf djöfullinn hann, en einglar af himnum komu til Jesú og þjónuðu honum.

## Inngángur.

„Þèr eruð þeir, sem stöðugir hafið verið með mèr í freistíngum mínum“ (Lúk. 22., 28.), sagði Jesús við lærisveina sína, þegar hann í seinasta sinn sat með þeim til borðs kvöldinu fyrir líflát sitt og leit yfir sinn liðna mæðufulla lífsferil og á þenna litla ástvina hóp. Það var þannig fyrirhugað eptir Guðs eilífa vísdómsráði, að hann, sem sendur var til að frelsa synduga menn, skyldi þurfa að feta mæðunnar og þjánínganna þyrnumstráðu leiðir; að hann skyldi verða freistaður á allan hátt eins og vèr, en þó án syndar. Lærisveinarnir, sem höfðu yfirgefið allt og fylgt honum, höfðu verið sjónarvottar að þrautum hans og sjálfsafneitun, ofsóknum og freistíngum, sem hann hlaut að reyna; og á þetta vildi hann minna þá, áður enn hann skildi við þá; hann vildi minna þá á, að einnig þeir mættu vera undir það búnir, að sæta ofsóknum og þola margt fyrir sannleikans sakir áður enn hann aptur hitti þá í sinni himnesku dýrð. Og þegar nú lærisveinarnir voru sviptir sýnilegum ná-

vistum drottins síns og meistara, þegar þeir þurftu nú sjálfir að fara að stríða við syndumspillta veröld, við heim fullan af hættum og freistíngum, hvílíka uppörfun og blessun, djörfúng og hugprýði hlýtur það þá að hafa veitt þeim, að endurminnast umliðna tímans, þegar þeir í samfèlagi við Jesúm höfðu tekið þátt í hans freistíngum og verið sjónarvottar að því, hvernig hann barðist og vann sigur! Einnig vèr, kærir bræður! getum orðið hluttakandi í sömu blessun og hugprýði og sagt: vèr höfum líka verið með Drottni í hans freistíngum. Vèr höfum hans orð að halda oss við; vèr höfum hans dæmi að breyta eptir; og hans andi tekur sèr bústað í vorum hræddu og ístöðulausu hjörtum, svo vèr getum hughraustir geingið í stríðið og sigrazt á hinu illa bæði fyrir utan oss og innra hjá oss. Í þessu stríði er oss næsta áríðandi að hafa það jafnan hugfast, að Drottinn er sterkari enn höfðíngi þessa heims og allt hans vonda vald, og að hann á hverri stundu veitir sínum trúlyndu hermönnum hèr á jörðunni svo mikla náð og svo mikið þrek, að þeir geta unnið sigur, náð samvizkunnar friði og gætt þess geymslufjár, sem Guð hefur feingið þeim í hendur, gætt trúarinnar, sem er fjársjóður hins æðra og eilífa lífs. Til þess að brýna þessi sannindi enn betur fyrir oss, viljum vèr á þessari stundu, með Guðs aðstoð, íhuga:

hvernig vèr eigum að feta í fótspor frelsara vors, til þess að geta staðið stöðugir í freistíngunum.

Í heilagri ritníngu er vant að samlíkja mannlegu lífi við vegferð. Á þessari vegferð eiga mennirnir að reyna krapta sína, fullkomna eiginlegleika sína og taka framförum í hinu góða, svo þeir við enda þessarar jarðnesku vegferðar verði hæfilegir til að fá inngaungu í himnaríki, sem er þeirra rètta föðurland. Í þessu framandi landi, sem vèr dauðlegir menn ferðumst í, eru margir vegir og margar villigötur; því þó miskunsemdanna himneski faðir hafi ekki sent mennina frá sèr leiðsagnarlausa, heldur lýsi þeim jafnan með sínu orði og sínum anda, þá fara þeir þó ekki allir sömu leið, heldur breyta þeir eptir ólíkum lífernisreglum, allt eptir því, hvort þeir muna eptir áminníngum og heilræðum Drottins eða gleyma þeim. Þessar ólíku lífernisreglur: guðsótti eða ótti fyrir mönnum, samvizkunar

boðorð eða girndanna áeggjan, leiðsögn guðsorða eða fortölur mannlegs hyggjuvits, kallast í heilagri ritníngu *vegir*; því segir spámaðurinn Jeremías (6., 16.): „Svo segir Drottinn: gángið á veginn og litizt um og spyrjið að hinum góða vegi og gángið hann, þá munuð þèr finna hvíld yðar sálum“. Á eingu ríður mönnunum meir á lífsleiðinni enn að þekkja hinn góða veg, og að gánga hann, þegar hann er fundinn, svo þeir finni hvíld sálum sínum. Tveir eru hinir miklu vegirnir, sem liggja um líf gjörvalls mannkynsins og hvers manns sèr í lagi; þeir byrja báðir í sakleysi æskunnar og enda í myrkrum grafarinnar; þeir liggja báðir samsíða og opt svo nærri hvor öðrum, að vèr með sljófskyggni vorri ekki ætíð sjáum, hve fjarlægir þeir eru í raun og veru. Þó getum vèr þekkt þá sundur; því, þeir sem fara annan þeirra, fylgja þeirri lífernisreglu: „et þú og drekk og eig þú góða daga“! Þessi vegur liggur um litfagra blómstur-völlu og þar tekur allt undir af gleðisaungum; hann fara gárúngar og gjálífir veraldarmenn flokkum saman af allrahanda þjóðum og túngumálum: þetta er hinn breiði vegur, sem til glötunar liggur, og þeir eru margir, sem fara hann. Þeir sem hinn veginn fara, þurfa að vaka, biðja og stríða, því án árvekni, bænar og baráttu getur maðurinn ekki gegnt skyldum sínum, nè náð hinu æðsta marki og miði lífsins. Þessi vegur er grýttur og ógreiður yfirferðar; hann liggur einatt um klúngur og klettasnasir; þar er allt kyrt og þegjandi, því þeir eru ekki margir, sem fara hann, og gleði þeirra, hin sanna gleði, er ekki hávær: þetta er hinn mjói vegur, sem til lífsins leiðir, og fáir eru þeir, sem fara hann. Í hvert sinn sem maðurinn freistast, stendur hann á þessum vegamótum, á vegamótum góðs og ills. Það eru sèr í lagi guðsbörn, sem þekkja freistíngarnar, af því þau þekkja þessa tvo vegu, veg syndarinnar og rèttlætisins. Hinir, sem ekki hirða um sína eilífu sáluhjálp, þekkja ekki nema einn veg: syndarinnar breiða veg, og um þá verður ekki sagt, að þeir hafi barizt við freistíngarnar, því freistíngarnar leitast við að leiða oss frá Guði, en hinir andvaralausu hugsa lítið um Guð og samfèlag við hann.

Viljir þú því, kristinn maður! feta í fótspor frelsara þíns og berjast trúlega fyrir þinni himnesku arfleifð, þá munt þú

bráðum læra að þekkja þessi vegamót lífsins, læra að þekkja freistíngarnar og fá að reyna, hvernig þær með mörgu móti ásækja þig, og því er þèr nauðsynlegt að vita, hvernig þú bezt getir varizt fyrir árásum þeirra og staðið stöðugur í því stríði, sem fyrir þèr liggur. Þú, sem ert staddur á vegamótum lífsins, gæt þú að hinum góða vegi, tak þú Jesúm þèr til fyrirmyndar og leiðarvísis, og haf þú *stöðugt gát á þörfum sálar þinnar*. „Maðurinn lifir ekki af einusaman brauði", sagði Jesús, þegar freistarinn vildi koma honum til að vantreysta guðlegri forsjón. Ef maðurinn vill læra rèttilega að þekkja sjálfan sig, mun hann komast að raun um, að hann hefur aðra æðri náttúru og þarf annarar fæðu við enn einúngis hinnar jarðnesku; hið sanna líf er ekki innifalið í nautn holdlegra gæða eða í stundlegum munaði. Eins og brauðið, eins og matur og drykkur er ómissandi til að viðhalda voru líkamlega lífi, eins á kraptur guðsorða og stöðug viðleitni eptir að gjöra hans vilja, að styrkja og endurnæra vort andlega líf. Og þó sýnist hegðun margra lýsa því, að þeir haldi, að maðurinn lifi einúngis af jarðnesku brauði: af gróða, metorðum og munaði; því eptir þessu sækjast þeir, en ekki neinu æðra; það er þeirra einasta mark og mið, að komast áfram í veröldinni, gegna sínum veraldlegu störfum, afla sèr fjár og gæta þess, verja rèttindi sín, láta eptir girndum sínum, burtrýma alvöru og sorgum lífsins, hlaupa eptir glysi veraldarinnar og höndla skammvinna gleði á flugi sínu. Ó, hve ólíkir eru þessir menn lausnaranum, sem kallaði það mat sinn og drykk, að gjöra vilja síns himneska föður, sem varði öllu lífi sínu Guði til dýrðar, sem lifði og dó til þess, að vèr skyldum lifa, til þess að vèr gætum lifað hinu sanna og eilífa lífi, sem bauð oss að afla oss „þeirrar fæðu, sem varir til eilífs lífs". Af orðum hans í guðspjallinu sjáum vèr, í hverju þessi andlega fæða er innifalin, sem sè: í „sèrhverju því orði, sem framgeingur af Guðs munni". En það orð, sem framgeingur af Guðs munni og endurnærir vort líkamlega líf, er ekki innifalið í áhyggju og búksorg, heldur í guðrækilegri trúmennsku og iðjusemi í vorri köllun, samfara bæn til Guðs og trausti á honum, sem klæðir liljugrösin og fæðir fuglana, samfara þeirri

sannfæríngu, að guðhræðslan með nægjusemi er mikill ávinníngur. Og það orð, sem framgeingur af Guðs munni og endurnærir vort andlega líf er innifalið í þeirri trú, að það sè óslítandi samband milli þessa vors jarðneska lífs og annarar æðri ósýnilegrar veraldar: í kærleika til sannleika og dyggðar, í samvizkufriði og í því óbifanlega trúnaðartrausti, að hvort sem Drottni þóknist að leiða oss, hvort heldur það er á eyðimörk, á sóttarsæng eða undir krossins þúnga, þá leiði hann oss jafnan eptir sínu vísdómsráði og annist oss í lífi og dauða, ef vèr að eins fylgjum og hlýðum honum. Þegar þú því, kristinn maður! ert staddur á vegamótum góðs og ills, þá lát þú ekki girnd þína fá yfirráð yfir þèr; því hún leiðir þig til syndar og ógæfu og sviptir þig sálar og samvizku friði þínum; en hugsaðu um þína sönnu sálarþörf, um hið eilífa og ævaranda, sem eitt getur leiðbeint oss í óvissu og efasemdum, huggað hrellda samvizku vora og hughreyst oss í hryggðum og vanmætti vorum með trúarinnar trausti, friðþægíngarinnar friði og helgunarinnar krapti, sem eitt getur styrkt oss í freistíngum, huggað oss í byltíngum lífsins, í mæðu og mótlæti, við grafir ástvina vorra og loksins þegar vèr sjálfir eigum að leggjast niður í grafir vorar; og þetta æðsta og ævaranda er ekki jarðneskt brauð, hverju nafni sem það heitir, heldur hið lifanda brauð, sem kemur af himnum ofan; það er guðhræðslan með trúarinnar sigursæla krapti, sem sigrar heiminn og syndina með boðorðum Guðs og fyrirheitum, með áminníngum, uppörfunum, huggunum og betrunarmeðulum; það er sá himneski eingill, sem kemur með ljósið, þegar skynsemin einsaman ekki getur leiðbeint oss á lífsins dimmu og villugjörnu vegum; með kraptinn, þegar viljinn er svo veikur, að hann getur ekki staðizt áhlaup freistínganna, og með þá gleði, sem er hreinni og varanlegri enn allar holdsins lystisemdir. Látum oss því, kærir bræður! jafnan hafa vakandi auga á vorum sálarþörfum og aldrei vinna það fyrir nokkurn veraldarmun að sleppa Guði og hans heilaga vilja úr hjörtum vorum; látum vora eilífu ákvörðun jafnan standa oss lifandi fyrir hugskotssjónum og forðast allt, sem freistar vor til að gleyma henni!

Þú, sem stendur á vegamótum lífsins, gæt þú að hinum góða vegi; tak þú Jesúm til fyrirmyndar og leiðarvísis og

*varast þú að ofmetnast í hjarta þínu.* „Ekki skalt þú freista Drottins Guðs þíns“! segir Jesús, þegar freistarinn tók hann með sèr upp á musterisbustina og vildi fá hann til að fleygja sèr ofan af henni, í von um, að einglar Guðs mundu bera hann á höndum sèr. Að freista Guðs er að ætla sèr að reyna hans forsjón og vænta hans hjálpar og verndar í hættum, sem menn að þarflausu stofna sèr í, í fíflskulegum fyrirtækjum og vandræðum, er þeir sjálfir hafa bakað sèr. Guð hefur ekki heitið oss hjálp og aðstoð sinni, nema þegar vèr gaungum á vegi skyldu og köllunar vorrar og rötum í þær hættur, sem vèr ekki höfum getað afstýrt eða komizt hjá án mótmæla samvizkunnar. Margir treysta mannkostum sínum og halda þeir geti sigrað allar hættur og freistíngar; margir gleyma vanmætti sínum, misskilja Guðs fyrirheit um æðri hjálp og sleppa árvekni og andvara. Af hverju kemur þetta? Af því að menn þekkja hvorki veikleika sinn, nè þá hættu, sem þeim er búin. Hèðan sprettur syndin, hèðan flóir straumur hennar út um jörðina með spillíngarinnar eymd og eymdanna tárum. Freista þú því ekki Guðs með oftrausti á sjálfum þèr og kröptum þínum; þó andi þinn kunni að vera reiðubúinn, þá er þó holdið veikt, og því átt þú að forðast freistíngarnar. Freista þú ekki heldur Guðs með því að ímynda þèr lítið í þá hættu varið, sem þú stofnar þèr í. Hættan er ætíð mikil, þar sem syndin er annars vegar, því þá er verið að tefla um eign eða missi góðrar samvizku, um frið og fögnuð lífsins og eilífa sáluhjálp. Hættan er ætíð mikil; því girndirnar sitja á svikráðum við oss, leita að höggstað á oss, læðast að oss og ráðast á oss þegar vèr sízt eigum þess von. Hafi menn ekki vakandi auga á þeim, þá er þeim líkt varið og eldsneista, sem ekki er skipt sèr um, en sem einatt verður að björtu báli áður enn nokkurn varir; hættan er ætíð mikil, því heimurinn býr lystisemdir sínar og hið holdlega hugarfar fýsnir sínar í ginnandi búníng. Þegar syndin er skoðuð eins og meinlaus skemmtun, eins og krafa náttúrunnar, eins og almenníngs álit, eins og forlög, sem einginn geti ráðið við, eða eins og lofsvert eptirdæmi höfðíngjanna, þá gæt þú að þèr í Guðs nafni, að þú sofnir ekki í andvaraleysi; hlýð þú ekki hinni tælandi rödd, því hún leiðir þig í þær torfærur, sem þú ekki fær yfir komizt; og í þessum torfærum

eru lítil líkindi til, að Guð muni bjóða einglum sínum að bera þig á höndum sèr, svo þú steytir ekki fót þinn við steini, því þínir vegir eru þá ekki leingur Guðs vegir, og það eru ekki líkindi til, að þú þá biðjir hann fyrir alvöru, því þegar þú ert hrifinn af straumi spillíngarinnar, þá ert þú fyrr enn þig varir orðinn skeytíngarlaus um þín sáluhjálparefni og venst smám saman af því að hugsa til Guðs og um eilífðina; smámsaman fer þú þá að fyrirlíta guðsorð og endar með vantrú og örvæntíng. Varast þú því að ofmetnast í hjarta þínu; lær þú rètt að þekkja sjálfan þig og syndina, því af þessari þekkíngu sprettur kristileg auðmýkt samfara trausti á Guðs vernd og aðstoð, sem kemur þèr til að vaka og biðja og halda þèr stöðuglega til Guðs, og þá munt þú vinna sigur á freistíngunum og standa stöðugur allt til enda.

Þú, sem stendur á vegamótum lífsins, gæt þú að hinum góða vegi; tak þú Jesúm þèr til fyrirmyndar og leiðarvísis og *helga þú Guði einum hjarta þitt og þjónustu þína.* „Drottinn Guð þinn skalt þú tilbiðja og honum einum þjóna", sagði Jesús með heilögu vandlæti, þegar freistarinn flutti hann með sèr upp á ofurhátt fjall og sýndi honum öll ríki veraldar og þeirra dýrð, og bauð að gefa honum allt þetta, ef hann fèlli fram og tilbeiddi sig. Þetta ávarp freistarans: „allt þetta mun eg gefa þèr", sem smjaðrar hègómadýrð þinni og heitir þèr uppfyllíngu óska þinna, og aptur að hinu leytinu þetta Jesú ávarp: „yfirgef þú allt, tak þinn kross á þig og fylg mèr"! Hvílík freistni fyrir holdlega sinnaðan mann! hvílík freistni fyrir þann, sem fjötraður er við jörðina, sem blindaður er af dýrð veraldarinnar og sólginn í það, sem henni tilheyrir! Annars vegar eru veraldlegir hagsmunir, en hins vegar sjálfsafneitun. Hèr er hinn mikli og eiginlegi vígvöllur lífsins, hèr er stríðið háð milli holdsins og andans, milli hins ytra og innra manns. Andinn með sinni eilífðar laungun getur þó aldrei gjörsamlega slitið sig lausan frá Guði og meðvitundinni um sitt himneska föðurland; þó hann leiti sèr svölunar í hinum jarðnesku huggunar brunnum, þyrstir hann þó aptur; hið eilífa sveimar áleingdar fyrir sjónum hans, en hann fjötrast af hinum hverfulu hlutum; hann leitar að eilífu ljósi, en gefur sig þó allan við að horfa á hinar jarðnesku skuggamyndir, sem bera

fyrir augu hans. Þannig flækist hann smámsaman meir og meir í glysi og hègóma heimsins, og gleymir sinni eilífu ákvörðun; þannig sökkur hann niður í myrkur holdlegra girnda, og heldur í blindni sinni, að hann geti bæði þjónað Guði og heiminum, þángað til Guð af náð sinni tekur skýluna frá augum hans, svo hann við ljós Guðs himneska sannleiks anda getur lesið þessi Jesú orð: Guði einum átt þú að þjóna. Já, þú sem staddur ert á vegamótum lífsins, þar sem þú átt að velja um dýrð veraldarinnar og dyggðanna sælufullu meðvitund, hika þú ekki í vali þínu! Drottinn þinn og frelsari sá fyrir sèr liggja þrautir og þjáníngar, ofsóknir og hatur; hann sá velgjörðir sínar launaðar með gleymsku og vanþakklæti, vináttu sína endurgoldna með svikum, hann sá fram undan sèr hinn blóðuga krossins veg; en hann sá líka dýrðlegan ávöxt sinnar heilögu hlýðni við Guð; hann sá sigur sannleikans og kórónu rèttlætisins, og hann var ekki hikandi eða á báðum áttum í því, hverjum hann ætti að helga þjónustu sína. Eins ber þèr að breyta; þú átt að feta í Jesú fótspor og læra af honum, að leggja allt og jafnvel sjálft lífið í sölurnar, þegar á því þarf að halda, til að verja sannleikann, vernda dyggðina og efla það sem rètt er og gott; til að uppræta lestina og leiða hina villuráfandi á rèttan veg. Þú átt að læra af lausnara þínum að reka freistínguna frá þèr *undir eins* og hún ræðst á þig. Af því vèr erum holdlegar verur, hljótum vèr að taka á móti áhrifum þeirra hluta, sem fyrir utan oss eru; en hitt stendur í voru valdi, að lama þessi áhrif og eyða afli þeirra; vèr megum ekki láta freistíngarnar mótspyrnulaust endurnýja árásir sínar á oss eða leita þar á oss, sem vèr erum veikastir fyrir; vèr megum ekki gefa þeim tíma til að svæfa oss með sínum fagurgala, nè leyfa þeim að þagga niður mótbárur vorar eða klæða lygina og lestina í tælandi búníng. Þannig breytti ekki frelsari vor, heldur vísaði hann frá sèr árásum freistarans með þessum djörfúngarfullu orðum: „far á burt frá mèr, andskoti"! Sá, sem er óspilltur og geingur á hinum góða vegi, hefur næma tilfinníngu fyrir því, sem er rètt og gott, en viðbjóð við öllu því, sem er ránglátt og illt; þessi tilfinníng og viðbjóður eru í freistíngunum hinn vissasti verndareingill. Fylg þú þeim hiklaust og tafarlaust! Gefir þú þèr tíma til að vega það, sem

mælir með og mót syndinni, þá ert þú þegar að hálfu leyti hrasaður; lofir þú freistaranum að tala út og breyta sèr fyrir blinduðum augum þínum í ljóssins eingil, þá ert þú þegar gjörfallinn. Undir eins og freistarinn ræðst á þig, þá átt þú í sama vetvángi að reka hann frá þèr með þessum frelsarans orðum: far á burt frá mèr! Freistarinn er óvinur sálar þinnar, óvinur sinnisrósemi og sáluhjálpar þinnar, hvort sem hann heldur kemur utan að þèr, búinn í villukenníngar, í allsnægta tilboð, í hneyxlanleg eptirdæmi, eða hann kemur upp innra hjá þèr í syndsamlegum hugsunum, í örvæntíng og efasemdum, eða í óhreinum girndum. Far þú burt frá mèr, andskoti! það eru þau lífkröptugu orð, sem hann fær ekki staðizt, það er kristilegt heróp, sem heimurinn að vísu ekki heyrir, en sem, töluð af innsta grunni hjartans, reka freistarann á flótta, og sem þeir einglar heyra, er þjóna dyggðinni og vernda sakleysið. Flýttu þèr að segja það, áður enn augu þín blindast og tilhneigíngarnar skekkja skilníng þinn og gjöra áform þín hvarflandi: þá munt þú vinna sigur yfir sèrhverri freistíngu, og sá sigur, sem þú einu sinni vinnur, mun styrkja huga þinn og krapta þína og gefa þèr þrek til að gánga á hinum góða vegi og berjast góðri baráttu trúarinnar. Til þess að geta þjónað Guði einum, þurfum vèr að vita, í hverju hans þjónusta er innifalin, og þetta lærum vèr af hans orði; af því lærum vèr að þekkja, hvað hann hefur boðið og bannað. þess vegna eigum vèr að kynna oss guðsorð, hafa það iðuglega um hönd og heimfæra það til sjálfra vor. þetta var það vopn og varnarmeðal, sem frelsari vor beitti gegn sèrhverri freistíng, sem fyrir hann kom, og eptir honum eigum vèr að breyta, og ef vèr látum hans orð vera ljós á vorum vegum og lampa vorra fóta, þá munum vèr með Guðs aðstoð fá staðizt í freistínganna stríði og geingið á hinum góða vegi, sem til lífsins liggur. Æ, svo gángið þá í ljósinu kristnir bræður! meðan þèr hafið ljósið, svo myrkrið ekki yfirfalli yður; gætið þess, að lífið er ekki gamanspil og freistíngarnar eru ekki leikfáng; því að lokunum bíður vor annaðhvort eilífur dauði eða eilíft líf. Æ, gætum þess, mínir elskanlegir! hve hræðileg tilhugsan það er að hafa fylgt freistaranum á lífsleiðinni, en rekið frelsarann frá sèr, að hafa hlýðnazt syndanna

fagurgala, en daufheyrzt við Drottins rödd, að hafa aðhyllzt synd og óguðlegt athæfi, en hrundið frá sèr Guðs náð og miskunsemi. En hvílík sæla er það ekki, að hafa rekið freistarann frá sèr með frelsarans djörfúngarorðum, en aðhyllzt frelsarann og fylgt honum. Þèr vil eg fylgja, frelsari minn og Drottinn! „en vorkenn þú veikleik mínum, þá verð eg áleingdar fjær!“ vertu máttugur í mínum veikleika, og þegar þú sèr, að eg ætla að vanmegnast og falla í freistínganna stríði, þá rèttu mèr þína himnesku hjálparhönd, og gjör þá endalykt á freistíngunni, að eg fái staðizt; vert þú minn leiðtogi í lífi og dauða og flyt þú mig í þínum blessaða friðarfaðmi úr freistíngum og baráttu þessa lífs til þinnar eilífu dýrðar! Amen.

---

## Á annan sunnudag í föstu.

### Bæn.

Æ! vèr finnum til þess, Drottinn! að oss vantar þá hrósun, sem hjá þèr gildir, og að vèr getum ekki af sjálfsdáðum aflað oss þess rèttlætis, sem fær staðizt fyrir þínu heilaga augliti, fyrir þínum rèttláta dómi; því vort rèttlæti og vor góðverk eru ekki annað enn hálfverk og veikir viðburðir. Æ, styrk þú þessa veiku viðburði; látt þú vort rèttlæti byggjast á hinu fullkomna rèttlæti þíns elskulega sonar, frelsara vors Jesú Krists! Gèf þú oss náð til þess, í trúnni að tileinka oss hans rèttlæti; láttu vort betrunarverk spretta af þessari trú og styðjast við hann: þá verður vor trú sönn og sáluhjálpleg; þá verðum vèr sannfærðir um, að vèr erum teknir til náðar af þèr og með þessari sannfæríngu í hjörtum vorum kappkostum vèr þá að lifa þèr og þjóna þèr einum og taka æ meiri og meiri framförum í helguninni. Amen.

### Guðspjallið

(Matth. XV., 21.—28.).

Jesús gekk burt frá Genezaret, og fór í landsbyggðir Týrusar og Sídónis. En svo bar við, að kona nokkur kanversk kom úr þeim hèruðum, kallaði eptir honum og

sagði: Herra, niðji Davíðs, miskuna þú mèr! dóttir mín kvelst þúnglega af djöflinum. Jesús ansaði henni eingu orði. Lærisveinarnir báðu hann og sögðu: veittu henni úrlausn, fyrst hún kallar eptir oss. Jesús svaraði: eg er ekki sendur nema til týndra sauða af Ísraels ætt. En konan kom, tilbað hann og sagði: Herra, hjálpa þú mèr! Jesús svaraði: ekki sæmir að taka brauðið frá börnunum og kasta því fyrir hundana. Konan sagði: satt er það, herra! en þó eta hundarnir mola þá, er detta af borði drottna þeirra. Þá svaraði Jesús: mikil er trú þín, kona! verði þèr eins og þú vilt; og dóttir hennar varð samstundis heilbrigð.

## Inngángur.

Í fljótu bragði sýnist það ekki vera hægt, að ríma það svar, sem Jesús gaf hinni kanversku konu og hinn harða samanburð milli barnanna og hundanna, saman við þá mildi og miskunsemi, sem hann auðsýndi öllum nauðstöddum, sem leituðu hjálpar hans, eða saman við þetta huggunarríka fyrirheit hans: „komið til mín allir þèr, sem erfiðið og þúnga eru hlaðnir, eg skal endurnæra yður". En þegar vèr hugsum betur út í þetta, getum vèr fljótt sèð og sannfærzt um, hver tilgángur hans var. Hann ætlaði bæði að reyna trú hinnar heiðnu konu, og því taldist hann fyrst undan að bænheyra hana, og útrýma hjá lærisveinum sínum þeirri raungu ímyndun Gyðínganna, að þeir einir ættu að hafa gott af Krists komu í heiminn. Þessum fordómi Gyðínganna — sem af fyrirlitníngu voru vanir að kalla heiðíngjana „hunda" — hratt frelsari vor með því miskunarverki, sem hann gjörði á þessari heiðnu harmþrúngnu móður; hann bæði heyrði bæn hennar og lofaði trú hennar. En þessi frásaga hefur fyrir oss, kristna menn, aðra merkilega og lærdómsríka þýðíng; hún sýnir oss, að eins og það barn, sem guðspjallið segir að hafi verið kvalið af djöflinum, frelsaðist fyrir trúna á Jesúm Krist, eins frelsast líka sálir vorar fyrir hina sömu trú frá valdi syndarinnar, og jafnframt sýnir hún oss,

hvernig trúnni eigi að vera háttað. Í hverju lýsti sèr hin „mikla trú“ þessarar kanversku konu? Var það einúngis í því, að hún kallaði eptir Jesú og sagði: „herra, niðji Davíðs, miskuna þú mèr“? Að vísu var það hjá henni, sem heiðinni konu, órækur vottur um trú hennar, að hún ekki einúngis kallaði Jesúm Davíðs niðja og leitaði hans hjálpar, heldur hèlt áfram að biðja, þó Jesús teldist undan að bænheyra hana. En þó byggði frelsarinn dóm sinn um hennar miklu trú einkanlega á því hugarfari, sem lýsti sèr í svari hennar uppá þessi hörðu orð: „það sæmir ekki að taka brauðið barnanna og kasta því fyrir hundana“. Svar hennar hljóðaði þannig: „satt er það, herra! en þó eta hundarnir mola þá, sem detta af borði drottna þeirra“. þetta svar er fullt af auðmýkt og trúnaðartrausti; með því viðurkennir hún í auðmýkt, að hún eigi einga heimtíng á hjálpinni, heldur sè hennar í alla staði ómakleg; en að hún þar á mót leiti náðar og miskunar hjá Jesú með innilegu trúnaðartrausti. þannig er líka hinni rèttu trú varið. það er skilyrði fyrir henni að kannast við óverðugleik sinn; en eðli trúarinnar er innifalið í því að flýja til Guðs náðar með trúnaðartrausti. Tökum oss af þessu tilefni til að hugleiða:

*hina sönnu og sáluhjálplegu trú*;
skilyrðið fyrir henni, eðli hennar og verkanir.

„Holdlega sinnaður maður skilur ekki andlega hluti“ segir Páll postuli (1. Kor. 2., 14.). þess vegna verður maðurinn að vakna af syndasvefni sínum, vakna til meðvitundar um syndir sínar og ángrast af þeim, áður enn hann geti trúað; hann verður að finna til sömu ángistar og órósemi út af sálarástandi sínu, eins og þessi móðir, sem guðspjallið getur um, fann til þegar hún sagði: „dóttir mín kvelst þúnglega af djöflinum“. Af honum kvelst sèrhver sá, sem kvelst af syndinni, því hann er lyginnar höfundur, máttugur í börnum vantrúarinnar. Við þetta kannast þó ekki allir, og halda því, að það sè ekki hættulegt að syndga. þess vegna leggjast þeir líka útaf og sofna í syndum sínum. þess vegna trúa þeir ekki heldur á frelsarann og þekkja hann ekki nema að nafninu til. En það er ekki svo vel, að þeir menn skilji nafn hans, sem ekki finna til synda sinna; því þó þeir frá blautu barnsbeini viti að nafnið Jesús

þýðir frelsari, og Kristur merkir hinn smurði eða konúngur, þá hafa þeir þó aldrei með sjálfum sèr reynt, hvernig hann er frelsari frá valdi syndarinnar og konúngur í ríki náðarinnar. það er því áreiðanlegt, að holdlega sinnaður maður skilur ekki andlega hluti og getur ekki skilið þá fyrr enn hann vaknar af svefni syndarinnar. En þegar hann vaknar, þá verður hann fyrst var við, að líf hans hefur líkzt gángi sofanda manns. Eins og sagt er um þá, sem gánga í svefni, að þeir hafi augun opin, en sjái þó ekki dagsbirtuna, af því þeir sofa, eins er þeim varið, sem eru sofandi í andlegu tilliti; þó þeir lifi í því ljósi, sem komið er af himnum og uppljómar kristilega kirkju, geta þeir þó ekki komið auga á það, því á augu sálna þeirra er siginn svefn holdlegra girnda; og eins og sagt er um þá, sem gánga sofandi, að þeir komist klakklaust yfir hættur og torfærur, eins getur og sá, sem í syndunum sefur, komist áfram í veröldinni með kænskubrögðum, þó hann vanti hið andlega ljósið; en eins og hinn, er geingur í svefni, verður felmtsfullur þegar hann vaknar og sèr þá með ótta og skelfíngu, hvílík hætta sèr var búin, eins verður líka sá, sem vaknar af andlegum svefni, óttasleginn, þegar hann verður þess var, að hann geingur á barmi glötunarinnar. það eru margir menn til, sem að nokkru leyti eru vaknaðir, því samvizkan ónáðar þá; en ástand þeirra líkist þó fremur draumórum enn virkilegri vöku; þeir eru sjálfum sèr reiðir, en reyna til að leyna því með því að reiðast öðrum; þeir eru óánægðir með mannlegt líf og alla menn, þar sem þeir þó ættu einúngis að vera óánægðir með sjálfa sig. Jesú náðarlærdómur býður þeim frið við Guð, svo þeir geti sætzt við sjálfa sig og líf sitt; en þeir gefa orðum náðarinnar eingvan gaum; þar á mót leita þeir sálum sínum hvíldar í heiminum, leitast við að lèttta af sèr óþreyjunni ýmist með búksorg og veraldlegri áhyggju, eða í glaumi og solli heimsins barna. þetta getur þeim líka tekizt meðan hinar ytri kríngumstæður þeirra eru nokkurn veginn viðunanlegar og þeir eru heilir heilsu og í fullu fjöri og með fullum kröptum. En þegar út af þessu ber, þegar mótlæti, sóttir og sjúkdómar fara að sækja þá heim og þeir eiga ekki annað eptir enn að sötra dreggjarnar úr bikar lífsins; þegar líkaminn er orðinn hrumur og hrörlegur, og sálin fer að

kveljast af hugsunum sínum og endurminníngu hins umliðna, þegar þeir hvorki hafa viðþol fyrir verkjum í líkamanum nè ángist sálarinnar, hvað liggur þá annað fyrir þessum mönnum, enn að deyja í örvæntíngu? En örvæntíngin er í því innifalin, að þeir finna til þess, að eymdin tekur ekki enda í dauðanum, heldur taka þá við huggunarlausar kvalir, eða hinn eilífi dauði. Hvað er það þá, sem gjörir svo mikinn mun á iðrandi mönnum og iðrunarlausum? það er ekki hryggðin eintóm, því margir eru hryggir, en betrast þó ekki, heldur reyna til að sefa órósemi samvizkunnar og gefa sig aptur á vald sínum vondu girndum eða falla í örvæntíng. Hryggðinni og hugarángrinu verður að vera samfara trú, sönn og lifandi trú, sem felur í sèr það trúnaðartraust, að syndir vorar verði oss fyrir Krists sakir fyrirgefnar, og að vèr fyrir hann öðlumst hug og dug til að byrja nýtt líferni. þetta bendir til rèttlætíngar og helgunar; því vèr getum ekki lifað nýju lífi, eða jafnvel tekið fyrir oss einlæg betrunaráform fyrr enn vèr sannfærumst um, að vorar fyrri syndir sèu oss fyrirgefnar. Hvernig gæti líka syndumspillt sál sameinazt aptur heilögum og rèttlátum Guði án friðþægíngar og hreinsunar? Hvernig gæti hið hrellda hjarta, sem finnur til þess, að það vegna synda sinna er orðið viðskila við Guð, sem er hin eilífa uppspretta alls góðs, feingið djörfúng og krapta til að fullnægja hans heilögu boðum? Fjarlægist það ekki Guð æ meir og meir, gefur það sig ekki meir og meir á vald syndarinnar, þegar því finnst sèr vera útskúfað og þorir ekki að vænta sèr fyrirgefníngar og náðar? þess vegna framseldi Guð sinn eingetinn son til friðþægíngar fyrir syndir mannkynsins; þess vegna er það líka kjarni Krists náðarlærdóms, að iðrandi og sanntrúuð sál fyrir Krists sakir fái fyrirgefníngu misgjörða og synda sinna.

En eins og það er víst, að rèttlætíngin verður að gánga á undan helguninni, eins nauðsynlegt er það líka, að helgunin komi á eptir rèttlætíngunni. Hvorttveggja sprettur af guðlegri náð, sem maðurinn verður að heimfæra til sín í trúnni; en til að skilja þetta enn betur, viljum vèr nú hugleiða, í hverju trúin er innifalin. Í hverju er þá hin sanna og sáluhjálplega trú innifalin? Hún er ekki innifalin í þekkíngu. þó verður þekkíng að vera henni samfara, greini-

leg þekkíng á Guðs vilja og hans ráði til vorrar sáluhjálpar. þegar frelsarinn sagði: „sælir eru þeir, sem trúa, þótt þeir ekki sjái“ (Jóh. 20.,29.), þá var það ekki meiníng hans, að vèr ættum að trúa í blindni, heldur hitt, að trúarefnið, að mark og mið trúarinnar er ósýnilegt, og verður ekki eygt með vorum líkamlegu augum. „Trúin er örugg eptirvæntíng þeirra hluta, sem maður vonar, og sannfæríng um það, sem hann ekki sèr“, segir postulinn (Hebr. 11.,1.). því sem þú sèr, verður þú að trúa, eða rèttara sagt: þú þarft ekki að trúa því, af því þú sèr það og verður var við það með skilníngarvitunum, eða það er eitthvað, sem skynsemi þín segir þèr sè ómótmælanlegt og öldúngis óyggjandi. „Hið ósýnilega, andlega og eilífa er inntak þeirrar trúar, sem hèr er talað um; en hún verður að byggjast á einhverju, og þessi undirstaða, sem hún byggist á, er sú þekkíng og sannfæríng, sem þú fær af guðsorði, þegar þú les það rèttilega, hugleiðir það með athygli og heimfærir til þín þau náðarríku sannindi, sem það hefur að geyma, svo að hin almenna og sameiginlega trú safnaðarins verður að þinni trú sèr í lagi, verður að þvílíkri trú í hjarta þínu, að þú af eigin reynslu getur sagt, eins og postulinn: „eg veit, á hvern eg trúi“ (2. Tím. 1.,12.). En nú eru það margir, sem þekkja trúarlærdómana, en efast um, að þeir sèu sannir, eða neita því beinlínis. þess háttar þekkíng er þó ekki sönn þekkíng; því ef þeir þekktu rètt inntak evangelii, mundu þeir trúa því. það er því auðsèð, að sú þekkíng, sem heyrir til kristilegrar trúar, verður að vera samfara sannfæríngu um sannleika trúarlærdómanna, og einkanlega um það, sem er undirstaða þeirra, sem sè, að Jesús Kristur sè vor frelsari og að vèr fyrir hann ekki einúngis fáum fyrirgefníng synda vorra, heldur og krapta til lífernis betrunar og fullvissu um eilífa sáluhjálp. Trúin er því enn fremur innifalin í samsinníngu hjartna vorra, eða í því, að vèr aðhyllumst verkanir guðlegrar náðar í hjörtum vorum og veitum ekki mótspyrnu áhrifum heilags anda. Margir eru sannfærðir um sannleika trúarbragðalærdómanna, en komast aldrei leingra, af því syndsamlegar girndir hafa svo mikið vald yfir hjörtum þeirra. Margir finna líka til hugarángurs af syndaeymd sinni, en þó þá húngri og þyrsti eptir Guðs náð, fá þeir þó hvorki frið nè hugsvölun. þú sem ert í þessu

sálarástandi, prófa þú sjálfan þig, og rannsaka þú, hvernig þessu húngri og þorsta er varið, hvort þú einúngis þráir að fá fyrirgefníng synda þinna, eða hvort þig einnig lángar til að geta lifað guðrækilega, hvort þú ert fús til þeirrar sjálfsafneitunar og lífernisbetrunar, sem til þess útheimtist. Hinn veiki verður ekki læknaður, nema hann vilji fara að ráðum læknisins, en þetta hlýtur hann að vilja, ef hann sannfærist um, hve hættulegur veikleiki hans er, og hefur fullkomið traust á lækninum og ráðum hans. Trúin er því enn fremur og sèr í lagi innifalin í trúnaðartrausti. Hverju á eg þá að treysta? spyr þú; frelsara þínum, svarar evangelíum, því hann er ekki einúngis endurlausnari heimsins heldur og frelsarari þinn frá valdi syndarinnar og dauðans, ef þú treystir krapti hans friðþægíngar og kærleika. En til þessa útheimtist, að þig ekki einúngis lángi til að frelsast, að þig ekki einúngis húngri og þyrsti eptir rèttlætinu, heldur og að þú, eins og hinn týndi sonur, rísir upp úr syndum þínum og flýjir til miskunsemdanna föður, í því trausti, að hann muni ekki útskúfa þèr, hversu djúpt sem þú ert fallinn, og að þú fúslega látir þèr stjórna af hans líknarfullu náð undir eins og þú verður hennar var. Hin sanna trú bíður ekki aðgjörðalaus eptir sáluhjálpinni, heldur leitast hún kappsamlega við að koma til hans, sem hefur afrekað oss eilífa sáluhjálp. „Komið til mín“! segir hann, „eg skal endurnæra yður og gefa sálum yðar hvíld“ (Jóh. 7.,37.); „sá sem kemur til mín, mun ekki verða húngraður, og þann mun aldrei þyrsta, sem á mig trúir“ (Jóh. 6.,35.). Þannig er hinni sönnu og lifandi trú varið þegar hún leitar frelsarans; mun hún þá sofna aptur og deyja þegar hún hefur fundið hann? Nei, heldur auglýsir hún sannleika sinn og líf sitt í góðum verkum. „Að þínu boði vil eg leggja netið sagði Pètur, og hlóð skip sitt af fiski, þegar frelsarinn kjöri hann til lærisveins, fór síðan og fylgdi honum. — Eins átt þú og að breyta, kristinn maður! sem feingið hefur blessun guðlegrar náðar. „Far þú frá mèr, herra! því eg er maður syndugur“, sagði Pètur í hjartans auðmýkt og lotníngarfullri trú. Eins hugsar þú, þegar þú finnur til þess, hve ómaklegur þú ert hans heilögu nálægðar; en hann fer ekki frá þèr, heldur kallar hann á þig og býður þèr að verða sinn lærisveinn og fylgja sèr; hann rèttir þèr hönd sína til að

leiða þig og styðja, svo þú villist ekki nè hrasir, ef þú kannt að þreytast eða gugna; hann veitir þèr krapta til að gegna skyldum köllunar þinnar og taka framförum í öllum kristilegum dyggðum. Legg þú netið að hans boði og í hans nafni, og þá mun þig ekki bresta blessun hans. En þó þú ekki megir reiða þig á sjálfan þig eða krapta þína, átt þú þó að neyta þeirra og verða samtaka verkunum heilags anda. Vèr getum sjálfir mikið gjört að verkum í tilliti til þekkíngar og sannfæríngar vorrar, og eins er samsinníng og trúnaðartraust að miklu leyti komið undir vilja vorum. Að vísu getum vèr ekki gefið ávöxtinn, því það er Guðs eins að gefa hann; en hann gefur ekki ávöxt, nema vèr sjálfir stuðlum til þess og erfiðum. Eins og það er oftraust á Guðs forsjón, að ætlast til hann gefi oss daglegt brauð, þó vèr sjálfir ekkert gjörum til að afla oss þess, eins er það líka oftraust á Krists friðþægíngu, að leggjast í andlegt aðgjörðaleysi og reyna ekki til að stríða við syndina, nè kappkosta að gjöra hið góða. Margir vanrækja bæn, árvekni og baráttu og hugga sig við það, að þeir sèu teknir til náðar af Guði; en þetta er dauð trú, sem einúngis svæfir þá í syndinni og bakar þeim eilífan dauða, ef þeir vakna ekki í tíma af syndanna svefni. þar á mót segir postulinn, „að hinn rèttláti muni lifa af trú sinni“ (Róm. 1.,17.). Sá sem er rèttlættur af Guðs náð, lifir ekki einúngis samkvæmt trú sinni, sem sannur lærisveinn Jesú Krists, heldur og af trú sinni, hann lifir fyrir þann krapt, sem trúin hefur til að betra hjartað og líferniið, því lífi, sem er af Guði, sem dauðinn hefur ekki vald yfir, hann lifir eilífu lífi, sem þegar hèr í heimi byrjar hjá öllum þeim, sem eins og postulinn geta sagt: „eg lifi nú ekki framar, heldur lifir Kristur í mèr, og það eg nú lifi í holdinu, það lifi eg í trú Guðs sonar, sem elskaði mig og gaf sig sjálfan út fyrir mig“ (Gal. 2.,20.). þetta er það, sem sami postuli kallar „hið hulda líf með Kristi í Guði“ (Kól. 3.,3.); það er hulið heimsins augum, því sjálf trúin, sem það sprettur af, er hulin öllum þeim, sem ekki eru endurfæddir af Guðs anda. þess vegna skilja þeir ekki í því rèttlæti, sem kemur af trúnni; þeir þekkja ekki annað rèttlæti enn það, sem lögmálið heimtar. það rèttlæti, sem þeir kunna að meta og virða, er vant að vera það, sem geingur í augun og ber á í mann-

legu fèlagi án þess þeir líti til þess, hvaðan það sprettur. Að vísu er slíkt rèttlæti mikilsvert og mikils metandi í samneyti og viðskiptum manna; en í guðsríki hefur ekki annað rèttlæti gildi enn það, sem sprettur af trúnni, því það gagntekur sál og sinni þess manns, sem í sannri trú tileinkar sèr Krists rèttlæti. Þó það sè geislaskyn þess ljóss, sem kemur hèr að ofan, lýsir það þó að innan úr hugskoti mannsins, og líkist silfurlit uppsprettunnar, sem ekki heyrir henni sjálfri til, heldur himinblámanum og birtu sólarinnar, er speigla sig í hennar tæra vatni.

Kristnir bræður! Rannsökum nú, hvort vèr höfum það rèttlæti og þá hrósun, sem hjá Guði gildir; rannsökum vort umliðna líf og djúp vorra hjartna; gætum ekki einúngis að heimsku og gáleysi æskunnar, heldur og að afbrotum og yfirsjónum fullorðins áranna; gætum að, hvílíka sorg vèr höfum bakað sjálfum oss og öðrum, jafnvel þeim, sem vèr elskum; gætum að, hve mörgum dögum og árum vèr höfum sóað burt, hve margar skyldur vèr höfum vanrækt; hve opt vèr höfum hrasað af breyskleika og bráðræði, þó það hafi ekki verið af ásetníngi! Og þegar vèr skyggnumst inn í hjörtu vor, þá lítum ekki einúngis á þær syndsamlegu girndir og tilhneigíngar, sem hafa svo mikið vald yfir oss, heldur og á þær heimuglegu hvatir, sem stjórna oss í góðverkum vorum, þær leynilegu og ósýnilegu uppsprettur, hvaðan dyggðir vorar og mannkostir hafa upptök sín, á þá eigingirni, þá hègómadýrð, það stærilæti, það dáðleysi, sem eðallyndi vort, hjálpsemi, djörfúng og góðvild byggjast á. Gætum að tilfinníngum hjarta vors, að þeirri heimuglegu gleði, sem vèr verðum varir við hjá oss, þegar vèr getum hafið oss yfir aðra, eitthvað ábatast meir enn þeir; gætum að því, hve tamt oss er að sjá ögnina í auga bróður vors og að hlusta eptir því, sem setur einhvern blett á náúngann, hve gjarnt oss er til að fegra bresti sjálfra vor og tileinka oss þá fullkomlegleika, sem vèr ekki höfum; gætum að þeim ýmislega búníngi, sem eigingirni vor felur sig í, að óbeit vorri á öllu því, sem ekki kitlar skilníngarvitin eða er geðfelt fyrir þau, og að tregðu vorri í að gegna skyldum vorum. Í stuttu máli: ef vèr rannsökum sjálfa oss eins og vèr rannsökum aðra og eins og aðrir rannsaka oss, hvaða dóm munum vèr þá hljóta

að uppkveða yfir sjálfum oss? Mun það ekki verða sá dómur, að vèr sèum sakfallnir fyrir Guði? Í brjósti þínu, syndugur maður! býr ekki einúngis lögmál, heldur og dómari og hegnari, sem þú ekki fær undan flúið. Þú ert þèr meðvitandi ekki einúngis verka þinna, heldur og girnda þinna og tilhneigínga, og þú veizt, að þú ert ekki hreinn í Guðs augum, og að hans rèttlætis dómur hlýtur að hegna þèr samkvæmt hans heilaga lögmáli, nema þú leitir þeirrar endurlausnar frá bölvun lögmálsins, sem Kristur hefur oss afrekað, þegar hann varð bölvan fyrir oss. En margir eru sannfærðir um það, að þá vantar það rèttlæti og þá hrósun, sem hjá Guði gildir, en geta þó ekki tileinkað sèr Krists rèttlæti í trúnni. Upp frá hjarta þínu stíga þúng andvörp, og það er sundurkramið af syndaskuld þinni; það þráir friðþægíngu við Guð, en finnur eingan grundvöll, sem það geti byggt á. Æ, einginn getur annan grundvöll lagt, enn þann, sem lagður er, sem er Jesús Kristur; í honum einum er sáluhjálp að finna; „eg er vegurinn, sannleikurinn og lífið", segir hann sjálfur, „einginn kemur til föðursins nema fyrir mig". „Því það þóknaðist Guði, að öll fyllíng skyldi búa í honum, og að koma öllu í sátt við sig fyrir hann, bæði því, sem er á jörðu og á himni, þá hann lèt hann semja frið með sínu blóði á krossinum" (Kól. 1., 19—20.). Flý þú þá að þessum krossi, harmþrúngna sál! Viljir þú fyrir alvöru betrast, þá mun frelsari þinn, sem einnig þín vegna lèt líf sitt, heyra andvörp þín og eyða þínum efasemdum. Haltu áfram að biðja án þess að þreytast, og þá muntu fá að reyna hið sama og Davíð forðum. „Dauðans fjötrar umspenntu mig", segir hann, „grafarinnar ángist var yfir mèr, eg kenndi til ótta og hryggðar; en eg ákallaði nafn Drottins og sagði: Drottinn! frelsa þú mína sál! (sálm. 116., 3.—4.). Og hann fèkk bænheyrslu, því hann þreyttist ekki í að biðja, heldur andvarpaði hann nótt og dag: „flýttu þèr að bænheyra mig, Drottinn! af laungun örmagnast minn andi; fel ei fyrir mèr þitt auglit, annars verð eg líkur þeim, sem farnir eru niður í gröfina" (sálm. 143., 7.). Í gröfina eru farnir, ekki einúngis þeir, sem dánir eru í örvæntíngu, heldur og þeir, sem búa sig til þess, með því að hafna og hrynda frá sèr guðlegri náð. Þegar hèr í lífi sökkva þeir niður í myrkranna djúp: í myrkradjúp vantrúar sinnar. Þeir sjá

ekki himin Guðs hvelfast yfir höfði sínu og eru í lifanda lífi stignir niður í grafir sínar. En rís þú upp frá dauðum, þú sem meðvitund um eymd syndarinnar er vöknuð hjá og sem þráir ljós og frið af hæðum. Rís þú upp og gættu þess, að enn þá getur þú og vèr allir feingið inngaungu í himnaríki, enn þá skín þaðan náðarinnar sól yfir þèr og oss öllum. Rís þú upp frá dauðum, þá mun Kristur lýsa þèr (Ef. 5., 14.). Lær þú að þekkja hann í hans orði og í áhrifum hans anda á hjarta þitt, og þá munt þú trúa á hann og verða að nýjum og betra manni og geta tekið undir með postulanum og sagt: „Í því er elska Guðs til vor augljós orðin, að Guð sendi sinn eingetinn son í heiminn, svo vèr skyldum lifa fyrir hann" (1. Jóh. 4., 9.); og þá munt þú fullkomlega skilja þessi orð postulans Páls: „hinn rèttláti mun lifa af trú sinni". Æ, Drottinn! styrk þú vora veiku trú, svo hún verði sönn og sáluhjálpleg, svo vèr fáum lifað af henni kristilega hèr í tímanum og hjá þèr sem þínir útvaldir í eilífðinni; bænheyr það í Jesú nafni! Amen.

## Á þriðja sunnudag í föstu.

### Bæn.

Til þín, Drottinn! snúum vèr huga vorum og hjörtum, og biðjum þig um náð til betrunar og helgunar; um náð til að geta hreinsað hjörtu vor frá syndsamlegum girndum, en helgað þau þèr og þinni þjónustu. Af sjálfsdáðum megnum vèr ekkert, en þú ert sá, sem gefur viljann og máttinn; styrk þú vora veiku krapta með aðstoð þíns anda og vert þú máttugur í vorum breyskleika, svo oss verði ágeingt í voru betrunarverki og vèr getum allt af tekið meiri og meiri framförum í því, sem gott er og þèr þóknanlegt. En það, sem vèr höfum misgjört, það, sem vèr höfum brotið á móti þèr í hugrenníngum, orðum og verkum, getum vèr ekki bætt; syndasekt vora getum vèr ekki sjálfir afplánað; þess vegna biðjum vèr þig, himneski faðir! í Jesú nafni um náð og fyrirgefníngu; æ! sannfærðu oss í hans nafni um það, að vorra synda skuli ekki að eilífu minnst verða, þegar vèr af hjarta iðrumst þeirra og snúum oss til þín; þá mun þessi sannfæring: sannfæríngin um það, að vèr sèum teknir til náðar af þèr, gefa oss þrek til að vaka, biðja og stríða og reynast þèr trúir allt til dauðans. Amen.

## Guðspjallið

(Lúk. II., 14.—28.).

Jesús rak djöful út frá þeim, er mállaus var, og þá er djöfullinn var útfarinn, tók hinn mállausi að mæla. Þetta undraðist fólkið, en nokkrir sögðu: fyrir fulltíngi Belsebúls djöflahöfðíngjans rekur hann djöfla út. Aðrir freistuðu Jesú, og leituðu eptir teikni af himni. En hann, er vissi hvað þeir hugsuðu, tók svo til orða: hvert það ríki, sem í sjálfu sèr er sundurþykkt, mun eyðast, og hvert hús mun þar yfir annað hrapa; sè andskotinn sjálfum sèr sundurþykkur, hvernig fær hans ríki þá staðizt, þar þèr segið eg útreki djöfla fyrir fulltíngi Belsebúls? En ef eg útrek þá fyrir hans fulltíngi, fyrir hvers fulltíngi útreka þá yðrir lærisveinar? þar fyrir skulu þeir og verða yðar dómendur; en ef eg rek djöfla út með Guðs krapti, þá er Guðs ríki sannarlega til yðar komið. Nær vopnuð hetja varðveitir sitt anddyri, þá er allt í friði, sem hún á; en þegar annar yfirsterkari kemur og yfirvinnur, flettir þessi hinn öllum hertygjum, sem hann treysti á, og skiptir svo herfánginu. Hver sem ekki er með mèr, hann er á móti mèr, og hver, sem ekki samansafnar með mèr, sundurdreifir. Þegar óhreinn andi fer út af manninum, ráfar hann um vatnslausar eyðimerkur, leitar hælis, en finnur ekki, þá segir hann: eg vil hverfa aptur í hús mitt, hvaðan eg fór; en þegar hann kemur, finnur hann það sópað og prýtt. Þá fer hann og tekur með sèr sjö anda sèr verri, og þegar þeir eru innkomnir, byggja þeir þar, verður svo hið síðara ásigkomulag mannsins verra enn hið fyrra. En þegar Jesús hafði talað þetta, hóf kona nokkur meðal fólksins upp raustu sína og sagði: sæll er sá kviður, sem þig bar,

og þau brjóst, er þú mylktir! Jesús svaraði: já, að vísu, en sælir eru og þeir, sem heyra guðsorð, og varðveita það!

## Inngángur.

„Ef eg rek út djöflana með Guðs krapti, þá er guðsríki sannarlega til yðar komið“, segir Jesús í guðspjallinu, og bendir oss með þessum orðum ekki einúngis til þess, að hann hafði vald yfir hinu illa í heiminum og að guðsríki er máttgara enn myrkranna ríki, heldur og til hins, að sú lækníng, sem hann veitti hinum sjúku, hafði andlega þýðíngu. Kraptaverk það, sem guðspjallið um getur, var, eins og öll kraptaverk frelsarans, fyrirmyndun þess, sem hann með sínu orði og anda mundi koma til vegar í náðarinnar ríki, þegar hann væri farinn hèðan að sýnilegum návistum. Í andlegu tilliti mega þeir allir heita djöfulóðir, sem af ásettu ráði slíta sig frá Guði til að stælast í vonzku sinni og óhlýðni við hann; já, því nafni mega þeir allir heita, sem með sínu óguðlega hugarfari og líferni sýna, að þeir elska myrkrið meir enn ljósið, og þá hluti, sem heyra myrkranna ríki til, meir enn hina, sem heyra guðsríki til. Á þessari andlegu ánauð vekur Jesús athygli vort, þegar hann varar við apturkomu hins óhreina anda, sem tekur með sèr sjö anda sèr verri, „svo að þess manns hið síðara verður verra hinu fyrra“. Höfum jafnan þessa viðvörun hugfasta, kærir bræður! og til að rótfesta hana enn betur í hjörtum vorum, viljum vèr á þessari stundu með aðstoð Drottins gjörr hugleiða:

hvernig hinni raungu betrun sè varið.

Eins og Jesús sjálfur hlaut að sæta háðúng og ofsóknum á sínum hèrvistardögum, eins verður kirkja hans enn í dag fyrir margvíslegum ásökunum og fyrirlitníngu, og hans himneska trúarbragða kenníng fær að kenna á hinu sama. En þó hrekkvísi og heimska geti vanbrúkað það, sem er helgast allra hluta, og gefi þannig tilefni til slíkra ásakana, þá er þó evangelíum í sjálfu sèr hreint eins og ljós himinsins, hvaðan það er komið, hreint eins og hann, sem það flutti. En eins og óvinir Jesú sögðu, að hann „ræki út djöfla fyrir hjálp djöflahöfðíngjans“, eins segja óvinir Kristi kross, að friðþægíngarlærdómurinn gefi tilefni til þess, að kvöl og ásakanir vondrar samvizku verði

burtreknar af því, sem er öllu verra: af syndsamlegu andvaraleysi og oftrausti á Guðs náð, sem sè allri lífernisbetrun til fyrirstöðu. Við þessa ásökun á sama svar, sem Jesús gaf þeim, sem báru honum á brýn, að hann hefði mök við djöflahöfðíngjann og efldi myrkranna ríki. „Hvert það ríki", sagði hann, „sem í sjálfu sèr er sundurþykkt, mun eyðast og hvert hús yfir annað hrapa". Væri Kristur sjálfum sèr svo sundurþykkur, að sú friðþægíng, sem hann hefur afrekað mannkyninu, væri til að spilla því, að sá sigur yfir hinu vonda, sem hann með dauða sínum hefur staðfest, miðaði til að efla vald þess, hvernig gæti þá ríki hans staðizt? Mundi það ekki hafa hrunið af sjálfu sèr? Mundi ekki „hvert hús hafa hrapað yfir annað" alstaðar þar sem menn hafa játazt til hans trúar? „Sá, sem ekki er með mèr, hann er á móti mèr, og sá, sem ekki samansafnar með mèr, hann sundurdreifir". Þarf annað enn þessi Jesú orð til að hrinda þessari ásökun, sem einúngis snertir þann misskilníng og þá vanbrúkun, sem lærdómurinn um Guðs náð í Kristi hefur verið undirorpinn, af blindni og hrekkvísi manna. En þessi orð fela líka í sèr alvarlega viðvörun við slíkum misskilníngi og vanbrúkun. Sá sem ekki er með Kristi á helgunarinnar vegi og leitast ekki við að breyta eptir hans dyggðadæmi; sá sem ekki tekur sinn kross á sig og fylgir honum, jafnvel á þrautanna og þjánínganna þyrnumstráðu vegum, hann er á móti Kristi, þegar hann kemur sem frelsari og friðþægjari; hann er í tölu þeirra, sem krossfestu hann og deyddu, og „þess manns hið síðara verður verra hinu fyrra". Þannig getur það meðal, sem á að friðþægja mennina við Guð, orðið til að spilla þeim, en það er ekki friðþægíngarmeðalinu að kenna, heldur sjálfum þeim. Vanbrúkunin getur gjört heilsumeðalið að ólyfjan, og því er það svo nauðsynlegt að hafa greinilega hugmynd um, hvernig sambandi mannsins við Guð eigi að vera háttað, og forðast allar þær villigötur í betrun lífernsins, sem leiða frá Guði; og í þessu skyni ætluðum vèr að hugleiða, hvernig hinni raungu betrun væri háttað.

1. Betrunin er raung, þegar hún ekki nær leingra enn til vorrar ytri hegðunar, eða er gjörð í einhverjum veraldlegum tilgángi. Veröldin, sem kemur

mönnunum til að syndga, getur líka komið þeim til að sjá að sèr og bæta ráð sitt, bæði með því að sefa æði æskumannsins, með því að bregðast hinum eldri og ónýta vonir þeirra, og með þeirri eðlilegu hegníngu, sem af heimsku og löstum leiðir. Veröldin, sem vèr lifum í, er reynsluskóli, sem Guð hefur sett oss í, til að mennta oss og aga og undirbúa oss undir annað líf, svo vèr sem Guðs börn getum komizt heim til hinna himnesku föðurhúsanna og verðum þar, í eilífum friði og fögnuði, settir í nýjan verkahríng. Oss er ætlað að menntast í veröldinni, en ekki *fyrir* veröldina. Snerti því betrun vor eingaungu vora tímanlegu velferð, nái hún ekki leingra enn til vorrar ytri háttsemi, nái hún ekki til hugarfars vors og hjartalags, spretti hún einúngis af ótta fyrir þeim illu afleiðíngum, sem syndin hefur, eða af laungun eptir veraldlegum hagnaði, velgeingni, áliti, metorðum, en hafi ekki tillit til Guðs og sambands vors við hann, þá er slík betrun raung; hún hefur gildi í mannlegu fèlagi, en ekki í guðsríki. Hversu opt ber það ekki við, að menn með aldrinum leggja af einhvern löst, en taka upp annan í hans stað? Margir eyðslusamir menn verða með tímanum nízkir og ágjarnir; margir halda sèr frá svalli og munaðarlífi af metorðagirnd; þessir menn leggja að vísu af sína fyrri lesti, en hið syndsamlega í löstunum loðir þó enn við hjörtu þeirra. Guð lítur á hjörtun og hann heimtar ekki einúngis, að verkin sèu hrein, heldur og að tilgángurinn sè hreinn og hvatirnar hreinar; hann vill, að sú hlýðni, sem honum er sýnd, spretti af elsku til hans og lýsi sèr í gjörvöllu hugarfarinu og nái eins til sálarinnar innstu fylgsna eins og til orða og verka. Hafi dyggð þín veraldlega stefnu og tímanlegan tilgáng, þá getur hún ekki fullnægt þèr í tilliti til annars lífs, hvorki huggað þig í dauðanum, nè fylgt þèr inn í eilífðina, og jafnvel hèr í lífi fær þú að reyna, hve litla hugsvölun í þjáníngum og mótlæti þú hefur af þeirri betrun, sem ekki nær leingra enn til þinnar ytri hegðunar, sem er gjörð fyrir siða sakir, eða vegna einhvers tímanlegs hagnaðar.

2. Betrunin er raung, þegar menn reiða sig eingaungu á sína eigin krapta. Það er óyggjandi, að vèr eigum að leggja allt kapp á vora lífernisbetrun; annars yrði syndin oss ekki tilreiknuð, annars væri hún ekki orsök til

ógæfu vorrar og ófarsældar, og annars væri einginn munur á dyggðugum og lastafullum, á trúuðum og vantrúuðum. En hverju mundum vèr áorka án þeirrar hjálpar, sem kemur hèr að ofan frá föður ljósanna? Hvað mundi öll jarðarrækt stoða, nema Guð, sem ávöxtinn gefur, blessaði viðburði og fyrirhöfn mannanna? nema hann sendi dögg af himni og frjófsamar árstíðir? Og geti nú mennirnir ekki af eiginn rammleik framleitt hið daglega brauðið úr jörðinni, hvernig munum vèr þá án Guðs aðstoðar geta komið til leiðar andlegum og himneskum hlutum? Þó mennirnir hefðu ekki syndgað nè horfið frá Guði, hefðu þeir þó ekki getað fullkomnað þá Guðs mynd, sem þeir voru skapaðir í án samverkandi náðar Drottins. Hvernig ættu þeir þá nú sjálfir að geta risið á fætur úr syndinni, eða með sínum eðlilegu kröptum bætt úr þeirri spillíngu, sem loðir við sjálft eðli þeirra? Það er Guðs eins að koma til leiðar þeirri fullkomnu breytíngu á hinum innra manni þeirra, sem til þessa útheimtist; það er verkun Guðs friðþægjandi náðar í Kristi, sem einnig helgar þá, sem iðrast af hjarta og á hann trúa. Þó væri það hraparlegur og hættulegur misskilníngur, að ímynda sèr, að þessi guðlega náð leyfði manninum að vera aðgjörðalausum og leggja árar í bát; því þá missti hann frjálsræði sitt og frelsissamband sitt við Guð. Því fer svo fjærri, að þessu sè þannig varið, að hið sanna frelsi mannsins sprettur einmitt af þeim sannleika og þeirri náð, sem evangelíum boðar. „Sannleikurinn mun gjöra yður frjálsa“, segir Jesús (Jóh. 8., 32.). „Andinn er það, sem lífgar. Þau orð, sem eg tala til yðar, eru andi og líf“ (Jóh, 6., 63.). Vegna syndarinnar erum vèr þrælar og í fángelsi, fyrir náðina leysumst vèr úr ánauðinni, frelsumst vèr úr fángelsinu. Vegna syndarinnar erum vèr dauðir, en fyrir náðina fæðumst vèr að nýju til veglegs frelsis Guðs barna og til hins sanna lífs: hins eilífa lífsins í Guði. Hvað er það, sem gjörir mun á hlýðni barnsins og þrælsins? Er það ekki kærleikurinn? Er sá ekki frjáls, sem elskar Guð og af elsku til hans gjörir hans vilja í einfeldni hjartans og með trúmennsku? Er hann ekki lángtum frjálsari enn hinn hrokafulli sjálfbyrgíngur með þótta sínum og þrælbundnu stífslyndi? Ef vèr trúum sannleika evangelii, trúum því, að hinn eilífi kærleikurinn hafi sent sinn eingetinn son í heiminn til að

reisa hið fallna mannkyn á fætur aptur, þá verðum vèr og að trúa því, að vèr þurfum hans hjálpar við til vorrar lífernisbetrunar. „Án mín megnið þèr ekkert“, segir frelsarinn sjálfur, „eg er vegurinn, sannleikurinn og lífið; einginn kemur til föðursins nema fyrir mig“ (Jóh. 14., 6.). Þó segir hann jafnframt: „einginn getur komið til mín, nema faðirinn, sem sendi mig, dragi hann“ (Jóh. 6., 44.). Jafnvel það er náðarverkan Drottins, að vèr snúum oss til frelsara vors með iðrunarandvarpi og laungun eptir að geta trúað á hann. Hvernig gætum vèr þá af eigin kröptum og án hans aðstoðar breytt hjörtum vorum og háttalagi, eða komið til leiðar þeirri endurfæðíngu hjá sjálfum oss, sem heyrir til sannrar lífernisbetrunar og er skilyrði fyrir því, að vèr fáum inntöku í himnaríki? Ef vèr því, kristnir bræður! viljum betrast fyrir alvöru, þá leitum til þess liðs og aðstoðar Guðs anda, og krjúpum jafnframt með iðrandi hjörtum niður við Jesú kross og biðjum í hans nafni: „snú þú mèr, Drottinn! þá verður mèr snúið“.

3. Betrunin er raung, ef vèr höldum, að vèr með henni getum sjálfir bætt það, sem vèr höfum brotið. Vissulega ber þèr, kristinn maður! eins og þèr frekast er unnt að bæta hið illa, sem þú hefur komið til leiðar; skila aptur því, sem þú hefur ránglega feingið, kannast við og kalla aptur þau ósannindi, sem þú hefur talað, og gjöra allt, sem í þínu valdi stendur, til að viðrètta gott mannorð þess, er þú hefur ófrægt, og efla velferð þess, er þú hefur gjört einhvern skaða. En þó það heyri til sannrar betrunar, að gjöra sèr allt far um þetta, þá verður því þó ekki ætíð viðkomið og sízt til fulls. En þó þú gætir friðmælzt við alla menn, sem þú hefur eitthvað brotið á móti, hvernig getur þú þó friðmælzt við Guð, sem er sjálft rèttlætið? Þó þú gætir bætt þann skaða, sem þú hefur komið til leiðar, hvernig ætlar þú að burttaka sjálfa syndina? Hún felst í sjálfu verkinu, sem ekki verður aptur kallað. En hversu lítið er það ekki, sem þú getur bætt af því, sem þú hefur misgjört, bæði með því að drýgja hið illa og vanrækja það, sem gott er. Gæt þú einúngis að því, hve miklum hluta æfinnar þú hefur burtsóað og hve margt og mikið þú hefur vanrækt í þinni köllun; hvernig ætlar þú að bæta þetta? Gæt þú jafnframt að þeim óvenjulegu afleiðíngum, sem hver syndsamleg

athöfn þín, hvert syndsamlegt orð þitt getur haft! Þó þú hafir sjálfur sèð að þèr og betrast, getur þú þar fyrir betrað aðra, sem þú hefur leitt afvega og komið til að syndga? Gæt þú þess, hvernig allir hlutir í mannlegu lífi hánga saman; gæt þú að sambandi orsaka og afleiðínga og hvernig þessi endalausa festi nær fram í tímann og dregur með sèr hið syndsamlega í verkum þínum og þær syndir, sem þau hafa komið til leiðar; gæt þú að, hvernig þetta orsaka og afleiðínga net útbreiðir þá spillíngu í allar áttir, sem þú hefur vakið með þínu vonda eptirdæmi! Það er ekki rètt, sem margir halda, að fyrirgefníng syndanna sè komin undir betruninni. Að vísu er einlægur betrunar ásetníngur nauðsynlegt skilyrði fyrir því, að vèr fáum fyrirgefníng synda vorra; en þessi betrunarásetníngur getur því að eins verið einlægur og alvarlegur, að hann byggist ekki einúngis á ángri yfir syndinni, heldur og á trúnaðartrausti á guðlegri náð. Hvernig ætti sá, sem finnur til þess, að hann vegna synda sinna stendur undir bölvun lögmálsins, að geta tekið fyrir sig betrunarásetníng, sè hann úrkula vonar um að geta nokkurn tíma losazt við þessa bölvun? Mundi hann ekki miklu fremur hljóta að stælast í vonzku sinni og fjarlægjast Guð meir og meir?

Á hverju eigum vèr þá að byggja von vora um syndanna fyrirgefníngu, fyrst vèr getum ekki byggt hana á betrun vorri? Skynsemin einsaman getur ekki svarað því. Það tjáir ekki í þessu efni að skírskota til Guðs gæðsku; því hún getur ekki ónýtt hans rèttlæti. Skynsemin þekkir ekki annað enn lögmálið; en lögmálið heimtar, að sèrhverri synd sè hegnt. Lögmálið getur ekki veitt guðlega náð; því þá væri það ekki leingur lögmál. Þar á mót heitir evangelíum oss guðlegri náð, *af því* að Guð var í Kristi og friðþægði heiminn við sjálfan sig.

4. En eins og það er víst, að maðurinn verður fyrst að finna til Guðs rèttlætandi náðar í hjarta sínu, eins er það líka öldúngis nauðsynlegt að helgan hans komi á eptir rèttlætíngunni. Þess vegna er betrunin enn fremur raung, nema hún sýni sig í stöðugri viðleitni á að hlýðnast Guðs boðum, í sífeldu stríði við syndina og framför í því, sem gott er. Betrun margra er einúngis innifalin í því, að þeir hagnýta sèr náðarmeðulin og halda sèr nokkra daga

frá löstum sínum; jafnvel margir þeirra, sem vaknaðir eru af syndasvefni sínum og rísa upp til að leita Drottins, komast ekki leingra enn til meðvitundar um syndasekt sína, en flýja ekki til frelsarans nè finna náð; margir telja sèr trú um, að þeir sèu teknir til náðar af Guði og þykjast vera hans börn, en halda þó áfram í syndum sínum, og í stað þess að leggja stund á sína eigin betrun, taka þeir sèr dómsvald yfir öðrum og fordæma þá. Þegar slíkir menn að lokunum komast að raun um, að þeir hafa dregið sjálfa sig á tálar með rángri ímyndun um betrun sína, þá er þeim hætt við að falla í örvæntíng, eða sleppa allri hugsun um andleg efni og snúa húga sínum öldúngis frá Guði; og rata þeir þá í hið óttalega ástand, sem frelsarinn varar oss við í guðspjallinu með þeim orðum, að „þess manns hið síðara verði verra hinu fyrra“. „Eg vil hverfa aptur í hús mitt, hvaðan eg fór“, segir hinn óhreini andi. Sitt hús kallar hann enn það hjarta, sem Guðs vekjandi náð kom honum til að yfirgefa. Hann finnur það „sópað og prýtt“; en því miður, er það ekki musteri, helgað Guði með sannri betrun, heldur með rángri guðrækni búið undir apturkomu hins óhreina spillíngaranda, hvers vegna „hann fer og tekur með sèr sjö anda sèr verri“ og „þegar þeir eru inn komnir, taka þeir sèr þar bólfestu“. Já, hjá mörgum, sem halda, að þeir ekki einúngis sèu endurfæddir, heldur og fremur öðrum í náð hjá Guði, hafa fornar ástríður náð aptur valdi sínu og yfirráðum og samlagað sig öðrum fleiri syndsamlegum girndum. Þar sem þeir áður gjörðu gis að andlegum efnum, þá eru þeir nú líka orðnir hræsnarar; þar sem þeir áður ofmetnuðust af sínum veraldlegu yfirburðum, þá stæra þeir sig nú af þeirri guðrækni, sem þeir þykjast hafa til að bera; þar sem þeir áður syndguðu með lèttúðar- og hæðnisfullu orðbragði, syndga þeir nú með kærleikslausum og ómildum dómum. Prófum oss nú, kristnir bræður! svo vèr tælum ekki sjálfa oss með yfirskyni guðhræðslunnar en afneitum hennar krapti, svo vort hið síðara verði ekki verra hinu fyrra. Já, það er enn verra að tileinka sèr Guðs náð með dauðri trú og kærleikslausu hjarta, enn að hafna henni með opinberu iðrunarleysi og vantrú; því þeir, sem þannig hafna henni, geta þó komizt til þekkíngar á

þeirri hættu, sem þeir eru staddir í, og leiðzt til að hugsa um sína sáluhjálp. Ef þeir einhvern tíma heyra guðsorð, heyra þetta vekjandi og kallandi ávarp guðlegrar náðar: „snúið yður frá yðar vonda vegi“! (Jer. 25., 5.). „Svo sannarlega sem eg lifi“ segir Drottinn alvaldur, „hefi eg einga þóknun á dauða hins óguðlega, heldur að hann snúi sèr og lifi“ (Esek. 33., 11.), þá vita þeir, að þetta er talað til þeirra; þeir vita, að þeir eru á vondum vegi og þurfa að bæta ráð sitt; þeir vita líka, í hverju tilliti sá vegur er vondur, sem þeir gánga. En þeir sem reiða sig á skinhelgi sína og skakka guðrækni, hyggja ekki að sínu hættulega ástandi, verða ekki varir við orminn, sem vefur sig utan um hjörtu þeirra meðan þeir sofa, og telja sèr sáluhjálpina vísa. þeir ættu þó að gæta þess, að menn geta ekki þjónað bæði Guði og heiminum, að ljósið og myrkrið, Kristur og Belíal eiga ekki hlutskipti saman. En nú er sem eg heyri andvörp sannkristins manns, sem hugsar til veikleika og breyskleika síns, og að hinu leytinu spèhlátra hinna óguðlegu, sem spyrja: hvar eru þessar sannkristnu, þessar til náðar teknu, helguðu sálir, sem bera vitni um sannleika og guðlegt eðli evangelii? Hjá mörgum þeirra“ segja þeir, „sem eru hvað ákafastir í að halda með kristindóminum, verða menn þó varir við ýmsa bresti og ýmislegan breyskleika; þó sumir þeirra kunni að vera ráðvandir, vænir og virðíngarverðir menn, þá eru líka slíkir menn til meðal vor hinna, sem ekki erum neinir sèrlegir trúmenn, heldur mótfallnir öllum trúarákafa.“ Vissulega er mismunurinn á endurfæddum mönnum og iðrunarlausum einatt ómerkjanlegur, að því leyti sem þessir eins og hinir geta gætt hinnar ytri guðsþjónustu og siðsemi; jafnvel þeir dómar, sem menn leggja hver á annan fyrir þau verk, sem allir verða varir við, eru opt og tíðum annaðhvort öldúngis rángir, eða einstreingíngslegir og of harðir; hvernig munum vèr þá geta dæmt um hugarfarið og hjartalagið, sem Guð einn sèr og þekkir? þess vegna ber oss ekki að dæma hver annan, heldur eigum vèr að rannsaka sjálfa oss hver og einn og gæta þess, að vèr syndgum allir daglega. Við þessa rannsókn er það næsta áríðandi, að vèr grennslumst eptir því, að hve miklu leyti syndir vorar eru breyskleika syndir, sem Guðs börnum geta viljað til, eða ásetníngs syndir, sem svipta oss

Guðs náð, þó vèr áður höfum verið teknir til náðar. Ef vèr ekki gaumgæfilega vökum yfir breytni vorri og hjörtum vorum og prófum sjálfa oss daglega, ef vèr ekki flýjum og forðumst sèrhvert tilefni og tækifæri til syndar, þá syndgum vèr vísvitandi, þó það sè ekki af ásetníngi nè yfirlögðu ráði; og ef vèr ekki eptir á með einlægri iðrun alvarlega einsetjum oss, að gæta vor betur eptirleiðis, þá verða breyskleika syndir vorar að ásetníngssyndum. Hvað hina iðrunarlausu snertir, þá eru allar syndir þeirra ásetníngssyndir, að því leyti sem hugarfar og líferni þeirra er Guði fráhverft, þó það að ytra áliti sè óaðfinnanlegt og vítalaust, og að því leyti sem það stefnir að því marki og miði, sem ekki á skylt við Guð nè hans ríki. „það sem af holdi er fætt, það er hold“, segir Jesús, „og það, sem af andanum er fætt, það er andi“ (Jóh. 3., 6.). Sèum vèr endurfæddir af Guðs anda, þá látum vèr oss mest af öllu vera um það hugað, með daglegri iðrun og árvekni að stríða við allar vondar og syndsamlegar girndir. Já, vèr verðum allt af að stríða við sjálfa oss og heiminn meðan vèr ferðumst yfir þenna ólgusjó lífsins þángað til vèr náum friðarins himnesku höfnum. Ef vèr vanrækjum að hafa vakandi auga á þeim hættum, sem umkríngja oss, eða hættum þeirri áreynslu, sem útheimtist til að yfirbuga þær, þá berumst vèr inn í straum spillíngarinnar og færumst allt af nær og nær hríngiðu glötunarinnar.

En hvað þig snertir, kristin sál! sem dag og nótt andvarpar yfir veikleika þínum, og óttast fyrir, að þú munir ekki geta staðið stöðug í guðlegri náð, þá hugga þú þig við þenna ótta þinn, því hann mun gæta þín fyrir hinu hættulega andvaraleysi, sem hin dauða trú svæfir svo marga í. „Lát þèr nægja mína náð“, segir Drottinn, „því minn kraptur sýnir sig fullkominn í veikleikanum“ (2. Kor. 12., 9.). En þreyztu ekki að vaka, biðja og stríða! Ef þú hvert kveld, þegar þú leggst til hvíldar, vandlega hugleiðir, hvernig þú þann dag hafir hegðað þèr og alvarlega iðrast þess og biður Guð fyrirgefníngar á því, sem þèr hefur yfirsèzt í verkum, orðum eða hugrenníngum; ef þú á hverjum morgni, þegar þú rís úr rekkju, með heitri og hjartanlegri bæn endurnýjar og staðfestir þann ásetníng, ekki einúngis að gegna skyldum köllunar þinnar með trúmennsku, heldur og að laga þig í öllum hlutum eptir Guðs

vilja og framgánga fyrir hans augliti, svo að þú ekki hugsir og því síður talir eða aðhafist það, sem syndsamlegt er; ef þú þannig vakir yfir sjálfum þèr og hefur Guð jafnan þèr fyrir augum, hvort sem þú ert heima eða annarstaðar, einnsaman, eða hjá öðrum, við vinnu þína, eða þú hvílist; þá getur þú með Drottins aðstoð unnið sigur trúarinnar. En gleym því ekki, að líf trúarinnar viðhelzt fyrir heyrn guðsorðs. „Sælir eru þeir, sem heyra guðsorð og varðveita það", segir Jesús í guðspjallinu. Varðveit þú það í hjarta þínu og veit ekki mótspyrnu heilögum anda, sem með guðsorði vekur allar góðar og guðlegar tilfinníngar í sálum vorum og veitir oss krapta til að standa stöðugir allt til enda. Æ, Drottinn! styrk þú oss í stríðinu, styð þú oss í hættunum og gef þú oss náð til þess að reynast þèr trúir allt til dauðans, svo vèr fáum úr býtum borið sigursins verðlaun: kórónu lífsins. Bænheyr það í Jesú nafni! Amen.

---

## Á sunnudaginn í miðföstu

### Bæn.

Gæðskuríki himneski faðir! þú upplýkur þinni hendi og seður allar lifandi skepnur með þinni blessun; frá þèr kemur hið daglega brauðið, sem vér neytum, eins og öll góð og öll fullkomin gjöf. Lát þú oss aldrei gleyma því, að hin líkamlega fæða á að minna oss á vorar andlegu þarfir, að vèr fyrst og fremst eigum að leita þíns ríkis og rèttlætis, og að þetta er skilyrði fyrir því, að vèr fáum allt annað gott. Lát þú oss aldrei gleymast að meðtaka þínar gjafir með þakklæti, og verja þeim eptir þínum gæðskuríka tilgángi oss til framfara og fullkomnunar á dyggðanna vegi og til að efla heillir meðbræðra vorra og hjálpa þeim, sem nauðstaddir eru. Bænheyr oss í Jesú nafni! Amen.

### Guðspjallið
(Jóh. VI., 1.—15.).

Jesús fór yfir um sjávarhafið í Galíleu, sem liggur við staðinn Tíberías, fylgdi honum þá mikill mannfjöldi;

því þeir sáu þau kraptaverk, sem hann gjörði á þeim, er sjúkir voru. Jesús gekk upp á fjall nokkurt, og settist þar niður með sínum lærisveinum; en þá var páskahátíð Gyðínga nálæg. Jesús leit upp og sá, að mikill mannfjöldi kom til hans. Hann sagði þá við Filippus, lærisvein sinn: hvar kaupum vèr brauð, svo þessir neyti? En þetta sagði hann, til að reyna lærisveininn, því Jesús vissi sjálfur, hvað hann ætlaði sèr að gjöra. Filippus svaraði honum: brauð fyrir tvö hundruð penínga nægir þeim ekki, svo hver einn fái lítið eitt. Þá sagði Andrès, einn af lærisveinum hans, bróðir Símonar Pèturs: úngmenni eitt er hèr, sem hefur fimm byggbrauð og tvo fiska; en hvað er þetta handa svo mörgum? Jesús sagði: látið mennina setjast niður að borða. Í þeim stað var gras mikið; settust þar niður að borða karlmenn að tölu nær fimm þúsundir. Jesús tók brauðin, þegar hann hafði þakkir gjört, fèkk þau sínum lærisveinum, en þeir feingu þeim, er til borðs höfðu setzt, sömuleiðis af fiskunum, svo mikið sem hver vildi hafa. En þegar þeir voru mettir, sagði Jesús til lærisveina sinna: safnið saman þeim leifum, sem af geingu, svo að ekkert spillist. Þeir gjörðu svo, og fylltu tólf karfir með þessar leifar, af þeim fimm byggbrauðum, sem gengu af hjá þeim, er neytt höfðu. En þegar þessir menn sáu þetta teikn, sem Jesús gjörði, sögðu þeir: þessi er sannarlega sá spámaður, sem í heiminn skal koma. En þegar Jesús varð var við, að þeir mundu koma og handtaka hann, til að gjöra hann að konúngi, veik hann einsamall upp aptur á fjallið.

### Inngángur.

„Gef oss í dag vort daglegt brauð“! Hversu opt höfum vèr ekki, kærir bræður! beðið þannig frá barnæsku vorri

allt til þessarar stundar? Og hvort sem vèr erum ríkir eða fátækir, voldugir eða vesalir, þá þurfum vèr allir að biðja þessa, því allir erum vèr þurfamenn, allir snauðir og vesalir í Guðs augum og höfum ekkert af sjálfum oss, heldur þiggjum af honum alla hluti, andlega og tímanlega; og hann, sem sýndi oss þörf vora og kenndi oss að biðja vorn himneska föður, vissi betur enn vèr sjálfir, hve aumir og allslausir vèr mundum verða, ef Guð sleppti sinni gæðskuríku hendi af oss eða nokkurn tíma hætti að hjálpa oss; hann kenndi oss drottinlega bæn, sem nær til allrar þarfar vorrar, andlegrar og líkamlegrar, og hún getur veitt oss huggun og endurnæríngu, í hverri helzt neyð og þrautum sem vèr erum í staddir, og hún hefur á umliðnum öldum frá ótal þúsund vörum stigið upp að hásæti Drottins, og frá honum flutt niður á jörðina björg og blessun. Sèrhvert orð í þessari bæn, er guðdómlegt og óviðjafnanlegt; en vèr höfum tekið fram þessi orðin: „gef oss í dag vort daglegt brauð“, af því þau eiga skylt við það kraptaverk frelsara vors, sem guðspjallið getur um; þau minna oss á að biðja Guð um daglegt brauð, og sýna oss eins og guðspjallið, að hið daglega brauðið kemur eins og öll góð og öll fullkomin gjöf hèr að ofan frá föður ljósanna; þau sýna oss eins og það, að það er vort að biðja, en Guðs að bænheyra, vort að þiggja, en Guðs að gefa. Til að fá daglegt brauð, þurfum vèr ekki annað að gjöra enn biðja og iðja; og þegar vèr erum bænræknir og iðjusamir, megum vèr ókvíðnir fela Guði öll vor efni á hendur og treysta því, að hann, sem klæðir liljugrösin á akrinum og elur önn fyrir fuglum loptsins, að hann, sem upplýkur sinni mildu hendi og seður allar lifandi skepnur með sinni blessun, muni einnig blessa störf vor, þegar þau eru unnin í hans ótta, og veita oss það, sem vèr viðþurfum til viðurhalds þessa vors líkamlega lífs. Og þó lætur þú hugfallast, kristinn maður! undir eins og það er ekki fyrir augunum, sem eta skal, undir eins og þú þykist ekki sjá nægan arð af vinnu þinni, eða þú reynir einhvern atvinnuskort. Í þessum atvinnuskorti lætur þú annan skort í ljósi, sem er lángtum hættulegri fyrir þig, sem sè trúarskort: skort á trúnaðartrausti til þíns himneska föður, skort á þakklæti við hann, sem hefur veitt þèr svo óteljandi velgjörðir, sýnt

þèr svo mörg og óræk merki upp á sína föðurlegu forsjón á hinum umliðnu dögunum. — En eins og mörgum er hætt við að vantreysta Guðs forsjón og sínum eigin kröptum, þegar þeir reyna einhvern atvinnubrest, eins hættir líka mörgum hinna við ofmiklu sjálfstrausti, sem Guð hefur blessað með meiri tímanlegum efnum; þeim hættir við að þakka velgeingni sína eingaungu dugnaði sínum, framsýni sinni og fyrirhyggju, en gleyma gjafaranum allra góðra hluta; þeir gleyma að biðja Guð, en tilbiðja sjálfa sig. Til þess að geta forðazt þessar hættulegu villur, og til þess að geta beðið Guð rèttilega um daglegt brauð, þegið það rèttilega og neytt þess eins og vera ber, viljum vèr á þessari guðræknisstundu, með hliðsjón af guðspjallinu, láta hugleiðíngar vorar staðnæmast við

daglegt brauð.

1. Lát þú ekki daglegt brauð vera hið æðsta nè einasta hnoss, sem þú sækist eptir. Þegar vèr íhugum þá ágætu bæn, sem Drottinn kendi oss, sjáum vèr, að í henni er einkanlega beðið um andleg gæði og andlega blessun. Af þeim sjö bænum, sem eru í „drottinlegri bæn", hljóðar ekki nema ein um tímanleg gæði, eða um daglegt brauð. Sanntrúuð Guðs börn biðja því lángtum optar um þau gæði, sem viðvíkja sálunni enn um hin, sem viðvíkja líkamanum. Þetta leiðir líka eðlilega af því sambandi, sem sál og líkami standa í hvort við annað. Sálin er eilífs og ævaranda eðlis; líkaminn jarðneskur og forgeingilegur. Sálin á að lifa eptir að bein vor eru rotnuð í gröfinni, og hennar rètta líf byrjar fyrst algjörlega, þegar líkamans jarðneska hreysi hrynur og verður aptur að moldu. Þess vegna eigum vèr að bera mesta umhyggju fyrir sálu vorri, sem hefur himneskan uppruna og leitar aptur til himins, því þar er hennar rètta föðurland. Hverja hugmynd gjöra þá þeir sèr um eðli sitt, sem gefa sig alla við tímanlegum gæðum, sem gleyma þörfum sálarinnar og ekki þekkja aðrar áhyggjur enn þær, sem viðvíkja þessu fallvalta jarðneska lífi, er slokknar þegar minnst vonum varir? Getum vèr ímyndað oss, að þeir, sem festa allan huga sinn við hina sýnilegu og hverfulu hluti, muni nokkurn tíma fyrir alvöru hafa gjört sèr grein fyrir lífi sínu eða ákvörðun sinni? að þeir, sem

sökkva sèr ofan í holdlegan munað og einúngis hugsa um að svala girndum sínum, muni hafa hugleitt sína eilífu ákvörðun, eða gætt þess, að heimurinn fyrirferst með öllum hans lystisemdum? Getum vèr ímyndað oss, að þeir, sem velkjast í sorgum og áhyggjum þessa lífs og verja hverri stund til að hugsa um veraldlegan hagnað og gróða, muni fyrir alvöru nokkurn tíma hafa hugsað út í þessa spurníngu: „hvað stoðar það manninn, þó hann eignist allan heiminn, ef hann líður tjón á sálu sinni“? Æ, kristnir bræður! losum í tíma hjörtu vor við hègóma veraldarinnar, því bráðum sleppir hún hendi sinni af oss og skilur oss eptir hjálparlausa og huggunarsnauða, þegar kallið kemur, og vèr eigum að flytja hèðan, því þángað, sem vèr þá förum, tökum vèr ekkert með oss nema gjörðir vorar og samvizku vora. Ó, hve fagra fyrirmynd höfum vèr í þessu eins og öllu öðru tilliti í dæmi frelsara vors! Þegar þú, kristinn maður! finnur til þess, að hin jarðnesku böndin fjötra þig og þú átt örðugt með að slíta þau af þèr; þegar hjarta þitt segir þèr, að þú hafir eitthvað rángt fyrir stafni, að þú gángir á vondum vegi og búir þig illa undir þá eilífð, sem bíður þín við enda æfinnar; og þegar þú þó hrífst burt af straumi spillíngarinnar og getur ekki af sjálfsdáðum komizt út úr honum, þá hugsa þú til frelsara þíns. Aldrei missti hann sjónar á hinu andlega, aldrei gleymdi hann sínu himneska erindi, hvernig sem á stóð, hvort sem hann var matarlaus, eða að heimboði hjá ríkum Gyðíngum, hvort sem hann var staddur á eyðimörk, eða gekk um frjófsöm akurlönd. Og getum vèr ekki lært af þessu, að hinar andlegu þarfir vorar eigi jafnan að sitja í fyrirrúmi fyrir hinum líkamlegu, að hvorki skortur nè allsnægtir megi aptra oss frá að sækjast eptir hinu eina nauðsynlega, aptra oss frá að leita sálum vorum andlegrar fæðu og endurnæríngar og undirbúa þær undir himnaríki?

2. Vèr eigum að bíða vors daglega brauðs með þolinmæði og trausti til Guðs. Þegar lærisveinarnir sáu þau fimm byggbrauð og þá tvo fiska, sögðu þeir með nokkurs konar óþolinmæði: „hvað skal þetta á meðal svo margra?“ En Jesús ansaði því ekki, heldur bauð, að mannfjöldinn skyldi setjast niður að borða. Og mannfjöldinn hlýddi orðum hans og treysti því, að hann mundi sjá einhver ráð til að bæta úr skortinum, að frá honum mundi koma björg og blessun. Með sömu

undirgefni undir Drottins vilja og sama trúnaðartrausti eigum vèr einnig að setjast niður, þar sem Guð hefur vísað oss til sætis, og erfiða trúlega í þeirri köllun, sem hann hefur úthlutað oss, og treysta því, að hann muni blessa vinnu vora og gefa oss daglegt brauð. Jafnvel í sjálfri eyðimörkinni fann Jesús stað, „þar sem var gras mikið"; og eins mun hann láta þèr vegna vel, kristinn maður! hvar sem þú ert staddur, þegar þú setzt þar niður að hans boði, því hvar sem köllun þín er, þar er líka blessun hans nálæg. Þó þú hafir farið varhluta af gæðum þessa heims, þó þú standir einmana og yfirgefinn í veröldinni, getur þú þó, þegar þú geingur á Drottins vegi, ókvíðinn sagt: eg er ekki einsaman, því Drottinn er með mèr; fyrst speki hans hefur þóknazt að gefa mèr lífið og láta mig lifa, þá mun hann einnig vernda mig og viðhalda mèr og gefa mèr tilefni og tækifæri til að vegsama hans heilaga nafn og þakka honum fyrir hans gæðskuríku velgjörðir. Þó eg sè munaðarlaus hèr á jörðunni og eigi hvorki föður nè móður, þá á eg þó föður að á himnum, sem er faðir allra föðurlausra; og sè eg hans barn, þá er eg líka erfíngi og samarfi Jesú Krists. Getur nokkurt vantraust verið samfara þessari gleðiríku tilhugsun, þó mèr um stund sýnist báglega horfast á fyrir mèr, eða þó þrautir og þjáníngar og eignamissir ætti fyrir mèr að liggja. Hefi eg ekki sèð Job missa aleigu sína og fá tvöfalt aptur? Hefi eg ekki sèð Jósep seldan í ánauð, og þó verða ellistoð föður síns og athvarf bræðra sinna? Eða varð ekki mannfjöldinn, sem guðspjallið getur um, mettur af matvælum þeim, sem í fyrstu sýndust svo lítil og ónóg! Ættir þú þá, kristinn maður! nokkurn tíma að efast um, að Drottinn hafi bæði vilja og mátt til að ala önn fyrir þèr? Hann, sem varð fátækur vor vegna, svo vèr skyldum ríkir verða; hann, sem húngraði, til þess vèr skyldum saddir verða af alls konar andlegri og líkamlegri blessun. Gætið yðar því, góðir bræður! fyrir möglun og óþolinmæði, þó þèr ekki hafið ætíð allsnægtir, þó þèr ekki ætíð uppskerið eins mikinn arð og ávöxt af vinnu yðar eins og þèr bjuggust við. Þreytizt ekki þarfyrir að biðja og iðja, það sem iðja ber í ótta Drottins; takið svo glaðir og ókvíðnir ókomna tímanum og treystið því, að hann, sem vill gefa yður himnaríkis arfleifð, muni ekki láta yður vanmegnast á veginum;

að hann, sem dó á krossinum, svo þèr mættuð eilíflega lifa, muni ekki svipta yður sinni vernd þann stutta tíma, sem þèr eigið hèr að dvelja. Horfðist ekki stundum báglega á fyrir yður á umliðnu dögunum? Hafið þèr nú gleymt því? Hafið þèr gleymt því, hvernig Drottinn þá rètti yður hjálparhönd, bætti úr böli yðar og snèri hryggð yðar í gleði? Hafið þèr gleymt því, hvernig hjálpin kom þegar neyðin var mest, hvernig yður þá barst óvænt björg og blessun? Rifjið þetta upp með yður og látið þessa endurminníngu, þessa reynslu styrkja traust yðar á guðlegri forsjón.

3. Vèr eigum að þiggja daglegt brauð og neyta þess með þakklæti. Í guðspjallinu er sagt, að Jesús hafi tekið brauðin og gjört þakkir. Gjörið eins, kristnir bræður! þegar þèr neytið yðar daglega brauðs, þá lyptið hjörtunum upp til Guðs, sem gefur yður það. Hafið fyrir augunum Jesú heilaga dæmi; þó hann væri eitt með sínum himneska föður, þó faðirinn hefði gefið honum allt vald á himni og jörðu, neytti hann þó jafnan fæðu sinnar með þakkargjörð, og það gleymdist honum aldrei, hvar sem hann var staddur, hvort heldur á eyðimörku eða í Jerúsalem, í einveru eða fjölmenni; hann vildi, að fæðan, sem vèr neytum, skyldi lypta huga vorum upp til gjafarans allra góðra hluta, og að sjálf náttúran skyldi minna oss á, að vèr þiggjum alla hluti af hans mildiríku föðurhendi; hann vildi, að það skyldi vera einhver munur í matartekjunni á mönnunum og skynlausum skepnum, þó húngrið sè hvorumtveggja sameiginlegt. Af skynlausu skepnunum búast menn ekki við því, að þær geti lypt huga sínum upp til hins ósýnilega, en af mönnunum ættum vèr að geta búizt við því; það ætti aldrei að koma fyrir, að menn heldur vildu breyta eptir hundum og máilausum kvikindum enn frelsara vorum Jesú Kristi; eða blygðuðust sín meir fyrir að líkjast honum, sem var fullkomnastur allra, enn hinum ófullkomnustu og auðvirðilegustu skepnum, sem vèr þykjumst hafa svo marga yfirburði yfir. Slík gleymska er mannlegri náttúru til hinnar mestu óvirðíngar og lýsir stöku hugsunarleysi og hegníngarverðu vanþakklæti við Drottin. Eða heldur þú, syndugur maður! að vanþakklæti og tilfinníngarleysi þínu verði aldrei hegnt? Ert þú svo viss um að geta ávalt haldið velgeingni þinni og daglegu

brauði, að þú þurfir ekki að óttast fyrir, að Guð láti þig einhvern tíma reyna, hve fátækur og vesall þú ert án hans hjálpar? Margur fátæklíngur þjáist ekki einúngis af þeirri neyð og örbyrgð, sem á honum liggur, heldur og af átölum samvizku sinnar, sem segir honum, að hann hafi til þessarar eymdar unnið, að hann hafi verið vanþakklátt barn, sem hafi þurft þessarar hirtíngar við, að hann hafi þegið velgjörðir Drottins með tilfinníngarlausu og vanþakklátu hjarta. Innrættu þèr því þakklátsemi, kristinn maður! og gættu þess, að allt sem þú þiggur, allt sem þú hefur, er náðargjöf Guðs án allrar verðskuldunar þinnar. Til hvers höfum vèr unnið af heilögum Guði nema til hegníngar, ef hann vildi í rèttlætisdóm við oss gánga? En við þetta viljið þèr ekki kannast! þèr heimtið arfleifð yðar af himnaföðurnum með sjálfskyldu og eruð rángeygðir af því hann er góðgjarn. þèr metið ekki lán og lukkukjör eptir því, hve þakklátir þèr hafið verið við Guð, eða hvernig þèr hafið reynt til að gjöra yður hæfilega til þessa með trúmennsku við hann og hlýðni við hans boðorð, heldur eptir þeim meiri eða minni tímanlegu gæðum, sem þèr sjáið öðrum hlotnast, og meðan þèr lítið öfundaraugum til annara, gleymið þèr því, sem þèr sjálfir hafið, gleymið þeirri náð, sem veitir yður svo ríkulega blessun. Ánægðir með yðvart hlutskipti getið þèr aldrei orðið, fyrr enn þèr auðmýkið yður og getið af hjarta, bæði í andlegu og líkamlegu tilliti, tekið undir með postulanum og sagt: af Guðs náð er eg það eg er; fyrr getið þèr ekki rètt matið þau gæði nè þá krapta, sem Drottinn hefur gefið yður, ekki rètt matið umönnun, hjúkrun og hlutekníng ástvina yðar. Ef vèr þannig hugleiðum, hve óteljandi náðargjafir vèr þiggjum daglega af Drottins hendi, þá mun jafnvel sá, sem mest möglar og kvartar, hljóta að viðurkenna, að bæn hans um daglegt brauð ekki hefur vantað bænheyrslu, og hvernig sem á stendur fyrir oss, verðum vèr með hrærðum hjörtum að játa, að vèr erum minni miskunsemi og trúfesti Guðs. Og þèr, sem eptir afstaðna mæðu og andstreymi lífsins loksins hafið fundið hvíld, þèr, sem Drottinn hefur gætt fyrir örbyrgð og atvinnuskorti, sem hann hefur veitt nægilegt til lífsins viðurhalds, getið þèr neytt yðar daglega brauðs án þess að lypta hjörtum yðar upp til miskunsemdanna föður með bæn og þakkargjörð? „þakkið því

Drottni, því hann er góður og hans miskunsemi varir eilíflega!“

4. Vèr eigum að fara vel með daglegt brauð eins og allar aðrar guðsgjafir, og verja því eins og þeim eptir gjafarans tilgángi. Þegar Jesús hafði mettað mannfjöldann, sagði hann til lærisveina sinna: „safnið saman þeim leifum, sem af geingu, svo að ekkert spillist“. Er þetta ekki áminníng fyrir sèrhvern, sem vill vera Jesú lærisveinn, um að fara vel með gjafir Guðs? Vèr sjáum, hvernig Jesú lærdómur setur nautn tímanlegra hluta takmörk og reglur, og upplýsir sèrhvert atvik í lífi voru; eins og hann er leiðtogi vor í andlegum efnum, eins er hann það líka í tímanlegum, og vèr erum ekki sannir lærisveinar hans, nema vèr hlýðum honum í hvorumtveggja, nema vèr reynumst honum trúir einnig í því, sem minna er í varið. Eptirtekt á því, sem hann hefur boðið í tímanlegum efnum, hefur einatt orðið meðal til að snúa hjörtunum til Guðs og leita hans, meðal til þess að vekja umhugsun um þá hluti, sem heyra guðsríki til, því hann er vanur að hafa það, sem oss þykir lítið í varið, til að ná háleitu augnamiði. Margir hafa firrt sig friði og farsæld með því að brjóta Guðs boðorð í því, sem þeim virtist lítilfjörlegt. Hefur ekki svall og eyðslusemi einatt leitt af sèr skort, og örbyrgðin freistað til syndar, syndin leitt til forherðíngar og forherðíngin til glötunar? Hefur ekki einatt sömu ógæfu leitt af gagnstæðum upptökum? Hefur ekki ágirnd einatt leitt af sèr kærleiksleysi við Guð og menn, kærleiksleysið leitt af sèr harðýðgi og miskunarleysi, miskunarleysið útsogið hús ekkna og föðurlausra, og tár þeirra leitt af sèr hefnd og hegníngu? Gætum vor, kærir bræður! fyrir báðum þessum villigötum og biðjum Guð að fræða oss um sitt ráð og sinn vilja einnig í þessum tímanlegu efnum. Jesús hefur víða í sínu orði sýnt oss, hvernig vèr eigum að verja tímanlegum gæðum og jafnframt tekið oss vara fyrir, að festa hjörtu vor ofmjög við þau; hann hefur sagt oss, að þau sèu ekki rèttileg eign sálar vorrar, heldur einúngis ætluð henni til framfara og fullkomnunar í þeim hlutum, sem hafa eilíft og ævaranda gildi, og hann hefur bætt þessari áminníngu við: „Gjörið yður vini af þeim rángfeingna mammóni, svo þegar yður þrýtur, þá meðtaki þeir yður í eilífar

tjaldbúðir“ (Lúk. 16., 9.). Þèr spyrjið máske, sem þykist hafa til margra ára samansafnað: hve nær mun oss þrjóta? Æ! eitt sinn þrýtur oss alla; á dauðastundu vorri erum vèr allir þurfamenn; þá er öll stundleg eign með æfi vorri þrotin, og þá munum vèr fegnir óska, að einhver, jafnvel hinn lítilmótlegasti meðal bræðra vorra, yrði til þess, að biðja fyrir oss; þá munum vèr fegnir óska að mega hitta einhverja hinu megin grafarinnar, sem taka fagnandi á móti oss, og minnast þess, er vèr gjörðum þeim gott meðan vèr vorum enn á veginum með þeim. Ef þèr fyrir alvöru hugsið til þessarar stundar, kristnir bræður! — og hún er, ef til vill, ekki svo fjarlæg — þá munu eflaust æðri og háleitari tilfinníngar vakna í hjörtum yðar, þegar þèr hugsið um eignir yðar og neytið yðar daglega brauðs. Þeir, sem þèr sýnið örlæti, eru ekki ætíð þeir, sem helzt þurfa hjálpar við; gjafir yðar miða ekki ætíð til þess að bæta úr skorti hins nauðstadda; en þó þèr gjörið gott þeim, sem yður gjöra gott, hvaða þakklæti eigið þèr þar fyrir skilið? segir frelsarinn. Gjafir og velgjörðir eru ekki ætlaðar þeim, sem ekki þurfa þeirra við. Guð gaf oss ekki daglegt brauð til þess, að vèr skyldum fleygja því burt án tilgángs og blessunar; þess vegna segir Jesús: „þegar þú býður til miðdags eða kvöldverðar, þá bjóð þú hverki vinum þínum, bræðrum eða náúngum, ekki heldur ríkum nágrönnum þínum, svo ekki bjóði þeir þèr aptur og njótir þú svo endurgjalds, heldur bjóð þú fátækum, vönuðum, höltum og blindum; og sæll ertu þá, því þeir hafa ekkert til að endurgjalda þèr með; en það mun verða þèr endurgoldið í upprisu rèttlátra“ (Lúk. 14., 12.—14.). Látið því góðgjörðasemi yðar koma niður á sönnum þurfamönnum, og spretta af mannelsku og meðaumkun með bágindum nauðstaddra bræðra; og þegar þèr miðlið fátækum af yðar daglega brauði, og gjörið það, ekki í neinum eigingjörnum tilgángi, heldur af kristilegum kærleika, þá verið vissir um, að slíkar fórnir líka Guði vel, og hann, sem ekki lætur einn vatnsdrykk ólaunaðan, mun á efsta degi ávarpa yður með þessum huggunarfullu orðum: „húngraður var eg, og þèr gáfuð mèr að eta; þyrstur var eg, og þèr gáfuð mèr að drekka; gestur var eg, og þèr hýstuð mig; nakinn, og þèr klædduð mig; sjúkur, og þèr hjúkruðuð mèr; í dýflissu, og þèr vitjuðuð mín . . . hvað þèr gjörðuð við einn af þessum

minnstu bræðrum mínum, það hafið þèr mèr gjört" (Matth. 25. 35.—36., 40.). Æ, lokum því aldrei hjörtum vorum fyrir mannelskunar viðkvæmu tilfinníngum, heldur höfum Jesú heilaga dæmi, sem eingan lèt synjandi frá sèr fara, jafnan fyrir augum; en gætum jafnframt að þessum hans orðum: „safnið saman þeim leifum, sem afgeingu, svo að ekkert spillist". Lesum aptur og aptur þessi orð; þau eru töluð til vorra tíma; þau eru töluð til þín, hugsunarlausi faðir! sem sóar eignum þínum í svalli og eyðslusemi, sem sóar burt daglegu brauði konu þinnar og barna, sóar burt því, sem Guð gefur þèr og þeim til lífsins viðurhalds. Þau eru töluð til þín, hugsunarlausa móðir! sem með óhófi og hirðuleysi spillir guðsgáfum og ódrýgir þær. Þau eru töluð til þín, hugsunarlausi únglíngur! sem ekki vilt neyta þíns brauðs í sveita þíns andlitis, sem eyðir tímanum í iðjuleysi og sóar burt eignum foreldra þinna í lèttúð og gjálífi, í stað þess að láta þèr fara fram í því, sem gott er, og auðga anda þinn að nytsamlegri þekkíngu, í stað þess að gjöra þig hæfilegan til að hjálpa þínum hrumu foreldrum, þínum nauðstöddu náúngum, eða efla heillir þess fèlags, sem þú lifir í.

Gætum þess allir, góðir bræður! að vèr lifum ekki til að eta og drekka, heldur etum vèr og drekkum til að geta lifað; þess vegna neytum vèr ekki rèttilega vors daglega brauðs nema vèr látum það minna oss á vort æðra andlega líf. Eins og hið líkamlega líf daglega þarf matar og drykkjar við til síns viðurhalds, eins þarf líka vort andlega líf að viðhaldast og endurnærast af guðsorði og bæninni, svo trú vor, kærleikur og hlýðni við Guð daglega endurnýist; og sælir værum vèr, ef oss eins húngraði og þyrsti eptir guðsorði og eilífu lífi, eins og vèr finnum til líkamlegs húngurs og þorsta. Af þessu sjáum vèr, mínir elskanlegir! að daglegt brauð, að viðhald vors líkamlega lífs, minnir oss á vorar sálarþarfir. En þó vèr gefum þessu gaum í dag, þá erum vèr, ef til vill, búnir að gleyma því á morgun. Ó, að vèr mundum þó til þess, að einginn af oss veit, nema hann á morgun verði lagstur veikur og þurfi þá ekki líkamlegrar fæðu við. Hve ógæfusamur værir þú þá ekki, kristinn maður! ef þú þá ekki fyndir til húngurs og þorsta eptir hinni andlegu fæðu, ef þig þá ekki lángaði til að verða hluttakandi í því lífsins brauði og lífsins vatni, sem frelsarinn

gefur öllum sanniðrandi mönnum, sem á hann trúa! En getur þú verið fullviss um þetta, hafir þú ekki hugsað um það á heilbrigðu dögunum, nè um annað enn nauðsynjar þíns tímanlega lífs? Ætti þá ekki þín daglega þörf að geta minnt þig á þínar eilífu þarfir? Himneski mildiríki faðir! kenn þú oss að verja rètt þínum miskunargjöfum; lát þú sèrhverja tímanlega gjöf þína minna oss á ástgjafir þíns anda, minna oss á þig, gjafarann allra góðra hluta, og miða til að vekja þakklæti við þig og elsku til þín í vorum hjörtum; þá munt þú og blessa oss hin tímanlegu gæðin og meðtaka í náð vor bænarandvörp; þá munt þú einnig á síðan á sælunnar landi gefa oss lífsins brauð að eta og drykkja oss með straumum þinnar náðar. Amen.

---

## Á boðunardag María.

### Bæn.

Ómælanleg er þín alvizka og þín gæðska, eilífi himneski faðir! himin og jörð bera vitni um þína guðlegu hátign, um þína alfullkomnu veru. Þín alvizka- og þín gæðska birtist í öllum sköpuðum hlutum, smáum og stórum, í náttúrunnar og náðarinnar ríki; en hvergi þreifum vèr betur á þessu enn í þeim fagnaðarboðskap, sem oss er fluttur í dag um sendíngu þíns eingetna sonar, frelsara vors Jesú Krists. Æ! gef þú oss náð til þess að meðtaka þenna háleita og himneska boðskap í auðmýkt og einfeldni hjartans, með bljúgu barna sinni, svo hann geti haft áhrif á vor hjörtu og fyllt þau fögnuði og lotníngu, elsku og þakklæti fyrir þinn óumræðilega kærleika til vor aumra og syndugra manna. Fyrir þèr er einginn hlutur ómáttugur; gjör við oss betur enn vèr megnum að biðja og skynja; bænheyr það í Jesú nafni! Amen.

### Guðspjallið

(Lúk. I., 26.—37.).

Á hinum sjötta mánuði sendi Guð eingilinn Gabríel í borg þá í Galíleu, sem heitir Nazaret, til þeirrar meyjar, er

María nefndist; hún var heitmey þess manns, sem Jósep hèt, af Davíðs ætt. Eingillinn gekk inn til hennar og sagði: heil sèrtu, sem nýtur náðar Guðs og hylli, þú hin sælasta allra kvenna! En þegar hún sá eingilinn, varð hún hrædd af hans orðum, og hugleiddi, hvílík þessi kveðja væri. Eingillinn sagði: óttast þú ekki, María! því þú fannst náð hjá Guði. Sjá, þú munt barnshafandi verða og fæða sveinbarn; hann skaltu láta heita Jesús; hann mun mikill verða, og kallast sonur ens hæsta. Drottinn Guð mun og gefa honum ríki Davíðs forföður hans, og hann mun ríkja yfir Jakobs ætt að eilífu; og á hans ríki mun einginn endir verða. María svaraði: hvernin má þetta ske, fyrst eg hefi eingan mann kennt? Eingillinn svaraði: heilagur andi mun koma yfir þig, og kraptur hins hæsta mun yfirskyggja þig, og því mun hið heilaga, sem af þèr fæðist, kallast sonur Guðs. Og sjá þú, Elzabet frændkona þín er orðin hafandi að sveinbarni í elli sinni, og hún, sem álitin var óbyrja, er komin allt á sjötta mánuð; því Guði er einginn hlutur um megn. María sagði: sjá, eg er ambátt Drottins, verði mèr eptir orði þínu! En eingilinn veik á burt frá henni.

## Inngángur.

Frá því er Guð optsinnis og á margan hátt talaði til feðranna fyrir spámennina allt til þess hann á hinum síðustu tímum talaði til vor fyrir soninn, já, á öllum öldum hefur guðsorð feingið ólíkar viðtökur hjá tvennslags mönnum: hjá vitríngum þessarar veraldar og hinum fáfróðu, hjá þeim, sem þóttust hafa lykil vizkunnar í andlegum efnum, og hinum, sem með barnslegu trúnaðartrausti tóku á móti því, sem himnafaðirinn talaði um sitt ráð og sína veru. Þessar ólíku viðtökur, sem guðsorð hefur feingið, eiga sèr djúpar rætur í mannlegri náttúru. Í öndverðu gæddi Guð vorn innra mann tveimur aðalkröptum: skilníngi og vilja, sem voru sama eðlis og andi mannsins og stefndu báðir í friði og eindrægni að sama takmarki.

En syndin kom inn í heiminn og hún depraði sjón skilníngsins og lagði viljann í fjötur girndanna. Syndin kom og aðskildi það, sem Guð hafði sameinað; hún truflaði samhljóðun mannlegs anda og raskaði hinum innra friði sálarinnar. þannig sljófgaðist skilníngurinn og maðurinn missti lífið í Guði sökum fávizku sinnar og blindni hjarta síns. þessi blindni var innifalin í sjálfsþótta og drambsemi, í því var syndafall mannsins innifalið. þess vegna birtist Jesús, að hann „niðurbryti djöfulsins verk“, að hann „sundurmolaði höggormsins höfuð“, að hann lækkaði drambsemi viljans, sem ekki vildi hlýðnast Guðs vilja, og drambsemi skilníngsins, sem „hóf sig upp á móti Guðs þekkíngu“ (2. Kor. 10., 5.). Í drambsemi viljans og skilníngsins er syndafall mannanna enn þá innifalið, en í auðmýkt viðreisn og viðrèttíng þeirra. þess vegna kom Jesús auðmjúkur og lítillátur af hjarta, og kenndi oss auðmýkt með orði og verki, og var hlýðinn allt til dauðans, já, allt til dauða á krossinum. þess vegna vegsamaði hann sinn himneska föður fyrir það, að hann hefði auglýst það fáfróðum, sem vitríngum var hulið, fyrir það, að sannleikurinn ruddi sèr til rúms í sálum mannanna, ekki fyrir fortölur „spaklegrar málsnildar“, heldur með sínum eigin krapti og einfaldlegri kenníngu guðhræddra leikmanna. Í hinni fyrstu kristni voru ekki margir „kallaðir“ af „vitríngum þessarar veraldar“, „því þareð heimurinn með sinni guðsspeki ekki þekkti Guð af spekinni, þá þóknaðist Guði að gjöra þá með einfaldlegri kenníngu hólpna, er henni vildu trúa“ (1. Kor. 2., 21.). þessi einfaldlega kenníng hljóðaði um Jesú guðlega eðli og um Krist, hinn krossfesta, krapt og speki Guðs. þetta var forðum og er enn sá ásteytíngar steinn, sem margir hafa rekizt á og „liðið skipbrot á trú sinni“. Orsökin til þessa er fyrr og síðar sú, að hinn sterki stærði sig af styrkleika sínum og vitríngurinn af vizku sinni. Viljinn með fýsnum sínum og geðshræríngum vildi stjórna sèr sjálfur, en ekki hlýðnast heilögu lögmáli Guðs. Skilníngurinn með hugsunum og eptirgrennslunum sínum vildi ríkja og ráða í hinum andlega heimi, en ekki lúta hinni æðri speki og kærleika, sem yfirgeingur allan skilníng“. þannig spratt upp, magnaðist og útbreiddist sú drambsemi mannlegs hyggjuvits, sem þóttist geta „ þekkt allt, og jafnvel Guðs leyndarráð“, sem ekki vildi

í auðmýkt rannsaka ritníngarnar og leyndardóma guðsríkis, heldur rèðist með hroka og frekju á helgidóminn, á hið „helga musteri, sem byggt er á þeim grundvelli, sem postularnir og spámennirnir hafa lagt, hvers hyrníngarsteinn Jesús Kristur er“ (Ef. 2., 22.).

Guðspjallið gefur oss tilefni til að halda þessum hugleiðíngum áfram, og því viljum vèr, með Guðs aðstoð, verja þessari helgu stundu til að íhuga

samband mannlegrar vizku við leyndardóma guðsríkis.

Þegar Jesú móðir heyrði orð eingilsins og „hugleiddi, hvílík þessi kveðja væri“, hlaut henni að þykja boðskapur hans ótrúanlegur, þegar hún skoðaði hann eingaungu við ljós skynsemi sinnar. Í hennar auðmjúka frómlundaða hjarta kviknaði líka nokkurs konar efasemd, er hún lèt í ljósi með þessum orðum: „hvernig má þetta ske“? En þessi efasemd hvarf jafnskjótt aptur; því þegar eingillinn benti henni á „krapt hins æðsta“ og minnti hana á þann sannleika, að „fyrir Guði væri einginn hlutur ómáttugur“, tók hún með undirgefni á móti hinum himneska boðskap og sagði: „sjá, eg er Drottins þjónustukvinna, verði mèr eptir orði þínu!“ Með viðlíkri auðmýkt eigum vèr, kristnir bræður! að aðhyllast þann himneska boðskap, sem oss er fluttur í Jesú náðarlærdómi, þá einglakveðju, sem oss er send í evangelio.

Mannleg skynsemi á rètt á

1) að spyrja: „hvernig má þetta ske?“ — að spyrja sjálfa sig: *hver þörf og nauðsyn sè á guðlegri opinberun.* Hinn ígrundandi skilníngur mannsins er dásamleg Drottins gjöf. Sá, sem gjörir lítið úr gjöfinni, vegsamar ekki gjafarann. Í stað þess að aðrar skepnur umhverfis oss ekki geta tekið á móti áhrifum lífsins nema með hinum ytri skilníngarvitum, þá getum vèr með hugsunum, ígrundun og rannsókn kannað ríki náttúrunnar og stöndum í sambandi við annan æðri andlegan heim. Mikið og víðlent er það ríki, sem mannlegur andi hefur mælt og ferðazt um. Hann hefur stigið upp á hæðir sannleikans og niður í djúp spekinnar; hann hefur fylgt

stjörnunum á ferðum þeirra um hinn ómælanlega himingeim; hann hefur rannsakað innýfli jarðarinnar; og það sem meira er, hann hefur lypt sèr yfir hina sýnilegu hluti upp til ósýnilegrar veraldar, yfir himininn og stjörnur hans upp til hins ósynilega Guðs, sem himnar himnanna ekki fá innibyrgt, upp til hins eilífa, sem ekki takmarkast af tíma nè rúmi, sem ekki er bundinn við stund nè stað; hann sèr innra með sèr, fyrir utan sig og í öllum hlutum merki uppá nálægð og verkanir Guðs; hann heyrir „himnana segja frá Guðs dýrð og festínguna kunngjöra verkin hans handa“; og í djúpi sálarinnar heyrir hann raust hins sama Guðs. Skilníngurinn þráir sannleikann, hjartað þyrstir eptir sannfæríngu. Laungun mannlegs anda eptir sannleika og sannfæríngu er óendanleg og óseðjandi. Þángað leitar huguririnn án þess að láta tálmanir aptra sèr, án þess að þreytast af nokkurri áreynslu eða erfiðismunum. Leita þú upp á við — „legg þú út á djúpið“! — það er viðkvæði skynseminnar; það hefur verið viðkvæði hennar um þúsundir ára í sèrhverju stríði. En hversu lángt sem skynsemin getur komizt við sitt eigið ljós, hversu hraustlega sem hún brýzt gegnum villur og efasemdir, gegnum hjátrú og hleypidóma, hlýtur hún þó einatt — ef hún þekkir rètt krapta sína og veikleika sinn — með helgri lotníngu að taka undir með postulanum og segja: „ó, þá dýpt ríkdóms, speki og þekkíngar Guðs! hversu óútgrundanlegir eru dómar hans og ósporrækir vegir hans!“ (Róm. 11.,33.). Hversu hátt sem skynsemin flýgur á vængjum sínum, verður hún þó að játa, að „Guð býr í því ljósi, sem einginn fær tilkomizt“ (1. Tím. 6,16). En til Guðs, til uppsprettu sannleikans leitar þó andinn með óþreytandi ástundun og óendanlegri laungun. Þegar þú þá, mannlega skynsemi! vilt reyna til að ríma þína óendanlegu laungun saman við þína takmörkuðu krapta, þegar þú spyr: „hvernig má þetta ske“? verður þá ekki svarið þetta: einginn getur það gripið, nema honum sè gefið það hèr að ofan? Guðleg opinberan er nauðsynleg og öldúngis ómissandi, svo þú villist ekki, nè hrapir ofan í óvissunnar og efasemdanna djúp. Gakk þú áfram við þitt ljós! þú átt rètt á því; en varastu að láta ljósið, sem í þèr er, verða að myrkri, sakir oftrausts til þinnar eigin speki, og gættu þess í auðmýkt, að það ljós, sem lýsir þèr, er geisli Guðs dýrðar ljóss! Rannsakaðu og prófaðu

allt með sjálfri þèr; en játaðu jafnframt, að einginn getur leyst eins áreiðanlega úr þeim spurníngum, sem mest á ríður, eins og sá andi, sem er af Guði. Kosta þú kapps um að leita sannleikans, svo þú verðir frjáls; en gleym því ekki, að hið sanna frelsi er takmarkað af eilífum og guðlegum lögum!

Mannleg skynsemi á rètt á

2) að spyrja: „hvernig má þetta ske"? — að spyrja heilaga ritníngu *um inntak guðlegrar opinberunar.*

þegar mannleg skynsemi er komin til þeirrar viðurkenníngar, að hún vegna sljófskyggni sinnar og vanmáttar síns þurfi guðlegrar opinberunar við, til að geta haldið eptirgrennslunum sínum áfram við hennar skæra ljós og áreiðanlegu leiðsögn, þá hlýtur hún og að játa, að Guð hafi ekki einúngis ritað sitt nafn á festíngu himinsins og auglýst sína dýrð í jarðarinnar fagra skrauti, í hugsunum, tilfinníngum og lífskjörum mannanna, heldur að hann einnig hafi borið vitni um sig með helgum orðum og helgum ritum þeirra guðsmanna, sem voru fræddir, upplýstir og hrærðir af hans anda. þessar helgu ritníngar á skynsemin að rannsaka samkvæmt Jesú boðum og að dæmi hinna fyrstu kristinna manna, sem fúslega meðtóku orðið og báru það saman við ritníngarnar. Skynsemin á að leita í þessum helgu bókum, íhuga lærdóma þeirra og fyrirheit, bera bækurnar saman hverja við aðra, spámennina við postulana, gamla sáttmálann við hinn nýja. Hún á að koma samhljóðun á það, sem í fljótu áliti sýnist vera ónákvæmt, eða hvað öðru gagnstætt, burtrýma öllum vafa, koma í veg fyrir misskilníng, og taka saman í eitt það, sem er á víð og dreif, en þó jafnan gæta þess, að „guðsorð er ekki bundið" og að hinn sami guðlegi andi talar þar alstaðar, þó orðatiltækin sèu ekki hin sömu og orðfærið sè ólíkt. Hún á grandgæfilega en í auðmýkt að rannsaka orðið, ekki sem mannlegt orð, heldur „sem guðsorð, eins og það í sannleika er", þángað til hún getur tekið undir með hinum samversku og sagt: „nú trúum vèr, ekki af mannlegum fortölum, því vèr höfum sjálfir heyrt og vitum, að Jesús er Kristur, endurlausnari heimsins". Hún á, að boði postulans, „að prófa alla hluti og halda því, sem gott er"; hún á ekki

að halda því, sem gefur tilefni til hègómlegra og lèttúðarfullra þrætuspurnínga, heldur hinu, sem miðar til að efla sanna guðrækni og kristilegt trúarlíf. Hún á að rannsaka inntak ritníngarinnar, en prófa og dæma eptir þessari reglu: eingin opinberuð sannindi geta verið *gagnstæð* skynseminni; en mörg guðleg sannindi geta legið fyrir *ofan* sjóndeildarhríng skynseminnar, fyrir *utan* greindarkrapt hennar og verið *óskiljanleg*. Eingin trúarbragða sannindi geta verið gagnstæð skynseminni, því hún er geisli guðlegs ljóss; en margt í guðlegri opinberun getur legið fyrir ofan skynsemina, því hún er daufur og dapur geisli hins eilífa ljóssins. Hún getur ekki skyggnzt inn í náttúrunnar innstu fylgsni, ekki til fulls kannað djúp hennar eða til hlítar þekkt lög hennar og verkunarmáta; alstaðar verða á vegi fyrir henni, jafnvel í jarðneskum hlutum, óskiljanlegir leyndardómar og gátur, sem hún getur ekki ráðið, og því er ekki til vonar, að hún skilji til fulls himneska og andlega hluti; því öfl og eðli Guðs náðarríkis og hinnar ósýnilegu veraldar eru enn þá dásamlegri og leyndardómsfyllri. Það sem Guð þess vegna með berum og skýlausum orðum hefur auglýst um sína eilífu veru, um orðið, sem varð hold, um andann, sem af honum framgeingur, sem leiðir í allan sannleika, fræðir, endurfæðir og helgar, um endurlausn og friðþægíngu Guðs sonar, frelsara vors Jesú Krists, um hina æðri veröld, um upprisu framliðinna og eilíft líf: þetta allt má skynsemin rannsaka og útskýra fyrir sèr; en hún má ekki misskilja, rángfæra, nè tortryggja það, því „nú sèr hún ekki nema að nokkru leyti og eins og gegnum gler í þoku“. Kristileg trú hefur ætíð verið og verður ætíð vinveitt sannleikanum, ljósinu og skynseminni, því hún er sjálf sprottin af hinni eilífu skynsemi, hún er sjálf hinn æðsti og algildi sannleiki og ljós af Guðs dýrðarljósi. Sá sem heldur, að guðleg opinberan og mannleg skynsemi sèu óvinir, skilur hvoriga. Kristindómurinn er að eins óvinveittur þeirri skynsemi, „sem setur sig í Guðs musteri og tèr sig eins og hún væri Guð“ (2. Þess. 2., 4.). En þegar skynsemin rannsakar ritníngarnar, eins og þær vitna um Jesús, og um Guðs vilja og ráð til vorrar sáluhjálpar, þegar hún með innilegri lotníngu og sannleikselsku heldur sèr fast við orðið, og fer með það eins og guðsorð, þá getur hún

heimfært til sín þessi Jesú orð: „þèr munuð skilja sannleikann, og sannleikurinn mun gjöra yður frjálsa“ — frjálsa í útskýríngu ritníngarinnar, lausa við hjátrú og vantrú, við nauð bókstafsins, en Guðs þjóna í andanum. þannig á mannleg skynsemi rètt á því, að rannsaka sjálfa sig og ritníngarnar í vorum sáluhjálparefnum, og þenna rètt getur ekki vald nè ofríki myrkranna frá henni tekið; en áreiðanlegt svar upp á sínar mest umvarðandi spurníngar og óbrigðula vissu getur hún hvergi búizt við að fá, nema frá „föður ljósanna, sem öll góð og öll fullkomin gjöf kemur frá“.

þegar því mannleg skynsemi er að íhuga leyndardóma guðsríkis, *á hún*

1) auðmjúklega að játa, að fyrir guði er einginn hlutur ómáttugur — *að einginn hlutur er ómattugur fyrir Guðs alvizku.* Jafnvel hin sýnilega veröld, öfl og lög hennar eru einlæg og samföst dásemdarverka kerfi, og það eru margir hlutir í henni sem skynsemin enn þá á bágt með að átta sig í, örðugt með að skilja og útskýra. Undrunarvert og leyndardómsfullt er djúp mannlegrar sálar, og þar eru margir afkimar, sem hugurinn hefur ekki enn þá getað kannað. Og þegar vèr virðum fyrir oss hinn ósýnilega heim, sannleikans og náðarinnar himnesku veröld, þar sem Guðs vera, vilji hans og ráðsályktanir eiga heima, þá mega þeir, sem vitrastir þykja hèr á jörðu, játa, að „Drottinn vor er mikill og hans veldi mikið, og að það er óskiljanlegt, hvernig hann stjórnar“. „það sem auga hefur ekki sèð, eyra ekki heyrt og í einkis huga komið“, er einkenni Guðs alvizku. þegar nú mannleg speki vill með sínu ljósi kanna Guðs alvizku, hvern rètt á hún þá á því að mæla hana á jarðneskan mælikvarða? Hver gefur henni leyfi til þess, að fallast einúngis á það, sem hún getur skilið til fulls, en fella hitt og fleygja því, sem er fyrir ofan hennar sjóndeildarhríng? Getur maðurinn nokkurn tíma í þessu lífi náð þeirri fullkomnun í speki og þekkíngu, að hann þurfi ekki á leiðsögn Drottins að halda? Maðurinn verður aldrei svo fróður og lærður, að hann sè þó ekki einlægt barn, sem þarf Guðs föðurlegu tilsagnar við í himneskum og andlegum efnum, hans ljóss og leiðarvísis á lífsins dymmu leið, hans hjálpar

og aðstoðar í sínum veikleika, hans huggunar í hryggð og þjáníngum og umfram allt, hans náðar til að geta eflt sína sáluhjálp með ótta og andvara. Ó, legg þú þá kórónu þína og veldissprota þinn, mannlega skynsemi! niður hjá hásæti hans, sem „er konúngur konúnganna og drottinn drottnanna“. Fleyg þú þèr flatri niður við fætur guðlegrar alvizku, sem viðheldur og stjórnar öllum hlutum, sem er leiðarstjarna skynseminnar og ljós sèrhverrar hugsunar. Hugsa þú ekki, að tign þín verði minni fyrir það, þó þú auðmýkir þig fyrir alvitrum og allsvaldanda Guði. Í því er einmitt sú sanna tign mannlegs anda innifalin, að hann játi, að Guðs hugsanir og vegir eru hærri enn mannlegar hugsanir og vegir, og gefi sig á vald hans, sem með alvizku sinni „megnar að gjöra fram yfir það, sem vèr biðjum eða skynjum“ (Ef. 3., 20.).

Mannleg skynsemi á

2) auðmjúklega að játa, „að fyrir guði er einginn hlutur ómáttugur“ — *að einginn hlutur er ómáttugur fyrir Guðs kærleika.*

Sá mesti leyndardómur og sú dýrðlegasta opinberan Guðs kærleika er innifalin í því, „að Guð elskaði svo heiminn, að hann gaf sinn eingetinn son til þess, að hver, sem á hann trúir, fyrirfarist ekki, heldur hafi eilíft líf“ (Jóh. 3., 16.). „Í því sýndi Guð kærleika sinn, að Kristur er dáinn fyrir oss þegar vèr enn þá vorum syndarar (Róm. 5., 8.). Á þenna höfuðlærdóm kristilegrar trúar vill skynsemin ekki fallast, meðan hún í blindni sinni og drambsemi neitar spillíngu mannlegrar náttúru, vorri almennu syndasekt og sameiginlegum vanmætti vorum til þess af sjálfsdáðum að reisa oss við úr eymd syndarinnar og losa oss úr fjötrum hennar. Þá upprennur trúin og kveikir ljós kærleikans og sýnir hinni blindu skynsemi, að „Guð er kærleikur“, og prèdikar um auðmýkt fyrir hinni drambsömu skynsemi og kennir henni, að „Guð gefur lítillátum náð“. Í blindni sinni heldur maðurinn, að hann geti afrekað sèr sáluhjálp með ófullkominni betrun og aflvana dyggðum; en sá himneski boðskapur byggir alla von hans á þessari fullvissan: „þú fannst náð hjá Guði“. Í drambsemi sinni heldur maðurinn, að hann þurfi ekki frelsara nè endurlausnara við;

en sá himneski boðskapur nefnir nafn frelsarans og segir, að „oss sè ekkert annað nafn gefið, sem oss byrji sáluhólpnum í að verða“. Holdlega sinnaður maður, „sem ekki skynjar það sem Guðs anda er“, heldur, að hann sè einfær um að stríða við syndina og sigra hana; en sá himneski boðskapur talar um „krapt hins æðsta“, um heilagan anda, sem „í oss verkar bæði viljann og framkvæmdina“ og veitir krapta til sannrar betrúnar og helgunar. Mannleg vizka vill sjálf ráða ferðum sínum, sjálf velja sèr veg til þess friðar og þeirrar sælu, sem skynsemin vill ná með rannsóknum sínum og sem hjarta mannsins þráir; en sá himneski boðskapur vísar öllum syndugum mönnum á þenna eina sáluhjálparveg: „sjáið að yður og trúið á Drottin Jesúm! þá verðið þèr sáluhólpnir“. Þannig hefur Guð í evangelio auglýzt og útlistað kærleika sinn; og þar sem einginn hefur meiri elsku enn þá, að hann lætur lífið fyrir vini sína, þá gekk Jesús í dauðann fyrir synduga menn, þegar hann með lærdómi sínum og eptirdæmi var búinn að leiða í ljós hið ómælanlega djúp guðlegrar elsku. Eða getur heilbrigð skynsemi efazt um það eða neitað því, að það er óendanleg elska, „sem trúir öllu, vonar allt, umber allt“ og leggur lífið í sölurnar? Eða getur jarðnesk speki skilið, hvílík að sè breidd, leingd, dýpt og hæð elsku Krists, og þekkt, hversu hún yfirgeingur allan skilníng?

Í dag er í kristilegri kirkju ítrekaður boðskapurinn um Jesúm Krist, sem er lifandi opinberan hins himneska kærleika á jörðunni, og þessi boðskapur er fluttur vitrum eins og fáfróðum. Þèr vitríngar! Efablandnir rannsakið þèr ritníngarnar um Jesú undrunarverðu fæðíngu og friðþægjandi dauða, um hans kraptaverk og stórmerki, um upprisu hans og himnaför, og spyrjið: „hvernig má þetta ske“? Sè spurníng yðar ekki sprottin af lèttúð eða sjálfsþótta, líkt og þá Pilatus spurði, hvað væri sannleikur; heldur af hreinskilnum efa, af innilegri og einlægri sannleiksást, af alvarlegri viðleitni á að hafa áreiðanlega undirstöðu trúarinnar og geta gjört grein fyrir „þeirri von, sem í yður er“; þá munuð þèr og, þegar rannsókninni er lokið, eins og Tómás Jesú lærisveinn, sjá efasemdir yðar breytast í fullkomna vissu og lotníngarfullir segja: „Drottinn minn og Guð minn“! þá munuð þèr *sjá* — því Guð heimtar ekki blinda

trú — þá munuð þèr sjá og trúa, sjá og viðurkenna Drottins álvizku, sjá og trúa á hans kærleika. Og þèr, sem eruð lítt fróðir í vizku þessarar veraldar og lausir við efasýki, vantrú og sjálfbyrgíngsskap, sem með hreinu hjarta og barnslegu hugarfari meðtakið boðskapinn um guðsríki; þèr sem með kærleiksfullum hjörtum hallið yður eins og Jóhannes að Jesú brjósti og setjizt eins og María niður við hans fætur og hlýðið hans orðum og varðveitið þau í sálum yðar, þèr skiljið hina djúpu og huggunarfullu merkíngu þessara orða: „fyrir Guði er einginn hlutur ómáttugur"; því þèr hafið reynt mátt guðlegrar náðar á sjálfum yður; þèr hafið reynt, hvílíkan mátt hans miskunsemi hefur til að hreinsa samvizku yðar og hugsvala sálum yðar. Geymið yðar einfaldlegu og hreinu barnatrú, og „látið hana ekki hrekjast og feykjast af hverjum lærdóms vindblæ" (Ef. 4., 14.). Gætið að raust trúarinnar, þessa himneska sendiboða, sem á hverju ári og hverjum degi kemur til yðar og flytur yður fagnaðarboðskapinn „um Jesúm Krist, son hins æðsta" og fullvissar um, að á hans ríki" — sem er sannleikans og náðarinnar ríki — „muni einginn endir verða".

Æ, Drottinn! styrk þú vora veiku trú; glæð þú vorar guðrækilegu tilfinníngar, svo vèr með lotníngu og auðmýkt, þakklæti og elsku meðtökum þinn himneska náðarboðskap; lát þú þenna fagnaðarboðskap veita oss krapta til að berjast góðri baráttu trúarinnar og vinna sigur yfir vantrú skilníngsins og drambsemi hjartans, og yfir öllu því, sem vill leiða oss frá þèr og frelsara vorum! Nú sjáum vèr eins og í þoku og ráðgátu; en vèr höfum þá von til þín, að þú munir á síðan leyfa oss að sjá augliti til auglitis; leyfa oss að gánga í skoðuninni á landi sælunnar og þekkja til fulls leyndardóma þíns ríkis, ef vèr hèr höldum trúnni og góðri samvizku. Amen.

---

## Á pálmasunnudag.

### Bæn.

Æ, hvernig eigum vèr verðuglega að lofa þig, vor guðdómlegi frelsari, vor blessaði konúngur, sem kemur í Drottins nafni! Aldrei getum vèr þakkað þèr, eins og vera ber, fyrir allar þær óteljandi velgjörðir, sem þú hefur veitt oss, fyrir þá óumræðilegu elsku, sem kom þèr til að láta lífið vor vegna. Ekkert höfum vèr, Drottinn! sem vèr getum vottað þèr með þakklæti vort, nema sjálfa oss og vor hjörtu. Vor hjörtu færum vèr þèr sem þakklætisfórn, þau breiðum vèr á veginn móti þèr. Æ, gjör þú þau hæfileg til þessa af þinni náð, hæfileg fyrir þína íbúð og til að vera musteri þíns anda: þá getum vèr elskað þig af hjarta, og í elskunni til þín orðið farsælir bæði hèr og síðarmeir. Amen.

### Guðspjallið
(Matth. XXI., 1.—9.).

Í þann tíma. Og þá er þeir tóku að nálgast Jerúsalem, og komu til Betfage hjá fjallinu Olívetí, sendi Jesús tvo af lærisveinum sínum, og sagði til þeirra: farið þèr í það kauptún, sem gagnvart yður er, og strax munuð þèr finna ösnu bundna og fola hjá henni, leysið hana og leiðið til mín. Og ef einhver segir nokkuð til yðar, þá segið, að herra yðar hafi þeirra þörf, og jafnsnart mun hann sleppa þeim við yður. En það skeði, svo að uppfylltist hvað sagt er fyrir spámanninn, er svo segir: segið dótturinni Zíon: sjá, þinn konúngur kemur til þín hógvær, sitjandi á ösnu og á fola klifbærrar ösnu. En lærisveinarnir geingu á burt, og gjörðu svo sem Jesús bauð þeim, og leiddu með sèr ösnuna og folann, lögðu klæði sín yfir þau og settu hann þar upp á. En margt fólk breiddi sín klæði á veginn og aðrir hjuggu kvistu af trjánum og dreifðu þeim á veginn; en múgurinn, sem fyrir þeim gekk og eptir fylgdi, kallaði og sagði: Hósíanna syni Davíðs! blessaður sè sá, sem

**kemur í nafni Drottins! Hósíanna í hæstum hæðum!**

## Inngángur.

Af guðspjallinu sjáum vèr, kærir bræður! að þegar frelsari vor reið inn í Jerúsalem, „breiddi margt fólk klæði sín á veginn og aðrir hjuggu kvistu af trjánum og dreifðu þeim á veginn“. Sömuleiðis getur guðspjallið um fagnaðaróp lýðsins. Það er líklegt, að hjartað hafi átt einhvern þátt í þessari lotníngu, sem lýðurinn sýndi Jesú, því þetta var ekki nauðúngarverk, heldur sprottið af frjálsum vilja. Verið getur, að sumir hafi gjört það í hugsunarleysi og til þess að vera eins og aðrir, eins og vant er að vera við slík tækifæri; en þó hefur eflaust hjá nokkrum hugur fylgt máli, og þeir hafa með þessu ætlað að sýna Jesú lotníngu sína. Yfirhöfuð má þó fullyrða, að hjartalag lýðsins var ekki eins og það átti að vera; hann vantaði rètta þekkíngu á því, hver þessi Davíðs son væri, sem kom í nafni Drottins og sem þeir árnuðu heilla og hamíngju; hann vantaði sannar þakklætis tilfinníngar fyrir allar Jesú velgjörðir og stöðuga elsku til hans, því nokkrum dögum síðar fylgdi þessi sami lýður Jesú til krossins með hæðni og háðúngarorðum. Fjærri sè það oss, kristnir bræður! að líkjast þessum hviklynda og hugsunarlausa lýð; fjærri sè það oss, einúngis með vörunum að vegsama frelsara vorn og lofsýngja honum, sem fór upp til Jerúsalem til að láta þar líf sitt fyrir oss. Hann getur með rèttu heimtað meira af oss enn lofgjörð varanna; hann á heimtíng á hjörtum vorum, og þau eru sú fórn, sem honum þóknast. Eða er það ekki sanngjarnt, að vèr gefum honum hjörtu vor, sem gaf sjálfan sig í dauðann fyrir oss? Og hve nær gefum vèr honum hjörtu vor? Þegar hjörtun eru hrærð og gagntekin af innilegu þakklæti við hann fyrir allar hans náðarríku velgjörðir við oss; þegar vèr með hreinskilni elskum hann umfram allt í veröldinni, og þegar elskan til hans burtrýmir úr hjörtum vorum elsku til syndarinnar og kemur því til leiðar, að vèr girnumst ekki annað enn það, sem honum er þóknanlegt; þegar vèr kostgæfilega ástundum að hlýða hans vilja og breyta eptir hans boðum og gefum oss á vald hans

með fullkominni sjálfsafneitun. Látum oss af þessu taka oss tilefni til á þessari helgu stundu að hvetja hver annan til

*að helga Jesú hjörtu vor.*

1. Helgun hjartans er sú bezta þakklætis fórn, er vèr getum fært frelsara vorum fyrir það, að hann fór nú upp til Jerúsalem til að láta líf sitt fyrir oss. Að þetta var tilgángur hans með þeirri innreið í borgina, sem guðspjallið skýrir frá, um það getum vèr hæglega sannfærzt. Þetta var skömmu fyrir páskahátíðina, rètt um það leyti sem vant var að slátra páskalambinu, er gjört var ekki einúngis í minníngu þess, að Ísraelsmenn frelsuðust frá morðeinglinum, er fór framhjá húsum þeirra, sem á húsdýr sína höfðu rjóðrað blóði páskalambsins, heldur og því til fyrirmyndunar, að vèr fyrir Jesúm mundum frelsast frá Guðs hegnandi rèttlæti, frá bölvun lögmálsins og óvinum sálna vorra. Jesús sýndi því með þessari ferð sinni, að hann var það guðslamb, sem bar heimsins syndir. Hann fór nú að láta líf sitt fyrir oss, „því einnig vèr", segir postulinn, „höfum páskalamb, sem slátrað er vor vegna; en það er Kristur" (1. Kor. 5., 7.). Um þetta sannfærumst vèr enn fremur bæði af vitnisburði spámannanna og af Jesú eigin orðum. Þess vegna stendur í guðspjallinu: „en það skeði, svo að uppfylltist, hvað sagt er fyrir spámanninn". Ef vèr hyggjum að þessum orðum, eins og þau eru hjá Sakarías spámanni (9., 9.) og gætum að sambandi þeirra við það, sem á eptir kemur, sjáum vèr ljóslega, að spádómurinn var ekki einúngis innifalinn í því, að hann ætti að ríða upp til Jerúsalem á ösnu og fola hennar, heldur einnig í því, að hann með sínu blóði og sínum dauða friðþægði fyrir syndir vorar. Hjá spámanninum kallast hann ekki einúngis konúngur, heldur og „rèttlátur frelsari", af því hann með sínu fullkomna rèttlæti vor vegna fullnægði Guðs rèttlæti. Eða getur nokkur hlutur berlegar sýnt oss tilgáng Krists innreiðar í Jerúsalem, enn vitnisburður sjálfs hans, þegar hann sagði dauða sinn fyrir, tilgáng hans og heillaríkar afleiðíngar? Vèr viljum einúngis tilgreina það, sem hann sagði við lærisveina sína áður enn hann fór af stað upp til Jerúsalem. „Nú förum vèr til Jerúsalem", sagði hann, „og þar mun mannsins sonur framseldur verða höfuðprestunum og hinum skriptlærðu, og þeir munu hann til dauða dæma, og framselja hann heiðíngjum, að

þeir hæði hann, húðstrýki og krossfesti; en á þriðja degi mun hann upprísa (Matth. 20., 18.—19.). Og tilgáng þessa sýnir frelsarinn rètt á eptir, þar sem hann segir: „mannsins sonur kom ekki til þess að aðrir skyldi honum þjóna, heldur að hann þjónaði öðrum og lèti líf sitt mörgum til endurlausnar“ (28. v.). þannig fór þá Jesús upp til Jerúsalem til þess að láta þar líf sitt fyrir oss. Ó, hvílík dæmalaus og óviðjafnanleg elska! Jesús segir sjálfur, að einginn hafi meiri elsku enn þá, að hann láti líf sitt fyrir vini sína; hann einn hefur látið meiri elsku í ljósi, þegar hann dó fyrir oss, meðan vèr enn þá vorum óvinir; þegar hann dó heilagur fyrir oss synduga, saklaus fyrir oss seka. Og hve dýrmætar og ómetanlegar eru ekki þær náðarríku velgjörðir, sem hann með dauða sínum hefur afrekað oss, fyrirgefníngu syndanna, frið við Guð og samvizku vora og eilíft líf. Er þá ekki þvílík elska, þvílíkar velgjörðir þess verðar, að vèr gefum og helgum Jesú hjörtu vor? Ættum vèr ekki að úthella hjörtum vorum í lofgjörð og þakkargjörð fyrir alla þá elsku og gæðsku, sem hann hefur oss auðsýnt? Ættum vèr ekki að sýna honum það þakklætismerki, sem vinir geta heimtað hver af öðrum, sem sè, að elska þá aptur á mót? Megi það með sanni heita vanþakklæti, að launa velgjörðir og vináttu með eintómum fláttskap og fagurgala, hvað má þá segja um oss krisna menn, ef vèr lofum lausnara vorn einúngis með vörunum, en finnum ekki til hans kærleika í hjörtunum, ef vèr elskum hann ekki umfram allt, sem af einskærri elsku sinni til vor gekk í dauðann fyrir oss? Æ, látum oss þá ekki synja honum um þá einu þakklætisfórn, sem honum er velþóknanleg, þá einu þakklætisfórn, sem vèr getum í tè látið, og sem kemur oss í andlegt og eilíft samfèlag við hann!

2.) Látum oss helga Jesú hjörtu vor, því það er sú áreiðanlegasta vissa, sem vèr getum gefið honum fyrir því, að vèr viljum lifa og deyja honum. Sèu hjörtu vor gagntekin af elskunni til Jesú og full af þakklætis tilfinníngum vegna hans óumræðilegu velgjörða við oss, þá hlýtur þetta að gjöra oss fúsa til að lifa og deyja honum. Með þessum orðatiltækjum gefur ritníngin til kynna skyldur vorar við endurlausnara vorn, og koma þau víða fyrir í brèfum postulanna *).

*) Smbr. Róm. 14., 7.—8.; 2. Kor. 5.; Gal. 2.

Vèr lifum honum, þegar vèr förum ekki eptir því, sem vor spillta náttúra og vondar girndir eggja oss á, gjörum ekki það, sem illt er, af ásetníngi, nè vanrækjum vísvitandi það, sem gott er. Vèr lifum honum, þegar vèr ekki lögum breytni vora eptir dómum og illu eptirdæmi spilltrar veraldar, því andi og eðli hennar er einatt gagnstætt eðli og anda kristindómsins, nè heldur eptir ímyndunum vorum og inngrónum hleypidómum. Vèr lifum honum, þegar vèr leggjum stund á hið góða með þeim fúsleik og þeim kröptum, sem hans náð hefur vakið hjá oss og veitt oss, leitumst við að hlýða hans boðum, feta í hans fótspor og taka framförum í öllum kristilegum dyggðum. Þegar vèr í allri vorri breytni ástundum að efla hans dýrð og gefum honum dýrðina í öllum hlutum; þegar vèr leitum vorrar farsældar í samfèlagi við hann og í sannri trú og með stöðugri og innilegri bæn kappkostum að efla vora sáluhjálp með ótta og andvara: þá verður um oss sagt, að vèr lifum honum, og þá getum vèr átt það víst, að deyja honum, átt það víst, að deyja í sameiníngu við hann og að vilja deyja hans vegna. Þá verðum vèr fúsir á, að leggja jafnvel lífið í sölurnar hans vegna og gánga ókvíðnir mót dauða vorum, þegar hans dýrð það af oss heimtar; þá vitum vèr líka, að þegar dauðinn kallar oss burt frá þessu lífi, þá deyjum vèr í samfèlagi við hann, vitum, að vèr þá verðum hluttakandi í þeim sigri, sem hann vann yfir dauða og helvíti, og þessi von og vissa veitir oss krapta til að sigra dauðans beiskju, og djörfúng til að deyja í Jesú nafni og fela vorn anda í hendur vors himneska föður. Kristnir bræður! innrætum oss þessar tvær skyldur: að lifa Kristi og deyja honum; hugleiðum, hve háleitar og áríðandi þær eru, og hve nauðsynlegt það er fyrir oss, að taka til að gegna þeim í tíma. Til þess að geta gegnt þeim rækilega og trúlega, þarf mikið stríð við hold og blóð, mikla sjálfsafneitun, mikla kostgæfni, árvekni og bænrækni. En hversu lítið hugleiða þeir þetta, sem enn þá hafa allan hugann á þessu stundlega og hverfula, sem hafa hjörtun fjötruð í heimsins þjónustu, sem láta sèr stjórna af syndsamlegum girndum og tilhneigíngum, sem annaðhvort aldrei hugsa um dauðann, eða hugsa til hans með hræðslu og viðbjóði, af því þeir óttast fyrir hans ófarsælu afleiðíngum. Svo náið samband er milli þess að lifa Jesú og

að deyja honum. það er því svikul huggun, sem syndarinn leitar sèr í Jesú friðþægjandi dauða, ef hann ver lífi sínu í þjónustu syndarinnar og hugsar, að hann án sannrar iðrunar muni fyrir Jesú forþènustu sakir fá hægan og sáluhjálplegan dauða. En eins er það óttalegt, að vilja iðrast lastafulls lífernis með því að taka sjálfur af sèr lífið, og halda, að vèr í trausti til Guðs miskunar og Jesú friðþægjandi dauða, megum vera skeytíngarlausir um hin seinustu augnablik lífsins, og að það standi á sama, hvernig vèr deyjum, hvort það er af sjálfsvöldum eða ekki. Æ, eins og það er víst, að sá, sem lifir Jesú, það er að skilja: lifir samkvæmt hans vilja og honum til dýrðar, deyr Jesú, það er að skilja: deyr í samfèlagi við hann, í fullvissu um, að fá að sameinast honum eilíflega; eins víst er líka hitt, að sá, sem lifir og deyr sem lasta og synda þræll, hann deyr í ógæfusömu sálarástandi; og að það líf er ekki helgað Jesú, sem endar í örvæntíng.

3.) Loksins getum vèr með því að helga Jesú hjörtu vor, bezt búið oss undir það, að verja rèttilega þeim hátíðardögum, sem nú fara í hönd, bezt búið oss undir það, að hugleiða rèttilega þær náðarríku velgjörðir, sem þeir gefa oss tilefni til. Er nokkur þörf á því, kristnir bræður! að telja þessar velgjörðir upp? Kemur oss ekki ósjálfrátt til hugar sú kærleikans máltíð, sem Jesús tilsetti þá sömu nótt, sem hann var svikinn, pína hans og dauði og hans dýrðlega upprisa? þeir hátíðlegu dagar, sem nú fara í hönd, gefa oss sèrlegt tilefni til að endurminnast þessara þriggja velgjörða, sem eru svo mikilvægar fyrir oss kristna menn og svo náskildar eptir eðli sínu. Ættum vèr þá ekki að verja öllu athygli voru til að búa oss rèttilega undir slíkar hugleiðíngar? En þessi undirbúníngur heimtar ekki einúngis athygli vort, heldur og það, að vèr snúum hjörtum vorum til Jesú og helgum honum þau.

Ef vèr hugleiðum þá ómetanlegu velgjörð, sem Drottinn veitti oss með innsetníngu þeirrar heilögu kvöldmáltíðar; ef vèr hugleiðum þann óendanlega kærleika til vor syndugra manna, sem hún ber vitni um, hlýtur þá ekki þessi íhugun að fá á hjörtu vor, og vekja hjá oss elsku og þakklæti? Getur Jesús ætlazt til minna af oss fyrir þá fullkomnu friðþægíngarfórn,

sem hann í þessu sakramenti ekki einúngis setur oss fyrir sjónir, heldur einnig gjörir oss hluttakandi í, enn að vèr í staðinn helgum honum vor hjörtu og allt vort líf, og eptir skipun postulans „boðum dauða Drottins svo opt sem vèr etum af brauðinu og drekkum af kaleiknum“?

Ef vèr snúum huganum til Jesú pínu, sem þessi föstutími svo opt hefur gefið oss tilefni til að íhuga, ef vèr rennum augum vorum til Golgata, þar sem öll Jesú pína endaði með kvalafullum dauða á krossinum; ef vèr virðum fyrir oss vorn deyjandi lausnara, þegar hann hèkk á krossins trè, kallaði og sagði: „það er fullkomnað“, hneigði síðan höfuðið og gaf upp andann, og hugleiðum, að hann varð að þola þetta allt vor vegna, til að friðþægja fyrir syndir vorar, til að koma oss í sátt við Guð og afreka oss eilífa sáluhjálp, er þá ekki þessi velgjörð, sem trú vor og von og farsæld vor um tíma og eilífð byggist á, þess verð, að vèr helgum Jesú hjörtu vor? Og hversu margar skyldur minnir ekki þessi eina skylda oss á, einkanlega á þessum föstutíma! Hún minnir oss á, að vèr að sönnu eigum ekki að hætta vorum veraldlegu sýslunum, nè vanrækja vor jarðnesku skyldustörf, en að vèr þó ekki megum gefa oss svo mjög við þeim, að vèr ekki fáum neinn tíma til að hugleiða Jesú pínu og dauða; því hvernig getur sá, sem elskar Jesúm og hefur helgað honum hjarta sitt, sökkt sèr svo niður í veraldlegar áhyggjur, að hann gleymi að hugsa um hann og þjóna honum? Hún minnir oss á, hve alvarlegur og þýðíngarmikill þessi tími er og að það er ótilhlýðilegt að verja honum til nokkurs þess, er tvístrar huganum og festir hann við hègóma, glys og glaum veraldarinnar. Þetta eigum vèr ætíð að forðast, en ekki sízt nú; því nú eiga hjörtu vor að vera gagntekin af hugleiðíngum Jesú pínu og dauða; og þetta eru alvarlegar hugleiðíngar. Nú finnum vèr sèr í lagi til þess, að vorar syndir voru orsök í Jesú pínu og dauða, og þessi tilfinníng hlýtur ekki einúngis að vekja hryggð í hjörtum vorum, heldur og andlega gleði yfir þeirri náð, sem Guð hefur auðsýnt oss syndugum mönnum; og þessi andlega gleði, sem er hreinni og dýrmætari enn nokkur veraldleg glaðværð, á ekki sízt nú að hafa fyrirrúm í sálum vorum. Hún minnir oss á, að vèr eigum að hata syndina og hafa viðbjóð við henni; að vèr eigum ekki

einúngis að halda oss frá löstum og grófum glæpum, heldur og hreinsa hjörtun og deyja frá sjálfri syndinni; „því þess vegna“, segir postulinn, „bar Jesús vorar syndir á sínum líkama upp á trèð, svo vèr skyldum skilja við syndirnar og lifa rèttlætinu“ (1. Pèt. 2., 24.).

Ef vèr hugsum til Jesú dýrðlegu upprisu, sem sýnir oss, að hans friðþægíng var fullkomin, og minnir oss á upprisu sjálfra vor, og heitir oss því, að ef vèr líðum með honum, þá munum vèr á síðan með honum dýrðlegir verða, þá hlýtur þetta að vera kröptugleg upphvatníng fyrir oss til að helga Jesú hjörtu vor. Sèu ekki hjörtu vor hreinsuð og helguð fyrir náð Guðs anda, sèu þau ekki snortin af guðrækilegum tilfinníngum, nè gagntekin af einlægum betrunarásetníngi, þá getum vèr ekki rèttilega haldið Jesú upprisuhátíð heilaga, eða breytt eptir þessari áminníngu postulans: „takið burt hið gamla súrdeigið, svo að þèr framvegis getið verið nýtt deig, eins og þèr nú eruð ósýrðir, því vort páskalamb er og vor vegna slátrað, sem er: Kristur. Höldum því hátíð, ekki með hinu gamla súrdeiginu, eða með súrdeigi vonzkunnar og prettvísinnar, heldur með ósýrðu brauði hreinskilninnar og sannleikans“ (1. Kor. 5., 7.—8.).

Góður Guð gefi það af náð sinni, að vèr með hreinsun og helgun hjartna vorra mættum búa oss rèttilega undir þá hátíð, sem í hönd fer, og byrja það nú þegar á þessari stund: þá mun hún bera oss blessunarfulla ávexti, og þá munum vèr sem sannir Jesú lærisveinar gjalda honum þá lofgjörð, sem honum ber um tíma og eilífð. Amen.

---

# Á skírdag.

## Bæn.

Ef vèr fylgjum þèr, góði frelsari! og kappkostum að breyta eptir þèr, þá verðum vèr sannfarsælir bæði í þessu og öðru lífi; þá munt þú ekki sleppa hendi þinni af oss, og undir þinni verndan mun oss ekkert fá grandað;

ekkert geta brostið. Þú hefur af elsku þinni tilbúið oss náðarmáltíð áður enn þú gekkst til þinnar pínu, til að seðja húngur sálarinnar og svala hennar þorsta. Æ! lát þú þetta þitt háleita elskumerki hvetja og uppörfa oss til þakklátsemi við þig fyrir alla þína óumræðilegu miskunsemi; og þegar vèr neytum kærleikans helgu máltíðar, þá snú þú huga vorum til þín, svo vèr verðuglega endurminnumst þíns friðþægjandi dauða, og lát þú hjörtu vor vera svo gagntekin af endurminníngu þinna velgjörða og af elsku til þín, að þessi endurminníng og elska beri ávexti í öllu voru líferni, svo vèr ekki lifum sjálfum oss, heldur þèr, sem fyrir oss ert dáinn og upprisinn. Hjálpa þú oss til þess ætíð að neyta þinnar náðarmáltíðar verðuglega hèr í tímanum, svo vèr á síðan mættum álítast þess maklegir, að neyta þeirrar himnesku máltíðar, sem þú hefur þínum lærisveinum heitið, og til að sameinast þèr hèr í trúnni, svo vèr megum verða þèr eilíflega sameinaðir á sælunnar og friðarins landi. Amen.

## Guðspjallið

(Lúk. XXII., 14.—20.).

Þegar stundin kom, settist Jesús til borðs og þeir tólf lærisveinar með honum. Hann sagði til þeirra: hjartanlega hefur mig lángað til að neyta þessarar páskamáltíðar með yður, áður enn eg líð; því eg segi yður, að hèr eptir mun eg ekki optar neyta hennar, til þess eg fæ hana enn þá fullkomnari í guðsríki. Hann tók kaleikinn, gjörði þakkir og sagði: meðtakið hann og skiptið honum á milli yðar; því eg segi yður: eg mun ekki drekka af vínviðarávexti, þar til guðsríki kemur. Síðan tók hann brauðið, gjörðir þakkir, braut það, gaf þeim og sagði: þetta er minn líkami, sem fyrir yður verður gefinn: gjörið þetta í mína minníngu. Hann tók einnig kaleikinn eptir kvöldmáltíðina og sagði: þessi kaleikur er nýr sáttmáli í mínu blóði, sem fyrir yður úthellist.

### Inngángur.

Á þessum föstutíma nemur hugur vor staðar við Jesú kvöl og pínu, og í dag við hans seinustu máltíð „á þeirri nótt, sem hann svikinn var". Hin djúpa þögn lærisveinanna, og sá kvíði, sem bjó í hjörtum þeirra, Jesú eigin orð og innsetníng

hinnar heilögu kvöldmáltíðar — allt þetta talar um skilnað og dauða; en þessi skilnaður var pantur fyrir eilífri sambúð og sameiníngu; þessi dauði varð öllum heiminum til lífs. Frá þessari dauðamáltíð hljóma eilíf lífsins orð og þaðan streymir kraptur hins eilífa lífsins. Hinn nýi sáttmáli í Jesú blóði, sem hèr var gjörður, var ekki jarðneskur sáttmáli, sem gilda ætti að eins í þessu lífi; heldur var það sáttmáli sannleikans og náðarinnar, sem ekki er undirorpinn breytíngum tímans, heldur nær út yfir allan tíma til eilífs lífs. En af oss útheimtist, kristnir bræður! að vèr aðhyllumst náðina og sannleikann; því annars rjúfum vèr sáttmálann, neytum Drottins kvöldmáltíðar óverðuglega og etum og drekkum sjálfum oss dóm; því „hver sem etur þetta brauð og drekkur af kaleik Drottins óverðuglega, sá verður sekur við Drottins líkama og blóð“ (1. Kor. 11., 27.). En því meiri hegníng sem við því liggur, að neyta Drottins kvöldmáltíðar óverðuglega, þess meir ríður oss á að ná rèttum skilníngi á eðli og þýðíngu hennar og verða gagnteknir af lotníngu fyrir helgi hennar. En hvernig getum vèr þetta betur enn með því, að hugleiða aðferð frelsara vors við innsetníng kvöldmáltíðarinnar og það eptirdæmi, sem hann í þessu efni hefur gefið oss.

Látum oss því á þessari guðræknisstundu *læra af Jesú, hvernig vèr eigum að búa oss undir nautn kvöldmáltíðarinnar og neyta hennar verðuglega.*

Af guðspjöllunum sjáum vèr, að Jesús með sèrlegri umhyggju og eptirlaungun bjó sig undir að neyta kvöldmáltíðarinnar: „hjartanlega hefur mig lángað til að neyta þessarar páskamáltíðar með yður áður enn eg líð“, sagði hann við lærisveina sína (Lúk. 22., 15.). Enn þá einu sinni vildi hann sjá þá hjá sèr og sitja til borðs með þeim áður enn hann geingi út í pínuna; því eins og hann hafði elskað þá frá upphafi, eins elskaði hann þá allt til enda; enn þá einu sinni vildi hann áminna, hugga og blessa sína ástkæru vini áður enn hann skildi við þá að sýnilegum návistum. En hann hugsaði ekki einúngis um þá, heldur og um alla, sem fyrir þeirra orð mundu á hann trúa. Einnig vor vegna lángaði hann hjartanlega til að neyta þessarar kvöldmáltíðar og lángar enn til að fá oss að sínu

náðarborði sem sína sönnu lærisveina, sem iðrandi og trúaða ástvini. Ætti þá ekki þessi Jesú elska að hræra hjörtu vor og vekja hjá oss hjartanlega laungun eptir að neyta hans náðarmáltíðar af elsku til hans og þakklæti við hann? Ættum vèr ekki með gleði að gánga inn að hans borði, þegar hann býður oss þángað, segjandi: takið og etið; drekkið allir hèr af; gjörið það í mína minníngu! Ætti ekki hans heilaga minníng jafnan að vera lifandi í hjörtum vorum? Ættum vèr ekki að elska hana af öllu hjarta? Með hvílíkum fögnuði láta menn sèr vera annt um að halda hátíðir í minníngu mikilla konúnga og hraustra manna, sem hafa látið lífið fyrir föðurland sitt, í minníngu spekínga og annara ágætra manna, sem hafa eflt almenníngs heillir? En er nú ekki Jesús allt þetta um fram alla aðra? Er hann ekki mestur allra konúnga; meiri hetja, meiri spekíngur og meiri velgjörðamaður mannkynsins enn nokkur annar? Er hann ekki þar á ofan Guðs son, sem vor vegna lítillækkaði sjálfan sig og gekk vor vegna í dauðann? Ætti þá ekki hans minníng að vera oss ástkærust allra hluta? Ætti ekki minníngarhátíð hans að vera fyrir oss einhver hin unaðarfyllsta og helgasta hátíð? Eða ef vèr hefðum einhvern sèrlegan vin og velgjörðamann, sem frá barnæsku hefði alið önn fyrir oss og sem vèr ættum alla vora heill og hamíngju að þakka, mundi oss ekki vera ljúft að minnast hans og að halda minníngu hans á lopti? Mundum vèr ekki kalla það svívirðilegt að sýna í þessu tregðu og kaldsinni? En er ekki Jesús *vor* bezti vinur og mesti velgjörari, eins og gjörvalls mannkynsins yfirhöfuð? Erum vèr ekki endurleystir fyrir hans friðþægjandi dauða? Erum vèr ekki af hans orði uppfræddir um Guðs ráð og vilja oss til sáluhjálpar? Hefur hann ekki opnað oss aðgáng til föðursins, afrekað oss eilíft líf og eilífa sáluhjálp? Ættum vèr þá að vanrækja það, með tilhlýðilegri nautn heilagrar kvöldmáltíðar, að endurminnast hans og velgjörða hans? Eða ættum vèr að gjöra það með hángandi hendi og heimuglegri tregðu, eða fyrir siða sakir og til að sýnast fyrir mönnum, án trúar, án elsku og án þess að vilja bæta ráð vort? Góður Guð gæti vor við slíkri vanbrúkun þessarar helgu tilskipunar, er mundi gjöra oss „seka við Drottins líkama og blóð“! Altarissakramentið er kallað máltíð vegna þess

brauðs og víns, sem því er samfara, og er með þessu gefið til vitundar, að það sè tilgángur kvöldmáltíðarinnar, að glæða og styrkja vort andlega líf. En eins og líkamleg máltíð gjörir ráð fyrir húngri og þorsta og einkanlega hressir og styrkir þann, sem þreyttur er, eins getur ekki heldur Drottins kvöldmáltíð komið öðrum að haldi enn þeim, sem húngrar og þyrstir eptir náðinni og rèttlætinu í Kristi og verja þessu sakramenti til að styrkjast í trú sinni og í Drottins þjónustu. Sjálfur Jesús styrkti sig með hinni helgu kvöldmáltíð til krossgaungu sinnar og þeirra þúngu þrauta, sem hann vissi, að fyrir sèr mundu liggja. Þess vegna bjó hann sig undir hana með sèrlegri umhyggju. Hann, sem bannaði lærisveinum sínum að bera umhyggju fyrir því, hvað þeir skyldu eta og drekka, sendi nú tvo þeirra, þá Pètur og Jóhannes til að „matbúa páskalambið“, og bauð þeim að segja, að hans „stund væri nálæg“, og spyrja: hvar það herbergi væri, er þeir gætu neytt páskalambsins í. Og þeir fundu „loptsal mikinn, vel upp búinn“. Salur mikill er líka jafnan, kristnir bræður! uppbúinn fyrir þá, sem við Drottins borð vilja hafa samneyti við hann sem lærisveinar hans og vinir. En þegar hann þá spyr, hvar herbergið sè, þá meinar hann þau hjörtu, sem eiga að veita honum viðtökur, og hvort þau sèu rèttilega undir það búin; og þegar hann einnig við oss segir: „mín stund er nálæg“, þá lítur hann ekki einúngis til þeirrar stundar, þá er hann skipaði þetta heilaga sakrament í minníngu dauða síns, heldur bendir hann oss einnig á vora dauðastund, og að hún, ef til vill, geti verið nálæg, já, nær enn margan varir.

Þegar Jesús bjó sig undir að neyta kvöldmáltíðarinnar, var hann að búa sig undir dauða sinn. Eins eigum vèr að gjöra, ekki einúngis á sóttarsæng vorri, heldur og á heilbrigðu dögunum. Þegar vèr gaungum til Drottins kvöldmáltíðar, vitum vèr aldrei, nema það verði vor seinasta altarisgánga. Og eins og rèttileg nautn þessa sakramentis heyrir til kristilegs undirbúníngs undir sáluhjálplegan dauða, þannig miðar og alvarleg umhugsun um dauða vorn til þess að gjöra oss að rèttum borðgest við Drottins kvöldmáltíð. Það er ekki hrellandi, heldur hughreystandi og huggandi hugmynd, sem vèr fáum um dauðann, þegar vèr sitjum til borðs með honum, sem sigraði vald dauðans

og sem segir við sína sönnu lærisveina: „eg mun ekki héðan í frá drekka af vínviðar ávexti, til þess er eg drekk með yður af annars konar ávexti í ríki míns föður“ (Matth. 26., 29.); því „eg fer burt að tilreiða yður stað, svo að þèr sèuð þar sem eg er“ (Jóh. 14., 3.). Tvær undanfarnar nætur hafði Jesús verið á bænum til síns himneska föður og jafnframt verið að hugsa um sinn friðþægjandi dauða. Um hið sama hugsaði hann og á daginn þegar hann var að kenna í musterinu og sagði: „deyji ekki hveitikornið, sem fellur í jörðina, verður það ófrjófsamt; en deyji það, ber það mikinn ávöxt“ (Jóh. 14., 24.). Eins eigum vèr og að búa oss undir hátíðlega endurminníngu þessa, með því að biðja Guð heitt og innilega og alvarlega hugsa um Jesú dauða, um orsök og tilgáng hans. Hver var orsökin? Var það ekki vor syndasekt. „Sannarlega bar hann vor sár og lagði á sig vor harmkvæli“ (Es. 53., 4.). Hver var tilgángurinn? Var það ekki til að afreka oss friðþægíng og frið við Guð? „Hegníngin lá á honum, svo vèr hefðum frið“ (Es. 53., 5.). En er það sá friður, sem svæfir oss í syndunum? Dó frelsarinn fyrir oss til þess að vèr skyldum lifa í holdlegu andvaraleysi? Fjærri fer því; heldur til þess að vèr skyldum rísa upp af syndinni, af hinum andlega dauða og lifa nýju lífi með Kristi í Guði. Þegar vèr hugleiðum þetta, þá sjáum vèr, að alvarleg sjálfsprófun, einlægt ángur og iðrun er skilyrði fyrir því, að vèr verðuglega getum neytt Drottins kvöldmáltíðar. Á þetta verðum vèr einnig minntir af Jesú, þegar hann settist til borðs með lærisveinum sínum. Hann, sem var heilagur og án syndar, þurfti ekki að búa sig undir nautn þessarar helgu máltíðar með ángri og iðrun og syndajátníngu; en þó vildi hann sýna oss, að vèr þyrftum þess við; og það sýndi hann oss með því, að hann skömmu áður þvoði fætur lærisveina sinna. Með því sýndi hann oss, ekki einúngis, að vèr eigum að vera auðmjúkir og hógværir, heldur einnig, að vèr þurfum að hreinsast af honum, sem gekk í dauðann fyrir oss. „Ef eg fæ ekki að þvo þèr, hefur þú ekki samneyti við mig“, sagði Jesús við Pètur. Þetta segir hann líka við sèrhvern af oss, þegar hann vekur samvizku vora og sýnir oss í spegli lögmálsins, hve óhreinir vèr erum. Að vísu sagði Jesús um Pètur og hina lærisveinana, að þeir þegar væru þvegnir og þyrftu

ekki að þvost nema einúngis um fæturna (Jóh. 13., 10.). Í andlegum skilníngi voru þeir þvegnir af honum, þegar þeir urðu hans lærisveinar; en þó þurftu þeir frekari hreinsunar við. Í austurlöndunum var það siður, að menn geingu berfættir, og urðu því óhreinir um fæturna þegar þeir geingu út. Þess vegna var þar vant að þvo fætur gesta. Í þessu tilliti minnir Jesú fótaþvottur oss á, að eins og fætur vorir eru áfastir jörðinni, þó vèr getum horft upp til himins, eins dregst líka sál vor niður til jarðarinnar vegna vorra líkamlegu þarfa og tilfinnínga, vegna vorra girnda og veraldlegu sýslana, þó hún geti lypt augum trúarinnar, kærleikans og vonarinnar upp til hinna himnesku og eilífu bústaða. Þó vèr því sèum hreinsaðir fyrir endurfæðíngarinnar laug og teknir í tölu Guðs barna, þá þurfum vèr þó nýrrar hreinsunar og helgunar við, áður enn vèr neytum Drottins kvöldmáltíðar. Fyrir daglega iðrun og betrun á hinn gamli maður vor að deyðast og hinn nýi að upprísa; til þessa eigum vèr jafnan að muna og sèr í lagi við það hátíðlega tækifæri þegar vèr ætlum að neyta Drottins líkama og blóðs.

„Þèr eruð hreinir", sagði Jesús við lærisveina sína þegar hann hafði þvegið þeim; „en þó ekki allir", bætti hann hryggur við og meinti til svikarans Júdasar, sem hann þannig vildi aðvara. En hann skipaðist ekki við það, heldur settist með hinum til borðs og tók þátt í kærleikans máltíð, þó hann væri nýbúinn að semja við Jesú óvini um að selja hann í hendur þeirra. Með þeim sömu höndum, sem hann skömmu áður hafði rètt út á móti þeim þrjátíu silfurpeníngum, tekur hann nú við hinu blessaða brauði, sem frelsarinn sagði væri sinn líkami, sem fyrir þá yrði gefinn. Með þeim sama munni, sem hann hafði svikið hinn saklausa með, bergir hann nú af þeim bikar, sem Jesús kallar hinn nýja sáttmála í sínu blóði. Ekki gat hann heldur vaknað nè viknað við þessi kærleiksfullu skilnaðarorð: „gjörið það í mína minníngu", heldur hèlt eins eptir sem áður áfram í sinni hjartans þverúð og drottinssvikum. Ekkert gat hrært hann nè haft áhrif á hans spillta hugarfar, hvorki Jesú viðkvæma elska, nè þessi hans aðvörunarorð: „vei þeim manni, er svíkur mannsins son; betra væri honum, að hann aldrei væri fæddur" (Matth. 26., 24.). Hvað þýða

þessi orð? Hóta þau honum ekki eilífri glötun? Og þó lætur hann ekki af sínu óguðlega fyrirtæki; þó er hann svo ósvífinn og blygðunarlaus, að spyrja sinn guðdómlega herra, sem sèr inn í hjarta hans, á þessa leið: „hvort er eg það, herra“? Að þessu spyr hann, í því hann ætlar að standa upp fra borðum og fara til móts við morðíngja þá, sem ætluðu að hafa næturmyrkurin til að handtaka hinn heilaga, er þeir ekki þorðu að snerta á daginn. Með þessu áformi í sínu forherta hjarta, tekur hann loks við þeim bita, sem Jesús hafði dýft í, úr hendi sjálfs frelsarans, eins og einn af hans nánustu vinum, einn af hans tólf postulum, og stendur síðan upp til að fremja ódáðaverk sitt. þess vegna segir líka guðspjallamaðurinn, að „eptir þann bita hafi satan farið í Júdas“, það er að skilja: að hann hafi eptir það gefið sig öldúngis á vald hins vonda. Og satan sleppti honum ekki upp frá því, heldur fèkk hann til að enda líf sitt í örvæntíng. Af þessu sjáum vèr, kærir bræður! í hverju það er innifalið, að neyta Drottins kvöldmáltíðar óverðuglega, og hvað af því leiðir, að vanbrúka þetta heilaga sakramenti, að gánga til Guðs borðs með iðrunarlausum hjörtum og eins eptir sem áður vísvitandi þjóna syndinni. „Hefi eg ekki útvalið yður tólf, en einn yðar er djöfull“. þetta hafði Jesús áður sagt um hinn ágjarna hræsnisfulla lærisvein, sem ekki hugsaði um annað enn tímanlega fjármuni og svívirðilegan gróða. En hvernig varð slíkur maður talinn með hinum tólf lærisveinum Drottins? Ef vèr hugleiðum þessa spurníngu rètt, þá getum vèr ekki án hræðslu hugsað til sjálfra vor, sem frá blautu barnsbeini höfum verið Jesú lærisveinar, sem þegar í skírninni vorum teknir í tölu þeirra og höfum síðan heitið honum hlýðni og trúmennsku, en höfum þó, ef til vill, optar enn einu sinni rofið heit vor og svikið hann með vísvitandi syndum og ótrúmennsku. þú einn, Drottinn! þekkir mannleg hjörtu, þú einn veizt, hvernig vèr höfum haldið heit vor við þig, og þú einn getur reist oss á fætur aptur. Sendu oss hreinan iðrunaranda, svo vèr hèr eptir þjónum þèr í helgun og rèttlæti!

Hugleiðíngar vorar hafa hnigið að því, hvernig vèr eigum að búa oss undir nautn heilagrar kvöldmál-

tíðar; nú skulum vèr íhuga, hvernig vèr eigum að neyta hennar.

Af hvaða hugleiðíngum var hjarta Jesú gagntekið þegar hann tók brauðið og vínið? Hann var að hugsa um dauða sinn, sem hann nú átti von á. „það er minn líkami", „það er mitt blóð", sagði hann, og sá sig í anda hángandi á krossinum og blóð sitt renna úr æðunum. Af sömu hugleiðíngum eigum vèr að vera gagnteknir þegar vèr neytum hins helga brauðs og víns; því þá erum vèr að halda helga minníngu hans pínu og dauða. Hvaða tilfinníngum var þessi hugleiðíng hjá Jesú samfara? Hugsaði hann með ótta og ángist til dauða síns? Já, seinna í grasgarðinum, þegar pína hans byrjaði, fann hann til ángistar vegna þeirrar syndabyrði, sem hann bar fyrir oss og alla menn. En við kvöldmáltíðina var sál hans gagntekin af þeirri sælufullu tilfinníng, að hann dæi til þess að endurleysa heiminn, og þessi tilfinníng sýnir, að hann elskaði mannkynið svo heitt, að hann vildi láta lífið fyrir það, og að hann var sannfærður um, að þessi fórn væri fullkomin. Svipuð gleði á að hreifa sèr í hjörtum vorum, þegar vèr gaungum til altaris; og hún verður að því skapi innilegri og meiri, sem vèr áður höfum innilegar hryggzt og ángrazt af syndum vorum, er voru orsök í pínu og dauða frelsara vors. þessi gleði hjá oss sýnir, að vèr bæði höfum trú og elsku; þá trú, að Jesú friðþægíng einnig nái til vor, og þá elsku til frelsara vors, sem kemur því til leiðar, að vèr með gleði hlýðum hans boðum og leitum hjá honum einum allrar lífsins ununar og sælu. þegar vèr krjúpum niður við altarið, eigum vèr að hafa allan hugann á þeim helgu orðum, sem Jesús mælti, þegar hann sjálfur úthlutaði hinu blessaða brauðinu og víninu. þessi orð: „sem fyrir yður verður gefinn", „sem fyrir yður úthellist til fyrirgefníngar syndanna", heimta sèr í lagi athygli vort og trúað hjarta. það er að skilja: vèr eigum að trúa því, að þegar lausnari vor talaði þessi orð, þá hafi hann einnig hugsað til vor allra, trúa því, að hann fyrir oss hafi gefið sinn líkama og látið úthella sínu blóði. Og ef vèr trúum þessu, hlýtur þá ekki að vakna hjá oss innileg elska til hans? Ættum vèr ekki að elska hann, sem hefur elskað oss að fyrra bragði? En ef vèr elskum hann, munum vèr þá vilja gjöra

honum vísvitandi á móti? Kemur hann ekki til vor, í hvert sinn sem vèr freistumst til syndar, og segir: „minnstu, ó maður, á minn deyð; minnstu á mína sáru neyð"! Og ef vèr gefum því ekki gaum, hvað er þá elska vor, hvað er þá trú vor? Ekki annað enn orðin tóm og einbert yfirskyn. Ef vèr þar á mót reynumst honum trúir, þá mun hann ekki einúngis koma til vor og veita oss hjálp í freistíngum og baráttu lífsins, heldur jafnan vera oss nálægur. Já, hann mun taka sèr bólfestu hjá oss, ef vèr elskum hann og höldum hans boðorð, og um þetta fullvissar og sannfærir oss hin helga kvöldmáltíð.

„Sá sem etur mitt hold og drekkur mitt blóð, sá er í mèr og eg í honum" (Jóh. 6., 56.), segir Jesús, og útleggur þetta sjálfur með þessum orðum: „eins og sá lifandi faðir sendi mig og eg á föðurnum lífið að þakka, eins mun sá eiga mèr lífið að þakka, sem mig etur" (6., 57.). Með þessum orðum, sem snerta innilega sameiníngu sannkristins manns við frelsarann, hefur hann útlistað þýðíngu kvöldmáltíðarsakramentisins, áður enn hann tilskipaði það. — það er líka víst, að þetta sakramenti miðar til þess að koma oss í andlegt samfèlag við frelsara vorn, og til þessa benti hann sjálfur, þegar hann sagði: „ef þèr etið ekki hold mannsins sonar og drekkið ekki hans blóð, hafið þèr ekki lífið í yður" (Jóh. 6., 53.). þegar hann síðan, við innsetníngu kvöldmáltíðarinnar, sagði um brauðið: „þetta er minn líkami" og um vínið: „þetta er mitt blóð", þá sat hann enn lifandi hjá lærisveinum sínum, og blóðið rann enn í æðum hans. Hann gat því ekki meint líkamlega nautn eða bergíngu, eins og sumir af lærisveinum hans höfðu skilið orð hans; hvers vegna þeir og sögðu: þúng er þessi ræða, hver getur hlýtt á hana"? og þeir yfirgáfu hann. Margir yfirgefa hann og á vorum dögum af því þeir gjöra sèr ránga hugmynd um altarissakramentið. En einginn af oss, kristnir bræður! er svo fáfróður, að hann ímyndi sèr, að hann í kvöldmáltíðinni verði hluttakandi í þeim líkama, sem hèkk á krossinum, eða því blóði, sem þar út rann. Vèr vitum allir, að vèr meðtökum Krists ummyndaða dýrðarlíkama, hans andlega líkama og himneska blóð, ef svo mætti að orði kveða, og að vèr meðtökum þetta, ekki sýnilega, heldur með hjartans innilegustu tilfinníngum, þegar vèr með lifandi trú og heitri

elsku og með einlægum vilja aðhyllumst lærdóm, boðorð og friðþægíngu frelsara vors, svo að vèr viljum lifa og deyja með honum.

þessi innilega sameiníng við hann, sem er kærleikurinn sjálfur, er aðaltilgángur kvöldmáltíðarinnar, og þessari sameiníngu er samfara sælufull tilfinníng hjartans og „hið hulda líf með Kristi í Guði“ sem Jóhannes getur um, þegar hann segir: „sá sem hefur soninn, hefur lífið; sem Páll postuli lítur til, þegar hann segir: „eg lifi, þó ekki eg, heldur lifir Kristur í mèr“; og sem Kristur sjálfur meinar, þegar hann segir: „þetta er eilíft líf, að þeir þekki þig einn sannan Guð og þann, sem þú útsendir, Jesúm Krist“. Og hve nær munum vèr þekkja frelsara vorn, sè það ekki á þeirri sælu stund, þegar vèr, með þeirri sannfæríngu, að syndir vorar sèu oss fyrirgefnar, gefum oss á vald hans, sem af kærleika vill, að vèr sèum sèr sameinaðir, eins og hann er föðurnum sameinaður. þó megum vèr ekki á þessari sælu stund búast við neinni sèrlegri upplyptíngu til himins, eða neinum óvenjulegum tilfinníngum, er vèr hvorki finnum til fyrr eða síðar. það ber stundum við, að menn, einmitt meðan á útdeilíngunni stendur, eru ekki eins hrærðir og áður eða eptir, og ángrast margir og verða jafnvel sturlaðir af þessu, svo þeir missa ávöxtinn af altarisgaungu sinni. þessa sturlun eiga menn að bera sèr á brýn, en ekki þann kulda hjartans, er þeir þykjast finna til, ef þeir annars bæði undan og eptir láta sèr vera annt um andakt sína, trú sína og lífernis betrun. Menn hafa ekki ætíð vald yfir tilfinníngum sínum, en áformum vorum getum vèr með Guðs hjálp ætíð ráðið. Sá sem neytir kvöldmáltíðarinnar án þess að festa athygli sitt á hennar helga tilgángi, og lætur hugann hvarfla híngað og þángað og er að hugsa um allt annað, hefur vissulega mikið að ásaka sig fyrir og má kenna sjálfum sèr um, að hann fer varhluta af þeirri blessun, sem hann hafði búizt við. En sá, sem með alúð og andakt hefur búið sig undir altarisgaungu sína, með alúð og andakt íhugað frelsarans guðlega lærdóm, hans heilaga eptirdæmi, hans friðþægjandi dauða og hans óendanlegu elsku til vor syndugra manna, og sem við þessa íhugun hefur fundið til innilegs ángurs og lifandi trúar og ásett sèr að betrast, og sem síðan á hinni hátíð-

legu stund, þegar hann meðtekur brauðið og víníð, hefur snúið huganum til frelsarans í bæn og þakkargjörð, hann þarf ekki að fá hugarángur af því, þó hann verði ekki eins hrærður og hann vildi verða, því það er ekki rètt að gjöra ofmikið úr þeim geðshræríngum, sem þjóta upp snöggvast og allt í einu hjaðna niður eins fljótt aptur. Margir komast í ákaflega geðshræríngu, þegar þeir gánga til guðsborðs; en að litlum tíma liðnum taka þeir aptur til sinna fyrri synda. Hið einasta áreiðanlega merki upp á verðuglega nautn heilagrar kvöldmáltíðar er helgun hjartans og lífernisins, stöðug árvekni og alúð í að gegna trúlega skyldum vorrar köllunar, og gjöra allt gott, sem í voru valdi stendur. Þess vegna eigum vèr að prófa sjálfa oss, ekki einúngis áður enn vèr gaungum til altaris, heldur og eptir að vèr höfum gjört það, og vaka yfir hugsunum vorum og girndum allt eins og yfir orðum verum og athöfnum, svo vèr ekki ránglega huggum oss við þetta helga sakrament, og þannig drögum sjálfa oss á tálar. Af Jesú heilaga dæmi getum vèr sèð, hvernig vèr eigum að breyta þegar vèr höfum neytt hans náðarmáltíðar. Hann endaði máltíðina með lofsaung, og þegar þeir voru staðnir upp frá borðum, hèlt hann enn áfram sínu ástúðlega og lærdómsríka samtali við lærisveinana um sína burtför, um huggarann, eða þann sannleikans anda, sem hann mundi senda þeim, um elsku sína til þeirra og þann frið, er hann mundi veita þeim. Áður enn hann gekk yfir Kedron, nam hann staðar og bað sinn himneska föður innilega fyrir lærisveinum sínum og öllum þeim, sem fyrir þeirra orð mundu á hann trúa (Jóh. 17.). Síðan gekk hann inn í grasgarðinn til að taka við hinum beiska bikar, sem faðirinn hafði að honum rètt. Eins eigum vèr, kristnir bræður! þegar vèr höfum neytt Drottins kvöldmáltíðar, að halda andakt og bænagjörð vorri áfram til að styrkja hjá oss þann góða ásetníng, að vinna dyggilega verk vorrar köllunar, og umbera með þolinmæði og undirgefni undir Guðs vilja þær þjáníngar, sem oss kunna að mæta í þessu lífi. En eins og vèr við nautn heilagrar kvöldmáltíðar eigum að hafa Jesú eptirdæmi oss fyrir augum, eins eigum vèr og í allri vorri hegðun að leitast við að líkjast honum. Til þess erum vèr kallaðir, segir postulinn, að vèr skulum feta í hans fótspor, og sjálfur minnir hann oss á það með þessum

orðum: „eg gaf yður eptirdæmi, svo að þèr breytið eins og eg breytti við yður“ (Jóh. 13., 15.). þess vegna eigum vèr gaumgæfilega að íhuga allt, sem Jesús talaði og gjörði meðan hann dvaldi hèr á jörðunni, en umfram allt pínu hans og dauða. þessi íhugun, sem sýnir oss frelsarans guðdómlega og grunnlausa kærleika, á ekki einúngis að styrkja og glæða þær tilfinníngar og þau áform, sem við altarisgaunguna eru vöknuð í vorum hjörtum, heldur kennir hún oss einnig, hvernig vèr eigum að fylgja Jesú í allri vorri breytni sem hans sannir lærisveinar. Hún kennir oss stöðuglyndi í hinu sanna, rètta og góða, þolinmæði í þrautum og þjáníngum, sáttgirni við óvini vora, umhyggju fyrir vorum ástvinum, brjóstgæði við bágstadda, og í einu orði: allar kristilegar dyggðir. Látum oss umfram allt læra af Jesú sannkristilegan kærleika; því að í honum sýnir sú helgandi trú sèr í lagi sinn krapt og sínar verkanir, og hann á sú hin helga náðarmáltíð að lífga og glæða hjá oss, því það er kærleikans máltíð; hún er sprottin af kærleika og á að vekja kærleika. „það er mitt boðorð, að þèr skulið elska hver annan, eins og eg hefi elskað yður“ (Jóh. 13., 34.), sagði Jesús við lærisveina sína þá sömu nótt, er hann gekk með þeim frá kvöldmáltíðinni inn í grasgarðinn; og hann bætti þessu við: „meiri elsku hefur einginn enn þá, að hann láti líf sitt fyrir sína vini“. „þèr eruð mínir vinir, ef þèr gjörið það, sem og hefi boðið yður“. Ef vèr lifum í Kristi og hann í oss, ef vèr erum greinir á honum, sem er sá sanni vínviður, hið eilífa lífsins trè, þá höfum vèr hans milda og mannelskufulla hjartalag og elskum hann hver í öðrum, eins og vèr í honum elskum Guð. Getur nokkurt helgara og ununarfyllra band samteingt mennina enn band kristilegs kærleika, sem sameinar Jesú trúlyndu lærisveina sem bræður og systur við hans náðarborð, sameinar þá, fyrst hèr í náðarinnar ríki og síðan í dýrðarinnar ríki á himnum? þín náð, Drottinn! sè með oss öllum! þá munum vèr og á síðan allir verða hluttakandi í þinni dýrð. Amen.

# Á lánga frjádag.

## Bæn.

Algóði himneski Guð og faðir! Með hrærðum hjörtum og djúpri lotníngu endurminnumst vèr í dag þíns elskulega sonar, frelsara vors Jesú Krists friðþægjandi dauða, sem hann leið af einskærri elsku til vor syndugra manna, til að frelsa sálir vorar. Hver fær kannað dýpt þinnar speki og stærð þíns ómælanlega kærleika? Getur nokkur verið svo tilfinníngarlaus, að hann vikni ekki við íhugun Jesú pínu og dauða, við íhugun þess, að hann, sem var heilagur og ímynd þinnar veru, varð að deyja eins og illvirki á krossinum, og að hann þoldi þetta allt til að friðþægja fyrir oss breyskar og brotlegar mannskepnur? Æ, oss bresta orð og málfæri, en hjörtu vor klökkna og með helgri undrun nemum vèr staðar undir Jesú krossi og tilbiðjum þig, eilífi miskunsemdanna faðir! Styrk þú oss með þínum og Jesú Krists heilaga anda, svo vèr getum elskað þig og hann af öllu hjarta, svo vèr helgum vort líf þèr og honum, sem lèt lífið fyrir oss, og getum á síðan skilizt við þetta líf í trúnni á hann, sem með sínum dauða afrekaði oss sigur yfir dauðans ógn og beiskju. Bænheyr það í Jesú nafni! Amen.

## Jesú Krists píslarsaga

(lesist í stað guðspjalls).

### Inngángur.

Þegar að því var komið, að Jesús yrði krossfestur, þá er sagt, að hann hafi geingið út og „*borið sinn kross*“ (smbr. píslars. 5. part.; Jóh. 19., 17.). Og ef vèr í anda fylgjum honum á krossgaungu hans, þá hlýtur þessi sjón að vekja hjá oss margvíslegar hugsanir og margvíslegar tilfinníngar. Hver er það, sem nú er leiddur út til aftökustaðarins og sem ber sinn kross án allrar möglunar og umkvörtunar? Er það illræðismaður, sem hefur unnið til þessarar hegníngar, eða verður hann saklaus að líða þetta af mannlegri grimmd og vonzku? Brot hans er innifalið í því, að hann talaði sannleikann án manngreinar álits, að hann gjörði gótt án þess að vænta launa eða þakklætis. Hvílíkir eru þá þessir dómendur, sem sakfella hinn saklausa, fótumtroða rèttlætið, og óttast mennina meir enn Guð? Hvílíkir eru þessir kærendur, sem biðja, að hið saklausa blóð megi koma yfir sig og börn sín, sem æpa, að eptir þeirra lögum sè

hann dauða sekur? Hvaða lög eru það, sem sakfella hinn saklausa, eða hvað hefur hann til saka unnið? Hann hefur geingið í kríng, gjört öllum gott og hjálpað öllum"; hann hefur látið „blinda sjá, halta gánga, daufa heyra, líkþráa hreinsast, dauða upprísa og fátækum verða guðspjöllin boðuð". Hvar eru nú allir þessir, sem hann hefur hjálpað? Hví flýta þeir sèr ekki til að verja hann og bera honum vitni? Sjá þá ekki hinir blindu, sem hann gaf sjónina aptur, að hinn mikli mannvinurinn er ofsóttur af hatri og heiptaræði? Heyra ekki hinir daufu, sem hann gaf heyrnina aptur, þetta grimmdaróp: krossfestu hann? Hví taka nú ekki hinir mállausu, sem hann gaf málið aptur, málstað hins saklausa? Hví skunda ekki hinir höltu, sem hann gjörði heilfætta, til að lètta af honum krossins byrði? Hvar er nú þakklæti, fyrirbænir og blessunaróskir hinna fátæku, sem hann hefur auðgað með huggun síns himneska náðarlærdóms? Hví koma þeir nú ekki, til að rètta svaladrykk að hinum þjáða þegar hann á krossinum kallar: „mig þyrstir"? Hví koma ekki þeir, sem hann hefur uppvakið frá dauðum, til að frelsa lífgjafa sinn? Þú úngmenni frá Naín, sem hann hreif úr dauðans kverkum og gaf aptur hryggri og munaðarlausri móður! Þú Lazarus, sem áttir lífið að þakka tárum hins himneska kærleika! og þèr, vinir hans og kunníngjar, hví standið þèr svo lángt frá? Þèr systur frá Bethaníu, sem kærleikans almætti gaf aptur ástkæran bróður, sem sátuð við frelsarans fætur og hlýdduð hans orðum! Og þú harmþrúngna móðir, sem á þessum degi reyndir, hvernig hryggðarinnar beitta sverð smaug gegnum sálu þína! Þèr konur, sem fylgduð honum og þáguð af honum alls konar velgjörðir! Og þèr allar Jerúsalems grátandi dætur! hafið þèr ekki annað enn sorgar og meðaumkunar tár, getið þèr ekkert sagt honum til varnar, ekkert gjört til að frelsa hann? Sjálfur geingur hann til Golgata og ber sinn kross, og yfir krossinum er ritað: konúngur. — Hvar er þá hans ríki? Hvar er hásæti hans og veldissproti? Hvers vegna hlýtur hann nú að deyja á bezta aldri og í blóma lífsins? Stutta stund hefur hann haft til að vinna hið háleita verk köllunar sinnar, að útbreiða ljós sannleikans, en eyða myrkri villunnar og eymd syndarinnar. Hví þarf hann nú svo fljótt og í miðju kafi að

hætta þessu heilaga verki? Aldrei hefur neinn talað eins og hann, nè með öðrum eins táknum og stórmerkjum sannað, að hann væri af Guði sendur. Hví eru orð hans misskilin og rángfærð? Hví er verkum hans hallmælt? Hví er hans hreina himneska líferni undirorpið lognum óhróðri, og vonzkunni ekki fyrr fullnægt, enn búið er að úthella hans saklausa blóði? Vonzkan vinnur sigur; sakleysið er fótum troðið; hatrið fær yfirhönd; kærleikurinn þolir allt; náttúran titrar; jörðin skelfur; björgin klofna; grafirnar opnast, og sólin missir sitt skin. Eingri birtu slær heldur á efasemdanna myrkur í hjörtum vorum, fyrr enn morgunsól páskadagsins upprennur; ekkert svar fá vorar sorgbitnu sálir í dag uppá spurníngar sínar, nema þetta eina: „hann bar sinn kross". Þó er þetta svar ekki þýðíngarlaust, því þó það sè stutt, er það þó í mörgu tilliti huggunarríkt. Vèr höldum í dag helga krossins hátíð, hinn mikla friðþægíngardag allrar veraldarinnar. Á þessum degi höfum vèr ekki annað umhugsunar og umtalsefni enn Kristi kross. Og þó þessi kenníng kunni enn að vera „til ásteytíngar Gyðíngum", „sem krefjast tákna", og sýnast vera heimska „Grikkjum" vorra tíma, sem „leita að speki", þá er hún þó oss, „sem hólpnir verðum, kraptur Guðs". Vèr prèdikum því lærdóminn um Krist hinn krossfesta; og ef þèr, kærir bræður! trúið því, að þessi lærdómur sè „speki og kraptur Guðs", þá komið og skoðið, hvernig hann bar sinn kross, en þó ekki í því skyni, að aumka hann. „Grátið ekki yfir mèr", sagði Jesús á krossgaungu sinni, „heldur grátið yfir yður sjálfum og yfir börnum yðar"! Skoðið, hvernig hann bar sinn kross, ekki til þess að vilja skilja til fulls það, sem er óskiljanlegt í Guðs ráðsályktunum, heldur til að vegsama hinn himneska kærleika, sem bar heimsins syndir. Hèr sjáið þèr ekki einúngis afmálaðan þann hryggðar og hörmúnga kross, sem einatt leggst þúngt á mannleg hjörtu, heldur og himneskt stríðs- og sigurmerki, sem þessi orð eru rituð á: „vertu trúr til dauðans, þá mun eg gefa þèr lífsins kórónu". Með þessum tilfinníngum í hjörtum vorum viljum vèr, kristnir bræður! verja þessari náðarstund til þess ítarlegar að hugleiða þessi orð:

***Jesús bar sinn kross.***

Hann bar synda byrði mannkynsins.

Hann bar ekki byrði sinna eigin synda, því „hann var heilagur og saklaus, óflekkaður, syndurum fráskilinn og himnunum hærri“ (Hebr. 7., 26.); hann gekk ekki krossins veg, eins og aðrir illræðismenn, sem verða að þola það, sem verk þeirra hafa tilunnið, því í lífi og dauða gat hann hughraustur sagt: „hver getur sannað upp á mig nokkra synd“? Sannað upp á mig, að eg nokkru sinni hafi vikið frá hinu sanna og rètta, frá skyldum köllunar minnar og heilagleik lífernisins? „Hann var freistaður á allan hátt, eins og vèr, en þó án syndar“; hann var freistaður af hinu vonda valdi myrkranna, sem í alls konar myndum ofsótti hann alla æfi og leitaðist við að gjöra hans seinustu lífsstundir erfiðar og kvalafullar. En hann sigraði allar þrautir, allar freistíngar og ofsóknir með óbifanlegri hugprýði, sem spratt af þeirri sannfæríngu, að hann væri að vinna verk síns himneska föður og gjöra vilja þess, er hann sendi; og að hann lèti líf sitt heiminum til frelsis og endurlausnar. Þegar því Jesú nánustu vinir, sem heyrðu hans orð og sáu hans verk, segja, að í honum hafi eingin synd verið og eingin svik verið fundin í hans munni; þegar dómari hans segist einga dauðasök finna hjá honum; þegar morðíngjar hans vitna um hann, að sannarlega hafi hann verið rèttlátur maður og Guðs son; þegar hver maður með heilbrigðri skynsemi og óspilltu hjárta hlýtur að játa, að líf hans hafi verið ímynd himneskrar fullkomnunar; þegar andlegar verur úr æðra heimi halda fæðíngu hans helga með hátíðlegum friðar og fagnaðar saungum, þjóna honum í freistíngunum og styrkja hann í pínunni og dauðastríðinu og gæta hans helga líkama í gröfinni; þegar orð hans og verk, lærdómur hans og líferni, himin og jörð eru samtaka í að strá heilögu dýrðarljósi á þenna krossberara: „hvað þurfum vèr þá framar vitnanna við“ um það, að hann lifði og dó fyrir sannleikans heilaga málefni, að hann leið pínu og dauða fyrir mannanna syndir, rèttlátur fyrir rángláta, saklaus fyrir oss seka. „Sannarlega bar hann vor sár og lagði á sig vor harmkvæli; vegna vorra misgjörða var hann særður og fyrir vorra synda sakir lemstraður; hegníngin lá á honum, svo vèr hefðum frið, og fyrir hans benjar urðum vèr heilbrigðir“ (Es. 53., 4.—5.). Ó, þá djúpt speki og náðar Guðs! Þúngt lá

syndasektin á sálum vorum, og að fá einhverja hjálp til að bera þessa byrði óskar sèrhver sá, sem finnur til þess, að syndin er lands og lýða tjón, og að hún spillir hugarrósemi og farsæld vorri. Hið umliðna getur ekki veitt syndaranum huggun; því hver getur afmáð eða apturtekið þau afbrot og syndsamlegu verk, sem þegar eru framin? Hið ókomna er eins huggunarsnautt; því hversu opt gleyma menn ekki sínum góðu áformum eða sleppa þeim og hætta við þau aptur? Í sínu syndsamlega ástandi er maðurinn næsta veikur og þróttlítill til að gjöra það sem gott er, og á ángursins og tregans tímum á hann sjálfur harla litla hugsvölun, hvert sem hann rennir huga sínum, hvort það er heldur fram eða aptur. Jafnvel hinir beztu meðal vor eiga ekki annað enn sínar innilegu óskir, sín góðu áform, og sín hrærðu en jafnframt veiku og óstöðugu hjörtu. — „þessar sömu fórnir, er þó eingan veginn geta afrekað syndakvittun“ (Hebr. 10., 11). En Jesús kom og „hann bar sinn kross“; hann bar syndir vorar á sínum líkama upp á trèð, svo vèr skyldum deyja syndinni, en lifa rèttlætinu. Hann bar sinn kross: syndabyrði mannkynsins. þessi sjón sýnir oss heilaga alvöru Guðs rèttlætis, sem heimtar hlýðni, hlýðni „til dauðans, já, allt til dauða á krossinum“; lítið hèr á Guðs son, sem sýndi þessa ótakmörkuðu hlýðni og lærið af honum, að vèr eigum að leggja allt í sölurnar til að geta fullnægt samvizkunnar og skyldunnar kröfum, þótt vèr ættum að yfirgefa það, sem vèr helzt óskum oss. þessi sjón sýnir oss berlega og áþreifanlega, að til þess að sálin geti lifað sínu æðra lífi, friðarins lífi í Guði, verðum vèr að deyða holdsins girndir og allar syndsamlegar tilhneigíngar, sem eru „óvinátta gegn Guði“. Lítið á Jesúm og gætið að hugarfari hans og líferni, sem var hreint og heilagt og laust við allar syndsamlegar fýsnir, og lærið af því, að „þeir, sem Kristi tilheyra, eiga að krossfesta sitt hold með þess girndum og hafa sína umgeingni á himnum“. þessi sjón sýnir oss, bæði hve viðurstyggileg syndin er í Guðs augum og hve óbærileg þessi byrði er fyrir mannleg hjörtu. Lítið á Jesúm, sem bar sinn kross og sveittist blóðinu undir yðar syndabyrði, og sverjið við hinn helga kross, að þèr hèreptir af öllum yðar lífs og sálar kröptum með bæn og árvekni

viljið stríða við syndina, sem var orsök í frelsarans pínu og dauða.

*Jesús bar sinn kross*;
Jesú kross er himneskt elskumerki.

Jesús hafði með frjálsum og fúsum vilja geingið inn á hinn þyrnum stráða veg, sem hann varð nú að feta. Með djörfúng gat hann sagt við dómara sinn: „þú hefðir ekkert vald yfir mèr nema þèr væri gefið það hèr að ofan“. Og þetta vald hèr að ofan, sem rèði yfir Jesú, sem leiddi hann inn á þann veg, þar sem hann sjálfur sá fyrir sèr liggja pínu og dauða, þetta vald var kærleikurinn. Kærleikurinn var kraptur og kjarni kenníngar hans, grundvallar tilfinníngin í hugarfari og líferni hans; kærleikans almætti stjórnaði öllum hans verkum, bæði þegar hann með mannelskufullri viðkvæmni læknaði hina veiku og þegar hann með helgri alvörugefni rak þá út úr musterinu, sem seldu þar og keyptu; af kærleika spruttu öll hans orð, bæði þegar hann mildilega áminnti og huggaði og eins þegar hann alvarlega átaldi og aðvaraði. En undir andlát hans birti hans himneska elska sína fegurstu dýrð og sitt fullkomna almætti. Hann sèr myrkranna og helvítis ráðsályktanir vinna sigur í sálu síns glataða lærisveins, og þó leyfir hann honum enn að sitja til borðs með sèr við hina helgu skilnaðarmáltíð og leitast enn við að vekja hann eins og ástríkur faðir. Annan lærisvein, sem kvaðst mundi gánga með honum í dauðann, þó allir yfirgæfu hann, en afneitaði honum þó undir eins og hann sá hættuna nálgast, aðvarar hann með sínu blíða, en sorgbitna augnatilliti. Þúngur er krossinn, sem hann verður að bera til Golgata, en kærleikurinn er sterkur, og af kærleika talar hann lærdómsrík aðvörunar orð til þeirra, sem grátandi fylgja honum; þúngbær og beisk er kvöl hans á krossinum; þó gleymir hann sjálfum sèr til að hugga sína harmþrúngnu munaðarlausu móður og útvega henni annan son í sinn stað. Allt sem mannlegt hatur og heiptarfull vonzka getur upphugsað, verður hann að þola af hinum skriptlærðu, af kennimönnum lýðsins, af samvizkulausum ljúgvottum, grimmdarfullum hermönnum og blindaðri alþýðu; allt, sem er

sárt og svíðandi fyrir hans kærleiksfulla hjarta, verður hann að reyna þegar hann hugsar til blindni óvina sinna og hugleysis vina sinna, og þó vaknar ekki hjá honum nokkur óvildar tilfinníng nè heyrist til hans nokkurt það orð, er lýsi gremju eða óþolinmæði. Mitt í kvölinni lítur hann augunum upp til himins og andvarpar, ekki til þess að biðja hinn rèttláta dómara um hefnd yfir óvinum sínum, heldur til að biðja þeim vægðar og miskunar. „Faðir", sagði hann „fyrirgef þeim, því þeir vita ekki, hvað þeir gjöra!" Og þetta var samkvæmt því, sem hann hafði áður boðið: „blessið þá, sem yður bölva, biðjið fyrir þeim, sem yður gjöra skaða og ofsækja yður!" Í þessum anda hafði hann unnið; með þessu hugarfari lifði hann og dó. Í þessum orðum: „fyrirgef þeim" innibindst augnamið hans lífs og hans dauða. „Hann bar sinn kross" kærleikans helga kross. Hægt hefði honum verið að komast úr höndum óvina sinna, ef hann hefði viljað; hægt hefði honum verið að forða lífi sínu; en hann vildi ekki forða öðru lífi, enn lífinu í föðursins kærleika; hann áleit ekki annan dauða óttalegan enn þann, sem leiðir frá hinum eilífa kærleika; hann þekkti ekki annan vilja enn vilja föðursins og áleit það mest áríðandi af öllu að gjöra hans vilja. Þess vegna vildi hann drekka þann kaleik, sem faðirinn hafði gefið honum, og fulkomna allt, fullnægja kröfum heilagleikans og ráðsályktunum alvizkunnar og kærleikans. „Eingin hefur meiri elsku enn þá, að hann lætur líf sitt fyrir vini sína"; en Jesús lèt lífið, ekki einúngis fyrir vini sína; því „Guð sýndi elsku sína til vor í því, að þegar vèr enn þá vorum syndarar, er Kristur fyrir oss dáinn" (Róm. 5., s.). Þannig er Kristur dáinn einnig fyrir óvini sína; því óvinir hans eru ekki einúngis þeir guðleysíngjar, sem negldu hann á krossinn, heldur og allir menn á öllum öldum, sem með syndum sínum krossfesta hann að nýju, sem með kærleiksleysi við Guð og náúnga sinn móðga og hryggja hinn himneska kærleika. „Hann bar sinn kross", þetta háleita merki himneskrar elsku. Æ! elskið hann, því hann hefur að fyrra bragði elskað yður og alla; elskið og meðbræður yðar, eins hina vanþakklátu, eins óvini yðar, því þeir eru líka endurleystir af hinum eilífa kærleika. Hatið ekkert nema syndina, sem slökkur kærleikann — kærleikann til þeirra dyggða, sem opna fyrir oss himin

Guðs náðar, kærleikann til þess náðar himins, þar sem hreinhjörtuðum er fyrirbúin eilíf og sælufull arfleifð.

### *Jesús bar sinn kross.*

Jesú kross er sigurmerki í öllu böli og allri baráttu þessa lífs. þessi Jesús, sem bar sinn kross, er Guðs son, „sem burtber heimsins syndir“; en hann er líka mannsins son, sem á í hörðu stríði við lífsins kvöl og dauðans beiskju; sem er útgeinginn frá hinni lítilmótlegu Betlehem og hinni auðvirðilegu Nazaret til að umfaðma allan heiminn með sínum blessuðu orðum og sínum blessuðu verkum; sem með gleði lætur líf sitt til að frelsa mennina, er hann kallar sína bræður, frá andlegum og eilífum dauða. Með sínu stránga stríði, þá er hann sveittíst blóðinu og sál hans var hrygg til dauða, hefur hann oss eptirdæmi gefið; því „til þess erum vèr kallaðir, að vèr skulum feta í hans fótspor“; og þegar hann á hverjum degi ávarpar oss og segir: „taktu þinn kross, kom og fylg mèr“! hvílíka von um sigur hlýtur þá þetta að vekja hjá öllum krossberendum, hjá öllum, sem berjast undir hans merkjum! því hann hefur sigrað sèrhverja kvöl og hryggð, synd og dauða. þessi þolinmóða, saklausa, gæðskuríka, sigursæla hetja hefur lypt mannlegu eðli á annað æðra stig, og útbúið mannleg hjörtu með æðra krapti, með vopnum ljóssins og rèttlætisins. þessir æðri kraptar vekjast, styrkjast og endurlífgast undir Jesú krossi, því þar heyrist þetta fagnaðarríka siguróp: „það er fullkomnað“, og þetta siguróp vekur þá fullvissu í hjörtum hans trúlyndu lærisveina, sem hèr eru að berjast við hold og heim, „að sè Guð með oss, þá geti einginn verið á móti oss“; og „að hann, sem ekki hlífði sínum eingetnum syni, heldur framseldi hann í dauðann fyrir oss alla, muni og gefa oss alla hluti með honum“. Og allt gefur hann oss til að styrkja oss í baráttu lífsins, þegar vèr berjumst í nafni hins krossfesta. þegar efasemdir um Guðs föðurgæðsku vakna í hjörtum hans vanþakklátu barna, þá hljóma frá Jesú krossi þessi huggunarfullu orð í eyrum þeirra: „svo elskaði Guð heiminn, að hann gaf sinn eingetinn son“. þegar endurminníng drýgðra synda leggst þúngt á samvizkuna, þá heyrast frá hans krossi þessi bænarorð; „faðir, fyrirgef þeim“! þegar hinn jarðneski krossinn,

örbyrgðar, hryggðar og hörmúnga kross þjáir vor veiku hjörtu, þá lærum vèr undir Jesú krossi að venja oss á auðmýkt og kærleika, þolinmæði og trúnaðartraust, og í þessu er það innifalið að bera krossinn og fylgja Jesú. Standið þá við, þèr, sem andvarpið undir syndanna byrði, sem stríðið undir krossi hryggðar og hörmúnga; standið við og gætið að Jesú, sem bar sinn kross; lítið á hvernig hann gekk þjakaður og þreyttur með syndabyrði mannkynsins sèr á herðum; en sjáið, hann er nú aptur hátt upp hafinn, svo að hann geti tekið með sèr til himins öll harmþrúngin hjörtu. Lítið á, hvernig himnesk elska skín úr augum hins deyjanda lausnara; en sjáið, yfir þeim grúfir ekki leingur hin dimma dauðans þoka, á þeim liggur ekki leingur hið dimma dauðaský; þau hafa feingið aptur sína hreinu og himnesku fegurð og vaka nú yfir oss, gæta vor í hættunum, styrkja oss í þrautunum, gefa oss sigur í stríðinu og hugga oss í dauðanum. Lítið á, hvernig hann í dauðanum hlaut að hneigja sitt þyrnikrýnda höfuð; en sjáið, hann hefur aptur lypt því upp og ber nú lífsins kórónu, og af henni leggja himneskir ljósgeislar, og fyrir hans tign, sem er konúngur konúnganna, beygja sig öll knè, bæði þeirra, sem á himnum og á jörðu og undir jörðinni eru, og sèrhver túnga viðurkennir, að Jesús Kristur sè Drottinn“ (Fil. 2., 9.). Lítið á, hvernig hans elskuríka hjarta, sem ætíð barðist öðrum til blessunar og heilla, hættir nú að slá, níst af nákulda dauðans; en sjáið, það tekur aptur að bærast og slá, það lifir æfinlega og biður fyrir oss. Æ, þèr, sem eigið í stríði og baráttu hèr á jörðinni, hallið yðar mæddu og hreldu hjörtum að Jesú krossi. Undir hans krossi er sigur, hugarrósemi og friður; sigur fyrir hin iðrandi hjörtun, því elskan er sterkari enn dauðinn; hugarrósemi fyrir hin harmþrúngnu hjörtun, því krossins vegur er lífsins vegur, sem liggur til himins; friður fyrir hinn deyjanda, því hann vaknar aptur hjá frelsara sínum á landi lifenda og sýngur Guði eilíft lof og dýrð, „sem oss hefur sigurinn gefið fyrir Drottin vorn Jesúm Krist“.

Svo höfum vèr þá, kristnir bræður! fylgt vorum frelsara á krossgaungu hans. Svo lángt sem kristileg kirkja nær á jörðinni, er minníng hans dauða haldin heilög, bæði í höllum konúnganna og í hreysum kotúnganna. „Hans nafn

mun verða eilíft; svo leingi sem sólin skín, mun hans nafn ná til eptirkomendanna; fyrir hann munu alla þjóðir blessast og prísa hann sælan“ (sálm. 72., 17.). Þegar hann var lagður í gröfina, var í jörðina sáð frækorni, sem nú er orðið að himinháu trè, sem breiðir laufgrænt lim sitt út yfir löndin þeim til skjóls og blessunar, og við þess óbifanlega stofn styðja konúngarnir hásæti sín og í skugga þess halda þjóðirnar helgar hátíðir sínar, hátíðir gleðinnar og sorgarinnar, lífsins og dauðans. Þess vegna hlýtur hjarta hvers kristins manns að komast við af þakklæti og elsku til vors mildiríka frelsara, sem bar sinn kross og barðist með háleitri hugprýði og vann sigur yfir synd og dauða, svo að vèr gætum feingið frið, sem dó á krossinum, svo að vèr mættum lifa. — Já, kristnir bræður! til þess er Jesús í heiminn kominn, til þess lifði hann og kenndi, leið og dó, að vèr mættum lifa, lifa hinu æðra eilífa lífi. Vort jarðneska líf er undirbúníngur undir himneskt og eilíft líf. En við hvert fótmál mæta oss hættur og freistíngar, sem veitir svo lètt að leiða oss af hinum beina og rètta lífsins vegi. Æ, höfum því ætíð augun fest á Jesú krossi; þar sjáum vèr bæði Guðs gæðsku og hans rèttlæti; þar sjáum vèr syndanna dóm og syndaranna einasta athvarf, og látum þessa hræðilegu en þó undireins huggunarfullu sjón koma oss til að forðast syndina, sem er uppspretta allra eymda og hörmúnga og með trúnaðartrausti flýja til Guðs náðar í Kristi, sem er uppspretta allrar ununar og sælu; þá munum vèr með gleði viðurkenna, að í eingum öðrum enn Jesú er sáluhjálp að finna og að oss er ekkert annað nafn gefið, sem oss byrjar sáluhólpnum í að verða.

Heilagi frelsari! þín elska, þín beiska kvöl og pína, þinn dauði, sem þú leiðst mín vegna, standi mèr æ og ætíð fyrir hugskotssjónum, meðan eg dvel hèr á jörðinni. Þú sèrt ljós á mínum vegum og lampi minna fóta; þinn kross sè mitt sigurmerki, því vil eg fylgja í meðlæti og mótlæti, í lífi og dauða; og taki eg til að hræðast dimmu grafarinnar og dauðans, þá vil eg stöðugt mæna mínum trúaraugum upp á þinn kross; æ, láttu þá krapt þíns dauða gefa mèr krapta til að sigra dauðans ángist; láttu þín andlátsorð verða líka mín seinustu orð hèr í tímanum: „faðir! í þínar hendur fel eg minn anda“. Æ, góði himneski faðir! meðtaktu þá minn anda í þá eilífu dýrð

hjá þèr, sem þinn sonur, frelsarinn Jesús Kristur, hefur afrekað mèr með sínum dauða. Bænheyr það í Jesú nafni! Amen.

---

## Á páskadaginn.

### Bæn.

Þú hefur brotið upp fángelsi grafarinnar, þú hefur eytt afli dauðans, Drottinn vor og frelsari! Þú hefur lífið og ódauðleikann í ljós leitt, þèr sè lof og dýrð að eilífu! Ó, þú sem lifir að eilífu og hefur lífið í sjálfum þèr, líttu í náð og miskunsemi niður til vor dauðlegra syndara! Sendu þinn heilaga anda í vor hjörtu, svo vèr getum lypt vorum anda upp til þín og í andakt hugleitt þínar dásemdir. Þinn andi veki hjá oss einlæga iðrun fyrir vorar syndir og yfirsjónir og innilegan viðbjóð við myrkranna verkum, svo vèr hèr eptir gaungum í ljósinu og verðum ljóssins börn. Þinn andi veki sannan frið og fögnuð í sálum vorum, frið og fögnuð yfir því, að þú, í nafni hins krossfesta og upp aptur risna Jesú Krists, munir af þinni eilífu föðurgæðsku fyrirgefa oss breyskum og brotlegum börnum þínum allar vorar syndir og ávirðíngar; frið og fögnuð yfir því að vita oss hèr eptir í sátt við þig; frið og fögnuð yfir því, að mega vænta þess að komast á land friðarins og fá að sjá þig augliti til auglitis og ásamt öllum útvöldum sýngja þèr eilíft lof og þakkargjörð. Amen.

### Guðspjallið
(Mark. XVI., 1.—7.).

Þegar hvíldardagurinn var liðinn, keyptu þær María Magdalena, María Jakobs móðir og Salóme dýrmæt smyrsli, til að smyrja með Jesú lík. Snemma morguns hinn fyrsta dag vikunnar komu þær til grafarinnar um sólaruppruna. Þær sögðu sín á milli: hver mun velta fyrir okkur steininum af grafarmunnanum? En þegar þær litu þángað, sáu þær, að steinninn var afveltur, og var hann þó næsta mikill. Þær geingu að gröfinni og sáu úngmenni sitja til hægri hliðar, skrýddan hvítum dragkyrtli og hnykkti þeim mjög við. Úngmennið sagði við þær: ekki skulu

þið hræðast! þið leitið að hinum krossfesta Jesú af Nazaret; hann er upprisinn, en er ekki hèr; sjáið þann stað, hvar hann var lagður. Farið og segið hans lærisveinum einkum Pètri, að hann muni fara á undan þeim til Galíleu; þar munu þeir sjá hann, eins og hann sagði þeim fyrir.

## Inngángur.

Af Lúk. 24., 22.—23. sjáum vèr, „að snemma morguns einn þvottdaganna komu nokkrar konur til Jesú grafar, en fundu ekki lík hans og sögðust hafa sèð eingla, er kváðu hann vera lifandi". Guðspjallið segir oss frá því, hverjar þessar guðhræddu konur voru. þær höfðu fylgt Jesú á ferðum hans, heyrt hans orð og sèð hans dásemdarverk, staðið hjá krossinum og seinastar allra farið burt frá gröf hans; nú koma þær líka fyrstar allra um sólarruppruna til grafarinnar; þær höfðu keypt dýrmæt smyrsli til að smyrja Jesú helga líkama með og verja hann rotnuninni. En þegar þær komu til grafarinnar urðu þær óttaslegnar, af því að þar var allt öðruvísi ástatt, enn þær höfðu búizt við. Steininum var nú búið að velta frá grafarmunnanum, og gröfin var opin. þær sáu ekki líkið, sem þær ætluðu sèr að vitja um, heldur hið auða rúm, þar sem það hafði verið lagt. Í staðinn fyrir dauðans þögn og myrkur, birtast þeim andlegar verur úr öðrum heimi, skrýddar himnesku ljósi. Í grafarinnar dimma djúpi sjá þær fagra birtu og í bústöðum hinna framliðnu heyra þær raustir hinna lifendu. þessir himnesku sendiboðar; þessar ljósi klæddu verur þekkja þeirra heimuglegu hugsanir og vita, „að þær leita að hinum krossfesta Jesú af Nazaret", og boða þeim upprisu hans. En þessar guðhræddu konur áttu bágt með að koma þessu fyrir sig eða trúa þessum fagnaðarboðskap; þær höfðu staðið undir Jesú krossi og heyrt hans seinustu orð og andvörp; þær höfðu sèð blóð hans renna úr síðusárinu, augu hans brostin, höfuðið hnigið í dauðans faðm og líkama hans lagðan í grafarinnar skaut; þess vegna gátu þær ekki, með hjartað fullt af hugmyndum dauðans, áttað sig í myndum hins æðra lífs. Að sönnu höfðu þær heyrt og sèð, hvernig hinn guðdómlegi lausnari var yfirskyggður af himnesku ljósi í kenníngu sinni og kraptaverkum, í pínu sinni

og dauða; hvernig kraptar ens æðra heims voru verkandi við skírn hans í Jórdan, við freistíngu hans í eyðimörkinni, við bæn hans í grasgarðinum og við krossinn á Golgata; að sönnu höfðu þær sjálfar fundið til hans guðlega vekjandi og fræðandi anda og sèð gjörvalt hans jarðneska líf ummyndað af æðra himnesku ljósi; en þó voru þær nú svo hryggar og harmþrúngnar, að þeim gat ekki komið til hugar, að Jesús hefði það andans afl, að geta tekið líf sitt aptur og upprisið. En undir eins og þær sáu sinn upprisna lausnara í hans dýrðlegu ummyndun og heyrðu hans blíðu rödd, skildu þær, hvað þessi eingla vitrun hefði að þýða og trúðu fregninni um Jesú upprisn og hans nýja dýrðlega líf. Vèr höldum í dag helga hátíð upprisunnar og hins æðra lífs. Jesús hefur lífið og ódauðleikann í ljós leitt og með sinni upprisu staðfest þenna fagnaðarríka boðskap. Hann hefur breytt mynd og útliti dauðans, breytt honum í eingil í augum sinna trúuðu. Sem kristnir trúum vèr því og játum, að annað líf byrji við endi þessa vors jarðneska lífs, að sú breytíng, sem vèr köllum dauða, sè upphaf hins nýja lífs, að hinu megin við takmörk tímans og grafarinnar liggi eilífðin, sem leiðir í ljós allt sem hèr í tímanum var hulið, sem veitir frið eptir mæðu og baráttu þessa lífs, og sameinar það, sem hèr varð að skilja. Mikil sigurhróss hátíð er páskahátíðin fyrir trúuð hjörtu, því hún er hátíð upprisunnar og lífsins; mikil sigurhátíð er hún fyrir hjörtu allra þeirra, sem skilja það, að Jesú dýrðlega ummyndun eptir dauðann gefur óræka vissu um vorn sigur yfir dauðanum og rotnuninni. Þýðíngarmikið og lærdómsríkt sè það fyrir oss á þessari hátíðlegu guðræknisstundu, að hinar guðræknu konur sáu himneskar ljósmyndir í hinum dimmu híbýlum dauðans, að þær í Jesú gröf sáu einglamyndir í stað dauðans myndar. Þannig er dauðinn enn í augum guðhræddra manna fögur eingils ásjóna þegar þeir skoða hann við ljós trúarinnar, við Jesú upprisu ljós. Látum oss skoða þessa sýn, oss til huggunar og trúarstyrkíngar í sorgum og stríði þessa hverfula lífs. Látum oss, með Guðs náðarríku aðstoð, hugleiða:

***hvernig dauðinn ummyndast í eingil, þegar hann er skoðaður í Jesú upprisu ljósi.***

Þegar dauðinn er skoðaður í Jesú upprisu ljósi, verður hann að *eingli ljóssins*. Leiptrandi og ljósi klæddar voru þær himnesku verur, sem við Jesú gröf birtust hinum guðhræddu konum, þar sem þær ekki áttu von á öðru enn myrkri grafarinnar. Dauðinn er ekki heldur dapur og dimmur í augum annara enn holdlega sinnaðra manna, sem ekki þekkja annað ljós, nè leita annars lífs, enn þess, sem slokknar í gröfinni. Bjartur er dauðinn í augum hins guðhrædda manns, sem trúir því og treystir, að mannlegt eðli, sem er útbúið með andlegum kröptum sannleikans og dyggðarinnar himnesku fjársjóðum, muni ekki líða undir lok í dauðanum, verða að eingu. Leiddur af Jesú, af hans orði og anda, hefur hinn guðelskandi maður tekið æ meiri og meiri framförum í þekkíngu sannleikans og helguninni og leitað æ meiri og meiri fullkomnunar. Mundi hann þá í dauðanum geta sokkið niður í meðvitundarlausa tilveru? Mundi hann geta hrapað ofan af andans björtu hæðum niður í andans myrkur og orðið að einberum svip eða skugga? Mundi hann aptur geta orðið blindur á augum sálarinnar, sem sáu Guðs dýrð í skynseminni og Guðs opinberun í hans orði? Mundi hinn innri maður hans, sem hafði skilið og tileinkað sèr hin himnesku lífsins orð, ekki leingur geta heyrt rödd hinnar eilífu spekinnar á hæðum? Mundi sá vegur, sem hann hafði geingið glaður og frjáls innan um dásemdir guðlegrar forsjónar og endurlausnar, geta endað í fángelsi dauðans og gleðisnauðri auðn og tómleik lífsins? Nei! „Eg er heimsins ljós", sagði lausnari vor, „hver, sem fylgir mèr, mun ekki gánga í myrkri, heldur hafa lífsins ljós" (Jóh. 8., 12.). Og á öðrum stað (11., 25.) sagði hann: „eg em upprisan og lífið; hver, sem trúir á mig, hann mun lifa þótt hann deyi". Og þetta hefur hann staðfest með sinni upprisu. Hann er upprisinn til dýrðlegs lífs og vor dauði er, eins og hans dauði, ekki annað enn fæðíng til hins nýja lífs, til lífsins í ljósinu. Þetta vort jarðneska líf og hitt, sem vèr eigum í vændum, er ekki í sundurlausum pörtum, heldur er það samföst óendanleg heild, en hèr sjáum vèr ekki nema byrjun og hin fyrstu stig þess. Hið jarðneska lífið er barnsaldur lífsins, með háleitum, en lítt reyndum og óþroskuðum eiginlegleikum, með nokkurri, en þó ófullkominni þekkíngu, í dauðanum upprennur eilíft æskufjör og ævarandi fullorðinsaldur. „Nú

sjáum vèr gegnum gler í þoku“, eins og postulinn segir; á milli sannleikans og vors ígrundandi anda er móða og þoka, sem skyggir á ljósgeislana, gler, sem þeir brotna á; en í dauðanum hverfur þessi þoka, og glerið brotnar. Þó hreinhjartaðir fái þegar hèr í lífi Guð að sjá, samkvæmt Jesú fyrirheitum, hve miklu skírari mun þó þessi sjón verða á landi skoðunarinnar, þegar andinn er laus við fjötur líkamans og sveimar í andanna heimi lángt fyrir ofan þetta jarðneska líf! Sè það rètt að samlíkja dauðanum við nótt, þá er þessi nótt vissulega björt af stjörnuljósi, sem breytist í fagran morgunroða og enn fegri dag. Skynseminn á von á „nýjum himni og nýrri jörðu“; hjarta hins trúaða þráir þetta, og guðsorð heitir oss því berlega, og á þessum heiða himni og á þessari nýju jörðu skín sól sannleikans í sinni fullu fegurð um alla eilífð. Þar verða myrkur tímans að ljósi, fjarlægð tímans að nálægð, vonir tímans að reynslu, skuggar tímans að anda og sannleika; þar munum vèr eilíflega finna það, sem vèr hèr í tímanum vorum að leita að, og í stað þess að þreifa fyrir oss og fálma, munum vèr þar um aldur og æfi framgánga í alskæru ljósi. Það líf, sem vèr í dauðanum fæðumst til, verður og lífið í ljósinu, sökum þess, að í staðinn fyrir þetta vort jarðneska hreysi líkamans, fær andi vor annan bústað, sem verður eilífs eðlis. Þegar vèr leggjum af oss þenna jarðneska líkama, þá munum vèr enn berlegar sjá dásemdir Guðs dýrðar; skilja andanna túngumál, auðgast að þekkíngu sannleikans og sælunnar, æfast í himneskum dyggðum og verða hluttakandi í sælufullum tilfinníngum og fögnuði útvaldra. Það er því næsta lærdómsríkt og þýðíngarmikið, að ritníngin talar um himneska og andlega líkami, og samlíkir þessum vorum jarðneska líkama við frækorn, sem sáð er veiku og vanmáttugu, en vex og sprettur upp í vegsemd og mætti; og að hún segir, að vèr munum bera líkíngu hins himneska (1. Kor. 15.), og, að líkamir vorir muni ummyndast og verða líkir Krists dýrðarlíkama (Fil. 3., 21.). Þannig flytur dauðinn oss, kærir bræður! ekki niður í hina dimmu og geigvænlegu gröf, heldur á hið fagra land ódauðleikans; í andanna heim, til hinna mörgu bústaða í föðursins húsi, þar sem sannleikans ljós streymir um endalausa eilífð frá skaparans alltsjáanda auga um hinn ómælanlega

alheims geim, þar sem kærleikans ljós streymir úr lausnarans mildiríka hjarta og gjörir hans útvöldu alsæla, þar sem vèr ásamt öllum heilögum munum gánga frá einni skoðun til annarar í þeirri himnesku „borg, sem ekki þarf sólar við eða túngls til að lýsa; því dýrð Guðs uppljómar hana“ (Opb. 21., 23.).

Þegar dauðinn er skoðaður í Jesú upprisu ljósi, verður hann að *engli friðarins.*

Mildileg voru þau friðarorð sem eingillinn talaði hjá Jesú gröf til hinna sorgbitnu kvenna. „Þèr leitið“ sagði hann, „að hinum krossfesta Jesú af Nazaret; hann er upprisinn, en er ekki hèr; sjáið þann stað, hvar hann var lagður. Farið á burt og segið hans lærisveinum einkum Pètri, að hann fari á undan þeim til Galíleu; þar munuð þèr sjá hann, eins og hann sagði yður“. Þessa friðarins rödd hjá framliðinna gröfum heyrir ekki hinn holdlega sinnaði maður. Þegar vèr ekki skoðum dauðann með augum trúarinnar, heldur einúngis á útvortis hátt eins og hann kemur oss fyrir sjónir, þá sýnist hann vera hörð barátta milli líkamans og sálarinnar, milli jarðarinnar og himinsins, milli tímans og eilífðarinnar; en hjá Jesú gröf upprennur annað ljós yfir dauðanum í augum vors innra manns. Að sönnu sjást leiðin enn þá og þeir staðir, hvar hinir framliðnu voru lagðir; en þessir staðir eru auðir, því dauðinn er sigraður. Dauðinn er ekki leingur stríð nè barátta, kristnir menn! heldur er lífið barátta milli andans, sem er reiðubúinn og holdsins, sem er veikt, milli jarðarinnar, sem festir augu vor og hjörtu við hina sýnilegu og hverfulu hluti, og himinsins, sem lyptir þeim upp til hins ósýnilega og eilífa; milli tímans, sem otar að oss sínu ginnanda glysi, og eilífðarinnar, sem geymir handa oss himneska fjársjóðu og hefur afsíðis lagða kórónu rèttlætisins. Þegar vèr skoðum dauðann í anda Jesú lærdóms og í hans upprisu ljósi, sjáum vèr, að hann er sáttargjörð milli þeirra krapta, sem eru að berjast um yfirráð yfir mannlegu eðli; að hann er friðarsáttmáli, sem Guð ritar á himnum, en sem mennirnir væta hèr á jörðinni með sorgar og saknaðar tárum, af því þeir standa, eins og María, fyrir utan gröfina grátandi, en skyggnast ekki inn í hana, til þess að geta sèð friðarins eingil með augum trúarinnar og heyrt hans hugg-

unar orð, af því þeir sjá ekki annað enn dauðastríðið og rotnunina, en koma ekki auga á þann sigurkrans, sem dauðinn heldur á í hendi sinni og rèttir að þeim, sem í Drottni deyja. Eingill af himnum velti steininum frá Jesú gröf; þannig veltir og dauðinn af hjarta hins deyjanda þúngri byrði, byrði syndar og sorgar. Í þessu lífi erum vèr freistaðir á allan hátt, eins og lausnari vor; en í dauðanum yfirgefur freistarinn oss og því kemur friðarins „eingill og þjónar" þeim, „sem hafa barizt hinni góðu baráttu og varðveitt trúna". Maðurinn stríðir opt hèr í lífi með fúsum vilja en veikum kröptum við hold og blóð, við freistíngarnar, sem koma bæði að innan og að utan; en dauðinn lýkur upp friðarins heimkynnum fyrir hinu veika og óþreyjufulla hjarta. Í mannlegu lífi eru það einatt smámunir og lítilræði, sem trufla hugarrósemi vora; en dauðinn bregður yfir þetta friðarljósi sínu og sýnir oss, hve lítið í það er varið, og að það er ekki þess vert, að vèr tárumst af því, stynjum yfir því, eða látum það óspekja hjörtu vor. Þegar vèr sem glötuð börn höfum farið villuráfandi og fjarlægzt Guð, þá opnar dauðinn fyrir hinum iðrandi föðurhúsin. Þegar kaldsinni og kærleiksleysi mannanna særir hjörtu vor og vèr ætlum að örmagnast af því að bera hita og þúnga dagsins, þá færir dauðinn lækníng hinum særðu og hvíld hinum þreyttu í frelsarans faðmi. Einginn hefur orðið fyrir öðru eins vanþakklæti og kærleiksleysi og Jesús, einginn sætt öðrum eins ofsóknum, einginn borið eins þúnga byrði og hann; en dauðinn leiddi hans himneska kærleika í ljós og birti hans guðlegu dýrð. Í gröf hans sitja friðarins einglar og boða, að friðarins höfðíngi sè upprisinn; og þau fyrstu orð, sem hinn upprisni talar til lærisveina sinna, eru þetta: „friður sè með yður"! Dauðinn færir oss þá frið og flytur oss til hinna eilífu friðarhúsa, og þar „mun Guð þerra öll tár af augum ástvina sinna, og dauðinn mun ekki leingur vera til, ekki harmur nè vein, nè heldur pína mun leingur til vera, því hið fyrra er farið" (Opb. 21., 4.); þá er á enda lífsins barátta og allt stríð við sút og synd, því þá er dauðinn uppsvelgdur í sigur, og allt orðið að friði og fögnuði í heilögum anda.

Þegar dauðinn er skoðaður í Jesú upprisu ljósi,

verður hann að eingli, *sem sameinar aptur guðhrædda ástvini í ljóssins og friðarins himnesku bústöðum.*

þó grunur hjartans og guðsorð gefi oss skýlaus fyrirheit um upprisuna og annað líf, nemur þó skynsemi vor skjálfandi staðar við hin dimmu myrkur, sem skyggja á upphaf hins ókomna lífs og forlög framliðinna, og oss hnykkir við að sjá grafirnar opnast til að fela í sèr hina burtsofnuðu, af því vèr sjáum ekki, hvernig þær skila þeim aptur. Vèr getum þá ekki komizt hjá að spyrja sjálfa oss á þessa leið: Munum vèr taka hèðan með oss endurminníngu alls þess, er kom fram við oss hèr í lífi? Munum vèr halda áfram þeim hugsunum og hugarhræríngum, sem vèr hèr höfðum yndi af? Munu öll þau ástarbönd, sem hèr voru slitin á skilnaðarins sáru stundum, aptur verða samteingd í æðra skilníngi? Verið eigi hræddir við að leggja fyrir yður slíkar spurníngar, kærir bræður! því Krists upprisa hefur úr þeim leyst. „Hræðizt ekki"! sagði eingillinn hjá Jesú gröf, „þèr munuð sjá hann". Og þeir sáu hann og feingu aptur að heyra hans himnesku rödd, og með sinni dýrðlegu opinberun eptir upprisuna ætlaði hann að vekja og styrkja hjá öllum sínum trúlyndu vinum þá sannfæríngu, að hann „er með þeim alla daga", þó hann sè skilinn við þá að sýnilegum návistum. Að vísu skiljum vèr ekki, hvernig annað líf tekur við af þessu lífi, eða nær saman við það; en þó sjáum vèr þetta fyrirmyndað á dýrðlegan hátt í Jesú upprisu. Að sönnu var hann „ljómi Guðs dýrðar"; en hann hafði líka *mannlega náttúru,* og „eins og vèr höfum borið líkíng hins jarðneska, eins munum vèr og bera líkíng hins himneska" (1. Kor. 15., 49.). þángað, sem hann er, fara hinir sælu framliðnu andar; hann reis upp úr gröfinni í sinni eigin forkláruðu mynd, og eins munum vèr gjöra. Hvar sem hinir framliðnu andar eru, hvort sem það er í hinum fjarlæga himinbláma, eða innst í helgidómi sköpunarverksins, þá eru það þó hinar sömu sálir, sem vèr þekktum hèr á jörðu, feður vorir og mæður, systkini vor og vinir í Kristi, og þær geta ekki hætt að elska oss, því þessi elska til vor er einhver hinn fegursti og háleitasti eiginlegleiki þeirra, og jafnframt því sem þær skoða Guðs dásemdir í hans himneska dýrðarríki, munu þær hafa yndi af því að líta á vegferð vora hèr í hans jarðneska náðar-

ríki. Gröfin svipti Jesúm eingu því, sem gjörði hann að manni í æðsta skilníngi, heldur ummyndaði hún það; í djúpi veru sinnar, í sínum óumræðilega kærleika til lærisveina sinna, var hann óbreyttur og enn hinn sami; og í þessum spegli, í Jesú upprisu ljósi getur þú, kristinn maður! sèð þín dýrðlegu forlög. Þú sökkur ekki í faðm guðlegrar veru án meðvitundar, eins og þegar neisti fellur í eld eða vatnsdropi dettur í sjávarhafið, heldur muntu nálgast Guð með þinni sèrstaklegu veru, með þínum eigin anda í hans ummyndaða skrúða; þú munt í dauðanum halda þínu innra sanna manneðli, þínum góðu mannlegu hugsunun og tilfinníngum; en — er nokkur hugsun eða tilfinníng æðri og betri enn kærleikurinn? Hvorki dauðans kalda hönd nè grafarinnar myrkur mun geta slökkt þenna helga kærleikans loga, sem sameinar ódauðlegar sálir guðelskandi manna. Þeir ástvinir, sem loka aptur augum þínum í dauðanum, kveina og kvarta yfir því, að þú yfirgefir þá og sèrt þeim hvorfinn; en þú ert þeim nálægur í sèrhverri góðri og guðlegri hugsun og tilfinníngu; og þegar þeir gánga veg allrar veraldar, þá mun kærleikurinn verða fyrstur til að heilsa þeim á landi lifenda. Dauðinn slítur því ekki ástarbönd hjartnanna, heldur ummyndar þau og gjörir þau andlegri og hreinni og himnesk. Vèr, sem lifum í trú Guðs sonar, hins upprisna Jesú Krists, þekkjum eingilinn, sem brýtur innsigli grafarinnar, og skiljum þessi hans himnesku orð: „elskan er sterkari enn dauðinn". Þegar vèr grátandi lítum niður í grafirnar, sem geyma vora framliðnu ástvini, þá heyrum vèr þetta hans himneska ávarp: „hví leitið þèr hinna lifendu meðal hinna dauðu"? Og ef tár tregandi vina væta vorn nábeð, þá getum vèr á dauðastundinni hughreyst þá og sagt: „eg fer á undan; þèr komið á eptir".

Þannig snýr þá Jesú upprisa myrkri og efasemdum hjartans í huggunar og sannfæríngar ljós; baráttu lífsins og dauðans í eilífan frið og fögnuð og ástvina skilnaðinum í ævarandi sambúð og sameiníng. Ó, hve huggunarrík er þá Jesú upprisa fyrir oss í tilliti til fullvissunnar um vor eilífu kjör og forlög. Hann hefur með sinni upprisu leitt í ljós lífið og ódauðleikann og þetta ljós leiptraði upp af Jesú gröf, eins og fagur morgunroði, út yfir lönd og ríki veraldarinnar, og skín enn með skærri birtu

í hjörtum trúaðra. Þessi von um eilíft líf á að vera ljós á vorum vegum og lampi vorra fóta meðan vèr ráfum um þenna dimma dal og dauðans skugga. Við geislaskin Jesú grafar hverfa dauðans dimmu skuggar og grafarinnar geigvænlegu myrkur; svo, ef vèr ástundum að fylgja Jesú fótsporum og upprisu með honum til andlegs lífs, þá munum vèr líka með honum dýrðlegir verða. Þú sem því af Jesú upprisu hefur feingið von og vissu um annað líf eptir þetta, og sem af guðsorði veizt, að vor kjör í öðru lífi fara eptir hegðun og hugarfari voru hèr í lífi: æ, hugsa þú til þess í tíma, að sèrhver páskadagur, sem Drottinn lætur yfir þig líða, á fyrir þig að vera nýr upprisudagur, og hvetja þig kröptuglega til að gánga í endurnýjúngu lífdaganna, til að rísa upp af svefni syndanna og efla þína sáluhjálp með ótta og andvara. Sá sami Jesús Kristur, sem leitt hefur í ljós lífið og ódauðleikann, hefur ekki einúngis leitt í ljós sælunnar, friðarins og fagnaðarins himnesku bústaði, heldur einnig aðra staði, sem eru myrkranna, ófarsældar og Guðs ónáðar óttaleg heimkynni; og þángað verður öllum óguðlegum og iðrunarlausum vísað á morgni hins mikla upprisudags, þegar það verður allt leitt í ljós, sem nú er í myrkrunum hulið. Æ, hugleiddu því, kristinn maður! í tíma tjón og töpun andar þinnar; hugleiddu í tíma, að „sú kemur stund, kröptug fram þegar alla, af grafar blund, Guðs sonar raust mun kalla“; hugleiddu í tíma, að þessa stund getur að borið áður enn þig varir og að sèrhvert augnablik lífsins flytur þig nær henni. Já, hver af oss veit, nema þessi páskahátíð verði hans seinasta hèr í heimi og að sú hin næsta páskasól renni upp yfir leiði og legstað hans? Ó, hugsum til þess í tíma, hve fegnir vèr þá mundum hafa viljað upprísa með Kristi í dag, upprísa frá öllum óguðleik og syndum, og lifa Guði og lausnara vorum þá fáu daga, sem vèr eigum eptir ólifaða, svo vèr feingjum að halda hina næstu páskahátíð með honum í hans eilífa dýrðarríki! Æ, vor himneski frelsari! láttu endurminníngu þinnar upprisu vera djúpt innrætta hjörtum vorum; láttu hana kveikja hjá oss ljós og frið og þrek og djörfúng til að berjast góðri baráttu trúarinnar, svo vèr höfum lífið í þínu nafni, hið eilífa blessaða sælulífið, og fáum, við uppruna hins

dýrðlega upprisudags alls holds, að heyra þessi huggunarfullu orð af þínum munni: „komið, blessuð börn míns föður, og eignizt það ríki, sem yður er fyrirbúið frá upphafi veraldar“. Gef þú oss náð til þessa, himneski faðir! í nafni vors upprisna frelsara Jesú Krists. Amen.

---

## Á annan páska dag.

### Bæn.

Vèr lyptum hjörtum vorum í hæðirnar til þín, vor upprisni frelsari! og biðjum þig að styrkja og glæða hjá oss ódauðleikans von og vissu; von og vissu um það, að vèr á síðan munum með þèr dýrðlegir verða, ef vèr lifum og deyjum í trúnni á þig og samfèlagi við þig. Æ, þú þekkir vor breysku og veiku hjörtu; þú sèr, hvernig vonin einatt veiklast og sjón trúarinnar daprast, svo vèr missum sjónar á eilífðinni og upprisudegi alls holds. Æ, láttu endurminníngu þinnar upprisu glæða vora von og trú og minna oss á að upprísa með þèr og lifa hèr eptir í endurnýjúngu lífernisins; minna oss á, að hin andlega upprisan er skilyrði fyrir upprisunni til eilífs lífs. Vertu oss jafnan nálægur í stríði voru og baráttu við syndina, og styrk þú vora veiku krapta með þínum anda, svo ver getum unnið sigur yfir freistíngunum og lifað þèr, sem fyrir oss ert dáinn og upp aptur risinn. Vertu jafnan hjá oss á vorri óförnu lífsleið, hvort sem hún verður laung eða stutt, og þegar æfidegi vorum hallar og kvöldið kemur og dauðans nótt upprennur, æ, tendra þú þá ljós vonarinnar í vorum sálum og láttu ljós þinnar upprisu lýsa oss í grafarinnar myrkrum inn á land ódauðleikans og eilífrar sælu! Amen.

### Guðspjallið
(Lúk. XXIV., 13.—35.).

Tveir af Jesú lærisveinum geingu á hans upprisudag til kauptúns nokkurs, sem heitir Emaus; það er hèr um bil hálfa aðra mílu frá Jerúsalem. Þeir voru að tala um það sín á milli, sem við hafði borið. Bar þá svo við, er þeir voru að tala um þetta og spyrja hvor

annan, að Jesús sjálfur nálægðist þá, og gekk jafnframt þeim; en þeirra augu voru svo haldin, að þeir þekktu hann ekki. Hann sagði við þá: hvað er það, sem þið eruð að tala um ykkar á milli á leið ykkar og eruð svo hryggir? Þá svaraði annar þeirra, að nafni Kleófas: Ert þú svo ókunnugur í Jerúsalem, að þú vitir ekki, hvað þar á þessum dögum hefur viðborið? Jesús spurði: hvað er það? Kleófas svaraði: það að Jesús af Nazaret, sem var spámaður, máttugur í verkum og orðum að Guðs og allra manna vitni, var af vorum höfuðprestum og höfðíngjum seldur í fyrirdæmíngu dauðans og krossfestur; en vèr vonuðum, að hann mundi endurleysa Ísrael; er nú sá þriðji dagur í dag síðan þetta skeði. Nokkrar kvinnur hafa og skelft okkur, sem árla höfðu hjá gröfinni verið, en fundu ekki hans líkama, komu og þóttust hafa sèð eingla, sem höfðu sagt, að hann væri lifandi. Nokkrir af oss geingu til grafarinnar, og fundu allt eins og konurnar höfðu sagt, en Jesúm sáu þeir ekki. Jesús svaraði: Ó, þèr heimskir og tregir að trúa því, sem spámennirnir hafa talað! átti Kristur ekki þetta að líða, og inngánga svo í sína dýrð? Byrjaði hann þá á Móses og öllum spámönnunum og útlagði fyrir þeim allt það í ritníngunum, er hlýddi uppá hann. En þegar þeir tóku að nálægjast kauptúnið, sem þeir geingu til, lèzt Jesús vilja leingra gánga. Þeir báðu hann innilega að vera og sögðu: vertu hjá okkur, herra! því að kvölda tekur, og á daginn líður. Hann gekk inn og var hjá þeim. En svo bar við þegar hann sat til borðs með þeim, að hann tók brauðið, blessaði það og braut, og rètti að þeim, þá opnuðust þeirra augu, svo þeir þekktu hann, en hann hvarf frá þeim. Þeir sögðu þá sín á milli: hitnaði okkur ekki um hjartaræturnar þegar hann talaði við okkur á veg-

inum og útlagði fyrir okkur ritníngarnir? þeir stóðu upp á sömu stundu, og snèru aptur til Jerúsalem, hvar þeir fundu þá ellefu samansafnaða og þá, sem með þeim voru, sem sögðu: Jesús er sannarlega upprisinn, og hefur byrzt Símoni. En hinir sögðu frá, hvað gjörzt hafði á veginum, og að þeir hefðu þekkt hann í því hann braut brauðið.

## Inngángur.

„En vèr vonuðum, að hann mundi endurleysa Ísrael".

Vonin er dýrmæt Drottins gjöf; hún sefar hryggðina og eykur gleði vora. Ef vèr hefðum ekki vonina, yrði mótlætið óbærilegt, og oss þætti lítið koma til lífsins gæða og unaðsemda. En þó vonin sè mikilsverð í tímanlegum efnum, þá er þó enn meir varið í þá von, sem snertir hin andlegu gæðin, og sá bezti dýrgripur, sem vèr eigum, er sú ódauðleikans von, sem er gróðursett í hjörtum vorum og lyptir sálinni á vængjum sínum út yfir takmörk tímans og lætur oss þegar í þessu lífi fá forsmekk hinnar eilífu gleði. það var ekki kyn, þó þessi von veiklaðist við fráhvarf mannanna frá Guði, því Guð er uppspretta og undirstaða hinnar andlegu vonar, og af syndinni sprettur eilíf eymd og glötun. En þessi ódauðleikans von lifnaði aptur við þegar Guð sendi sinn eingetinn son í heiminn til að frelsa hann, og til þess, að hver, sem á hann trúir, skuli ekki fyrirfarast, heldur hafa eilíft líf. það er því víst, að þó sálir allra manna sèu ódauðlegar, er þó ekki von ódauðleikans lifandi hjá öðrum enn þeim, sem fyrir trúna á Jesúm Krist eru rèttlættir af Guðs náð, og „eptir voninni erfíngjar eilífs lífs". Og þó er þessi von svo áríðandi, að án hennar getur einginn lifað sannfarsælu lífi, eða tekið dauða sínum með sannarlegri djörfúng og hugprýði. Sá, sem vantar von eilífs lífs, er eins ófarsæll í meðlæti og mótlæti; því í meðlætinu er það þessi von, sem vekur hjá manninum þakklátsemi fyrir Guðs velgjörðir og hófsemi í nautn þeirra, þareð hún kennir honum að sjá mismuninn á hinum tímanlegu og hinum eilífu gæðum og að rèttileg brúkun hinna stundlegu gæða gjörir hann hæfilegan

til að öðlast hin eilífu gæðin; og í mótlætinu er það þessi von, sem veitir honum stöðuglyndi, og gefur honum þrek og hugrekki til að umbera þrautir og þjáníngar, af því hann rennir augum vonarinnar út yfir skammvinna mæðu þessa lífs til þeirrar eilífu dýrðar, sem hann á í vændum. Sá, sem vantar von eilífs lífs, getur ekki heldur geingið ókvíðinn móti dauða sínum, því hann veit ekki, hvað við muni taka hinu megin grafarinnar; en ódauðleikans von kennir hinum sannkristna að skoða dauðann sem inngáng til annars betra lífs, og fullvissar hann um, að hann þar muni frelsast frá öllum þjáníngum og freistíngum og verða aðnjótandi eilífs unaðar og sælu í sambúð Guðs og hinna sælu anda. Svo ómissandi er þá vonin fyrir sannkristna menn bæði í lífi og dauða; hún er hið „óbifanlega akkeri", eins og postulinn að orði kemst, sem vèr getum frelsað með sálir vorar í ólgusjó þessa lífs. Þess vegna breyta þeir viturlega, sem, að boði postulans, „höndla þá sælu von, sem oss er geymd, og sem vèr höfum, eins og akkeri sálarinnar, óbifanlega og stöðuga, sem þreyngir sèr inn í hið allra helgasta, þángað sem Jesús vor fyrirrennari er inngeinginn fyrir oss" (Hebr. 6., 19.—20.). En er nú þessu vonar akkeri ætíð þannig varpað, að það geti ekki haggazt? Er nú þessi von ætíð svo stöðug og óbifanleg eins og hún þarf að vera? Nei, reynslan sýnir, að vonin stundum veiklast og þarf stuðníngs við. Og hvar finna sannkristnir menn áreiðanlegri stoð og styttu vonar sinnar enn í Jesú upprisu, í þeirri náðarríku velgjörð Drottins, sem vèr í dag aptur endurminnumst? Þessi hugleiðíng stendur í nánu sambandi við hið upplesna helga guðspjall. Það segir oss frá tveimur Jesú lærisveinum, sem höfðu nálega misst alla von sína. „Vèr vonuðum", sögðu þeir, „að hann mundi endurleysa Ísrael". En nú sáu þeir ekkert, sem gæti styrkt þessa von þeirra; að minnsta kosti voru þeir nú milli vonar og ótta og vissu ekki, hvort þeir áttu að trúa þeim, sem sögðu, að Jesús væri upprisinn. Þá kemur Jesús til þeirra og burtrýmir óvissu þeirra og efasemdum, og styrkir, hreinsar og helgar von þeirra.

Látum oss, kristnir bræður! verja þessari helgu stundu til að hugleiða:

I. *hvers vegna von hins trúaða stundum veiklast*, og
II. *hvernig Jesú upprisa styrkir hana.*

I.

þegar vèr íhugum, hvað til þess komi, að von og trú kristinna manna er einatt völt og veik, sjáum vèr, að ýmsir hlutir bera til þessa. Stundum kemur það til af því, að menn vantar skýra og greinilega þekkíngu á trúarbragða lærdómunum. það var þessi þekkíngarskortur, sem gjörði lærisveina þá, sem guðspjallið um getur, svo hrygga og huglausa; þeir höfðu ekki rannsakað rit spámannanna, nè af þeim lært að sjá, hvernig Messíasi ætti að vera varið, hvað hann ætti að gjöra og líða. þetta ber Jesús þeim á brýn með þessum orðum: „ó, þèr heimskir og tregir að trúa því, sem spámennirnir hafa talað! hlaut Kristur ekki þetta að líða og inngánga svo í sína dýrð“? Og munu ekki kristnir menn enn í dag geta mikið til þess gjört að styrkja sína sáluhjálpar von með því að kynna sèr betur guðsorð og afla sèr greinilegrar þekkíngar á lærdómum vorra háleitu trúarbragða? Að vísu er það satt, að vor sáluhjálpar von er eitt af þeim trúarsannindum, sem vèr skammsýnir og sljófskyggnir menn eigum bágt með að gjöra oss greinilega hugmynd um, eða skilja til fulls; en þó þekkíng vor á þessu efni verði jafnan hèr í lífi ófullkomin og vèr sjáum eins og gegnum gler og í þoku, þá sjáum vèr þó af öðrum trúarbragða lærdómum, sem standa í nánu sambandi við þenna, hvernig þessi vor von er oss afrekuð, hvernig vèr eigum að búa oss undir hana með því að gegna trúlega þeim skyldum, sem Drottinn hefur lagt oss á herðar og sem vèr bæði eigum að þekkja og getum þekkt. Eptir því sem vèr betur lærum að þekkja og sannfærumst um, á hverju vor sáluhjálparvon sè byggð, eptir því styrkist líka vonin sjálf meir og meir. þess vegna biður postulinn Páll, „að Guð dýrðarinnar faðir vilji gefa“ Efesusborgarmönnum „vísdóms og opinberunar anda í sinni þekkíngu og upplýsa augu hugskots þeirra, svo að þeir geti þekkt, hvílík sè *von* köllunar þeirra og hvað yfrið dýrðleg sú arfleifð sè, sem hann hefur heilögum fyrirhugað“ (Ef. 1., 17.—18.).

Stundum veiklast von og trú kristinna manna af því, að þeir elska of mjög heiminn og hans hverfulu gæði. Hvað var það, sem með fram gjörði lærisveinana í guðspjallinu svo hryggva og vonlausa? Einmitt það, að þeim hafði brugðizt sú von, að Messías mundi stofna hjá þeim veraldlegt ríki og lètta af þeim oki Rómverja. Að vèr gjörum þeim ekki rángt til í þessu, sjáum vèr bæði af því, hvernig Jesús í samtali sínu við lærisveinana leitaðist við að leiðrètta hugmyndir þeirra um það ríki, sem hann ætlaði að stofna, og eins af því, hvernig hann fór að hugga þessa lærisveina, með því að sannfæra þá um, að „Kristur hefði hlotið þetta að líða og inngánga svo í sína dýrð". Það eru þessar veraldlegu áhyggjur og vonir, sem einnig veikla vora sáluhjálpar von og svipta oss einatt sannri hugarrósemi. Um þetta sannfærumst vèr bezt, ef vèr íhugum, hvernig vèr höfum varið hinum stundlegu gæðum, og hvernig vèr höfum borið missi þeirra. Hefur þú, kristinn maður! eptir boði Páls postula, svoleiðis brúkað heiminn, að þú hafir ekki vanbrúkað hann? Hefur þú varið þeim hinum tímanlegu gæðum, sem Guð fèkk hèr í hendur, honum til dýrðar og til heilla eflíngar meðbræðra þinna? Hefur þú stundað þína jarðnesku köllun, án þess að vanrækja þína andlegu og himnesku ákvörðun? Hefur þú ætíð í hófi notið skemmtana og glaðværða lífsins, og aldrei sökum þeirra vanrækt neitt af því, sem þú áttir að gjöra? Hafir þú jafnan gætt þessa, þá er það vottur þess, að von þín stendur stöðug og óbifanleg. En hefur þú þar á mót vanrækt þessar skyldur, sem sáluhjálpar von þín leggur þèr á herðar; vanti þig mannelskufullt hugarfar, hóf í nautn stunglegra gæða og iðjusemi og trúmennsku í þinni köllun, þá vottar þetta ljóslega, að hjarta þitt hángir of fast við veröldina og að þín sáluhjálpar von er völt og veik. Hvernig hefur þú borið missi tímanlegra gæða? Þegar Guð svipti þig því, sem þú unnir mest allra hluta í veröldinni; þegar hann lèt þig reyna mæðu og mótlæti; þegar hann rètti að þèr bikar þjáníngana, eða tók aptur þau gæði, sem hann hafði lènt þèr; sýndir þú þá undirgefni undir hans vilja? Barst þú krossinn með þolinmæði og kannaðist við þann sannleika, að Drottinn agar þann, sem hann elskar? Hafir þú gjört þetta, þá sýnir það, að von þín stendur stöðug og að þú getur sagt eins og

Job: „Drottinn! þó þú viljir deyða mig, þá skal eg samt vona á þig“ (Job. 13., 15.). Hafir þú þar á mót verið óþolinmóður og möglað yfir Guðs handleiðslu; hafir þú hrundið frá þèr þeirri huggun, sem guðsorð og skynsemi þín vildu veita þèr á hryggðarinnar og hörmúnganna tíma, þá sýnir þetta, að þín sáluhjálpar von er næsta völt og veik.

Stundum veiklast von og trú kristinna manna af því Guð reynir hana, og það lítur svo út á freistínganna og þjáninganna tíma eins og hann yfirgefi þá, svipti þá sinni hjálp og huggun og byrgi sína ásjónu fyrir þeim. Jesús lèt ekki þá lærisveina, sem guðspjallið getur um, strax þekkja sig, og gjörði því ekki strax enda á hryggð þeirra, heldur er sagt, „að augu þeirra hafi verið svo haldin, að þeir þekktu hann ekki“; hann lèt þá um stund vera í þessari sáru óvissu, og þeir þekktu hann ekki fyrr enn hann braut brauðið. Á líkan hátt hagar Guð því enn þegar hann vill reyna trúnaðartraust barna sinna. Hversu opt liggur þeim ekki við að halda, að Guð hafi gleymt þeim og að þau megi ekki leingur vona á hans miskunsemi? Hversu opt liggur þeim ekki við að spyrja eins og Davíð: „hefur Guð gleymt sinni náð? Eða hefur hann falið sína miskunsemi með reiði? (Sálm. 77., 10.). En Guð hefur ekki gleymt þeim og mun aldrei gleyma þeim; því þó móðirin gleymi barni sínu, þá mun hann þó, eptir sínum náðarríku fyrirheitum, aldrei gleyma oss. Með því að draga bænheyrslunna um stund og þá huggun, sem hans börn viðþurfa, vill hann einúngis reyna trú þeirra og styrkja þeirra trúnaðartraust. En að lokunum fá þau eins og lærisveinarnir að reyna, að þegar neyðin er mest, þá er hjálp Drottins nálægust; að þegar hreggviðri hörmúnga og mótlætínga eru hvað mest og dimmust og hjörtun eru full af hryggð og þeim liggur við að örvænta, þá upprennur allt í einu ljós huggunarinnar í sálum þeirra; þau verða vör við Jesú náðar nálægð; hann birtist þeim og snýr hryggð þeirra í fögnuð og styrkir aptur þeirra veikluðu von. Eins og hann forðum lagði út fyrir lærisveinunum „allar þær ritníngar, sem af honum voru“, eins vísar hann oss enn á guðsorð og sinn heilaga lærdóm og býður oss að rannsaka þetta gaumgæfilega oss til trúarstyrkíngar, og ef vèr gjörum það, þá munum vèr „halda fast við játníngu vorrar vonar“

(Hebr. 10., 22.). Eins og lærisveinarnir þekktu Jesúm þegar hann braut brauðið, blessaði það og rètti það að þeim, eins og huggunar og fagnaðar ljós upprann þá í hjörtum þeirra, eins styrkist og glæðist von eilífs lífs hjá sannkristnum mönnum, þegar þeir neyta Drottins kvöldmáltíðar, og eru þar af frelsara sínum hátíðlega fullvissaðir um hans óendanlega kærleika, um fyrirgefníngu syndanna og eilífa sáluhjálp. En að þessu sinni viljum vèr einúngis stuttlega íhuga:

II.

Hvernig Jesú upprisa styrkir ódauðleikans von í hjarta hins trúaða. Þetta gjörir Jesú upprisa með því, að sannfæra oss um, að kenníng hans var komin frá Guði og hans friðþægíng er fulkomin. Að sönnu vitna hans kraptaverk, spádómar hans og trúarbrögð nógsamlega um sinn guðlega uppruna, en þó sannfærir ekkert eins um það og upprisa hans frá dauðum. Hann hafði sjálfur optar enn einu sinni sagt upprisu sína fyrir, og hefði þetta brugðizt, þá hefði það veikt gildi allra annara lærdóma hans. Hann segir um sjálfan sig, að hann hafi vald til að láta líf sitt og til að taka það aptur. Hefði hann ekki sýnt í verkinu, að hann hafði þetta vald; hefði dauðinn getað haldið honum, þá hefði veröldin efazt um hans guðlega vald. Hefði hann staðnæmzt í gröfinni, þá hefði hann gjört alla trúarlærdóma hans óljósa og efasama. En við hans upprisu fá hans trúarbrögð nýtt ljós og nýjan sannfæríngar krapt, því þetta eina dásemdarverk er nóg til að burtrýma allri vantrú og efasemdum. Margir eru einfaldir og fáfróðir í kristnum söfnuði, og fáir eru það, sem við ljós skynseminnar geta uppgötvað sannleikann, og opt er þetta ljós daufast og daprast þar sem það ætti að loga sem skærast. Drottinn hefur hlíft oss við þessum örðugu eptirgrennslunum með því að uppvekja Jesúm frá dauðum. Og þareð Jesú upprisa er hin sterkasta röksemd fyrir guðlegu eðli hans heilögu trúarbragða, hlýtur hún að styrkja vora von og sannfæríngu vora um það; að hann er upprisan og lífið. Vissulega byggist von vor syndugra manna um eilífa sáluhjálp á þeirri friðþægíngu, sem Jesús með dauða sínum hefur afrekað oss, því hvernig hefðum vèr annars getað vænt oss náðar og sáluhjálpar hjá hinum heilaga og rèttláta löggjafa?

En ekkert sannar eins og Jesú upprisa, að friðþægíng hans var fullkomin og fullgild; því með því að sýna, að hann hafði vald til að taka líf sitt aptur, sýndi hann líka, að tilgángi dauða hans var fullkomlega náð. Ó, hvílík huggun er ekki þetta fyrir hinn sannkristna, sem fyrir trúna hefur hlutdeild í Jesú friðþægíngu! Nú veit hann, að það er eingin fordæmíng leingur yfir þeim, sem eru í Jesú Kristi, sem ekki gánga eptir holdinu, heldur eptir andanum, og getur sagt eins og postulinn Pètur: „lofaður sè Guð, faðir Drottins vors Jesú Krists, sem með því að uppvekja hann frá dauðanum hefur eptir mikilli miskun sinni endurfætt oss til lifandi vonar, til hlutteknúngar í þeirri arfleifð, sem yður er geymd á himnum og óforgeingileg er, fullkomin og aldrei fölnar, yður, sem fyrir Guðs öflugu aðstoð varðveitizt fyrir trúna til sáluhjálpar" (1. Pèt. 1., 3.—5.). Jesú upprisa styrkir vora sáluhjálpar von með því hún skuldbindur oss og áminnir um, að breyta samkvæmt þessari von. Að breyta samkvæmt þessari von er í fám orðum: að leggja stund á helgun og lífernisbetrun. Eigi þeir einir von á inntöku í himnaríki, sem hafa gjört vilja föðursins á himnum; heimti Páll postuli það með berum orðum, „að þeir, sem bíða þeirrar sælu, sem er í vændum og dýrðlegrar opinberunar vors herra Jesú Krists, skuli afneita öllu óguðlegu athæfi og veraldlegum girndum, en lifa siðsamlega, rèttvíslega og guðrækilega í þessum heimi" (Tít. 2., 12.—13.), þá er það auðsætt, að einginn getur orðið eilífrar sælu aðnjótandi nema sá, sem upprís með Kristi til að lifa honum í endurnýjúngu lífdaganna. Og getur nokkur hlutur skuldbundið oss kristna menn til þessa meir enn Jesú upprisa? Hið nána samband milli hans upprisu og hans friðþægjandi dauða hvetur oss til að hata syndina, en elska Jesúm og hlýða honum, því með sinni upprisu hefur hann fullkomlega sýnt og sannað, að hann hefur frelsað oss frá yfirráðum og valdi syndarinnar, og að hann hefur tilbúið sjálfum sèr söfnuð, sem á að vera kostgæfinn til góðra verka; þess vegna áminnir postulinn Páll oss svo iðuglega um, að, „eins og Kristur er uppvakinn frá dauðum fyrir dýrð föðursins, þannig eigum vèr og að gánga í endurnýjúngu lífernisins". Jesú upprisa skuldbindur oss því til að lifa dyggðugu og heilögu lífi. Og ættu ekki hjörtu vor, kærir bræður!

að brenna við íhugun hans dýrðlegu upprisu og allra þeirra náðarríku velgjörða, sem af henni leiða? Ættu þau ekki að brenna af innilegu þakklæti, elsku, hlýðni og árvekni í að breyta eptir hans vilja? Ætti ekki öll vor hegðun að lýsa því, að vèr ekki lifum sjálfum oss, heldur honum, sem fyrir oss er dáinn og upp aptur risinn? En hvílík huggun er það eigi fyrir hinn sannkristna, að Jesú upprisa ekki einúngis skuldbindur og hvetur hann til helgunarinnar, heldur einnig veitir honum hugrekki og styrkir hans krapta. Allir erum vèr af sjálfum oss til veikir og vanmáttugir og þurfum æðri aðstoðar við; og fullvissu um þessa æðri aðstoð veitir Jesú upprisa oss, því nú vitum vèr, að hann er með sínum trúnðu alla daga og sendir þeim sinn anda, svo þeir geta barizt hinni góðu baráttu, endað skeiðhlaupið og varðveitt trúna.

Jesú upprisa styrkir sáluhjálpar von sannkristinna manna, með því hún heitir þeim dýrðlegri upprisu á síðasta degi. Heilög ritníng fullvissar oss um það með berum orðum, að þeir, sem lifa og deyja í samfèlagi við Jesúm Krist, muni á síðan upprísa úr gröfunum og öðlast þá sælu, sem Jesús hefur afrekað þeim. Geta nokkur orð verið skýlausari enn þessi Jesú orð: „Sá tími mun koma, þá er allir þeir, sem í gröfunum eru, munu heyra Guðs sonar raust; og þeir munu gánga út: þeir, sem gott hafa gjört, til upprisu lífsins, en þeir, sem illt hafa aðhafzt, til upprisu fordæmíngarinnar“ (Jóh. 5., 28.—29.). Þessi og önnur þvílík orð í heilagri ritníngu fá nýja staðfestíngu við Jesú upprisu. Með henni hefur hann ekki einúngis sýnt, að upprisa framliðinna er möguleg, heldur fullvissar hann einnig alla sanntrúaða um, að hann muni uppvekja þá á efsta degi. Í þessu tilliti kallar postulinn Páll Jesúm „frumgróða þeirra, sem dánir eru“ (1. Kor. 15., 20.), til þess að sýna, að eins og frumgróðinn hjá Gyðíngum boðaði uppskeruna, eins boðar Jesú upprisa, að upprisa trúaðra muni á eptir koma. Og á sama stað segir postulinn: „ef það er kennt, að Kristur sè upprisinn, hvernig geta þá nokkrir af yður sagt, að dauðra upprisa sè ekki til“? Getur nokkur hlutur betur styrkt vora sáluhjálpar von, enn þessir vitnisburðir heilagrar ritníngar? Vèr ráfum nú ekki leingur í efasemdanna og óvissunnar myrkri um

vora sáluhjálp og upprisu framliðinna, heldur gaungum í ljósi guðlegrar opinberunar. Sönnunin fyrir upprisu vorri er einföld, stutt og auðskilin, eins og varð að vera til þess að allir hefðu hennar not. Jesús er upprisinn, og eins og þetta er víst, eins er hitt líka áreiðanlegt, að vèr munum upprísa. Einginn er svo fáfróður, að hann skilji ekki þessa sönnun. Ó, hve mikið höfum vèr þá góðum Guði að þakka, sem hefur gefið oss þau trúarbrögð, sem efla sannarlega farsæld *allra manna!*

Gleðstu því, kristinn maður! hjá gröf þíns upprisna frelsara; en þó ekki fyrr enn þú í trúnni hefur tekið þátt í sigri hans yfir synd og dauða, og sýnir þetta með því að stríða við og sigra þínar vondu girndir og syndsamlegu tilhneigíngar, og leggur stund á heilagt líferni. Gleðstu af því, að þú á hinu hála skeiðhlaupi lífsins ert staddur og styrktur af þínum upprisna frelsara og mátt vænta hjálpar hans og fulltíngis til að geta sigrazt á öllum freistíngum, sem fyrir þig koma, Gleðstu af að hugsa til þess sigurs, sem hann á síðan mun hjálpa þèr til að vinna yfir gröf og dauða, og af því að renna vonarinnar augum til hins mikla og dýrðlega upprisudags, þegar hið forgeingilega íklæðist óforgeingilegleikanum og þú munt upprísa til að lifa með honum eilíflega. Amen.

---

## Á fyrsta sunnudag eptir páska.

### Bæn.

Víst er eg veikur að trúa,
veiztu það, Jesú! bezt,
frá syndum seinn að snúa,
sem mig nú ángrar mest;
þó framast það eg megna
þínum orðum eg vil
treysta og gjarnan gegna;
gef þú mèr náð þar til!

(Messusaungsbók. nr. 195.)

## Guðspjallið
(Jóh. XX., 19.—31.)

Að kvöldi þess sama dags, sem var sá fyrsti í vikunni, og eptir að búið var að læsa dyrum á því húsi, hvar lærisveinarnir voru samansafnaðir, sökum hræðslu við Gyðínga, kom Jesús þar, stóð mitt á meðal þeirra og sagði við þá: friður sè með yður! en þegar hann hafði þetta sagt, sýndi hann þeim sínar hendur og síðu. Lærisveinarnir glöddust við, er þeir sáu herrann. Jesús sagði þá enn aptur til þeirra: friður sè með yður! Eins og faðirinn sendi mig, svo sendi eg yður. En sem hann talaði þetta, blès hann á þá og sagði: meðtakið heilagan anda! hverjum sem þèr fyrirgefið syndirnar, þeim eru þær fyrirgefnar, en hverjum sem þèr synjið fyrirgefníngar, þeim verður synjað um fyrirgefníngu. En Tómas, einn af þeim tólf, sem kallaðist tvíburi, var ekki með þeim, þegar Jesús kom. Hinir lærisveinarnir sögðu honum: vèr höfum sèð herrann. Tómas svaraði: nema eg sjái naglaförin í hans höndum, láti fíngur minn í naglaförin, og leggi hönd mína í hans síðu, þá trúi eg því ekki. Eptir átta daga, þegar lærisveinarnir voru þar inni, og Tómas með þeim, kom Jesús — að luktum dyrum — stóð mitt á meðal þeirra og sagði: friður sè með yður! síðan sagði hann til Tómasar: rèttu fíngur þinn híngað og skoða hendur mínar, og lyptu upp hendi þinni, og legg hana á síðu mína, vertu ekki vantrúaður, heldur trúaður! Tómas sagði til hans: Drottinn minn og Guð minn! Jesús svaraði: af því þú sást mig, Tómas! trúðir þú, en sælir eru þeir, sem trúa, þótt þeir ekki sjái. Mörg fleiri teikn gjörði Jesús í augsýn sinna lærisveina, hverra hèr er ekki getið; en þetta er ritað, svo að þèr trúið, að Jesús sè Kristur, sonur Guðs, og þèr svo trúaðir hefðuð lífið í hans nafni.

## Inngangur.

„Vertu ekki vantrúaður, heldur trúaður"! þannig áminnti Jesús Tómas lærisvein sinn í því hinu helga guðspjalli, sem vèr í dag ætlum að taka til hugleiðíngar. þannig áminnir hann líka sèrhvern af oss, því án trúar getum vèr ekki orðið Guðs náðar aðnjótandi, og því ekki heldur eilífrar sælu. En trúin er innifalin í öruggu trúnaðartrausti og getur þess vegna ekki verið samfara hviklyndu og hvarflandi hugarfari. því segir postulinn: „Sá sem er efablandinn, hann er líkur hafsins bylgjum, uppæstum og hröktum af vindi. þvílíkur maður hugsi ekki, að hann fái nokkuð af Drottni" (Jak. 1., 6.—8.). þeim sem þannig er sinnaður, sem vill eitt í dag en annað á morgun og er eins og reyr af vindi skekinn, geta hvorki Guð nè menn treyst, og hann getur ekki heldur treyst sèr sjálfur og hefur því eingan frið í hjarta sínu. Hin efablandni er á leiðinni til falls og hrösunar. En vèr verðum að gjöra mun á þessari syndsamlegu efablendni, sem leiðir til vantrúar í vorum sáluhjálparefnum, og þeirri skynsamlegu varkárni og varasemi, sem bannar oss að vera of auðtrúa, eða hlaupa eptir því, sem hver segir, sem bannar oss að leggja dóm á nokkurt mál fyrr enn vèr erum búnir að rannsaka það og orðnir sannfærðir af gildum ástæðum. Hvað Tómas Jesú lærisvein snertir, þá hefði það, sem hann áður vissi um frelsarann, það, sem hann hafði sèð af hans dásemdarverkum og heyrt af hans orðum, átt að geta sannfært hann um, að vitnisburður hinna lærisveinanna var sannur. þess vegna ávítaði Jesús hann líka fyrir hans efasemi, og bættti síðan við þessum mikilvægu orðum: „sælir eru þeir, sem trúa, þótt þeir ekki sjái".

Af þessum orðum lausnara vors viljum vèr á þessari guðræknis stundu taka oss tilefni til að hugleiða:

*þá efasemi, sem sprettur af því, að menn ekki vilja trúa nema þeir sjái.*

Að sönnu hafði Tómas efazt og látið efa sinn í ljósi með sterkum orðatiltækjum, en þó bjó ekki hjá honum efi vantrúarinnar, heldur efi kærleikans og gleðinnar. Hann efaðist, eins og sumir, sem fá einhverja mikla og óvænta gleðifregn. „það er ómögulegt", segja þeir, „eg trúi því ekki fyrr enn eg sè það".

En allt fyrir það verða þeir næsta glaðir, sem sýnir, að þeir ekki einúngis fegnir vilja trúa, heldur og eru þegar farnir að trúa gleðifregninni, en einmitt af því að þeim þykir svo vænt um hana, vilja þeir vita vissu sína um, að hún sè sönn og áreiðanleg. það er eins og þeir sèu hræddir um, að þessi heppni, sem þeim er boðuð, gángi úr greipum þeim, áður enn þeir fái höndlað hana og haldið henni fastri. þannig var því varið fyrir Tómasi. Undrun hans og gleði yfir Jesú upprisu var svo mikil, að hann ekki hafði viðþol nè þreyju, fyrr enn hann með sínum eigin augum feingi litið sinn heittelskaða Drottin og með áþreifanlegum hætti fundið, að hann væri ekki tómur svipur, og gæti af naglaförunum á líkama hans sannfærzt um, að hann væri sá sami Jesús, sem hann hafði sèð láta líf sitt á krossinum. Tómas hafði áður sýnt, hve heitt hann unni sínum himneska fræðara; því þegar hinir lærisveinarnir afrèðu Jesú að fara og uppvekja Lazarus með þessum orðum: „nýlega ætluðu Júðarnir að grýta þig, ætlar þú að fara þángað aptur“? þá sagði Tómas: „vèr skulum fara líka, svo að vèr deyjum með honum“ (Jóh. 11., 16). þannig lèt hann bæði í ljósi elsku til Jesú og þá djörfúng og hugprýði, sem sjaldan finnst hjá veiktrúuðum mönnum. þó ber Jesús honum nú á brýn efablendni hans. Í hverju var þá yfirsjón hans einkanlega innifalin? það sjáum vèr af þessum Jesú orðum: „sælir eru þeir, sem trúa, þó þeir ekki sjái“. Tómasi yfirsást í því, að hann heimtaði vitnisburð sinna ytri skilníngarvita, augna sinna og handa, um það, sem hann hafði nægar ástæður til að sannfærast um með skynsamlegri yfirvegun. þessar ástæður voru fólgnar í því, að Kristur optar enn einu sinni hafði sagt upprisu sína fyrir, og að svo margir af lærisveinum hans höfðu nú sèð hann upprisinn. Jesús ávítaði Tómas ekki fyrir það þó hann tryði ekki undir eins, eða þó hann vildi byggja trú sína á rökum og rannsókn, heldur fyrir hitt, að hann vildi byggja sannfæríngu sína á líkamlegri reynslu. Inntak og efni kristilegrar trúar er andlegt, og trúin sjálf er innifalin í sannfæríngu um það, sem maðurinn ekki sèr (Hebr. 11., 1.). Allt sem vèr lesum og heyrum lesið um Guð og frelsara vorn er svoleiðis lagað, að það verður ekki gripið með skilníngarvitum líkamans; að minnsta kosti getum vèr ekki leingur þreifað á

því á líkamlegan hátt, heldur einúngis hugsað um það og fundið til þess í sálunni; vèr getum ekki, eins og Tómas, lagt höndina í Jesú síðu, nè sagt, eins og Jóhannes, „að vèr höfum sèð með augum vorum og með höndum vorum þreifað á lífsins orði“ (1 Jóh. 1., 1.). Kristur er oss einúngis nálægur í hjörtum vorum þegar vèr höndlum hann í trú og kærleika. En vèr vitum, að hann sem maður var um stund sýnilega nálægur hèr á jörðu, að hann hèr kenndi, píndist og dó í viðurvist óteljandi manna. „Vèr höfum sèð herrann“, segja guðspjallamennirnir og postularnir oss. Ef vèr nú segðum: vèr trúum ekki fyrr enn vèr sjálfir sjáum, þá breyttum vèr enn þá óskynsamlegar enn Tómas. Hann hafði að minnsta kosti þá ástæðu fyrir sèr, að það var ekki einúngis mögulegt, heldur líklegt, að Jesús mundi birtast honum eins og hinum lærisveinunum. En færum vèr að efast um Jesú upprisu og um allt, sem vèr um hann lesum, af þeirri ástæðu, að vèr höfum ekki sjálfir verið sjónar- eða heyrnarvottar að því, þá gætum vèr af sömu ástæðu efazt um allt, sem við hefur borið á hinum liðnu öldum, og um allt, sem enn ber við í heiminum, þar sem vèr ekki erum sjálfir viðstaddir. En eins og vèr ekki getum efazt um Jesú líf og dauða og upprisu, því frá þessu er sagt af þeim mönnum, sem Guð sjálfur hafði kjörið til að boða það; og hefði Kristur ekki upprisið frá dauðum, þá væri ekki kristileg kirkja og einginn kristinn söfnuður til, því allt, sem kallast kristindómur, byggist á þessum sannleika. En nú kann einhver að hugsa: eg efast ekki um, að það sè satt, sem eg les og heyri, því það er guðsorð; en mèr finnst þó, að trú mín hefði verið innilegri og fjörugri, hefði eg sjálfur verið viðstaddur og sèð og heyrt það sem skrifað er; heyrt Jesú kenníngar, sèð hans kraptaverk, dauða, upprisu og himnaför: þá hefði eg ekki einúngis feingið greinilegri þekkíngu á honum sjálfum, heldur hefði eg þá líka feingið meiri mætur á hans lærdómi og orðið honum enn trúrri og handgeingnari.

Því verður ekki neitað, að Jesú lærisveinar höfðu þá miklu yfirburði yfir oss, að þeir gátu notið hans munnlegu tilsagnar og uppfræðíngar og glaðzt af hans sýnilegu nálægð; þess vegna sagði hann líka við þá: „sæl eru þau augu, sem sjá, hvað þèr sjáið; því eg segi yður, að margir spámenn og konúngar hafa

viljað sjá það sem þèr sjáið, en sáu það ekki, og heyra það sem þèr heyrið og heyrðu það ekki" (Lúk. 10., 23.—24.) Sömuleiðis segir guðspjallamaðurinn Jóhannes (1., 14.), „að þeir hafi sèð hans dýrð, dýrð sem hins eingetna föðursins". En þó meinar hann ekki þá dýrð hans, sem þeir með líkamlegum augum og eyrum urðu varir við, heldur hina andlegu dýrð, sem var full náðar og sannleika og birtist í orðum hans og verkum. Þegar vèr gætum þess, að það voru að eins fáeinir menn, sem trúðu á Jesúm, af hinum mörgu þúsundum, sem höfðu færi á að sjá hann á hans hèrvistardögum og hlýða hans kenníngu; að flestallir yfirgáfu hann af þeim sjötíu lærisveinum, sem honum fylgdu um tíma; að einn af þeim tólf lærisveinum varð til að svíkja hann, og að jafnvel hinir voru næsta trúarveikir þángað til Kristur var upprisinn; þegar vèr gætum þessa, þá höfum vèr fullgildar ástæður til að óttast fyrir því, að þó þeir, sem nú með köldum hjörtum heyra hans orð og það sem um hann er skráð, ættu kost á að sjá og heyra hann sjálfan, þá mundi það þó hafa lítil áhrif á þá, því þó þeir í bráð kynnu að verða hrifnir af felmtri og lotníngu, þá er þó hætt við, að hjörtu þeirra kólnuðu þegar fráliði, og að þeir þá yfirgæfu hann aptur, til þess að láta ekki vald hans orða ónáða sig í þeirra holdlega andvaraleysi og þeirra veraldlegu sýslunum. — Þess ber og að gæta, kærir bræður! að þó vèr hefðum sjálfir sèð og heyrt það, sem guðspjallarmennirnir segja oss frá, þá yrði þó ekki annað af því eptir hjá oss enn endurminníngin, úr því vèr ekki leingur heyrðum eða sæum lausnara vorn eptir hans himnaför. Eða hvernig er því varið með allt, sem vèr sjálfir reynum, með allt, sem komið hefur fram við oss og borið fyrir oss frá blautu barnsbeini? Þegar það er liðið, þá rekur oss einúngis minni til þess, og vèr munum glöggt til sumra hluta, til sumra ekki. Hvernig höfum vèr gagn af reynslu vorri? Hvernig getur vort liðna líf hjálpað til vorrar lífernisbetrunar? Er það ekki með því, að vèr hugsum til hins umliðna, hugsum um það, sem ekki er leingur til, sem vèr hvorki heyrum nè sjáum leingur og virðum það fyrir oss eins og það væri enn þá til, eins og vèr enn þá heyrðum það og sæum? Eins getum vèr farið með það, sem vèr lesum í heilagri ritníngu; vèr getum hugleitt það og látið það vera oss lifandi

fyrir hugskots sjónum. Ef vèr einúngis trúum frásögum guðspjallamannanna, þá höfum vèr sömu not, sömu uppfræðíngu og sömu uppbyggíngu af þeim, eins og þó vèr hefðum sjálfir verið þar viðstaddir. Já, vèr höfum það framyfir þá, að nú getum vèr sèð guðlega opinberun alla í einu lagi; vèr getum borið rit nýja sáttmálans saman við bækur hins forna sáttmála; vèr getum íhugað útbreiðslu og verkanir Jesú náðarlærdóms; vèr getum eins og þreifað á því, hve dásamlega guðleg forsjón hefur vakað yfir sínum söfnuði allt fram á þenna dag. Vèr sjáum, að Krists kirkja hefur nú næstum því í tvö þúsund ár staðið stöðug á því hellubjargi, sem vald helvítis hvorki hefur getað nè nokkurn tíma mun geta bifað, og vèr getum nú sèð guðlega hátign í enn fegra ljósi enn samtíðamenn hans. „þeir hafa Móses og spámennina, heyri þeir þeim" sagði Abraham, í dæmisögu frelsarans, um bræður hins ríka manns og um alla, sem lifðu fyrir Krists daga; og hann bætti þessu við: „vilji þeir ekki hlýðnast Mósi og spámönunum, þá munu þeir ekki heldur trúa, þó einhver dauður upprisi" (Lúk. 16., 29.—31.). En vèr, kristnir menn, höfum það, sem meira er ívarið enn Móses og spámennina; vèr höfum vitnisburð guðspjallamannanna og postulanna; já, vèr höfum það, sem hinn ríki maður ekki gat áunnið bræðrum sínum; vèr höfum þann, sem frá dauðum er upprisinn, sem varar oss við, svo vèr komum ekki í kvalastaðinn; sem ekki einúngis varar oss við honum, heldur og gætir vor, svo vèr ekki komum þángað, ef vèr einúngis hlýðum hans röddu og trúum hans orðum. þó vèr ekki heyrum til hans með eyrunum, þá heyrum vèr þó rödd hans í hjörtum vorum; þó hann birtist ekki augum vorum, birtist hann þó — og í það er meira varið — sálum vorum í því ljósi, sem hann þar kveikir, í þeirri huggun og helgun og þeim friði, sem hann veitir oss. „Sælir eru þeir, sem trúa, þó þeir ekki sjái". Og hvað er það, sem vèr ekki sjáum? Ekki annað enn það, sem vèr eins og Tómas viljum taka á með höndum vorum; oss vantar ekkert í náðarinnar ríki nema sýnilega nálægð vors himneska kongúngs. Ættum vèr ekki allt fyrir það, sem trúir þegnar, að hlýða boðum hans? Ættum vèr ekki að bera djúpustu lotníngu fyrir Krists guðlegu hátign, þó vèr ekki sjáum auglit hans? Ætti oss að farast verr við hann, enn þjóðunum

ferst við hina jarðnesku konúnga, sem fæstum auðnast að sjá, þar sem hann þó er öllum konúngum æðri og hefur allt vald á himni og jörðu, og elskar oss þar á ofan heitar og innilegar, enn nokkur konúngur getur elskað þegna sína? Vissulega hlýtur það á síðan að verða gleðilegra og fagnaðarríkara, enn nokkrum dauðlegum manni nú getur komið til hugar, að fá að sjá vorn himneska konúng „augliti til auglitis“, og þá dýrð, sem faðirinn hefur honum gefið; en til þess að vèr getum komizt til þessarar sælufullu skoðunar, komizt þángað sem hann er, verðum vèr að gánga hèr í trúnni. Með því að hagnýta oss hans náðarlærdóm eigum vèr þegar hèr að nálgast hann, leita hans með iðrandi hjörtum og auðmjúku trúnaðartrausti, fylgja og hlýða honum af kærleika og reynast honum trúir til dauðans. Já, vèr höfum „áreiðanlegt orð“, sem leiðbeinir oss til Guðs og hans ríkis, og það er sjálfum oss að kenna, ef vèr höfnum því og gaungum glötunarinnar veg. „Til þess er það ritað, að vèr skyldum trúa, að Jesús sè Kristur, sonur Guðs, og vèr svo trúaðir hefðum lífið í hans nafni“. Vèr getum líka sjálfir reynt, að það er lífsins orð og kraptur Guðs til sáluhjálpar öllum þeim sem trúa; þetta reynum vèr í hjörtum vorum, með því það vekur hjá oss djörfúng og krapta til hins góða og veitir oss huggun og frið; og án þessarar innvortis reynslu verður sannfæríng vor aldrei stöðug nè fullkomin. En, því miður, vantar marga þessa reynslu; þeir lesa og heyra guðsorð iðuglega, en verða þó aldrei varir við sáluhjálplegar verkanir þess. Á þeim sannast þessi orð postulans (2. Tím. 3., 7.): „þeir eru allt af að læra, en komast þó aldrei til þekkíngar á sannleikanum“. Hvað kemur til þessa? Það, að þeir nema ekki annað enn bókstaf orðsins, eintóman hljóm orðanna; en bókstafurinn deyðir, þar sem andinn lífgar. Andinn hefur áhrif á hjartalagið; en hjá þessum mönnum staðnæmist orðið í minninu eins og þula, sem lærð er utan að; þess vegna getur það ekki heldur hjálpað þeim þegar efasemdir og freistíngar sækja þá heim. Aðrir þar á mót láta sèr lynda að skilja orðið, og fara á mis við krapt þess, af því að þeir gefa sig alla við að grufla út í þá hluti, sem oss er ekki unnt að vita, sem eru skilníngi vorum ofvaxnir og ekki lagaðir til að mennta nè betra oss. „Vindurinn blæs þar sem hann vill“, segir Jesús, „og þú

heyrir hans þyt, en veizt ekki, hvaðan hann kemur, eða hvert hann fer; eins er því varið með hvern, sem af andanum er fæddur“ (Jóh. 3., s.). Með þessum orðum, gefur frelsari vor til vitundar, að ef vèr ekki skiljum í straumi og hræríngum vindsins, þá sè ekki von til, að vèr skiljum í verkunum heilags anda, að ef vèr í voru líkamlega lífi ekki getum skilið eða þurfum að skilja þá hluti, sem vèr ekki fáum að gjört, eins og breytíngu veðráttunnar, þá getum vèr því síður í andlegum efnum gjör skilið þá hluti, sem er Guðs eins að vita og sem hann einn ræður fyrir, og að oss sè því síður ætlað að gjörskilja þess háttar hluti, sem slík ígrundan veki hjá oss efasemdir og hættulegar villur, eða andlegan hroka. Vèr höfum nóg með að grennslast eptir því, hvernig vèr fáum rèttilega gjört það, sem oss ber að gjöra. Látum oss grennslast eptir hjartalagi og líferni sjálfra vor og rannsaka, hvort vèr höfum breytt vel eða illa, hvort vèr elskum Guð um fram alla hluti og náúngann eins og sjálfa oss, hvort vèr með hugsunum, orðum og verkum höfum haldið Guðs boðorð, eða brotið þau. Þetta er nóg rannsóknar og umhugsunar efni fyrir oss. Látum oss minnast þess, að Guð hefur gefið oss lögmálið og evangelium, ekki til hègómlegra spurnínga, heldur oss til betrunar og helgunar; lögmálið til að sýna oss, hve óhreinir og syndugir vèr erum, og evangelium oss til hreinsunar og til að þvo af oss „saurgun holdsins og andans“, ef vèr ekki sjálfir mótstöndum þeim hinum guðlega krapti, sem býr í hans orði. Sáluhjálpin er öllum boðin, eins hinum fáfróðu og hinum margfróðu, og sönn guðrækni er ekki innifalin í heilabrotum, nè ófrjófsamri ígrundun Guðs leyndardóma, heldur í hreinu hjarta og ráðvöndu líferni.

Af þessu, sem nú er sagt, má ráða, að efablandið hugarfar sprettur ekki einúngis af raungum skilníngi, heldur á sèr einnig rót í viljanum. Þetta sjáum vèr enn betur þegar vèr gætum þess, að það eru til tvenns konar efasemdir. Önnur tegundin sprettur af rángri og ófullkominni þekkíngu, hin af óbeit á sannleikanum, að því leyti sem hann er gagnstæður spilltum tilhneigíngum, eða af ístöðuleysi, þegar viljinn lætur snúa sèr, stundum á þenna bóginn, stundum á hinn, og verður því á sífeldu reiki. Það er auðvitað, að báðar þessar

tegundir renna saman. Óbifur á sannleikanum er greinilegri og fullkominni þekkíngu til fyrirstöðu; ístöðuleysi viljans veikir alla sannfæríngu, og skortur á sannri og nauðsynlegri þekkíngu leiðir ekki einúngis af sèr villur, heldur einnig ávirðíngar og yfirsjónir.

Með sannri og lifandi trú nálgumst vèr Guð og lifum í hans augsýn; hvernig getum vèr þá ætlazt til þess, að þessi trú geti búið í sálu þess manns, sem elur hjá sèr saurugar hugsanir og syndsamlegar girndir, sem er fullur af ágirnd, drambsemi, óánægju, lastmælgi, munaðarlífi, öfund, hatri, hefndargirni, flærð og vonzku? Sá maður, sem lætur einhverjar af þessum vondu tilhneigíngum fá yfirhönd hjá sèr, hlýtur að fjarlægjast Guð, sem er heilagleikinn sjálfur. Af ótta fyrir hinum allsvitanda, heilaga og rèttláta dómara, hættir hann öldúngis að hugsa um Guð, og þess vegna deyja líka guðlegar tilfinníngar út í hjarta hans, þó hann hafi skýrar hugmyndir og fasta sannfæríngu um Guðs veru og eiginlegleika, og að lokunum fer einnig skilníngur hans að sljófgast og villast. Hann elskar myrkrið meir enn ljósið, því „hver sá, sem illa breytir, hatar ljósið“, segir Jesús (Jóh. 3., 20.). Eins og það er unaðarfullt fyrir hinn dyggðuga að sjá ljósið og gánga í því, eins óttalegt er þetta fyrir hinn, sem hefur framið myrkranna verk og er hræddur um, að þau muni komast upp. En það eru ekki hinir óguðlegu einir, sem vantar sálarfrið og sinnisrósemi, heldur einnig hinir efablendnu og trúarveiku. Margir eru ángraðir og óþreyjufullir útaf syndum sínum, en hafa þó ekki þrek í sèr til að snúa frá syndinni til Guðs. Einnig hjá þeim, sem fyrir Guðs náð eru fullvissir um fyrirgefníngu synda sinna, geta efasemdir vaknað, sem kemur til af því, að helgun þeirra er ófullkomin. Því betur sem þeir sjá hið rètta og því meir sem þá lángar til að fylgja því, þess meir hlýtur það að hryggja þá, að þeir gjöra það ekki eins rækilega og þeir vildu. En þetta sýnir, að viljinn hjá þeim er ekki eins sterkur eins og hann ætti að vera og gæti verið. Að vísu er það Guð, sem verkar bæði viljann og máttinn til hins góða eptir sinni velþóknun; en vèr megum ekki veita hans náðar verkunum mótspyrnu, nè vanrækja þau náðarmeðul, sem hann af gæðsku sinni hefur gefið oss, heldur eigum vèr kostgæfilega að heyra

og lesa hans orð, daglega minna sjálfa oss á vorn skírnarsáttmála, daglega búa oss undir nautn heilagrar kvöldmáltíðar með alvarlegri sjálfsprófun, innilegri bæn, stöðugri árvekni og stríði við holdið og heiminn. Á sáluhjálparinnar vegi eru margar torfærur, sem vèr þurfum að komast yfir, og margar villigötur, sem vèr verðum að forðast; á þessum vegi þurfum vèr á stöðuglyndi og hugrekki að halda, og sýna sjálfsafneitun og undirgefni undir Guðs vilja. „Ef hönd þín eða fótur hneyxlar þig, segir Jesús, þá högg hann af og kasta honum burt; og ef auga þitt hneyxlar þig, þá stíng það út og kasta því á burt“ (Matth. 18., 8.—9.), það er að skilja: þá hluti, sem vèr höfum mestar mætur á, eigum vèr að leggja í sölurnar, ef þeir eru guðrækni vorri til tálmunar og aptra oss frá að gjöra það, sem rètt er. En til þessa útheimtist sú trú, sem sigrar allar efasemdir og hana getur Guð einn gefið oss. Þess vegna eigum vèr daglega að biðja Drottin að styrkja og glæða vora trú. Og þegar þú, kristinn maður! biður hann þess af öllu hjarta og felur þig honum á hendur með þeim alvarlega ásetníngi að gjöra allt sem í þínu valdi stendur, þá mátt þú vera viss um bænheyrslu, og getur treyst þessum huggunarríku orðum Drottins: „lát þèr nægja mína náð, því minn kraptur sýnir sig fullkominn í veikleikanum“ (2. Kor. 12., 9.).

Já, Drottinn mun leiða þig á hinum rètta vegi til ljóssins og friðarins, ef þú ekki mótstendur verkunum hans anda og vilt fyrir alvöru forðast syndina. Hann mun koma til þín, eins og hann kom til Tómasar lærisveins síns, ef þú leitar sannleikans af einlægu og hreinskilnu hjarta. Ef þú með andakt hefur Guðs orð um hönd og biður um aðstoð hans anda, þá mun Jesús einnig birtast þèr, og þó þú sjáir hann ekki með augunum, þá muntu þó verða var við hann í hjartanu. Eins og hann kom til lærisveina sinna að luktum dyrum, stóð mitt á meðal þeirra og sagði: friður sè með yður! eins mun hann líka koma til þín þá er þú situr einsaman, ángraður af efasemdum þínum, og segja: friður sè með þèr! Já, hann mun gefa þèr þann frið, sem veröldin ekki getur gefið og einginn nema hann: þann Guðs frið, sem er öllum skilníngi æðri. Þá muntu líka með innilegu trúnaðartrausti kalla upp og segja: „Drottinn minn og Guð minn“! Þá muntu líka ekki einúngis

með vörunum játa heldur og í hjarta þínu reyna, „að Jesús er Kristur, sonur Guðs, og að þú fyrir trúna hefur lífið í hans nafni". þá getur þú sagt, eins og postulinn Páll: „eg veit á hvern eg trúi og er þess fullviss, að hann megnar að varðveita það, sem mèr er á hendur falið, til ens ákveðna dags" (2. Tím. 1., 12.). þá getur þú líka verið viss um, að „hvorki dauði nè líf, hvorki einglar nè höfðíngjadæmi nè völd, hvorki hið nálæga nè hið ókomna, hvorki hæð nè dýpt eða nokkur önnur skepna mun geta skilið þig við Guðs kærleika, sem er í Kristi Jesú Drottni vorum". Amen.

---

## Á annan sunnudag eptir páska.

### Bæn.

Upp í hæðirnar til þín, himneski faðir! leitar hugur vor og hjarta á þessari náðarstundu. þökk sè þèr, mildiríki faðir! fyrir það, að þú sendir oss þinn eingetinn son, hinn góða hirði, til að leita vor, sem fórum villir vegar, og leiða oss til þín. Æ, glataðir og týndir værum vèr, hefðir þú ekki sent hann, glataðir og týndir værum vèr, ef hann ekki enn þá gætti vor og verndaði oss, ef hann ekki enn þá aðvaraði, áminnti og huggaði oss með sinni blíðu röddu. En svo er heimska vor og fásinna mikil, að vèr einatt daufheyrumst við þessari himnesku raustu, en hlaupum eptir heimsins ginnandi röddum og látum þær lokka oss fram á glötunarinnar barm. Vek þú oss, Drottinn! af þessu andlega sinnuleysi, svo vèr ekki leingur byrgjum eyru vor fyrir raustu ens góða hirðisins, eða látum hans orð leingur þjóta um þau eins og vind, heldur fylgjum honum fúslega og gaungum þann veg, sem hann vísar oss á, því þessi vegur liggur til eilífs lífs; hann liggur til þín og frelsara vors, því þínir vegir eru einber miskun og sannleiki, og vor frelsari er vegurinn, sannleikurinn og lífið. Æ, leið þú oss, vor góði hirðir! á lífsins vegi, svo vèr sèum þínir, hvort sem vèr lifum eða deyjum! Amen. –

### Guðspjallið

(Jóh. X., 11.—16.).

Jesús sagði til Gyðínganna: Eg er góður hirðir, góður hirðir gefur sitt líf út fyrir sína sauði, en leigu-

liðinn og sá, sem ekki er hirðir og á ekki sauðina, þegar hann sèr úlfinn koma, þá yfirgefur hann sauðina, og flýr á burt; en úlfurinn grípur sauðina og tvístrar þeim; en leiguliðinn flýr, af því hann er leiguliði, og gætir ekki sauðanna. Eg er góður hirðir, og þekki mína sauði, og eg þekkist af mínum, eins og faðirinn þekkir mig, og eg þekki föðurinn; eg gef og mitt líf út fyrir mína sauði. Eg hefi líka aðra sauði, sem ekki eru af þessu sauðahúsi, þá byrjar mèr og hèr til að leiða, og þeir munu heyra mína röddu; þar mun þá verða eitt sauðahús og einn hirðir.

## Inngángur.

Fagur og huggunarríkur er hinn 23. sálmur Davíðs, sem byrjar með þessum orðum: „Drottinn er minn hirðir, mig skal ekkert bresta". Davíð konúngur, sem í æskunni hafði sjálfur gætt hjarðar föður síns, hefur þessa samlíkíngu um *hirði* til að sýna, hve náðarsamlega Drottinn gæti þeirra, sem honum tilheyra, þeirra sem óttast hann og elska. En þó er þessi samlíkíng enn þá þýðíngarmeiri og huggunarfyllri fyrir oss kristna menn, af því vèr þekkjum betur enn Gyðíngar Guðs föðurlegu forsjón og handleiðslu á oss, og vitum, að hann af sinni óumræðilegu náð hefur sent oss hinn góða hirði, sem Jesús sjálfur kallar sig. Hið helga guðspjall gefur oss tilefni til að hugleiða þessa samlíkíngu betur, og eptir ávísun þess viljum vèr á þessu stundarkorni í Jesú nafni íhuga:

*hvernig hinn góði hirðirinn gætir sinnar endurleystu hjarðar.*

Ímyndið yður, kærir bræður! hjörð eða sauðahóp, sem eingan hirði hefur, sem hefur villzt út á eyðisanda, þar sem eingar slóðir eða götur eru, og hjörðin veit ekki, hvort hún á að fara fram eða aptur, til hægri eða vinstri; hún er þar yfirkomin af húngri og þorsta, af hita og þreytu og finnur hvorki skjól, gras eða vatn, en er umkríngd af óarga dýrum, og verður þeim að bráð þegar minnst vonum varir. Þegar vèr höldum þessari samlíkíngu, þá má það með sanni segja, að við líka

hefði verið ástatt fyrir mannkyninu, hefði Guðs son ekki komið í heiminn. Eins hefði líka verið ástatt fyrir oss, kærir bræður! hefðum vèr ekki þekkt Krist, nè verið uppfræddir í hans guðlega lærdómi, eða getað aðhyllzt og umfaðmað hans friðþægjandi kærleika. þá hefðum vèr ekki þekkt ákvörðun lífsins, þá hefðum vèr dáið án allrar vonar og huggunar; þá hefðum vèr hvorki vitað, hvaðan vèr erum komnir, nè hvert oss er ætlað að komast; þá geingjum vèr allir villuráfandi, eins og sauðir, sem eingan hirði hafa" (Matth. 9., 36.); já, margir hefðu þá, og, ef til vill, vèr sjálfir, ætt eins og „glepsandi vargar". En þökk sè góðum Guði! nú getum vèr skoðað kristinn söfnuð sem þá hjörð, er hinn góði hirðirinn ættíð og alstaðar fylgir og gætir. Sauðirnir sjá hann ekki; en „þeir heyra hans raust", sjá hans fótspor og þekkja hans máttugu og mildiríku vernd og handleiðslu. þessi hirðir er Jesús; hans raust heyrum vèr þegar vèr lesum hans orð; hans fótspor sjáum vèr, þegar vèr gefum gætur að hans líferni og hans verkum, og verðum varir við hans verndarhönd, þegar vèr trúum honum og treystum. Vèr höfum nýlega heyrt nokkur af þeim náðarríku orðum, sem út geingu af hans munni. Ættu þau ekki að hræra hjörtu vor og gagntaka oss með þeim himneska kærleika, sem í þeim birtist, og láta oss finna til þess, að Jesús er sá *góði hirðir?* Tvisvar kallar Jesús sig góðan hirði í guðspjallinu og setur þetta huggunarfulla nafn bæði í samband við dauða sinn, og líka við það, hvernig hann muni vernda sína hjörð og gæta hennar. „Eg er góður hirðir", segir Jesús, „góður hirðir gefur sitt líf út fyrir sína sauði". Og vissulega er það hið æðsta og mesta elskumerki, sem hugsast getur, að gánga í dauðann fyrir aðra. „Meiri elsku hefur einginn enn þá, að maður láti líf sitt fyrir vini sína", segir Jesús á öðrum stað (Jóh. 15., 13.). þá sem hann kallar v i n i sína, kallar hann hèr sína s a u ð i. Bæði orðatiltækin gefa til kynna, að Jesús elskaði þá, sem hann lèt lífið fyrir, eins og sína e i g i n e i g n; og í því mismunar hann frá leigulíðanum, að þegar leigulíðinn „sèr úlfinn koma, þá yfirgefur hann sauðina og flýr á burt"; af því hann á ekki sauðina sjálfur, vill hann ekki hætta lífi sínu fyrir þá. Til að skilja þetta rètt, verðum vèr að gæta þess, að í austurlöndunum var það siður á Krists dögum, að eigendurnir fylgdu

sjálfur fè sínu í haga og hèldu því á beit. Þar var slèttlendi mikið fullt af villidýrum, sem opt rèðust á hjarðir þeirra, svo þeir ekki einúngis þurftu að gæta þeirra, heldur urðu jafnan að vera viðbúnir að verja þær. Þannig sjáum vèr af heilagri ritníngu, að Davíð konúngur drap ljón og björn þegar hann gætti sauða föður síns. Í þvílíkan lífsháska stofnar hinn leigði hirðir sèr trauðlega, heldur einúngis eigandi hjarðarinnar. Með þessu sýnir Jesús oss, að sú hjörð, sem hann lèt líf sitt fyrir, sè hans eigin eign, og heitir því jafnframt, að gæta hennar og vernda hana. Hvað getur betur sannað þessa vernd og vörn, er vor himneski frelsari veitir sinni endurleystu hjörð, en útbreiðsla kristninnar um allan heim, til allra landa og allra þjóða? Já, vèr treystum því staðfastlega, að einhvern tíma muni hið mikla fyrirheit rætast, að þar verði eitt sauðahús og einn hirðir, að einhvern tíma muni allir menn bera kristið nafn, og að einhvern tíma muni allar þjóðir, „allar túngur játa, að Kristur sè Drottinn, Guði föður til dýrðar". Í mörgu tilliti er þessi samlíkíng um hjörðina og hinn góða hirði merkileg og eptirtektaverð. Á öðrum stað í þeim sama kapítula, sem þessa dags heilaga guðspjall er tekið úr, segir Jesús, „að hinn rètti hirðir kalli sína sauði með nafni og fari út með þá, og að þeir fylgi honum, af því þeir þekki hans raust". Og er þetta lifandi útmálun þess nána og innilega sambands, sem er milli Krists og hans safnaðar, lifandi útmálun þess, hvernig söfnuðurinn á að fylgja honum sem andlegum leiðtoga sínum, í trú og kærleika. Á sama stað segist Jesús vera kominn til þess, að sínir sauðir skuli fá „fóður, líf og nægtir". Hann gefur ekki sínum sauðum slæmt eða skemmt fóður, heldur leiðir hann þá í grænar grashlíðar, til rennandi vatnslækja. Hinir skriptlærðu og farísearnir, sem á Krists dögum sátu á Mósis stóli, otuðu að lýðnum hinum dauða bókstaf lögmálsins og ófrjófsömum mannasetníngum, og í hinni fyrstu kristni kvarta postularnir yfir ónytju spurníngum, sem veki ágreiníng og þrætur. Já, á öllum kristninnar öldum hefur, því miður, sú andlega fæða verið næsta misjöfn, sem þeir hafa boðið bræðrum sínum, er settir voru til að uppfræða þá, til að vera hirðar og kennendur safnaðanna. En um þetta verður ekki kennt því lífsins orði, sem Jesús hefur skilið eptir hjá oss, því það er hreint og tært,

það er andi og líf; hann fóðrar sína hjörð með lífsins brauði og lífsins vatni, og eins og hann sagði um sjálfan sig: „minn matur er að gjöra vilja þess, sem mig sendi“, eins er líka sá matur, sú fæða, sem hann gefur sínum endurleystu, innifalin í andlegum krapti til betrunar og helgunar, í friði og kærleika; og það vatn, sem hann gefur hinum þyrstu, er til hans koma, verður í sálum þeirra að „uppsprettu til eilífs lífs“. „Lífsins brunn og lífsins brauð“ kallar hann sig sjálfur, því hann lifir sjálfur í sínu heilaga orði; hann gefur sjálfan sig hjörtum þeirra, sem taka á móti honum með trú og elsku, og þetta innilega samband milli sín og sérhverrar trúaðrar sálar, gefur Jesús til vitundar með þessum orðum: „eg er góður hirðir, og þekki mína sauði og eg þekkist af mínum“. *Að þekkja* merkir hèr hið sama og þá er Jesús í bæninni til síns himneska föður segir: „en það er eilíft líf, að þeir þekki þig einn sannan Guð og þann, sem þú sendir, Jesúm Krist“. Þessi þekkíng er ekki einúngis innifalin í því, sem vèr köllum kristindómsþekkíngu, sem vèr á únga aldri lærum utanað, og sem festist í minninu og vex með aldrinum við það að vèr heyrum og lesum guðsorð. Þó þessi þekkíng sè nauðsynleg, þá er hún þó eingan veginn einhlít til þess að vera eilíft líf eða einkenni þeirra rèttu sauða hins góða hirðisins. Á þessum stað, eins og víðar í heilagri ritníngu, merkir það að þekkja, ekki einúngis rèttan skilníng á einhverjum hlut og ljósar hugmyndir um hann, heldur og hitt, að menn aðhyllist sannleikann í hjarta sínu, tileinki sèr hann í trú og kærleika, fái mætur á honum og verði honum innlífaðir. Svoleiðis þekkja börnin foreldra sína, og foreldrarnir börn sín, svoleiðis þekkja þau hjón hvort annað, sem unnast hugástum, svoleiðis þekkjast ástvinirnir. Þegar Jesús segist þekkja sína sauði, þá meinar hann með því ekki einúngis, að hann þekki þá frá öðrum, sem ekki heyra til hans hjarðar, heldur og, að hann hafi þá hjartkæra og gæti þeirra sem eignar sinnar; og þegar hann segir, að þeir þekki sig, þá hefur hann ekki einúngis tillit til þeirrar þekkíngar, sem allir kristnir menn frá blautu barnsbeini fá um hann og hans lærdóm, heldur og sèr í lagi til þeirrar þekkíngar, sem sannkristnir menn öðlast á frelsara sínum, þegar þeir fyrir trúna á hann frelsast úr ánauð syndarinnar og fá bæði hug og dug til að

feta í hans fótspor og gjöra hans vilja. Þegar Jesús í guðspjallinu segir: „eg þekki mína sauði og eg þekkist af þeim“, þá bætir hann þessu við: „eins og faðirinn þekkir mig og eg þekki föðurinn“, og af þessum orðum leggur himneskan blæ og birtu á þá þekkíngu og þann fèlagskap, sem Jesús talar um milli sín og sinna trúuðu. Þegar Jesús segist þekkja föðurinn, þá meinar hann ekki einúngis til sinnar fullkomnu þekkíngar á Guðs veru og eiginlegleikum, heldur og til sinnar innilegu sameiníngar við föðurinn, vegna sinnar sonarlegu hlýðni og elsku, og til vitnisburðar um hana vitnar hann ekki einúngis til kenníngar sinnar, heldur einnig til verka sinna. „Faðirinn, sem í mèr er“, segir hann, „hann gjörir verkin; trúið mèr, að eg er í föðurnum og faðirinn í mèr; en ef ekki, þá trúið mèr vegna verkanna“. Eins og nú Kristur elskaði föður sinn og gjörði hans verk, eins eiga þeir, sem vilja tilheyra Kristi, að elska hann og láta það ásannast í verkinu. „Sá sem elskar mig“, segir hann, “mun varðveita mitt orð og faðir minn mun elska hann, og til hans munum vèr koma og taka oss bólfestu hjá honum“ (Jóh. 14., 23.). Eins og Kristur er ljómi Guðs dýrðar og ímynd hans veru, eins skín og andi og kraptur hans kenníngar út úr hjörtum og hegðun þeirra, sem honum fylgja; eins og almætti, heilagleiki og gæðska föðursins birtist í syninum og varð þannig sýnileg og áþreifanleg, eins eiga þeir, sem sonurinn telur meðal sinna, að líkjast honum í rèttlæti, mannelsku, sjálfsafneitun, auðmýkt, sáttgirni, þolinmæði og öllum kristilegum dyggðum. Vèr getum ekki sagt, að vèr þekkjum hann og sèum hans, nema vèr, eptir því sem oss framast er auðið, hugsum og lifum eins og hann; nema vèr elskum Guð umfram alla hluti og náúngann eins og sjálfa oss; nema vèr eins og hann vinnum meðan dagur er verk vors himneska föður; nema vèr eins og hann tökum vorn kross á oss og berum hann með þolinmæði og stöðuglyndi; nema vèr eins og hann viljum heldur afneita heiminum, auðæfum, metorðum og munaði og öllum lystisemdum lífsins enn brjóta Guðs boðorð; en þegar vèr vitum með sjálfum oss, að vèr megnum alla hluti einúngis fyrir trúna á frelsara vorn og að hans kærleiki þvíngar oss, þá getum vèr sagt, að vèr þekkjum hann og sèum hans, og þá mun hann einnig segja um oss,

„að hann þekki oss eins og faðirinn þekkir hann“. Já, eins og faðirinn þekkti soninn meðan hann í auðvirðilegri þjóns mynd dvaldi hèr á jörðinni, eins og hann þekkti sakleysi, rèttlæti og heilagleika, hans óendanlegu elsku til Guðs og manna, hans trúmennsku og hlýðni fram í dauðann, eins þekkir líka Jesús sína, þekkir þeirra trúlyndu og kærleiksfullu hjörtu, þeirra beiska ángur og trega vegna þeirra ávirðínga og yfirsjóna, og þeirra alvarlega ásetníng að betrast og gjöra hans vilja; og eins og þekkíng föðursins á öllu því, sem sonurinn talaði og hugsaði, gjörði og leið, veitti honum guðlegt sálarþrek og guðlega hugarrósemi, þannig er og Jesú þekkíng á þeim, sem honum tilheyra, ekki einúngis innifalin í því, að hann fylgir þeim með sínu alskyggna auga og veit, hvað þeir hugsa, tala og gjöra, heldur og í því, að hann veitir þeim sinn anda, svo að þeir geta tekið undir með postulanum og sagt: „Eg lifi, þó ekki framar eg, heldur lifir Kristur í mèr“ (Gal. 2., 20.).

Í upphafi guðspjallsins hafði Jesús sagt, að góður hirðir gæfi líf sitt út fyrir sína sauði, og nú segir hann um sjálfan sig, að hann „gefi líf sitt út fyrir sína sauði“, og vill með því eflaust minna oss á, að hann einkanlega með sínum friðþægjandi dauða hefur auglýst, hvernig faðirinn þekkir hann og hann þekkir föðurinn, hvernig þeir eru báðir eitt, eitt í þeim kærleika, sem kom föðurnum til að framselja sinn eingetinn son og syninum til að láta líf sitt. Þeir sem því ekki vilja þekkja Krists friðþægjandi pínu og dauða, verða ekki taldir með þeim, sem þekkja frelsara sinn, ekki meðal þeirra, sem hinn góði hirðirinn segir um: „eg þekki mína sauði og eg þekkist af mínum“. En ekki kannast hann heldur við hina, sem reiða sig á hans krossdauða, en vanrækja hans boðorð, sem með dauðri trú tileinka sèr hans friðþægíngu, en halda iðrunarlaust áfram í löstum og glæpum; hjá þvílíkum mönnum á það heima, sem postulinn Jakob segir um djöflana, „að þeir trúi líka, en skelfist“. Já, hinir vondu andar, sem guðspjöllin geta um í hinum óðu mönnum, er Jesús læknaði, þekktu hann einnig, og vissu, að hann var Guðs son; en hann ávítaði þá fyrir það og útskúfaði þeim frá sínu augliti. Eins gjörir hann við þá menn, sem hafa hans nafn á vörunum, en afneita honum í hjarta sínu; við þá segir hann: „eg þekki yður ekki og

veit ekki, hvaðan þèr eruð"; og þegar þeir taka til að knýja á dyrnar og segja; „lúk þú upp fyrir oss, herra! vèr höfum etið og drukkið með þèr og á strætum vorum kenndir þú" (Lúk. 13., 25.—26.), þá svarar hann þeim og segir: hví kallið þèr mig herra og gjörið þó ekki það sem eg býð yður (Lúk. 6., 46.), „farið frá mèr allir illgjörðamenn"!

Þegar þú heyrir þessi orð, kristinn maður! þá andvarpar þú og segir með sárum trega: æ! þessi dómur verður felldur yfir mèr; eg finn til þess í sálu minni og hefi áður fundið til þess þegar eg hefi barið á dyr náðarinnar; nú er eg of leingi búinn að villast, nú er eg kominn of lángt á glötunarinnar vegi til þess að geta snúið aptur; eg er nú kominn fram á þenna hyldýpis barm, hvaðan eingin endurlausnar von er. Sæll ertu, ef hjarta þitt er þannig sundurkramið, því þá líkist þú hinum iðrandi ræníngja hvað hugarángrið snertir. En þú átt eptir að líkjast honum í trúnaðartraustinu. Eins og honum var miskunað, eins mun þèr og verða fyrirgefið, ef þú hèr eptir skilur við syndina og fylgir frelsara þínum með sannri trú og einlægri betrun. Frelsari þinn er þèr nálægur; hann stendur hjá þèr og vill reisa þig á fætur aptur og leiða þig á rèttan veg. Hefur þú ekki lesið eða heyrt þess getið hvernig hinn góði hirðirinn leitar að hinum týnda sauð, þángað til hann finnur hann, og hvernig hann þá leggur hann með fögnuði sèr á herðar og ber hann heim til sín, og hvernig einglar Guðs gleðjast af iðrun syndugs manns?

Prófum nú sjálfa oss, dýrkeiptu guðsvinir! hvort vèr heyrum til frelsarans trúlyndu hjarðar og fylgjum enum góða hirði, og gætum þess, að undir þessari rannsókn er komin ekki einúngis vor tímanlega farsæld eða ófarsæld, heldur og vor eilífu kjör, og hvort hann á síðasta degi setur oss sèr til hægri eða vinstri handar. Æ, megum vèr ekki titra við þessa tilhugsun? Hlýtur ekki sèrhver af oss að kannast við sinn mikla veikleika og sína mörgu bresti? Má ekki sèrhver af oss segja með postulanum: „Eg veit, að í mèr, það er í holdi mínu, býr ekkert gott; því að vilja er til reiðu hjá mèr, en að framkvæma hið góða megna eg ekki. Eg vesall maður! hver mun frelsa mig frá líkama þessa dauða"? (Róm. 7., 18.,

23.—24.). En þegar vèr þannig af hjarta andvörpum, þá getum vèr líka tekið undir með postulanum og sagt: „eg þakka Guði fyrir Jesúm Krist vorn Drottin“! (25.). Já, ef þú svoleiðis trúir á Jesúm, að þú getur kallað hann *þinn* Drottin, þá muntu með honum vinna sigur trúarinnar yfir heiminum, yfir þinni holdlegu náttúru og yfir myrkranna ríki, og þá mun Guð, sem vekur viljann til hins góða, hjálpa þèr til framkvæmdarinnar og gjöra þig hæfilegan til alls þess, sem honum er þóknanlegt. Að vísu hljótum vèr allt af að eiga í stríði við syndina meðan vèr dveljum hèr í heimi; en hún fær ekki yfirráð yfir oss, ef vèr trúum á Jesúm, sem hefur brotið og lamað afl syndarinnar. Ef vèr þannig trúum á hann, að oss daglega fer fram í hinu góða, að vèr daglega betrumst í tilliti til hjartalags og hegðunar, þá erum vèr á rèttum vegi undir umsjón hins góða hirðisins, þá getum vèr heimfært til vor Jesú huggunarfullu orð: „mínir sauðir heyra mína raust; eg þekki þá; þeir fylgja mèr, og eg gef þeim eilíft líf“.

Sælir erum vèr, að vèr stöndum undir umsjón og verndan hins góða hirðisins. Þessi tilfinníng veitir oss þá hugarrósemi, sem einginn hlutur annar getur veitt; hún lyptir vorum vonaraugum upp til himins og gætir vor við því að treysta um of hinum hverfulu jarðnesku hlutum. Æ! látum oss þá á þessari vorri stuttu vegferð hlýða röddu ens góða hirðisins og gánga þann veg, sem hann hefur vísað oss á; því hvort sem þessi vegur er slèttur eða grýttur, greiðfær eða torsóttur, liggur hann þó til enna himnesku föðurhúsanna, til þess sælustaðar, sem frelsari vor hefur oss tilbúið. Gefðu oss náð til þess, Drottinn! að lifa svoleiðis hèr í tímanum, að vèr fáum eilíflega að lifa hjá þèr og vorum endurlausnara Jesú Kristi! Bænheyr oss í hans nafni! Amen.

---

## Á þriðja sunnudag eptir páska.

### Bæn.

Þú hefur, himneski faðir! gróðursett elskunnar tilfinníngar í vorum hjörtum, þú lætur oss finna trúa og tryggva ástvini á þessari vorri jarðnesku vegferð, og þetta er ein af þínum beztu og dýrmætustu gjöfum. En þú lætur líka dauðann einatt svipta oss þessari gjöf, þú lætur hann einatt slíta ástvinina úr faðmi vorum, svo vèr stöndum eptir einmana og grátandi. Æ, sár er þá söknuðurinn og sorgbitin eru þá hjörtun, og þrútin eru þá augun af tárum. Láttu þessa umhugsun hvetja oss til að elskast af hjarta meðan vèr erum á veginum hver með öðrum, því það er of seint að byrja það ekki fyrr enn á vegamótum tímans og eilífðarinnar. Láttu missi ástvina vorra kenna oss þolinmæði, sjálfsafneitun og undirgefni undir þinn blessaða vilja; þá munum vèr ekki syrgja sem þeir, er einga von hafa, heldur lypta vorum trúar og vonar augum út yfir gröf og dauða upp til þín og treysta því, að þú af þinni náð og miskunsemi munir taka oss til þín, þegar vort reynslu skeið hèr er á enda runnið, og leyfa oss að sjá þá aptur á sælunnar landi, sem vèr elskuðum hèr í þínum ótta. Bænheyr það í Jesú nafni! Amen.

### Guðspjallið

(Jóh. XVI., 16.—23.).

Jesús sagði til sinna lærisveina: innan lítils tíma munuð þèr ekki sjá mig, og þá enn innan lítils tíma munuð þèr sjá mig aptur, því eg fer til föðursins. Þá sögðu nokkrir af lærisveinunum sín á milli: hvað er það hann segir oss: innan lítils tíma munuð þèr ekki sjá mig, og þá enn innan lítils tíma munuð þèr sjá mig aptur, því eg fer til föðursins? Hvað er það hann segir oss: innan lítils tíma? vèr vitum ekki, hvað hann segir. En Jesús, sem varð þess var, að þeir vildu spyrja hann um þetta, sagði til þeirra: þèr spyrjið að því yðar á milli, er eg sagði yður: innan lítils tíma munuð þèr sjá mig aptur. Sannlega segi eg yður: þèr munuð sýta og gráta, en heimurinn mun fagna; þèr munuð hryggvir verða, en yðar hryggð mun

snúast í fögnuð. Konan, þegar hún skal fæða, hefur hryggð, af því hennar stund er komin; en þegar hún hefur barnið fætt, minnist hún ekki þess harmkvælis fyrir fagnaðar sakir, af því að maður er í heiminn borinn. Eins hafið þèr nú að sönnu hryggð, en eg mun sjá yður aptur; þá mun yðar hjarta fagna, og þann fögnuð mun einginn frá yður taka; á þeim tíma munuð þèr mig einskis spyrja.

## Inngángur.

Þegar Páll postuli ætlaði að skilja til fulls við söfnuðinn í Efesus, sem hann hafði stofnað og unni hugástum, sendi hann frá Míletus eptir öldúngum efesiska safnaðarins, og sem þeir voru til hans komnir, hèlt hann fyrir þeim þá hina ástúðlegu skilnaðarræðu, sem getið er um í post. g. bókar 20. kapítula; og þegar hann hafði lokið ræðu sinni, „fèll hann á knè og baðst fyrir ásamt þeim öllum, og þeir grètu allir hástöfum, lögðu hendur um háls Páli og kysstu hann, mest sorgbitnir af því orði, er hann hafði sagt, „að þeir aldrei framar mundu sjá hans auglit". Þannig skildu hèr guðhræddir vinir og sáust aldrei aptur í þessu lífi; þeir voru orðnir reyndir í Drottins þjónustu og höfðu sameiginlega barizt hinni góðu baráttu trúarinnar til að útbreiða guðsríki, til að útbreiða sannleika, dyggðir, Guðs ótta og mannelsku á jörðinni, og af þessari sameiginlegu viðleitni helgaðist vinátta þeirra. Öldúngar safnaðarins stóðu nú sorgbitnir og grátandi eptir á ströndinni, þegar postulinn skildi við þá, og hvar sem þessi mikla trúarhetja kom, mættu honum alstaðar lærisveinar og vinir, sem ekki gátu aptur skilið við hann án trega og saknaðar, svo það má svo að orði kveða, að þessi ferð hans til Jerúsalem væri einlæg skilnaðarhátíð. Þannig er og mannlegu lífi varið, kærir bræður! þessari vegferð vorri til ennar himnesku borgar Guðs. Vegur vor er einatt vökvaður af beiskum tárum skilnaðarins, þegar þeim samferðamönnum vorum, sem vèr unnum hugástum, er kippt burtu frá oss, og þeim er boðið að flytja á undan oss til enna himnesku föðurhúsanna. Á öll mannleg fèlög og mannlega sambúð

hefur Drottinn ritað þessi viðvörunarorð: „innan lítils tíma munuð þèr ekki sjá mig“. Stutta stund stendur allur mannlegur fèlagskapur; stundum slitnar hann og leysist sundur af ólíku lunderni manna, af ósamlyndi, óþolinmæði, þrætugirni og úlfúð, stundum býður Guð ástvinum og vandamönnum að skilja, eptir því sem hann úthlutar hverjum vissa köllun og verkahríng. En einginn skilnaður er eins sár og sá, sem dauðinn gjörir milli elskandi ástvina; hann slær, en græðir ekki, særir, en læknar ekki, og hinir eptirlifendu „gráta hástöfum, mest sorgbitnir af því orði, að þeir aldrei framar muni sjá hinn framliðna vininn. Jörðin felur hann í sínum kalda faðmi og fæst ekki til að skila honum aptur. Beisk og óteljandi eru skilnaðartárin; svo hefur það verið frá alda öðli, og svo mun það verða meðan þessi jörð er við líði, því seint mun uppspretta táranna þorna. Ó, Guð! sem skapaðir heiminn til þess að elska hann, og gróðursettir velvild og elsku í hjörtum allra þinna barna, svo vèr ekki skyldum vera einmana nè yfirgefnir á þessari vorri vegferð, heldur leita oss huggunar í kærleikanum — hví settir þú oss á skilnaðarins land? hví aðskilur þú þá, sem þú hefur sameinað? og sviptir oss aptur þeim fögnuði og þeirri gleði, sem þú gafst oss? Æ, allir þínir vegir eru miskun og sannleiki, og því ber oss að treysta því, að þú í vísdómsfullum og gæðskuríkum tilgángi slítur hin viðkvæmu ástarböndin. Vissulega eru þau skilnaðartár talin á himnum, sem hèr á jörðu væta kinnar eptirþreyjandi guðhræddra ástvina, og sorgarkveðja elskandi hjartna stígur vissulega upp að hásæti hans, sem er eilífur miskunsemdanna faðir og Guð allrar huggunar. Þareð dauðinn, samkvæmt Jesú orðum, er burtför til föðursins, til Guðs enna lifendu, þá er það eptir Drottins gæðskuríku ráðstöfun, að vèr þurfum að sjá á bak ástvinum vorum í dauðanum, og þessi ráðstöfun er næsta lærdómsrík fyrir oss, ef vèr tökum henni með kristilegu hugarfari, ef vèr getum komið auga á Guðs föðurhönd og skilið þessi orð frelsara vors: „þèr hafið nú að sönnu hryggð; en eg mun sjá yður aptur; þá skal hjarta yðar fagna og þann fögnuð skal einginn frá yður taka“.

Guðspjallið í dag er tekið úr þeirri óviðjafnanlegu ræðu, sem Jesús hèlt fyrir sínum ástkæru lærisveinum til að undirbúa

þá undir skilnað sinn við þá. „Innan lítils tíma“, sagði Jesús, „munuð þèr ekki sjá mig, og þá enn innan lítils tíma munuð þèr sjá mig aptur“. þá sögðu þeir: „hvað er það sem hann segir oss: innan lítils tíma? Vèr vitum ekki, hvað hann segir“.

Sama er viðkvæði kærleikans enn; kærleikans, sem „vonar allt“, vonar fram í andlátið, og það orð, sem hann á bágast með að skilja, er — skilnaður. En Jesús sefar söknuðinn, og á dauðaskilnaðarins döpru stundum kveikir hans orð himneskt huggunar ljós í hjörtum harmþrúnginna vina. Hann virðist og að ljá oss ljós síns orðs og anda til að hugleiða á þessari guðrækmis stundu:

*skilnaðarstundir guðhræddra ástvina í dauðanum.*

Hvað eru þessar skilnaðar stundir? það eru *hryggðarstundir*, þá leggst bæði hið umliðna og hið ókomna með öllum sínum þúnga á hjarta hins syrgjanda. þegar vèr stöndum hjá banasæng deyjandi vinar, þá stendur lifandi afmálað fyrir hugskots sjónum vorum, hvílíks unaðar og gleði vèr höfum notið í sambúð hans, og vèr finnum þá svo sáran til þess, hvernig öll þessi gleði er hvorfin, og að endurminníngin ein verður eptir. Ef vèr á slíkri skilnaðarstundu rennum augunum til ókomna tímans, æ, hve sorglegt er þá útlit hans. þegar hjartkær vinur vor „geingur veg allrar veraldar“ og leggst í gröfina, þá missum vèr vora dýrmætustu eign, vorn bezta dýrgrip og oss finnst lífið verða tómlegt og gleðisnautt; oss finnst vegurinn torsóttur, dagurinn lángur og kvöldið dimmt og leiðinlegt. þá „sýtum vèr og grátum“, þó heimurinn í kríngum oss fagni og sýngi gleðisaungva. þegar hjartað er hryggt, þá veitir hin ytri glaðværð einga huggun, því hinar ytri myndir lífsins geta ekki bætt úr söknuði og tómleika hjartans, heldur slær á þær þeim hinum sama sorgarblæ, sem býr inni fyrir hjá oss. Ef vèr höfum elskað einhvern af hreinu hjarta, þá er það einhver hin þýngsta þraut, sem Drottinn leggur á oss, þegar dauðinn slítur ástvininn úr faðmi vorum. En vissulega sendir Guð oss slíkar sorgarstundir í vísdómsfullum og gæðskuríkum tilgángi; hann ætlar að láta þær kenna oss þolinmæði og sjálfsafneitun. Sá einn er í raun og veru ófarsæll, sem ekki getur skoðað mótlætið frá kristilegu sjónarmiði; en sá, sem hefur „Guð fyrir huggun og

hlutskipti hjarta síns", hann er glaður í hryggðinni „þó líf og sál vanmegnist". Þú átt að venja þig á þolinmæði og sjálfsafneitun! Þessa áminníngu gefa skilnaðar andvörp allra deyjandi ástvina. Þeir hafa sjálfir orðið að þola margt og átt í miklu stríði áður enn dauðastríðið var til lykta leitt, og burtför þeirra er sár og tilfinnanleg fyrir hina eptirlifendu ástvini, sem eiga leingra eða styttra eptir ófarið af þessa lífs þyrnum stráðu vegum. Þekkið þèr þá nokkurn stað betur lagaðan til þess að brýna fyrir oss og innræta oss þolinmæði og sjálfsafneitun, enn banasæng deyjanda vinar, þessa sáru skilnaðar stund og sigurhátíð ennar jarðnesku sorgar? Þegar vèr höfum misst vorn einkavin, sem var hinn dýrmætasti fjársjóður hjarta vors, ættum vèr þá ekki með þolinmæði að geta borið missi tímanlegra fjármuna, sem lángt um minna er í varið? Ættum vèr ekki að láta þenna þúngbæra missi kenna oss að vera ánægðir með það, sem oss er úthlutað af hinum stundlegu gæðum, láta hann kenna oss að vera ríkir í vorri fátækt? Þegar vèr höfum misst vorn einkavin, sem var hið mesta yndi vort og gleði, ættum vèr þá ekki þolinmóðlega að umbera sèrhverja aðra stundlega sorg og mæðu? Þèr guðhræddu sálir! sem hafið setið hjá banasæng deyjanda vinar, sem hafið lifað slíka skilnaðar og sorgarstund, þèr getið af eigin reynslu borið um það, hvernig slíkar stundir kenna þolinmæði og styrkja hina veiku kraptana til að bera betur sèrhvert böl, er seinna mætir oss á lífsleið vorri. Þessar þúngbæru sorgarstundir eru sendar af Drottni til að innræta oss þolinmæði og undirgefni undir hans vilja, til að innræta oss það guðlega hugarfar, sem af hjarta segir: „Drottinn gaf, Drottinn burttók, sè nafnið Drottins vegsamað!"

Hvað eru þessar skilnaðar stundir? Það eru *kærleikans stundir.* Sèrhver maður, sem hefur nokkra tilfinníngu, leitast með öllu móti við að hjúkra sínum deyjandi ástvini og auðsýna honum alla þá ástúð og aðhlynníngu, sem auðið er. Fær ekki hinn deyjandi opt að reyna þau elskumerki, sem honum áður var synjað um? Eru þá ekki góð börn og hjón, sem heitt unnast, reiðubúin til þess með gleði að láta líf sitt, ef þau með því gætu apturkallað til lífsins hinn ástkæra vininn, sem þá er að berjast við dauðann? Finnst þeim ekki eins og þeirra

líf renni burt með lífi hins deyjanda? Óska þau ekki að geta sèð elskuna í hans deyjandi augum, og lesið fyrirgefníngu á hans fölnuðu vörum? Sjá þau ekki opt fyrst þá, hve innileg elska getur búið í mannlegu brjósti? Vakna þá ekki einatt í sálum sjálfra þeirra viðkvæmar og heitar þakklætis og elsku tilfinníngar? Rifjast þá ekki upp fyrir þeim allt hið góða, sem var í fari hins deyjanda vinar; allt hið mótdræga, sem hann varð að reyna, og hver sú stund, sem hann í lífinu gjörði þeim yndislega og ánægjuríka? Breiðir ekki skilnaðurinn fegra ljós yfir dyggðir hans og mannkosti? Breiðir þá ekki kærleikurinn blæju sína yfir það, sem var ábótavant í fari hans? Hverja mikilvægari áminníngu getur þá þetta gefið oss enn þá, að elska enn þá heitar og innilegar, enn vèr nú gjörum, þá ástvini vora, sem enn þá eru á lífi, sem vèr enn þá fáum að halda hjá oss? Fljótt líða þessar samveru stundir; fljótt líða lífsstundir vorar og allt af, og þegar minnst vonum varir hverfur einn á fætur öðrum sjónum vorum niður í jarðarinnar dimma skaut, og til lítils er það, að fara fyrst að elska vini sína, þegar þeir eru komnir fram í andlátið og öll hin jarðnesku ástarböndin slitna. Innilegri og stöðugri var elska frelsarans til lærisveina sinna; innilegri og stöðugri var sú elska, sem hann brýndi fyrir þeim; innilegri og stöðugri elsku lýsir sú ástúðlega skilnaðarræða, sem hann kvaddi þá með. Æ, lærið þá af honum að auðsýna vinum yðar og vandamönnum enn þá innilegri og viðkvæmari elsku og umönnum; látið þá umhugsun ávallt vera vakandi hjá yður, að dauðinn getur á hverju augnabliki kippt þeim burt. Að sönnu getið þèr aldrei faðmað þá svo fast að yður, að þèr getið varið þá fyrir atlögu dauðans — „því eínginn dauðanum ver" — en þèr getið þó gjört þeim lífsstundirnar gleðilegri og viðunanlegri og komizt hjá því, sem á skilnaðarstundinni kvelur mest af öllu, komizt hjá þeirri ásökun samvizkunnar, að þèr hafið goldið kærleika með kaldsinni, sært viðkvæm hjörtu með harðýðgi eða grætt saklausa. Þèr, sem Guð hefur sameinað hèr á jörðu, látið umhugsun um dauðann sameina yður enn betur og innilegar; styrkið og endurnýið elskunnar helga sáttmála við þá, sem Drottinn bauð yður að elska, og sem enn þá tilheyra yður, svo hjörtu yðar særist ekki nè samvizka yðar ofþýngist af þeirri ásakandi meðvitund,

að hafa gjört þeim rángt til, sem ekki verður aptur tekið þegar dauðinn er búinn að taka þá hèðan. „Verið sáttgjarnir og fúsir á að fyrirgefa og heimtið eigi of mikið hver af öðrum; gætið þess, að vèr þurfum allir fyrirgefníngar við og erum allir ófullkomnir; gætið þess, að það er óf seint, að biðja hinn andaða ástvininn fyrirgefníngar, því hann heyrir það ekki og svarar því ekki. Þetta líf er svo skammvinnt og samverutími vor svo stuttur, að vèr höfum eingan tíma til úlfúðar og reiði; en með elsku og ástúðlegri sambúð getum vèr lètt lífsins mæðu og lifað marga saklausa og ánægjulega gleðistund“.

Þannig mæla þessar skilnaðarstundir, því það eru kærleikans stundir, og þeirra seinustu orð eru þessi: „elskið hver annan“!

Hvað eru þessar skilnaðarstundir? Það eru *vonarinnar stundir*.

„Í míns föður húsi eru mörg híbýli; væri ekki svo, hefði eg sagt yður: eg fer burt að tilreiða yður stað, . . . svo að þèr sèuð þar sem eg er“ (Jóh. 14., 2.—3.). Með þessu skýlausa fyrirheiti huggaði Jesús lærisveina sína, þegar að því var komið, að hann skildi við þá; og hefðum vèr ekki þessa von, þá væri skilnaður ástvina í dauðanum það sár, sem aldrei yrði grætt, sá missir, sem aldrei yrði bættur, sú hryggð, sem aldrei yrði hugguð. Á meðan ástvinirnir enn eru lífs og ofan jarðar, meðan hinn sami himin hvelfist yfir höfðum þeirra og vorum, þá er skilnaðurinn ekki svo sár, því það er eins og blóm jarðarinnar og stjörnur himinsins flytji oss heilsanir fjarlægra vina. En skilnaðurinn í dauðanum aðskilur ekki ár og daga hèr á jörðinni, heldur aðskilur hann tímann og eilífðina, þar sem „einn dagur er eins og þúsund ár“; hann aðskilur ekki fjarlæga staði hèr á jörðinni, heldur tvær veraldir. Þess vegna er hinn seinasti ástvina skilnaður svo sár og gröfin svo geigvænleg. En þegar vèr erum staddir hjá banasæng deyjanda vinar, þá horfum vèr kristnir menn ekki eiúngis á gröf og dauða, heldur lyptum vèr augum trúar og vonar út yfir gröf og dauða upp til himins, upp til hans, sem leitt hefur í ljós lífið og ódauðleikann. „Eg mun sjá yður aptur“, sagði Jesús, og kenndi oss með þessum orðum að þekkja nýja veröld, „nýjan himin og nýja jörð“, sem öll syrgjandi Guðs börn þrá

og bíða með fögnuði; og ástvinaskilnaðinn kallaði hann „lítinn tíma“. Væri þetta öðruvísi, kristnir bræður! væri guðhræddum ástvinum ekki ætlað að sjást aptur hinu megin grafarinnar, hvernig gæti þá elskan verið sterkari enn dauðinn? Jesú fyrirheit og upprisa hafa gjört þessa von að fullkominni vissu, og því ber oss ekki leingur að syrgja, „sem þeir, er einga von hafa“. Í húsi vors himneska föður munum vèr aptur sjá ástvini vora og aldrei framar við þá skilja. Æ, þurfum vèr ekki allir þessarar huggunar við? Hefur ekki dauðinn einnig svipt oss einhverjum náúnga eða vini? Þó geta ekki allir haft huggun af þeirri von, að fá að sjást aptur í öðru lífi. Vináttu margra hèr í lífi er svo varið, að hún er byggð á eigingirni og sprottin af óhreinum upptökum, og því er ekki von til, að slíka vini lángi til að sjást aptur á eilífðarinnar landi, þareð þeir með blygðun hljóta að hugsa til þess, að þar verður allt leitt í ljós, sem nú er í myrkrunum hulið. Hjón, sem hèr hafa lifað saman í ófriði og ósamlyndi, foreldrar, sem illa hafa uppalið börn sín, og, ef til vill, sjálfir geingið undan þeim með syndsamlegu eptirdæmi, börn, sem hafa verið foreldrum sínum óhlíðin, fyrirlitið og yfirgefið þá í ellinni, systkin, sem hafa hatazt af eigingirni og öfund, vinir, sem hafa verið samtaka í syndsamlegu athæfi — hvernig ætti þessa og þvílíka að lánga til að finnast aptur í öðru lífi? Því hvar ættu þeir að finnast? Í myrkranna bústöðum, þar sem hver sèr annars eymd, þar sem hver kennir öðrum um syndir sínar og lesti og hver eykur annars ófarsæld með brigzlyrðum og ásökunum. Hvað getur hugsast hræðilegra enn þvílíkir samfundir óguðlegra hjóna, foreldra og barna, vina og kunníngja, sem hèr í lífi hafa fylgzt að á glötunarinnar vegi, og í eilífðinni verða hver öðrum til kvalræðis! Látum oss því þenna litla tíma, sem vèr dveljum hèr, svoleiðis búa saman við náúnga vora og við alla menn, að vèr með gleði getum hugsað til þess að sjá þá aptur frammi fyrir dómstóli hins alvalda, að sjá þá aptur í þeirri veröld, þar sem öll jarðnesk, holdleg og eigingjörn bönd eru sundurleyst, en andleg elska sameinar hrein og guðhrædd hjörtu. Þá verða skilnaðarstundirnar við ástvini vora hèr í lífi sannkallaðar vonarstundir, og þá verða þau tár, sem vèr fellum við burtför

þeirra, ekki örvæntíngar tár, heldur tár kristilegs saknaðar og kristilegrar vonar.

Himneski ljúfi lausnari! þú, sem hefur lífið í sjálfum þèr og gefur oss lífið; þú fórst burt að tilbúa oss stað, og hefur heitið oss, að vèr skulum fá að vera, þar sem þú ert; æ, það er huggun hjartna vorra, að vèr vitum, að þín börn eru hjá þèr. þar hvílast þau eptir mæðu þessa lífs; þar sefast sorgir þeirra; þar hafa þau frið og frelsi meðan vèr velkjumst í ófriði og armæðu þessa lífs. En vèr treystum því, að þú munir líka kalla oss heim til þín, þar munum vèr sjá þína útvöldu, ekki eins og vèr sáum þá hèr opt beygða undir byrði lífsins, hryggva og mædda, heldur fyllta himneskum krapti, eilíflega huggaða og endurnærða af þínum blessuðu lífsins lindum. Innan lítils tíma er líka vor æfi útrunnin í dauðans djúp; sèrhver dagur, sèrhvert augnablik flytur oss nær og nær umskiptum tímans og eilífðarinnar, og aldrei vitum vèr, hve nær oss verður boðið að flytja hèðan. Æ, gef þú oss náð til þess að búa oss rèttilega undir það líf, sem fer í hönd, og reynast þèr trúir til dauðans, svo vèr eptir afstaðna lífsins mæðu náum þínum eilífu friðar höfnum og fáum þar æfinlega að búa hjá þèr og þínum útvöldu. Amen.

---

# Á bænadaginn.

## Bæn.

Allsvitandi, heilagi Guð! Fyrir þínu alskyggna auga fær ekkert dulizt; þú þekkir vor hjörtu og allar vorar hugrenníngar. Hver getur óskelfdur mætt fyrir þínum dómstóli? Hver getur óskelfdur staðið þèr reikníngskap af hugsunum, orðum og gjörðum, ef þú vildir í rèttlætis dóm við oss gánga? Vorar syndir liggja þúngt á sálum og samvizkum vorum, því vèr höfum syndgað á móti þèr, almáttugi, eilífi Guð! En þú ert eilífur faðir allrar miskunar, líttu í náð niður til vor, þinna villuráfandi barna; fyrirgef þú oss í Jesú nafni allar vorar syndir og yfirsjónir, og gef þú oss náð til þess að geta snúið oss til þín af öllu hjarta, náð til þess að geta iðrazt og borið þá ávexti, sem sambjóði betruðu hugarfari. Óbreytanleg hefur

þín þolinmæði verið við oss híngað til; og þinni miskunnsemi er það að þakka, að vèr enn stöndum óupprættir í náðarinnar akri; æ, vèr biðjum þig um nýja náð og miskun fyrir ókomna tímann; upprættu oss ekki mitt í vorum syndum, svo oss verði ekki í eldinn kastað; en gróðurset þú í sálum vorum iðrunarinnar ávexti og frjófga þú þá með þínum anda, svo vèr hèreptir leitum þín og þjónum þèr einum í anda og sannleika. „Þú yfirgefur aldrei þann, að stoð þinni sem treysta vann“, og vèr treystum því, Drottinn! að þú munir ekki yfirgefa oss og aldrei sleppa þinni miskunar hendi af oss, ef vèr ekki yfirgefum þig. Vèr treystum þessu og biðjum þess í Jesú nafni. Amen.

## Guðspjallið
(Matth. III., 8.—10.).

Svo berið nú þann ávöxt, er sambjóði betruðu hugarfari; segið ekki af sèrþótta með sjálfum yður: Abraham eigum vèr fyrir föður. Því trúið mèr til þess, að máttugur er Guð að uppvekja Abraham sonu af steinum þessum. Því nú þegar ríður öxin að rótum trjánna, og mun þá hvert það trè, sem ekki ber góðan ávöxt, upphöggvið verða og á eld kastað.

## Inngángur.

Það er mjög hættulegt að vera hugsunarlaus um sitt sálar ástand og sína sáluhjálp; en við þessu hættir þó því miður mörgum af oss, kristnir bræður! Um líkamann erum vèr ekki eins hugsunarlausir; oss er mjög um það hugað, að honum vegni vel, og gángi eitthvað að honum, reynum vèr undir eins til að ráða bót á því og leita honum lækníngar. Um vora tímanlegu velferð erum vèr áhyggjufullir og erum hræddir við allt sem henni getur orðið til knekkis, en leitumst við að efla hana af fremsta megni. Ættum vèr þá að vera skeytíngarlausir um vort andlega ástand og vora eilífu farsæld? Ættum vèr að láta það liggja oss í lèttu rúmi, hvort sál vor er sjúk eða heilbrigð, hvort oss fer fram eða aptur í guðsótta og kristilegum dyggðum? Vèr veitum þeim hlutum eptirtekt, sem eru fyrir utan oss, og dæmum um aðra og þeirra ástand; vèr sjáum ögnina í augum bræðra vorra og gefum nákvæmlega

gætur að yfirsjónum þeirra; en vort eigið andlega ástand og sjálfa oss erum vèr tregir til að prófa og rannsaka. Einginn hlutur er hættulegri fyrir vora tímanlegu og eilífu farsæld enn þetta skeytíngarleysi og eptirtektaleysi á sjálfum oss, því það hefur þær afleiðíngar, að vèr meir og meir missum þrótt og þrek til hins góða, vorar góðu tilfinníngar sljófgast, áminníngar samvizkunnar deyfast og verða allt af sjaldgæfari, og vèr sofnum að lokunum í andvaraleysi. Ritníngin varar oss því við að vera afskiptalausir af syndinni og treysta ekki of mjög vorum eigin kröptum; en býður oss að rannsaka vort sálarástand og hugleiða, hvort vèr gaungum á Guðs vegum. Þess vegna er það mjög áríðandi fyrir oss, kristnir bræður! að snúa huga vorum frá tælandi og truflandi hègóma veraldarinnar inn í vor eigin hjörtu og hugleiða vort sinnislag, vora breytni og vorar yfirsjónir. Ef þessi rannsókn er einlæg og samfara bæn til Guðs, þá mun hún kveikja það ljós í sálum vorum, er sýnir oss vora synda eymd, og vekja hjá oss sanna iðrun og innilega laungun eptir Guðs náð og knýja oss til að flýja til frelsarans friðþægjandi kærleika. Þetta ættum vèr að gjöra á hverjum degi, því daglega syndgum vèr og þurfum daglega fyrirgefníngar við; en sèr í lagi hvetur þessi dagur oss til þessarar sjálfsprófunar, því hann er settur til þess að minna oss hátíðlega og alvarlega á að rannsaka sjálfa oss og leita náðar og miskunar hjá Drottni. Guð gefi, að þessi dagur geti leitt marga syndara af lastanna vegi og snúið þeim á rètta leið; en vakið hjá þeim elsku og þakklæti við miskunsemdanna föður og alvarlega viðleitni á að breyta eptir hans heilögu boðum! Guð gefi, að einnig vorar hugleiðíngar á þessari stundu geti miðað oss til betrunar og sannarlegra sálarheilla! En vèr viljum láta þessar vorar guðrækilegu hugleiðíngar hníga að því, *að lýsa tilfinníngum sanniðrandi manns þegar hann hugleiðir syndir sínar;* og *fyrst íhuga:* hverja vèr getum kallað *sanniðrandi*; og *þá*: hverjar *tilfinníngar* hljóti að vakna hjá þeim við íhugun synda sinna.

## I.

Frelsari vor segir oss, að „á himnum sè meiri gleði yfir einum syndara, sem bætir ráð sitt, en yfir níutíu og níu rètt-

látum, sem ekki þurfi yfirbótar við" (Lúk. 15., 7.). Getum vèr, kristnir bræður! lesið hina fögru dæmisögu um hinn glataða son, þessa lifandi útmálun guðlegs kærleika, án þess að fella gleðitár, án þess að andvarpa og segja: Æ, Guð gæfi, að allir syndarar gætu sèð syndir sínar og eins og hinn glataði sonur komizt til þessarar viðurkenníngar: faðir! eg hefi syndgað á móti þèr og er nú ekki framar verður að heita sonur þinn! En eins og sönn iðrun vekur fögnuð á himni og jörðu, hjá Guði og öllum góðum mönnum, eins verðum vèr að hinu leytinu vandlega að gæta að því, í hverju sönn iðrun er innifalin, svo vèr ekki drögum sjálfa oss á tálar með svikulli huggun, og í þessu áríðandi efni verðum vèr að fylgja leiðsögn heilagrar ritníngar. Hvern getum vèr þá með rèttu kallað *sann*iðrandi? Er það nóg til sannrar iðrunar, að þekkja syndarinnar skaðlegu og hættulegu afleiðíngar? þekkja það ekki allir? það er varla nokkur syndari til svo lèttúðarfullur, að hann finni ekki endrum og eins til syndarinnar ófarsælu afleiðínga; að hann hljóti ekki að játa, „að syndin er lands og lýða töpun"; en um leið og hann játar þetta, seilist hann, ef til vill, í sömu andránni eptir hennar banvæna eitri, eins og ofdrykkjumaðurinn, sem veit, að áfeingir drykkir spilla heilsunni og stytta líf hans, en neytir þeirra þó samt sem áður. Eða er það nóg til sannrar iðrunar að vera fús á að játa syndir sínar? þá væru allir syndaþrælar sanniðrandi; þeir kannast flestir við það, eins og Júdas, að þeir breyti illa; eg veit, segja þeir, að eg er syndugur maður; eg neita því ekki, að hugarfar mitt og framferði ætti að vera betra; en þeir eru jafnframt svo ósvífnir að segja: en eg er nú svona gjörður, og get ekki verið öðru vísi. Ekki er það heldur óbrigðult iðrunarmerki, þó syndarinn kunni að andvarpa yfir syndum sínum með þessum bænarorðum: Guð vertu mèr syndugum líknsamur! því slík andvörp og bænarorð geta opt orsakazt af snöggum hugarhræríngum, sem ekki eiga sèr dýpri rætur í hjartanu, þegar syndarinn annaðhvort leggst veikur eða kemst í annan bersýnilegan lífsháska; en undir eins og hann er kominn úr hættunni, heldur hann áfram í syndum sínum. þegar syndarinnar óttalegu afleiðíngar gjöra vart við sig, þá opnast stundum augu syndarans og hann tekur til að skjálfa og titra og ásaka sjálfan sig; en í stað þess að flýja

til Guðs miskunandi náðar, fellur hann í örvæntíngu og segir eins og Kain: „mín synd er stærri enn svo, að hún verði mèr fyrirgefin“. Getum vèr kallað slíkan syndara sanniðrandi? Þá dó líka Júdas sem sanniðrandi syndari. Í ellinni sýnast margir iðrast og taka sinnaskipti; iðran þeirra getur verið sönn og borið rètta ávexti; en hún getur líka komið til af því, að syndarinn er þá orðinn óhæfilegur til að njóta lífsins munaðar; hann hefur varið sínum bezta aldri og eytt kröptum sínum í syndarinnar þjónustu, og nú ætlar hann að verja sinni dáðlausu elli í Drottins þjónustu; hann er búinn að lifa syndinni, en ætlar nú að deyja Drottni. Slík iðrun er mjög ískyggileg; það er Drottins eins að dæma um hana. Til þess að geta lært að þekkja einkenni sannrar iðrunar, verðum vèr að fylgja leiðsögn Guðs opinberaða orðs, og það segir oss, að sá sè sanniðrandi, sem leitar Drottins og ákallar hann, sem ekki slær iðrun sinni á frest, heldur lætur af sínum vonda vegi, snýr sèr til Drottins og ber þann ávöxt, er sambýður betruðu hugarfari. Guðsorð kennir oss að þekkja sjálfa oss, það kennir oss rèttilega að þekkja hugsanir vorar, orð og gjörðir. Og hvað sjáum vèr, kærir bræður! þegar vèr skoðum oss við ljós guðsorða? Vèr sjáum athafnir, sem lýsa voru lèttúðarfulla hugarfari, sem hafa ófarsælar afleiðíngar fyrir sjálfa oss og aðra og, ef til vill, svo lángvinnar, að þær ná leingra fram í ókomna tímann, enn líf sjálfra vor; vèr sjáum hugrenníngar og áform, sem vèr megum blygðast vor fyrir, því vèr höfum getað leynt þeim fyrir heiminum; vèr sjáum orð, sem opt sluppu fram af vörum vorum, án þess vèr hugleiddum, hve mjög vèr með þeim syndguðum móti Guði og náúnga vorum. Þegar vèr lítum til æskuára vorra, hve margar yfirsjónir hafa þau ekki að geyma; hve illa höfum vèr ekki varið vorum beztu kröptum og þeim tíma, sem var hentugastur til að taka framförum í hinu góða; með hvílíkri lèttúð og skeytíngarleysi um allt, sem Guði var þóknanlegt, höfum vèr ekki burtsóað æskuárunum! Megum vèr ekki taka undir með Davíð og biðja: „Mundu ekki til minna úngdóms synda og afbrota, heldur mundu til mín eptir þinni miskunsemi, fyrir sakir þinnar góðgirni, Drottinn“! (sálm. 25., 7.). Hlýtur ekki endurminníng vorra misgjörða að særa oss, svo vèr tökum oss þessi Davíðs orð í munn:

„þín skeyti hafa hitt mig og þín hönd niðurþrykkir mèr; þar er eingin ró í mínum beinum vegna minna synda, því að mínar misgjörðir gánga mèr yfir höfuð og sem þúng byrði draga mig niður“ (sálm. 38., 3.—5.). Og hvar leitum vèr nú, kærir bræður! sannrar og áreiðanlegrar huggunar? Hvar fáum vèr fullvissu um eilífa uppgjöf á þeirri hegníngu, sem vèr höfum til unnið? Eingin jarðnesk, eingin mannleg huggun getur bætt úr þeirri sálarángist, sem samviskan og syndameðvitundin vekur í hjarta iðrandi manns. Allar þær afsakanir, sem hinn lèttúðarfulli syndari hugsar upp til að deyfa með samviskukvölina og fegra með yfirsjónir sínar, svo sem: meðfæddan veikleika, afl girnda og freistínga, öll hræsni og skinhelgi fellur þá um koll og veitir einga stoð nè styttu. Hinn sanniðrandi hefur ekkert við að styðjast nema Guðs miskunsemi; þess vegna snýr hann sèr til Guðs náðarfyrirheita og hlýðir fúslega þeirri röddu, sem býður honum að „leita Drottins“. Af innsta grunni hjartans andvarpar hann og segir: Guð, vertu mèr syndugum líknsamur! og eins og hinn glataði sonur ásetur hann sèr, „að snúa aptur til síns himneska föður“. þenna ásetníng hefur líka opt hinn lèttúðarfulli syndari, en hann slær honum eins opt á frest, hann vill enn þá halda dálitla stund áfram í blindni sinni og hefur allt af eitthvað til að afsaka með þenna undandrátt, hann vill bíða með betrun sína þángað til hann er orðinn gamall: þá vill hann draga sig út úr solli heimsins og fara að þjóna Guði. Öðru vísi breytir hinn sanniðrandi; hann leitar Drottins meðan hann er að finna og ákallar hann meðan hann er nálægur, því hann veit ekki, nema sá verði sviptur náðinni og nálægð Drottins, sem fyrirlítur hans þolinmæði; hann vill ekki eiga það á hættu, að öxin verði sett til rótar trjánna, því hann veit, að hvert það trè, sem ekki ber góðan ávöxt, verður upp höggvið og á eldinn kastað. þegar syndarinn slær iðrun sinni á frest og hugsar, að Guð sè ætíð að finna, þá svíkur hann að lokunum sjálfan sig með þessari raungu ímyndan, af því betrunin verður því torveldari, sem henni er leingur frestað. Dagleg dæmi sýna oss, hve erfitt og næstum því ómögulegt það er að leggja af vondan vana, þegar hann er búinn að fá yfirráð yfir oss, því eptir því sem vèr leingur þjónum syndinni, eptir því missum vèr vort andlega frelsi meir og meir og

verðum syndanna þrælar; sálinni veitir næsta erfitt að útrýma þeim syndsamlegu hugmyndum og girndum, sem vèr erum búnir að venja oss á, og með aldrinum verðum vèr lángtum óhæfilegri til að taka á móti nýjum áhrifum enn meðan vèr erum úngir. Og þó hugsa margir, að það sè óhætt, að slá iðruninni á frest þángað til á sóttarsænginni, eða jafnvel þángað til á banasænginni. Sè það erfitt að láta af syndsamlegum vana, meðan vèr erum heilir heilsu, höfum fullkomna ráðdeild, fullt fjör og fulla krapta, getum vèr þá ímyndað oss, þetta sè hægðarleikur, þegar vèr erum lagztir veikir, þegar vèr ekki höfum viðþol fyrir verkjum og sárindum, þegar líkami vor liggur þjáður og máttvana og vèr getum ekki haft hugsun á neinu nema veikindunum? Nei, kærir bræður! leitið Drottins meðan hann er að finna, leitið hans nú þegar, því þèr eigið ekki ráð á ókomna tímanum, og gætið þess, að „nú er mál að rísa upp af svefninum“ (Róm. 13., 11.). Þegar hinn sanniðrandi rís upp af sínum andlega svefni, þá snýr hann af sínum vonda vegi, og ber þann ávöxt, er sambýður betruðu hugarfari; og þetta er hið eina einkenni sannrar iðrunar, sem er áreiðanlegt. Með innilegu ángri og alvarlegum viðbjóði horfir hann á sína fyrri breytni og vildi feginn geta apturkallað þann tíma, sem hann varði í syndarinnar þjónustu, og allar þær ófarsælu afleiðíngar, sem hans yfirsjónir hafa haft; með daglegri bæn til Guðs vakir hann nú yfir hugrenníngum, orðum og verkum; hann leyfir eingri saurugri girnd inngaungu í sálu sína, því hann veit, að hún á að vera Guðs musteri; hann forðast ill og ósæmileg orð, því hann man eptir því, að málið er honum gefið til að lofa og vegsama Guð; hann forðast að gjöra á hluta náúnga síns, því hann veit, að hann á að elska hann eins og sjálfan sig; hann elskar nú ljósið, en hræðist myrkrið, sem hann áður gekk í; hann sèr nú það glötunardjúp, sem hann áður stefndi á, og að hinn breiði vegur liggur þángað, og hann lætur það ekki blekkja sig, að svo margir gánga hinn breiða veginn; að sönnu heyrir hann enn þá holdsins og heimsins tælandi rödd, en hann heyrir líka heilaga rödd í hjarta sínu, rödd hins góða hirðisins, er býður honum að fylgja sèr, og þessari röddu fylgir hann og segir eins og Jósep: „Hvernig skyldi eg aðhafast svo mikla óhæfu og syndga á móti Guði“?

Guðs vegir eru einber miskun og sannleiki; hann hefur leitt mig villtan syndara á sinn veg, og með hans mildiríku aðstoð vil eg gánga þenna veg og reynast honum trúr til dauðans, því „eg lifi nú ekki framar sjálfum mèr, heldur honum, sem fyrir mig er dáinn og upprisinn“ (2. Kor. 5., 15.). Af alefli leitast hinn sanniðrandi við að verja lífi sínu til að ráða bót á sínu fyrra hirðuleysi, og í stað þess, að eptirdæmi hans áður var öðrum til ásteytíngar, þá reynir hann nú til að verða öðrum til góðrar fyrirmyndar og uppörfunar í því að gefa Guði dýrðina; þess vegna dregur hann sig ekki út úr mannlegu fèlagi, heldur reynir til að gegna trúlega skyldum sinnar köllunar og láta ljós mannelskunnar skína út úr breytni sinni við aðra menn. það er að vísu satt, að hið illa, sem hann hefur aðhafzt, verður ekki aptur tekið, og sá tími, sem hann hefur sóað burt, verður ekki aptur kallaður; en þó er viðleitni eptir að leggja af bresti sína og gjöra það sem gott er Guði þóknanleg og vottur um sanna iðrun. það stendur ekki í valdi syndugs manns að gjöra meira. Aldrei gleymir hinn sanniðrandi yfirsjónum sínum, heldur hugsar hann opt um þær; og skulum vèr nú stuttlega hugleiða, hvaða tilfinníngar sèr í lagi vakna hjá honum við þessa umhugsun.

II.

þegar sanniðrandi syndari hefur í trausti til Jesú friðþægíngar flúið til Guðs miskunar og feingið fyrirgefníng synda sinna, verður hann sèr þess meðvitandi, að hann er rèttlættur af guðlegri náð og fluttur frá myrkrinu til ljóssins, undan yfirráðum syndarinnar inn í ríki Guðs sonar. þá er samband hans við Guð orðið allt öðru vísi enn áður; áður var hann undirorpinn bölvun lögmálsins, nú er hann orðinn Guðs náðar aðnjótandi; himnafaðirinn hefur eins og gleymt hans yfirsjónum og þeirra skal ekki að eilífu minnzt verða; „fyrir Jesúm Krist hefur hann endurlausnina öðlazt: fyrirgefníngu syndanna af ríkdómi Guðs gæðsku“ (Ef. 1., 7.). Ó, hve margvíslegar tilfinníngar hljóta þá ekki að hreifa sèr í hjarta sanniðrandi manns? Að vísu hefur Guð fyrir Jesú skuld fyrirgefið honum syndirnar, en mun hann þar fyrir sjálfur geta gleymt þeim? mun hann ekki miklu fremur opt hljóta að reka minni til þeirra? Vissulega munu margar afleiðíngar af syndum hans, sem hann

ekki getur ónýtt eða afstýrt, einatt detta honum í hug og á margan hátt særa hjarta hans; vissulega mun mörg sár endurminníng um hans fyrri breytni vakna í sálu hans og vekja hjá honum stríð og baráttu, mörg og syndsamleg endurminníng enn þá freista hans og leitast við að lokka hann af Guðs og dyggðanna vegi; en þá mun líka áminnandi rödd Guðs orðs og anda vakna í sálu hans, og trúin á hinn krossfesta frelsara mun veita honum djörfúng og krapta til að sigrast á hinu illa, og í hvert sinn sem hann minnist sinna fyrri synda, minnist hann þess líka, að hann er tekinn til náðar af guði, og þessi endurminníng vekur hjá honum auðmýktar og þakklætis tilfinníngar og þann staðfasta ásetníng að bera þann ávöxt, er sambjóði betruðu hugarfari.

Auðmýktin er ekki einúngis hið fegursta skart sálna vorra, heldur einnig öldúngis ómissandi til þess vèr getum haldið betrunarverki voru áfram og staðið stöðugur í Guðs náð. Ef vèr förum að hafa mikið álit á sjálfum oss og dyggðum vorum, þá leiðumst vèr hæglega til syndsamlegrar geðþekkni á sjálfum oss og oftrausts á vorum eigin kröptum, og þá er oss hrösunin búin. Guðs náð kemur ekki öðrum að haldi enn þeim, sem með ángri og trega og laungun eptir Guði endurminnist synda sinna, og leitar Guðs með harmþrúngnum anda, eins og ritníngin kemst að orði. Með þessu auðmjúka hugarfari hugsar hinn sanniðrandi um syndir sínar og lyptir huga sínum upp til miskunsemdanna föður með þessum eða þvílíkum orðum: Æ, Drottinn minn! þú ert allt, en eg er ekkert; óendanleg hlýtur þín elska til mannanna að vera, fyrst þú hefur fyrirgefið mèr mínar mörgu og miklu yfirsjónir og auðsýnt mèr miskunsemi, svo stórsyndugur sem eg er. Mínum óteljandi misgjörðum viltu gleyma, og það svo gjörsamlega, að þú umfaðmar mig með þinni náð og telur mig meðal barna þinna, eins og eg hefði allt af reynzt þèr trúr og rækilega hlýtt þínum boðum. Algóði, miskunsami Guð! eg er minni allri þeirri miskun og trúfesti, sem þú hefur auðsýnt mèr fyrir þinn son, Jesúm Krist! Með þessu auðmjúka hugarfari hugsaði Páll postuli jafnan til sinnar fyrri villu og til þeirrar miskunar, sem Guð auðsýndi honum; hans fyrri yfirsjónir stóðu honum jafnan svo lifandi fyrir hugskotssjónum, að hann áleit sig þess ekki mak-

legan að heita Jesú postuli; „eg er síztur postulanna“, segir hann, „og ekki verður að kallast postuli, því eg hefi ofsótt Guðs söfnuð; en af Guðs náð er eg það eg er“ (1. Kor. 15., s.).

Því auðmjúkari sem hinn sanniðrandi er, þess innilegri eru hans þakklætis tilfinníngar. Æ, djúpt var eg fallinn og lá flatur undir minni þúngu syndabyrði; en þú miskunaðir mèr, himneski faðir! þú sendir geisla þinnar náðar niður í sálu mína, þú reistir mig á fætur aptur og huldir syndir mínar með heilögu rèttlæti þíns eingetna sonar. Þannig hugsar hinn sanniðrandi, og lofar með hjarta og munni almáttugan Guð, sem frelsaði hann úr djúpi örvæntíngarinnar og glötunarinnar. Titrandi af ótta lítur hann aptur á hinar andlegu og líkamlegu hættur, sem hann í sínu fyrra iðrunarlausa ástandi rataði í; titrandi af ótta snýr hann huganum frá þessu hræðilega ástandi og varpar sèr í faðm frelsara síns. Við þessa umhugsun verður sál hans gagntekin af innilegasta þakklæti við Guð og Jesúm Krist, og þetta sitt þakkláta hugarfar leitast hann við að láta í ljósi bæði í orði og verki, hve nær sem honum gefst færi á; gleði- og þakklætistár væta kinnar hans, þegar hann endurminnist Jesú friðþægjandi kærleika, og iðuglega sendir hann auðmjúk þakklætisandvörp upp að hásæti hins eilífa; hann verður miskunsamur við bágstadda eins og faðirinn á himnum er miskunsamur; hann verður sáttgjarn og fús á að fyrirgefa bræðrum sínum, því Guð fyrirgaf honum og gaf honum upp alla skuldina. Helg betrunaráform eru nú ávextir þessara tilfinnínga; hinn sanniðrandi ásetur sèr, að vaka yfir hjarta sínu, forðast allt, sem getur freistað hans til syndar, og þegar hann freistast, biðja Guð að hjálpa sèr til að sigra freistínguna, því reynslan hefur sýnt honum, hve breyskur maðurinn er og veikur fyrir, þegar girndirnar vilja leiða hann afvega. Nú vill hann afneita sjálfum sèr og láta allt á móti sèr fyrir hans skuld, sem elskaði hann svo óvenjulega heitt og lèt lífið fyrir hann. Með alvarlegri sjálfsprófun rannsakar hann ávexti trúar og betrunar sinnar og reynir daglega til að fullkomna þá. Guðs dýrð og annara farsæld er mark og mið allra hans athafna. Með þessum áformum í hjartanu gegnir hann sinni köllun og berst við sína andlegu óvini; þessi áform endurnýjar hann iðuglega og viðheldur þeim með bæn til Guðs og guðrækilegum hugleið-

íngum; hann hugsar til sinna fyrri yfirsjóna með þeim staðfasta ásetníngi, að forðast þær og sèrhverja synd; og Guðs kraptur sèst nú verkandi í hans veikleika.

Ó, sælufullt er ástand þessa sanniðrandi manns; „sælir eru þeir, hverra yfirtroðslur eru fyrirgefnar, hverra syndir eru huldar“ (sálm. 32., 1.); sælir eru þeir þegar í þessu lífi, því þeir finna til Guðs náðar og velþóknunar, og sælir verða þeir á sælunnar landi þegar þeir fá að sjá Guð augliti til auglitis.

Skjótið því ekki iðrun yðar á frest, syndugir menn! Leitið Drottins, meðan hann er að finna, ákallið hann, meðan hann er nálægur; nú getið þèr fundið miskunsemdanna föður; nú vill hann fyrirgefa yður syndir yðar og yfirsjónir, ef þèr leitið hans og ákallið hann með iðrandi hjörtum; hans óþreytanlega þolinmæði hefur allt til þessa dags látið yður standa óupprætta; en ef þèr fyrirlítið ríkdóm hans gæðsku og lánglundargeðs, þá er yður eingin hjálpar nè frelsunar von, þá farið þèr dag vesnandi og sviptið sjálfa yður öllu færi á að betrast. Og hvers vegna skjótið þèr betrun yðar á frest? Hvað gefur yður vissu fyrir því, að mælir synda yðar sè ekki þegar fylltur? Hverja vissu hafið þèr fyrir því, að ókomni tíminn verði hentugur til iðrunar? En þó svo yrði, þá er þó hætt við, að þèr gjörið yður ómaklega Guðs náðar, með því að vera svo skeytíngarlausir um hana og um farsæld sjálfra yðar. Með því að slá iðrun yðar á frest sýnið þèr bæði lèttúðarfullt hugarfar, og að þèr þekkið ekki, hve viðurstyggileg og hættuleg syndin er, nè heldur hvílík sæla það er, að vera í náð hjá almáttugum Guði. Sè yður meira annt um syndarinnar og girndanna þjónustu enn um Guðs náð, þá sýnir þetta, að þèr eruð óhæfilegir fyrir Guðs náð. Æ, freistið ekki Drottins, hann lætur ekki að sèr hæða; rannsakið yðar umliðna líf með einlægri sannleiks ást, og látið þessa rannsókn vekja hjá yður sanna iðrun og knýja yður til að leita Drottins, leita hans náðar og miskunar, hans aðstoðar og fulltíngis, til að geta borið þann ávöxt, er sambjóði betruðu hugarfari! Þèr únglíngar! leitið Drottins á yðar æskuárum og gætið þess í tíma, hversu torfelt það er að iðrast í ellinni, gætið að Guðs rèttlæti, sem einhvern tíma mun hegna þeim, sem fyrirlíta hann og fótumtroða hans boðorð; berið snemma ávexti iðrunarinnar og haldið yður stöð-

uglega til Guðs og yðar guðdómlega frelsara, svo þèr fáið borið mikinn ávöxt! Og þèr, sem hnignir eruð á efra aldur, standið við á þeim hinum vonda vegi, sem þèr híngað til hafið geingið; standið við í dag og spyrjið eptir hinum góða vegi! Ef til vill er öxin þegar sett til rótar trjánna, og þèr vitið, að hvert það trè, sem ekki ber góðan ávöxt, mun verða upp höggvið og á eldinn kastað. Leitið því Drottins, leitið hans í Jesú Kristi, hinum góða hirði, sem leitar að yður og öllum villuráfandi syndurum! Æ, hann mun enn af elsku sinni leiða yður til föðursins og þeirra himnesku föðurhúsa, ef þèr viljið fylgja honum. Og þèr iðrandi og ángruðu sálir, flýið í faðm Guðs miskunar og náðar; gætið þess, að þèr hafið árnaðarmann hjá föðurnum, Jesúm Krist yðar frelsara, sem er forlíkun fyrir yðar og allrar veraldarinnar syndir (1. Jóh. 2., 2.)! Örvæntið ekki; Drottinn vill ekki dauða syndugs manns, heldur að hann snúi sèr og lifi; hann vill ekki brjóta hinn brákaða reyr, eða slökkva hinn líttloganda hörkveik; með útbreiddan miskunarfaðm kemur hann á móti yður og tekur yður aptur í sátt við sig. Fögnuður mun verða á himnum meðal Guðs útvaldra, þegar þèr á síðan, eptir sáluhjálplegan viðskilnað hèr, komið á land lifenda, og lofið Drottin, sem er þolinmóður og fús á að fyrirgefa. Æ, góði himneski faðir, fyrirgef þú oss vorar skuldir og sèrhverjum sanniðrandi syndara, fyrir Jesú Kristí skuld! Amen.

---

## Á fjórða sunnudag eptir páska.

### Bæn.

Láttu þinn anda, Drottinn! leiða oss í allan sannleika; láttu hann sannfæra oss um syndir vorar og halda samizku vorri vakandi, svo vèr lærum að sjá vora syndasekt og höfum næma tilfinníngu fyrir þeim mismun, sem er á rèttu og raungu, á góðu og illu. Æ, þessi tilfinníng sljófgast af syndinni, svo vèr einatt gleymum því djúpi, sem staðfest er milli hins góða og hins illa, milli dyggða og lasta, gleymum þeim dómi, sem þú í þínu orði og samvizku vorri hefur uppkveðið yfir öllu óguðlegu athæfi, gleymum þeim dómi, sem bíður vorn á hinum mikla dóms og reiknings-

skapar degi. Æ, láttu þinn heilaga anda minna oss á þetta í hvert sinn sem vèr freistumst til syndar; láttu hann minna oss á, að höfðíngi þessarar veraldar er þegar dæmdur, og að vèr munum sæta hinum sama hegníngar dómi, ef vèr fylgjum honum og höldum iðrunarlaust áfram í syndunum; láttu þessa endurminníngu knýja oss til að forðast myrkrið, en leita ljóssins, forðast syndina, en snúa oss til þín, þjóna þèr og elska þig af öllu hjarta! þá munum vèr ekki koma til dómsins, heldur fara frá dauðanum til lífsins, til þess eilífa lífs, sem þinn eingetinn sonur hefur útvegað oss hjá þèr. Bænheyr það í Jesú nafni! Amen.

## Guðspjallið

(Jóh, XVI., 5.—15.).

Jesús sagði til sinna lærisveina: Nú fer eg til hans, sem mig sendi, og einginn af yður spyr mig að: hvert fer þú? heldur af því að eg talaði þetta til yðar, þá uppfylltust yðar hjörtu af hryggð; en eg segi yður það satt, að það batar yður, að eg fari hèðan; því fari eg ekki á burt, kemur ekki huggarinn til yðar; en ef eg fer hèðan, mun eg senda hann til yðar. Þegar hann kemur, mun hann sannfæra heiminn um syndina, um rèttlætið og um dóminn: um syndina, sökum þess að þeir trúa ekki á mig; um rèttlætið, af því að eg fer til föðursins, og eptir það sjáið þèr mig ekki; en um dóminn, því að höfðíngi þessa heims er dæmdur. Eg hefi enn þá margt að segja yður, en að sinni eruð þèr ekki færir um að skilja það. En þegar sá sannleikans andi kemur, þá mun hann leiða yður í allan sannleika; því hann mun ekki tala af sjálfum sèr, heldur hvað hann heyrði mun hann tala, og kunngjöra yður hið ókomna; hann mun og gjöra mig dýrðlegan, því af mínu mun hann það taka og kunngjöra yður. Allt það sem faðirinn hefur, það er mitt; þess vegna sagði eg yður: af mínu mun hann það taka og kunngjöra yður.

## Inngángur.

Vort heilaga guðspjall er tekið úr þeirri fögru og guðlegu huggunarræðu, sem Jesús að skilnaði hèlt fyrir lærisveinum

sínum deginum fyrir andlát sitt. Einginn deyjandi faðir hefur nokkurn tíma með innilegri elsku og meðaumkun hugsað til sinna munaðarlausu barna, er hann varð að skilja eptir í vondri og syndum spilltri veröld, en Jesús hugsaði nú til sinna veiku og líttreyndu lærisveina. Með óviðjafnanlegri nærgætni fór hann því að búa þá undir burtför sína og sýna þeim, hve nauðsynlegt og gagnlegt það væri fyrir þá, að hann skildi við þá að sýnilegum návistum; það var eins og hann öldúngis gleymdi sjálfum sèr og allri þeirri kvöl og pínu, sem fyrir honum lá, til þess því betur að geta hughreyst, frætt og áminnt þessa sína sorgbitnu vini; það var eins og hann vildi beita sinni himnesku málsnild til að innræta þeim það hugrekki og leggja þeim þau ráð, sem hann sá, að þeir mundu viðþurfa til að geta unnið það háleita verk, sem hann ætlaði að fela þeim á hendur, að vera sendiboðar hans meðal þjóðanna og flytja þeim hans himneska náðarlærdóm. Sèrhvert orð, sem hann talaði við þá, er fullt af mildi og viðkvæmri elsku; sèrhver ráðleggíng og sèrhver áminníng, sem hann gaf þeim, er full af himneskri speki og guðlegum kærleika. Í þessa dags heilaga guðspjalli er Jesús sèr í lagi að sannfæra lærisveina sína um það, að burtför sín sè öldúngis nauðsynleg fyrir þá, því hún sè skilyrði fyrir því, að sannleikans andi, eða huggarinn, geti komið til þeirra. Nú talaði sannleikans og huggunarinnar andi við þá fyrir munn frelsarans; en það var nauðsynlegt, að þessi sami andi talaði í þeim og fyrir þeirra munn, að hann yrði uppspretta allra hugsana og orða í hjörtum sjálfra þeirra; og þetta minnir oss, kærir bræður! á, að það er ekki einhlítt, að sannleikans og huggunarinnar andi tali við oss í guðsorði, heldur verður hann einnig að taka sèr bólfestu í vorum anda, og það gjörir hann, ef vèr geymum guðsorð í góðum og siðsömum hjörtum. Jafnframt því sem Jesús í guðspjallinu heitir lærisveinum sínum sendíngu heilags anda, segir hann þeim fyrir, hvernig hann muni styrkja þá í því stríði, sem fyrir þeim lá, og hver áhrif hann muni hafa á heiminn. Hann segir, að huggarinn muni „sannfæra heiminn um syndina, um rèttlætið og um dóminn“. Heilagur andi sannfærir heiminn um syndina, af því heimurinn trúir ekki á Jesúm, sem hefur endurleyst heiminn, og þannig sýnir heimurinn með vantrú sinni, að

hann er syndum spilltur. Heilagur andi sannfærir heiminn um rèttlætið, af því Krists dauði og burtför hans til föðursins auglýsti til fulls hans rèttlæti, sem heimurinn gæti tileinkað sèr, ef hann vildi, og þannig orðið sáluhólpinn. Heilagur andi sannfærir heiminn um dóminn, af því Krists náðarlærdómur sýnir sigur ljóssins yfir myrkrinu, og sáluhjálpleg áhrif hans á hjörtu syndugra manna sýna, að höfðíngja þessa heims er steypt úr völdum, eða, eins og Jesús orðar það, „að höfðíngi þessa heims er dæmdur". En þareð þessi orð guðspjallsins þurfa nákvæmari útskýríngar við, viljum vèr verja þessari guðræknisstundu til að hugleiða:

*í hvaða skilníngi höfðíngi þessa heims sè þegar dæmdur, og draga út af því hugvekju fyrir sjálfa oss.*

Frelsari vor talar optar enn einu sinni um höfðíngja þessa heims og þann dóm, sem yfir hann gángi. Þegar Jesús með dæmisögunni um hveitikornið, sem þarf að falla í jörðina og deyja til þess að geta borið ávöxt, sagði dauða sinn fyrir, baðst hann fyrir og sagði: „faðir! frelsa þú mig frá þessari mæðustundu; en til þess em eg kominn, að þessi stund komi yfir mig; faðir! gjör nafn þitt vegsamlegt"! Þá kom rödd af himni, er sagði: „eg hefi gjört það vegsamlegt og mun aptur gjöra það vegsamlegt". Þá mælti Jesús: „nú geingur dómur yfir þenna heim; nú mun höfðíngi þessa heims verða útrekinn" (Jóh. 12., 24. 31.). Aptur seinna, þegar frelsarinn ætlaði að gánga á móti óvinum sínum í grasgarðinum, sagði hann: „höfðíngi þessa heims kemur, en í mèr hefur hann ekkert" (Jóh. 14., 30.); og í ræðu þeirri, sem vort guðspjall er tekið úr, mælti hann þessi orð, sem áður er getið: „höfðíngi þessa heims er nú dæmdur". Af þessu sjáum vèr, að dómurinn yfir höfðíngja þessa heims stendur í sambandi við Krists friðþægjandi dauða. Til að skilja þetta, verðum vèr að gæta þess, að heimur eða veröld er haft í heilagri ritníngu í tvenns konar merkíngu; stundum eru þessi nöfn höfð um himin og jörð og allt sem speki og gæðska Guðs skapar og viðheldur; en hèr eins og optar merkja þau hinn syndum spillta heim, þá Guði fráhverfu veröld, eða vantrúaða og óguðlega menn, sem ekki hafa hugsun á öðru enn veraldlegri upphefð, auðlegð

og munaði, og eru samvizkulausir í því, hvaða brögðum þeir beita til að ná því, sem þeir sækjast eptir. þessa aðgreinir Jesús ætíð frá þeim, sem honum tilheyra. „Ekki bið eg fyrir heiminum", segir hann í bæninni til síns himneska föður, „heldur fyrir þeim, sem þú gafst mèr". „Heimurinn hatar þá, því þeir eru ekki af heiminum, eins og eg er ekki af heiminum (Jóh. 17., 9. 14.). Í sömu merkíngu kemur heimur og veröld fyrir hjá Jesú postulum. Páll postuli varar kristna söfnuðinn í Róm við að laga sig eptir þessum heimi, og meinar með því heiðnina, ekki einúngis skurðgoðadýrkun og þá lesti, sem henni voru samfara, heldur og það veraldlega hugarfar, sem ekki þekkir neitt æðra nè betra, enn gæði þessa heims. „Vináttta heimsins er óvinátta Guðs", segir postulinn Jakob (4., 4.); og Jóhannes varar oss við heimselskunni með þessum eptirtektaverðu orðum: „elskið ekki heiminn nè þá hluti, sem í honum eru; ef nokkur elskar heiminn, í honum er ekki kærleiki föðursins; því allt það í heiminum er, sem er fýsn holdsins, fýsn augnanna og stærilátt líferni, það er ekki frá föðurnum, heldur frá heiminum; en heimurinn fyrirferst og hans lystisemdir, en sá sem breytir eptir Guðs vilja, varir að eilífu" (1. Jóh. 2., 15.—17.). þareð nú veröldin þannig eptir orðum biblíunnar þýðir allt hið illa í heiminum, sem veitir guðsríki mótspyrnu, þá er auðvitað, að höfðíngi þessarar veraldar merkir djöfulinn eða Satan, sem Gyðíngar kölluðu djöfla höfðíngja, og sem ritníngin segir oss, að hafi freistað Krists, sýnt honum öll ríki veraldarinnar, og boðið að gefa honum þau ef hann fèlli fram og tilbeiddi sig. Án efa hefur Jesús tillit til hans með þessum orðum: „höfðíngi þessa heims er nú dæmdur". En í hverju er þá þessi *dómur* innifalinn? Heilög ritníng kennir oss, að djöfullinn hafi í öndverðu verið góður, eins og allt, sem Guð hefur skapað, en síðan fallið frá hlýðni sinni við Guð; það má því svo að orði kveða, að fyrst hafi geingið dómur yfir hann, þegar honum var steypt úr tign ljóssins niður í myrkranna ríki. þessu næst var uppkveðinn yfir honum hegníngar dómur, þegar Guð eptir syndafall vorra fyrstu foreldra sagði við höggorminn, „að sæði konunnar skyldi sundurmola hans höfuð" (1. Mós. 3., 15.). Og þessum dómi var fullnægt við dauða frelsara vors á kross-

inum. Sá sigur, sem myrkranna ríki þóttist hafa unnið, þegar hann, sem var ljós heimsins, fèll fyrir vantrú og vonzku mannanna, var í raun og veru hinn mesti·ósigur. Þegar frelsari heimsins deyjandi á krossinum kallaði og sagði: „það er fullkommað! faðir, í þínar hendur fel eg minn anda"! þá gekk dómur yfir höfðíngja þessa heims; sá dómur sem sè, að hann hvorki með vèlum nè ofríki gæti spornað við útbreiðslu evangelii og guðsríkis, eða við sáluhjálp allra þeirra, sem með sannri iðrun og trú flýja til síns krossfesta frelsara og tileinka sèr þá guðlegu náð, sem hann hefur þeim afrekað. „Þetta er dómurinn", segir guðspjallamaðurinn Jóhannes, „að ljósið kom í heiminn, og mennirnir elskuðu myrkrið meir enn ljósið, því þeirra verk voru vond. Hver, sem illt aðhefst, hatar ljósið, svo verk hans verði ekki uppvís; en sá, sem sannleikanum hlýðir, hann kemur til ljóssins, svo verk hans verði opinber, því þau eru í Guði gjörð" (Jóh. 3., 19.--21.). Þessi orð sýna oss, í hverju sá dómur yfir höfðíngja þessa heims, sem getið er um í guðspjallinu, einkanlega er innifalinn; þau sýna oss, að þessi dómur er innifalinn í aðskilnaði ljóssins og myrkursins, innifalinn í því, að Kristur hefur með kenníngu sinni og kraptaverkum, með lífi sínu og dauða stofnað guðsríki hèr á jörðu, og að þetta guðsríki á í stríði við allt óguðlegt athæfi í veröldinni og vinnur sigur yfir myrkranna ríki, sem stýður hið illa í heiminum og stjórnar því. *Þessi* dómur er því ekki sá dómur, sem von er á á síðasta degi, og því getur hann ekki komið í veg fyrir það, eins og Páll postuli kvartar yfir, „að höfðíngi þessarar aldar blindar enn þá skilníng vantrúaðra, svo þeir sjá ekki birtu þess dýrðlega náðarlærdóms Krists, sem er Guðs mynd" (2. Kor., 4., 4.). Já, hann er enn þá verkandi í börnum vantrúarinnar, sem óvinur Guðs og hans orðs, sem lyginnar andi, fullur drambsemi, öfundar, heiptar og hefndargirni. Enn þá lokkar hann þá til lasta og synda, sem gefa sig á hans vald.

Margvíslegar eru þær freistíngar, sem vèr syndugir menn erum undirorpnir; margvíslegar eru þær tálsnörur, sem óvinur sálna vorra leggur fyrir oss til að draga oss frá Guði; en með því vèr hèr tölum um hann sem höfðíngja þessarar veraldar, viljum vèr nú eingaungu gefa gætur að því ver-

aldlega hugarfari, sem er óvinátta gegn Guði. Hvernig geta þeir menn, sem festa allan huga sinn og hjörtu við veraldlega hluti og stundleg gæði þessa heims, verið þjónar og lærisveinar Krists og tilheyrt honum, sem sagði, „að sitt ríki væri ekki af þessum heimi? Nei, þeir eru mammons þrælar; en mammon kallast höfðíngi þessarar veraldar, að því leyti sem hann með ágirnd og auraelsku lokkar mennina á sitt vald og dregur þá frá Guði. En til að skilja rètt þá kenníngu, sem svo opt hefur verið misskilin, að kristinn maður eigi að halda sèr frá veröldinni, þá verðum vèr meðal annars að hugleiða, hvernig Jesús bað fyrir lærisveinum sínum og biður enn fyrir öllum, sem honum tilheyra. „Ekki bið eg“ sagði hann, „að þú takir þá *úr* heiminum, heldur að þú geymir þeirra við hinu illa. þeir eru ekki *af* heiminum, eins og eg em ekki af heiminum. Helga þú þá með þínum sannleika; þitt orð er sannleikur. Eins og þú sendir mig *til* heimsins, svo sendi eg þá til heimsins, og fyrir þá helga eg sjálfan mig, svo að þeir sèu sannleikanum helgaðir. En eg bið ekki einúngis fyrir þessum, heldur og fyrir þeim, sem trúa munu á mig fyrir þeirra orð, svo að þeir allir sèu eitt, eins og þú, faðir! ert í mèr og eg í þèr, að þeir og sèu eitt í oss, svo að heimurinn trúi, að þú hafir sent mig“ (Jóh. 17., 15.—21.). Af þessu sjáum vèr, að vèr eigum að vera *í* veröldinni, en megum ekki vera *af* veröldinni, að vèr eigum þar að vinna það sem gott er og Guði þóknanlegt, helgaðir í sannleikanum fyrir trúna á hann, sem helgaði sig fyrir oss, en fyrir hinu illa, sem er í veröldinni, eigum vèr að taka oss vara fyrir þá náð, sem sameinar oss honum eins og hann er föðurnum sameinaður. Sönnum kristindómi gagnstætt er ekki einúngis allt, sem í sjálfu sèr er illt og stríðir á móti því lögmáli, sem Guð hefur gefið oss í sínu orði og í samvizku vorri, heldur og hinir veraldlegu hlutirnir, ef þeir gagntaka svo hjörtu vor, að þeir draga oss frá Guði. Æ, hversu margir festa þó ekki allan huga og hjarta við þessa tímanlegu og veraldlegu hluti, en hugsa lítið um það, sem er andlegt og eilíft! þó þeir efist ekki um, að annað líf sè til eptir þetta, halda þeir þó, að þeir þurfi ekki að verja þessu lífi til annars enn að afla sèr svo mikils af tímanlegum gæðum,

sem þeir frekast megna, og neyta þeirra og hagnýta sèr þau eins og þeir bezt geta. Fæstir þessara ná þó tilgángi sínum; með miklum erfiðismunum, mæðu og fyrirhöfn fá þeir minnstan hluta þess, sem þeir sækjast eptir, og gleðin, sem þeir af því hafa, er lítil og skammvinn. Jafnvel þeir, sem heppnast fyrirtæki sín og geta komið því til leiðar, er þeir vilja, hafa þó einga sannarlega gleði af því, ef þeir ekki sækjast eptir öðru enn veraldlegum hlutum og þeim, sem þessari jörðu tilheyra. Þeir eru óánægðir með sjálfa sig, en öfundast yfir öðrum; auðæfin vekja hjá þeim áhyggju og órósemi; upphefð og álit þeirra er þeim til byrði, og munaðurinn þreytir þá og aflar þeim leiðinda. Þegar óhöpp og andstreymi fer að sækja þá heim og þeir verða fyrir mæðu og mótlæti; þegar þeir fara að þjást af sjúkdómum og heilsuleysi og þeir ekki eiga annað eptir enn að súpa hinar súru og beisku dreggjar af hinum tæmda bikar lífsins, þegar sál þeirra tekur til að kveljast af endurminníngu umliðna tímans og af hugsunum sínum, og líkami þeirra er ekki einúngis orðinn ónýtt verkfæri og hrörlegur bústaður fyrir sálina, heldur fullur af verkjum og sárum tilfinníngum; þegar svo er komið, þá verða þeir með hræðslu og hugarángri þess varir, að þeir hafa ekki þekkt rètt ákvörðun lífsins. Þá verða þeir þess varir, að þegar þeir missa hina jarðnesku og veraldlegu hluti, sem þeir eingaungu sóttust eptir, þá eiga þeir ekki annað eptir, enn tómleika, söknuð, kvöl og ángist. Þá sjá þeir það, sem þeir áður ekki gátu skilið, að sá, sem lifir án Guðs, er andlega dauður, þó hann sè með fullu fjöri og fullum kröptum. Þá fara þeir líka að óttast hinn eilífa dauða, þó þeir áður hafi fyrirlitið hann, meðan iðrunarleysi þeirra og vantrú þaggaði niður áminníngar og aðvaranir samvizkunnar. En margur, sem eingaungu hefur lifað fyrir veraldlega hluti, kann þó að hugsa: þetta kemur mèr ekki við; þó eg hafi ekki verið svo guðrækinn eða hugsað um annað líf, þá hefi eg þó eingum gjört rángt til; þar á mót hefi eg gjört mörgum gott. Ekki hefi eg heldur spillt heilsu eða velferð minni nè stytt lífstundir mínar með grófum löstum. Hvað þarf eg þá að hræðast þegar dauðinn kemur? Þessi orð þín, syndugur maður! sýna, að þú hefur ekki skynsamlega og því síður kristilega hugmynd um ákvörðun lífsins. Eða heldur þú, að þú sèrt

skapaður með ódauðlegri sálu einúngis vegna þessa jarðneska lífs? Og hvernig getur þú þá hughraustur skilið við þetta líf, ef þú hefur ekkert numið, ekkert hugsað eða gjört, sem hefur gildi í öðru lífi? Skiljir þú svo við veröldina, að þú hafir ekki aflað þèr annars eða leitað annars enn veraldlegra muna, hvað áttu þá eptir, þegar þú verður að flytja hèðan og getur ekki flutt neitt með þèr af þessum veraldar munum? Þó þú aldrei hafir fundið til þess, hversu tómlegt og gleðisnautt þetta stundlega veraldarlíf er, þá muntu þó finna til þess, þegar dauðinn stendur hjá banasæng þinni og sýnir þèr eilífðina og minnir þig á, að þángað getir þú ekkert haft með þèr nema eptirsjón eptir því, sem þú hefur farið á mis, og hugarángur af því, sem þú hefur vanrækt. — Ættir þú þá ekki í tíma að hugsa til hins ókomna og búa þig undir það? Ættir þú ekki að gefa þèr neinn tíma eða tómstund til að hugleiða þitt sálarástand? Eða áttu að láta jarðnesk umsvif, veraldlegar sýslanir og áhyggjur svoleiðis gagntaka hjarta þitt, svoleiðis taka upp allan tímann fyrir þèr, að þú fáir ekki eins augnabliks ráðrúm til að hugsa um þína eilífu farsæld? Jafnvel á helgum dögum hefur þú veraldleg störf fyrir stafni, eða það sem er öllu verra, þú gefur þig jafnvel þá við veraldlegum hugsunum og áhyggjum, og þær fylgja þèr í Guðs hús, þegar þú geingur þángað og meðan þú hlýðir guðsorði, hvarfla hugsanir þínar til veraldarinnar og þeirra hluta, sem í veröldinni eru. Hafir þú nú hugfest þessi orð frelsara þíns: „höfðíngi þessa heims er nú dæmdur", hafir þú hugfest þau og skiljir, hver hann er og í hverju þessi dómur er innifalinn, þá hugsaðu þig nú um, hvort þú vilt heldur tilheyra honum og því myrkra ríki, sem hann ræður, eða lífsins höfðíngja, sem með sigri sínum yfir dauðanum hefur útvegað þèr arfleifð í ljósinu. Guð gefi oss öllum náð til þess, að geta rèttilega hugleitt vort sálarástand og borið rètta umhyggju fyrir vorri eilífu farsæld! Bænheyr oss, himneski faðir, í Jesú nafni! Amen.

---

# Á fimmta sunnudag eptir páska.

## Bæn.

Þitt alltsjáandi auga, Drottinn! sèr, hvers vèr við þurfum, og þú veitir oss allt gott af ríkdómi þinnar náðar áður enn vèr getum lypt hjörtum vorum upp til þín. Þó hefur þú, mildiríki faðir! boðið oss að biðja þig; því umgeingni hjartans við þig í bæninni gjörir oss hæfilega til að taka á móti þínum velgjörðum og hagnýta oss þær rèttilega. Æ, kenn þú oss að biðja rèttilega, að biðja í Jesú nafni, í trúnni á hann, eptir hans ávísun og heilaga eptirdæmi: þá verða bænir vorar þèr þóknanlegar, þá hafa þær menntandi og betrandi áhrif á vor hjörtu og vort framferði, þá hreinsa þær sálina og útrýma úr henni öllum syndsamlegum hugsunum og girndum, en vekja aptur á mót hjá oss laungun eptir þèr og þínu ríki, svo það verður vor inndælasta iðja að ákalla þig í auðmýkt og undirgefni undir þinn blessaða vilja; þá biðjum vèr helzt um hin andlegu gæði, um fyrirgefníngu vorra synda, um þína mildiríku náð, aðstoð þíns anda og eilífa sáluhjálp. Heyr þú vor bænarandvörp, himneski faðir, í Jesú nafni! Amen.

## Guðspjallið

(Jóh. XVI., 23.—30.).

Jesús sagði til sinna lærisveina: Sannlega, sannlega segi eg yður: hvers þèr biðjið föðurinn í mínu nafni, það mun hann veita yður. Híngað til hafið þèr einkis beðið í mínu nafni. Biðjið, þá munuð þèr öðlast, svo yðar fögnuður sè fullkominn Þetta hefi eg talað í orðskviðum til yðar; en sá tími kemur, að eg tala ekki leingur í orðskviðum til yðar, heldur mun eg kunngjöra yður opinberlega af mínum föður; á þeim degi munuð þèr og biðja í mínu nafni. Ekki segi eg yður, að eg muni biðja föðurinn fyrir yður, því faðirinn sjálfur elskar yður, af því þèr elskið mig og trúið, að eg sè kominn frá Guði. Eg er af föðurnum útgeinginn og kominn í þenna heim, eg yfirgef og þenna heim, og fer til föðursins. Þá sögðu lærisveinarnir: sjá, nú talar þú berlega og mælir einga orðskviðu; nú vitum vèr, að þú veizt alla hluti, og þarft ekki, að nokkur spyrji þig; þess vegna trúum vèr, að þú sèrt frá Guði kominn.

### Inngángur.

Aumur væri hver sá kristinn maður, sem aldrei hefði beðið Guð og ekki vissi af eigin reynslu, hvað það er að biðja hann Hvernig sem menn reyna til að útlista eðli bænarinnar, þá verður þó þessi lýsíng jafnan ófullkomin, nema reynsla hjartans skýri hana fyrir oss. Vèr köllum bænina, með einföldum orðum og eptir ávísun ritníngarinnar, umgeingni hjartans á himnum, og samtal sálarinnar við Guð. þess vegna er það bæn, þegar hið hrærða hjarta í auðmýkt og með trúnaðartrausti talar við föður sinn á himnum, hvort sem það kemur til af lotníngu fyrir hans almætti, speki og gæðsku, eða það leitar hjá honum krapta til að geta staðið af sèr freistíngarnar og gjört hans vilja, hugrekkis til að geta borið þrautir og þjáníngar með stöðuglyndi, og huggunar í sorgunum, eða það biður öðrum bágstöddum hjálpar og aðstoðar Drottins, eða það lyptir sèr upp til hans með innilegu þakklæti fyrir hans náðarríku velgjörðir og föðurlegu handleiðslu. þetta er alltsaman bæn, sem sprettur af sömu aðaltilfinníngu, þó hún komi í ljós á ýmislegan hátt; það er samtal hjartans við Guð um þarfir þess og tilfinníngar. Guðhrædd sál getur ekki verið án þess, að biðja Guð; hún biður af helgri hjartans laungun, því Krists kærleiki þrýstir henni til þess. Bæn hins guðhrædda er túngumál hjartans, og sèrhver sá, sem verður var við samband sitt við Guð og trúir því, að önnur æðri ósýnileg veröld sè til, hlýtur að biðja; því bænin er hið himneska lopt, sem vèr öndum að oss úr eilífðarinnar heimkynnum, og hún er eins nauðsynleg fyrir vort æðra andlega líf eins og andardrátturinn er ómissandi fyrir vort jarðneska líf. Maðurinn er líka aldrei sælli, enn þegar hann í auðmýkt fellur fram og tilbiður almáttugan Guð, og finnur til hans elsku og nálægðar í hjarta sínu. Hvílíka huggun, hugrekki og krapta trúuð og innileg bæn veitir, finnur sá bezt, sem á í stríði við spillíngu heimsins, við synd og sorg, og hefur vanið sig á að biðja Guð og úthella hjarta sínu fyrir honum. þó leggja margir fullorðnir, því miður, af þetta barnamál, eins og þeir nokkurn tíma verði upp úr því vaxnir, að þurfa Drottins aðstoðar við; þó gleyma margir, því miður, þessu himneska túngumáli sakleysisins, þegar veröldin tekur þá

í sinn skóla og fer að kenna þeim sín mörgu túngumál: túngumál eigingirninnar og munaðarlífsins, smjaðursins og lastmælginnar, lèttúðarinnar og stærilætisins; þó missa ótal margir hinn blíða bænrækninnar anda í solli og hávaða heimsins, sem gagntekur hjörtu þeirra, hrífur þá með sèr og gefur þeim aldrei tíma nè tómstund til að biðja Guð. En þegar „hinir vondu dagarnir koma", þegar hinar jarðnesku missýníngar fara að hverfa og glys heimsins tekur til að vekja leiðindi, þreytu og hugarángur, þegar mótlætíngar, raunir og sjúkdómar gjöra vart við sig, þá fara líka margir fyrst að biðja Guð. En sè bænin ekki annað enn ángistar óp í hörmúnganna stormi og hið seinasta neyðarúrræði í hættunum; sè hún ekki vort daglega móðurmál, sem vèr höfum lært á únga aldri, sem jafnan er lifandi í hjörtum og á vörum vorum, þá getur hún ekki náð til Guðs nè veitt oss huggun, krapta og blessun. Áríðandi er því fyrir oss, kærir bræður! að biðja Guð opt og iðuglega og gjöra það rèttilega; en vèr megum einatt játa eins og skáldið, að „vèr vitum ei, hvers biðja ber, breyskleikinn holds því veldur". Lærum því af frelsara vorum, hvernig vèr eigum að biðja; látum hans lærdóm og dæmi vera vorn leiðarvísi í þessu efni eins og öllu því, sem gott er, og í því skyni viljum vèr verja þessari guðræknisstundu til að hugleiða:

*hvernig Jesús hefur kennt oss að biðja, svo vèr fáum bænheyrslu.*

„Mikið megnar alvarleg bæn hins rèttláta", segir postulinn Jakob (5., 16.) og vitnar til Elíasar, sem fèkk þerri og rigníngu með bænum sínum. Þess háttar yfirnáttúrlegrar bænheyrslu getum vèr ekki vænzt á vorum dögum, því nú þarf hvorki spádóma nè kraptaverka leingur við, þareð vèr höfum ljós guðlegrar opinberunar við að styðjast; og það væri að freista Guðs, ef vèr, þegar einhver neyð eða hætta ber að höndum, vildum ekki neyta þeirra krapta eða verja þeim meðulum, sem Guð hefur gefið oss, heldur biðum eptir því, að Guð afstýrði slíkum vandræðum vegna bæna vorra. Eins getum vèr ekki heldur vænzt Guðs blessunar í tímanlegum efnum, nema vèr sjálfir leitumst við að efla vora velgeingni eins og hann hefur boðið oss. En þegar vèr gjörum það, sem vèr eigum að gjöra

og getum gjört, þá megum vèr bera upp fyrir honum vorar tímanlegu-þarfir, ef vèr gjörum það með undirgefni undir hans vilja og með því skilyrði, að vèr leitum fyrst guðsríkis og hans rèttlætis; hvers vegna vèr og fyrst og fremst eigum að biðja um hin andlegu gæðin. En til eru þeir, sem halda, að það sè óþarfi að biðja Guð um andleg gæði, þareð það sè undir sjálfum oss og frjálsræði voru komið, hvort vèr breytum vel eða illa, hvort vèr hlýðum Guði eða ekki; en þeir gæta hvorki þess, að bænin til Guðs hreinsar hjartað og gjörir oss einmitt hæfilega til hins góða, nè heldur hins, að vèr ekki megnum af sjálfsdáðum að halda Guðs boðorð, og þurfum því til þess Guðs náðar og aðstoðar. Aptur halda sumir, að það sè að sönnu gott og nytsamlegt að biðja um betrun hjartans; en að bænheyrslan sè að öllu leyti undir manninum sjálfum komin, þareð hún eingaungu snerti hans eigið hugarfar. Það er að vísu satt, að þau andlegu gæði, sem vèr eigum að biðja um, snerta vort eigið hugarfar; en af því leiðir ekki, að þau sèu vort eigið verk. Hvað mundum vèr án aðstoðar heilags anda sjálfir geta gjört til að afla oss þeirrar upplýsíngar, þess stöðuglyndis í freistíngunum og þeirrar huggunar í sorginni, sem vèr öðlumst með heitri og trúaðri bæn? Bænheyrslan er því náðarverkan Guðs í sálu hins biðjanda. En trúaðir verða þess líka opt varir í hinum ytri lífskjörum þeirra, að Drottinn hefur heyrt þeirra bænir. Stöðu margra er svo varið, að þeir eru undirorpnir stórkostlegum freistíngum, og þó þeir fegnir vilji fá þessu breytt og komast þaðan, sem þeir eru, og hætta samneyti og viðskiptum við þá menn, sem freista þeirra til syndar, þá stendur þetta ekki ætíð í þeirra valdi. Í þessari neyð sinni flýja þeir til Guðs, og hann hagar því opt svoleiðis, að þeir á einhvern óvæntan hátt ekki einúngis komast úr þeim snörum, sem umkríngdu þá, heldur og fá færi á að koma miklu góðu til leiðar og verja vel þeim kröptum, sem Drottinn hefur gefið þeim. Já, trúaðir hafa einatt reynt það, að einnig í tímanlegri neyð kemur opt sú umbeðna hjálp af hæðum, en hún kemur opt öðru vísi enn þeir áttu von á.

En að öðru leyti er það aðalatriðið í þessu mikilvæga efni, að vèr fyrst verðum þess varir innra hjá oss, að vèr höfum þörf á að leita guðlegrar huggunar og hjálpar, og höld-

um svo fast við þau fyrirheit, sem Drottinn hefur gefið oss, um bænheyrslu, um leið og hann hvetur oss til að biðja rækilega. „Biðjið og mun yður gefast", segir hann (Lúk. 11., 9.). „Allt, sem þèr trúaröruggir biðjið um, mun yður veitt verða" (Matth. 21., 22.). „Hvers þèr biðjið föðurinn í mínu nafni, það mun hann veita yður" (Jóh. 16., 23.). En til þess að geta búizt við bænheyrslu, verðum vèr einnig að gæta þess, hvernig hann sjálfur hefur kennt oss að biðja. Af æfisögu frelsara vors sjáum vèr, að hann einkanlega í þrjú skipti kenndi oss, hvernig vèr eigum að biðja; í fyrsta sinn þegar lærisveinarnir beiddu hann þess (Lúk. 11., 1.—13.), í annað sinn þegar hann hèlt fjallræðuna (Matth. 6., 5.—13.), og í þriðja sinn, þegar hann átti það samtal við lærisveina sína, sem þessa dags heilaga guðspjall er tekið úr, og hann kenndi þeim að biðja í sínu nafni. Í bæði fyrri skiptin kenndi hann þeim þá bæn, sem vèr eptir honum köllum drottinlega bæn, og gaf þeim þá jafnframt ýmsar áríðandi hugvekjur um bænina yfir höfuð. *Fyrst* tekur hann oss vara fyrir að biðja eins og þeir hræsnarar, sem biðjast fyrir til þess, að þeir verði sènir af öðrum.

það eru tvennslags hræsnarar til, aðrir grófari, en aðrir fínni. Hinir grófari vilja sýnast guðhræddari enn aðrir, þó þeir hvorki sèu það í hugarfari sínu nè háttalagi. þannig var faríseunum varið, sem stóðu við á strætum og gatnamótum og gjörðu þar bæn sína. Til enna fínni hræsnara heyra þeir, sem kosta kapps um að sýnast eins guðhræddir og aðrir, en hirða ekki um að hafa guðrækilegt hugarfar; þeir gánga í guðshús og til guðsborðs og hafa guðsorð um hönd, einúngis fyrir siða sakir og til að gjöra sig ekki öðrum frásneidda. Opt er útvortis siðferði þessara manna ólastandi og þeir láta sèr vera umhugað um allt, sem eykur álit þeirra í augum annara manna. Um hvoratveggja þessa hræsnara segir Jesús, að þeir hafi sín laun úttekið, það er að skilja, þau laun, að þeir eru í afhaldi og metum hjá öðrum mönnum fyrir guðrækni og dyggðir; en af Guði, sem lítur á hjartalagið, hafa þeir einkis að vænta; þeir hafa ekki snúið sèr til hans með guðrækni sína, heldur til heimsins; þeir hafa ekki leitað miskunar og náðar hjá honum, heldur lofstírs af mönnum. — Ó, að allir hræsnarar hugleiddu

það, að Drottinn sèr þá og þekkir þá og að hann á efsta degi „mun leiða í ljós það sem í myrkrunum var hulið og opinberar gjöra hjartnanna hugsanir“ (1. Kor. 4., 5.). En maðurinn verður líka opt í þessu lífi uppvís að hræsni sinni, því hið ósanna getur ekki dulizt til leingdar, og þá fær hræsnarinn einnig hjá mönnum sín makleg málagjöld og kemst hjá þeim í fyrirlitníngu; og hvar á hann þá að leita sèr huggunar? Þegar Jesús varar oss við allri hræsni í bænum vorum, þá er það þó eingan veginn meiníng hans, að vèr skulum vanrækja guðræknis iðkanir vorar í kirkju eða heimahúsum af ótta fyrir mönnum, eða af hræðslu fyrir því, að þeir kunni að leggja oss þetta illa út. Einnig þeir, sem af ótta fyrir því, að þeir kunni að verða álitnir hræsnarar, hindra sína og, ef til vill, annara andlegu menntun og betrun, leita sèr lofs og launa hjá mönnum með því þeir meta dóma heimsins barna meir enn Guðs velþóknun.

*Enn fremur* tekur Jesús oss vara fyrir annari misbrúkun bænarinnar, sem sè þeirri, að halda, að kraptur bænarinnar sè kominn undir því að þylja lángar bænir. „Varizt“, segir Jesús, „í bænum yðrum ónytju mælgi, eins og heiðíngja siður er, sem hugsa, að þeir fyrir hana verði bænheyrðir“. Frelsarinn álasar því vissulega ekki, þó bænagjörð vor standi yfir nokkra stund, þegar hún kemur frá hjartanu og hugur fylgir máli; en hann varar oss við þeirri raungu ímyndun, að kraptur bænarinnar sè innifalinn í margmælgi, í mörgum eða laungum bænum. Því miður þykjast margir í kristnum söfnuði hafa beðið Guð, ef þeir lesa einhverja bæn, þó það sè í hugsunarleysi og bænin hafi eingin ábrif á hugarfar eða framferði þeirri. Það er meira varið í eitt bænarandvarp, sem kemur frá harmþrúngnum og sundurkrömdum anda, enn í lánga bænagjörð, sem vantar umhugsun og andakt, því Drottinn lítur á hjartalagið, og ekki þurfum vèr að færa hinum allsvitanda fregn um ástand vort eða þarfir vorar, „hann skilur vorar hugrenníngar áleingdar“, segir Davíð (sálm. 139., 2.), og „faðir yðar veit, hvers þèr hafið þörf, áður enn þèr biðjið hann“, sagði Jesús, um leið og hann kenndi oss þá stuttu og kjarnafullu bæn, sem vèr köllum drottinlega bæn.

þó þessi guðdómlega bæn sè stutt og auðskilin, innibinzt þó svo óvenjulega mikið í hverju orði, að vèr getum aldrei nógsamlega íhugað það. *Faðir!* segjum vèr, og finnum þá til þess, að vèr með auðmjúkum og bljúgum barnahjörtum megum flýja til hins himneska föðurhjarta, að vèr með trúnaðartrausti megum biðja hann, eins og góð börn ástríkan föður. *Faðir vor!* segjum vèr, og biðjum þá hver fyrir öðrum sem bræður og systur í Jesú Kristi, sem börn hins sama algóða föður; *þú, sem ert á himnum*, bætum vèr við, og finnum þá til þess, að vèr stöndum frammi fyrir honum, sem er hafinn yfir alla himna og öllum hlutum æðri, en nálgast oss þó, aumar mannskepnur í dupti jarðarinnar, og heyrir sèrhvert bænarandvarp, sem kemur frá trúuðu og iðrandi hjarta. „Himininn er mitt hásæti og jörðin mín fótskör“ segir hann, og rèttir oss, þegar vèr biðjandi framföllum, sína hönd til að reisa oss á fætur úr syndinni og sýna oss þann veg, sem liggur til himins, þar sem vèr á síðan munum sjá hans eilífu dýrð og í æðra skilníngi, enn vèr nú getum gripið, ásamt öllum útvöldum biðja: *helgist þitt nafn; tilkomi þitt ríki; verði þinn vilji.* Ó, hve háleit er nú þegar sú hugsun, að þegar vèr biðjum þessum þremur bænarorðum, þá undirtaka með oss allir Guðs einglar, allir sem þekkja Guð, allar lifandi skepnur í hinum óteljandi veröldum, sem hafa nokkra hugmynd um almætti, speki og gæðsku skaparans. Hin fjögur næstu bænarorðin snúa athygli voru til sjálfra vor og minna oss á, hvílíkir vèr hèr á jörðinni erum, ekki einúngis dauðlegir, sém þurfum *daglegs brauðs* við til að viðhalda lífi voru, heldur einnig syndarar, sem á hverri stundu þurfum að flýja til Guðs náðar til að fá *fyrirgefníngu misgjörða vorra* og krapta til að standa á móti *freistíngunum* eptirleiðis, svo vèr verðum *frelsaðir* frá yfirráðum *hins illa*, og fáum loks að koma þángað, þar sem það verður fullkomlega opinbert, hvernig *ríkið, máttúrinn* og *dýrðin* er hans, sem vill vera vor faðir á himnum og jörðu. En hversu opt er ekki þessi háleita bæn misbrúkuð með hugsunarlausu munnflapri innan um það athæfi, sem er gagnstætt orðum hennar og anda? Þegar menn nýlega hafa beðið: helgist þitt nafn, óvirða menn Guðs nafn með gálausu gárúnga tali, guðlasti, svardögum og illum munnsöfnuði; aðra stundina

biðja menn: tilkomi þitt ríki, en taka hina stundina þátt í athöfnum óguðlegra, sem miða til að eyða guðsríki hjá sjálfum þeim og öðrum; verði þinn vilji svo á jörðu sem á himni segja menn, en ofurselja sig í sömu andránni heiminum og sinni spilltu náttúru, sem er óvinátta gegn Guði og hans vilja til fyrirstöðu; gef oss í dag vort daglegt brauð, biður hinn ótrúi þjón og hinn iðjulausi letíngi, sem ekki nennir að afla sèr brauðs, heldur vill lifa af annara sveita; fyrirgef oss vorar skuldir, svo sem vèr og fyrirgefum vorum skuldunautum, svo biðja margir, sem í hjartanu ala heipt og hatur til náúnga síns, og, ef til vill, til sinna nánustu náúnga; eigi leið þú oss í freistni; þannig biður þú á morgnana og hleypur að því búnu í veg fyrir hverja freistíngu, sem getur æst syndsamlega ílaungun, girndir og skapsmuni þína; frelsa þú oss frá illu, þess biðja menn daglega og halda þó daglega vísvitandi áfram að gjöra það sem illt er, og steypa sèr með áframhaldi í löstunum í tímanlega og eilífa eymd. Þessir menn „nálgast Guð með vörunum, en hjörtu þeirra eru lángt burtu". Æ, allir gjörum vèr oss, kristnir bræður! seka í viðlíkri hræsni, sumir meir en sumir minna; vèr gjörum það að vísu ekki viljandi, því einginn er svo heimskur að halda, að hann með því geti dregið allsvitandi Guð á tálar, en þó nemur andakt vor, því miður, einatt staðar við orðin tóm, og hvernig á þá bænin að geta haft betrandi áhrif á líferni vort, þegar hún er alvörulaus og meiníngarlaus? En af hverju kemur þetta? Af því vèr viljum ekki snúa frá syndinni, því á meðan getum vèr ekki snúið oss til Guðs. „Hver sem frásnýr eyra sínu, svo það heyri ekki lögmálið, þess bæn er og viðurstyggð" segir ritníngin (Orðskv. b. 28., 9.); „en sá, sem þjónar Guði fúslega, er velþóknanlegur og bæn hans nær upp til skýjanna (Sír. 35., 20.). Þó er þetta ekki svo að skilja, að einginn megi biðja Guð nema sá, sem búinn er að bæta ráð sitt og kominn er á dyggðanna veg, því hvernig ætti syndarinn að geta snúið sèr, ef hann þyrði ekki að biðja Guð fyrr enn hann er orðinn rèttlættur og helgaður? Er ekki eðli og kraptur bænarinnar kominn undir því, með hvílíkri einlægni og alvörugefni vèr ásetjum oss að snúa frá syndinni til Guðs og leita hans líknandi og helgandi náðar; undir því trúnaðartrausti, sem knýr oss til að

láta Guði nauðsynjar vorar í ljósi annaðhvort með vorum eigin eða annara bænarorðum, undir þeim auðmjúku og innilegu tilfinníngum, sem hreifa sèr í hjörtum vorum þegar vèr hugsum til þess, að vèr stöndum frammi fyrir heilögum og rèttlátum, en jafnframt miskunsömum og mildiríkum Guði, og undir þeim áhrifum, sem þessi upplyptíng sálna vorra til ennar eilífu sannleikans og gæðskunnar uppsprettu hefur á hjörtu vor, oss til menntunar og betrunar, huggunar og friðar? En eigi bænin að hafa þessar verkanir, verðum vèr að biðja í *Jesú nafni*; þetta var það, sem Jesús seinast kenndi lærisveinum sínum áður enn hann gekk í dauðann. „Híngað til hafið þèr einkis beðið í mínu nafni", sagði hann; „en hvers þèr biðjið föðurinn í mínu nafni, það mun hann gefa yður". Allt til þessa höfðu þeir ekki einu sinni getað skilið, hvað það var, að biðja í Jesú nafni; en nú tóku augu þeirra til að opnast, þegar Jesús var að búa þá undir viðskilnað sinn við þá, og hèt þeim að sjá þá aptur innan lítils tíma og senda þeim heilagan anda. En þó feingu þeir ekki rètta hugmynd um Krist og hans endurlausnarverk fyrr enn eptir upprisu hans og himnaför; þá sáu þeir til fulls, að hinn krossfesti var frelsari heimsins, og skildu, hvað það var að biðja í hans nafni sem meðalgángara milli Guðs og manna; þá skildu þeir þessi orð, sem eingillinn sagði við María: „þú skalt kalla nafn hans Jesús, því hann mun frelsa sitt fólk frá þess syndum"; þá fundu þeir til þess í huga og hjarta, hve háleitt og blessunarfullt þetta nafn er, sem er öllum nöfnum æðra, og að í því eiga allir sáluhólpnir að verða. Allt þetta, sem Jesú lærisveinar smámsaman lærðu að skilja, er útlistað fyrir oss frá blautu barnsbeini; frá því vèr vorum á únga aldri höfum vèr vitað, að Jesús hefur opnað oss aðgáng til vors himneska föður, og að einginn getur komið til hans nema fyrir soninn og að hann er vor árnaðarmaður hjá föðurnum. Þess vegna er alstaðar í kristilegri kirkju bænin til Guðs flutt í Jesú nafni. En þó er hætt við, að margir kristnir menn skilji ekki þetta nafn, og þó þeir hafi opt tekið sèr Jesú nafn í munn, þá mun hann þó geta sagt við þá: „híngað til hafið þèr einkis beðið í mínu nafni". Þeir hafa ekki beðið með rèttum skilníngi á þýðíngu þessa nafns, eða rèttu trúnaðartrausti á þeirri náð og blessun, sem það hefur að geyma.

*Að biðja í Jesú nafni* er, að biðja með þeirri trú, að hann sè vor frelsari, vor endurlausnari og vor árnaðarmaður hjá Guði, og að Guð vegna hans vilji heyra vorar bænir og fyrirgefa oss vorar syndir. En sè þessi trú sönn og lifandi, nemur hún ekki staðar í dauðri þekkíngu á Krists friðþægíngu eða blindu og aðgjörðalausu trausti til hennar, heldur vekur hún í hjartanu hugsvalandi tilfinníngar og þær helgandi verkanir, sem Jesú friðþægíng kemur til leiðar hjá iðrandi sálum. Þessi trú sýnir sinn blessunarfulla krapt, ekki í uppþoti snöggra og breytilegra geðshræríngа, heldur í stöðugri helgunarlaungun og sálarfriði; hún lætur oss finna til þess, að vor ljúfi lausnari, þessi vor himneski vinur, er oss jafnan nálægur, búinn til að miskuna oss, styrkja oss í vorum vanmætti, hugga oss í hryggðinni, liðsinna oss í freistíngunum og fullkomna oss í hinu góða. Þannig verður þá sú bæn, sem vèr framberum í Jesú nafni, blessað og áreiðanlegt athvarf fyrir oss, ekki einúngis á neyðarinnar tímum, heldur alla æfi vora, hvort vèr erum heilbrigðir eða veikir, einir eða hjá öðrum, vinnum eða hvílumst, í gleði og sorg, í meðlæti og mótlæti, í lífi og dauða. En einhver kynni nú að hugsa með sjálfum sèr: hversu opt hefi eg ekki beðið, en ekki feingið bænheyrslu; kjör mín hafa ekki batnað fyrir það; þrautir mínar og þjáníngar eru enn hinar sömu og að undanförnu. En jafnvel þessi umkvörtun sýnir, að þú hefur ekki beðið rèttilega. Bæn hins guðhrædda veitir ætíð einhverja fróun og linun, að minnsta kosti hjartanu. Þó hinar ytri kríngumstæður breytist ekki, þá verður þó trúuð og biðjandi sál vör við þá huggun og þann frið, sem kemur hèr að ofan. Sorgir vorar og þjáníngar eru mikið komnar undir því sálarþreki, sem vèr berum þær með, og þetta sálarþrek fáum vèr með bæninni. Ef hinar líkamlegu þjáníngar eru bornar með kristilegri stillíngu og þolinmæði, þá eru þær lítilsvægi í samanburði við hin andlegu gæðin, í samanburði við þá hugarrósemi, sem býr í bænræknu og guðelskandi hjarta. Hve lètt veitti ekki Jesú lærisveinum að þola kvalir, þjáníngar og alls konar ofsóknir, hve hugglaðir geingu þeir ekki móti hinum hræðilegasta dauða ákallandi Jesú nafn! Að vísu lítur það stundum svo út, eins og Guð snúi augliti sínu frá oss, þegar vèr leitum hans í neyðinni: „Hví stendur þú, Drottinn! svo

fjærri? Hvarfyrir byrgir þú þitt auglit og gleymir vorri eymd og þreingíngu"? (sálm. 10., 1. 44., 25.). þannig mega margir andvarpa eins og Davíð, þegar þeir með harmþrúngnu hjarta biðja Guð um náð og frið, en verða ekki varir við bænheyrslu. En þó er Drottinn þeim ekki fjarlægur; haldi þeir áfram að biðja og þreyti við Guð í bæninni eins og Jakob forðum, þá munu þeir öðlast blessun eins og hann; þá munu þeir reyna, hve huggunarfullt það er, að biðja í Jesú nafni og skilja þýðíngu þessara orða í guðspjallinu: „biðjið, þá munuð þèr meðtaka, svo að fögnuður yðar sè fullkominn". En hjá flestum þeirra, sem kvarta yfir því, að þeir fái ekki bænheyrslu, eiga þessi orð postulans heima: „þèr biðjið og öðlizt þó ekki, af því þèr biðjið illa, til þess að þèr getið sóað því í yðar býlífi" (Jak. 4., 3.). það er ætíð eitthvað tímanlegt og veraldlegt, sem þeir biðja um, og þó bæn þeirra hljóði um andlega hluti, hafa þeir þó allan hugann á einhverjum stundlegum hagnaði, sem þeim er mest annt um. Jesús hèt ekki þess háttar biðjendum bænheyrslu þó beðið væri í sínu nafni, heldur gaf hann þetta fyrirheit öllum sínum trúlyndu lærisveinum, og bætti við þessu skilyrði fyrir bænheyrslunni: „ef þèr standið stöðugir í mèr og mín orð hafa stað hjá yður". — Ef þú, kristinn maður! stendur stöðugur í frelsara þínum, ef þú tilheyrir honum í trú og elsku, svo þú af fremsta megni leitast við að hlýðnast honum, ef þú með auðsveipni tekur þinn kross á þig og ber hann með þolinmæði, og fetar stöðugt í hans fótspor þó þau sèu full af þyrnum, þá hefur hann þegar efnt við þig þetta sitt fyrirheit: „hvers þèr biðjið föðurinn í mínu nafni, það mun hann gefa yður"; því þá biður þú ekki um annað enn það, sem Guðs börn viðþurfa og sem heyrir til hans ríkis; en hans ríki er ekki af þessum heimi; hans ætlunarverk hèr á jörðunni var ekki tímanlegt, heldur eilíft, og því getum vèr ekki í hans nafni beðið um auðæfi, metorð, nè önnur stundleg og hverful gæði. — Í Jesú nafni áttu sèr í lagi að biðja um hin andlegu gæðin, um fyrirgefníngu þinna synda, um betrun hjartans og lífernisins, um blessun í þinni köllun, um krapta til að gegna þínum skyldum. Í Jesú nafni eigum vèr að biðja, í hans nafni eigum vèr og að vinna. þegar bænin er eins og hún á að vera, þá úthellir hún krapti

sínum yfir allar vorar hugsanir, orð og athafnir, því hún er ekki innifalin í því að lypta huganum snöggvast upp til Guðs, heldur í því, að vèr gefum alla vora sál á vald Guðs anda. Hinn guðhræddi hefur Guð jafnan fyrir augum sèr og gjörir allt í hans nafni. Þó hann sè ekki að hugsa um Guð, heldur um vinnu sína, slær þó guðlegum blæ á verk hans, og þau bera þess menjar, að hann bjó sig undir þau með bæn til Guðs; hann starfar samkvæmt Guðs vilja í sinni köllun í trausti til Drottins hjálpar og blessunar. Þannig verður gjörvallt líf hans að stöðugri bæn, ekki í orði, heldur í verki, og því getur hann, hvar sem hann er staddur og hvernig sem ástatt er fyrir honum, heimfært til sín þessi orð frelsara síns: „Eg er ekki einn saman, því faðirinn er með mèr“.

Þannig hefur Jesús kennt oss að biðja, og hann hefur í þessu efni eins og hverju öðru gefið oss sitt heilaga eptirdæmi. Þegar vèr heyrum, hvernig hann snemma á morgnana fór burt á afvikinn stað til að biðjast fyrir, hvernig hann á kvöldin, þegar hann var skilinn við lýðinn, sem hann hafði kennt, fór einn saman upp á fjall til að biðja sinn himneska föður, þá lærum vèr af því ekki einúngis að biðjast helzt fyrir í einverunni, eins og hann beinlínis hefur boðið oss, heldur og, að vèr eigum að byrja og enda hvern dag með bæn til Drottins. Þegar vèr hugleiðum, að hann bað ekki einúngis fyrir sjálfum sèr, heldur fyrir öðrum, fyrir öllum hjálparþurfandi, að hann bað fyrir lærisveinum sínum og öllum trúuðum, þá lærum vèr af því, að biðja Guð einnig fyrir náúnga vorum, fyrir sjúkum og nauðstöddum, fyrir ástvinum vorum og kristilegri kirkju. Þegar vèr íhugum, hvernig Jesús í grasgarðinum bað sinn himneska föður að taka frá sèr hinn beiska hörmúnganna bikar, en bætti þessu við: „þó ekki eins og eg vil, heldur eins og þú vilt“, þá lærum vèr af því auðmýkt og undirgefni undir vilja hins alvalda, og að það, sem vèr biðjum um, verður að vera samhljóða Guðs alvísa ráði bæði í náðarinnar og almættisins ríki. Þegar vèr gætum þess, hvernig Jesús á krossinum bað fyrir óvinum sínum, þá lærum vèr af því, að vèr eigum að nálgast Guð með sáttgjörnum hjörtum og fyrirgefa þeim, sem eitthvað hafa gjört á hluta vorn. Þegar vèr loks hugleiðum, hvernig Jesús með bænarandvarpi til Guðs uppgaf sinn anda,

þá lærum vèr af því, hve sælufullt það er fyrir oss að mega andvarpa til Guðs í voru andláti, ef vèr höfum lifað þannig, að vèr með kristilegu trúnaðartrausti þá getum sagt, faðir! í þínar hendur fel eg minn anda!

Í míns frelsara Jesú nafni vil eg æ og iðuglega biðja þig, himneski, mildiríki faðir! og láta hans heilaga dæmi kenna mèr að biðja þig í auðmýkt og undirgefni undir þinn blessaða vilja. Æ, þú hefur híngað til hjálpað mèr og huggað mig í raunum mínum, þegar eg hefi beðið þig af hjarta, og eins muntu gjöra eptirleiðis, þó eitthvað mótdrægt kunni fyrir mèr að liggja. Þau mæðuský, sem mæta kunna, skulu ekki aptra mèr frá að mæna mínum trúaraugum upp til þinnar himnesku huggunar sólar; þau skulu ekki byrgja minn reynsluferil fyrir geislum þinnar náðar og sannleika. Þegar eg á kvöldin geing til hvílu, vil eg til þín hugsa, og þegar eg á morgnana aptur vakna, vil eg um þig ræða, því þú miskunar öllum þínum börnum eins og ástríkur faðir, og, þó móðirinn gleymdi sínu barni, muntu þó aldrei gleyma þeim, sem þig ákalla. Og þegar eg í seinasta sinn geing til hvílu í mína banasæng, æ, að eg þá geti sent bænarandvörp frá brjósti mínu upp til þín, eilífi miskunsemdanna faðir! svo að andvörp mín snúist í eilífa lofsaunga og dauðastunur mínar í eilíft sigurhrós. Bænheyr það í Jesú nafni! Amen.

---

## Á uppstigníngardag.

### Bæn.

Frá þèr, himneski faðir! er sá andi kominn, sem í oss lifir, og til þín leitar hann aptur; hèr er hann dupti klæddur og fastur við jörðina, og verður einatt svo ánauðugur þræll syndarinnar, að hans himneski uppruni þekkist ekki. Þó lèzt þú einnig líkama vorn bera vitni um vora æðri tign, með því þú skapaðir hann þannig, að vèr getum lypt augum vorum upp til himins. Æ, láttu oss jafnan verja þessum yfirburðum vorum yfir aðrar skepnur eptir þínum vilja, láttu sjón himinsins draga hjörtu vor upp í hæðirnar, svo vèr ávalt höfum umgeingni vora á himnum; láttu himnaför

frelsara vors minna oss á, að þú ert á himnum og hefur af náð þinni ætlað oss bústað hjá þèr og vorum endurlausnara, þegar þessi vor jarðneska vegferð er á enda, ef vèr í sannri trú og elsku fylgjum þínum boðum og fetum í hans heilögu fótspor. Æ, þegar veröldin og freistíngar hennar vilja draga oss til sín og blinda augu vor, svo vèr missum sjónar á himninum og vorri himnesku ákvörðun, vertu oss þá jafnan nálægur með þínum anda, himneski faðir! svo vèr ekki hrösum, heldur mænum stöðugt vorum trúar og vonar augum upp til himins, upp til frelsara vors, sem situr þèr til hægri handar á hæðum, og gaungum svo óhultir áfram við ljós hans heilögu orða, þángað til þú af miskunsemi þinni og sökum hans verðskuldunar tekur oss hèðan til þín og flytur oss í þitt himneska, eilífa dýrðarríki. Amen.

## Guðspjallið

(Mark. XVI., 14.—20.).

En seinast, þegar þeir ellefu lærisveinar sátu til borðs, birtist Jesús þeim og bar þeim á brýn þeirra vantrú og hjartans harðúð, að þeir hefðu ekki trúað þeim, sem hann höfðu sèð upprisinn. Hann sagði til þeirra: farið út um allan heiminn og prèdikið evangelium öllum þjóðum. Hver, sem trúir og verður skírður, mun hólpinn verða, en hver ekki trúir, mun verða fordæmdur. En þessar dásemdir skulu fylgja þeim sem trúa: Í mínu nafni skulu þeir djöfla útreka, nýar túngur, tala, taka upp höggorma, ef þeir drekka nokkuð banvænt, þá skal það ekki granda þeim, leggi þeir hendur yfir sjúka, mun þeim batna. En eptir það Drottinn Jesús hafði talað við þá, varð hann uppnuminn til himins, og settist til hægri handar Guði. En lærisveinarnir geingu út, og prèdikuðu alstaðar, Drottni samverkanda og orðið styrkjanda með táknum, er því fylgdu.

### Inngángur.

Þessi hátíðlegi dagur minnir oss á að lypta hjörtum vorum til himins, því hann er haldinn heilagur í minníngu þess, að

frelsari vor á honum inngekk í sína dýrð, þegar hann var búinn að aflúka hinu mikla ætlunarverki sínu hèr á jörðinni og endurleysa heiminn. Hèr skildi hann eptir sitt heilaga orð til að vera ljós í myrkrunum, sitt nafn til huggunar öllum harmþrúngnum sálum og sinn kross sem skjól og athvarf fyrir öll ángruð og iðrandi hjörtu, þess vegna minnir líka þessi dagur oss á það, að hann fór burt að tilbúa oss stað í ríki síns himneska föður, og vèr endurminnumst í dag með gleði þessa huggunarfulla boðskapar, sem frelsarinn lèt Maríu Magdalenu flytja bræðrum sínum: „eg mun uppstíga til míns föður og yðar föður, til míns Guðs og yðar Guðs“ (Jóh. 20., 17.); því þessi fagnaðarboðskapur nær einnig til vor, og vèr vitum, að einnig oss kallar hann sína bræður, að hans Guð er líka vor Guð, að hans faðir vill líka vera vor faðir. Ættum vèr þá ekki, sem trúlyndir Jesú lærisveinar, að falla fram og lofa og vegsama Guð? Ættum vèr ekki jafnan að hafa umgeingni vora á himnum, svo vèr við enda þessa vors jarðneska lífs fáum að koma í hans himneska dýrðarríki? þetta ættum vèr ávalt að stunda, kærir bræður! og aldrei láta oss það úr minni líða; en einginn hlutur brýnir þetta betur fyrir oss enn himnaför frelsara vors, því hún talar ekki einúngis til vors innra manns, heldur og til hinna ytri skilníngarvita; hún minnir oss ekki einúngis á að lypta hjörtum vorum til himins, heldur og vorum líkamlegu augum; hún bendir oss á himininn og segir: þángað er frelsari yðar farinn upp til hans og yðar Guðs og föður, og þángað eigið þèr að keppa!

Verjum þá þessari guðræknisstundu til að hugleiða:

*hvernig hinn sýnilegi himin minnir oss á, að Guð er á himnum, og að oss er ætlað að komast þángað.*

það er eins og sjálf náttúran þrýsti mönnunum til að lypta augum sínum upp í hæðirnar. Til þess geingur maðurinn upprèttur og ber höfuð sitt hærra enn skynlausu skepnurnar, að hann skuli ekki einúngis líta ofan fyrir sig eins og þær, nè festa allan huga sinn við jörðina og hennar hverfulu gæði. þess vegna sjáum vèr líka hvert sem vèr förum á jarðarhnettinum, að himininn hvelfist alstaðar eins yfir höfðum vorum til að minna oss á alstaðarnálægð vors himneska föður, og að vèr ætíð eigum að hafa hann oss fyrir augum og keppast eptir því

hinu himneska hnossi. Á þetta minnir oss líka sjálf leiðin, sem vèr förum. Þegar vèr ætlum oss að ferðast eitthvað og horfum þángað, þá er eins og himininn komi þar við jörðina, og þetta bendir oss svo áþreifanlega á það, að oss er ekki ætlað að nema staðar hèr á jörðunni, heldur þar sem himin og jörð mætast. En hversu fáir íhuga og skilja þessar eptirtektaverðu og þýðíngarmiklu bendíngar Drottins! Þó er einginn heiðíngi svo blindur, að hann lypti ekki með lotníngu augum sínum til himins, og þó hann tilbiðji ekki skaparann, þá tilbiður hann þó, að minnsta kosti, sól og túngl og stjörnur; þó hann ekki óttist hið eilífa rèttlæti, þá hræðist hann þó þrumur og eldíngar. Ættum vèr þá, kristnir menn, að gleyma því, að lypta augum vorum upp til himins, eða gjöra það í hugsunarleysi og án þess nokkur góð og guðleg tilfinníng vakni í hjörtum vorum? „Himnarnir segja frá Guðs dýrð og festíngin kunngjörir verkin hans handa; einn dagurinn kennir það öðrum og ein nóttin kunngjörir það annari", segir Davíð (sálm. 19., 2.—3.). Dagurinn kunngjörir þetta með sólarinnar lífgandi geislum, með kvöldroðanum og morgunroðanum, með hinum frjófgandi regnskýjum, með friðarboganum, sem minnir oss á þann náðarsáttmála, sem Drottinn hefur gjört við allar lifandi skepnur á jörðinni. Nóttin kunngjörir þetta með sínum blikandi norðurljósum, með birtu túnglsins og hinum leiptrandi stjörnum. Þegar vèr skoðum himininn sem handaverk Drottins, hlýtur þessi sjón að vekja athygli vort og lotníngarfulla tilbeiðslu; en vèr getum líka skoðað himininn sem hásæti hins alvalda, og sèð, hvernig hann þaðan stýrir og stjórnar öllum hlutum. Vissulega er Guð eins á jörðunni eins og hann er á himnum, því hann er ekki bundinn við stund nè stað, heldur er hann alstaðar og í öllum hlutum. En þó hann sè verkandi í öllum sköpuðum hlutum, er hann þó öllum hlutum ofar, og „himnarnir og allir himnanna himnar rúma hann ekki" (1. Kóngb. 8., 27.). Ritníngin hefur ýmisleg samlíkjandi orðatiltæki um Guð, til að laga sig eptir mannlegum hugsunarhætti; hún kallar himininn hans hásæti og jörðina hans fótskör, hún talar um Guð sem konúng, sitjandi á himnum, lítandi niður til allra, sem á jörðunni búa (sálm. 33., 14.). Öll þessi orðatiltæki miða til þess að setja oss Guðs almætti og óendanlegu hátign lifandi fyrir sjónir,

og til að minna oss á, að hann stýrir og stjórnar öllum hlutum eptir sínum eilífu ráðsályktunum, sem eru öllum mannlegum skilníngi æðri. Ó, Guð minn! þegar eg lypti augum mínum til himins og virði fyrir mèr öll þín dásemdarverk; þegar eg sè, hvernig allur þessi óteljandi himinhnatta fjöldi kemur upp og geingur undir eptir þeim lögum, sem þín eilífa speki hefur fastsett; þegar eg virði fyrir mèr, hvernig þú hefur sett sól hjá sólu, veröld hjá veröldu, og hugleiði þá alvizku, sem hefur afskammtað þeim sínar ákveðnu leiðir, það almætti, sem viðheldur þeim, svo þær ekki haggast nè villast: æ, þá finn eg til þess í hjarta mínu, að frá þèr streymir öll fyllíng og fegurð og óendanlegt líf, þá finn eg til þess, að þó þú búir í því ljósi, sem einginn fær til komizt, þá er þó, lifir og hrærist allt í þèr; þá finn eg til þess, að eins og þessi sýnilegi himin með öllum þínum almættis undrum hvelfist yfir höfði mínu, eins stend eg líka undir himni þinnar náðar, og að á honum skína heilagar dásemdir þinnar miskunar; þá hneigist hjarta mitt að þinni kærleiks opinberun í náðarinnar ríki og eg sannfærist um, að hann, „sem þú gafst allt vald á himni og jörðu“, frelsari vor Jesús Kristur, hefur stofnað þitt ríki hèr á jörðu. Já, Krists ríki er bæði jarðneskt og himneskt; jarðneskt að því leyti sem það er stofnað hèr á jörðu og safnar hèr sínum þegnum; himneskt að því leyti, sem hans hásæti er á himnum, og hann leiðir þángað til föðursins alla, sem á hann trúa og honum vilja fylgja. Lyptið þá, kristnir bræður! augum yðar til himins, upp að þessum hástóli Drottins, hvaðan hann rèttir út sinn ósýnilega veldissprota um allar skapaðar veraldir allt til daganna enda. En gleymum því eigi, að við enda veraldarinnar á síðasta degi, þá er þessi hástóll hans ekki leingur náðarstóll, heldur dómstóll. Gleymum ekki þeirri aðvarandi röddu, sem hinir himnesku sendiboðar mitt í fögnuði þessa hátíðlega dags lètu til sín heyra: „til hvers standið þèr hèr og horfið upp í himininn? þessi Jesús, sem uppnuminn er frá yður til himins, mun svo koma, eins og þèr nú sáuð hann til himins faranda“. Já, Kristur situr til hægri handar Guði á sínum himneska veldisstóli, ekki einúngis sem náðarinnar og sannleikans konúngur, heldur og sem rèttlátur Drottinn og dómari lifenda og dauðra. Á þetta minnir oss einnig hinn sýni-

legi himin; úr þeim skýjum, sem senda frjófgandi vökva niður á jörðina, kemur líka þrumuhljóðið eins og hótandi rödd rèttlætisins, skrugguljósið eins og leiptrandi sverð og þrumufleigurinn eins og ör hins eilífa rèttlætis. En ef vèr snúum oss frá syndinni með einlægum betrunarásetníngi, sem ekki verður aðskilinn frá sannri trú og sönnu trausti til Guðs náðar, þá megum vèr ókvíðnir lypta augum vorum í hæðirnar upp að hástóli Drottins á himnum og óskelfdir falla fram á fótskör hans, og með djörfúng og trúnaðartrausti biðja hinn alvalda himins og jarðar herra „eins og góð börn biðja sinn elskulegan föður“. Þegar vèr þess vegna skoðum hinn sýnilega himin með kristilegu hugarfari, þá minnir þessi sjón oss ekki einúngis á það, sem skynsemi vor segir oss, að Guð sè skapari, viðhaldari og stjórnari allra hluta, heldur einnig á það, sem hann hefur kennt oss í sínu opinberaða orði, að Kristur, sem Guðs og mannsins son, situr Guði til hægri handar, og stjórnar ásamt honum og heilögum anda í guðlegri dýrð öllum sköpuðum hlutum á himni og jörðu.

En eins og hinn sýnilegi himin minnir oss á, að Guð er á himnum, þannig minnir hann oss einnig á það, að oss er ætlað að komast þángað. Að vísu liggur leið vor allra fyrst til grafarinnar, og þar er oss öllum búið legurúm; en Drottinn er líka geinginn þángað til að eyða myrkrum og ógnun grafarinnar; hann hvíldist og í skauti hennar og vígði hana með því til hvílurúms fyrir alla, sem honum reynast trúir og feta í hans fótspor; en með upprisu sinni hefur hann sýnt oss, að oss er ekki ætlað æfinlega þar að hvílast, og með himnaför sinni hefur hann vísað oss veginn til síns himneska ríkis. Eptir Krists himnaför hlaut hugmynd Gyðínganna um hvíld sálnanna undir jörðinni í dauðra ríki að rýma sæti fyrir þeirri kristilegu kenníngu, að guðhræddar sálir flytji hèðan upp í sælunnar himnesku bústaði. Þó halda sumir í kristnum söfnuði, að ekki sè neinn annar himin til enn þetta sýnilega bláa gufuhvolf, sem umkríngir vora jörð. Hver hnöttur hefur sinn himin út af fyrir sig, segja þeir, og hvar er þá sá himin, sem á að vera hásæti Guðs og bústaður eingla og útvaldra? Þessu gætum vèr svarað á þá leið, að eins og hver himinhnöttur hefur sinn eigin himin, þannig hefur og alheimurinn einn sameiginlegan

himin, sem að eru himanna himnar; en vèr viljum einúngis geta þess, að hinn sýnilegi himin er ímynd hins ósýnilega, og að vèr getum ekki skilið andlega hluti nema þeir sèu útmálaðir með þeim myndum og samlíkíngum, sem eru lagaðar eptir vorum greindarkrapti. Aðalatriðið í þessu efni er það, að guðhræddir eiga í öðru lífi von á sælufullu ástandi, friði og fögnuði í Guði. En með því vèr verðum að ímynda oss þetta sælufulla ástand einhverstaðar, er þá ekki nær að halda, að það sè yfir jörðinni og í hæðunum, hvaðan ljósið kemur, enn í undirdjúpunum, þar sem myrkrið er. Eins og frelsari vor hèr á jörðu gekk á undan oss og vísaði oss veginn, hinn mjóa og þraunga veg, þar sem krossinn og þyrnikórónan standa, sem heimsins börn hræðast, en ekki þeir, sem leita hinnar sönnu gleðinnar, hins eilífa lífsins, eins er hann líka farinn á undan oss upp til himins til þess að tilbúa oss stað í síns föður húsi. Þessu hèt hann lærisveinum sínum áður enn hann skildi við þá, og um það hljóðaði bæn hans áður enn hann gekk út í pínuna. „Faðir“, sagði hann, „eg vil, að þeir, sem þú gafst mèr, sèu þar sem eg er, svo þeir sjái mína dýrð“. Frelsari vor hefur ekki einúngis heitið oss inntöku í himininn í öðru lífi, heldur og þegar í þessu lífi opnað himininn fyrir oss. Himininn opnast í hvert sinn sem Guðs náð og blessun streymir þaðan niður til vor; hann opnast í hvert sinn sem vèr sendum heit og innileg bænarandvörp upp til Guðs, og þegar vèr í trú og elsku þannig sameinumst endurlausnara vorum, að vèr í háreysti veraldarinnar og jarðneskum sýslunum getum haldið oss flekklausum af heiminum og haft umgeingni vora á himnum. Um þetta gaf Jesús sínum fyrstu lærisveinum eptirtektaverða bendíngu, þegar hann varð var við trú þeirra. „Hèreptir“, sagði hann, „munuð þèr sjá himininn opinn og eingla Guðs uppfara og niðurstíga til mannsins sonar“ (Jóh. 1., 52.) Yfir Jesú sjálfum opnaðist himininn, ekki einúngis við ummyndun hans á fjallinu helga, heldur og við skírn hans. En eins og hann lèt skíra sig, ekki af því, að hann þyrfti sjálfur hreinsunar og helgunar við, heldur til að uppfylla allt rèttlæti vor vegna, þannig opnaðist einnig himininn yfir honum, ekki vegna sjálfs hans, heldur mannanna vegna, svo að þeir gætu sèð, hvaðan hann var kominn og hvort hann vill leiða þá, sem honum tilheyra.

Hvað Krist sjálfan snerti, þá stóð himininn jafnan opinn fyrir honum á sèrlegan og oss óskiljanlegan hátt sökum hans innilegu sameiníngar við sinn himneska föður, eins og hann sjálfur gaf til vitundar með þessum orðum: „Einginn fer upp til himins nema sá, sem niðurstè af himni, mannsins son, sem er á himni“ (Jóh. 3., 13); og þetta samband hans við æðri veröld birtist þegar í hans niðurlægíngar standi á sýnilegan hátt, bæði í freistíngu hans á eyðimörkinni og í pínu hans í grasgarðinum, en þó einkanlega við upprisu hans og himnaför. Vèr höfum víst allir heyrt frásöguna um Jakob ættföður Gyðínganna, þegar hann varð að flýja úr föðurhúsum í framandi land og lagði sig útaf til hvíldar á víðavángi og hafði stein í kodda stað. Virtist honum þá í draumi, að hann sæi stiga nokkurn, reistan upp á jörðu og ná upp til himins, og eingla Guðs gánga hann upp og ofan, en fyrir ofan stigann þóttist hann sjá himininn opinn og sjálfan Guð þar, er gaf honum þau hin sömu fyrirheit og feðrum hans, að hann skyldi eignast landið og að í hans afkvæmi skyldu allar þjóðir á jörðunni blessun hljóta. Þegar Jakob vaknaði, varð hann glaður, en þó óttasleginn, og mælti: „þetta er helgur staður; hèr býr Guð vissulega og hèr er hlið himinsins“ (1 Mósb. 28.). Þessi frásaga er næsta merkileg; því auk þess sem þessi vitran staðfesti og endurnýaði fyrirheitið um heimsins frelsara, og benti til þess, að hann ætti að koma á sambandi milli himins og jarðar, milli hins rèttláta Guðs og syndugs mannkyns, þá sýnir hún oss, að þó vèr hvorki í vöku nè svefni getum vænt þess, að einglar vitrist oss, þá megum vèr þó leita skjóls og athvarfs hjá miskunsömum Guði, sökum þeirrar náðar, sem frelsarinn hefur oss útvegað, hvar sem vèr erum staddir á þessari vorri jarðnesku vegferð. Eins og Jakob varð að fara í framandi land til að leita sèr atvinnu, þannig keppumst vèr og allir eptir að komast í einhverja þá stöðu eða þjónustu, sem veiti oss daglegt brauð. Og þó þú, kristinn maður! staðnæmist í því byggðarlagi, sem þú ert fæddur og uppalinn í, þá ertu þó framandi ferðamaður í þessari veröld; foreldrar þínir deyja frá þèr, systkin þín yfirgefa þig, börn þín fara frá þèr, vinir þínir flytja burt eða deyja, sjálfur eldist þú og verður leiður á veröldinni, þreyttur af andstreyminu og hinum margvíslegu byltíngum mannlegs lífs.

Framandi erum vèr allir og farnir eins og Jakob úr föðurhúsum, því faðir vor er á himnum og þaðan er andi vor kominn; þar er vort rètta heimkynni, þar er vor arfleifð og þángað munum vèr aptur snúa, ef vèr hèr eins og hlýðin börn gaungum á Guðs vegi. það er því næsta huggunarfullt fyrir oss, góðir bræður! að hvert sem vèr förum og hvar sem vèr erum og leggjum oss til hvíldar, hvort sem það er í húsum vorum eða annara, eða á víðavángi eins og Jakob, þá vitum vèr, að Guð er oss jafnan nálægur með sinni náð og blessun, og getum sagt eins og hann: „hèr býr Guð vissulega og hèr er hlið himinsins". Himininn er oss öllum opinn, ef vèr breytum kristilega, ef vèr leyfum guðsorði að betra vor hjörtu og framferði, þá verður það oss sannkallaður himnastigi, og á honum geta þá hjörtu vor geingið upp til Guðs með djörfúng og trúnaðartrausti, og stigið aptur niður með náð og blessun, huggun og helgun. Á þetta andlega samband milli hinnar sýnilegu og ósýnilegu veraldar bendir oss sjálf náttúran á öllum tímum ársins, en þó einkanlega um sumartímann. þó himininn sè fjarlægur jörðinni, hefur hann þó áhrif á allt, sem á henni vex; að ofan kemur ljós og rigníng, sem allir hlutir þurfa við til vaxtar og lífs, og að litlum notum kæmi öll vinna og erfiðismunir bóndans, ef Drottinn ekki sendi dögg af himni og frjófsamar árstíðir. þegar vèr á morgnana komum út undir beran himin endurnærðir af ljósi dagsins, þegar vèr á vorin sjáum jörðina grænka af frjófgandi regni og ylgeislum sólarinnar, ættum vèr þá ekki með þakklæti, lotníngu og andakt að lypta augum vorum upp til himins og hjörtum vorum til Guðs, sem þar auglýsir sína hátign og almætti, sem þaðan sendir ljós og líf, frjófgun og fögnuð niður á jörðina? Ætti það ekki að geta lypt oss upp yfir jörðina og jarðneska muni og látið oss finna til hins himneska og eilífa? Getum vèr sèð ljósið án þess að hugsa til ljósanna föður, og hans eingetna sonar, sem er ljós heimsins? Ætti ekki hið sýnilega ljósið að minna oss á hið andlega ljós, sem vísar oss veg sáluhjálparinnar? Ætti ekki hið nýja líf í náttúruni, í grösum og jurtum, sem fæðast að nýju, að minna oss á, að einnig vèr eigum að endurfæðast og gánga í nýju líferni?

þannig á sá hinn sýnilegi himin, er vèr sjáum yfir höfðum

vorum, að vekja hjá oss andakt og guðrækilegar hugleiðíngar, og enn meiri áhrif hlýtur þessi sjón að hafa á oss, þegar vèr endurminnumst Krists himnafarar, og hugsum til þess, að hann situr Guði til hægri handar og stjórnar sem Guð og maður sannleikans og náðarinnar ríki, og að hann í síns föðurhúsi hefur tilbúið öllum ástvinum sínum sælufullan samastað. Einhvern tíma hljótum vèr allir að skilja við það, sem vèr eigum hèr og höfum svo miklar mætur á, og þá að minnsta kosti munum vèr lypta augum vorum frá jörðinni upp til himins og fara að leita Drottins. En eigum vèr það víst, að oss verði þá leingur gefinn tími til þess? „Eg fer burt", sagði Jesús við hina vantrúuðu Gyðínga, „þèr munuð leita mín, en ekki finna mig, og þèr munuð deyja í yðar syndum" (Jóh. 7., 34., 8., 21.). Þannig ávarpar hann enn óguðlega menn og iðrunarlausa. Þèr munuð leita mín þegar það er orðið of seint, þegar þèr vaknið ekki leingur við náðarinnar kallandi rödd, heldur til dómsins og eilífðarinnar. Þèr munuð deyja í yðar syndum, og þángað sem eg er, getið þèr ekki komizt. Í hans föður húsi eru að sönnu margir bústaðir, en þar er einginn bústaður fyrir þann syndara, sem heldur iðrunarlaust áfram í vantrú sinni, og ekki vill bæta ráð sitt, heldur lokar hjarta sínu og byrgir eyru sín fyrir áminníngum guðlegrar náðar.

Gleymum því aldrei, að eins og „hlið himinsins" er opið yfir höfðum vorum, þannig er og hlið helvítis jafnan opið undir fótum vorum. Hèr er hlið helvítis, má með sanni segja ekki einúngis um þá staði, þar sem opinberir glæpir eru drýgðir, heldur og um mörg heimili, þar sem heipt og reiði, last og lygi, rángsleitni, öfund og hefndargirni gjöra sambúð og viðskipti kvalafull og syndsamleg milli hjóna, foreldra og barna, systkina og hjúa. En þótt hinn guðhræddi verði að lifa meðal þessara óguðlegu manna og margt að þola þeim, getur hann þó mitt í raunum sínum huggaður sagt: „hèr er hlið himinsins". Já, þegar hann verður fyrir ásökunum og óhróðri þeirra, þegar hann af þeim er grýttur með illum orðum og hugsunum, er hann eins og Steffanus píslarvottur hughraustur og ókvíðinn; og meðan þeir „gnísta tönnum yfir honum", biður hann í hljóði með bænarorðum Steffani: „Drottinn, lát þá ekki gjalda þessarar

syndar“! og lítandi upp til himins sèr hann, eins og hann, „himnana opna og mannsins son standa til hægri handar Guði“ (Post. g. 7., 54.). Æ, látum þessa sjón jafnan hughreysta oss og styrkja vora krapta í stríði freistínga og mótlætínga; látum hana vera leiðtoga vorn á þessari vorri jarðnesku vegferð, svo vèr jafnt og stöðugt keppum áfram þann veg, sem liggur til himins, svo sèrhvert fótmál, er vèr stígum á skeiðfleti lífsins, flytji oss nær himninum, eins og það flytur oss nær gröf og dauða. Þá munum vèr á dauðastundu vorri „sjá himininn opinn“, og fá að komast til Guðs og frelsara vors Jesú Krists í sælunnar himnesku bústaði. Gèf þú oss öllum náð til þess, himneski faðir, í Jesú nafni! Amen.

---

## Á sjötta sunnudag eptir páska.

### Bæn.

Algóði Guð, himneski faðir! þú settir oss í reynsluskóla þessa lífs til þess vèr skyldum læra að leita þín og treysta þèr; þú lætur oss hèr eiga í stríði og baráttu til að innræta oss stöðuglyndi og til að vekja áreynslu vorra andlegu krapta. Allt gjörir þú vel, og þessi vor reynsla miðar eingúngis til þess að gjöra oss hæfilega fyrir eilíft líf og eilífa sælu. Þú leggur eingum þýngri byrði á herðar, enn hann fær borið, og þín byrði er lètt, þegar hún er borin af elskunni til þín. Æ, glæddu hjá oss elskuna, og láttu þinn anda styrkja oss í sèrhverju stríði, svo vèr getum fetað í fótspor frelsara vors og yfirunnið heiminn; láttu vort líferni, hugsanir, orð og gjörðir bera vitni um, að vèr elskum þig og vorn endurlausnara, að vèr viljum vera þín börn og hans lærisveinar, svo að einginn hlutur, hvorki meðlæti nè mótlæti, hvorki líf nè dauði geti skilið oss við þig. Bænheyr það í Jesú nafni! Amen.

### Guðspjallið

(Jóh. XV., 26.—27.; XVI., 1.—4.).

Jesús sagði við sína lærisveina: Þegar huggarinn kemur, sem eg mun senda yður frá mínum föður, sá sann-

leikans andi, sem af föðurnum framgeingur, hann mun vitna um mig; en þèr munuð mèr og vitni bera, því þèr hafið frá upphafi hjá mèr verið. En þetta hefi eg því talað til yðar, svo þèr hneyxlizt ekki; því þeir munu gjöra yður samkunduræka, og sá tími mun koma, að hver, sem líflætur yður, heldur, að hann gjöri Guði þægt verk. Þetta gjöra þeir yður, af því þeir þekkja hvorki föðurinn nè mig; en þetta tala eg því til yðar, að þèr minnist þess þegar að því kemur, að eg sagði yður það; en þetta sagði eg yður ekki í upphafi, af því eg var þá hjá yður.

## Inngángur.

„Hver, sem vill fylgja mèr", segir frelsarinn, „afneiti sjálfum sèr, taki á sig sinn kross hversdaglega og fylgi mèr eptir" (Lúk. 9., 23.). Með þessum orðum minnir hann oss á þann sannleika, sem reynslan einnig staðfestir, að sèrhver hefur sína byrði að bera í þessu lífi, og með þeim hvetur hann oss til að líkjast sèr í þolinmæði og stöðuglyndi. Að vísu hefur nú hver maður sína byrði að bera, af því syndin, sem liggur á allra herðum, leiðir af sèr sorg og mæðu, en vèr verðum þó að gjöra mun á þeirri mótlætínga byrði, sem öllum mönnum er sameiginleg, og þeim krossi og þjáníngum, sem trúaðir verða sèr í lagi að bera fyrir Kristí nafns sakir. Þessa dags heilaga guðspjall minnir oss á þetta, og þegar Jesús sagði: „þèr munuð mèr vitni bera", þá fann hann til þess í sínu kærleiksfulla hjarta, að þeir, sem bæru vitni um hann, mundu ekki ætíð geta komizt hjá sjálfsafneitun og sorgartárum. Að sönnu er það nú mikið komið undir ásigkomulagi tímanna, hve lètt eða þúngbært það er að vitna um Krist; í hinni fyrstu kristni var þetta undirorpið margvíslegum ofsóknum og lángtum meiri sjálfsafneitun og áreynslu trúarinnar enn á vorum dögum; en aldrei breytast þó tímarnir svo, að sá, sem trúlega vill fylgja Jesú, þurfi ekki að afneita sjálfum sèr og taka sinn kross á sig. Þess vegna hèt Jesús að senda huggarann í hjörtu sinna

lærisveina, um leið og hann sagði þeim þær þjáníngar fyrir, sem þeir ættu í vændum. Einnig vèr, kærir bræður! þurfum á þessum sannleikans anda að halda, ef vèr sem trúlyndir Jesú lærisveinar viljum vitna um hann og fylgja honum; því feingjum vèr ekki hjálp og styrk af hæðum, þá mundi verða lítið úr þreki og stöðuglyndi voru, þegar eitthvað reyndi á vora kristilegu trú. Höfum því Jesú fyrirheit um sendíngu huggarans jafnan í minni, því það nær eins til vor á krossgaungu vorri og til hans fyrstu nafns játenda. Drottinn sendir oss aldrei nokkra neyð, án þess um leið að senda oss einhverja hjálp og huggun; þess vegna getum vèr ókvíðnir rennt huganum til þeirra þjáнínga, sem allir trúlyndir Jesú lærisveinar verða að bera; og með því það er áríðandi fyrir oss að virða slíkar þrautir fyrir oss, áður enn þær bera að höndum, svo vèr ekki af vanþekkíngu reynum til að umflýja þær og yfirgefum frelsara vorn, og svo þær hitti oss ekki öldúngis óviðbúna, viljum vèr með Drottins hjálp verja þessari guðrækilegu stundu til að íhuga:

*þann kross, sem trúaðir verða að bera.*

Þó Jesús í þessa dags heilaga guðspjalli einkum tali um þær útvortis þrautir, sem fyrir lærisveinum hans lágu, viljum vèr þó líka tilgreina nokkrar af þeim innvortis þjáníngum, sem hans trúlyndu lærisveinar fá að reyna í þessu lífi, því krossinn liggur ekki einúngis á herðum hins trúaða, heldur og á hjarta hans.

Einginn getur verið sannur Jesú lærisveinn, nema hann hafi tekið á sig *kross iðrunarinnar*. Ángrið, sem iðruninni fylgir, er einatt næsta þúngbært. Heimsins börn verða ekki vör við þessa byrði, því þau finna ekki til óánægju með sig eða syndir sínar; sèu þau hrygg og óánægð, þá er það ekki af því, að þau hafi styggt Guð eða fyrirlitið hans náð, heldur af einhverjum tímanlegum og veraldlegum áhyggjum og sorgum, sem þau hafa bakað sèr með því að fylgja girndum sínum og sínu holdlega hugarfari. Þannig er hinum trúuðu ekki varið; þó hinar ytri kríngumstæður þeirra haldist óbreyttar og einginn munur sjáist á tímanlegri velgeingni þeirra, þá finna þeir þó til innilegrar hryggðar og hugarángurs, þegar þeir hugsa til þess, hvernig þeir með syndum sínum hafa móðgað gæðskuríkan

Guð, sem þeir áttu að hlýða og elska af öllu hjarta, þeir hafa heyrt til samvizkunnar hegnandi raddar, og reyna ekki eins og heimsins börn til að þagga hana niður. þess vegna verður meðvitundin um að hafa fjarlægzt Guð þeim svo óvenjulega þúngbær, og þeir geta einga huggun nè hugarrósemi feingið, fyrr enn þeir aptur eru komnir í sátt við hann og teknir til náðar af honum. Um hinn dimma ángursins og táranna dal verða trúaðir að gánga áður enn þeir geti heimfært til sín fyrirheit guðlegrar náðar og fundið hann, sem sagt hefur: „komið til mín allir þèr, sem erfiðið og þúnga eruð hlaðnir, eg skal endurnæra yður og þèr skuluð finna hvíld fyrir sálir yðar“! Sèuð þèr, kærir bræður! trúlyndir lærisveinar Drottins, þá hafið þèr bæði reynt beiskju iðrunarinnar og hugsvölun trúarinnar. Heimsins börn þekkja ekki *kross sjálfsafneitunarinnar*. Öðru vísi er hinum trúuðu varið. þegar iðrunartilfinníngin er vöknuð í hjarta mannsins og hinn iðrandi syndari hefur leitað sèr huggunar í Guðs náðarfyrirheitum, fær líferni hans aðra stefnu og annan blæ, enn það hafði áður. Hinn iðrandi sèr, hvað Guð heimtar af oss, og finnur til þess, að hans óendanlega elska verðskuldar þakklæti, og að þetta þakklæti verður að sýna sig í því að láta á móti sèr og girndum sínum, í því að afneita heiminum og hans lystisemdum; það er eins og hinn trúaði heyri himneska rödd, er býður honum að afneita vináttu heimsins, ef hann vill vera Guðs barn, því vinátta heimsins er óvinveitt Guði. þetta þykir vorri holdlegu og spilltu náttúru þúngbært, og henni þykir betra að láta allt eptir sèr þessi fáu ár, sem vèr lifum hèr á jörðunni, og eiga góða daga þessa stuttu stund, enn að láta krossfesta sig með girndum sínum og tilhneigíngum, svo vèr getum orðið eilífrar sælu aðnjótandi. Já, margir sökkva sèr svo gjörsamlega niður í stundlegan munað, að þeir gleyma eilífðinni, fyrirheitum og hótunum Guðs, og hugsa ekki um það fyrr enn þeir eru komnir að vegamótum tímans og eilífðarinnar; þeir vilja ekki læra að þekkja kross sjálfsafneituninnar, fyrr enn veröldin afneitar þeim; en úr því hafa þeir ekkert, sem þeir geti afneitað þó þeir vildu. þar á mót sjá trúaðir, að þeir hljóta að fylgja frelsara sínum, að þeir eins og hann verða að feta veg sjálfsafneitunarinnar og taka sinn kross á sig; þeir sjá, að þeir verða að

bera vitni um hann í hugsunum, orðum og verkum, svo að hann kannist við þá sem sína lærisveina og þeir ekki verði í tölu þeirra, sem hann á síðasta degi segir við: „eg þekki yður ekki“. Vegur trúaðra verður því mæðufyllri enn hinna, sem elska heiminn og þá hluti, sem í honum eru; en þó vilja þeir ekki gánga annan veg enn þann, sem samvizkan og guðsorð vísar þeim á, því þeir vita, að þó holdi og blóði þyki þessi vegur ógreiður yfirferðar, þá liggur hann þó til himins. Þess vegna taka þeir án möglunar krossinn á sig, og heimsins börn verða ekki vör við, hve nærri sèr þeir taka það að bera hann. Það væri líka til lítils að kvarta yfir krossburðinum við heimsins börn, því þau mundu fljótt svara: hví ert þú svo heimskur að vilja bera það, sem þú getur komizt hjá og sem flestir hlífa sèr hjá? Leggðu ekki hart á sjálfan þig og reyndu til að eiga góða daga. Þó þess háttar tal hafi lítil áhrif á hinn trúaða, getur honum þó stundum fundizt sjálfsafneitanin þúngbær, svo hann stynur undir krossinum og finnur til þess, að „oss byrjar fyrir miklar hörmúngar að inngánga í guðsríki“. Þegar hann sèr, hve fáir þeir eru, sem alvarlega leitast við að fylgja frelsara sínum, liggur honum stundum við að efast um sigur sannleikans yfir lyginni og dyggðanna yfir löstunum. Trúaðir beita ekki öðrum vopnum enn hógværðarinnar og friðarins vopnum; en með þeim verður þeim lítið ágeingt meðal heimsins barna, sem lifa af ófriði og beita alls konar brögðum til að komast áfram; stundum verða þeir fyrir forsmán og fyrirlitníngu, af því þeir ekki vilja brjóta á móti boðum samvizku sinnar nè leita lofstírs hjá mönnum; stundum eiga þeir að berjast við örbyrgð og volæði, af því þeir hafa ekki viljað útsjúga hús ekkna og föðurlausra. Og hver fær talið þau tár, sem kristileg sjálfsafneitun pressar af augum trúaðra; eingin sèr þau nema Guð; hann styrkir þá í stríðinu og huggunarinnar andi minnir þá á þetta náðarríka fyrirheit: „Þeir, sem sá með tárum, munu uppskera með fögnuði“.

En auk þessa innvortis krossburðar hinna trúuðu, eiga þeir líka einatt í stríði við útvortis þjáníngar, og til þeirra hefur Jesús sèr í lagi tillit í guðspjallinu, þegar hann segir: „þeir munu gjöra yður samkunduræka, og sá tími kemur, að hver, sem lífiætur yður, heldur, að hann gjöri Guði þægt verk“. Guði sè

lof fyrir það, að kristnir menn á vorum dögum eru ekki undirorpnir öðrum eins þjáníngum og ofsóknum og Krists postular; en þó munu flestir, sem fyrir alvöru vilja fylgja frelsara sínum, fá eitthvað mótdrægt að reyna; því þó tímarnir breytist, verður það þó ætíð svo, að sá sem af holdinu er fæddur lítur hornauga til hins, sem af andanum er fæddur, og það stríð, sem hið góða á í við hið illa, birtist í stríði milli hinna guðhræddu og hinna óguðlegu. Vèr getum ekki búizt við stöðugum friði, fyrr enn „öll knè beygja sig í Jesú nafni og allar túngur játa, að Jesús Kristur er Drottinn, Guði föður til dýrðar". Á þetta minnti Jesús optsinnis lærisveina sína: „ef heimurinn hatar yður", sagði hann, „þá vitið, að hann hefur hatað mig á undan yður". Þetta sagði hann fyrirfram, svo að hans trúaðir skyldu ekki verða huglausir eða hneyxlast þegar hatrið brytist út. Sjálfur hlaut hann að þola meira hatur og mannvonzku enn nokkur annar, og hans heilaga dæmi er í þessu sem öðru sett oss til fyrirmyndar. Í hinni fyrstu kristni birtist hatur heimsins í ofsóknum, manndrápum og blóðsúthellíngu, og þetta vonzkunnar æði viðhèlzt fram eptir öldunum; en síðan kristileg kirkja festi dýpri rætur og náði meiri staðfestu í heiminum, getur ekki hatrið brotizt út með sama hætti og áður. En þó læðist það enn í kríng og gjörir líf trúaðra á margan hátt næsta þúngbært. Sèrhver sá, sem fyrir alvöru vill útbreiða guðsríki, fær þetta að reyna; þess háttar viðleitni vekur óvild veraldarinnar; hún vill ekki láta finna að við sig eða koma við kaun sín, þess vegna leggur hún hatur á þá, sem ekki vilja fylgja straumi spillíngarinnar, heldur leitast við að veita honum mótstöðu. Verið getur, að þèr, kristnir bræður! ekki hafið enn þá orðið fyrir hatri heimsins; en þetta kemur þá annaðhvort til af því, að þèr hafið ekki staðið stöðugir í trúnni og elskunni til Guðs, heldur verið hálfvolgir í yðar kristindómi, eða af því, að Drottinn hefur viljað hlífa veikleika yðar og leggja yður sem lèttastan kross á herðar. En þó breytni heimsins barna við Jesú trúuðu lærisveina ekki komi ætíð fram í óslökkvanda hatri eða opinberum árásum, þá birtist það þó í þess stað í f y r i r l i t n í n g u, og þetta verður þeim einatt þúngbært. Þeir eru sèr þess meðvitandi, að þeir vilja öllum vel, og að það er hin innilegasta hjartans ósk þeirra, að þeir ásamt öllum mönnum

mættu á síðan ná höfnum friðarins og safnast saman á sælunnar landi frammi fyrir hásæti Drottins, íklæddir skrúða rèttlætisins; þess vegna veldur það þeim sárrar hryggðar og hugarángurs, að þessar þeirra hjartanlegu óskir og guðrækilega viðleitni skuli vera fyrirlitin og einkis metin. Væri mannelskan ekki eins heit og hún er í hjörtum trúaðra, þá mundu þeir ekki taka sèr þessa fyrirlitníngu nærri, en elska þeirra til Guðs og sinna meðendurleystu bræðra gjörir þessa fyrirlitníngu að hvössum þyrnibroddi í sálu þeirra, svo þeir mundu heldur vilja eiga í opinberu stríði. Æ, forðumst, góðir bræður! að láta fyrirlitníngu heimsins koma oss til að fyrirlíta ríkdóm Guðs náðar, eða lítilsvirða þá, sem honum vilja trúlega þjóna. Látum það liggja oss í lèttu rúmi, þó veröldin snúi að oss bakinu, ef vèr að eins á efsta degi fáum að heyra þenna góða vitnisburð af dómarans munni: „þú hefur borið minn kross, haldið mín orð og ekki afneitað mínu nafni". þegar veröldin gjörir gis að trúrækni og guðhræðslu vorri, þá leitum huggunar hjá anda huggunarinnar, sem framgeingur af föðurnum og leggur vitnisburðinn á varir Guðs barna. þá mun stöðuglyndi vort vaxa eptir því sem fyrirlitníngin verður meiri, elska vor til Guðs og manna verða því heitari sem kaldsinni veraldarinnar er meira, og trúin mun verða vort æðsta hnoss í lífi og dauða. Opt verða trúaðir fyrir ómildum og raungum dómum heimsins barna. Af því myrkur og blindni drottnar í heiminum, þá er mönnunum svo hætt við að líta skakkt hver á annan, hafa hver annan fyrir rángri sök og jafnvel áfellast og ofsækja það, sem sízt skyldi. þetta sprettur opt fremur af vanþekkíngu enn vonzku mannanna, svo þeir halda, að þeir með því gjöri Guði þægt verk. Hvergi sjáum vèr þetta betur enn af breytni Páls postula; áður enn Guðs birta ljómaði kríngum hann á leiðinni til Damaskus, ofsótti hann með heipt og hatri þá sem hann seinna, upplýstur af Guðs anda, styrkti og studdi, eins og bezti faðir og fræðari. Meðan maðurinn er holdlega sinnaður, skynjar hann ekki, hvað Guðs anda er, þess vegna hættir honum við að dæma skakkt um hinn andlega sinnaða, tortryggja trú hans og guðrækni, og halda, að hann stjórnist af hègómadýrð og hræsni. Ef vèr viljum fylgja Jesú og vera í tölu hans trúlyndu lærisveina, þá verðum vèr að búa oss undir þessar þján-

íngar, sem trúaðir jafnan geta átt von á, og hafa sífelt í minni þessi orð frelsara vors: „þetta sagði eg yður, svo að þèr minnizt þess, þegar að því kemur, að eg sagði yður það“. En, eins og vèr jafnan verðum að vera við því búnir að gánga á hólm við syndum spilltan heim fyrir Kristí nafns sakir, eins megum vèr ávalt treysta því, að Drottinn muni senda oss anda huggunarinnar til að styrkja oss í stríðinu, svo vèr fáum barizt góðri baráttu trúarinnar og reynzt trúir allt til enda. Einginn sár eru leingur ólæknandi, eingin þjáníng framar óbærileg, því Guð sendir sinn heilaga anda til að græða sár hjartnanna og út hella í þau sinni náð og elsku. Æ, opnið þá hjörtu yðar, ástkæru bræður! fyrir þessum himneska gesti, svo hann geti tekið sèr þar bólfestu, áður enn sendiboði þjánínganna ber að dyrum. Hjá þrautunum verður ekki komizt í þessu lífi, og þèr megið við því búast, að einhver mæða, útvortis eða innvortis, verði á vegi yðar, ef þèr ætlið að feta í fótspor frelsarans. En sèu hjörtu yðar svo kaldsinna og lèttúðarfull, að þèr ekki verðið einu sinni varir við þjáníngar Guðs barna, nè finnið til þess stríðs, sem er milli holdsins og andans, æ, þá er hætt við, að þèr hafið misst sjónar á frelsaranum, hætt við, að líferni yðar vitni ekki um hann. Ef þèr þar á mót með bæn og árvekni haldið samvizku yðar vakandi og kostið kapps um að viðhalda næmri tilfinníngu fyrir því, sem gott er og frelsari vor hefur oss boðið, þá munuð þèr að vísu fljótt verða þess varir, að vegurinn er þyrnum stráður, en þá getið þèr líka hugbraustir litið augum trúar og vonar upp til Drottins, og þá munuð þèr verða þess varir, að yðar himneski lausnari fylgir yður með sinni hlífð og huggun, og þegar þèr þá sendið innileg bænarandvörp upp til hans, mun hann senda anda huggunarinnar niður í yðar harmþrúngnu hjörtu. Vilji yður það til af mannlegum breyskleika að hrasa undir krossins byrði, þá varpið yður með iðrun og ángri í Jesú náðarfaðm, og hann mun fullvissa yður um fyrirgefníngu syndanna og styrkja yðar trú og von. Ef þèr verðið fyrir hatri og ófriði í heiminum og ómildum dómum annara manna, þá leitið huggunar hjá Jesú og hafið umgeingni yðar á himnum; þángað eigið þèr að keppa í friðarins og sælunnar hafnir. Já, í öllum þrautum og krossburði þessa lífs mun Krists andi styrkja yður og hjálpa yður

til að vinna sigur yfir heimins og holdsins freistíngum, ef þèr ástundið að fylgja frelsara yðar; og þegar að því kemur, að þèr eigið að flytja hèðan og hið stránga dauðastríðið byrjar, þá munuð þèr fá að reyna, að hörmúngar þessa tíma komast ekki í samjöfnuð við þá eilífu dýrð, sem Guðs börnum er fyrirbúin, þá munuð þèr öðlast sigur fyrir fulltíngi hans, sem dauðann hefur sigrað, og fara frá dauðanum til lífsins, til eilífs lífs og eilífrar sælu. Gefðu oss öllum til þess þína náð, góði himneski faðir! í Jesú nafni! Amen.

---

## Á hvítasunnudag.

### Bæn.

Ó þú eilífi andanna faðir, himneski, góði Guð! fyrir þínu heilaga augliti birtumst vèr hèr á þessari hátíðlegu stundu, til að endurminnast ástgjafa þinna, er þú sendir þinn heilaga anda niður í hjörtu Jesú postula og lèzt hann leiða þá í allan sannleika til þín og brennandi mannelsku, svo þeir mitt í ofsóknum og ófriði heimsins höfðu frið og fögnuð í þèr. Æ, vèr biðjum þig í andans auðmýkt, sendu þinn náðaranda einnig niður í vor hjörtu, svo vèr lærum rèttilega að þiggja þínar ástgjafir og verja þeim oss til sáluhjálpar; hreinsa þú og lífga með þínum anda vor syndum saurguðu og tilfinníngarlausu hjörtu, svo vèr ekki veitum mótstöðu þínum náðarverkunum í oss! Æ, oss hættir svo við að láta illan innblástur heimsins og holdsins teygja og tæla oss af þínum vegum; oss er það svo tamt að elska meir myrkrið enn ljósið. Upplýstu oss, eilífi ljósanna faðir! með ljósi þíns anda, svo vèr lærum að sjá, hvað til vors friðar heyrir; snú þú hjörtum vorum til himins, svo þau verði hæfileg fyrir íbúð þíns orðs og anda: þá verðum vèr líka hæfilegir til á síðan að meðtaka af þinni mildiríku miskunarhendi andleg og eilíf gæði á landi friðarins og fagnaðarins. Bænheyr oss í Jesú nafni! Amen.

### Guðspjallið

(Jóh. XIV., 23.—31.)

Jesús sagði við sína lærisveina: Hver sem elskar mig, hann mun varðveita mín orð; faðir minn mun elska hann,

til hans munum við koma og taka oss bólfestu hjá honum. En hver sem ekki elskar mig, hann varðveitir ekki mín orð. Það orð, sem þèr af mèr heyrðuð, er ekki mitt, heldur föðursins, er mig sendi. Þetta talaði eg við yður, á meðan eg var hjá yður; en huggarinn, sem er hinn heilagi andi, þann er faðir minn sendir í mínu nafni, mun kenna yður alla hluti, og minna yður á allt það, sem eg sagði yður. Minn frið læt eg hjá yður; ekki gef eg eins og heimurinn gefur. Yðar hjörtu hræðist hvorki nè skelfist; þèr heyrðuð það eg sagði yður: eg fer á burt, og kem aptur til yðar. Ef þèr elskið mig, þá gleddust þèr við það, að eg sagði yður: eg fer til föðursins; því faðirinn er mèr meiri. Nú sagði eg yður það áður enn það sker, svo þèr tryðuð því, þegar það skeður. Hèðan af mun eg ekki tala margt við yður, því þessa heims höfðíngi kemur, og með mig hefur hann ekkert; en svo að heimurinn þekki það, að eg elska föðurinn, og að eg gjöri eins og faðirinn hefur mèr boðið, þá standið upp! látum oss fara hèðan!

## Inngángur.

Þegar Gyðíngar voru komnir á þá trú, að Jóhannes skírari mundi vera Messías, sagði hann við þá: „Eg skíri yður einúngis í vatni; en sá, sem eptir mig kemur, er mèr svo miklu meiri, að eg er ekki verður að leysa skóþveingi hans. Hann mun skíra yður með heilögum anda og eldi“ (Lúk. 3., 16.). Þetta rættist beinlínis eptir orðunum og á sýnilegan hátt á þeirri hvítasunnu hátíð, þegar þeir, sem áttu að fara út um heiminn til að boða Krists lærdóm, urðu fullir af heilögum anda, og eldlegar túngur settu sig yfir sèrhvern þeirra, til merkis um þessa andlegu skírn og til að fyrirmynda það, að Krists evangelium ætti að útbreiðast meðal allra þjóða, og til að sýna, að heilagur andi hefði krapt í sèr til að upplýsa skilnínginn og hreinsa hjörtun af syndinni; krapt í sèr til að tendra trúna og kærleikann. Meðan kristnin var að ryðja sèr

til rúms í mannkynssögunni, þurfti þessara tákna og stórmerkja við; nú þarf ekki leingur á þeim að halda; en frásagnirnar um þau miða ekki einúngis til að sanna guðlegan uppruna kristindómsins, heldur einnig til að minna oss á, að það, sem þá bar við á sýnilegan hátt, reyna trúaðir enn í hjörtum sínum. Að vísu fáum vèr ekki heilagan anda í eins ríkulegum mæli og postular Krists, en hann er þó enn verkandi í guðhræddum sálum, og mun jafnan viðhaldast í kristilegri kirkju meðan guðsorð er boðað og meðan nokkurt iðrandi hjarta tekur á móti náð og sannleika Jesú lærdóms. Þegar Pètur postuli á þessum degi hèlt sína fyrstu ræðu um hinn krossfesta og upp aptur risna Jesú Krist, þá feingu þeir, sem til hans heyrðu, stíng í hjörtun og sögðu við postulana: „hvað skulum vèr gjöra?" „Takið sinnaskipti", svaraði Pètur, „og hver yðar láti skíra sig til nafns Jesú Krists til fyrirgefníngar syndanna, þá munuð þèr öðlast gjöf heilags anda"! (Post. g. 2., 37.—38.).

Eins og þrjú þúsund iðrandi sálna, sem þá snèrust til kristilegrar trúar, feingu andans krapt til helgunar hjartans og lífernisins, eins er heilagur andi enn í dag orðinu samverkandi, hvar sem það er rèttilega boðað. Þó hann komi nú ekki með þyt af himni, þá kemur hann þó í orðinu með Guðs krapti til sáluhjálpar hverjum þeim, sem trúir; þó eldlegar túngur sjáist ekki yfir höfðum vorum, þá leiptra þó inn í sálir vorar geislar sannleikans og náðarinnar frá honum, sem er ljós heimsins og ljómi Guðs dýrðar; þegar prèdikað er um hinn krossfesta frelsara, þá kemst þó ætíð einhver við í hjarta sínu, og þegar hann ángraður spyr, hvað hann skuli gera, þá fær hann hið sama svar, sem Pètur gaf, að hann skuli taka sinnaskipti, svo að hann öðlist gjöf heilags anda. Þenna heilaga anda, sem Jesús sendi lærisveinum sínum, kallar hann bæði sannleikans anda og huggarann, því hann er andi sannleikans og kærleikans, sem veitir frið og huggun. Af þessu viljum vèr á þessari guðræknisstundu taka oss tilefni til ítarlegar að hugleiða

*eðli þess heilaga anda, sem, eptir vorri kristilegu trúarjátníngu, framgeingur af föður og syni.*

Veit þú oss til þessa fulltíngi þíns anda, himneski faðir!

svo að þessar hugleiðíngar fái vakið hjá oss laungun eptir þínu ríki, sem er friður og fögnuður í heilögum anda!

1. Heilagur andi er *sannleikans* andi, því hann framgeingur af Guði, og Guð er sjálfur sannleikurinn; hans vera er eilífur sannleiki. Eins og hann ekkert getur hugsað nè viljað nema það, sem er satt og rètt, eins getur hann ekki heldur gjört annað enn það, sem er sannleikanum samhljóða. Hjá honum er einginn ágreiníngur milli hugsana og vilja, og hans ráðsályktanir eru óumbreytanlegar. Guðs vera er sannleikur og hans verk èru sannleikur, því þau eru öll eins og þau eiga að vera og samsvara öll tilgángi sínum. Gjörvöll náttúran lýsir sannleika skaparans; dagurinn rennur upp á sínum ákveðna tíma og himintúnglin gánga eptir sínum ákveðnu lögum. Þó margir hlutir hèr á jörðu sýnist vera tilviljun og breytíngum undirorpnir, fylgir þó allt, sem er náttúrunnar verk, sínum vissu lögum, þó vèr ekki ætíð þekkjum þau, og „á meðan jörðin er við líði, mun hvorki linna sáð nè uppskera, kuldi nè hiti, sumar nè vetur, dagur nè nótt". En eins og sköpunarverkið lýsir Guðs sannleika, eins eru líka vegir hans forsjónar einber sannleiki. Að vísu getum vèr ekki ætíð þekkt vegi guðlegrar forsjónar, því „mínar hugsanir", segir Drottinn, „eru ekki yðar hugsanir, og yðar vegir eru ekki mínir vegir" (Es. 55., 8.), og „hver hefur þekkt sinni Drottins, eða hver hefur hans ráðgjafi verið?" (Róm. 11., 34.); en þó vèr skiljum lítið í Guðs stjórn, sjáum vèr þó, að hún er byggð á sannleika og rèttlæti. Þetta sjáum vèr þó allra bezt af sögu guðlegrar opinberunar, þegar vèr virðum hana fyrir oss frá upphafi til enda. Hafa ekki fyrirheit Drottins rætzt? Er það ekki allt komið fram, sem hann hèt sinni þjóð? Þó hún væri í ánauð á Egyptalandi og hertekin í Babýlon, komst hún þó aptur til þess lands, þar sem hið mikla fyrirheit, sem Guð gaf Abraham, átti að rætast, „að í hans afkvæmi skyldu allar þjóðir á jörðinni blessun hljóta. Esaías spámaður segir í nafni Drottins: „Eg Drottinn tala það sem satt er og kunngjöri hvað rètt er. Snúið yður til mín og verðið hólpin, þèr gjörvöll endimörk jarðarinnar! Eg hefi svarið við sjálfan mig, af mínum munni er sannleikur útgeinginn, það orð sem eigi skal bregðast: Fyrir

mèr skulu öll knè beygja sig og allar túngur við mig sverja: í Drottni einum er hjálpin og styrkurinn“ (Es. 45., 19., 22.—24.). Megum vèr ekki falla í stafi yfir þeim sannleikans anda, sem þessi spámannlega rödd fornaldarinnur lýsir? þegar Esaías spámaður talaði þessi orð, voru það Gyðíngar einir: þessi litla og afskekkta þjóð, sem þekktu einn sannan Guð; en nú er hans nafn orðið kunnugt um allan heim og útbreiðist alltaf meir og meir frá uppgaungu sólar allt til hennar niðurgaungu. „Já, Drottinn! Drottinn! þú ert Guð, og þín orð eru sannleikur“. Af því Drottinn er heilagur og almáttugur, þá er hann og sannorður og haldinorður.

Fyrir orð spámannanna birti Guð sannleika sinn í gamlatestamentinu; en í tímans fyllíngu sendi hann sinn son í stað orðsins, eða rèttara sagt: „orðið varð hold og bjó meðal mannanna, fullur náðar og sannleika, og þeir sáu hans dýrð, dýrð sem hins eingetna föðursins“ (Jóh. 1., 14.). Sem sannleikans konúngur var Kristur boðaður af spámönnunum, og hann sagðist sjálfur vera sannleikans konúngur, þegar hann talaði um sitt ríki (Jóh. 18., 37.). Allt, sem Jesús talaði og gjörði, var sannleikur, og „ekki voru svik fundin í hans munni“. Ekkert ósatt orð framgekk af munni hans, eingin ósönn hugsun upprann í sálu hans. Hlutu ekki jafnvel óvinir hans að gefa honum þenna vitnisburð: „vèr vitum, að þú ert sannorður og kennir Guðs vilja einlæglega; þú mælir ekki sem hver vill heyra og fer ekki að mannvirðíngum“? (Matth. 22., 16.). „Hver yðar getur sannað upp á mig nokkra synd“? „þannig spurði Jesús þá, sem ofsóttu hann“ (Jóh. 8., 46.), en þeir urðu allir að þegja. þannig spyr hann enn í dag óvini sína, en þó þeir rángfæri og misskilji það, sem um hann er ritað, geta þeir þó aldrei komið með nokkurt ósatt orð eptir hann, og aldrei sýnt, að nokkurt hans verk hafi verið ósamkvæmt hans orðum. Með verkum sínum sannaði hann sín orð; þess vegna sagði hann: „verkin, sem eg gjöri í nafni föður míns, vitna um mig“ (Jóh. 10., 25.).

Eins og Jesús lifði fyrir sannleikann, þannig dó hann og fyrir sannleikann. „Helga þú þá í þínum sannleika“! þannig bað hann föður sinn áður enn hann gekk í dauðann, ekki ein-

úngis fyrir lærisveinunum, heldur og fyrir öllum mönnum, og bætti þessum orðum við: „eg helga sjálfan mig fyrir þá, svo að þeir sèu sannleikanum helgaðir“ (Jóh. 17., 17. 19.). Þann vitnisburð, sem hann með orðum sínum og verkum bar um sannleikann, staðfesti hann á krossinum, og með upprisu sinni og himnaför sýndi hann, að hann er eilífur konúngur sannleikans, og stofnaði það sannleikans ríki, sem varir að eilífu. Já, kristnir bræður! Jesús er hinn eilífi sannleikurinn sjálfur, opinberaður í þeim lærdómi, sem um liðnar aldir hefur verið ljós heimsins og kraptur Guðs til sáluhjálpar öllum trúuðum; opinberaður í þeirri kirkju, sem lyginnar og myrkranna ríki hvorki hefur getað nè mun geta eytt eða umturnað.

Þar eð nú Guð er sannleikans Guð og Jesús ímynd hans veru, þá er og heilagur andi, sem framgeingur af föðurnum og syninum, sannleikans andi. Þessu nafni kallaði Jesús hann þegar hann hèt að senda lærisveinum sínum hann. „Eg skal“, sagði hann, „biðja föðurinn að senda yður sannleikans anda, sem heimurinn getur ekki meðtekið; hann mun kenna yður allt og minna yðar á allt, sem eg hefi talað við yður. Hann mun leiða yður í allan sannleika“ (Jóh. 14., 16., 26., 15., 26.). Þetta fyrirheit rættist ekki einúngis á postulunum, heldur rætist það einnig á oss; því heilagur andi hefur einnig áhrif á oss sem sannleikans andi, þegar hann vekur og fræðir oss um Guðs ráð og vilja, og sannfærir oss um syndina og hennar ófarsælu afleiðíngar, en sýnir oss að hinu leytinu eilíft líf og kennir oss, hvernig vèr eigum að sigrast á freistíngunum og öllu því, sem vill tæla oss út á glötunarinnar breiða veg og draga oss frá Guði. „Þèr munuð þekkja sannleikann“, segir Jesús, „og sannleikurinn mun gjöra yður frjálsa“ (Jóh. 8., 32.), og meinar með því þann sannleika, sem er fólginn í hans orði og það frelsi, sem hinn trúaði öðlast þegar hann hættir að vera þræll syndarinnar. Heilagur andi eflir vora betrun og helgun með guðsorði, en án hans er orðið ekki annað enn dauður bókstafur. Jesú orð eru lífsins orð, þó hinn holdlega sinnaði verði þess ekki var, heldur láti það eins og vind um eyrun þjóta, því „hann skilur ekki, hvað Guðs anda er“. Þegar vèr því lesum guðsorð eða hlýðum því, eigum vèr að biðja um hans anda,

sem lífgi orðið í hjörtum vorum með því ljósi og þeirri blessun, sem kemur hèr að ofan.

2. Heilagur andi er enn fremur *kærleikans andi*, því hann framgeingur af Guði, og Guð er kærleikurinn. — Guð er kærleikurinn; það segir oss vor eigin meðvitund; vèr finnum til þess í hjörtum vorum, að hann er góður og að hann líka vill, að vèr sèum góðir; já, ef vèr gjörum eða hugsum eitthvað gott, þá finnum vèr, að það sameinar oss Guði, og vèr tileinkum honum það. Allt gott hefur upptök sín frá Guði; hann er sjálfur hið æðsta góða, ekki í dauðri og dáðlausri hugmynd, heldur sem lifandi sí-starfandi vera. Guð er kærleikurinn; allar hans hugsanir og athafnir eru einber gæðska, og jafnvel almætti hans er innifalið í þeim gæðskuríka vilja, að gjöra allar skepnur sælar, hverja eptir sinni tegund. Þess vegna skapaði hann heiminn, og þess vegna vill hann útbreiða sinn heilaga fögnuð um allt sitt ómælanlega ríki, og láta hann ná eins til vor veikra mannskepna í duptinu og til enna himnesku anda í ljósinu. Frá eilífð hefur hann elskað oss og borið oss, ef svo mætti að orði kveða, ekki einúngis í sinni hugsun, heldur og í hjarta sínu, eins og móðirin elskar barn sitt áður enn það fæðist í þenna heim. Guð er kærleikurinn; það segir oss sjálf hugmyndin um hann sem hina æðstu og fullkomnustu veru, sem hinn eilífa og almáttuga höfund allra hluta; það segja oss líka hans handaverk. „Jörðin er full af Drottins gæðsku", segir Davíð (sálm. 33., 5.). Í geislum sólarinnar skín hans kærleiki og fótspor hans drjúpa af feiti á jörðinni; um hans gæðsku vitnar allur sá óteljandi grúi lifandi skepna, sem á landi, í lopti og sjó fær fæðu sína frá honum og gleðst af því lífi, sem hann gaf þeim. Á Guðs gæðsku minnir oss sèrhver dagur og stund og sèrhvert augnablik lífsins. Í gjörvöllu sköpunarverkinu og viðhaldi þess getum vèr þreifað á Guðs óendanlega kærleika. En Drottinn er ekki einúngis góður og gæðskuríkur við allar sínar lifandi skepnur og við mannkynið yfirhöfuð, heldur og við hvern mann sèr í lagi. Hve mikið gott hefur hann ekki einnig auðsýnt sèrhverjum af oss, kristnir bræður! Hann hefur skapað oss í sinni mynd, látið oss fæðast með skynsemi og skilníngarvitum, í kristilegri

kirkju og í heilagri skírn tekið oss í tölu sinna barna; hann fèkk oss þá í hendur ástríkum foreldrum, eða öðrum góðum mönnum, og hèlt yfir oss sinni föðurlegu verndarhendi. Þannig hefur Guð auðsýnt oss sína gæðsku áður enn vèr gátum lypt augum vorum upp til himins og sent vor bænarandvörp upp til hans, áður enn vèr gátum nefnt nafn vors himneska föður. Og þegar vèr drógumst á legg, hver fylgdi oss þá með sínum verndanda kærleika? Hver viðhèlt lífi voru og kröptum vorum? Hver hefur blessað atvinnu vora? Hver hefur huggað oss í hryggð og mótlæti? Hver hefur frelsað oss úr hættum og neyð? Hefur ekki Guð gjört það með sinni forsjón, sem hefur gætt vor á öllum vorum vegum, og með sínu orði, sem hefur lýst oss í myrkrinu, styrkt oss í stríðinu og verið vort athvarf í öllum raunum og mæðu lífsins? Ó, hversu opt höfum vèr ekki getað eins og þreifað á Guðs föðurlegu verndarhendi og fundið til þess, að hjálpin og huggunin kom frá honum, sem er hinn eilífi kærleikur. Guðs kærleika sjáum vèr af sköpunarverkinu, af stjórn og viðhaldi allra hluta; en allra berlegast sjáum vèr hann af endurlausnarverkinu, því það sýnir oss svo ljóslega Guðs kærleiksfulla tilgáng með mannkynið. Að vísu getur mannkynssagan bent oss á guðlega forsjónarhönd, sem vill leiða þjóðirnar til menntunar og betrunar; en þó hefur þessi háleita fyrirætlan ekki birzt algjörlega fyrr enn í kristindómsins alskæra ljósi, sem sýnir oss, að mannkynssagan er saga guðlegrar forsjónar, sem sýnir oss „ríkdóm Guðs gæðsku, þolinmæði og lánglundargeðs, er hann vill leiða oss með til betrunar“ (Róm. 2., 4.) og til síns ríkis, þar sem hann með sigri ljóssins yfir myrkrinu og náðarinnar yfir syndinni tilbýr oss æðri sælu enn þá, sem hinir stundlegu hlutir geta veitt. Í þessu guðsríki er kærleiki hans sèr í lagi opinberaður. „Í því er elska Guðs til vor augljós orðin“, segir Jóhannes (1. Jóh. 4., 9.), „að hann sendi sinn eingetinn son í heiminn, svo vèr skyldum lifa fyrir hann“. Og þegar postulinn Páll ætlar að lýsa Guðs kærleika, nemur hann staðar við þetta ómræðilega elskumerki. „Guð er með oss“, segir hann, „hver getur þá verið á móti oss? Guð sem ekki þyrmdi sínum eigin syni, heldur gaf hann út fyrir oss alla, hví skyldi hann ekki og svo gefa oss allt með honum“? (Róm. 8., 31.—32.). Af óendanlegri elsku

til vor syndugra manna tók sonurinn „á sig þjóns mynd og var hlýðinn allt fram í dauðann, já, fram í dauðann á krossinum“.

Guð er kærleikur, hvort sem vèr skoðum hann sem föður eða son, hvort heldur í sköpunarverkinu eða endurlausnarverkinu. Hann er það einnig sem heilagur andi. Allar þær náðarverkanir, sem vèr tileinkum heilögum anda, lýsa hans kærleika. Hann kallar oss til guðsríkis og eilífrar sælu; hann vekur oss af syndanna svefni, svo vèr ekki deyjum hinum eilífa dauða; hann upplýsir vorn skilníng og sýnir oss syndarinnar eymdadjúp; hann vísar oss á veg hins eilífa lífsins og hann fyrirgefur oss vorar syndir. Er nokkurt elskumerki stærra til enn þetta? Spyr þú barnið, sem eitthvað hefur yfirsèzt, og sem með hryggð og hræðslu nálgast föður sinn og játar yfirsjón sína, en í stað þeirrar refsíngar, sem það hafði unnið til, fær að heyra orð fyrirgefníngarinnar og sèr föðurinn breiða faðminn út á móti sèr og getur hallað sèr að hans elskandi hjarta. En þú ert sjálfur þetta brotlega barn. Spyr þú nú hjarta þitt, hvort það sè ekki kærleiki, þegar heilagur andi fyrst vekur hjá þèr ángur af syndum þínum og fullvissar þig síðan um fyrirgefníngu þeirra, þar sem þú situr undir krossi frelsara þíns með iðrandi og trúuðu hjarta. Heilagur andi helgar oss og viðheldur oss í sáluhjálplegri trú; og er þetta ekki sú mesta velgjörð og miskunargjöf? Hvað stoðaði allt annað, ef hana vantaði? „Án helgunar fær einginn Guð að sjá“, og án trúar getur einginn orðið sáluhólpinn. „Vertu trúr til dauðans“! segir hann, sem afrekaði oss sáluhjálpina, „þá skal eg gefa þèr lífsins kórónu (Opinb. b. 2., 10.).

3. Heilagur andi er *friðarins andi.* Sá maður, sem ekki trúir á Guð, er mjög ógæfusamur og það þegar í þessu lífi, þó hann að öðru leyti kunni að hafa láni og lukkukjörum að hrósa. Öll tímanleg velgeingni er einkisverð, þegar manninn vantar frið við sjálfan sig og frið við Guð. En hver veitir oss þenna frið? Það gjörir frelsari vor með þeim sigri, sem hann hefur unnið yfir synd og dauða, og þenna frið veitir hann oss fyrir heilagan anda, sem hann þess vegna kallar *huggarann.* Þar sem sannleikurinn og kærleikurinn eru fyrir, þar er líka friður. Eilífur friður er hjá Guði, í hans veru

og í hans ríki. Á milli allra Guðs eiginlegleika er hin fullkomnasta samhljóðan, af því þeir eru allir óendanlegir: hann er miskunsamur þegar hann hegnir, og rèttlátur þegar hann miskunar. Friður er í Guðs veru og friður í hans ríki, og sú sæla, sem trúuðum er heitið í öðru lífi, kallast í ritníngunni friður; þess vegna heitir líka frelsari vor friðarhöfðíngi af því hann ávann oss þessa sælu; þess vegna boðuðu líka hinar himnesku hirðsveitir frið á jörðu við fæðíngu hans, og sjálfur kvaddi hann þenna heim með friðarorðum. „Minn frið læt eg hjá yður“ sagði hann við lærisveina sína; „minn frið gef eg yður; ekki gef eg eins og heimurinn gefur“. Já, þeir sem elska hann og halda hans boðorð, hafa frið, því þó heimurinn ofsæki þá, hafa þeir þó frið í honum, sem hefur yfirunnið heiminn: frið við sjálfa sig og frið við Guð.

Vèr höfum nú, kristnir bræður! minnt oss á eðli heilags anda, og sèð, að hann er sannleikans, kærleikans og friðarins andi. Prófum nú sjálfa oss og rannsökum, hvort vèr höfum feingið eðli og ástgjafir hans. „Hafið þèr meðtekið heilagan anda“? Þannig spurði Pètur postuli nokkra hálfkristna menn í Efesus, og þeir svöruðu: „vèr höfum ekki svo mikið sem heyrt, að heilagur andi sè til“ (Postgb. 19., 2.). Ef þessi spurníng væri lögð fyrir oss, hverju ættum vèr að svara? Einginn gæti neitað því, að hann hefði heyrt getið um heilagan anda. Vèr vitum allir, að vèr erum skírðir í nafni heilags anda eins og í nafni föðursins og sonarins, og allir höfum vèr í æskunni lært hina þriðju grein trúarjatníngarinnar. En munum vèr allir geta sagt, að vèr höfum meðtekið heilagan anda og haldið honum? Eg er sannfærður um það, að það er einginn sá meðal vor, sem ekki hafi einhvern tíma fundið til hans nálægðar í því æðra þekkíngarljósi, sem upprann í sálu hans, í þeim guðrækilegu tilfinníngum, sem vöknuðu í hjarta hans, þegar hann heyrði eða las guðsorð. En hèr er allt komið undir því, hvort vèr höfum látið heilagan anda halda betrunarverkinu áfram í sálum vorum, hvort vèr höfum látið hann fá viðnám hjá oss og fylgja oss á öllum vorum vegum, eða, hvort vèr höfum mótstaðið honum og hrundið honum svo opt frá oss, að hann loksins varð að yfirgefa oss til fulls. Rannsökum nú sjálfa oss, kærir bræður! Heilagur andi er sannleikans andi;

getur hann þá fylgt þeim, sem villist í heimsku og hègóma veraldarinnar, sem með svikum og lygi leitar tímanlegs hagnaðar, sem hefur „yfirskyn guðhræðslunnar en afneitar hennar krapti“? Nei, það er lyginnar andi, sem fylgir og stjórnar þeim, sem þannig breytir. Heilagur andi er kærleikans andi; getur hann búið í hjarta þess manns, sem er fullur af hatri og hefndargirni, af drambsemi og öfund, eigingirni, ránglæti og ómiskunsemi? Nei, þar býr andi hans, vem var manndrápari frá upphafi. Heilagur andi er friðarins andi; getur hann þá haft aðsetur sitt hjá þeim, sem sífellt finna til ófriðar og óþreyju af ágirnd, ofmetnaði, óþolinmæði og óstjórnlegum girndum, af hræðslu við annara dóma og samvizku kvöl, af lífsleiðindum og ótta fyrir dauðanum? Nei, það er andi þessa heims, sem stjórnar þvílíkum mönnum og sökkur þeim niður í veraldlegar áhyggjur og sorgir, svo þeir missa sjónar á friðarins anda og friðarins vegi, og geta hvorki feingið frið við Guð nè sjálfa sig. Gæt þú þessa, syndugur maður! sem vísvitandi heldur áfram í syndum þínum, sem vísvitandi gjörir á hluta náúnga þíns, þú, sem með óhófsemi og óánægju, með þrætugirni og úlfúð truflar frið og samlyndi á heimili þínu; þú, sem með lygi og rógburði vekur ófrið og sundurþykki meðal nágranna þinna og samkristinna bræðra! Gættu þessa, þú sem með svikum og undirferli sölsar til þín annara eigur og hefur af þeim í kaupum og sölum. Gætum þessa allir, góðir bræður! og spyrjum samvizku vora, hvort vèr með sanni getum sagt, að vèr höfum hlutdeild í ástgjöfum heilags anda. Þú, sem veizt með sjálfum þèr, að þú annaðhvort hefur vanrækt þau náðarmeðul, sem eru skilyrði fyrir verkunum heilags anda hjá þèr: sakramentin, guðsorð og bænina, eða misbrúkað þau til að svæfa sjálfan þig í holdlegu andvaraleysi, ættir þú ekki í dag, á þessari hátíð heilags anda, að láta hann vekja þig með lögmálsins áminnandi og agandi röddu, láta hann sundur kremja harðúð hjarta þíns, svo hann með fyrirheitum guðlegrar náðar geti leitt þig til sælufullrar sameiníngar við frelsara þinn? Hefur þú ekki af eigin reynslu fundið til þess, hvílík ógæfa það er að yfirgefa Guð? Hafir þú ekki reynt þá tímanlegu ófarsæld, sem af því leiðir, þá hlýtur þú þó að finna til þeirrar andlegu eymdar, sem það hefur í för með sèr. Æ, betrunar þurfum

vèr allir við; þó vèr ekki með vísvitandi syndum spillum vorum himneska barnarètti, þá vantar þó víst mikið á, að vèr sèum helguð Guðs börn, eins og vèr eigum að vera. Daglega feistumst vèr til syndsamlegra hugsana og girnda, og mundum bráðum verða brotlegir í orðum og verkum, ef vèr ekki gætum leitað hjálpar og aðstoðar heilags anda.

Innrættu þèr, kristinn maður! í dag það hugarfar, sem er hæfilegt fyrir íbúð Guðs orðs og anda; gróðursettu orðið í hjarta þínu með heitri bæn til Guðs, með stöðugri árvekni og guðrækilegri brúkun náðarmeðalanna: þá upprennur í anda þínum heilög hvítasunnu hátíð og andi Guðs mun, yfir þig úthelltur, ummynda sálu þína með ljósi sannleikans og helganda krapti kærleikans og fylla hjarta þitt friði og fögnuði; þá tekur þú þegar hèr á jörðinni til að anda að þèr hinu hreina og himneska lopti eilífðarinnar, þá fær þú Guðs og Krists anda, þá muntu lifa Kristi og hann lifa í þèr og þið munuð þá koma til föðursins og hjá honum vera. Já, þegar kvelda tekur og lífdagur þinn er liðinn, muntu koma til föðursins fyrir Jesúm Krist, ef þú hefur hans anda og hagnýtir þèr rèttilega ástgjafir hans. Þegar þinn andi tekur til að þreytast undir byrði líkamans og andrúm þitt fer að þreingjast og andardráttur þinn að styttast við atlögu dauðans, og þú liggur sem liðinn í slitrum andar þinnar: þá mun Guðs andi lífga hjarta þitt, svo þú fáir sent andheit bænar andvörp upp til andanna föður; hann mun þá lypta öndu þinni upp yfir þessa sýnilegu hluti upp til andanna himnesku bústaða, á land lifenda, þar sem allt er eilífur friður og fögnuður í heilögum anda, þar sem Guð af ríkdómi sinnar náðar hefur fyrirbúið sínum elskendum þau dýrðlegu gæði, sem ekki hefur auga sèð, ekki eyra heyrt og í einkis huga komið.

Guð gefi oss öllum náð til þessa í Jesú nafni! Amen.

---

# Á annan hvítasunnudag.

## Bæn.

Eilífi miskunsemdanna faðir! Frá þèr sprettur lífið og í þèr býr hin eilífa fylling lífsins, því þú ert lifandi Guð frá eilífð til eilífðar. Þú gafst oss lífið, góði faðir! og gæðska þín ætlaðist til, að vèr skyldum lifa þèr og í sameiníngunni við þig öðlast eilíft líf og eilífa sælu. Í þessum tilgángi sendir þú þinn eingetinn son í heiminn og lèzt hann, sem er upprisan og lífið, leiða í ljós lífið og ódauðleikann, til þess að allir þeir, sem á hann trúa, ekki skuli fyrirfarast, heldur hafa eilíft líf. En æ, hvernig er voru lífi varið, góði Guð? Gaungum vèr þá götu, sem leiðir til lífsins? Því miður hljótum vèr að játa, að vèr erum fúsari á að lifa syndinni enn þèr, að vèr hugsum mest um þetta jarðneska, stundlega líf, en gleymum hinu æðra, andlega og eilífa lífi, sem höndlast í elskunni til þín og sameiníngunni við þig, gleymum því, að ávöxtur syndarinnar er dauðinn, ekki einúngis hinn líkamlegi, heldur og hinn andlegi og eilífi dauði. Æ, sendu þinn anda í vor hjörtu og láttu hann lífga hjá oss trúna, elskuna og vonina, svo vèr snúum oss til þín en deyjum syndinni, svo vèr hèr eptir ástundum að lifa þèr einum og þjónum þèr í anda og sannleika! þá mun hvorki dauði nè líf fá skilið oss við þig; þá munum vèr lifa þótt vèr deyjum, lifa í þèr sælufullu og eilífu lífi. Þess biðjum vèr þig af innsta grunni hjartans, í Jesú náðar nafni. Amen.

## Guðspjallið
(Jóh. III., 16.—21.).

Jesús sagði við Nikódemus: Svo elskaði Guð heiminn, að hann gaf út sinn eingetinn son, til þess að allir þeir, sem á hann trúa, fyrirfarist ekki, heldur hafi eilíft líf; því ekki sendi Guð sinn son í heiminn, til að fyrirdæma hann, heldur til þess að heimurinn frelsaðist fyrir hann. Hver á soninn trúir fyrirdæmist ekki, en hver, sem ekki trúir, er nú þegar dæmdur, af því hann trúði ekki á nafn Guðs eingetins sonar. En þessi er dómurinn, að ljósið kom í heiminn, en mennirnir elskuðu myrkrið meir enn ljósið, því þeirra verk voru vond. Hver, sem illt aðhefst, hann hatar ljósið, hann kemur og ekki til ljóssins, svo verk hans verði ekki uppvís. En hver, sem sannleikann elskar, hann kemur

til ljóssins, svo hans gjörðir verði kunnar, því þær eru í Guði gjörðar.

## Inngángur.

„Guðs andi hefur skapað mig og andi hins almáttuga lífgað mig“ (Job. 32., 4.). Með þessum orðum setti Elihú ofan í við Job fyrir óþolinmæði hans, og minnti hann og sjálfan sig á það, að mönnunum ber hvorki að mögla nè treysta sjálfum sèr, þar eð þeir ekki hafa þegið líf sitt af sjálfum sèr, heldur af speki og gæðsku almáttugs Guðs, sem ekki einúngis hefur skapað þá, heldur og viðheldur þeim og gætir þeirra með sinni föðurhendi og sínu alskyggna auga. — Vèr megum því heimfæra til vor þessi orð: „Guðs andi hefur skapað mig og andi hins almáttuga lífgað mig“, og sama mundi öll náttúran segja, ef hún gæti talað. En náttúran hefur sitt eigið málfæri, og hún talar hærra og skilmerkilegar um hátign skaparans enn nokkur mannleg túnga. Hinn sama anda, sem í öndverðu gekk út með hið skapanda orð og myndaði á jörðunni ljós og líf, fegurð og reglu, sjáum vèr enn starfandi umhverfis oss í grösum og jurtum og öllum lifandi skepnum. Ætti þá ekki þessi nýja og sífelda sköpun að endurnýja og glæða hjá oss lotníngu fyrir speki og gæðsku skaparans? Ættum vèr ekki að láta sumarsins lífgandi, blíða blæ minna oss á, að það er Drottinn, sem andar á oss sinni blessun? Og ætti ekki þessi tímanlega blessan að minna oss á hina andlegu blessun? Eins og Guðs andi er síverkandi í náttúrunnar ríki, eins er hann það eigi síður í náðarinnar ríki, og þar kveikir hann hið æðra andlega lífið og viðheldur því. Nú yfirstendur hátíð heilags anda; Guð gefi, að vèr getum haldið þessa hátíð þannig, að vèr finnum til nálægðar Guðs anda í hjörtum vorum, og verðum fyrir hans fulltíngi kostgæfnari í vorri betrun, styrkvari í vorri trú, heitari í vorri elsku, auðsveipnari í vorri hlýðni, framkvæmdarsamari í vorri köllun, fúsari á að hjálpa vorum náúnga, ánægðari með vort hlutskipti, þolinmóðari í mótlætinu, hughraustari í sorginni og rólegri við dauðans umhugsun. En til þess að hátíðin geti haft þessi áhrif á líferni vort og vèr fundið til nálægðar heilags anda í sálum vorum, verðum vèr

að snúa oss af öllu hjarta til Guðs og af öllu hjarta aðhyllast þá náð, sem hann hefur framboðið oss í sínum elskulega syni. Vèr verðum að setja oss lifandi fyrir sjónir Guðs óendanlega kærleika til vor syndugra manna, sem kom honum til að senda sinn son í heiminn, til þess að hver, sem á hann trúir, hafi eilíft líf; vèr verðum að læra að meta rèttilega þá óumræðilegu velgjörð, að hinn eilífi lífgjafi vill gjöra oss hluttakandi í sínu lífi, ef vèr með lifandi trú viljum aðhyllast hann, sem er upprisan og lífið. Til þess því betur að rótfesta þessar guðrækilegu hugsanir hjá oss, viljum vèr með aðstoð Guðs anda á þessari helgu stundu brýna þann áríðanda sannleika fyrir oss:

*að lífið sprettur frá Guði, og að vèr eigum að lifa honum og í honum, svo vèr getum forðast hinn andlega dauða.*

Allir hlutir hafa upptök sín frá Guði. „Fyrir trúna", segir postulinn, „fullvissumst vèr um, að heimurinn sè skapaður fyrir guðsorð, á þann hátt, að hið sýnilega sè orðið til af aungu" (Hebr. 11., 3.). En hvaða hugmynd getum vèr gjört oss um þetta „ekkert". Vèr verðum að hugsa oss það eins og myrkur, þar sem ekkert sèst, eins og djúp, sem aungan botn og aungan anda hefur. „Myrkur var yfir djúpinu", segir ritníngin; en hann, sem var og er og verða mun, sem einn er af sjálfum sèr frá eilífð til eilífðar, vildi, að í myrkrinu skyldi upprenna ljós, að úr djúpinu skyldi upprenna himin og jörð, og það varð, sem hann vildi. „Guð sagði: verði! og það varð". Þessi einföldu en þó svo hátignarfullu orð ritníngarinnar veita oss alla þá uppfræðíngu um sköpunina, sem vèr þurfum á að halda og erum hæfilegir fyrir í þessu lífi; þau burtrýma öllum raungum hugmyndum um sköpunina og sýna oss veröldina sem auglýsíng almáttugrar alvizku, sem lifandi opinberun eilífs kærleika. Eingin mannleg speki getur því hugsað sèr nokkuð fegra eða sannara enn það, sem stendur í Davíðs sálmum: „Himininn er fyrir orð Drottins gjörður og fyrir anda hans munns allur himinsins her" (sálm. 33., 6.). Hvað sköpun jarðarinnar sèr í lagi snertir, þá hefur Móses skýrt oss nákvæmar frá henni og sýnt oss, hvernig öll náttúr-

unnar fóru smámsaman að hreifast, eða rèttara sagt: hvernig Guðs almáttuga orð tók til að aðskilja, sameina og mynda hinar einstöku lífstegundir. Þannig hefur lífið í náttúrunni upptök sín frá Guðs anda og orði, og fyrir Guðs anda og orð viðhelst það og endurnýjast ár eptir ár og dag frá degi. Án Guðs viðhaldanda almættis mundi allt sköpunarverkið líða undir lok og allt verða að aungu. „Ef þú byrgir þitt auglit", segir Davíð, „þá titra allar lifandi skepnur; ef þú tekur þinn anda frá þeim, þá deyja þær og hverfa aptur í duptið. Þú útsendir þinn anda, þær skapast og þú endurnýjar mynd jarðarinnar" (sálm. 104., 29.—30.). Allt líf sprettur frá Guði, bæði hið líkamlega og hið stundlega, hið andlega og hið eilífa. Í honum lifum vèr, í honum hrærast allar lifandi skepnur. Án hans, sem hefur eilífa lífsfyllíng í sjálfum sèr, dæu allar skapaðar skepnur. En þó allt, sem lifir og lífsanda dregur, hafi upptök sín og viðhald sitt að þakka Guðs almætti, þá var þó maðurinn ætlaður af Guði til æðra lífs og andlegs fèlagskapar við skapara sinn. Þegar Guð skapaði manninn eptir sinni mynd, þá „blès hann sínum anda í hans nasir". En við syndafallið hvarf maðurinn frá Guði og missti þannig hið æðra líf, sem komið var undir sameiníngu hans við skaparann. Í andlegu tilliti var maðurinn dauður undir eins og hann fèll frá Guði, og þá lá ekki annað fyrir honum enn eilífur dauði eða útskúfun frá Drottins augliti. En lofaður sè góður Guð, sem er eins miskunsamur og hann er rèttlátur. „Svo elskaði Guð heiminn, að hann gaf út sinn eingetinn son, til þess að allir þeir, sem á hann trúa, fyrirfarist ekki, heldur hafi eilíft líf". Frá hinum eingetna syninum útrann lífið í sköpun allra hluta, því „fyrir orðið, sem í upphafi var hjá Guði og var Guð, eru allir hlutir gjörðir", segir Jóhannes, „í því var lífið, og lífið var ljós mannanna". Þó voru þeir svo blindir, að þeir sáu það ekki og sátu kyrrir í myrkrunum. En þegar „orðið varð hold" og auglýsti sína dýrð, dýrð sem hins eingetna föðursins, þá birtist líka lífið, og hinn sami postuli segist hafa sjálfur heyrt hin eilífu lífsins orð og þreifað á þeim, og meinar með því Jesú Krist, og að endíngu segir hann: „þetta er vitnisburðurinn, að Guð héfur gefið oss eilíft líf og þetta líf er í hans syni. Sá, sem hefur soninn, hefur lífið" (1. Jóh. 5., 11.—12.). Þetta hefur

Jesús sjálfur með berum orðum optsinnis útlistað. „það er eilíft líf", sagði hann, „að þeir þekki þig einn sannan Guð og þann, sem þú sendir, Jesú Krist" (Jóh. 17., 3.); og þegar Gyðíngarnir heimtuðu teikn af himni og vitnuðu til þess, að Móses hefði gefið forfeðrum þeirra brauð af himni, svaraði Jesús: „ekki gaf Móses yður brauð af himni; en faðir minn gefur yður hið rètta brauð af himni; eg em lífsins brauð, hið lifanda brauð, sem kom niður af himni; ef nokkur etur af þessu brauði, mun hann lifa til eilífðar" (Jóh. 6., 32., 49., 50.). Eins tók hann í samtali sínu við samversku konuna samlíkíngu af brunni þeim, sem hún sótti vatnið í, og sagði: „sá sem drekkur af því vatni, sem eg mun gefa, skal að eilífu ekki þyrsta, heldur mun það vatn, sem eg mun gefa honum, verða í honum að lind uppsprettandi til eilífs lífs" (4., 14.). „Eg er ljós heimsins", segir hann á öðrum stað; „hver, sem fylgir mèr, mun ekki gánga í myrkri, heldur hafa lífsins ljós" (8., 12.). Jesús er heimsins ljós, af því hann með sínu orði kennir oss að þekkja einn sannan Guð og þann, sem hann sendi, Jesú Krist, og í þessari þekkíngu felst hið eilífa líf, af því hún er byggð á trúnni og kærleikanum. En verkan Jesú sáluhjálplegu orða er ekki einúngis innifalin í því að fræða og upplýsa oss, heldur og í því að lífga vorar sálir, eins og þegar sumarsólin lífgar aptur grös og jurtir, sem allan veturinn láu í dái. Því lítið mundi eintóm uppfræðíng stoða oss synduga menn, þar eð oss vantar bæði vilja og krapta til að gjöra það sem gott er, og vèr steypum oss vísvitandi í glötunina. Vèr þurfum ekki einúngis að fræðast um Guð og hans vilja, heldur og sættast við hans heilaga rèttlæti og endurfæðast ekki einúngis í tilliti til skilníngsins, heldur og í tilliti til viljans. Þess vegna er Krists evangelium ekki einúngis sannleikans, heldur einnig náðarinnar orð, og til þess að geta verið ljós og líf heimsins, hlaut hann sjálfur að verða friðþægíngarfórn og sem „Guðs lamb burtbera heimsins syndir". Með dauða sínum á krossinum og sinni ótakmörkuðu hlýðni við Guð vann frelsarinn sigur yfir syndinni í hennar innstu og dýpstu rótum, og um leið yfir hinum andlega og eilífa dauða, sem er afleiðíng hennar. Með upprisu sinni sýndi hann, að hann hafði brotið vald hins líkamlega

dauða, og jafnvel áður hafði hann sýnt þetta með því aptur að uppvekja framliðna til þessa lífs, eins og hann líka sjálfur sagði: „eg em upprisan og lífið; hver sem trúir á mig, hann mun lifa, þótt hann deyi“ (Jóh. 11., 25.). Með þessum orðum, sem ekki líta einúngis til líkamlegs dauða, heldur og til hins andlega dauða, kennir hann oss, hvernig vèr getum aptur náð því hinu æðra lífi, sem mennirnir voru skapaðir til, en sem þeir misstu með fráhvarfi sínu frá Guði, og segir oss, að til þess útheimtist trúin á sig og sína friðþægíng. Þar sem syndanna fyrirgefníng er, þar er líf og sáluhjálp, þar er trúarinnar og kærleikans líf, sem Guðs andi vekur hjá endurfæddum manni; þar er von um sáluhjálp, sem byggist á friði við Guð og sjálfan sig; þar er sú helgun, sú hreinsun hjartans og lífernisins, án hverrar einginn fær Guð að sjá. Já, „einginn getur“ af hjarta „kallað Jesú Drottin nema heilagur andi sè með honum“ (1. Kor. 3., 12.). Þú getur ekki, kristinn maður! sagt af hjarta, að Jesús sè frelsari þinn og Drottin fyrr enn kraptur hans heilögu orða er búinn að vekja hjá þèr meðvitund um þína syndasekt, og þú hefur lært að þekkja Guðs náð í Kristi og ert fyrir trúna orðinn hluttakandi í þessari náð, og þannig frelsaður frá yfirráðum syndarinnar. En þá hefur þú líka öðlazt hið æðra líf, sem sprettur frá honum, og getur sagt eins og postulinn: „eg lifi nú ekki framar, heldur lifir Kristur í mèr, og það eg nú lifi í holdinu, það lifi eg í trú Guðs sonar sem elskaði mig og gaf sig sjálfan út fyrir mig“ (Gal. 2., 20.). Í bæninni til síns himneska föður lýsti Jesús sjálfur þessu lífi þannig, að það væri innilegt samfèlag við Guð og sig. „Heilagi faðir“, sagði hann, „varðveit þá í þínu nafni, er þú gafst mèr, svo þeir sèu eitt eins og við, svo að sú elska, með hverri þú elskaðir mig, sè í þeim og eg í þeim“ (Jóh. 17., 11., 26.). Þetta er „hið hulda líf með Kristi í Guði“; það er hulið hinum trúuðu sjálfum, af því það er leyndardómur guðlegrar náðar; en þeir verða varir við sælufullar verkanir þess í friði samvizkunnar og hugarrósemi hjartans og í þeirri innilegu elsku, sem alltaf betur og betur sameinar þá frelsaranum og fullkomnar þeirra betrun. — Hulið er það enn fremur og óskiljanlegt heimsins börnum, sem ekki þekkja annað líf enn hið

líkamlega, sem nærist af mat og drykk, og hið veraldlega, sem gefur sig við munaði og viðhöfn, upphefð og metorðum. Um þessi veraldarinnar börn má segja, að þau eru lifandi dauð. Eins og líkaminn deyr þegar sálin skilur við hann, eins deyr líka sálin þegar hún verður yfirgefin af Guði; en eins og sálin ekki skilur fyrr við líkamann enn hann er orðinn öldúngis óhæfilegur fyrir íbúð hennar, þannig yfirgefur ekki heldur Guðs andi manninn til fulls fyrr enn hann er orðinn öldúngis forhertur í guðleysi og vantrú. En þegar svo er komið, þegar sálin er algjörlega skilin við Guð, þá fer fyrir henni eins og hinum andvana líkama: hún fúnar og rotnar og verður að maðkaveitu. Já, þegar hjarta mannsins er hvorfið frá Guði, þá safnast þángað allar vondar hugsanir og girndir, og það verður eins og gröf, sem er full af dauðra beinum, og að lokunum líkist það helvíti, og sèrhver tilfinníng verður að kveljandi anda, sèrhver hugsun að djöfli. Þannig sprettur hinn eilífi dauði af hinum andlega dauða og það þegar í þessu lífi; já, þegar í þessu lífi verða óguðlegir varir við þann orm, sem ekki deyr, við þann eld, sem ekki slokknar; þegar í þessu lífi ratar sálin í hin yztu myrkur þegar hún snýr sèr frá Guði og gefur sig á vald hins illa og fyrirlítur þá náð, sem guðsorð boðar henni. En jafnframt því sem vèr viljum biðja góðan Guð að miskuna þessum andlega dauðu mönnum, þá prófum sjálfa oss, kristnir hræður! og hugleiðum, að hve miklu leyti vèr lifum Guði og í honum; prófum, hvort vor trú er sönn og lifandi, því af henni sprettur lífið; sè hún dauð og dáðlaus, þá er voru æðra andlega lífi hætta búin. Og ef vèr nú verðum þess varir hjá oss, að trúin er veik, þá flýjum til frelsara vors og biðjum hann að styrkja og lífga hana, biðjum hann að skýra vora andlegu sjón, að opna vor eyru, svo vèr gefum gætur að háns orðum; biðjum hann að láta rætast á oss þessi sín orð: „sannlega segi eg yður, sá tími mun koma og er nú þegar kominn, að hinir dauðu munu heyra raust Guðs sonar, og þeir, sem heyra, munu lifa“ (Jóh. 5., 25.). Jesús talar hèr ekki um efsta dag, heldur um þann tíma, sem „nú þegar er kominn“; hann talar um hina dauðu, sem nú þegar muni heyra sína rödd, svo þeir megi lifa; hann talar þannig um hina andlega dauðu. Eins og frelsarinn forðum kallaði Lazarus til lífsins, sem var

dáinn og greptraður, þannig kallar hann og á þessari stundu til þín, syndugur maður! til að uppvekja þig frá dauðum og kalla þig aptur til lífsins, þar sem þú liggur í gröf þinni; því hvað er það líf, sem þú lifir, annað enn dauði þegar þú ert skilinn við Guð.? Hvað er veröldin umhverfis þig annað enn gröf þegar þú ert staddur í andlegu myrkri, þegar þú af blindri vantrú ert útilokaður frá ljósinu og himninum og fjötraður við duptið af þínu holdlega hugarfari, af þínum saurugu og syndsamlegu girndum? En ef þú hlýðir Drottins röddu og stendur á fætur til að taka við því lífi, sem hann býður þèr, þá mun hann fara með þig eins og hann fór með hinn uppvakta Lazarus, sem enn „var vafinn líkblæjum á höndum og fótum og hafði sveitadúk um andlit sitt". Eins og Jesús lèt leysa hann, svo hann gæti sèð dagsljósið og geingið út úr gröfinni, eins mun hann lypta skýlu vantrúarinnar frá augum sálar þinnar, svo þú getir sèð þá hættu, sem þú ert í staddur, og hvernig þú fáir komizt úr henni fyrir trúna á frelsara þinn og þá náð, sem hann hefur þèr afrekað; hann mun leysa þig úr fjötrum syndarinnar, svo að þú, studdur af hans anda, getir við ljós guðsorða geingið áfram á vegi betrunar og helgunar. Og þegar þú gjörir það, þá höndlar þú þegar hèr í lífi hið eilífa lífið í sameiníngunni við lausnara þinn. En eins og áður er sagt, þá er þessi sameiníng andleg og hulin, því vèr gaungum hèr í trúnni, en ekki í skoðuninni; en „sælir eru þeir, sem trúa, þó þeir ekki sjái". Já, sælufullt er það þegar hèr á jörðunni þetta trúarinnar og kærleikans líf með Kristi í Guði; sælufullt er það vegna þess friðar, þeirrar þolinmæði og vonar, þeirrar nægjusemi og gleði í Guði, sem því er samfara; og hvílík sæla mun það þá verða í öðru lífi, að fá að sjá það, er vèr hèr höfum höndlað í trúnni, ummyndað í himnesku ljósi, sem aldrei deyr eða deprast! Frelsari vor hefur heitið þeim, sem honum hèr tilheyra, að þeir við enda þessa reynslulífs skuli fá að koma þángað sem hann er og sjá hans dýrð. Í hverju mun hin himneska umgeingni við hann vera innifalin öðru enn því að skoða Guð sjálfan? Því mun hann ekki á himnum enn fremur í augum útvaldra verða það, sem hann þegar er hèr á jörðunni: „ljómi Guðs dýrðar og ímynd hans veru"? Svo munu þá hinir sælu andar á himnum með óumræðilegum

fögnuði verða þess varir, að það er eilíft líf að þekkja einn sannan Guð og þann, sem hann útsendi, Jesúm Krist. Æ, góði himneski faðir! styrk þú oss með þínum anda, svo vèr getum lifað þèr í helgun og rèttlæti, og fáum við enda þessa vors jarðneska lífs að öðlast eilíft líf hjá þèr og frelsara vorum Jesú Kristi! Bænheyr það í Jesú nafni! Amen.

---

## Á trinitatis hátíð.

### Bæn.

Góði himneski faðir! Með blygðun og ángri játum vèr, að vor holdlegu og syndum spilltu hjörtu draga oss niður í duptið, svo vèr festum hugann við heiminn og hina veraldlegu hverfulu hluti, en hirðum lítið um að leita þín, þíns ríkis og þíns rèttlætis. Æ, hve leingi á þetta þannig til að gánga? Hve leingi ætlum vèr að loka augunum fyrir geislum þinnar náðar, eyrunum fyrir þinni blíðu röddu og mótstanda verkunum þíns anda? Opna þú vor augu og eyru, snú þú oss af vegi glötunarinnar og dauðans á lífsins veg; skapa þú í oss hreint hjarta, svo vèr fáum hið sama heilaga lunderni, sem var í þínum elskulega syni, frelsara vorum Jesú Kristi. Endurskapa oss, Drottinn! með þínum almáttuga kærleika, svo vèr fáum viðbjóð við syndinni og öllu því, sem þínum heilaga vilja og vorri sönnu eilífu farsæld er mótstæðilegt, en láttu það verða vora æðstu unan að þjóna þér í anda og sannleika og reynast trúlyndir þegnar í þínu náðarríki hèr á jörðunni, svo vèr á síðan fáum inntöku í dýrðarríki þitt á himnum! Amen.

### Guðspjallið

(Jóh. III., 1.—15.).

Maður nokkur af flokki faríseanna, Nikódemus að nafni, einn af höfðíngjum Gyðínga, kom til Jesú á náttarþeli, og sagði til hans: meistari! vèr vitum, að þú ert lærimeistari kominn frá Guði, því einginn getur gjört þau teikn, sem þú gjörir, nema Guð sè með honum. Jesús

svaraði: sannlega, sannlega segi eg þèr, að eiginn nema sá, sem fæðist að nýju, fær að sjá guðsríki. Nikódemus spurði: hvernig fær maðurinn endurfæðzt, þegar hann er orðinn gamall? getur hann hvorfið aptur í kvið móður sinnar, og fæðzt svo að nýju? Jesús svaraði: sannlega, sannlega segi eg þèr, ef maðurinn fæðist ekki af vatni og anda, þá getur hann ekki feingið inngaungu í guðsríki. Það sem af holdi er fætt, það er hold, en það sem af andanum er fætt, það er andi. Undrast þú ekki það, er eg sagði þèr, að yður byrjar að fæðast að nýju; vindurinn blæs, hvar sem hann vill, og þú heyrir hans þyt, en ekki veiztu, hvaðan hann kemur, eða hvert hann fer; eins er því varið með hvern þann, sem af andanum er fæddur. Nikódemus sagði til hans: hvernig má þetta ske? Jesús svaraði: ertu lærimeistari Gyðínga, og veizt ekki þetta? sannlega, sannlega segi eg þèr, að vèr tölum það vèr vitum, og vitnum það vèr sèð höfum, og vorn vitnisburð meðtakið þèr ekki. Hafi eg sagt yður jarðneska hluti og þèr trúið ekki, hvernig munuð þèr þá trúa, ef eg segði yður himneska hluti? Einginn hefur uppstigið til himins, nema sá, sem ofan steig af himni. En eins og Móses upphóf höggorminn á eyðimörkinni, þannig á og mannsins sonur að verða upphafinn, til þess að hver sem á hann trúir, glatist ekki, heldur hafi eilíft líf.

## Inngángur.

„Sannlega, sannlega segi eg þèr, að einginn nema sá, sem fæðist að nýju, fær að sjá guðsríki". Þetta svar, sem frelsarinn gaf Nikódemusi, þegar hann lèt í ljósi trú sína á Jesúm, sem kennara af Guði sendan, sýnist í fljótu áliti ekki eiga við það, sem Nikódemus sagði, heldur vera sagt til þess að brjóta upp á öðru efni. En þegar vèr gætum betur að

þessu, sjáum vèr, að þetta svar Jesú stendur í nánu sambandi við orð Nikódemusar. þessi ráðherra Gyðínganna sagði, að einginn gæti gjört þau teikn, sem Jesús gjörði, nema Guð væri með honum". En þó sjálfur frelsarinn optsinnis skírskotaði til kraptaverka sinna og vitnisburðar spámannanna, til sannindamerkis um, að hann væri sá, sem koma skyldi, lèt hann þó í ljósi við þá, sem honum urðu handgeingnari, að með þeirri trú, sem einúngis byggðist á þessum ytri jarteinum, gætu menn ekki orðið þegnar þess guðsríkis, sem hann var kominn til að stofna; og í voru heilaga guðspjalli segir hann, að án þeirra miklu sinnaskipta, sem hann kallar endurfæðíng, geti einginn *sèð* guðsríki, það er að skilja: feingið rèttan skilníng á því, og síðan ítrekar hann þetta með þessum orðum: „ef maðurinn fæðist ekki af vatni og anda, getur hann ekki feingið inngaungu í guðsríki". þegar Jesús talar um að fæðast af vatni og anda, þá er það auðsætt, að hann hefur tillit til þess sambands, sem er milli skírnarinnar og endurfæðíngarinnar, því skírnarathöfnin er fyrirmyndan endurfæðíngarinnar, og var það einkanlega í hinni fyrstu kristni, því þá var þeim, er skírðist, drepið niður í vatnið til að tákna dauða hins gamla manns og að hinn skírði stigi sem nýr maður hreinn og heilagur upp úr vatninu. Látum oss nú, kærir bræður! af þessu heilaga guðspjalli taka oss tilefni til stuttlega að hugleiða:

*í hverju endurfæðíng mannsins er innifalinn.*

„Hvernig fær maðurinn endurfæðzt þegar hann er gamall? Hvort getur hann hvorfið aptur í kvið móður sinnar og fæðzt svo að nýju"? Hvað meinti Nikódemus með þessari spurníngu? þar eð hann var meistari í Ísrael, hlaut hann eflaust að skilja, að Jesús talaði ekki um líkamlega fæðíngu, heldur um andlega breytíngu. En hann hèlt, að einmitt þessi ummyndan sálarinnar væri eins óhugsandi og hitt, að líkaminn gæti hvorfið aptur í móðurlífið og fæðzt að nýju. þannig hugsa líka enn þá margir meðal vor. þeir efast yfir höfuð um, að nokkur önnur lífernisbetrun sè til enn sú, sem mönnum er þrýst og þraungvað til á einhvern útvortis hátt, eða sem menn taka fyrir sig til að komast hjá lastanna ófarsælu afleiðíngum, til dæmis: fátækt, heilsuleysi og vanvirðu. þeir skoða í stuttu

máli, einúngis það sem fyrir mannlegt tilstilli verður komið til leiðar í mannlegu fèlagi, en gæta ekki að því, sem náðin framkvæmir í guðsríki; þeir hvorki skilja nè meta annað enn það, sem er veraldlegt, stundlegt og áþreifanlegt. En auk þessara halda líka aðrir, sem rannsaka djúp náttúrunnar og skynseminnar, að endurfæðíngin sè ómöguleg af því hún sè óskiljanleg. En hve margir hlutir eru ekki til, sem vèr ekki skiljum. Náttúran sjálf er yfir höfuð að tala óskiljanlegur leyndardómur; hvorki skiljum vèr, hvernig grös og dýr lifna við og tíngast, hvert eptir sinni tegund, nè heldur, hvernig skaparinn myndaði hinar fyrstu lifandi skepnur. Hafi Guð með sínum anda getað lífgað það dupt, sem hann skóp Adam af, svo hann varð að lifandi veru, skapaðri í Guðs mynd, mun það þá vera Guði um megn, með þessum sama anda sínum að skapa nýjan mann eptir sinni mynd í stað hins syndum spillta mannsins? „Hinn fyrri maður varð mold af jörðu; hinn síðari maður er Drottinn af himni", segir Páll postuli, „og eins og vèr höfum borið líkíng hins jarðneska, eins munum vèr og bera líkíng ens himneska. En hold og blóð getur ekki öðlazt guðsríki, nè hið forgeingilega óforgeingilegleikann" (1. Kor. 15., 47., 50.). Þegar vèr berum þessi merkilegu orð postulans saman við það, sem stendur rètt áður í sama kapítula, að „eins og allir deyja í Adam, þannig muni og allir lífgast í Kristi" (v. 22.), þá getum vèr af því ráðið, að hinn nýi maður, sem með Kristi inngeingur í hans eilífa ríki, muni þannig ummyndast, að hann verði líkur hans dýrðarlíkama. Postulinn var áður búinn að tala um þann dýrðlega líkama, sem framliðnir mundu fá, og benti þeim, sem efuðust um, að þetta væri mögulegt, á frækornið, sem sprettur upp úr jörðinni í nýrri mynd. Geti nú líkami vor þannig ummyndast og feingið himneska náttúru í stað síns jarðneska eðlis, mun þá ekki þetta eins geta átt sèr stað um anda vorn?

Geti Kristur með almætti sínu á efsta degi gjört vorn veika líkama líkan sínum dýrðarlíkama, mun hann þá ekki með þeirri óendanlegu náð, sem afplánar syndasekt allrar veraldarinnar, geta ummyndað sálir vorar og lagað Guðs mynd í oss, eða með öðrum orðum: geta gjört oss að Guðs börnum fyrir

endurfæðínguna? þar eð nú Drottinn vor segir með berum orðum, að einginn geti sèð guðsríki nema hann fæðist að nýju, með því „það, sem af holdi er fætt, sè hold, en það, sem af andanum er fætt, sè andi“, ættum vèr þá ekki að trúa hans orðum, orðum hans, sem talar það hann veit bæði um himneska og jarðneska hluti, hans, sèm ekki einúngis er til himins farinn, heldur og af himnum kominn, og sem einnig meðan hann dvaldi hèr á jörðunni gat sagt: „mannsins son, sem *er* á himnum“? Ættum vèr ekki að gefa gaum að því sem hann fullvissar oss um, að hver, sem á hann trúir, skuli ekki fyrirfarast, heldur hafa eilíft líf? Ættum vèr ekki að hlýða hans ráðum og gefa oss á vald krapti heilags anda í guðsorði og láta oss lynda að finna til hans verkana í hjörtum vorum, þótt vèr ekki skiljum, hvernig þær atvikast? „Vindurinn blæs hvar sem hann vill“, segir Jesús, og þú heyrir hans þyt, en ekki veiztu, hvaðan hann kemur eða hvert hann fer; svo er sèrhver af andanum fæddur“. Gat nokkur samlíkíng átt betur við enn þessi? Að veðrinu gætum vèr iðuglega og um það tölum vèr dags daglega; en þó getur einginn gjört grein fyrir breytíngum þess, nè ætlazt á, hvernig það muni skipast. Samt sem áður verðum vèr varir við, hver áhrif veðráttufarið hefur á menn og skepnur og gjörvalla náttúruna, og getum ekki efazt um afl og verkanir vindsins, þó vèr ekki sjáum, hvaðan hann kemur, eða hvert hann fer. þannig er og verkunum heilags anda varið; vèr verðum varir við þær, þó vèr ekki skiljum, hernig þær atvikast. Já, kristnir bræður! ef vèr ekki lokum hjörtum vorum fyrir áhrifum lögmálsins og náðarlærdómsins, þá munum vèr á sjálfum oss reyna, hvernig heilagur andi fyrst vekur oss af vorum synda svefni og sundur kremur vor hjörtu, fyllir þau með ótta og órósemi, ángri og kvöl, með því hann sýnir oss spillíngu vora og alla þá eymd, sem af syndum vorum leiðir, svo að vèr með heitri og innilegri iðrun skulum flýja til guðlegrar náðar. Og ef vèr gjörum þetta með öruggu og lifandi trúnaðartrausti, sem alvarlegur betrunar ásetníngur er samfara, þá munum vèr reyna, hvernig Guðs náð, sem vèr þannig heimfærum til vor, ekki einúngis huggar og hughreystir oss, heldur einnig betrar oss og helgar, frelsar oss frá yfirráðum syndarinnar, veitir oss djörfúng og krapta

til að gegna skyldum vorrar köllunar og stunda kristilegar dyggðir, hvernig hún gjörir oss ráðvanda, velviljaða, greiðvikna, sáttgjarna, skírlífa, auðmjúka, þolinmóða, blíðlynda, tryggva og stöðuglynda. En meðan vèr lifum í heiminum og holdinu, eymir þó alltaf eitthvað eptir af hinu illa í vorri syndum spilltu náttúru, og það getur hèr í lífi aldrei til fulls útaf dáið. þess vegna verða líka þessar verkanir heilags anda einlægt að endurnýjast hjá oss. Já alltaf þurfum vèr þess við, að vèr sèum vaktir og aðvaraðir, uppfræddir og áminntir um vora spillíngu, að vèr sèum uppörfaðir og styrktir í vorri iðrun og trú og fullvissaðir um Guðs náð og fyrirgefníngu vorra synda. Allt þetta innibindur endurfæðíngin í sèr, og því er hún ekki lítillar stundar verk, þó hún byrji snögglega, heldur verðum vèr að halda henni áfram alla æfi vora. Ekki verður heldur þessari daglegu endurfæðíngu framgeingt án stríðs og ýmislegra freistínga, an áreitínga og órósemi. Já, eins og barnið ekki getur fæðzt án sárra verkja og harmkvæla móðurinnar, eins getur ekki heldur hinn nýi maður fæðzt án mikillar ángistar og þjáínga hins gamla manns, sem hinn nýi sprettur af. En eins og konan minnist ekki harmkvæla sinna þegar hún hefur barnið fætt, þannig finnur og sálin til óumræðilegs fagnaðar, þegar hún fyrir trúna á Guðs náð leysist úr syndaeymdarinnar ángist og kvíða, og eins og kemur inn í nýja veröld, þegar hún sem Guðs barn byrjar nýtt andlegt líf í trú og kærleika, þolinmæði og sjálfsafneitun og heldur því áfram í stöðugri sameiníngu við Guð. þessi friður og fögnuður í heilögum anda er ekki einúngis afleiðíng af helguninni, heldur og meðal til að viðhalda henni. Eins og sönn gleði ekki getur búið í iðrunarlausu hjarta, sem hángir fast við syndina, eins verður þar á mót sá fögnuður og sú sálarrósemi, sem sanniðrandi maður finnur til af meðvitundinni um Guðs náð og syndanna fyrirgefníngu, tilefni til þess að betra og helga hann meir og meir. þessi fögnuður sanniðrandi sálar breiðist út yfir hugarfarið, út yfir orð og gjörðir; undir heyrn guðsorða lýsir hann sèr í stilltri og lotníngarfullri andakt og í voru daglega lífi í ánægðu, hógværu, vinsamlegu og kærleiksfullu viðmóti; hann fylgir oss frá því vèr á morgnana höfum sent vor bænarandvörp upp til Guðs og helgað oss honum, á öllum vorum vegum, í öllum

vorum athöfnum, í viðskiptum vorum við aðra og í einveru vorri, í skemmtunum vorum og daglegum störfum. Eins og hryggð sanniðrandi sálar er „hryggð eptir Guði“, af því hún syrgir ekki eins og þeir, sem einga von hafa, eins er og gleði hennar gleði í Guði. Og þegar hennar reynsluskeið hèr er á enda runnið, þegar hún á sáluhjálplegri stund skilur við þetta líf, og leysist úr þessum syndarinnar og dauðans líkama, eins og barnið úr móðurlífi, þá fullkomnast endurfæðíngin, þá fæðist hún sem fullaldra Guðs barn í æðra heimi, í þeim hinum himnesku föðurhúsum, og er borin af einglum Guðs í hans eilífa miskunarfaðm, og hjá honum bíður hennar sá fögnuður, „sem ekki hefur auga sèð ekki eyra heyrt og í einkis huga komið“.

Lærum þá, kærir bræður! rèttilega að meta þá hina guðlegu endurfæðíngu, sem Jesús í dag talar um; lærum að sjá og sannfærast um, að hún er sú háleitasta og blessunarfyllsta náðargjöf Guðs. Það er að vísu mannlegum kröptum ofvaxið að skilja, hvernig gæðskuríkur Guð fer að ummynda og endurskapa mannleg hjörtu, en það getum vèr þó sèð, að vort holdlega og syndum spillta hugarfar getur ekki verið leiðtogi vor til himnaríkis, og vèr verðum í hjörtum vorum varir við sannleika þessara Jesú orða: „einginn nema sá, sem fæðist að nýju, fær að sjá guðsríki“. Láttu þèr því, kristinn maður! vera mest af öllu um það hugað að fá hið sama lunderni, sem var í Jesú Kristi, að líkjast honum í hugafari og hegðun, í vilja og verkum, áformum og fyrirtækjum. Sá hinn þríeini Guð, hvers hátíð vèr í dag höldum, mun styrkja þig til þessa, ef þú biður hann af hjarta og leyfir hans náðar anda inngaungu í sálu þína. Þá muntu verða að nýjum og betra manni, og friður Guðs mun fylgja þèr og taka bústað í hjarta þínu og sannfæra þig um, að þú hefur valið hið góða hlutskiptið og fundið aptur veginn til eilífs lífs. Guð gefi oss sína náð til þess í Jesú nafni! Amen.

---

# Á fyrsta sunnudag eptir trinitatis.

## Bæn.

Upp til þín, himneski faðir! lyptum vèr huga vorum og hjörtum á þessari guðræknisstundu. Þú hefur látið þinn eingetinn son fræða oss um þitt ráð og þinn vilja oss til sáluhjálpar; þú hefur látið hann kenna oss þann mikilvæga sannleika, að þetta líf er undirbúníngstími undir annað ókomið líf, að þetta líf er sáðtíminn, en hið eilífa uppskerutíminn. Æ, Drottinn! hvernig höfum vèr nú hagnýtt oss þessa þekkíngu? Hvernig höfum vèr varið vorum lífsstundum? Það þekkir bezt þitt alltsjáanda auga og vor eigin samvizka. Allir finnum vèr til þess og megum íngraðir játa, að vèr erum syndarar og höfum skort á þeirri hrósun, sem hjá þèr gildir, að vèr höfum burtsóað margri náðarstund í syndsamlegu athæfi og hugsunarleysi um vor komandi kjör og forlög. Æ, fyrirgefðu, miskunsami faðir! alla vangá vora, öll vor brot og breyskleika. Láttu umhugsun um eilífðina jafnan vera vakandi í hjörtum vorum! Gefðu oss náð til þess, að þessi umhugsan aptri oss frá syndum, frá því að misbrúka þínar tímanlegu gáfur, eða festa hjörtu vor of mjög við hið jarðneska! Gefðu oss náð til þess að brúka svo þau tækifæri, sem oss bjóðast til góðs, þá krapta, sem þú hefur veitt oss, að vèr getum vonglaðir horft fram á veg allrar veraldar! Kenndu oss, Drottinn! að safna oss fjársjóðum á himnum, svo vèr í eilífðinni meðtökum hið góða — þau gæði, sem þú hefur heitið þínum trúlyndu þjónum! Bænheyr það í Jesú nafni! Amen!

## Guðspjallið

(Lúk. XVI., 19.—31.).

Jesús sagði við faríseana: Það var einu sinni ríkismaður, sem klæddist purpura og dýrindis líni og lifði hvern dag í dýrðlegum fögnuði. Fyrir dyrum hans lá fátækur maður, er Lazarus hèt, hlaðinn kaunum. Hann girntist að seðja sig af þeim molum, sem fèllu af borði ens ríka; og jafnvel hundar komu og sleiktu sár hans. En svo bar við, að hinn volaði andaðist, og var borinn af einglum í faðm Abrahams. Hinn ríki andaðist líka, og var greptraður. En þegar hann var í helvítis kvölum, hóf hann upp sín augu, leit Abraham áleingdar og Lazarus í faðmi hans, þá kallaði hann og sagði: Ó, faðir Abraham! misk-

una þú mèr! send þú Lazarus híngað, að hann drepi fíngurgómi sínum í vatn, og kæli túngu mína, því eg kvelst í þessum loga. Abraham svaraði: Minnstu þess, sonur! að þú nauzt ens góða í lífinu, en Lazarus ens vonda, því verður hann nú huggaður, en þú kvalinn. Auk alls þessa er á millum vor og yðar svo mikið djúp staðfest, að þeir, sem hèðan vilja fara til yðar, geta það ekki, og ekki þeir heldur þaðan frá yður upp til vor komizt. Hinn sagði þá: eg bið þig, faðir! að þú sendir hann í hús föður míns, því eg hefi fimm bræður, svo hann vari þá við, svo ekki komi þeir í þenna kvalastað. Abraham sagði til hans: þeir hafa Móses og spámennina, hlýði þeir þeim. Hinn sagði: nei, faðir Abraham! heldur ef nokkur framliðinn færi til þeirra, þá mundu þeir bæta ráð sitt. Abraham svaraði honum: ef þeir hlýða ekki Mósi og spámönnunum, þá munu þeir ekki heldur trúa, þó einhver framliðinn upprisi.

## Inngángur.

Sè það svo, að sælan sè innifalin í fullkominni samhljóðan hins innra sálarástands og hinna ytri lífskjara, svo að lífið geti liðið áfram í unaðsemd og friði, þá er það víst, að einginn er sæll fyrir sitt endadægur, því ávalt brestur eitthvað á sælu mannsins hèr í lífi. Hið innra og hið ytra standa í svo nánu sambandi hjá oss, að ef skortur og missmíði er á öðruhvoru, þá vill það trufla sælu vora. Heilsuleysi, fátækt og fyrirlitníng, órèttur sá, sem vèr þykjumst verða fyrir af öðrum, ástvina missir og annað fleira, sem fyrir oss kemur, raskar tíðum allri rósemi vorri og gjörir oss óánægða með vor kjör, óánægða með líf vort, og þó vèr eigum tímanlegri lukku að fagna, þá er ekki sælan feingin fyrir það; margvíslegar áhyggjur, margvísleg órósemi og óánægja með sjálfa oss og aðra geta allt að einu heimsótt oss og gjört oss þetta líf gleðisnautt. Það er því víst, að einginn er sæll fyrir sitt endadægur, og þetta er líka samhljóða kenníngu heilagrar ritníngar, því guðsorð brýnir það jafnan fyrir oss, að þetta

líf sè undirbúníngstími undir annað sælla og fullkomnara líf; þetta líf sè sáðtíminn, en hið ókomna sè uppskerutíminn, og að vèr eigum svoleiðis að verja þessu lífi, að vèr getum orðið sælir við vort endadægur: hæfilegir fyrir þá sælu, sem oss er fyrirheitin hinu megin grafarinnar. Á þessum sannindum hefur frelsarinn viljað vekja eptirtekt vora, með dæmisögunni um hinn ríka mann, sem getið er um í þessa dags guðspjalli. Hann sýnir oss með henni, að sá getur einúngis heitið sæll, sem er það við sitt endadægur, því þá byrjar fyrst hið rètta lífið, hið eilífa lífið. En þó einginn sè fullsæll, fyrr enn í eilífðinni, þá byrjar þó þegar í þessu lífi rót hins eilífa lífsins, og hèr í lífi getur maðurinn feingið og á að fá forsmekk þeirrar sælu, sem vor bíður hinu megin grafarinnar. Hèr í lífi er oss boðið að höndla hið eilífa lífið, eða lífið í Guði, með því að leyfa Krists anda inngaungu í vor hjörtu; það er því í hjörtum vorum, hugarfari voru, í sálum vorum, að hið eilífa fyrst tekur sèr bústað, og þar byrjar og þaðan sprettur sú sæla, sem á síðan verður fullkomin; og þetta gefur frelsarinn til kynna í sinni guðdómlegu fjallræðu, þar sem hann telur upp ýmsar stefnur guðrækilegs hugarfars og kallar þá sæla, sem hafa slíkt hugarfar. Þar á mót getur sælan ekki sprottið af stundlegum hlutum, af því þeir líða undir lok og hafa ekki gildi nema sem meðal til að ná öðru æðra augnamiði, þess vegna svíkur hver sá sjálfan sig, sem leitar sælu sinnar í þeim, og það er satt sem Salómon segir; *að margur er fátækur í mikilli auðlegð og margur ríkur í sinni fátækt.* Þessi orð Salómons, sem vèr sjáum staðfest af dæmi hins ríka manns og Lazari í guðspjallinu, viljum vèr með Guðs aðstoð taka til íhugunar á þessari guðræknisstundu og láta þau minna oss á að safna oss þeirri auðlegð, sem hvorki mölur nè ryð fær grandað, þeirri auðlegð, sem gjörir oss sæla við vort endadægur.

I.

Margur er fátækur í mikilli auðlegð. Þetta á heima bæði hjá hinum eyðslusama og hinum ágjarna. Hvað mikið sem hinn eyðslusami hefur, þá hrökkur það ekki til, því hann eys því út með báðum höndum á meðan nokkuð er til, hann á því alltaf í kröggum, og seinast verður honum ekki viðhjálpað.

Hann leiðir ógæfu, ekki einúngis yfir sjálfan sig, konu sína og börn, heldur einnig yfir aðra út í frá, með skuldum, sem hann getur ekki borgað, með loforðum, sem hann getur ekki efnt. Eyðslusemin er ekki einúngis heimskuleg og skaðleg fyrir mannsins tímanlegu velferð og fyrir borgaralegt fèlag, heldur er hún einnig syndsamleg, því hún er vanbrúkun Guðs gáfna, sem Guð hefur ætlazt til, að maðurinn skyldi verja á skynsamlegan hátt, sèr til fullkomnunar og öðrum til hjálpar. Frelsari vor hefur með dæmisögunni um fortapaða soninn sýnt oss, hvernig maðurinn slítur sig frá Guði til að sökkva sèr niður í svall og eyðslusemi. Þessi sonur heimtaði arfahluta sinn af föður sínum, fór með hann í fjarlægt land og sóaði honum þar í óhófsömum lifnaði. Loksins komst hann þar í þvílíkar nauðir, að hann girntist að seðja sig af drafi því, sem hin auðvirðilegustu dýr átu. Þessi dæmisaga ætti að vera hinum úngu til viðvörunar og vara þá við eyðslusemi; hún ætti líka að kenna foreldrunum, að meta ekki of mikils fjármuni þá, sem þeir safna handa börnum sínum, heldur útvega þeim önnur áreiðanlegri auðæfi í menntun, ráðvendni, iðjusemi og góðum siðum. Hversu opt verður ekki ríkidæmið skaðlegt fyrir manninn, fyrst með því að aptra honum frá að taka framförum í því, sem gott og þarflegt er, og síðan með því að freista hans til lasta og munaðarlífis.

Gagnstæður hinum eyðslusama er sá ágjarni, og hann er ei síður fátækur í auðlegð sinni. Opt á hann margfalt meira enn hann viðþarf, og er þó snauðari enn sá aumasti förumaður, af því hann tímir ekki að neyta eigna sinna. Það er eins og hann ætti ekkert af þeim sjálfur, heldur hefði tekið þær til geymslu af öðrum. Hvað hefur hann þá fram yfir fátæklínginn? Ekkert, nema umstángið og áhyggjuna. Að sönnu væri það líklegt, að hann að minnsta kosti gæti þó haft það gott af fjármunum sínum, að hann þyrfti ekki að kvíða fyrir örbyrgð nè atvinnuskorti — en því er ekki þannig varið. Þó sá ágjarni viti ekki aura sinna tal, þykist hann þó aldrei hafa nóg, og lifir í sífeldum ótta fyrir því, að hann muni missa eitthvað, að hann muni þarfnast einhvers. Hann kvelur sjálfan sig með því, að upphugsa öll þau óhappatilfelli, sem að geti borið, og tortryggir alla menn. Þar að auki er hann aldrei ánægður með það, sem hann á, heldur vill alltaf safna meiru og meiru, þó

hann ekki tími að hafa neitt gott af því. Er hann þá ekki fátækur mitt í sinni auðlegð! Ritníngin segir oss, að ágirndin sè rót alls ills, og víst er um það, að ágirndin getur verið allra lasta móðir. En venjulegast leiðir hún til rángsleitni og harðýðgi eða miskunarleysis. Hinn rángsleitni er líka fátækur í sinni auðlegð, því hann vantar góða samvizku og sanna sálarrósemi. Einatt óheppnast hans rángsleitnu fyrirtæki og verða honum fremur til skaða enn ábata, og þó þau heppnist um stund, þá fær hann þó fyrr eða síðar að reyna, að rángfeingnum auði fylgir óblessun. Því þótt hann fái að halda því, sem hann hefur ránglega samandregið, þá stoðar það hann ekki, þegar átölur samvizkunnar vakna í brjósti hans, og einhvern tíma vakna þær, fyrr eða síðar, þó ekki verði fyrr enn á hans dauðastundu. En þær vakna einatt fyrr, ekki einúngis í sjúkdómi og andvökum, heldur og í heilbrigði líkamans og í sjálfri velgeingninni. Hinir rángfeingnu fjármunir hljóta þó að minna eigandann á þau meðul, sem hann hefur haft til að safna þeim með, minna hann á, hvernig hann hafi útsogið hús ekkna og föðurlausra, innihaldið launum verkamanna og haft ránglega af öðrum í verzlan og viðskiptum. Er hann þá ekki fátækur í allri sinni auðlegð? Fátækur í auðlegð sinni er hinn ómiskunsami, því hann fer á mis við þá mestu gleði, sem fjármunirnir geta veitt: að klæða hinn nakta, seðja hinn húngraða og hjálpa hinum nauðstadda. Því meira gott sem hann gæti gjört, því vesalli er hann, ef hann gjörir það ekki, þó hann lifi í sællífi og allsnægtum. Hans eigin samvizka hlýtur að segja honum, að hann er enn þá vesalli enn þeir aumíngjar, sem hann lætur synjandi frá sèr fara. Og þótt hann nú ekki finni til þessa, þá mun hann þó á síðan finna til þess, þegar frelsarinn kemur sem dómari og segir við hann: „Húngraður var eg, og þú gafst mèr eigi að eta; þyrstur, og þú gafst mèr ekki að drekka; húsvilltur, og þú hýstir mig ekki; nakinn, og þú klæddir mig ekki; sjúkur og í fángelsi, og þú vitjaðir mín ekki“.

Fátækur í auðlegð sinni er yfir höfuð sèrhver holdlega sinnaður maður, þó hann hvorki sè eyðslusamur nè ágjarn, ránglátur nè ómiskunsamur. Hann er fátækur af því, að hann hefur allan hugann á því, sem er stundlegt og hverfult, á því, sem hann á í dag, en getur misst á morgun, á því,

sem hann ekki getur flutt með sèr, þegar hann á hèr við að skilja, og hèr á hann þó við að skilja, og það máske fyrr enn hann varir. Fátækur er hann þegar hèr í tímanum, því hann skynjar ekki hvað andans er, hann þekkir ekki þá andlegu auðlegð, sem guðrækilegt hugarfar hefur í sèr fólgna — fátækur er hann að minnsta kosti í dauðanum og í eilífðinni.

II.

Þar á mót er sannkristinn maður ríkur í sinni fátækt, og það þegar í þessu lífi. Hann er ríkur vegna iðjusemi sinnar, sparsemi, nægjusemi, ráðvendni, mannelsku og guðsótta. Ríkur í fátækt sinni er hinn iðjusami, því með iðjuseminni ávinnur hann sèr ekki einúngis daglegt brauð, heldur einnig heilbrigt og ánægt sinni; með því að æfa líkamans krapta, styrkir hann sálu sína og ávinnur sèr það hugrekki, þá framtakssemi og ráðdeild, sem eru svo nauðsynlegir eiginlegleikar í hættum, í mæðu og mótgángi lífsins. En iðjuseminni verður að vera samfara sparsemi og reglulegt líferni, þá getur hinn iðjusami ekki einúngis unnið fyrir daglegu brauði sínu, heldur optast lagt nokkuð upp, sèr og sínum til viðurværis á elliárunum; hann fær optast að reyna, að iðjusemi, sparsemi og reglulegum lifnaði fylgir blessun Drottins. Vissulega ertu opt áhyggjufullur, kristinn maður! sem hefur lítil efni, en marga fram að færa. Hvað hrökkur það meðal svo margra? segir þú, þegar þú lítur á þín litlu efni. En treystu Guði, vertu bænrækinn og iðjusamur, og hann, sem með 5 brauðum mettaði 5000 manns, mun einnig ala önn fyrir þèr og þínum; en til þess útheimtist að von þín um tímanlega hjálp byggist á trú þinni á Jesúm sem þinn andlega frelsara, og að þú fyrst og fremst leitir hjá honum að andlegri fæðu fyrir sálu þína, og að þú hugleiðir þessi hans orð: „Eg em lífsins brauð, sá sem kemur til mín mun aldrei verða húngraður, og þann mun aldrei þyrsta, sem á mig trúir“.

Ríkur í fátækt sinni er sá nægjusami. Eins og sá ágjarni aldrei fær nóg, og eins og honum þess vegna alltaf finnst það sem hann á vera minna, enn það í raun og veru er, eins vaxa að sínu leyti hin litlu efni í augum hins nægjusama. Hann er ánægður með sinn deildan verð, og öfundar ekki aðra,

þó þeir hafi meiri lukkunnar gæðum að hrósa; hann reynir að guðhræðslan með nægjusemi er mikill ávinníngur og tekur undir með postulanum: „Fyrst vèr höfum ekkert flutt með oss inn í heiminn, þá er það bezt, að vèr getum ekkert þaðan með oss haft; þess vegna, ef vèr höfum fæðu og skýli, þá látum oss nægja“. Ríkur í fátækt sinni er hinn rèttláti, því hann hefur frið við Guð og sjálfan sig, hann hefur góða samvizku og sálarrósemi, og án þess eru öll auðæfi einkisvirði; hann reynir, að það er satt, sem Davíð segir, að betra er það litla, sem hinn rèttláti á, enn nægtir margra óguðlegra. Ríkur í fátækt sinni er hinn miskunsami, því miskunarverk getur líka sá fátæki gjört, og miskunarverk hans eru opt meira verð enn hins ríka. Margur ríkismaður kastar gáfum sínum til þeirra, sem beiðast ölmusu, án þess að þekkja þörf þeirra, ellegar hafa lítillæti til að grennslast eptir henni; margur ríkismaður gefur af köldu og kærleikslausu hjarta, af hègómadýrð, til að ávinna sèr annara lof. Sá fátæki gefur fátækum, og þegar hann af góðu hjarta gefur af sínum litlu efnum, þá er meira í það varið enn gáfur hins, sem aldrei hefur sjálfur neins þarfnazt, og ekki kemst við af bágindum síns nauðstadda bróður. Sagði ekki Jesús, að hin fátæka ekkja legði lángt um meira í guðskistuna enn hinir ríku? Og hann hefur lofað að launa jafnvel kaldan vatnsdrykk, sem gefinn væri í hans nafni: af góðu hjarta og kristilegum kærleika.

Ríkur í fátækt sinni er sá guðhræddi, því hann hefur hlutdeild í himneskum fjársjóðum Guðs náðar og kærleika; og þessum fjársjóðum getur ekki tíminn eytt, þeim getur ekki dauðinn sundrað. Veraldarinnar voldugu drottnar geta gefið góz og garða, tign og nafnbætur, en þeir geta ekki gefið neinum þann frið, án hvers öll vegsemd veraldarinnar er eins og skuggi og draumur: frið í vorum samvizkum, frið við Guð og fyrirgefníng syndanna. Þetta eru þau sönnu auðæfi, sem vara um aldur og æfi, sem gjöra þetta líf farsælt og fylgja oss út yfir dauðann inn á sælunnar land, og þessi auðæfi getur einginn gefið oss nema hann, frá hverjum öll góð og öll fullkomin gjöf kemur.

Möglið því ekki, þèr, sem fátækir eruð af þessa lífs gæðum, og stærið yður ekki, þèr sem meira hafið af þeim þegið!

Drottinn gefur sèrhverjum það, sem hans speki sèr honum hentast, sumum meira, sumum minna. Sá, sem meira hefur þegið, lofi Guð og þakki honum og biðji hann um náð, til þess að geta varið því rèttilega! Sá, sem minna hefur þegið, gæti þess, að vèr getum ekkert heimtað af Guði, heldur gefur hann oss allt af náð sinni; hann lofi því einnig Guð og þakki honum og biðji hann að blessa sín litlu efni. Daglegt brauð er þèr búið, kristinn maður! þegar þú á hverjum degi ert reiðubúinn til að afla þess með erfiði, taka við því með þakklæti, neyta þess með hófsemi og miðla því góðfúslega með þurfamönnum.

Þar eð nú sæla vor, kristilegu tilheyrendur! ekki verður byggð á fallvöltum auði þessa heims, eða nokkrum tímanlegum munum, heldur á lifandi Guði, sem veitir oss ríkulega allt gott til nauðþurftar; þar eð hún verður að byggjast á því, sem er andlegt og eilíft, þá kostum kapps um að safna oss andlegum fjársjóðum og verða ríkir í góðum verkum! Hinn stundlegu gæðin eru lèttvæg og lítilsvirði í samanburði við vort sanna andlega líf; því hvað stoðar það manninn þó hann eignist allan heiminn, ef hann líður tjón á sálu sinni. Það sem mest á ríður er, að leita guðsríkis og hans rèttlætis, og ef vèr gjörum það, megum vèr treysta því, að oss muni allt annað tilleggjast, eptir því sem vèr þurfum á að halda á þessum vorum hèrvistar og reynslu stundum. Vor himneski faðir veit, hvers vèr viðþurfum; hann gefur og burttekur, hann lýkur upp og lýkur aptur sinni örlætishendi; hann sendir ljós og myrkur yfir lífsferð vora og breytir iðulega vorum högum, til þess vèr skulum aldrei falla í andvaraleysi eða rígbinda hug og hjörtu við stundlega hluti, heldur jafnan hafa það hugfast, að vèr erum hèr á jörðunni gestir og útlendíngar, og að oss er ætlað, eins með stríðu sem blíðu, að búast og menntast undir eilíft óðal á voru rètta föðurlandi, í hans himneska ríki. Hann elskar oss alla, og hefur kallað oss alla, volduga og vesala, ríka og fátæka, til heilagrar arfleifðar í ljósinu. Ef vèr ekki hlýðum þessari köllun, heldur sökkvum sálu vorri niður í holdlega muni, eins og þeir væri hin æðstu og einustu gæði, þá erum vèr það sjálfir, sem útilokum oss frá eilífri sælu, þá er það syndin, sem skilur oss

frá Guði. Einginn annar hlutur getur skilið oss við hann, hvorki hæð nè dýpt, hvorki dauði nè líf, hvorki hið nálæga nè hið ókomna. Látum oss því rannsaka hjörtu vor og allt vort háttalag, svo vèr sjáum hvaða götu vèr gaungum, hvort vèr erum hvorfnir frá lífinu í Guði, hvort vèr höfum fest allan hugann við stundlegan munað, svo vèr látum oss leiða og tæla af hans lystisemdum. Hverfum því, meðan tími er til, aptur til Guðs og leitum hans náðar. Hið heilaga guðspjall, eins og allt guðsorð, brýnir þann sannleika fyrir oss, að vèr eigum að hagnýta þetta líf, þann tíma, sem oss hèr er lèntur til þess að verða rèttir þegnar, til að safna oss dyggðanna fjársjóðum í guðsríki, því að í eilífðinni sè það um seinan, hafi menn sóað þessu lífi í syndum og andvaraleysi, í eilífðinni verði fullkominn skilnaður gjör milli útvaldra og óguðlegra og þá muni óguðlegum verða varpað í hin yztu myrkur.

Æ, vèr viljum ekki leingur rekja þessa hræðilegu tilhugsun, heldur snúa huganum til hans, sem eingan sanniðrandi frá sèr rekur, og biðja hann að gefa oss náð til þess að efla vora sáluhjálp með ótta og andvara. Hans náð er eilíf og ómbreytanleg hvernig sem hið stundlega byltist. Látum oss því aldrei örvænta, aldrei álíta oss rekna eða ræka úr hans ríki, meðan vèr megnum að senda upp til hans einlæg iðrunarandvörp, taka fyrir oss hreinskilin betrunaráform og bæra varir vorar til bænar og lofgjörðar í Jesú nafni! Já, Guðs náð er eilíf og ómbreytanleg, og hans miskunsemi nær frá einni kynslóð til annarar. Kynkvíslirnar koma og fara, og berast á báru tímans út í hið mikla haf eilífðarinnar; en Drottinn er sá sem var og er og verða mun; hann heyrir alla sem ákalla hann og miskunar öllum, sem á hann vona. Og þegar hans börn hafa runnið á enda skeiðhlaup sitt í auðmjúkri trú og undirgefni undir hans vilja, þá mæna þau augum trúar og vonar upp í hæðirnar til hans og fela sinn anda í hans hendur, og hann flytur þau til sín á sælunnar og friðarins land.

Gefðu oss, Drottinn! náð til þess, að meta rètt þau stundlegu gæði, sem þú lætur falla í vort skaut, svo vèr verjum þeim samkvæmt þínum boðum og verðum ríkir í góðum verkum, í elskunni til þín og vorra bræðra, því það er sú sanna

auðlegð, sem fylgir oss út yfir dauðann, og gjörir oss sæla við vort endadægur! Bænheyr það í Jesú nafni! Amen.

---

## Á annan sunnudag eptir trinitatis.

### Bæn.

Himneski góði Guð og faðir! Af þinni óendanlegu gæðsku hefur þú gefið oss þitt sáluhjálplega orð, og í þessu þínu orði býður þú oss syndugum mönnum þína náð, sýnir oss, hvernig vèr eigum að tileinka oss hana og styrkir oss til að gánga á þínum vegi. Æ, gef þú oss náð til þess að aðhyllast þessa þína framboðnu náð, því undir því er vor tímanlega og eilífa farsæld komin. Gef þú oss náð til þess, jafnan að elska þig og þína þjónustu meir enn heiminn og hans þjónustu, svo vèr fremur öllu öðru leitum þíns ríkis og þíns rèttlætis. Láttu ljós þinna heilögu orða jafnan lýsa oss, svo það sè vor leiðtogi á lífsins vegi og vor huggun í dauðanum. Vertu vor faðir í lífi og í dauða! Bænheyr það í Jesú nafni! Amen.

### Guðspjallið
(Lúk. XIV., 16.—24.).

Jesús sagði við einn af faríseunum þessa eptirlíkíngu: Maður nokkur bjó til mikla kvöldmáltíð og bauð til hennar mörgum, og þegar matmálstími var kominn, sendi hann þjón sinn, að hann segði þeim, sem boðnir voru: komið! því að nú eru allir hlutir til reiðu. En þeir tóku allir í einu hljóði til að afsaka sig. Hinn fyrsti sagði: akur keypta eg, og hlýt eg fara út að skoða hann; eg bið þig, afsaka mig. Hinn annar sagði: fimm pör akneyta keypta eg, og fer nú út að reyna þau; eg bið þig, afsaka mig. Sá þriðji sagði: konu hefi eg mèr festa, og fyrir því má eg ekki koma. Þjónustumaðurinn kom og kunngjörði þetta sínum herra. Þá varð húsbóndinn reiður og sagði við þjónustumanninn: far þú snarlega út á götur og stræti borgarinnar, og leið þú

híngað volaða, vanaða og hallta. Þjóninn sagði: herra! það er gjört, sem þú skipaðir, og þó er enn meira rúm. Herrann svaraði: far þú út á stígu og þjóðbrautir og neyddu þá til að koma, svo að hús mitt verði fullt; því eg segi yður það, að einginn þeirra manna, sem boðnir voru, mun smakka mína kvöldmáltíð.

### Inngángur.

Einginn hlutur getur haft eins mikil áhrif á mannleg hjörtu og Guðs eilífa og óendanlega gæðska. Alltaf leitast hann við að draga oss til sín með sinni náð, en hefur þó af gæðsku sinni gefið oss frjálsan vilja og lagt það á vort vald, hvort vèr viljum heldur aðhyllast hans náð eða hafna henni. Hann vill, að vèr skulum hlýða sèr af elsku og kærleika, og þess vegna treður hann ekki sinni náð upp á oss, heldur reynir hann til með kærleiksfullum hvötum og föðurlegum fortölum að fá oss til að veita henni viðtökur. Þessi sannindi brýnir frelsarinn fyrir oss í þessa dags heilaga guðspjalli með dæmisögunni um húsbónda þann, sem bauð mörgum til kvöldmáltíðar og lèt aptur og aptur ítreka þau vinsamlegu tilmæli, að þeir vildu koma, sem boðnir voru. Með þessu útmálar Jesús Guðs föðurlegu umhyggju fyrir Gyðínga þjóðinni og þær gæðskuríku tilraunir, sem hann gjörði til að fá hana til að aðhyllast frelsarann, og minnir oss jafnframt á, hvernig Guð ávalt hefur leitast við og enn leitast við að gjöra alla menn hluttakandi í sinni náð og Jesú endurlausn. En grátlegt er til þess að hugsa, hve lítið mennirnir hirða um þenna Drottins kærleika, hve tregir þeir eru til að þyggja þessa hans framboðnu náð, og að þeir skuli enn þá vera svo margir til, sem heimfæra má til þessi orð: „en þeir tóku allir í einu hljóði að afsaka sig“. Með heimskulegum og hègómlegum afsökunum svipta margir enn í dag sjálfa sig Guðs náð, sem þó er dýrmætust allra hluta. Látum oss, kristnir bræður! íhuga þetta efni nokkuð betur og verja þessari guðræknisstundu til að hugleiða:

*hvílík fásinna það er að hafna Guðs náð*, og í því skyni aðgæta: 1.) hverjar afsakanir og viðbárur menn

eru vanir að hafa, og 2.) hve fávíslegt það er að breyta þannig.

I.

Af guðspjallinu sjáum vèr, að þeir, sem boðnir voru til kvöldmáltíðarinnar, afsökuðu sig með veraldlegum sýslunum og lýstu þannig veraldlegu hugarfari, sem leggur allt í sölurnar, jafnvel sína eilífu farsæld, fyrir tímanlegan ágóða. Hinn fyrsti sagði: „akur keypta eg og hlýt eg fara út að skoða hann; eg bið þig afsaka mig“. Hinn annar sagði: „fimm pör akneyta keypta eg, og fer nú út að reyna þau; eg bið þig afsaka mig“. Sá þriðji sagði: „konu hefi eg mèr festa og fyrir því má eg ekki koma“. — Þessar afsakanir sýndu líka, að þeir, sem boðnir voru, þóttust eiga rètt á að taka eða hafna þessu boði eptir því sem þeim sjálfum litist, og vildu láta þetta vera öldúngis komið undir hentugleikum sjálfra þeirra. Veraldlegar sýslanir og ímyndað frelsi eru enn í dag þær afsakanir, sem menn eru vanir að hafa til að teljast undan því að hagnýta sèr þá náð, sem Guð býður þeim. Hve margir hafna ekki Guðs náð, hve margir vanrækja ekki að leggja stund á betrun hjartans og farsæld sálar sinnar, af því þeir þykjast ekki hafa tíma til þess, af því hin jarðnesku störfin gagntaka svo hugi og hjörtu þeirra, að þeir hugsa um ekkert annað og skipta sèr af eingu öðru. Heyrum vèr ekki veraldlega sinnaða menn berja einmitt hinu sama við og þeir, sem boðnir voru? Sá sem dag og nótt vinnur baki brotnu í sinni tímanlegu köllun, sá sem sökkur sèr niður í veraldlegar áhyggjur og sorgir og leggur í vana sinn að vanrækja heyrn og lestur guðsorðs, hvort það er í kirkjunni eða heimahúsum, og þykir sá dagur og sá tími, sem sèr í lagi er ætlaður til Drottins þjónustu og guðrækilegra hugleiðínga, vera hentugastur og bezt fallinn til veraldlegra starfa, eða skemmtana, segir hann ekki eins og hinn, sem boðinn var til kvöldmáltíðarinnar: „eg bið þig afsaka mig“? Sá sem geingur í guðshús með hjartað fullt af veraldlegum hugsunum, sá sem hlýðir guðsorði án eptirtektar og andaktar og leyfir eingum góðum hugarhræríngum að fá viðnám hjá sèr eða festa rætur í sálu sinni, heldur vísar þeim á dyr þángað til einhvern tíma seinna, þegar hann hafi hentugleika og tíma til að gefa þeim

gaum, ferst honum ekki líkt og hinum, sem boðnir voru til kvöldmáltíðarinnar? Svarar hann ekki sjálfum Guði — sem leitast við að hræra hjarta hans og býður honum sína náð — á þessa leið: „eg bið þig, afsaka mig“? Já, hvers vegna vanrækja mennirnir að biðja Guð og þakka honum fyrir allar hans óteljandi velgjörðir? Hvers vegna vanrækja þeir þessar og aðrar skyldur við Guð, við sjálfa sig og aðra? Kemur það ekki til af því, að hjörtu þeirra eru fjötruð svo fast við veröldina, af því þeir elska heiminn og þá hluti, sem í heiminum eru? Það hugarfar, sem er fullt af áhyggjum og sorgum þessa lífs, sem er fullt af sjálfstrausti og þykist eiga dugnaði sínum allt að þakka, er hvorki lagið á að biðja Guð nè þakka honum. Það var þetta veraldlega hugarfar, sem aptraði Gyðíngunum frá að fallast á Jesú lærdóm; þeir höfðu allan hugann á tímanlegum gróða, og hèldu, að Messías mundi stofna jarðneskt ríki hjá þeim; það var því ekki furða, þó þeim geðjaðist lítt að Jesú lærdómi, sem hvatti þá fremur til að afneita og hafna þessum jarðnesku hlutum, enn að sækjast eptir þeim. Þannig fer það enn fyrir öllum holdlega sinnuðum mönnum; þeir hljóta að hafa óbeit á Jesú trúarbrögðum meðan hjörtu þeirra eru full af heimselsku og laungun eptir að seðja girndir sínar; og þó þeir vilji þjóna bæði Guði og heiminum, hljóta þeir þó fljótt að verða þess varir, að þetta er ómögulegt, að þeir eru óhæfilegir til að færa sèr Guðs náð í nyt, meðan hjörtu þeirra eru fjötruð af heimselsku og holdlegum tilhneigíngum, og að það er satt, sem frelsarinn segir: „einginn kann tveimur herrum að þjóna, því annaðhvort afrækir hann þann eina og elskar hinn annan, eða aðhyllist þann eina og fyrirlítur hinn annan; þèr getið ekki undir eins þjónað Guði og mammoni“ (Matth. 6., 24.). Hve margir hafna ekki Guðs náð, af því þeir misbrúka frjálsræði sitt til sjálfsræðis og gjöra sèr rángar hugmyndir um hið sanna frelsi. Sem frjáls vera hatar maðurinn ánauð en elskar frelsi, en hann villist opt í dómi sínum um sannarlegt frelsi, og heldur, að hann sè frjáls þegar hann er í ánauð og að hann sè þræll, þó þau bönd, sem á hann eru lögð, geti staðizt með sönnu frelsi. Hvergi ber meir á þessu enn í trúarbragðaefnum. Hve mörgum þykja ekki áminníngar og aðvaranir guðsorðs vera þúngt ok og óbærileg byrði, en þykjast

frjálsir í þjónustu syndarinnar, þó þeir þá sèu í raun og veru í hinni þýngstu og eymdarfyllstu ánauð. Þeir halda, að þeir megi hugsa hvað þeir vilja um trúarbrögðin og að þeir þurfi eingu að trúa fremur enn þeim sjálfum sýnist; þeir sníða skyldurnar í hendi sinni, taka sèr allt sem lèttast og láta það sem mest á ríður sitja á hakanum, eins og þeir sem boðnir voru til kvöldmáltíðarinnar. Já, þegar vèr virðum fyrir oss breytni sumra kristinna manna, lèttúð þeirra og skeytíngarleysi um sín sáluhjálparefni, þá lítur það svo út eins og þeir haldi, að þeir hafi fullkomið frelsi til að lifa og láta hvernig sem þeir vilji, og að það standi rètt á sama, hvort þeir þjóni Guði eða syndinni, hvort þeir hagnýti sèr þau náðarmeðul, sem Guð hefur gefið þeim, eða ekki, hvort þeir sæki helgar tíðir og hlýði guðsorði, eða ekki, hvort þeir gángi til guðsborðs og með hvaða hugarfari þeir gjöri það, hvort þeir biðji Guð, vegsami hann og þakki honum, eða láti það ógjört. Þeir hata trúarbragðanna skuldbindíngar af því þeir elska syndanna fjötur og gæta þess ekki, að „hver sá, sem syndina drýgir, er syndarinnar þræll“; þess vegna vilja þeir heldur fara villuráfandi á þeim synda vegi, sem leiðir til glötunar, enn leggja það á sig að þræða lífsins veg og leyfa Guðs náðar anda inngaungu í hjarta sitt. Látum oss nú hugleiða, hve fávíslega þessir menn breyta.

II.

Mikil fásinna er á þeim mönnum, sem hafna Guðs náð og skorast undan að færa sèr hana í nyt. Um þetta getum vèr hæglega sannfærzt, hvort heldur vèr virðum fyrir oss þá guðlegu náð, sem þeir fyrirlíta, eða afsakanir þeirra og þeirra hættulegu afleiðíngar. Hvernig er þessari guðlegu náð varið, sem þeim er boðin, en sem þeir hafna? Þessi náð er einkaskilyrði fyrir allri sannarlegri farsæld syndugra manna. Þessari náð samlíkir frelsarinn við mikla kvöldmáltíð og táknar með því þá mörgu og miklu velgjörnínga, sem hans endurlausn veitir oss, tímanlega og andlega blessun og von um þá eilífu sáluhjálp, sem hann hefur afrekað oss. Þessi náð er svo háleit og ómræðileg, að Páll postuli biður Guð að gefa Efesusmönnum náð til að skilja, „hvílík að sè breidd, leingd, dýpt og hæð elsku Krists, sem yfirgeingur allan skilníng“ (Ef. 3., 18.). Stærð

og dýrmæti þessarar náðar sjáum vèr enn betur þegar vèr hugleiðum, með hvílíkri elsku og föðurlegri umönnun Guð býður oss hana; hvernig hann með mildiríkum fortölum og bendíngum leitast við að fá mennina til að aðhyllast hana, og með hve óþreytandi þolinmæði hann á öllum öldum hefur boðið þeim hana og býður þeim hana enn á öllum æfinnar stundum frá morgni til kvölds. þessa náð skorast, því miður, margir undan að þyggja og svipta þannig sjálfa sig þessum ómetanlega fjársjóði, sem þeirra eilífa farsæld er undir komin. Og hvers vegna gjöra þeir þetta? Einúngis til þess að geta verið þrælar holdsins og heimsins, geta haft allan hugann á hinum tímanlegu, fallvöltu og hverfulu gæðum og lifað eins og þeim sjálfum lízt. Ó, hvílík fásinna! Ef vèr nú enn fremur gætum að þeim viðbárum, sem menn eru vanir að afsaka með þá tregðu, er þeir sýna í að færa sèr Guðs náð í nyt, þá komumst vèr að raun um, að þær eru fánýtar og hègómlegar. þèr þykir það svo erfitt, kristinn maður! að bera umhyggju bæði fyrir þinni tímanlegu og þinni andlegu farsæld, að sameina þína jarðnesku og þína himnesku köllun, þó Guð sjálfur hafi nákvæmlega sameinað þetta og tekið þèr vara fyrir að vanrækja það. Hann, sem bauð þèr að efla þína sálubjálp með ótta og andvara, hefur boðið þèr að neyta þíns brauðs í sveita þíns andlitis; og mun hann, sem þekkir krapta þína betur enn þú sjálfur, heimta meira af þèr, enn þú getur afkastað? Er ekki mikið undir því komið, hvernig þú hagnýtir tímann, hverja reglu og aðferð þú hefur í gjörðum þínum? Einginn getur neitað því, að það voru leyfileg fyrirtæki, sem þeir afsökuðu sig með, er boðnir voru til kvöldmáltíðarinnar. Að skoða akur sinn, að reyna akneyti sín og festa sèr konu, var ekki einúngis í sjálfu sèr leyfilegt, heldur og áríðandi og mikilsvert; en hitt var heimskulegt að láta það sitja í fyrirrúmi fyrir öðrum skyldum, sem meira var í varið, og gjöra það, sem mátti slá á frest, einmitt á þeim tíma, sem átti að vera helgaður enum háleitari skyldum; og í þessari heimskulegu fásinnu gjörir þú þig sekan, kristni bróðir! ef þú gefur þig við veraldlegum störfum og þinni tímanlegu velferð, þegar þú ættir að efla þína sálarheill og starfa að þinni andlegu köllun, þegar þú breytir á móti þessu boði postulans: „gángið forsjállega, ekki sem fávísir, heldur sem vísir; notið

hinn hentuga tíma“! (Ef. 5.,15.). þú kvartar yfir því, kæri vinur! að þú verðir að verja svo miklum tíma til þinna jarðnesku sýslana, að þú fáir litla tómstund og tækifæri til að gegna þeim skyldum, sem viðvíkja þinni eilífu farsæld, þinni himnesku köllun; en ef þú teldir allan þann tíma, sem þú svo opt hefur sóað burt í óþarfa og iðjuleysi, ef þú teldir allan þann tíma, sem þú hefur spillt með óreglu og útsjónarleysi í verkum þínum, mundir þú þá ekki hafa feingið marga stund afgángs, sem þú hefðir getað varið til að efla sáluhjálp þína og búa þig undir eilífðina? Eða veiztu ekki, að þetta líf er gefið þèr til undirbúníngs undir annað líf, og að það er fávíslegt að verja því öðru vísi? þú stynur undir byrði þinnar jarðnesku köllunar og ángrast, ef til vill, sjálfur af því, að þessi störf draga huga þinn frá Guði og gjöra þig óhæfilegan til að gegna æðri skyldum; en tókst þú ekki einatt sjálfur af frjálsum vilja þessa byrði þèr á herðar, án þess þú hefðir þurft þess? Eða mundir þú vilja leggja hana frá þèr þótt þú gætir? En hafi aðrir lagt á þig þessa byrði, getir þú ekki skilið þig við hana án þess að vanrækja skyldur þínar sem fèlagsmaður, hefur þú það þá hugfast, að þú auk þinnar tímanlegu köllunar hefur feingið aðra æðri og veglegri köllun af Guði, og að þú ekki einúngis átt að efla þína tímanlegu velferð, heldur öllu fremur þína eilífu sáluhjálp, og að boði frelsarans „fyrst leita guðsríkis og hans rèttlætis“ (Matth. 6., 33.)? Gætir þú þess, að til að fá inntöku í guðsríki, er það ekki einhlítt, að gegna rækilega sínum tímanlegu skyldum, heldur verður þú með Guðs hjálp að leggja stund á þína eigin betrun, leitast við að fá guðrækilegt hugarfar, sem stjórnist af elsku til Guðs og umhyggju fyrir þinni eilífu farsæld? Að vanrækja þetta er mjög fávíslegt. En eins fávíslegt er að hafna Guðs náð af þeirri ástæðu, að skuldbindíngar trúarbragðanna þraungvi mannlegu frelsi. Hverjar eru þessar skuldbindíngar? að hagnýta sèr náðarmeðulin, taka þátt í hinni opinberu guðsþjónustugjörð og lesa og heyra guðsorð kostgæfilega? Og hvern tilgáng hafa trúarbrögðin með þessu? Að upplýsa vorn skilníng, laga vorn vilja, að sefa syndsamlegar girndir og tilhneigíngar og vekja hjá oss laungun eptir hinu æðsta góða. Er þá þetta gagnstætt mannlegu frelsi? Miðar það ekki einmitt til þess að gjöra oss

sannarlega frjálsa? Vissulega megum vèr þakka góðum Guði fyrir það, að hann lætur ljós sinna heilögu orða vísa oss á veg eilífs lífs og sýnir oss með því, að það er hans náðugur og vísdómsfullur vilji, að vèr komumst til þekkíngar á sannleikanum og verðum sáluhólpnir. Vissulega megum vèr þakka honum fyrir það, að hann alltaf lætur boða oss sitt blessaða lífsins orð, alltaf kallar oss til að verða aðnjótandi hans náðar fyrirheita, alltaf sendir út þjóna sína og lætur þá segja til vor: „komið! því að nú eru allir hlutir til reiðu". Ó, hve nauðsynlegar eru ekki þessar laðanir og lokkanir guðlegrar gæðsku vegna vanmáttar vors og ódugnaðar til hins góða! Hvernig yrðum vèr vaktir af voru holdlega andvaraleysi og vorum synda svefni, ef Guð ekki vekti oss? Hvernig ættum vèr að geta snúið af vorum syndsamlegu vegum og komizt á rèttan veg, ef Guð ekki leiðbeindi oss? Hvaðan ættum vèr að fá krapta til hins góða, ef hann ekki styrkti oss? Höfum vèr ekki þörf á því, eins og þeir sem boðnir voru í guðspjallinu, að vèr sèum neyddir, hvattir og uppörfaðir til að velja hið góða og aðhyllast Guðs náð? Og þessar kröptugu hvatir og uppörfanir eru einmitt að finna í þeim trúarbrögðum, sem Guð hefur gefið oss. Loksins sannfærumst vèr einna bezt um, hve fávíslega þeir breyta, sem hafna Guðs náð, með því að hugleiða þær hættulegu afleiðíngar, sem það hefur. Ein af þessum hættulegu afleiðíngum er þá fyrst og fremst sú, að með því að hafna Guðs náð verða menn æ tregari og tregari til að aðhyllast hana og óhæfilegri til þess. Í andlegum efnum er mönnum eins varið og í hinum tímanlegu efnum; því meir sem maðurinn venur sig á iðjuleysi, þess meiri óbeit fær hann á að vinna, því bágra á hann með að koma sèr til að taka sèr verk í hönd og því óhæfilegri verður hann til allra starfa. Sá, sem leingi hefur vanrækt heyrn og lestur guðsorða, getur bezt borið um, hversu erfitt honum veitti að fá sig aptur til þessara guðræknis iðkana; sá, sem leingi hefur vanrækt að gánga til Drottins kvöldmáltíðar, eða hvað eptir annað neytt hennar í hugsunarleysi, með lèttúðarfullu hugarfari og fyrir siða sakir, getur bezt borið um, hve bágt hann á með að fá sig til að gjöra þetta verðuglega og eins og samboðið er þessu háleita sakramenti. Í stuttu máli: með því að vanrækja Guðs náðarköllun

og veita náðarinnar verkunum mótspyrnu, verður hjarta mannsins alltaf harðara og sljófara, svo hann að lokunum missir gjörsamlega sjónar á því, sem til hans friðar heyrir. Þeir sem hafna Guðs náð svipta sjálfa sig ekki einúngis laungun og hæfilegleika til að þyggja hana, heldur og tímanlegri, andlegri og eilífri blessun Drottins og baka sèr tímanlega og eilífa ófarsæld. „Einginn þeirra manna, sem kallaðir voru", segir Jesús, „mun smakka mína kvöldmáltíð". Að vísu ber það einatt við, að margir þeirra, sem fyrirlíta Guðs náð og fótumtroða hans boðorð, eiga tímanlegum lukkukjörum að hrósa, upphefð og auðæfum, heilbrigði og hárri elli. En þó Guð af gæðsku sinni veiti iðrunarlausum og óguðlegum mönnum sínar gáfur, vantar þá þó hans blessun og fullvissu um hans náðarríku velþóknun, og vanbrúkun þessara gáfna gjörir þá enn þá ófarsælli, upphefðin leiðir þá til ofmetnaðar, auðlegðin til ásælni, ágirndar eða eyðslusemi, heilbrigðin kemur þeim til að ljá limi sína löstum og ránglæti til þjónustu, og hár aldur eykur forherðíng þeirra í syndum og löstum. Að vísu upprennur hin sama náðarsól yfir guðhrædda og óguðlega og hvorirtveggi hafa hlutdeild í Guðs andlegu velgjörníngum; þeir heyra hið sama guðsorð, neyta hinnar sömu náðarmáltíðar; hinn sami andi leitast við að hafa áhrif á þeirra hjörtu og gjöra þá ávaxtarsama í góðum verkum. En — hvað stoðar þetta? Standa ekki hinir óguðlegu samt sem áður eins og ófrjófsöm trè í Drottins víngarði? Hvaða gagn hafa þeir af því, að geislar náðarinnar falla á þá, að dögg náðarinnar vökvar þá, að herra víngarðsins ber umhyggju fyrir þeim, þegar þeir eins fyrir það eru ávaxtarlausir? Auka þeir ekki með þessum mótþróa syndasekt sína? Mun ekki öxin að lokunum verða sett til rótar trjánna, og þessi ófrjófsömu trè verða upp höggvin og þeim á eldinn kastað? Já, í eilífðinni birtist það til fulls, hve ófarsælar afleiðíngar það hefur, að fyrirlíta Guðs náð, því þeir, sem „hafa forsmáð ríkdóm hans gæðsku, þolinmæði og lánglundargeðs og ekki látið þetta leiða sig til yfirbótar, safna sjálfum sèr", eins og Páll postuli að orði kemst, „reiði á degi reiðinnar og opinberunar Guðs rèttdæmis, sá er sèrhverjum mun endurgjalda eptir hans verkum" (Róm. 2., 4.). Guð gæfi, að þessi orð postulans væru djúpt gróðursett í hjörtum syndugra manna, að þau sannfærðu

þá um þeirra miklu fásinnu og þá hættu, sem þeir stofna sèr í með því að hrynda guðlegri náð frá sèr. Guð gæfi, að allir þeir, sem nú eru skeytíngarlausir um áminníngar og bendíngar hans eilífu náðar, feingju gætt þess, að tilgángur hennar er ekki annar enn sá að efla þeirra eigin farsæld, og að þeir hafna sáluhjálp sinni meðan þeir hafna guðlegri náð. Æ, leyfum þá Guðs náðar anda inngaungu í vor hjörtu, svo vèr hèr eptir látum oss mest af öllu umhugað um að leita Guðs ríkis og hans rèttlætis, þángað til vèr, rèttlættir af náð, flytjum hèðan úr hans náðarríki inn í hans himneska dýrðarríki. Amen.

---

## Á þriðja sunnudag eptir trinitatis.

### Bæn.

Þú komst í heiminn, himneski lausnari! til að frelsa hið týnda og glataða. Þinn lærdómur, þín breytni, pína þín og dauði miðaði til þess að leita þinna villuráfandi sauða, og jafnvel þínir óvinir urðu að gefa þèr þann vitnisburð, að þú tækir að þèr synduga menn. Hjálpa þú oss til að sjá, hve huggunarfullur þessi sannleiki er, og hagnýta oss hann til eflíngar vorrar sáluhjálpar! Láttu vorar guðlegu hugleiðíngar á þessari stundu vekja og glæða hjá oss laungun eptir þinni náð, og láttu þessa laungun bera blessaða ávexti í sálum vorum og líferni voru! Æ, þú sem tekur að þèr synduga menn og hefur sjálfur heitið, að þú skulir eingan frá þèr reka, sem til þín kemur, láttu þenna huggunarfulla sannleika vera djúpt gróðursettan í vorum hjörtum, svo vèr leitum þín, hlýðum og treystum þèr í lífi og dauða! Amen.

### Guðspjallið
(Lúk. XV., 1.—10.).

En allir tollheimtumenn og bersyndugir nálguðust Jesúm til að heyra kenníngu hans; en skriptlærðir og farísearnir mögluðu og sögðu: þessi tekur að sèr bersynduga menn og etur með þeim. Jesús sagði til þeirra þessa eptirlíkíngu: Hver er sá af yður, sem á hundrað

sauði og týnir einum af þeim, að hann yfirgefi ekki þá níu og níutíu á eyðimörku, og leiti að þeim sem glataðist þángað til hann finnur hann? en þegar hann hefur fundið hann, leggur hann þann sama með fögnuði sèr á herðar, kemur heim og kallar saman vini og nábúa, og segir til þeirra: samgleðjist með mèr, því eg hefi minn sauð aptur fundið, þann er glataður var. Eg segi yður: meiri gleði mun verða á himni yfir einum syndugum, sem bætir ráð sitt, enn yfir níu og níutíu rèttlátum, sem ekki þurfa yfirbótar við. Eða — hver er sú kona, sem á tíu peninga og týnir einum, að hún ekki kveiki ljós, sópi húsið og leiti vandlega þángað til hún finnur hann? en þegar hún hefur hann fundið, kallar hún á vinkonur sínar og grannkonur segjandi: samgleðjist með mèr! því eg hefi minn peníng aptur fundið, sem eg týnda. Þannig munu einglar Guðs gleðjast yfir einum syndugum er yfirbót gjörir.

## Inngángur.

„En allir tollheimtumenn og bersyndugir nálægðu sig Jesú, svo að þeir heyrðu kenníngu hans; en hinir skriptlærðu og farísearnir mögluðu og sögðu: þessi tekur að sèr bersynduga menn og etur með þeim". Þá flutti Jesús þær hinar þýðíngarmiklu dæmisögur, er vèr heyrðum í þessa dags heilaga guðspjalli, dæmisöguna um hinn týnda sauð og hinn glataða peníng, og síðan bætti hann við þriðju dæmisögunni um tapaða soninn. Allar þessar dæmisögur sýna oss Guðs eilífu náð og föðurlega kærleika, sem með óþreytandi þolinmæði leitar að oss syndugum mönnum og vill leiða oss af glöturinnar vegi á lífsins veg, af syndarinnar villustigum til sinna himnesku föðurhúsa. Með þessum dæmisögum vildi Jesús segja hinum skriptlærðu og faríseunum, að þeir skyldu ekki furða sig á því, þó hann tæki að sèr bersynduga menn og hefði samneyti við þá, því hann væri sendur af föðurnum til að leita að hinum týndu og töpuðu og leiða þá í hans himneska náðarfaðm. Án fleiri inngángs

orða viljum vèr í þetta sinn taka oss til hugleiðíngar þenna vitnisburð Gyðínganna um Jesú:

*Þessi tekur að sèr bersynduga menn og etur með þeim*, og íhuga, í hverjum tilgángi þessi orð voru töluð, og hve huggunarfull þau eru fyrir oss.

Af hatri og í vonzkufullum tilgángi báru farísearnir Jesú á brýn, að hann tæki að sèr bersynduga menn og hefði samneyti við þá. Þeir hötuðu Jesúm, af því hann ávalt talaði sannleikann og sagði þeim til syndanna; en þeir þoldu ekki, að hann kæmi við kaun þeirra. En hann, sem kominn var til að bera sannleikanum vitni, hlífðist ekki við að sýna hræsni þeirra og skinhelgi, og þetta gat eigingirni og drambsemi þeirra því síður þolað, sem þeir óttuðust fyrir, að lýðurinn mundi leggja trúnað á orð hans og að það mundi rýra álit sitt í augum alþýðunnar. Hatur þeirra lýsti sèr í allri breytni þeirra við Jesú, bæði í þeim ofsóknum og árásum, sem þeir veittu honum, og þeim slægðarfullu spurníngum, sem þeir lögðu fyrir hann. Það var þetta hatur, sem einnig lagði þeim þessi orð í munn: „þessi tekur að sèr bersynduga menn". Þegar vèr virðum þessi orð fyrir oss, sjáum vèr, hvernig þau eru sprottin af heipt og hatri, og hvernig hvert þeirra er fullt af eitri og beiskju, svo það á hèr við, sem postulinn Páll segir: „opnuð gröf er gin þeirra, með túngum sínum tæla þeir, höggorma eitur er undir vörum þeirra, og munnur þeirra er fullur af bölvun og beiskleika" (Róm. 3., 13.). „Þessi", segja þeir, „tekur að sèr bersynduga menn"; þeir virða hann þess ekki, að nefna hann með nafni, heldur kalla hann þessi, í fyrirlitníngar skyni. Það er eins og þeir í háði og skopi hafi ætlað að segja: „er það þessi, sem þykist vera Messías og Guðs son"? „Er það þessi, sem segir, að einginn geti sannað upp á sig nokkra synd"? „Sem læzt vera heilagri enn allir aðrir? og þó hittum við hann í þessum tortryggilega fèlagskap, sitjandi til borðs með tollheimtumönnum og bersyndugum. Hvernig verður þetta rímað saman við hátign hans og heilagleika"? „Þessi", segja þeir, „tekur að sèr bersynduga". Þeir segja, að hann taki að sèr, eða meðtaki bersynduga, og

hafa um það orð, sem merkir innilegan fèlagskap, samneyti vina og kunníngja, hvers vegna þeir og á öðrum stað kalla hann „vin tollheimtara og bersyndugra“ (Lúk. 7., 34.). það er gamalt máltæki, að líkur sækir líkan heim, og menn eru vanir að dæma um aðra eptir því, saman við hverja þeir helzt leggja lag sitt; þess vegna leitast nú farísearnir við að sverta Jesúm og gjöra breytni hans tortryggilega, með því að vekja athygli lýðsins á þeim mönnum, sem hann helzt hafi kunníngskap við. Og hvernig lýsa þeir nú þessum mönnum? Sem bersyndugum. „þessi“, segja þeir, „tekur að sèr bersynduga“. Bersynduga kölluðu Gyðíngarnir þá, sem höfðu gjört sig bera að einhverjum glæp og þannig skert mannorð sitt. þeir eru hèr, eins og víðar í nýja testamentinu, settir samsíða tollheimtumönnum, sem Gyðíngarnir hötuðu og fyrirlitu; þeir álitu þá næstum því óhreina og vildu ekki hafa samneyti við þá. Með því að sýna samneyti Jesú við þessa menn, var það tilgángur faríseanna að gjöra hann óvinsælan og æsa lýðinn upp á móti honum. það er sagt í guðspjallinu, að þeir hafi möglað, það er að skilja: látið óánægju sína opinberlega í ljósi, og sýnir þetta eins og ákæran sjálf, með hve mikilli heipt og hatri þeir ofsóttu frelsarann. Vèr lærum af þessu, kristnir bræður! hversu hætt oss jafnan er við að dæma rángt um aðra og breytni þeirra, á meðan vèr látum oss blinda af hatri og hefndargirni. Vèr sjáum einnig af því, hvernig heimsins börn fara að rógbera og ófrægja aðra. þau hafa ekki ætíð lygi og ósannindi til þess, því þess konar aðferð kæmist fljótt upp, og það mundi rýra það álit og orð fyrir sannsögli, sem þau þurfa að hafa til að ná tilgángi sínum. þess vegna hafa þau sannleikann til að hylja með vonzku sína, en segja hann, eins og faríseanir í guðspjallinu, með svo særandi orðum, á svo fyrirlitníngarfullan hátt og með svo tortryggilegum og háðslegum svip, að hann verður enn þá hættulegri enn ósannindin sjálf.

þó faríseanir í vonzkufullum tilgángi bæru Jesú á brýn, að hann tæki að sèr bersynduga, var þó þessi vitnisburður þeirra um hann sannur, og þetta er næsta áríðandi fyrir oss. þenna vitnisburð sjáum vèr staðfestan af spámönnunum, af Jesú óvinum, af Jesú sjálfum og postulum hans og af allri

frelsarans breytni. Alstaðar í sínu orði hefur Guð brýnt fyrir oss þann huggunarfulla sannleika, að Jesús tekur að sèr synduga menn, það er að skilja: að hann býður og veitir þeim hlut-tekníng í þeirri farsæld, sem Jesús með sinni friðþægíngu hefur afrekað þeim, býður og veitir þeim hlutdeild í sinni föðurlegu náð og gæðsku. Þenna sannleika sjáum vèr staðfestan af ritum spámannanna. Esaías spámaður kemst svo að orði: „Sjá, mínum þjóni, sem eg leiði við hönd mèr, mínum útvalda, á hverjum eg hefi velþóknan, honum hefi eg minn anda gefið. Hinn brákaða reyrinn mun hann ekki í sundur brjóta og hinn dapra línkveik mun hann ekki út slökkva“ (42., 1., 3.). Og á öðrum stað segir sami spámaður: „hann bar vor sár og lagði á sig vor harmkvæli. Vegna vorra misgjörða var hann særður og fyrir vorra synda sakir lemstraður; hegníngin lá á honum, svo vèr hefðum frið, og fyrir hans benjar urðum vèr heil-brigðir“ (53., 4.—5.). „Eg vil leita hins týnda“, segir Esekíel spámaður í Drottins orða stað, „sækja hið hrakta, binda um hið limlesta, hjúkra hinu vanfæra“ (34., 16.). Já það er samhljóða vitnisburður spámannanna, sem postulinn Pètur segir, „að hver sá, sem á frelsarann trúir, skuli fyrir hans nafn fá syndanna fyrirgefníng“. Þenna sannleika sjáum vèr staðfestan af vitnisburði Jesú óvina. Það hlýtur jafnan að styrkja sannleikann þegar óvinir verða að játa hann, og það má reiða sig á, að þegar óvinir gefa einhverjum góðan vitnisburð, þá muni hann vera sannur. Og hve trúanlegur er þá ekki einnig í þessu tilliti sá sannleiki, að Jesús tekur að sèr synduga menn. Þó þessi vitnisburður faríseanna um Jesú væri sprottinn af heipt og hatri og miðaði til að ófrægja hann, varð hann þó til þess að gjöra þann sannleika, sem hann hafði að geyma, enn þá veglegri og vissari. Kraptur sannleikans er svo sigur-sæll og geislar hans eru svo bjartir, að því meir sem reynt er til að bæla hann niður, þess meir útbreiðist hann, og því meir sem reynt er til að skyggja á hann, þess meiri birtu ber hann, rètt eins og sólin, sem skín hvað skærast þegar hún kemur fram undan dimmu skýi. Þökk sè góðum Guði fyrir það, að við óvina árásir hefur ljós hans sannleiks orða aldrei deprast, heldur logað enn þá skærar. Á öllum öldum hafa þeir menn verið til, sem eins og farísearnir og hinir skriptlærðu hafa

leitast við að ófrægja Jesú, reingja hans lærdóm og tortryggja þann sannleika, að hann taki að sèr synduga menn; en hverju hafa þeir komið til leiðar? Ekki nema því, að menn hafa því betur rannsakað hin kristilegu trúarsannindi, að sannanir og ástæður fyrir þeim hafa við það orðið enn þá skýrari og ljósari og óvinir þeirra hafa orðið sèr til minnkunar. þenna sannleika sjáum vèr staðfestan af Jesú og hans postulum. Í Jesú munni voru aldrei svik fundin, því hann var sannleikurinn sjálfur, og því er hans vitnisburður einnig í þessu tilliti svo áreiðanlegur. því fer svo fjarri, að Jesús beri á móti því, að hann taki að sèr bersynduga, að hann játar því upp á sig, færir ástæður fyrir breytni sinni og sýnir, að endurlausnara mannkynsins bar að gjöra þetta. Ó, hve hjartnæmar og fagrar eru þær samlíkíngar, sem frelsarinn framsetur í guðspjallinu, um hinn týnda sauð og hinn glataða peníng, til að sýna með þeim þá elskuríku umhyggju, sem hann beri fyrir syndugum mönnum. En einna hjartnæmust er þó dæmisagan um hinn tapaða son, sem kemur rètt á eptir hinum tveimur í sama kapítula hjá Lúkasi guðspjallamanni. Hvað ætlar Jesús sèr að sýna með þessum þremur dæmisögum nema sína óendanlegu miskunsemi við synduga menn, sem ekki einúngis kemur honum til að taka þá að sèr þegar þeir koma til hans, heldur og til að leita sjálfur að þeim, draga þá út úr þeirra villu og leiða þá á rèttan veg? Um þetta fullvissar Jesús oss líka með berum orðum, þar sem hann segist vera kominn til „að kalla synduga menn til iðrunar“ og „til að frelsa hið glataða“; „að einginn komist til föðursins nema fyrir hann“, og „að Guð hafi ekki sent sinn son í heiminn til að fyrirdæma heiminn, heldur til þess að heimurinn frelsist fyrir hann“. Nálega á hverju blaði í postulanna ritum erum vèr fullvissaðir um, „að vèr erum friðþægðir við Guð fyrir dauða hans sonar“, „að vèr, rèttlættir af trúnni, höfum frið við Guð og aðgáng til hans náðar“, „að vèr vegna Jesú Krists erum teknir í sátt við Guð og orðnir hans elskuleg börn“; já, nálega á hverju blaði í postulanna ritum er Jesús settur oss fyrir sjónir sem sá, er tekur að sèr synduga menn, líknar þeim og miskunar. þenna vitnisburð sjáum vèr staðfestan af allri Jesú breytni. „þau verk, sem eg gjöri“ segir hann sjálfur, „vitna um mig“ (Jóh. 5., 36.).

Og sannarlega vitnuðu Jesú verk um hans háleitu köllun og guðdómlegu sendíngu og staðfestu þann lærdóm, að hann var Guðs lamb, sem átti að bera heimsins syndir; já, ekki einúngis verkin, heldur öll hans breytni við synduga menn, sýndu, hve innilegan þátt hann tók í þeirra kjörum, hve annt honum var um að bæta úr þeirra tímanlegu og andlegu eymd. Til hvers miðaði hans lærdómur, hans áminníngar og gjörvalt líf hans hèr á jörðu, nema til þess að leiða synduga menn til iðrunar og eilífs lífs? Hvað sýnir Jesú viðleitni á að gjöra oss hluttakandi í sinni endurlausn, þegar hann fræðir oss með sínu orði, helgar oss með náð síns anda, gróðursetur sanna og lifandi trú í vorum hjörtum, og reynir til að gjöra oss að Guðs börnum og erfíngjum eilífs lífs; hvað sýnir þetta annað enn það, að sá vitnisburður er sannur, að Jesús tekur að sèr synduga menn? En eins og þessi vitnisburður er sannur og áreiðanlegur, eins er hann líka óvenjulega huggunarfullur fyrir synduga menn, hvernig sem ástatt er fyrir þeim. Að vísu geta hinir iðrunarlausu ekki fundið til þeirrar huggunar, sem þessi sannleiki felur í sèr, meðan þeir ekki leyfa Guðs anda að vekja sig af syndasvefni sínum, meðan þeir elska heiminn og syndina, meðan þeir láta sèr stjórna af syndsamlegum girndum og tilhneigíngum og eru drukknir af munaði þessa lífs. En undir eins og samvizka þeirra tekur til að vakna, undir eins og þeir fara að verða varir við sitt eymdarfulla ástand, þá ófarsæld, sem þeir hafa bakað sèr, og þá hegníngu, sem yfir þeim vofir, þá verða þeir þess líka varir, að ekkert getur veitt þeim aðra eins huggun og hugarrósemi og sá lærdómur, að Jesús tekur að sèr synduga menn. Liggi þeim þá við að örvænta sèr Guðs náðar og hugsa, að þeir sèu svo stórsyndugir, að þeim sè ekki fyrirgefníngar von, þá þurfa þeir ekki annað enn hugsa til þess, hvílíkir þeir syndarar voru, sem guðspjallið segir, að Jesús hafi tekið að sèr, og þetta hlýtur að hugga þá og vekja hjá þeim traust á guðlegri náð, einkum þegar þeir jafnframt minnast þeirra mildiríku fyrirheita, sem Drottinn í sínu orði hefur gefið öllum þeim, sem iðrast synda sinna, að "þó syndir þeirra væru sem skarlat, þá skuli þær verða hvítar sem snjór, og þó þær væru rauðar sem

skarlatsormur, þá skuli þær verða sem ull" (Es. 1., 18.). Einginn er því svo stórsyndugur, að hann megi ekki vænta sèr miskunar og náðar hjá Guði; eingin synd er svo stór, að hún verði ekki fyrirgefin fyrir Jesú skuld, sem er orðinn friðþægíngarfórn fyrir syndir allrar veraldarinnar. En syndugir menn verða að varast að draga ránga huggun út af þessum huggunarfulla sannleika. Ó, hve heimskulegt er ekki að hugsa, að menn í trausti til Guðs náðar megi halda áfram að syndga, og að þeir megi sofa í andvaraleysi, fyrst þeir eigi náðugan frelsara, sem taki að sèr syndarana! Ó, hve hættuleg er ekki þessi ímyndun, sem kemur mörgum til að slá iðrun sinni á frest, dregur þá alltaf leingra og leingra niður í djúp spillíngarinnar og gjörir þá því óhæfilegri til að hafa samneyti við þeirra heilaga frelsara, svo þegar þeir í eilífðinni vakna af syndasvefni þessa lífs, mega þeir með ángist og örvæntíng biðja „fjöllin að hrynja yfir sig og hálsana að hylja sig" (Lúk, 23., 30.)! Vilji því iðrunarlausir syndarar hafa sanna huggun af þeim lærdómi, að Jesús tekur að sèr synduga menn, þá verða þeir sem frávilltir sauðir að snúa sèr til ens góða hirðisins, og kappkosta að verða á vegi fyrir honum, þar sem hann er að leita þeirra; þá verða þeir, eins og hinn glataði sonur, að taka þann ásetníng fyrir sig, að snúa aptur heim til föðurhúsanna, kasta sèr niður fyrir fætur síns himneska föður og játa, að þeir hafi syndgað og sèu ómaklegir að kallast hans börn; þá verða þeir líka að sýna, að iðran þeirra sè einlæg og alvarleg og láta ávexti iðrunarinnar sjást í líferni sínu og breytni sinni, leggja niður brek og bresti, en ástunda að taka framförum í því, sem gott er. Jesús tekur að sèr synduga menn. Ó, hve huggunarríkur er þessi sannleiki fyrir alla iðrandi syndara, sem eru teknir til náðar af Guði! huggunarríkur í breyskleika og freistíngum, í lífi og dauða. Þegar þú, kristinn maður! stynur undir byrði breyskleika þíns og finnur með ángri og iðrun til þess, hve veikur og vanmáttugur þú ert, hve kaldsinna og kæríngarlaus þú ert um allt, sem gott er, þá veiztu þèr til huggunar, að Drottinn vill ekki sundurbrjóta hinn brákaða reyr, þá heyrir þú frelsarans blíðu rödd, sem ávarpar þig og alla iðrandi menn þannig: „komið til mín, allir þèr, sem þreyttir eruð og þúnga

hlaðnir! eg vil gefa yður hvíld" (Matth. 11., 28.). Sèrtu undirorpinn freistíngum, leitist heimurinn við að ginna þig með munaði sínum og verði þèr á að hlýða hans tælandi röddu, þá getur þú hjá Jesú feingið fyrirgefníng á þessum þínum breyskleika yfirsjónum og krapta til að sigrast á freistíngunum. Liggi þèr við að örvænta þèr Guðs náðar og samvizka þín ásaki þig, þá fullvissar Jesús í sínu orði þig um, að „það er eingin fyrirdæmíng framar yfir þeim, sem eru í Jesú Kristi, sem ekki gánga eptir holdinu, heldur eptir andanum" (Róm. 8., 1.), og „að vèr höfum árnaðarmann hjá föðurnum, Jesú Krist hinn rèttláta, sem er orðinn forlíkan fyrir vorar syndir, þó ekki einúngis fyrir vorar, heldur og fyrir allrar veraldarinnar syndir" (1. Jóh. 2., 1.—2.). Já, hvernig sem ástatt er fyrir þèr, er þessi sannleiki huggunarfullur fyrir þig á sèrhverri stundu, í sèrhverri stöðu lífsins. Og þegar dauðinn nálgast og fer að leysa sundur lífsins bönd, þegar Jesús kemur til að leiða þig til enna himnesku föðurhúsa eins og hann hefur heitið, hve hughraustur getur þú ekki tekið dauða þínum og dáið í Jesú nafni, fullviss um, að hann tekur að sèr synduga menn!

Himneski lausnari! sem á þessari stundu hefur verið oss nálægur í þínu heilaga orði og fullvissað oss um, að þú tekur að þèr synduga menn, æ, láttu það sæði, sem sáð er í hjörtunum, vaxa og bera margfaldan ávöxt! Hjálpa þú sèrhverjum af oss til að gánga þannig á lífsins vegi, að vèr á vorri dauðastundu megum treysta því, að þú munir taka oss að þèr, og getum hughraustir sagt: Drottinn Jesú! meðtaktu minn anda! Amen.

---

## Á fjórða sunnudag eptir trinitatis.

### Bæn.

Þitt alskyggna auga, Drottinn! sèr það, sem í myrkrunum er hulið; þú einn þekkir vor hjörtu og vort sálarástand, þess vegna ert þú rèttlátur dómari. En þú ert líka miskunsamur dómari, því að þú ert eilífur kærleiki. Gakk ekki í rèttlætisdóm við oss, góði faðir! því hver fær þá staðizt fyrir þínum dómi? Breyskleiki vor er mikill, og syndir vorar eru margar, en þó er þín náð stærri. Fyrirgefðu oss því í Jesú nafni vorar skuldir, og gef þú oss náð til þess, að fyrirgefa vorum skuldunautum; láttu umhugsun vorra skulda og þinnar miskunar vekja hjá oss kærleiksfullt hugarfar til vorra meðbræðra, svo vèr getum líkzt þèr í miskunsemi, eptir því sem oss breyskum og syndugum mönnum er mögulegt; láttu þá umhugsun jafnan vera vakandi hjá oss, að vèr innan stundar eigum allir að mæta fyrir þínum dómi, og að vèr þá allir þurfum miskunar við! Amen.

### Guðspjallið

(Lúk. VI., 36.—40.).

Jesús sagði við sína lærisveina: Verið miskunsamir, eins og faðir yðar er miskunsamur. Eingan skuluð þèr dæma, svo þèr dæmist ekki; fordæmið ekki, svo þèr verðið ekki fordæmdir; fyrirgefið, og þá mun yður fyrirgefið verða; gefið, og þá skal yður gefast; góður mælir, troðinn, skekinn og fleytifullur mun yður gefinn verða; því með sama mæli og þèr mælið öðrum mun yður aptur mælt verða. Hann sagði þeim þessa eptirlíkíngu: hvort kann nokkur blindur blindan að leiða, falla þeir ekki báðir í gröfina? Lærisveinninn er ekki yfir sínum meistara; en sá sem er fullnuma, er jafn sínum lærimeistara. Hvernig fær þú sèð flísina í auga bróður þíns, en gætir ekki þess bjálkans, sem er í þínu eigin auga? Eða hvernig fær þú sagt við hann: bróðir! leyf þú, að eg taki flísina úr auga

þèr, meðan þú gefur ekki gaum að bjálkanum í þínu eigin auga? Þú hræsnari! drag fyrst út bjálkann úr þínu auga, og sjá þú þá svo til, að þú fáir dregið flísina úr auga bróður þíns.

## Inngángur.

„Verið miskunsamir eins og yðar faðir er miskunsamur“! segir frelsarinn í guðspjallinu. Ávalt leitaðist Jesús við, að lypta hjörtum tilheyrenda sinna til umhugsunar um breytni vors himneska föður, bæði til að styrkja sannfæríngu þeirra um hans föðurlegu gæðsku, og til að sýna þeim, hvernig þeir ættu sjálfir að breyta. Það er heldur ekkert betur lagað til þess að fá menn til að sjá ófullkomlegleika sinn og kannast við brot sín og breyskleika, enn að benda þeim upp til hins eilífa kærleika. Allt sem Guð hefur opinberað um sjálfan sig í sínu orði, sínum handaverkum og sinni forsjón, er samtaka í þeim vitnisburði, að hann er faðir allrar miskunar, faðir allra, sem börn kallast, og að hann aldrei þreytist af að viðhalda og ala önn fyrir sínum sköpuðu skepnum. Af föðurgæðsku skóp hann veraldir og verur, af föðurgæðsku bar hann umhyggju fyrir þeim á öllum öldum, af föðurgæðsku sendi hann í tímans fyllíngu sinn eingetinn son til að frelsa hið týnda og glataða, og leiða hin villuráfandi börnin aptur í sinn föðurfaðm. Þessi föðurgæðska nær ekki einúngis til allra yfir höfuð, heldur og til hvers einstaks sèr í lagi. Eða hefur þú ekki reynt það, kristinn maður! hvernig Guð hefur alið önn fyrir þèr sèr í lagi, og litið líknaraugum á þarfir þínar? Hann var aldrei fjarlægur, þegar þú nálgaðist hann í bænum þínum; hann lèt þig aldrei huggunarlausan, þegar þú leitaðir huggunar hjá honum með auðmjúku trúnaðartrausti. Sem þakklætismerki heimtar hann einúngis af þèr, að þú hafir þessa hans gæðsku jafnan í fersku minni, svo að endurminníng hennar geti vakið hjá þèr laungun eptir að líkjast honum, með því að sýna góðvild og miskunsemi í þínum verkahríng, hversu lítill og lítilfjörlegur sem hann kann að vera. Eins og Drottinn á hverjum degi sýnir, að hann sè vor faðir, eins eigum vèr á hverjum degi

að sýna, að vèr sèum hans börn. Og hvergi gefst oss eins gott færi á að líkjast og fylgja vorum algóða föður, eins og í viðskiptum vorum við aðra menn, í dómum vorum um þá, og breytni vorri við þá. Hvað stoðar oss að sækja helgar tíðir, að neyta Drottins kvöldmáltíðar, að leita hans í bænaákalli, ef það hefur engin betrandi áhrif á hjörtu vor, ef það getur ekki vakið neina mannelsku tilfinníng í voru brjósti, eða gjört breytni vora við samkristna bræður ástúðlegri og kærleiksfyllri? Og þegar vèr nú aptur lítum til hins daglega lífsins og virðum fyrir oss breytni manna yfir höfuð, hvað ber þá helzt fyrir augu vor? Er það það, að hver keppist á við annan í því, að líkjast Drottni í miskunsemi, kærleika og umburðarlyndi? eða er það ekki heldur hitt, að hver hugsi mest um sjálfan sig, og að margir, því miður, sýni öðrum kaldsinni og kærleiksleysi, og láti í ljósi öfund og ásælni, hatur og heiptrækni? Þetta er þó vissulega ekki samkvæmt vilja Guðs, sem skóp manninn í sinni mynd, í kærleikans fögru mynd, ekki samkvæmt dæmi og boðum Krists, sem sjálfur var ímynd hins eilífa kærleika, og bauð oss að læra af sèr og að líkjast miskunsemdanna föður. Þar sem Drottinn ætlaðist til, að sín börn fylgdust að á þessari stuttu lífsleið í ást og eindrægni og leituðu samhuga og í einum anda hinna eilífu föðurhúsa, þar sjáum vèr nú villuráfandi vegfarendur, sem með tvídrægnis og úlfúðar anda þrátta á veginum, sem fella ómilda dóma hvorir um aðra, og sjá ögnina í síns bróður auga, en gæta ekki að bjálkanum, sem er í þeirra eigin auga. Það er því öll þörf á því, kærir bræður! að vèr jafnan höfum hugfastar þær áminníngar, sem frelsarinn gaf í þessa dags heilaga guðspjalli: *að sýna öðrum miskunsemi og umburðarlyndi*, og vèr viljum verja þessari guðræknisstundu til þess, að hugleiða nokkrar af þeim helztu hvötum, sem Krists trúarbrögð taka fram, til þess að fá oss til að stunda þessar dyggðir.

---

Það er þá fyrst, að þegar Krists trúarbrögð áminna oss um að sýna miskunsemi og umburðarlyndi, þá minna þau oss á, að vèr sjálfir erum syndarar. Hinn holdlega sinnaði maður sèr ekki bresti sína nè spillíngu fyrr enn ljós kristinnar

trúar hellir geislum sínum í sálu hans og upplýsir hann um hans sálarástand. Í þessari blindni sinni er maðurinn svo gjarn á að áfella aðra, og hafa yndi af því að dæma þá og fordæma. Því meira álit sem hann hefur á sjálfum sèr, því minna þykir honum til annara koma, og þeir fá að reyna það með mörgu móti, að hann hefur tekið sèr dómsvald yfir þeim, og eins og sett sig í Guðs stað. Úr þessu dómarasæti getur ekkert rekið holdlega sinnaðan mann, nema áminníngar kristinnar trúar. Það er mannlegri eigingirni svo tamt og eiginlegt að vilja ekki kannast við neitt, sem heitir yfirsjón eða breyskleiki, í sínu fari, en velta því öllu yfir á náúngann, og þenna löst ala tveir aðrir ókostir í brjósti syndugs manns; en það eru drambsemin og tilfinníngarleysið: drambsemin, sem álítur eingann standa sèr jafnfætis, og tilfinníngarleysið, sem ekki kannast við neitt kærleiksband, og tekur sèr ekki nærri ógæfu annara nè glötun. Einginn hlutur getur stemmt stigu fyrir þessum löstum, nema lærdómur hans, sem var hógvær og af hjarta lítillátur, sem lítillækkaði sjálfan sig og tók á sig þjóns mynd, þó hann væri í Guðs mynd, og var hlýðinn allt til dauða á krossi. Hann hefur í sínum lærdómi sýnt oss Guðs heilaga vilja og sannfært heiminn um syndina, sannfært heiminn um það, að jafnvel hinir beztu meðal mannanna eru ónýtir þjónar, og að oss alla skortir þá hrósun, sem hjá Guði gildir, hann hefur kennt oss, að þeir einir geta orðið hæfilegir fyrir samfèlag Guðs og eilífa sælu, sem eru hreinhjartaðir, sem í hreinsun og helgun hjartans leitast við að líkjast Guði, og láta sèr í hugsunum, orðum og athöfnum stjórna af hans anda. Og ef maðurinn veitir þessum lærdómi inngaungu í hjarta sitt, þá lærir hann að þekkja sína syndasekt, og sèr, hversu lángt hann er frá helgunarinnar takmarki. Hvaða tilefni hefur hann þá til að hrokast upp yfir öðrum eða vera miskunarlaus við þá, þegar hann sjálfur þarf mikillar miskunar við af Guði? Það er áreiðanlegt, að Krists lærdómur hefur ekki fest rætur í hjarta þess manns, sem er ánægður með sjálfan sig, en óánægður með aðra; því iðranin byrjar með því, að ángrast af eigin syndum og vera óánægður með sjálfan sig. Maðurinn á eingann einlægari vin enn guðsorð; eigingirnin fegrar ávirðíngar hans og veröldin smjaðrar fyrir honum, en Krists lærdómur, sem vill leiða hann til sálu-

hjálpar, segir honum til syndanna og sannfærir hann um, að hann er náðarþurfi og minni allri miskunsemi og trúfesti Drottins, segir honum, að í Kristi einum sè frið að finna og hvíld fyrir sálir vorar. því betur sem þessi sannleiki rótfestist í sálum vorum, þess miskunsamari og kærleiksfyllri verðum vèr við vora brotlegu bræður. þá náð, þá þolinmæði og elsku, sem Guð sýnir oss, getum vèr ekki goldið honum sjálfum með því, að sýna honum miskunsemi, því hann er almáttugur, en vèr erum dupt og aska; en hann bendir oss á bræður vora og segir: „það sem þèr gjörið einum af þessum yðar minnstu bræðrum, það gjörið þèr mèr.“ þannig ávarpar oss áminnandi rödd guðsorða, og býður oss að sýna þeim miskunsemi, umburðarlyndi og meðaumkun, sem hefur orðið eitthvað á, eða sem hefur gjört á hluta vorn. Alla þá vægð og vorkunsemi, sem vèr getum sýnt, án þess að gjöra oss seka í yfirhylmíngu lastanna, eða deyfa tilfinníngu vora fyrir rèttu og raungu, það er oss boðið að auðsýna meðbræðrum vorum, svo þeir verði varir við þann bróðurlega kærleiksanda, sem veitir huggun og harmalètti, og svo vèr sýnum, að vèr leitum guðsríkis og metum það mest allra hluta. Hugleiðum því, kærir bræður! alla þá miskunsemi, sem vèr höfum reynt af Guði vorum og frelsara, alla hans náð og þolinmæði við oss, sem hefur átt að leiða sjálfa oss til betrunar, og jafnframt hvetja oss til að vera miskunsamir, eins og vor himneski faðir er miskunsamur, hvetja oss til að gánga á friðarins vegi með vorum bræðrum, sem eru breyskir eins og vèr, en hafa sama barnarètt, og eru eins og vèr á leiðinni til grafarinnar og eilífðarinnar.

Í öðru lagi hvetja Krists trúarbrögð oss til miskunsemi og umburðarlyndis við aðra, með því að minna oss á, að vèr með harðýðgisfullri breytni og ómildum dómum um aðra leggjum dóminn á sjálfa oss. Dæmið ekki, svo þèr verðið ekki dæmdir! fordæmið ekki, svo þèr verðið ekki fordæmdir! Vèr lifum í þeirri veröld, þar sem einginn er fullkominn, heldur eru allir undir syndina seldir. það er nauðsynlegt að minna sjálfan sig iðulega á ófullkomlegleika og breyskleika mannkynsins, til þess að heimta ekki of mikið af öðrum. þetta líf á að mennta oss og undirbúa undir eilífðina, og þessi framför kemur ekki allt í einu, heldur smátt og smátt;

þess vegna segist Jesús ekki vera kominn til að dæma heiminn, heldur til að frelsa og endurleysa heiminn; hann sá, að heimurinn þurfti hjálpar og líknar við, og var ekki fær um að dómur geingi yfir hann. Eins eigum vèr einnig að vera sinnaðir hver í sínum verkahríng. Sjálfur Guð dregur dóminn til þess, að eitthvað gott fái tíma til að dafna, og því fremur ættum vèr að líkjast honum í þessu, sem það er hans náð að þakka, að oss enn gefst tími og tækifæri til að búa oss undir þann mikla dóms og reikníngsskapar tíma. Hafi Krists andi feingið inngaungu í vor hjörtu, þá skjótum vèr á frest dómi vorum um aðra, og væntum þess, að mildiríkur Drottinn muni af náð sinni reisa hinn fallna á fætur aptur, því hann vill ekki dauða syndugs manns, heldur að hann snúi sèr og lifi. Það er einkum tvennt, sem ætti að aptra oss frá að hrapa að því, að dæma hart um vora meðbræður; fyrst og fremst það, að heilagur Guð dregur dóminn og eins og bíður eptir betrun syndarans, og annað það, að vèr getum ekki sèð inn í annara hjörtu, og því ekki rètt matið allt það, sem þeim getur verið til áfellis eða afsökunar. Þar að auk verðum vèr sætíð, þegar vèr viljum taka oss dómsvald yfir meðbræðrum vorum, ávarpaðir með þessum orðum: „hver ertu, sem annarlegan þjón dæmir“? Sèrhver stendur eða fellur sínum herra, en Guð er allra Drottinn og herra. Það eru ekki þýðíngarlaus orð, sem frelsarinn sagði: „með þeim sama mæli, sem þèr mælið öðrum, mun yður aptur mælt verða“; því þegar meðbræður vorir verða þess varir, að vèr breytum ómiskunsamlega við aðra, eða leggjum í vanda vorn að dæma um þá, er það náttúrlegt þó þeir hugsi, að vèr höfum ekki góðan mann að geyma, og að vèr verðum því fyrir hörðum dómi þeirra. Þar að auki hlýtur samvizkan að áfella oss fyrir miskunarleysi og harða dóma, þegar vèr gjörum oss seka í slíku, og þannig fordæma vora eigin breytni. En það eru ekki einúngis manna dómar, sem vèr eigum að hafa tillit til eða hræðast; því opt veitir hægt að komast hjá þeim og villa sjónir fyrir þeim. Það er ekki einúngis rödd samvizkunnar, sem á að fríkenna eða fordæma oss; því hversu hægt veitir ekki að svíkja hana og svæfa, að minnsta kosti um stundar sakir? Annar æðri og rèttlátari dómur á að verða haldinn yfir oss, önnur hærri og

hljómmeiri rödd á að kalla oss til reikníngsskapar. Og þá eigum vèr að standa reikníngsskap af sèrhverjum ómildum og kærleikslausum dómi, sèrhverju miskunarlausu verki. Og hver af oss veit, hve bráðlega þessi dómur verði upp kveðinn yfir hverjum einum? Hversu fljótt líða ekki vorir reynsludagar: þessar stuttu og hverfulu stundir lífsins, sem oss eru ætlaðar til undirbúníngs undir eilífðina! þær hlaupa með hraðri rás, dagurinn líður og nóttin nálgast og dauðastundin upp rennur, og dómararöddin kallar oss til reikníngsskapar fyrir hugsanir, orð og athafnir. Sá sannkristni hefur það jafnan hugfast, að vèr með harðýðgisfullri breytni og ómildum dómum leggjum dóm á sjálfa oss, og að það er samkvæmt sannri sjálfselsku, að sýna öðrum vægð í verki og orði. Látum oss því, kristnir bræður! sýna öðrum þessa vægð; látum oss aldrei líða það úr minni, að sú stund kemur, þá ekki einúngis brot og brestir náúnga vors verða leiddir í ljós og dæmdir, heldur og vort eigið hugarfar og hjartalag, sú stund, þá Drottinn kallar oss til reikníngsskapar, ekki einúngis fyrir það, sem vèr höfum hugsað og talað um sjálfa oss, heldur og um þá, sem voru samferðamenn vorir á lífsins leið. Margur mun þá óska, að hann hefði verið fúsari á að dæma sjálfan sig, að draga bjálkann út úr sínu eigin auga.

Í þriðja lagi hvetja Krists trúarbrögð oss til miskunsemi og umburðarlyndis við aðra, með því að minna oss á, að vèr því að eins getum vænt fyrirgefníngar hjá Guði, að vèr fyrirgefum vorum skuldunautum. Fyrirgefið, sagði vor frelsari, og þá mun yður fyrirgefið verða; gefið og þá skal yður gefast! Ekki einúngis hèr, heldur og við öll tækifæri, sjáum vèr, að frelsarinn setti breytni manna hvers við annan hèr í tímanum í samband við kjör þeirra í eilífðinni. Sjálfur var Jesús hin fegursta fyrirmynd í umburðarlyndi, sáttgirni og hógværð. Einginn hefur orðið fyrir meiri rángsleitni, ofsóknum og álasi enn hann, og þó mælti hann á krossinum þessi friðarins orð: „Faðir, fyrirgef þeim, því þeir vita ekki hvað þeir gjöra"! Kærleiki hans til mannanna var svo heitur og innilegur, að hann vildi að öllu því, sem honum var gjört á móti, yrði gleymt og það fyrirgefið. Allt hans líf og hans dauði miðaði til þess, að semja frið milli

himins og jarðar og milli mannanna innbyrðis, og hann bauð þeim sem bræðrum að fylgjast að og feta veginn til þeirra himnesku föðurhúsa. Og það sem hans brennandi mannelska ekki gat framkvæmt meðan hann dvaldi hèr sýnilega nálægur á jörðunni, því leitaðist hann við með sínu orði og anda að koma til leiðar með tímaleingdinni. Og hversu mörg harðúðarfull hjörtu hafa ei orðið snortin af Jesú kærleika, síðan hann lèt lífið af kærleika til vor mannanna! Kærleikans evangelio er það að þakka, að þjóðirnar hafa nú feingið allt aðra skoðun á því, hvernig breytni og sambúð manna ætti að vera háttað. Fyrir Krists daga var sjálfsafneitun, umburðarlyndi og sáttgirni álitin sem merki upp á þróttleysi og hugleysi; nú er þetta álitið sem vottur um hina mestu mannlega hugprýði og sálarþrek, og jafnvel óvinir kristinnar trúar hafa fallið í stafi yfir þeim kærleika, sem búið hefur í hjörtum sannkristinna manna; þeir hafa orðið að dázt að þessu geislaskini guðlegs eðlis, og ekki getað komið með neitt, er kæmist í samjöfnuð við það. Hvílíkur friður og farsæld er í því innifalin að hafa kærleiksfullt hjartalag! þetta fær þú sjálfur að reyna, kristinn maður! þegar hjarta þitt um stund hefur verið hart og tilfinníngarlaust, eða þú hefur alið heipt og hatur í brjósti þínu, og þèr koma til hugar áminníngar úr kærleikans evangelio, eða þú endurminnist Guðs og Krists kærleika, þá veitir þèr erfitt að spyrna á móti broddinum, eða daufheyrast við kærleikans vekjandi röddu; eða nær þú geingur inn í Guðs hús, eða krýpur niður við náðarborð frelsara þíns, þar sem þú sèr hann breiða sinn kærleiksfulla faðm út á móti syndugu mannkyni og draga það, frelsað og friðað, til síns himneska föður. Brann þá ekki hjarta þitt í þèr á veginum? Fannstu eingan kærleiks yl leggja inn í brjóst þitt af allri þeirri gæðsku og miskunsemi, sem Guð hefur sýnt sjálfum þèr? Fannstu ekki til þess, að það var syndsamlegt, að vilja nálgast kærleikans föður með köldu og kærleikslausu hjarta, eða, ef til vill, með hatursfullu hugarfari? Æ, sál vor þarf næríngar við ei síður enn líkaminn; og daglegt brauð sálarinnar er fyrirgefníng syndanna hjá Guði. Sá dagur, sem hjá líður án þess vèr finnum til þess, að vorar syndir eru oss fyrirgefnar, er eins og dimmur og sólarlaus, án

friðar, huggunar og gleði, og í slíka daga breytir þú Guðs náðardögum, kristinn maður! á meðan þú elur heipt og hatur í brjósti þínu, á meðan þú ekki vilt kannast við þann kærleika, sem á að búa hjá þèr til bræðra þinna; því oss er með því eina skilyrði heitið fyrirgefníngu vorra synda, að vèr fyrirgefum vorum skuldunautum. Ef vèr því viljum, kristnir bræður! verða aðnjótandi þeirrar gáfu, sem er hin æðsta og háleitasta Guðs gjöf — barnarèttar á himnum og friðar við Guð, þá gætum þess, að hjörtu vor verði ekki köld og kærleikslaus af þeim mótgjörðum, sem vèr megum reyna af meðbræðrum vorum. Þar af leiðir ekki, að vèr eigum að vera skeytíngarlausir um hið illa eða afskiptalausir af því, heldur eigum vèr að umbera það, sem vèr ei fáum afstýrt, með þolinmæði, og áminna og betra með kærleika, þar sem því verður við komið. Þá mun faðir allrar elsku og kærleika líta niður til vor með velþóknun, umbuna oss hèr með sínum friði og sinni blessun, og annars heims með eilífri sælu. Amen.

---

## Á fimmta sunnudag eptir trinitatis.

### Bæn.

Þú hefur, Drottinn! skapað oss í vísdómsfullum og gæðskuríkum tilgángi, þú hefur feingið oss öllum verk að vinna hèr á jörðunni, og ætlazt til þess, að vèr, með því að sýna trúmennsku í vorri jarðnesku köllun, jafnframt skyldum efla fullkomnun og heill vors ódauðlega anda, og verða hæfilegir fyrir eilífa sælu. En vèr gleymum svo tíðum tilgángi lífsins og vorri eilífu ákvörðun; vèr erum svo tómlátir í því, að búa oss undir eilífðina, en festum allan hug og hjörtu við hið stundlega, og látum oss leiða afvega af ginníngum holdsins og heimsins. Æ, góði himneski faðir! líttu niður til vor í náð og miskunsemi, fyrirgefðu oss í Jesú nafni alla gleymsku vora og gáleysi, snúðu hjörtum vorum frá heiminum til þín, og styrktu vora veiku krapta, svo vèr getum fylgt þínum blessuðu boðum, gegnt vorri köllun trúlega og verkað vora sáluhjálp með ugg og ótta! Amen.

## Guðspjallið

(Lúk. V., 1.—11.).

Einhverju sinni bar svo við, er fólkið flykktist að Jesú, til að heyra guðsorð, að hann stóð sjálfur við sjóinn Genezaret, og leit þar standa tvö skip., en fiskararnir voru farnir í land og þvoðu net sin. Jesús steig upp í annað skipið, sem tilheyrði Símoni, og bað hann að leggja nokkuð frá landi; settist Jesús þá niður og kenndi fólkinu frá skipinu. En þegar hann hætti að kenna, sagði hann við Símon: drag þú út á djúpið, og leysið upp net yðar til fiskidráttar. Símon svaraði: meistari! í alla nótt höfum vèr erfiðað og feingum ekkert, en að þínu boði vil eg leggja netið; en þegar þeir höfðu þetta gjört, kom svo mikill fiskur í netið, að það tók að rifna. En þeir bentu fèlögum sínum, sem voru á hinu skipinu, að þeir kæmu þar og hjálpuðu þeim, og þeir komu og sökkhlóðu bæði skipin. Þegar Símon Pétur sá þetta, fèll hann til fóta Jesú og sagði: gakk frá mèr, lávarður! því eg er maður syndugur, af því felmtur var yfir hann kominn og alla þá, sem með honum voru, af þeim mikla afla, sem þeir höfðu feingið, eins yfir Jakob og Jóhannes, sonu Zebedeusar, sem voru lagsmenn Símonar. En Jesús sagði til Símonar: óttast þú ekki, því hèðan í frá skaltu menn veiða. Þeir drógu síðan skip sín að landi, yfirgáfu allt og fylgdu Jesú eptir.

### Inngángur.

Því verður ekki neitað, að sèrhver maður hefur sína ákvörðun, sína sèrlegu köllun hèr í lífi, að sèrhver maður er eins og hlekkur — þó hann sè lítill — í hinni miklu alheimskeðju, sem Drottinn hefur í hendi sinni, því manninum er ekki fleygt inn í heiminn af hendíngu einúngis til að lifa, syndga og deyja, heldur á hann að vinna eitthvað gott og þarflegt, eitthvað sem nær inn í eilífðina. Til hvers væri þetta líf, ef það hefði

eingan tilgáng, einga ákvörðun, ef það væri ekki annað enn leikvöllur villu og vesaldar? Getum vèr ímyndað oss að Drottinn, sem svo viturlega hefur niðurraðað öllum hlutum, og viðheldur öllu smáu og stóru, sem ekki einúngis hefur gefið öllu í náttúrunni sína ákvörðun, sína köllun og sinn verkahríng, heldur og stýrir óteljandi veröldum með öllum þeirra óþekktu undrum og dásemdarverkum, getum vèr ímyndað oss, að hann hafi ætlazt til þess, að maðurinn, sem hann hefur gætt með skynsemi og svo mörgum háleitum eiginlegleikum, skyldi einsamall fara varhluta af hans föðurgæðsku, einsamall fæðast, lifa og deyja tilgángslaust og án þess að hafa nokkurt ætlunarverk, eða nokkurn úthlutaðan verkahríng? Því verður þess vegna ekki neitað, að sèrhver maður hefur sína köllun, sem hann er skapaður til að gegna, og sem hann á síðan á að standa Guði reikníngsskap af. En menn geta, því miður, ekki sagt með sömu vissu, að allir þekki þessa þeirra ákvörðun, eða þekki tilgáng tilveru sinnar. Margir feta sinn lífsferil eins og í vakanda draumi; það er eins og sál þeirra sofi, og eins og þeir álíti það vera tilgáng lífsins að lifa eins og verkast vill, gjöra hvað þeim gott þykir, eða það sem þeir neyðast til að gjöra vegna stöðu sinnar í lífinu, og halda þeir hafi aflokið ætlunarverki sínu þegar þeir lifa svo, að þeir komast klakklaust af fyrir mönnum. Þeir skoða ekki lífið nema á einn veginn, þeir sjá ekki aðra hlið á því enn þá, sem snýr að veröldinni, en hina, sem snýr að Guði, sjá þeir ekki. Jesús notaði sèrhvert tækifæri til að skýra sjón manna á þessari hlið lífsins, til að skýra sjón þeirra á þeirra andlegu ákvörðun. Þannig sjáum vèr af þessa dags heilaga guðspjalli, að þegar Pètur og þeir sem með honum voru störfuðu að sinni tímanlegu köllun, þá notaði frelsarinn þetta til að vekja hjá þeim hið æðra líf; hann blessaði þeirra líkamlega erfiði til að geta lypt huga þeirra til annarar háleitari vinnu, sem hafði þær afleiðíngar, að þeir yfirgáfu allt og fylgdu honum. Sèrhverri líkamlegri vinnu fylgir og blessan Drottins, þegar hún er unnin í Jesú nafni, það er: þegar hún getur orðið meðal til þess, að maðurinn jafnframt gæti sinnar andlegu köllunar. Því sèrhver maður hefur tvöfalda köllun, aðra líkamlega eða tímanlega, hina andlega eða eilífa. Látum það vera inntak vorra guðrækilegu

hugleiðínga á þessu stundarkorni að íhuga: hvernig maðurinn á að gegna bæði sinni *tímanlegu* og sinni *eilífu* köllun.

Að sèrhver maður hefur bæði líkamlega og andlega köllun, byggist á því, að maðurinn samanstendur af tveimur pörtum: líkama og sál, og heyrir því til tveggja veralda, tímans og eilífðarinnar. Með mannsins líkamlegu köllun meinum vèr þær skyldur hèr á jörðunni, þá jarðnesku köllun, sem vèr eigum að gegna og gæta eptir vorri ólíku lífsstöðu, ólíku eiginlegleikum, aldri og ástandi. Kotúnginn hefur ei síður enn konúngurinn sína jarðnesku köllun, og hvor um sig er svo mikilvæg og ábyrgðarmikil, að þeir eiga báðir að standa reikníngsskap af henni fyrir dómara lifenda og dauðra. Með mannsins andlegu köllun meinum vèr þær skyldur, sem vèr höfum við sálu vora, þau skylduverk, sem vèr eigum að lúka í tilliti til sjálfra vor og annara, þegar vèr og þeir erum skoðaðir sem ódauðlegar verur. Það er tilgángur kristindómsins að fá oss til að stunda rækilega hvoratveggja þessa köllun, og að verða eins og vèr eigum að vera bæði í tilliti til hins tímanlega og hins eilífa. Þegar maðurinn vanrækir annaðhvort, aðrahvora hlið köllunarinnar, þá fer hann á mis við ákvörðun sína og uppfyllir ekki Guðs vilja. Vèr viljum fyrst hugleiða, hvað til þess útheimtist, að gegna rètt vorri tímanlegu köllun. Hversu lítilmótlegur sem þú ert, kristinn maður! hversu auðvirðileg sem staða þín kann að vera í heimsins augum, þá hugsaðu aldrei, að þær skyldur sèu ómerkilegar, sem liggja þèr á herðum. Drottinn hefur úthlutað þèr þessari stöðu, og hann hefur úthlutað þèr þessum skylduverkum. Hvað lítið sem á þèr ber í mannlegu fèlagi, þá sèr þó Drottinn þig, og hversu lítilmótlegur sem þú ert, gætir hann að hverju þínu fótmáli, hverju þínu fyrirtæki. Skyldur hins fátæka eru jafnt áríðandi og hins ríka, hins vesala jafnt og hins volduga. Mismunurinn er eingöngis innifalinn í því, að það verður meira heimtað af þeim, sem meira var lánað, en af öllum verður það eins heimtað, að þeir reynist trúir. Til að styrkja þessa trúmennsku í vorri tímanlegu köllun viljum vèr einkum hugfesta þrjár aðalreglur, og þaraf er sú fyrsta þetta: forsómaðu ekki að gjöra

neitt af því, sem þú átt að gjöra, og þú getur gjört. Þar eð Guð hefur gefið oss líkama og limi og vizmuni til að brúka þá, þá er það auðsèð, að hann vill láta oss verja þessum gáfum til einhvers þarfa; þar eð hann hefur lagað svo jörðina, að hún þarf ræktunar við, þar eð hann hefur lagað sjóinn svo, að vèr getum feingið þaðan björg og blessun, þar eð hann hefur lagað svo alla hluti, að ekkert fæst án ómaks og fyrirhafnar: þá er það eflaust hans vilji, að vèr skulum stunda skynsamlega iðjusemi, og þetta er oss líka boðið í guðsorði. Forsómaðu því ekki að vinna það, sem þú átt að vinna, og verk þitt áttu að vinna með alúð, trúmennsku og gleði. Alúð áttu að sýna, ekki einúngis þegar þú vinnur fyrir sjálfan þig, heldur og þegar þú vinnur fyrir aðra; því ætíð hefur þú gagn af því að gagnast öðrum, þó ekki sè í öðru, þá þó í vitnisburði góðrar samvizku um það, að þú hafir uppfyllt skyldu þína, og það er ekki svo lítið í þetta endurgjald varið eins og margur heldur. Trúmennsku áttu að sýna, hvort sem þú ert einsamall, eða með fleirum, og í rauninni ertu aldrei einsamall, því auga hins alltsjáanda sèr þig alstaðar. Hugsaðu um þetta þegar þú ert einn og minnstu Davíðs orða: „hvert get eg farið frá þínum anda, Drottinn! hvert flúið frá þínu augliti"? Þú sèr hvelfíngu himinsins yfir höfði þèr, og hvernig sjóndeildarhríngurinn umkríngir þig með sínum bláa baug. Þó þú farir þángað sem auga þitt eygir leingst burtu, þar sem þèr sýnist, að himin og jörð komi saman, þá ertu þó — þegar þú ert þángað kominn — mitt í þeim sama himinhríng, og svo er því varið hvert sem þú fer, og eins ómögulegt er þèr að umflýja Drottins auga. Þess vegna, hver sem þú ert og hvað sem þú gjörir, þá gjörðu það trúlega, því Drottinn sèr til þín. En þú átt að gjöra verk þitt með gleði. Guð elskar glöð hjörtu, og hans ríki er rèttlæti, friður og fögnuður í heilögum anda; hugsaðu um Guðs miklu gæðsku og vertu glaður og þakklátur, gættu að hvernig gjörvöll náttúran kunngjörir hans kærleika, og eins átt þú að breyta. Hin önnur regla í vorri tímanlegu köllun er þetta: erfiða þú ætíð svoleiðis, að Guðs blessan geti fylgt þèr. Ef Drottinn byggir ekki húsið, þá erfiða smiðirnir til einkis, segir Davíð; vèr sáum og vökvum,

en Drottinn er sá, sem ávöxtinn gefur. Guðs blessun er hið verulega og hið dásamlega í öllum hlutum; frjófgan daggarinnar og lífgun sólargeislanna, hvað er það annað enn Guðs blessan? og eins er því varið í mannlegri reynslu. Sástu aldrei, hvernig illa samandreginn auður sundraðist og sólundaðist og leiddi óblessan af sèr? sástu aldrei óánægju og ósamlyndi í allsnægtum? sástu ekki þar á mót hjá mörgum, sem kallaður var fátækur, nóg til nauðþurftar? sástu ekki hvernig ánægja, friður og gleði áttu þar heima, hvernig blíðlegt og ástúðlegt viðmót brosti þar á móti þèr? datt þèr þá ekki í hug, að þetta væri Guðs blessun? Að vísu getur þú, kristinn maður! safnað auð fjár með syndsamlegum meðulum, þó þetta sè sjaldgæfara enn margur hugsar — en án Guðs blessunar verður þú aldrei lukkulegur nè ánægður í hjarta þínu. þess vegna er það mjög áríðandi regla fyrir oss, að erfiða ætíð svoleiðis, að Guðs blessan geti fylgt. Og ef vèr spyrjum, hvernig að því eigi að fara, þá svarar Páll postuli því, er hann segir: „allt sem þèr gjörið í orði eða verki, það gjörið í Drottins Jesú nafni, þakkandi Guði og föður fyrir hann“. Og þetta, að gjöra allt í Jesú nafni, er ei svo innifalið í því, að nefna hans blessaða nafn við sèrhvert áform og fyrirtæki, heldur að vinna sèrhvert verk í Jesú anda, í sannkristilegum anda, gjöra allt með hans hugarfari, svo það verði Guði til dýrðar, og hafa umgeingni hjartans á himnum. Prófaðu því, kristinn maður! við öll þín verk, hvort þú getur af einlægu hjarta snúið þèr til Guðs og beðið hann um blessun sína; prófaðu við öll þín fyrirtæki, hvort það, sem þú hefur fyrir stafni, sè svoleiðis lagað, að því geti fylgt Guðs blessun, og gættu þess vel að gjöra það eina, sem þú ert viss um, að er samkvæmt hans vilja. Hin þriðja regla, sem vèr eigum að gæta, þegar vèr gegnum vorri tímanlegu köllun, er að láta ekki hið jarðneska skilja oss við himininn, hið stundlega við hið eilífa. Gefum jörðunni hvað jarðarinnar er, en Guði hvað Guðs er! Og þessi áminníng leiðir oss til þess, sem átti að vera síðari hluti hugleiðínga vorra, til að íhuga vora *andlegu* köllun.

það er sagt í guðspjallinu, að Pètur og þeir sem með honum voru hafi yfirgefið allt og fylgt Jesú eptir. Hversu ólíkt

er þetta því, sem daglega ber fyrir augu vor! Því þó vèr lifum í þeirri kirkju, sem kallast kristileg, þá sýnast þó margir í líferni sínu breyta gagnstætt postulanum; þeir sýnast hafa yfirgefið Jesúm, til að geta fylgt öðrum hlutum; þeir sýnast hafa yfirgefið sína andlegu köllun, til þess að geta gefið sig alla við hinni tímanlegu. En með því öll ræða vor á þessum guðræknis stundum einkum á að lúta að sjálfum oss, sem ódauðlegum verum, að vorri eigin sáluhjálp, þá látum oss nú spyrja sjálfa oss, hvort vèr í anda og sannleika fylgjum Jesú, því ef vèr gjörum það, þá gegnum vèr vorri andlegu köllun. Eg hef áður sagt, að vèr eigum ekki að vanrækja vora tímanlegu köllun, heldur miklu fremur stunda hana trúlega, og frelsarinn heimtar ekki það af oss, sem hans postular og fyrstu nafnsjátendur urðu að þola, þá sjálfsaneitun, að vèr skulum yfirgefa hús og heimili, eignir, vini og vandamenn, vorar daglegu sýslanir, eða vora fósturjörð, til að fylgja sèr. Þetta er ekki meint með því að fylgja Jesú, eða stunda vora andlegu köllun. Það gagnaði líka manninum lítið, þó hann tæki sig út úr mannlegu fèlagi og færi upp á eyðifjöll, til að yfirgefa alla tímanlega hluti, ef hann flytti þángað mynd þeirra í hjarta sínu, ef umhugsun um þá truflaði þar frið hans og sálarrósemi, og hèldi huga hans föstum við þá. Að yfirgefa alla hluti og fylgja Jesú er því ei svo innifalið í því, að yfirgefa þá veraldlegu hluti sjálfa, heldur í því, að yfirgefa það veraldlega hugarfar, sem elskar veröldina og það sem henni tilheyrir, en aðhyllast það hugarfar, sem skoðar þessa jarðnesku hluti með trúarinnar augum, og hugleiðir, hvernig þeir eiga rót í hinum ósýnilegu og eilífu hlutum. Við það fær þetta líf allt annað útlit í augum vorum, og vèr lærum þá að lypta huganum upp yfir þá stundlegu tilveru, og skoða hana í sambandi við vora eilífu ákvörðun; þá slær kristilegu trúarljósi á vora köllun, og vèr sannfærumst um, að vèr því að eins getum gegnt henni rèttilega, að vèr fylgjum Kristi, að hann er sá vegur, sem vèr eigum að fylgja, til að geta lifað í anda og sannleika. Og svo framarlega sem vèr nokkurn tíma á nokkurn hátt höfum fylgt Jesú og verið hans lærisveinar, þá höfum vèr lifað þær stundir, að oss hefur innilega lángað til að fylgja vorum frelsara og líkjast honum; lifað þær stundir, að oss innilega lángaði til að trúa og treysta

hans heilögu orðum, og vèr sögðum við hann í hjörtum vorum: já, Drottinn, eg vil yfirgefa alla fánýta veraldarvizku og fylgja þínum orðum; eg vil yfirgefa þá blindu leiðtoga, sem á ekkert vilja fallast, nema það, sem skilníngur þeirra getur gripið; eg vil setjast við þínar fætur og nema af þèr leyndardóma guðsríkis. Og höfum vèr ekki lifað þær stundir, að frelsarinn stóð uppmálaður fyrir vorum trúaraugum í sinni þjónsmynd, í píslum sínum og krossdauða, sem hann þoldi af kærleika til vor mannanna, og vèr þá sögðum: eg vil yfirgefa glis og hègóma veraldarinnar og það lèttúðarfulla hugarfar, sem hleypur frá einu til annars og hugsar um allt, nema syndina, dauðann og dóminn; allt þetta vil eg yfirgefa og undir þínum krossi læra að hugsa um dauðann, syndir mínar og minn ábyrgðarhluta; hugleiða, hvað til míns friðar heyrir, svo að líf mitt ekki velkist í veraldlegum sorgum og áhyggjum, heldur geti feingið þá andlegu og alvarlegu þýðíngu, sem þú ætlast til. Höfum vèr aldrei með trúarinnar augum sèð frelsarann í hans upprisu dýrð, eða fundið til þeirrar huggunar og gleði, sem hans upprisa veitir sanntrúuðum? Og ef vèr fundum til þessa, þá gátum vèr líka sagt: Drottinn, eg vil yfirgefa alla örvæntíngu, alla óþreyju og óánægju með líf mitt, eg vil ekki leingur kvarta yfir óstöðugleik og fánýti þess; hugur minn skal ekki leingur sveima milli legstaða hinna framliðnu, eða nema þar staðar, heldur lypta sèr til himins; því að í þinni upprisu dýrð sè eg eilífðarinnar morgunroða, og af honum leggur geisla á þetta mitt jarðneska líf, á mína jarðnesku köllun. En vèr vitum, kæru vinir! að trúin á ekki einúngis að sýna sig í hugsunum og tilfinníngum, heldur og í viljanum, í hegðun vorri og háttalagi, svo vèr leitumst við að laga vorn vilja eptir Guðs vilja og hlýða hans boðum. Ef vèr gjörum þetta, þá stundum vèr vora andlegu köllun rèttilega, því þá metum vèr hið andlega meir enn hið líkamlega, eins og vera ber, og leitum fyrst af öllu Guðs ríkis og hans rèttlætis. Þetta lærum vèr eins og annað af eingum eins og vorum frelsara, sem í öllu sínu lífi hafði vilja síns himneska föður fyrir augunum, og í bæninni til hans sagði: „þó ekki minn, heldur verði þinn vilji“! Ef vèr þannig afneitum sjálfum oss, að vèr í allri vorri hegðun höfum tillit til Guðs vilja, þá fylgjum vèr dæmi vors frelsara, dæmi hans, sem var heilagur,

og sem hefur kallað oss til helgunar. það var Drottins vilji, að postularnir skyldu yfirgefa alla jarðneska sýslu, þegar hann bauð þeim að hætta fiskiveiðum, en í þess stað veiða menn, það er: fara út um heiminn, kenna öllum þjóðum, og leiða þær til síns ríkis. þá sömu köllun höfum vèr ekki beinlínis, og frelsarinn ætlast ekki til þess, að vèr yfirgefum vorar daglegu sýslanir, en hann ætlast til hins, að vèr vinnum vor verk í hans anda, að vèr við öll vor áform og fyrirtæki höfum það hugfast, að vèr eigum að þjóna Drottni og standa honum reikníngsskap af vorum athöfnum. Í þessum skilníngi þurfa margir að yfirgefa sín daglegu störf; þeir þurfa að yfirgefa það hugarfar, sem vinnur verk sitt án trúar og guðrækni, án þess að lypta sèr upp til ljósanna föður. Að vísu er oss ekki boðið, eins og postulum Drottins, að yfirgefa hús og heimili, vini og vandamenn; en ef vèr í húsum vorum og á heimilum, í viðskiptum og umgeingni við vini og vandamenn, lærðum betur að afneita vorum eigin vilja og vorri eigingirni, en hefðum meira tillit til Guðs vilja, hefðum þessi Jesú orð jafnan hugföst: „þar af skulu allir þekkja, að þèr sèuð mínir lærisveinar, að þèr elskið hver annan“, þá mundum vèr gegna rèttilega Drottins köllun, þá mundi friður og samlyndi taka sèr bústað á heimilum vorum, og hafa betrandi og helgandi áhrif á sjálfa oss og aðra, og vèr og þeir mundum þá optar lypta huganum upp til þeirra bústaða, sem Drottinn ætlar sínum útvöldu, og keppa þángað í einum anda: í friðarins og kærleikans anda. það var Drottins vilji, að postularnir skyldu yfirgefa allar jarðneskar áhyggjur og sorgir, svo þeir því betur og eingaungu gætu lifað og liðið fyrir útbreiðslu guðsríkis, og á líkan hátt mundum vèr hlýða Drottins vilja, ef vèr í vorum daglegu störfum lærðum að varpa vorri áhyggju upp á Drottin, lærðum undirgefni undir hans vilja; því þá mundum vèr yfirgefa veraldlegar og syndsamlegar sorgir og áhyggjur, en taka hverri sorg, sem oss mætir, með bljúgu barnasinni, sem betrunarmeðali frá vorum himneska föður, og þá mundi rætast á oss þetta fyrirheit: „sælir eru þeir sem syrgja, því þeir munu huggaðir verða“. Ef vèr gjörðum þetta, þá mundum vèr hlýða Drottins vilja, og það sè vor einlægur ásetníngur að hlýða hans vilja, því alla oss ávarpar hann jafnt með þessum orðum: „sá sem

vill vera minn lærisveinn, afneiti sjálfum sèr, taki sinn kross og fylgi mèr!" Svo gefi þá góður Guð af náð sinni, að þessi ásetníngur megi rótfestast í vorum hjörtum, svo að vèr eins í stríðu sem blíðu getum sagt af hjarta: Verði ætíð hvað vill minn Guð, vild hans er æ hið bezta! Hann sendi oss sinn anda, styrki vora veiku krapta til að geta gegnt trúlega vorri köllun, til að geta yfirgefið allt syndsamlegt athæfi og lifað honum einum. Allir erum vèr veikir og vanburða, allir höfum vèr einhverja bresti, sem vèr þurfum að yfirgefa, einhverjar freistíngar við að stríða, sem vèr þurfum að yfirbuga, til að geta fylgt vorum frelsara og gegnt vorri köllun trúlega. Sá, sem ekki freistast af auðlegð, freistast má ske af fátækt; sá, sem ekki freistast af holdlegum girndum og munaðarlífi, freistast má ske af hègómadýrð; sá, sem ekki freistast af sínum miklu gáfum, hann freistast má ske af því, að honum finnst það pund vera svo lítið, sem hann hefur þegið, og gætir þess ei, að Guð elskar oss ekki eptir gáfum vorum, heldur eptir trúmennsku vorri; sá, sem ekki freistast af gleðinni, freistast má ske af sorginni; sá, sem ekki freistast í fjölmenni, freistast má ske í einverunni, og svoleiðis hefur sèrhver sína byrði að bera, sinni baráttu að berjast. En góður Guð gefi oss náð til þess, að geta staðizt í þessu stríði og reynzt trúir allt til enda; hann gefi oss náð til þess, að geta sagt af hjarta: þú, Drottinn! veizt alla hluti, þú veizt, eg elska þig, að vísu í veikleika, en þó svoleiðis, að eg í öllum mínum veikleika og breyskleika, hef þig innst í hjarta mínu. Hann styrki vora trú og vora von, svo vèr af hjarta getum sagt: þegar eg hefi þig að eins, Drottinn! þá hirði eg hvorki um himin nè jörð, þèr vil eg fylgja og þinni köllun, bæði í lífi og dauða. Amen.

---

## Á sjötta sunnudag eptir trinitatis.

### Bæn.

Algóði himneski faðir! fyrir þínu alskyggna auga fær ekkert dulizt; þú þekkir ekki einúngis orð og athafnir vorar, heldur og hjörtu vor og hugrenníngar; þú dæmir ekki eptir hinu ytra útliti, heldur eptir því, sem inni fyrir býr í fylgsnum hjartans. Gefðu oss náð til þess, að geta hreinsað hið innra hjá oss, hreinsað hjörtu vor frá öllum syndsamlegum hugrenníngum, öllum saurugum girndum, en fyllt þau aptur guðrækilegum hugleiðíngum, guðrækilegum tilfinníngum og góðum og stöðugum áformum. Skapaðu í oss hreint hjarta, svo vèr verðum sælir, sælir af því, að finna til þinnar náðar nálægðar hèr í tímanum, sælir í eilífðinni af því, að sjá þig augliti til auglitis, að skoða þín dásemdarverk og vegsama þitt heilaga nafn! Amen.

### Guðspjallið
(Matth. V., 20.—26.).

Jesús sagði við sína lærisveina: Eg segi yður, nema yðar rèttlæti taki fram faríseanna og þeirra löglærðu, þá munuð þèr ekki inngánga í himnaríki. Þèr hafið heyrt, hvað bannað var í fornöld: ekki skaltu mann vega; en ef einhver vægi mann, skyldi hann dóms sekur. En eg segi yður: hver sem reiðist bróður sínum, hann verður dóms sekur, og hver sem segir við bróður sinn: raka! hann verður ráðs sekur; en hver sem segir: þú afglapi! hann er sekur helvítis elds. Þar fyrir, þegar þú færir gáfu þína til altarisins og þèr kemur þar til hugar, að þú hafir eitthvað gjört á annars hluta, þá skil þar eptir gáfu þína við altarið og far áður að sætta þig við bróður þinn, og kom þá að offra gáfu þinni. Vertu skjótur til sætta við mótstöðumann þinn, á meðan þú ert enn á vegi með honum, svo ekki selji þig þinn mótstöðumaður dómaranum, dómarinn selji þig fángaverðinum, og verði þèr síðan í dýblissu kastað. Sannlega segi eg þèr, að ekki muntu þaðan út komast, þángað til að þú hefur borgað hinn síðasta peníng.

## Inngángur.

Hjá Gyðíngum — við hverja frelsarinn talaði þau áminníngarorð, er vèr heyrðum í guðspjallinu — voru þrennslags dómstólar. Sá lægsti hafði að eins fáeina dómendur, og átti að dæma í lítilfjörlegum málum; miðdómstóllinn hafði 23 dómendur og átti að dæma í stærri málum, en æðsti dómstóllinn, sem Jesús kallar ráðið, var einn fyrir alla Gyðíngaþjóðina og hafði 73 dómendur. Að hálshöggva heyrði miðdóminum til, og til þess lítur Jesús þar sem hann í guðspjallinu segir, að maðurinn verði dómssekur. Að dæma til að grýtast eða brennast í Hinnonsdal tilheyrði ráðinu, eða hinum æðsta dómstóli. Orðið raka, sem kemur fyrir í guðspjallinu, var hjá Gyðíngum venjulegt háðúngarorð, og merkir: fyrirlitníngarverður, en afglapi er þó enn verra, og merkir forhertan guðleysíngja. Þann sem ástæðulaust kalli bróður sinn þannig, telur frelsarinn í þeirra tölu, sem verðskuldi þá mestu hegníngu, eða að brennast í eldinum í Hinnonsdal, sem hèr kallast helvítis eldur, til að tákna með því eilífa fordæmíngu. Jesús hafði nýlega sagt: „Ætlið ekki, að eg sè kominn til að aftaka lögmálið og spámennina, til þess er eg ekki kominn, heldur til að fullkomna það“. Með því að útskýra lögmálið ætlaði hann einúngis að sýna, að til þess menn feingi inngaungu í himnaríki þyrfti rèttlæti og siðferði manna að vera öðruvísi háttað, enn hinna skriptlærðu og faríseanna, sem einúngis gættu hinnar ytri siðsemi, en skeyttu ekki um hjartalagið, sem hèldu fast við bókstafinn, er deyðir, en slökktu andann, sem lífgar. Frelsarinn tekur hèr sèr í lagi fram fimmta boðorðið, og af útskýríngu hans yfir það sjáum vèr, hvernig hann ætlaðist til, að vèr skildum hin önnur boðorð lögmálsins. Hann, sem sjálfur var ímynd hins eilífa kærleika, bendir oss á kærleikann sem uppfylling lögmálsins, og heimtar, að vèr í allri vorri breytni eigum að hreinsa hið innra, hreinsa hjörtu vor frá öllum dauðum verkum. Hann sýnir oss, að hjartað og hugarfarið er það, sem mest á ríður, þó ekkert mannlegt auga geti sèð það, nè mannleg lög nái til þess; hann vill segja oss, að vèr ekki einúngis stöndum undir manna dómi, heldur og undir Guðs dómi. Og til þess að glæða og rótfesta

hjá oss þenna sannleika, viljum vèr á þessari guðræknisstundu hugleiða:

*að Guð lítur á hjartalagið.*

Minnstu þessa, kristinn maður! þegar þú geingur í guðshús:

> þá þú geingur í guðshús inn
> gættu þess, sál mín fróma!
> hæð þú þar ekki Herra[illegible] þinn
> með hegðun líkamans tóma!

Því öll vor æfi á að vera helguð Drottins þjónustu, og þó allar vorar gjörðir megi heimfæra til hans, af því vèr eigum að standa honum reikníngsskap af öllum vorum gjörðum, þá eru þó sumar stundir lífsins svoleiðis lagaðar, sum fyrirtæki vor svoleiðis á sig komin, að þetta má sèr í lagi kallast helgað vorum himneska föður, og vèr því eins og nálgumst hann meir enn endrarnær. Ein af þessum stundum er það, sem þú dvelur í guðshúsi, kristinn maður! Eitt af þessum fyrirtækjum er kirkjugánga þín og dvöl þín í guðshúsi. Hefur þú nú gætt þess, að Guð lítur á hjarta þitt og sèr þess innstu hræríngar, að hann bæði þekkir þau áform, sem fylgja þèr þángað, og þau, sem fylgja þèr þaðan? Þú kemur þángað til að biðjast fyrir; þetta er bæði skylda þín og velgjörð Drottins, sem getur orðið blessunarrík fyrir sálu þína. En hefur þú líka gætt þess, að það er einmitt sál þín, sem á að biðjast fyrir, að þú átt ekki að nálgast Guð einúngis með vörunum, heldur með alvörugefni hjartans? Þú kemur þángað til að leita að hvíld og friði fyrir sálu þína, en skildir þú jafnan friðsamlega við þús þitt og heimili, þegar þú gekkst þaðan? var hjarta þitt reiðubúið að biðja blessunar vini þínum og óvini, þegar þèr hugsaðist að fara þángað til að biðja Guð um blessun fyrir sjálfan þig? eða komst þú þángað með hjartað fullt af ófriði, heipt og hatri við þinn samkristinn náúnga? Hjarta vort er sú fórn, sem vèr eigum að færa Guði, nær vèr gaungum að biðjast fyrir; hjörtun eigum vèr að gjöra að hans musteri, og gæta þess vel, að þeir lofsaungvar, sem vèr framberum, komi frá hjartanu, og að þau iðrunarandvörp, sem vèr sendum upp til hans, komi innst úr djúpi sálna vorra, af beisku ángri og trega yfir brotum

vorum og breyskleika, svo iðran vor líkist postulans Pèturs, þegar frelsarinn forðum í húsi höfuðprestsins snèri sèr við og leit til hans. Á slíkum stundum eigum vèr að gleyma öllu, nema vorri syndasekt. Allt sem kann að hafa verið gjört á hluta vorn af öðrum mönnum, allur sá órèttur, sem vèr kunnum að hafa orðið fyrir, á þá að hverfa í gleymskunnar djúp, og vèr megum aldrei rifja það upp aptur, eða að staðaldri láta reiði og hatur aðskilja oss frá meðbræðrum vorum, svo framarlega sem vèr viljum finna náð og syndafyrirgefníngu hjá vorum himneska föður, svo framarlega sem vèr viljum, að Guðs friður taki sèr bústað í vorum hjörtum; því það fyrirheit er ekki gefið öðrum enn hreinhjörtuðum, að þeir skuli fá Guð að sjá, og fyrirgefníngu fá þeir einir, sem fyrirgefa. Með tilliti til þessa segir frelsarinn í guðspjallinu: „þegar þú færir gáfu þína til altarisins, og þèr kemur þar til hugar, að bróðir þinn hafi nokkuð á móti þèr, þá láttu þar þína gáfu fyrir altarinu, og far áður að sætta þig við bróður þinn, og kom þá að offra gáfu þinni". Sèrtu, kristinn maður! reiðubúinn til að sættast við alla, sem eitthvað hafa gjört þèr á móti, sèrtu reiðubúinn, ekki einúngis að fyrirgefa þegar óvinur þinn biður þig forláts, heldur einnig verða fyrri til og gefa honum tækifæri til sætta, þá breytir þú eins og frelsarinn hefur ætlazt til, og gjörir þig hæfilegan til að verða Guðs náðar og blessunar aðnjótandi. Vera má, að þèr finnist þetta hörð ræða, og því verður ekki neitað, að það er þúngt fyrir hold og blóð, fyrir hið veraldlega hugarfar, sem ekki þekkir kristilega auðmýkt. Þú segir ef til vill: Eg er fús á að fyrirgefa, en að gánga til þeirra, sem hafa gjört á hluta minn, að gánga eptir þeim, sem hata mig orsakalaust, það get eg ekki feingið af mèr, svo lítið get eg ekki gjört úr sjálfum mèr. Og þó er það þetta sem frelsarinn heimtar af oss: „far þú áður", segir hann, „að sætta þig við bróður þinn"! Og þó er það líka þetta, sem vèr viljum, að Guð gjöri við oss; vèr viljum, að hann, sem ekki hefur auðsýnt oss annað enn eintómar velgjörðir, skuli bæta þeirri velgjörð ofan á allar aðrar að leita oss, og fullvissa oss um sinn frið og fyrirgefníngu vorra synda. Og hvað værum vèr, ef hann lèti þetta hjálíða? hvað yrði úr oss, ef hann synjaði oss um

sína náð og blessun? Og ættum vèr þá ekki að vilja gánga eitt fótmál, verja einu orði til að sættast við meðbræður vora?

Einginn getur sjálfur fyllt hjarta sitt með helgum og guðlegum tilfinníngum, til þess verðum vèr að fá styrk af hæðum, hjálp og aðstoð Guðs anda. Þess vegna er það næsta áríðandi að hlýða hans orði og hugleiða það með athygli. Einnig í þessu efni lítur Guð á hjarta þitt, kristinn maður! og sèr hvað það er, sem þú helzt leitar að í hans orði, og hvort þú af alvöru leitar þar krapta þèr til lífernisbetrunar. Með hvað mikilli eptirtekt, sem þú hlustar á guðsorð, hvað mikla greind, sem þú hefur til að nema það, eða minni til að hugfesta það, þá stoðar þetta þig ekki, ef hjarta þitt er lángt í burtu, ef það ekki vill taka neinn þátt í því, nè heimfæra það til þín. Þar á móti hlýðir þú guðsorði eins og þú átt að gjöra, þegar þú undir heyrn hans orða getur sagt við sjálfan þig: Eg vil breyta eptir þínu orði, Drottinn! það skal vera ljós á mínum vegum og lampi minna fóta, því vil eg fylgja það sem eptir er ófarið af æfinnar skeiði, í gleði og sorg, í blíðu sem stríðu, unz þú, Drottinn! leysir mig hèðan og leiðir mig heim til þín á sælunnar land. Ef þú ber slíka lotníngu fyrir guðsorði, að þú getir sagt þetta af hjarta og hlýðir hans orði í þessu skyni, þá máttu vera fullviss um það, að Guð lítur með velþóknun á hjarta þitt, og að hann mun styrkja þitt góða áform, og nær þú biður hann, glæða trúna í hjarta þínu, svo að hans orð verði þèr guðlegur kraptur til sáluhjálpar.

Sá sannleiki, að Guð lítur á hjartalagið, sè oss því jafnan hugfastur þegar vèr hlýðum hans orði, hvort það er í kirkjunni eða heimahúsum, og biðjum hann að gefa oss náð til þess, að geta hneigt vor hjörtu að hans orði og heimfært það upp á vort eigið sálarástand, svo vèr getum geymt það í góðum og siðsömum hjörtum. Guð lítur á hjartalagið, minnstu þess, kristinn maður! í daglegri umgeingni þinni!

Það hefur opt heyrzt umkvörtun um það, og það ei án orsaka, að það væri ekki allt sem sýndist í mannlegu lífi, að mannlegt líf væri eins og leikspil, þar sem hver lèki það sem honum sýndist, og hann kynni bezt, án þess hjörtu manna tæki þátt í því, eða svöruðu til hins ytra látbragðs. Það er næstum því ótrúanlegt, hvílíka æfíngu menn geta feingið í þessu,

og hvernig veraldleg menntun getur hjálpað til að fága og fullkomna hina ytri kurteysi manna. En kurteysin er ekki sönn og veruleg, nema hún nái til hjartans, og að koma því til leiðar megnar ekki veraldleg menntun eingaungu; þar til útheimtist guðhræðsla, þar til útheimtist sívakandi endurminníng þess, að Guð lítur á hjartalagið. Mættu menn dæma af orðum, loforðum og vinahótum manna, er þeir almennt sýna hvorir öðrum, þá væri ástæða til að halda, að einlægni, velvild og sjálfsafneitun væru almennar dyggðir í heiminum, svo að menn teldu það sína mestu heppni að geta eflt annara gæfu. En reynsla og meiri mannþekkíng kenna oss, að hugur fylgir ei ætíð máli, og að hjá allt of mörgum býr undir niðri flærð og fláttskapur, og ef vèr skammsýnir menn verðum þessa varir, hvað mun þá ekki vera í Drottins augum, sem rannsakar hjörtu og hugrenníngar, og sèr lángt um leingra enn vèr? Hann þekkir eins vel hulin ráð hjartnanna og orð og athafnir, og hann tekur eins hart á syndsamlegum hugrenníngum og þó þær brjótist út í verkinu. Þetta gefur frelsari vor til vitundar með þessum orðum í guðspjallinu: „Þèr hafið heyrt hvað bannað var í fornöld: ekki skaltu mann vega; en ef einhver vægi mann, skyldi hann dóms sekur. En eg segi yður, hver sem reiðist bróður sínum, hann verður dóms sekur", það er: sá sem elur hjá sèr heipt og hatur til náúnga síns, hann er eins hegníngarverður og manndrápari. Einkisvirði er það hið ytra rèttlæti, sem vèr ávinnum oss í augum skammsýnna manna, nema því sè samfara hreint hjarta, og það er um þetta ytra rèttlæti, að frelsarinn talar í guðspjallinu, þar sem hann segir: „nema svo sè, að yðvart rèttlæti sè betra enn skriptlærðra og faríseanna, þá munuð þèr ekki inngánga í himnaríki". Ef vèr því viljum, kristnir bræður! að umgeingni vor sè Guði velþóknanleg, ef vèr viljum verða virtir og elskaðir ekki einúngis af mönnum, heldur og af Drottni, þá temjum oss hreinskilni og einlægni og forðumst alla flærð og fagurgala, sem getur dregið aðra á tálar; biðjum góðan Guð að skapa í oss hreint hjarta og höldum oss fast við hans orð, því hans orð eru sannleikur. Ein góð hugsun, ein guðrækileg tilfinníng, sem oss er innblásin af Guði, gagnar oss lángt um meira enn ótal fögur orð, hversu áheyrileg sem þau eru, og þau sèu oss innblásin af þeirri fínustu veraldar-

menntun; sèu þau ekki töluð af hjarta, þá eru þau eins og hljómandi málmur og hvellandi bjalla. Sè lifandi trú vöknuð í sálu vorri og vilji vor helgaður af Guðs anda, þá þurfum vèr ekki að kvíða því, að oss muni verða orðaskortur nær vèr þurfum að tala, því Drottinn leggur oss þá mál í munn með sínu orði og anda.

Guð lítur á hjartalagið. Minnstu þess, krisinn maður! í öllum þínum verkum, við öll þín áform og fyrirtæki! Þú hefur einhverra skyldna að gæta, einhverri köllun að gegna, annaðhvort sem karl eða kona, giptur eða ógiptur, faðir eða móðir, barn eða þjónn. Gættu nú að þínum verkahríng, og prófaðu sjálfan þig, hvort þú vinnur verk þitt af skyldurækt eða í launa skyni; hvort þèr er eins um það hugað, að vera trúr, árvakur og samvizkusamur í þinni köllun, eins og að sýnast vera það í heimsins augum? Kostar þú kapps um, að gjöra verkahríng þinn að guðsakri, að sá og vökva í Guðs ótta, svo verk þín getib orið heillaríka ávexti fyrir sjálfan þig og aðra? Kostar þú kapps um, sem faðir eða móðir, að vernda börn þín fyrir löstum og spillíngu, að uppfræða þau í guðsorði og kenna þeim að elska og þekkja skapara sinn og þann hann sendi, Jesúm Krist? Kostar þú kapps um, að eptirskilja þeim góðan arf, ekki af gulli nè silfri, heldur af hollum ráðum og dyggðugu eptirdæmi, svo að minníng þín geti lifað í blessan í hjörtum þeirra, af kærleiksfullum áminníngum og innilegum fyrirbænum til Drottins? Hafið þið sem hjón tekið fyrir ykkur þann ásetníng í hjörtum ykkar að efla hvort annars farsæld þessar fáu og hverfulu lífsstundir, sem þið megið saman vera, þángað til Drottinn vitjar ykkar, og gjörir ykkur sæl í öðrum betra heimi? Hefur þú sem barn gætt að þeirri hlýðni og elsku, sem þú átt að sýna foreldrum þínum og fósturforeldrum? hvernig þú átt að verða þeirra ellistoð og stytta? Guð sèr til þín, hann lítur á hjarta þitt og sèr, hvort þig lángar til að geta orðið þeirra gleði og yndi, geta orðið eins og þeir hafa beðið Guð, að þú mættir verða. Hefur þú sem hjú gætt þess, að þó vegur þinn kunni í sumu tilliti að vera erfiður og þyrnum stráður, þá getur hann þó með mörgu móti orðið þèr blessunar- og heillaríkur og áunnið þèr elsku og hylli húsbænda þinna, ef þú gjörir verk þín með trúmennsku og hefur það hugfast,

að Drottinn sèr til þín, og hann mun launa trúmennsku þína, þó hún aldrei verði endurgoldin af mönnum. Sèrtu föður- og móðurlaus, þá áttu þó hann að, sem er faðir allra föðurlausra, og meðan þú hefur hann og skyldu þína fyrir augum þèr, þá ertu ekki munaðarlaus. það verður fyrst þá, þegar þú aðhyllist ódyggð og ótrúmennsku, og lifir eins og án Guðs í heiminum, án þess að virða sjálfan þig, eða þá, sem þú þjónar, án þess að bera lotníngu fyrir þeirri ósýnilegu almættishendi, sem vill vernda þig og varðveita á öllum þínum vegum. Guð lítur á hjartalagið; hann lítur á þann áhuga og þá alúð, sem þú gjörir skylduverk þitt með, hvort sem það er mikið eða lítið í það varið. Láttu þenna sannleika vekja hjá þèr virðíngu fyrir þinni stöðu og hvetja þig til að gjöra verk þín trúlega, og segðu við sjálfan þig: ekkert er lítið í Guðs augum, og þó staða mín kunni að vera lítilmótleg í heimsins augum, þá nær þó auga Drottins þángað, og hann mun eins blessa mig og hina, sem hann hefur meira lánað; hann gefi mèr náð til þess að reynast trúr yfir litlu, og þá mun hann á síðan samkvæmt sínum fyrirheitum setja mig yfir mikið og leiða mig inn í sinn fögnuð.

Guð lítur á hjartalagið. Gættu þess, kristinn maður! þegar starfatíma þínum hèr í lífi er lokið, þegar þú vegna ellilasburða eða annars veikleika ekki fær leingur erfiðað! þá getur þú ekki leingur talað um hvað þú ættir að framkvæma, hverju þú ættir að koma til leiðar á ókomna tímanum, þá nær ekki verkahríngur þinn út yfir sóttarsæng þína, eða einhvern lítinn afkima, þar sem þú framdregur líf þitt. Hvað getur þá verið eins huggunarríkt fyrir þig og sá sannleiki, að Guð lítur á hjartalagið? Sýndu þá undirgefni undir hans vilja, einlæga og hjartanlega, trúðu honum og treystu, feldu þig í hans föðurhönd, og bíddu með þolinmæði þeirrar stundar, að hann leysi þig hèðan og íklæði hið forgeingilega óforgeingilegleikanum, hið dauðlega ódauðleikanum. þèr finnst sem þú getir eingrar gleði eða huggunar notið í ellilasleika þínum, af því þú getir þá ekki starfað eða framkvæmt neitt; það veldur þèr áhyggju, að þú hvorki getur gagnast sjálfum þèr nè öðrum, en láttu það vera huggun þína, að Guð lítur á hjartalagið, að hann sèr þinn góða vilja og tekur

hann fyrir verkið, að hann heyrir þau bænarandvörp, sem stíga upp frá brjósti þínu, og lítur á þau í náð og miskunsemi; og þegar þú þá af öllu hjarta biður: „vertu hjá mèr, Drottinn! því að kvölda tekur og á daginn líður“! þá mun hann senda huggun síns anda niður í hjarta þitt, og fullvissa þig um sína náðar nálægð. Og sjái hann, að það er þín hjartanleg laungun að leita til hans, að lypta huganum í hæðirnar til hans og vera hjá honum, þá mun hann ekki slá sinni föðurhendi af þèr, heldur mun þá sú sama gæðskuríka almættishönd, sem leiddi þig og gætti þín í öllum þrautum og stríði þessa lífs, einnig leiða þig út úr dauðanum til hins eilífa lífsins.

Æ, látum þá, kristnir bræður! þenna mikilvæga sannleika, að Guð lítur á hjartalagið, jafnan vera vakandi í huga vorum; látum hann vera kröptuga upphvatníngu fyrir oss, til að hreinsa vor hjörtu frá öllu því, sem fjarlægir oss frá Guði, til að hreinsa þau frá vondum hugrenníngum, syndsamlegum girndum og allri saurgun holdsins og andans; látum hann vera vora huggun í sèrhverri sorg og mæðu lífsins, og sèr í lagi þá, þegar starfatíma vorum hèr er lokið, þegar kraptar vorir þverra og vèr getum ekkert framar gjört. Gefðu þá, Drottinn! að hjörtu vor finni frið og hvíld í þeirri fullvissu, að þú lítur á hjartalagið; láttu oss deyja í þessari fullvissu, og meðtaktu vort síðasta hjartans andvarp! Bænheyr það í Jesú nafni! Amen.

---

## Á sjöunda sunnudag eptir trinitatis.

### Bæn.

Himneski miskunsemdanna faðir! frá þèr kemur öll góð og öll fullkomin gjöf; daglega getum vèr þreifað á þinni óendanlegu föðurgæðsku; daglega elur þú önn fyrir vorum líkamlegu og andlegu þörfum og sendir oss allt sem vèr viðþurfum til lífs og sálar. En oss hættir svo mjög við því, góði Guð! að festa hugann eingaungu við nauðsynjar líkama vors, en gleyma hinum andlegu þörfum sálna vorra, og þetta kemur til af því, að vèr gleymum þèr, heilagi faðir! gleymum að biðja þig og þakka þèr. Æ,

fyrirgef þú oss í Jesú nafni alla vora vangá og gleymsku; slepp þú ekki þinni föðurhendi af oss, þínum vanþakklátu börnum; virztu heldur af náð þinni að senda oss föðurlegar bendíngar, og láta hið líkamlega minna oss á hið andlega og eilífa; sendu oss þinn anda, svo vèr ekki meðtökum þínar gjafir í hugsunarleysi eða með tilfinníngarlausum hjörtum, heldur lyptum æ og iðuglega vorum anda upp í hæðirnar til þín með bæn og þakkargjörð: þá munu þínar tímanlegu gjafir minna oss á ástgjafir þíns anda, vorar líkamlegu þarfir á vorar andlegu og eilífu nauðsynjar; þá munum vèr læra að efla vora sáluhjálp með ótta og andvara og fyrst og fremst leita þins ríkis og þíns rèttlætis; þá mun oss húngra og þyrsta eptir þínu rèttlæti, og þá munum vèr leita sálum vorum saðníngar og svölunar í þínu lífsins orði. Amen.

## Guðspjallið

(Mark. VIII., 1.—9.).

Á þeim dögum var enn mikill fólksfjöldi kominn saman, og hafði ekki til matar. Þá kallaði Jesús á lærisveina sína og sagði við þá: Eg aumkast yfir fólkið, því í þrjá daga hafa þeir hjá mèr verið, og ekkert til matar haft; en ef eg læt þá fastandi heim til sín fara, þá vanmegnast þeir á leiðinni — því sumir voru lángt að komnir. Lærisveinarnir svöruðu honum: hvernig fær nokkur fætt þá hèr á eyðimörku? Jesús svaraði: hversu mörg brauð hafið þèr? Þeir svöruðu: vèr höfum sjö. Jesús bauð fólkinu að setjast niður á jörðina, tók þau sjö brauð, gjörði Guði þakkir, braut þau og fèkk þau síðan lærisveinum sínum, að þeir legðu þau fyrir fólkið. Þeir höfðu og fáeina smáfiska, þá hina sömu blessaði hann, og bauð að þá skyldi einnig fram bera; en þeir neyttu og urðu mettir. Síðan söfnuðu þeir matarleifunum, og voru það sjö karfir; en þeir, sem neytt höfðu, voru nær fjórar þúsundir, og að því búnu lèt hann þá frá sèr fara.

## Inngángur.

Þegar Móses skömmu fyrir andlát sitt brýndi Drottins boðorð fyrir Gyðíngum og minnti þá á, hve dásamlega Guð

hefði farið með þá á leið þeirra til ens fyrirheitna landsins, þá komst hann meðal annars þannig að orði: „Látið yður reka minni til allrar þeirrar leiðar, sem Drottinn þinn Guð leiddi þig yfir í þessi 40 ár í eyðimörkinni, svo að hann með nokkru mótlæti reyndi þig, til að þekkja þinn innri mann, hvort þú mundir halda hans boðorð eða ekki. Varðveittu þess vegna boðorð Drottins þíns Guðs, að þú gángir á hans vegum og óttist hann; því Drottinn mun leiða þig inn í landið góða, hvar þig mun ekkert bresta“ (5. Mós. b. 8., 2., 5., 7., 9.). Mun ekki þessi áminníng og þetta fyrirheit ná til fleiri enn Gyðínga þjóðarinnar? mun það ekki einnig ná til þessa lands og þessara sveita? Ættum vèr ekki líka að renna huganum til sjálfra vor og vorrar eigin lífsreynslu og hugsa til Guðs föðurlegu forsjónar, sem hefur leitt oss og viðhaldið oss í blíðu og stríðu allt fram á þenna dag? Ættum vèr ekki líka að rannsaka sjálfa oss og hugleiða, hvernig vèr höfum haldið Drottins boðorð og hvernig hjartalagi voru hefur verið og er varið? Og hefur ekki þetta fyrirheit um það land, hvar ekkert mundi bresta, rætzt á feðrum vorum og sjálfum oss? það er að vísu satt, að þetta land, sem forfeður vorir numu, er að loptslagi og þar af leiðandi frjófsemi ólíkt því hinu ágæta landi, sem Gyðíngar kepptu til; en þó höfum vèr líka í þessum afkima norðurlanda vort daglegt brauð, þegar vèr leitum þess á tilhlýðilegan hátt, og verðum varir við Drottins blessun og njótum margfaldrar gagnsemi bæði af sjó og landi. Að vísu hefur himnaföðurnum einatt þóknazt að reyna oss með hallærum, eins og hann reyndi Gyðínga með bjargarskorti á eyðimörkinni, en þó hafa hin góðu árin verið lángtum fleiri, og hin hörðu árin hefðu ekki haft eins skaðlegar afleiðíngar fyrir oss, hefðum vèr kunnað að búa oss undir þau, með því betur að hagnýta oss árgæðskuna, betur að færa oss þá blessun í nyt, sem land og sjór geta í tè látið. Já, vèr megum álíta oss sælli mörgum öðrum þjóðum, þegar vèr gætum þess, að vèr ekki einúngis tilheyrum lögbundnu þjóðfèlagi, heldur og kristilegri kirkju, og höfum guðsorð hreint og óblandað oss til leiðarvísis og andlegrar endurnæríngar á þessari vorri jarðnesku vegferð. þökkum því guðlegri forsjón, sem lèt oss fæðast og lifa í þessu landi! Já, ætti ekki sèrhver Íslendíngur, sem hugsar til þess, að hann

hefði getað fæðzt sem þræll, eða heiðíngi, eða meðal villtra þjóða, á hverjum morgni að þakka Guði fyrir hans óteljandi velgjörðir, og einnig kannast við þá velgjörð Drottins, að hann í þessu landi hefur gefið oss húsaskjól og daglegt brauð. En gleymum því ekki, að af jarðneskum munum þurfum vèr ekki á öðru enn húsaskjóli og veganesti að halda á þessari leið vorri til ens rètta föðurlandsins. Gleymum því ekki, að þetta vort líkamlega líf á að miða til þess að efla vort andlega líf. Á þetta minnir oss það dásemdarverk frelsara vors, sem guðspjallið getur um, því sá mannfjöldi, sem Jesús mettaði, hafði í þrjá daga hlýtt á kenníngar hans og ekki til matar haft. Hið líkamlega á að minna oss á hið andlega, það sýnir oss dæmi frelsara vors, sem gjörði sín dásemdarverk til að vekja athygli manna á einhverjum æðri andlegum sannindum, og hafði mörg þau orð, er merkja líkamlega nautn eða þörf, í æðri og andlegum skilníngi, til dæmis í ræðu þeirri, er hann hèlt fyrir fólkinu, þegar hann hafði mettað fimm þúsundir manna og sem lesa má hjá Jóhannesi í 6. kapítula. Hið líkamlega getur líka hæglega minnt oss á hið andlega, því það er mjög náskylt í eðli sínu, og viljum vèr því af því kraptaverki, sem guðspjallið getur um, taka oss tilefni til á þessari helgu stundu stuttlega að íhuga:

*hvernig viðhald vors líkamlega lífs minnir oss á vorar andlegu þarfir.*

Af guðspjallinu sjáum vèr, hvílíka umhyggju Jesús bar fyrir mannfjölda þeim, er safnazt hafði saman á eyðimörku til að hlýða kenníngu hans, og hvernig hann varði því hinu dásamlega valdi, sem hann hafði yfir náttúrunni, til að seðja húngur þessara manna. Þetta minnir oss á, að vèr eigum á allan leyfilegan hátt, ekki einúngis að bera umhyggju fyrir lífs uppeldi sjálfra vor og þeirra, sem oss eru vandabundnir, heldur einnig kosta kapps um að hjálpa öðrum, sem nauðstaddir eru. En eins og mannfjöldi sá, sem Jesús mettaði, hlaut að viðurkenna, að þetta dásemdarverk var sprottið af guðlegu almætti, eins megum vèr einnig játa, að allt, sem vèr öflum oss, þó það sè á eðlilegan hátt, er komið undir honum, sem hefur bæði náttúruna og alla blessun í sinni hendi. Þetta á sèr stað um alla atvinnuvegi, en einna bersýnilegast um þá, sem veita oss

vort daglegt brauð. Hvað mundi jarðarræktin stoða, ef Guð gæfi ekki regn og sólskin á hæfilegum tíma? Eins er sjáfaraflinn og að miklu leyti verzlunin komin undir því, hvernig Drottinn lætur viðra. En hvaða atvinnuveg sem vèr höfum, þá væri öll vor iðja og útsjón árángurslaus, ef Drottinn synjaði oss blessunar sinnar. — þess vegna eigum vèr að vinna kappsamlega, biðja Guð rækilega og þakka honum innilega. þegar vinnan þannig helgast af bæn og þakkargjörð, þá verður hún sjálf að guðsþjónustugjörð. Opt eru hinar ytri kríngumstæður svoleiðis lagaðar, að þær geta vakið hjá oss guðrækilegar tilfinníngar og gefið oss tilefni til guðrækilegra hugleiðínga.

Hefur ekki hinn sjófarandi, sem er úti í regin hafi og ekki sèr annað enn himininn yfir höfði sèr, sèrlega orsök til að lypta huga sínum upp til Guðs, og gæta þess, í hvaða hættu hann væri staddur, ef Drottinn sleppti sinni hendi af honum? Og eins er því varið fyrir hinum, sem vinna á landi; hafa þeir ekki fulla orsök til að lypta augum sínum til himins, hvaðan öll blessun kemur? hefur ekki jarðyrkjumaðurinn tilefni til að skoða náttúruna umhverfis sig sem Guðs musteri, þar sem hinn alvaldi sjálfur talar í hverju laufblaði, í hverjum daggardropa og í hverjum geisla sólarinnar? Vissulega getur kristinn maður mitt í vinnu sinni helgað líf sitt himninum og lifað því lífi, sem þaðan sprettur og þángað leiðir. Heilög ritníng er full af samlíkíngum, sem eru teknar af því, er heyrir til endurnæríngar líkamans. þannig segir Esaías spámaður: „Heyrið allir þèr, sem þyrstir eruð, gángið til vatnsins; þèr, sem ekkert silfur hafið, komið og kaupið fæðslu; komið og kaupið án silfurs og ókeypis, bæði vín og mjólk“! (55., 1.); og vill hann með þessum orðum hvetja iðrandi syndara til að flýja til Guðs framboðnu náðar. þannig segir Jesús sjálfur: „sælir eru þeir, sem húngra og þyrsta eptir rèttlætinu, því þeir munu saddir verða“ (Matth. 5., 6.), og margar af hans eptirlíkíngum eru teknar af sæði og brauði, og öðru því sem heyrir til endurnæríngar líkamans, t. a. m. dæmisögurnar um fernskonar sáðjörð; um þann, er sáði góðu sæði, en óvinurinn kom og sáði illgresi meðal hveitisins; um súrdeigið og hina miklu kvöldmáltíð. En í þessu tilliti er sèrlega eptirtektavert samtal Jesú við þá, sem komu til hans í Kapernaum, í því skyni, að

hann mettaði þá með nýju kraptaverki eins og hann hafði áður gjört, án þess að gæta þess, að frelsarinn gjörði ekki kraptaverk sín að þarflausu, heldur einúngis Guði til dýrðar. þess vegna sagði hann við þá: „þèr leitið mín ekki af því þèr sáuð teiknin, heldur af því þèr átuð af brauðunum og urðuð mettir. Aflið yður ekki þeirrar fæðu, sem eyðist, heldur þeirrar fæðu, sem varir til eilífs lífs, sem mannsins sonur mun gefa yður" (Jóh. 6., 26.—27.). þessi orð eru ekki einúngis töluð til Gyðínga, heldur einnig til vor, og vara þau oss fyrst og fremst við því hinu holdlega hugarfari, sem lætur einhverja veraldlega hagsmuna von felast í bænum sínum til Guðs, og því næst hvetja þau oss til að leita andlegrar endurnæríngar til eilífs lífs, og sýna oss, hvernig vèr getum öðlazt hana fyrir trúna á mannsins son. Gyðíngar skildu ekki þessi Jesú orð eða gáfu ekki gaum að þeim, heldur hèldu áfram að heimta teikn af himni, segjandi: „feður vorir átu manna í eyðimörku, eins og skrifað er: hann gaf þeim brauð af himni að eta". þá sagði Jesús til þeirra: „ekki gaf Móses yður brauð af himni, en faðir minn gefur yður brauð af himni, sem er hið rètta". „Feður yðar átu manna og dóu samt; en sá sem etur þetta brauð mun lifa að eilífu". Síðan hèlt Jesús áfram að bera hina líkamlegu og andlegu fæðu saman, og til að sýna, hvernig hann einn gæti veitt hina andlegu fæðu, sagði hann: „Eg em það lifanda brauð, sem kom niður af himni; ef nokkur etur af þessu brauði, mun hann lifa til eilífðar, og það brauð, sem eg mun gefa, er mitt hold, sem eg mun gefa heiminum til lífs" (6., 51.). þeir skildu ekki og vildu ekki skilja þessi samlíkjandi orðatiltæki, sem sè, að orðið varð hold og Guðs eingetinn sonur birtist í mannlegri náttúru, til þess með sinni friðþægíngu og endurlausn að veita syndugum mönnum annað æðra líf enn þetta stundlega og jarðneska. þeir hèldu fast við hinn ytri hljóm orðanna og mögluðu yfir þeim; en Jesús, sem vildi vekja hjá þeim alvarlega eptirtekt á hinni andlegu merkíngu þeirra, hèlt samlíkíngunni áfram og mælti: „sannlega, sannlega segi eg yður, ef að þèr etið ekki hold mannsins sonar og drekkið ekki hans blóð, hafið þèr ekki lífið í yður". „þúng er þessi ræða; hver getur hlýtt á hana"? sögðu margir af hans lærisveinum, og yfirgáfu hann, og enn þá eru það, ef til vill, margir, sem hneyxlast á

þessum orðum hans, af því þeir gæta ekki að því, hvernig hann útþýddi þau. „Andinn er það sem lífgar“, sagði hann, „holdið gagnar til einkis; þau orð, sem eg tala til yður, eru andi og líf“. Síðan sagði hann við þá tólf: „viljið þèr einnig fara burt? Þá svaraði Pètur: „herra! til hvers skulum vèr fara? þú hefur orð eilífs lífs, og vèr höfum trúað og kannast við, að þú ert sá heilagi Guðs“. Sömu spurníngu leggur hann líka fyrir oss til að prófa vora trú. Og ef vèr eins og Pètur getum svarað, að vèr trúum því, að hann hafi orð eilífs lífs, og að vèr könnumst við það, ekki einúngis af því sem vèr höfum heyrt og lesið um hann, heldur og af því sem vèr höfum reynt í sálum vorum, að hann sè sonur Guðs lifanda, ættum vèr þá að láta nokkurt orð hans, þó oss kynni að þykja það þúngskilið, koma oss til að yfirgefa hann? Jesús hefur sjálfur skýrt oss frá hinni andlegu merkíngu sinna orða. Eins og fæðan endurnærir og styrkir líkamann, þegar hún samlagast honum, eins veitir Jesús sálum þeirra, sem í trúnni eru honum sameinaðir, nýtt líf, hið sanna eilífa lífið, svo að hinn trúaði getur tekið undir með postulanum Páli og sagt: „eg lifi, þó ekki eg, heldur lifir Kristur í mèr“. Þetta útleggur postulinn líkt og Jesús, þegar hann segir: „því það sem eg nú lifi í holdinu, það lifi eg í trú Guðs sonar, sem elskaði mig og gaf sig sjálfan út fyrir mig“ (Gal. 2., 20.). Uppspretta þessa andlega lífs er þannig trúin á Guðs náð í Jesú Kristi og elskan til hans, sem ekki verður aðskilin frá hinni sönnu trú, með því hann elskaði oss svo heitt, að hann oss til frelsis og sáluhjálpar kom í þenna heim og lèt líf sitt á krossinum. Í heilagri kvöldmáltíð reynum vèr á fullkomnastan hátt þessa andlegu nautn og bergíngu, þessa andlegu sameiníngu trúarinnar og kærleikans við frelsara vorn; en þar að auk eigum vèr að reyna hana í hvert sinn sem vèr neytum vors daglega brauðs, og endurminnast þessara náðarríku orða: „Eg em lífsins brauð; sá sem kemur til mín mun ekki verða húngraður, og þann mun aldrei þyrsta, sem á mig trúir“.

Sè oss um það hugað að afla oss líkamlegrar fæðu og sè það skylda vor að gjöra það í Guðs ótta og á leyfilegan hátt, hve miklu meir ríður oss þá á því, kærir bræður! að ala önn fyrir vorri eilífu sáluhjálp! „Marta! Marta! þú hefur mikla

áhyggju og umsvif fyrir mörgu", sagði Jesús (Lúk. 10., 41.), ekki til að ávíta hana fyrir nauðsynlega umsjón húss og heimilis, sem er prýði á hverri konu, heldur til að minna hana á þá enn meir áríðandi umhyggju fyrir þeim hlutum, sem heyra til guðsríkis. „Á einu ríður mest", sagði hann enn fremur, „María hefur valið sèr hið góða hlutskiptið og það mun ekki frá henni takast". Hún hafði setzt til fóta Jesú og hlýddi hans kenníngu. Þannig eigum vèr einnig að ala önn fyrir vorum andlegu þörfum með því að heyra og lesa guðsorð, og nálgast frelsara vorn í trúnni eins og vèr sætum við fætur hans. Vèr lifum þó ekki hèr á jörðinni til að eta og drekka, heldur etum vèr og drekkum til þess að geta lifað, og frelsari vor hefur sagt, „að maðurinn lifi ekki af einusaman brauði, heldur af sèrhverju því orði, sem framgengur af Guðs munni" (Matt. 4., 4.). Allt sem náttúran af sèr gefur er að vísu „orð, framgengið af Guðs munni"; því eins og himininn er gjörður fyrir Drottins orð og „allur hans her fyrir anda hans munns", eins myndaðist og jörðin og allt sem er á henni þegar Guð sagði: „verði"! og það varð. En þó allir skapaðir hlutir beri vitni um speki Guðs og gæðsku, verðum vèr þó í endurlausnarverkinu sèr í lagi varir við það náðarinnar og sannleikans orð, sem kallar oss til eilífs lífs. Ættum vèr þá ekki að gefa gaum að þessu sáluhjálplega orði? Ættum vèr ekki að heyra það með athygli og andakt? Ættum vèr ekki að lesa það rækilega og biðja Guð að hjálpa oss til að geta skilið það og heimfært það til sjálfra vor? Eins og hið líkamlega líf daglega þarf að endurnærast með mat og drykk, eins þarf og vort andlega líf að endurnærast fyrir guðsorð og bænina, til að endurlífga vora trú, vora elsku og vora hlýðni við Guð.

Guð gæfi, að oss húngraði og þyrsti eins eptir Guðs orði eins og vèr finnum til líkamlegs húngurs og þorsta, og að vèr værum eins fúsir á að höndla eilíft líf í guðsorði, eins og vèr erum á að seðja húngur líkamans og svala þorsta hans!

Sá gamli og fagri kristilegi siður að helga máltíðina með þakkargjörð við Drottin er að vísu, því miður, vanræktur af mörgum á meðal vor og hjá mörgum orðinn að hugsunarlausu

munnflapri; en þó er það vonandi, að þessi siður aldrei afleggist með öllu hèr á landi. Það líkist skynlausum skepnum að gánga til matar síns án þess að sýna nokkurt merki til þess, að menn kannist við gæðsku ens himneska gjafarans. Allir kristnir foreldrar ættu að venja börn sín á að biðja Guð að blessa sèr matinn og eins að þakka Guði fyrir hann, og sjálfum oss ætti aldrei að gleymast að blessa fæðu vora með bænar og þakklætis andvarpi. Vèr lesum í guðspjallinu, að þegar Jesús tók þau sjö brauð „gjörði hann Guði þakkir", jafnvel þó hann með sínu guðlega almætti gæti gefið þeim yfirnáttúrlegan næríngar krapt. Ætíð þegar hann braut brauðið, blessaði hann það um leið og hann lypti augum sínum upp til himins og gjörði Guði þakkir; ættum vèr þá ekki að kannast við þá gæðsku, sem Guð auðsýnir oss í því að veita oss það sem vèr við þurfum til lífsins viðurhalds? Ættum vèr ekki eins og þakklát börn að taka við brauðinu úr hendi vors himneska föður? Verður þá ekki fæðan dýrmætari við það, að andlegur fögnuður sameinast hinni líkamlegu nautn?

En til þess að sálin geti haft gott af því, sem endurnærir líkamann, útheimtist ekki einúngis, að vèr meðtökum það sem Guðs gjöf, heldur og að vèr neytum þess með hófsemi og innbyrðis kærleika. „Deil brauð þitt með hinum húngraða", segir ritníngin (Es. 58., 7.), og á síðasta degi mun frelsari vor snúa sèr til þeirra, sem honum tilheyra með þessum náðarríku orðum: „Húngraður var eg, og þèr gáfuð mèr að eta; þyrstur var eg, og þèr gáfuð mèr að drekka; það sem þèr gjörðuð við einn af þessum minnstu bræðrum mínum, það gjörðuð þèr mèr" (Matth. 25., 35., 40.).

Af þessu sjáum vèr, kærir bræður! að viðhald líkama vors minnir oss á vorar andlegu nauðsynjar; en, því miður, kemur þetta mörgum sjaldan til hugar, og margur, sem hugsar til þess í dag, er búinn að gleyma því á morgun. Æ, að vèr allir hugsuðum til þess, að þó vèr sèum heilbrigðir í dag, þá getum vèr verið orðnir sjúkir á morgun. Þú sem þá ekki leingur þarft líkamlegrar fæðu við, ógæfusamur værir þú þá, ef þú gætir ekki satt þitt andlega húngur eða svalað þínum andlega þorsta með því að verða hluttakandi í því „lífsins brauði og því lífsins vatni", sem frelsarinn gefur trúuðum og iðrandi

sálum. En getur þú verið viss um þetta, hafir þú ekki hugsað til þess á heilbrigðu dögunum, nè borið umhyggju fyrir öðru enn viðhaldi líkama þíns? Ætti ekki einmitt þetta, ættu ekki þínar daglegu nauðsynjar að minna þig á það, sem þú þarft við um alla eilífð? þessar þínar andlegu þarfir fylgja þèr inn í eilífðina, því þær eru óaðskiljanlegar frá eðli þíns ódauðlega anda; en hinar líkamlegu þarfirnar skilja við þig á grafarbarminum, því þær heyra til dauðlegs eðlis líkama þíns. Æ, láttu því hið líkamlega minna þig á hið andlega, hið sýnilega á hið ósýnilega, hið tímanlega á hið eilífa, svo þú hèr í tímannm í trúarinnar og kærleikans samfèlagi við frelsara þinn getir höndlað eilíft líf og megir á síðan öðlast það sælu hnoss, sem Drottinn hefur sínum trúlyndu börnum heitið. Guð gefi oss öllum náð til þess í Jesú nafni! Amen.

---

## Á áttunda sunnudag eptir trinitatis.

### Bæn.

Þegar vèr viljum nálgast þig, Drottinn! í bænum vorum, þá eru hjörtu vor einatt svo köld og trú vor svo veik, að vor bænaiðja getur ekki orðið eins heit og innileg og hún ætti að vera, og þess vegna hefur hún ekki krapt í sèr til að betra vort hugarfar og vora breytni. Já, Drottinn! oss hættir svo við, að hafa yfirskyn guðhræðslunnar, en afneita hennar krapti. Æ, góði Guð! glæddu og lífgaðu vora trú, vertu máttugur í oss veikum, og láttu krapt þíns kærleika gagntaka sálir vorar, svo vèr getum snúið vorum hjörtum eingaungu til þín með heitri bæn og innilegri lofgjörð. Láttu þitt orð og þinn anda upplýsa og helga oss, svo vèr getum borið mikinn ávöxt oss til sáluhjálpar! Amen.

### Guðspjallið
(Matth. VII., 15.—23.).

Jesús sagði við sína lærisveina: Gætið yðar fyrir falskennendum, sem koma til yðar í sauða-klæðum, en hið innra

eru þeir glepsandi vargar; af þeirra ávöxtum skuluð þèr þekkja þá. Geta menn lesið vínber af þyrnum, eða fíkjur af þistlum? svo ber og hvert gott trè góðan ávöxt, en hvert slæmt trè slæman ávöxt. Gott trè getur ekki borið slæman ávöxt, og ekki heldur getur slæmt trè borið góðan ávöxt; en hvert það trè, sem ekki ber góðan ávöxt, skal verða upphöggvið og á eld kastað; þess vegna megið þèr af þeirra ávöxtum þekkja þá. Þeir munu ekki allir, sem til mín segja: herra! herra! inngánga í guðsríki, heldur þeir einir, sem gjöra vilja míns himneska föður. Margir munu til mín segja á þeim degi: herra! herra! höfum vèr ekki í þínu umboði kennt, rekið djöfla út og gjört mörg kraptaverk? En eg mun segja þeim berlega: aldrei þekkta eg yður sem mína, farið frá mèr allir illgjörðamenn!

### Inngángur.

Frá því Kristur hóf sitt kennimannlega embætti hèr á jörðinni hefur kristin trú verið boðuð víðs vegar í heiminum. Verkanir og áhrif hennar á mannkynið yfir höfuð til að mennta og betra eru alþekkt. Og þegar vèr skoðum þessar verkanir og áhrif í tilliti til hinna einstöku manna, hver fær þá upptalið öll þau mannleg hjörtu, sem frá upptökum kristninnar allt til nálægrar stundar, frá einu heimskauti til annars, eru vakin og upplýst, betruð og endurfædd, hugguð og helguð og hólpin gjörð fyrir ljós og krapt kristilegrar trúar? Hver fær upptalið alla þá, sem fóru villir vegar, en sem aptur komust á rètta leið fyrir tilsögn Jesú orða? Hver fær talið alla þá andvaralausu, sem áminníngar Jesú orða hafa vakið til iðrunar og apturhvarfs? alla þá sorgmæddu, sem hjá Jesú hafa fundið hvíld og hugsvölun fyrir sínar harmþrúngnu sálir? alla þá iðrandi, sem hjá honum hafa feingið samvizkufrið og sálarrósemi? alla þá efandi og ístöðulausu, sem hjá honum hafa fundið sannleikann og sanna hugprýði? alla þá deyjandi, sem með hans frið í hjörtum sínum og hans nafn á vörum sínum, glaðir og ókvíðnir hafa geingið mót dauða sínum?

En þó Krists lærdómur þannig ætíð og alstaðar sýni sín guðlegu áhrif og verkanir, lítur það þó svoleiðis út, að í sjálfri kristninni sè enn þá ekki búið að leysa til hlítar úr þeirri spurníngu, hvað sè sannur kristindómur, hver sèu einkenni hans og ávextir, og hvaða munur sè á yfirskyni guðhræðslunnar og hennar krapti. Enn þá eiga sèr ólíkar meiníngar stað um höfuðlærdóma kristilegrar trúar, og þess vegna skiptast enn þá kristnir menn í ýmsa trúarbragðaflokka. Enn þá er að vísu kristið nafn verndað og virt af trúnni, en það er líka víða vanrækt og óvirt af vantrúnni; að vísu er það helgað af dyggðum, en líka vanhelgað af löstum, og enn þá sýnist sá spádómur Jesú eiga lángt í land, að það muni verða eitt sauðahús og einn hirðir. Er þá þetta ávöxtur Jesú orða? er þetta það ljós, sem hann kveikti í heiminum, sú trú, sem hann færði oss af himnum, eða sá kærleiki, sem hann kenndi oss, að væri hið æðsta boðorð í lögmálinu? Fjarri fer því! og það sè fjarri oss, að láta þetta vekja hjá oss efa um guðleg upptök og guðlegan krapt Jesú trúarbragða. Kristindómurinn er eins og sólarljósið þegar það fellur á jörðina; geislabrot hans eru ei alstaðar eins, en þó lýsir hann og vermir alstaðar. Verði ekki vart við birtu hans og hita, kemur það til af blindni og kaldsinni mannanna, sem elska myrkrið meir enn ljósið, af þeirra holdlega hugarfari, sem ekki skynjar hvað Guðs anda er, sem ekki vil stjórna girndum sínum og tilhneigíngum; það kemur til af hræsni mannanna, sem einúngis kallar: herra! herra! en vill ekki gjöra vilja þess himneska föður; af lèttúð þeirra og staðfestuleysi, sem hlýðir fortölum falsspámanna og ginníngum heimsins; af þeirra kærleiksleysi, sem ekki hlýðir þessu Jesú boði: „þar af skulu allir þekkja, að þèr sèuð mínir lærisveinar, að þèr elskið hver annan“. En jafnvel þessir menn, sem apturloka hjörtum sínum fyrir áhrifum Krists lærdóms, vilja þó heita kristnir og telja sig með Krists lærisveinum. „Kristi verður ekki skipt sundur“, eins og postulinn segir; hans lærdómur er einn og hinn sami, eins og sannleikurinn er einn. Það er því áríðandi fyrir vora sálarrósemi og sáluhjálp að hugleiða: *í hverju sannur kristindómur sè innifalinn*, eða ***hvaða munur sè á yfirskyni guðhræðslunnar og hennar krapti.***

Látum þetta vera inntak vorra guðrækilegu hugleiðínga á þessu stundarkorni.

Kristindómurinn er ekki innifalinn í eintómri trúarjátníngu. Alstaðar þar sem kristni er boðuð og Krists nafn er ákallað, þar myndast kristnir söfnuðir og kristin kirkja. Annar grundvöllur verður ekki lagður enn sá sem lagður er, Jesús Kristur. En ofan á þenna grundvöll geta menn byggt bæði veglega og varanlega, og eins auðvirðilega og veika byggíngu. Vèr höldum oss við Jesú hreina evangelium í heilagri ritníngu. En heilög ritníng er ýmislega skilin og útskýrð. Þau heilögu sakramenti eru veitt eptir Krists orðum og boði, meðhöndlun þeirra í hinni evangelisku kirkju er samhljóða kristindómsins anda. En þeirra verður þó neytt af hræsni, yfirhylmíngu og fyrir siða sakir. Að sönnu þurfum vèr trúarjátníngar við og helgra athafna, en guðsríki kemur þó ekki til vor á útvortis hátt, því guðsríki er innra hjá yður, segir frelsarinn. „Guð er andi, og þeir sem hann tilbiðja eiga að gjöra það í anda og sannleika“. Lærum að skilja rètt þessi Jesú orð! Kristindómsins andi og eðli heimtar samsvarandi útvortis lögun eða búníng. Kristilegar guðræknis tilfinníngar leitast við að brjótast út í orðum, því af gnægð hjartans mælir munnurinn. En þessi heilögu orð og athafnir, sem tilheyra vorum kristilegu guðræknis æfíngum, eru einúngis meðul — áríðandi og ómissandi meðul — til að lífga og styrkja vora andakt og kærleikann í vorum hjörtum. Þessi ytri búníngur trúarbragðanna er helgur í tilliti til uppruna og augnamiðs, af því hann fyrir krapt Guðs anda eflir helgun vorra hjartna og vors lífernis. Þess vegna lætur hver sannkristinn maður sèr vera um það hugað, að sækja vel helgar tíðir, að taka iðulega þátt í þeirri opinberu guðsþjónustugjörð; tilfinníngar hans eru í því efni líkar Davíðs, þegar hann sagði: „eins beiðist eg af Drottni, að eg megi dvelja í Drottins húsi alla mína lífdaga“. Eins er það sælufull og inndæl stund fyrir sannkristinn mann, þegar hann endurminnist frelsara síns við hans náðarborð, og tilfinníngar hans eru þá svipaðar postulans Páls, þegar hann sagði: „svo lifi eg þá ekki framar, heldur lifir Kristur í mèr“. Sannkristinn maður hefur yndi af því að lofa og vegsama Drottin, og bænin til

Guðs veitir honum huggun í hverri sorg, eykur krapta hans til að bera lífsins byrði og glæðir elsku hans til Guðs og manna, og það er eins og eingill af himni birtist honum og styrki hann, líkt og kom fram við frelsarann forðum, þegar hann baðst fyrir í grasgarðinum. En ekkert af þessu er hjá sannkristnum manni komið undir hinu ytra eða sýnilega, heldur er það sameiníng og samtal sálar hans við Guð. Það er eins og Krists kærleiki þvíngi hann til þess; það er Krists andi, sem leiðir hann í guðshús inn að náðarborði frelsarans og til bænaiðjunnar. Hið ytra er einúngis auglýsíng og áframhald hins innra lífs, sem hann lifir í Guði. En hitt er ekki sannur kristindómur, ekki sönn Guðrækni, heldur yfirskyn hennar, að gánga í guðshús fyrir siða sakir, eða sitja þar án þess að hlýða guðsorði með eptirtekt, að gánga til Drottins kvöldmáltíðar án sjálfsprófunar og iðrunar, að lesa og þylja bænir án andaktar, auðmýktar og trúar. Þetta er að segja herra! með vörunum, án þess að ákalla Drottin í hjartanu, án þess að finna til hans nálægðar, eða vilja hlýðnast hans boðum.

Kristindómurinn er ekki innifalinn í guðrækilegu útvortis látbragði. Það er að vísu satt, að sannkristinn maður hlýtur í útvortis háttsemi sinni að vera ólíkur heimsins börnum. Alvara og lèttúð, elska og hatur, hreinlyndi og hrekkvísi, frómlyndi og fláttskapur, skírlífi og saurlifnaður, í einu orði: dyggðir og lestir, guðhræðsla og guðleysi hljóta að birtast á ólíkan hátt einnig í daglegu lífi. Sannkristinn maður, með skynsemi upplýstri af guðsorði og vilja helguðum af Guðs anda, getur ekki haft sömu sýslanir, sömu áhyggjur, sömu skemmtanir og óskir sem hinn, er andvaralaus lifir og velkist í sorgum og áhyggjum þessa lífs, eða iðrunarlaust heldur áfram í syndum sínum; því það er eins og postulinn segir, að Kristur og Belíal, ljósið og myrkrið, eiga ekkert hlutskipti saman. En af því dyggð og guðhræðsla hafa í sjálfum sèr ævarandi gildi og ævarandi fegurð, þá vilja lestirnir taka á sig útlit þeirra, en það sem hjá sannkristnum manni er náttúrlegur ávöxtur og afleiðíng af hans hjartans frómlyndi, það er ekki annað, enn hræsni og yfirskyn hjá heimsins börnum. Enn þá eru til þeir falskennendur, sem frelsarinn varar við; það eru þeir, sem einúngis að nafninu til eru kristnir, sem hið ytra birtast í sauða-

klæðum og sýnast rèttlátir, en hið innra eru þeir glepsandi vargar, sem ætla að fullnægja lögmálsins lèttari kröfum, en gleyma því, sem meira er í varið: miskunsemi, rèttlæti, trú og kærleika; sem vilja halda gömlum synda vana, en deyfa samvizkuna með einstöku góðverkum, sem hvorki hafa hugrekki nè þrek til að stríða við tilhneigíngar sínar, en vilja þó sýnast siðsamir, sem halda það sè nóg að halda sèr frá grófum og opinberum glæpum, en víla ekki fyrir sèr að fremja hið illa í leyni. Þetta er ekki sannur kristindómur, ekki sönn guðrækni, heldur er það að hafa yfirskyn guðhræðslunnar, en afneita hennar krapti. Að maðurinn með slíkri skinhelgi, slíkri hálfvelgju, aldrei geti gjört sig hæfilegan fyrir guðsríki, hæfilegan til að njóta þeirrar náðar, sem kristnum er framboðin, það vottar bæði hlutarins eðli og vafalaus orð endurlausnara vors. Sannur kristindómur er því hvorki innifalinn í eintómri trúarjátníngu, í guðrækilegum orðum og guðræknisæfíngum, nè heldur í guðrækilegu útvortis látbragði. Einúngis sá, sem gjörir Guðs vilja, er minn lærisveinn, segir Jesús; hann einn fær inntöku í himnaríki. „Af þeirra ávöxtum skulu þèr þekkja þá“, og þessi ávöxtur er fyrst og fremst hreint hjarta, Guði velþóknanlegt hugarfar, sem á að vera það lífsafl hins innra manns, sem stjórnar gjörðum hans og athöfnum. Innst í hjarta þínu, kristinn maður, þángað sem ekkert mannlegt auga nær, heldur einúngis Guðs alltsjáandi auga, í djúpi sálar þinnar, þar sem þú einúngis átt viðskipti við Guð og samvizku þína, þar sem eingin hræsni eða skinhelgi getur átt sèr stað — þar vill Kristur byggja sèr musteri, þar á kraptur guðhræðslunnar heima. Kristindómurinn vill ekki vera hverfandi hljóð á vörum þínum eða tómt hugargrip í skilníngi þínum, eða dauður fjársjóður í minni þínu, eða hègómlegur leikur geðshræringanna og ímyndunaraflsins. Nei, Kristur vill búa innst í helgidómi hjarta þíns og hafa þaðan menntandi og helgandi áhrif á líferni þitt. Líf mannsins getur ekki orðið hreint og óstraffanlegt, nema hjartað sè orðið það áður, því rotið trè getur ekki borið góðan ávöxt; en hvað er það, sem upplyptir, helgar og styrkir hugskot og vilja mannsins, nema hin sanna og lifandi trú, sem býr í hjartanu, en ekki á vörunum? Meðan allt leikur manninum í lyndi getur margt sýnzt hrósvert í fari hans, þó trúin sè veik eða hana

vanti; en hvað margir falla ekki frá á freistínganna, hættunnar og neyðarinnar tíma? og af hverju kemur þetta, nema af því, að húsið er byggt á sandi, hið innra er ekki hreinsað, og trúin lifir ekki í hjartanu? því miður halda margir, að það sè sama, hverju maður trúir, ef breytni þeirra sè óaðfinnanleg, og þessi meiníng sýnist fá meðhald af því, sem stendur í guðspjallinu: „þeir munu ekki allir, sem til mín segja: herra! herra! inngánga í guðsríki, heldur þeir einir, sem gjöra vilja míns föður, þess á hinnum er". En það er eptirtektavert, að þegar frelsarinn einmitt ætlaði að sýna, hversu áríðandi hlýðnin við Guð og guðrækileg breytni væri, þá byrjar hann þetta með því, að vara við falskennendum. Og hvers vegna þyrftum vèr að gæta vor við falskennendum, ef verk og breytni væri ekki að miklu leyti komin undir kenníngunni og trúnni? Ef það stæði á sama, hvernig kenníngin væri, hvernig trú vorri og þekkíngu væri varið, hvaða munur væri þá á rèttum kennendum og falskennendum, á þekkíngu og vanþekkíngu, á sannleika og lygi? Hugarfar og breytni, kenníng og líferni, trú og útvortis hegðun, standa í óslítanlegu innbyrðis sambandi, eins og trèð og ávextir þess. það er því ekki meiníng frelsarans í guðspjallinu, að hlýðni við Guðs vilja sè gagnstæð trú og sannfæríngu, heldur sè hún gagnstæð hræsni og skinhelgi. Hinn trúaði leitar Guðs á freistínganna tíma, þar sem hinn vantrúaði hefur ekkert við að styðjast, og því fastari sem trú hans er, því betra verður hjartað, því lastvarara líferníð. Hvernig væri það líka mögulegt, að þekkja heilagan og rèttlátan Guð, að trúa á hann sem skapara sinn og dómara, án þess að upphvetjast af þessari trú til að breyta eptir hans boðum og gjöra hans vilja? Hvernig væri það mögulegt að trúa á Jesúm, með fullri sannfæríngu að kalla hann Drottin og frelsara, en gleyma hans orði og eptirdæmi? Finnir þú, kristinn maður! hjarta þitt lífgað af þessari trú, finnir þú í þessari trú vörn á móti freistíngunum, vörn á móti girndum þínum og ginnníngum heimsins, finnir þú hjá þèr kærleika til Guðs og manna glæðast af þessari trú, finnir þú, að hún styrki þig í bæninni til Guðs og snúi huga þínum til himins — þá ber kristindómurinn blessunarríkan ávöxt í þínu hreina, guðelskandi hjarta.

Upp úr þessu hreina hjarta sprettur annar ávöxtur þess

sanna kristindóms, það er: góðverkin eða dyggðug breytni; því gott trè getur ekki borið vondan ávöxt. Það er misskilníngur á eðli kristindómsins að halda, að trúræknin gjöri góðverk eða dyggðuga breytni óþarfa, eða minna áríðandi. Verkin eru ekki annað enn afleiðíng trúarinnar, sýnileg opinberan hins innra trúarlífs, opinberan hugsana og tilfinnínga, girnda og tilhneigínga. Eins og verkin eru dauð án trúarinnar, eins er líka trúin dauð án verkanna. Viljið þèr nú, kristnir bræður! rannsaka, hvernig guðrækni yðar er varið, hvort þèr berið mikinn ávöxt, eins og frelsarinn býður lærisveinum sínum, þá dæmið ekki einúngis eptir hinum ytri verkum, heldur og eptir innri rót þeirra, en ekki eptir snöggum hugarhræríngum, eða þeim betrunar áformum, sem þèr aldrei hafið framkvæmt, heldur eptir því, hvaðan verk yðar eru sprotttin, hvort það er af trú, kærleika og hlýðni. Sè trúin lifandi í hjartanu, þá gjörir hún Guðs verk, sè kærleikurinn lifandi í hjartanu, þá getur hann ekki verið aðgjörðalaus, heldur leitast hann við að feta í Jesú fótspor, geingur um kríng og gjörir gott. Einstök góðverk og einstakar dyggðir finnast í fari flestra manna, og margir halda, að þeir með þeim geti bætt upp það, sem hjartað er óhreint, þaggað niður átölur samvizku sinnar og áunnið sèr inngaungu í himnaríki. En kærleikans trúarbrögð heimta kærleika, sem leiðir af sèr fúsa hlýðni við Guðs boð, og nær til allra vorra athafna alla vora æfi. Kristindómurinn er ekki eins og trèn í skóginum, að hann beri ávexti á vissum árstímum, heldur er hin sanna guðhræðsla, eins og ritníngin kemst að orði, það lífsins trè, sem ber ávöxt alla daga. Hinn sannkristni ber alltaf mikinn ávöxt, því hann er ein grein á Kristi; hann lifir í honum, sem hefur lífið í sjálfum sèr. Hann heldur sèr ekki einúngis frá vísvitandi syndum, vakir yfir hjarta sínu og stríðir við allar syndsamlegar freistíngar, heldur leitast hann við að gjöra það, sem gott er, af ítrasta megni, og verja kröptum sínum Guði til dýrðar, en meðbræðrum sínum til heilla, og hann skorast ekki undan neinni áreynslu, neinni sjálfsafneitun, til að geta eflt sannleika, guðhræðslu, kristilegar dyggðir og guðsríki hèr á jörðunni; hann fylgir sínum frelsara og megnar alla hluti fyrir Krist, sem hann máttugan gjörir. Þannig er krapti guðhræðsl-

unnar varið; þannig er þeim ávöxtum varið, sem kristindómurinn ber í hjörtum trúaðra.

Hugleiðum nú, kæru vinir! hvort kristindómurinn ber þessa ávexti hjá oss, hvort hann gjörir oss hreinhjartaða, lífgar vora trú og vorn kærleika til Guðs og manna. Á sínum hèrvistardögum leitaði frelsarinn að ávexti á fíkjutrè nokkru, en fann ekki annað enn blöðin. Var þetta sorglegur forboði þess, hvernig líferni vort kristinna manna mundi verða? Er þetta líferni tóm blöð, ásjáleg hið ytra, en ávaxtarlaus? Æ, vèr finnum til deyfðar vorrar og vanmættis í hinu góða, vèr finnum til þess, að oss vantar ávexti trúarinnar; æ, vèr vitum, að hvert það trè, sem ekki ber góðan ávöxt, á að upphöggvast og á eld kastast, en vitum ekki, hvað lángt er til uppskerutímans, hvað lángt er þángað til, að öxin verður sett til rótar trjánna. Æ, leyfðu oss, Drottinn! að standa enn um stund óupprættum í þínum náðarakri; vertu máttugur í vorum breyskleika, þú ert sá, sem ávöxtinn gefur; láttu þitt orð upplýsa og helga oss, svo vèr fáum að reyna, að það sè þinn kraptur til sáluhjálpar öllum þeim, sem trúa! Bænheyr það í Jesú nafni! Amen.

---

## Á nínda sunnudag eptir trinitatis.

### Bæn.

Allt, sem lifir hèr á jörðu, hnígur eptir fáein augnablik í dauðans faðm, og innan skamms vitjar hann vor allra. En þú, Drottinn! ert eilífur og óumbreytanlegur, þú ert herra lífsins og dauðans, þú býður einni kynslóð að fara hèðan og annari að upprenna. En með þínu mildilega föðurauga vakir þú yfir öllum, og þín náð er ný og fersk á hverjum morgni eins yfir börnunum og feðrum þeirra; þú villt leiða alla til þín, því í þèr og hjá þèr einum býr fylling hins eilífa lífsins. Leið þú oss við ljós þíns eilífa sannleika, svo vèr oss til huggunar og lífernis betrunar hugsum um dauðann, hugsum til þess að hann flytur oss til dóms og reikníngsskapar, að hann jafnar öll hinn ólíku lífskjör manna hèr á jörðu og skilur oss við öll þau stundlegu gæði, sem vèr nú höfum svo miklar mætur á. Láttu þessa um-

hugsun hvetja oss til að gæta trúlega þess geymslufjár, sem þú hefur feingið oss í hendur, og kenna oss að vera ánægðir með það hlutskipti, sem þú hefur oss úthlutað; láttu þessa umhugsun kenna oss að safna oss fjársjóði á himni, sem aldrei þverrar, sem fylgir oss út yfir gröf og dauða og gjörir oss eilíflega sæla! Bænheyr það í Jesú nafni! Amen.

## Guðspjallið
(Lúk. XVI., 1.—9.).

Jesús sagði við sína lærisveina: Maður nokkur auðugur var sá, sem hèlt ráðsmann, og var ráðsmaður þessi rægður við hann fyrir það, að hann hefði sóað hans gózi. Hann kallaði því ráðsmanninn fyrir sig og sagði: hví heyri eg þetta um þig? gjör þú reikníngsskap fyrir ráðsmennsku þína, því hana mátt þú ekki leingur hafa. Þá hugsaði ráðsmaðurinn: hvað skal eg nú til bragðs taka þegar húsbóndi minn sviptir mig ráðsmennskunni? Eg megna ekki að grafa, en skammast mín að fara á vonar völ. Eg veit, hvað eg skal gjöra, þegar eg verð settur frá ráðsmennskunni, svo þeir skjóti skjólshúsi yfir mig. Kallaði hann þá á hvern og einn af skuldunautum húsbónda síns, og sagði við þann fyrsta: hversu mikið ert þú skyldugur mínum herra? Sá svaraði: hundrað tunnur viðsmjörs. Ráðsmaðurinn sagði við hann; tak handskript þína, sezt niður og skrifa snarlega fimmtíu. Þar eptir sagði hann við annan: en hversu mikið ert þú skyldugur? Sá svaraði: hundrað mælikerhöld hveitis. Hann svaraði: tak handskript þína, og skrifa áttatíu. En herrann lofaði þenna rángláta ráðsmann fyrir það hann hafði breytt svo kænlega; því þessa heims börn eru kænari sonum ljóssins við sína kynslóð. En eg segi yður: gjörið yður vini af þeim rángfeingna mammoni, svo nær þèr farið hèðan, þá meðtaki þeir yður í eilífar tjaldbúðir.

## Inngángur.

„Gjörið yður vini af þeim rángfeingna mammoni", segir frelsari vor í guðspjallinu, „svo nær þèr farið hèðan, þá með-

taki þeir yður í eilífar tjaldbúðir". Allir eigum vèr, bræður góðir! einhvern tíma fyrr eða síðar að fara hèðan; það eru forlög vor allra, hversu ólík sem kjör vor að öðru leyti kunna að vera. Þessum almennu forlögum dauðlegra manna lýsir Job, er hann segir: „Þessi deyr í sinni mestu velgeingni, rólegur og óhultur; en annar deyr í sálar ángist og hefur ekki smakkað hið góða; þeir liggja hver hjá öðrum í duptinu og maðkarnir hylja þá" (21., 23., 25.—26.). Hvað er líka líf vort annað enn heilbrigði, velgeingni og sældar dagar fyrir sumum; en fyrir allflestum vanheilsa, skortur, sorg og mæða? Og hvað er dauði vor annað enn ýmist viðskilnaður við stundlegan glaum og gleði mitt í æsku og á bezta aldri, ýmist lausn frá líkamans þjáníngum, frá eymd og örbyrgð og ellinnar krossi? Þannig kemur dauðinn stundum sem velkominn, stundum sem óþægilegur gestur, stundum of snemma, stundum of seint, eptir því sem oss mönnunum virðist; en eptir Guðs eilífa vísdóms ráði ætíð á rèttum tíma, þegar mannlegur andi ekki truflar hinn guðlega skammt og niðurskipun lífsins. Dauðinn vitjar oss allra; hann er fljótari enn æskufjörið og hraustari enn styrkleiki fullorðins áranna; hann lætur ekki undan grátbeiðni hinna syrgjandi foreldra, nè tárum hinna munaðarlausu barna; hann fer ekki eptir andvörpunum elskandi hjóna, nè hjartasorg systkina og tregandi ástvina. Öllum oss kippir dauðinn burt, sumum úr vorblíðu æskunnar, gleðinnar og vonarinnar, sumum úr vetrarkulda ellinnar, þjáníngaanna og áhyggjunnar, og hylur vora dauðu líkami jafndjúpt í skauti vorrar sameiginlegu móður. „Þar liggja mennirnir hver hjá öðrum í duptinu og maðkarnir hylja þá". Þar liggur úngbarnið, sem að eins hafði snöggvast litið ljós dagsins, þegar dauðans nótt upprann, við hliðina á hinu háaldraða gamalmenni, sem var búinn að missa minni og meðvitund, og gat hvorki gegnt leingur skyldum lífsins, nè notið gleði þess. Þar liggja hvort hjá öðru, hin glöðu og hin sorgmæddu hjörtun; hjörtu þeirra, sem geingu til hvíldar í hádegi æfinnar í blíðum lukkukjörum, og hinna, sem lögðust niður örmagna undir krossins þúngu byrði og þreyttir af hinu lángvinna stríði þjáníngaanna. Þar eru lagðir niður í skaut jarðarinnar hvor hjá öðrum, hið dáðlausa varmenni, sem aungum er eptirsjón í, og hið atorkusama valmenni, sem enn hefði getað komið

miklu góðu til leiðar. þar liggja vinir og óvinir sáttir og sammála hvor við hliðina á öðrum, mannvinurinn og mannhatarinn, ástríkir foreldrar og vanþakklát börn; hjónin, sem í Guðs augsýn hètu hvort öðru tryggð og hollustu, en gjörðu þó hvort öðru lífið leitt og þúngbært með úlfúð og ótrúmennsku. þannig endar allra líf í gröfinni. Vèr erum að þrátta og þrefa um jarðagóz, en þurfum þó að lokunum ekki nema lítinn blett til að leggjast í; vèr eyðum lífi voru í þúngum og sífeldum áhyggjum, en hversu hègómlegir munu á síðan mörgum af oss þykja þeir hlutir, sem vèr hèr sóttumst svo ákaft eptir, að vèr seldum fyrir þá samvizkufrið og sálarrósemi! Vèr leitum lofstírs hjá mönnum, auðæfa, uppheféar og metorða; en þegar hinar fáu stundir, sem vèr köllum ár, eru liðnar, og dauðinn er búinn að jafna allt hið jarðneska, í hverju er þá marmarasteinninn mætari enn moldarleiðið? hvað er þá orðið eptir af því enu stundlega glisi, sem oss nú þykir svo mikið í varið? *Dauðinn fer eins með oss alla.* Við þenna sannleika viljum vèr láta vorar guðrækilegu hugleiðíngar nema staðar á þessari helgu stundu.

Dauðinn fer eins með oss alla; dauðastundin er fyrir oss alla reikníngsskaparins og dómsins stund. Látum oss af þessu læra að gæta trúlega þess góz, sem Drottinn hefur hèr í tímanum falið oss á hendur. þèr eruð ekki annað enn ráðsmenn, kristnir bræður! þenna mikilvæga sannleika brýnir Jesús fyrir oss með dæmisögunni um hinn rángláta ráðsmann. Vèr eigum ekkert af því, sem vèr höfum hèr undir höndum. þú eignar þèr tímann, sem þú lifir, æfidaganna, sem yfir þig líða — þenna tíma, sem þú gafst þèr ekki sjálfur, heldur fèkkst útmældan af ósýnilegri hendi; þessa æfidaga, sem þú ekki getur leingt nè vitað neitt um; þeir eru ekki gefnir þèr til æfinlegrar eignar, heldur til skammvinnrar nautnar, til þess þú verjir þeim með ráðvendni og samvizkusemi, til að vinna verk þinnar köllunar. þú eignar þèr þá líkama og sálar krapta, sem þú hefur til að bera — þessa krapta, sem þèr eru gefnir hèr að ofan, sem þèr veitir svo hægt að misbrúka og eyða; þeir eru þó ekki gefnir þèr til æfinlegrar eignar, eða til þess að þú megir fara með þá eins

og þú vilt, heldur átt þú að standa Guði reiknfngsskap af brúkun þeirra. Þú eignar þèr þá fjármuni, sem þú hefur undír höndum; en hve hæglega geta þeir ekki brugðizt þèr; þeir eru stopul og svikul eign, nema blessun Drottins fylgi þeim; og í raun rèttri er auðurinn ekki eign hins ágjarna, því hinn ágjarni er auðsins þræll; og þessir fjármunir eru þèr þó ekki gefnir til æfinlegrar eignar eða til að vera þitt æðsta hnoss, heldur eru þeir lèðir þèr sem lán af himni, sem þú átt að ávaxta fyrir eilífðina með kristilegum mannelskuverkum. Daglega kallar samvizkan þig til reiknfngsskapar fyrir brúkun tímans, krapta þinna og fjármuna, fyrir brúkun þessa þrefalda láns, sem Drottinn hefur ætlað þèr að viðhalda og ávaxta. Æ, hlýddu þessari röddu hins lifanda Guðs, áður enn náhljóð dauðans kveður við í þínu titranti hjarta, áður enn þessi sendiboði hins alvalda ávarpar þig með þessum orðum: „gjör reiknfngsskap fyrir ráðsmennsku þína, því hana máttu ekki leingur hafa"! Hèr í lífi geta hinir undirförulu, slægu og voldugu komizt hjá að gjöra reiknfngsskap; en eingin mannleg kænska getur dregið dauðann á tálar, og ekkert mannlegt veldi fær hann yfirbugað; hann lætur ekki að sèr hæða; það sem maðurinn hèr í lífi sáir, það mun hann í dauðanum uppskera. Hèr í tímanum uppfræða kennendur guðsorðs um hans ráð og vilja, þeir áminna, aðvara og hugga af guðsorði eins og umboðsmenn hans leyndardóma; en þeir frambera þessar himnesku náðargjafir í veikum og brothættum jarðneskum leirkerum; þeir fá opt að reyna það, að þó þeir geti vakið einhverjar góðar tilfinníngar og guðleg áform, þá hjaðna tilfinníngarnar aptur og áformin gleymast, þegar heimsins tælandi fagurgali og freistíngar holdsins láta til sín heyra; þeir fá opt að reyna það, að þó sæði guðsorða hèr og þar falli í góða jörð, þá fellur það þó optar utan hjá veginum, verður fótum troðið, eða það fellur á hellu og visnar upp, eða á meðal þyrna, sem kæfa það. En dauðinn er sá bezti prèdikari Drottins; þegar hann talar í helsóttinni og kvölum líkamans, þá skilja allir hans tal: það hrærir og hræðir alla. Þegar hann talar, þá hnígur hinn voldugi niður eins vanmáttugur og hinn vesalasti aumíngi, þá titrar konúngurinn í hásæti sínu og þarf eigi síður Guðs náðar við enn hinn lítilmótlegasti þegn hans; þá kveinar hinn ríki eins

snauður og öreiginn; þá þagnar hin jarðneska spekin og mælskan kemur ekki leingur fyrir sig orði. Kennendur guðsorðs verða opt að breyta umtalsefninu í ræðum sínum, til þess að þreyta ekki tilheyrendurna og til að halda eptirtekt þeirra vakandi; en dauðinn leggur alltaf út af þessum sama texta: „gjör þú reikníngsskap"! Og þó allra hjörtu væru eins hörð og hellubjarg, og þó þau væru eins tilfinníngarlaus og svæfu eins fast og hin freðna jörð í vetrardái sínu, mundi þó dauðans rödd geta opnað allra hjörtu og vakið hina sofandi veröld. Ó, þèr dauðlegir menn! meðan þèr enn getið iðrazt hins umliðna, þá innrætið sálum yðar þessa himnesku kenníngu: „þèr eruð umboðsmenn þess geymslufjár, sem hinn alvaldi eigandinn á síðan mun aptur af yður heimta"! — og þessa himnesku áminníngu: gjör þú reikníngsskap! Innrætið yður þessi áminníngar orð áður enn dauðinn ristir þau á hjörtu yðar, þegar þau annaðhvort eru orðinn þreytt og leið á lystisemdum heimsins, eða búin að blæða sèr til ólífis af sárum þess, af þjáníngum, sorg og mæðu. Þetta ávarp dauðans er ekki annað enn bergmál þessarar himnesku raddar í samvizkum sjálfra yðar: gjör þú reikníngsskap! og gjör þú hann þegar í dag; því á hverjum degi, sem Drottni er helgaður, ættu menn að gjöra honum reikníngsskap fyrir liðna tímann og leita hans líknar og náðar fyrir ókomna tímann. Gjör þú Guði reikníngsskap fyrir *tímann*, sem hann hefur úthlutað þèr! Hvernig hefur þú varið honum? hefur þú varið honum til að vinna verk köllunar þinnar í Guðs ótta? Sóar þú honum ekki burt í iðjuleysi, eða til syndsamlegra athafna, sem trufla frið og farsæld sálar þinnar, eða til heimskulegra og fánýtra fyrirtækja, eða í áhyggjum og sorgum þessa lífs? Hefur þú jafnan haft það hugfast, að tíminn flytur þig alltaf á flugi sínu nær og nær reikníngsskapardeginum, að þú getur ekki apturkallað eitt augnablik lífsins, en átt að gjöra Guði reikníngsskap fyrir sèrhverja stund og sèrhvert augnablik, sem hann gaf þèr? Gjör þú Guði reikníngsskap fyrir brúkun þinna *sálar* og *líkama krapta!* Eyddir þú ekki æskufjöri þínu í æsku syndum og sóttir sjálfur í aldingarð munaðarlífsins þann eiturorm, sem nú er að naga hjartarætur þínar? Lèðir þú tilfinníngar hjarta þíns í þjónustu sannleikans eða lyginnar, í þjón-

ustu dyggðanna eða lastanna? Auðgaðir þú skilníng þinn með nytsamlegri þekkíngu og ástundaðir þú að taka framförum í hinu góða? Eða leitaðist þú við að vera slægur og kænn til að geta farið í kríngum hina einfaldari og dregið aðra á tálar? Varðir þú kröptum þínum til að styðja þína veikari bræður, eða til að undiroka lítilmagnann? Gjör þú Guði reikníngsskap fyrir meðferð á *eigum* þínum! Hefur þú ekkert rángfeingið fè milli handa? ekki einn skildíng, sem sè hafður af fátækum eða munaðarlausum? Og hvernig varðir þú hinu, sem þú hefur rètt feingið? Varðir þú því til almenníngs heilla, þèr og öðrum til sannarlegs gagns, eða sóaðir þú því í svalli og munaðarlífi? Hvar eru hinir húngruðu, sem þú saddir, nöktu, sem þú klæddir, hinir sjúku og sorgmæddu, sem þú hrestir og huggaðir? Á hverju er sálarrósemi þín byggð og þinn samvizkufriður? Hvaða von getur þú gjört þèr um sáluhjálplegan dauða og sælufulla eilífð? þessar spurníngar leggur samvizkan, þegar hún er vöknuð, daglega fyrir hvern mann; en mörgum hættir, því miður, daglega við að niðurþagga þær og skjóta því dag eptir dag á frest að svara þeim, þángað til dauðinn kemur og kallar manninn til reikníngsskapar. Æ, gjörðu því upp reikníng þinn, kristinn maður! við samvizku þína, við Guð og náúnga þinn áður enn hinn seinasti dóms og reikníngsskapar dagur upprennur.

Dauðinn fer eins með oss alla; hann jafnar öll hin ólíku lífskjör mannanna hèr á jörðu. Látum oss af þessu læra að vera ánægðir með það hlutskipti, sem vèr höfum af Guði þegið. Meðan vèr með skammsýni vorri sjáum hèr allt í þoku og ráðgátu og virðum mannlegt líf fyrir oss, þá er ekki við því að búast, að vèr ætíð skiljum tilgáng guðlegrar forsjónar, nè furða, þó oss þyki Drottins handleiðsla á stundum undarleg. Sá sem ætlast til þess, að kristilegt hugarfar og tímanleg velgeingni fylgist ætíð að, honum má þykja það furðu gegna, hvernig tímanlegum gæðum, upphefð og auðlegð er úthlutað í þessu lífi. þegar hinn trúaði og guðhræddi maður þar á mót virðir fyrir sèr þessa ójöfnu úthlutun meðlætis og mótlætis, þá hugsar hann jafnframt til þess, „að Guðs dómar eru óskiljanlegir og hans ráð órannsakanlegt, og að Drottins vegir

eru svo miklu æðri enn mannanna vegir, eins og himinin er jörðinni ofar“. Ef vèr líka gætum þess, að kristilegt hugarfar og góð samvizka eru í sjálfum sèr mikils verð, að þau eru guðlegs og eilífs eðlis og hafa því laun sín á himnum, ætti oss þá að furða á því eða þykja það svo kynlegt, að margir eru hèr í heimi ríkir af öllu nema kristilegum dyggðum, margir fátækir án þess að vera sjálfir valdir að því, margir mikils metnir án þess þeir vinni til þess, margir settir til valda án eigin verðskuldunar! En vèr sjáum ekki hlutina nema í pörtum; þess vegna stöndum vèr blindir mitt í helgidómi guðlegrar speki og sjáum ekki þá hina dásamlegu niðurröðun hins gjörvalla. Embættin urðu að vera margvísleg; þess vegna eru kraptarnir margvíslegir. Skyldurnar eru margvíslegar eptir því sem stètt og staða mannanna í þessu lífi er margvísleg, og þess vegna eru hæfilegleikar mannlegrar náttúru ólíkir og mismunandi. Það er að vísu satt, að það lítur stundum svo út, eins og sannleikurinn fái ekki framgáng á jörðinni og að dyggðirnar sèu bældar niður; en þó er það grundvallarlögmál guðlegrar forsjónar eilíft og óumbreytanlegt, að dyggðin fær ætíð sín verðlaun og syndin ætíð sína hegníngu. Ef einhvern tíma sýnist útaf þessu bera, þá er það annaðhvört undantekníng frá hinni almennu reglu eða mannlegar missýníngar, sem hljóta að hverfa þegar frá-líður eða betur er gætt að sambandi orsaka og afleiðínga. En ef þèr, veraldar vitríngar! sem möglið yfir stjórn og hand-leiðslu Guðs, og þèr, hinir öfundsjúku! sem sjáið ofsjónum yfir annara velgeingni, ekki viljið láta yður skiljast þetta, þá farið til legstaða framliðinna og nemið þar hina sönnu speki, lærið að sjá og viðurkenna, að alvizka Guðs er æðri öllum mann-legum skilníngi og elskuríkari enn nokkurt mannlegt hjarta; lærið að skilja þessi orð ritníngarinnar: „Í sjálfri sèr er guð-hræðslan mikill ávinníngur samfara nægjusemi. Fyrst vèr höfum ekkert flutt inn í heiminn, þá er það bert, að vèr ekkert munum geta þaðan burtu haft“ (1. Tím. 6., 6., 7.). Hættið að mögla yfir því, hve ójafnt Guð hefur útbýtt tímanlegum gæðum; hættið að öfundast yfir velgeingni bræðra yðar! Í eilífð-inni er ekki farið eptir því þó veglegir minnisvarðar hylji moldir framliðinna, og eingim verður lítilmótlegri í guðsríki fyrir það þó bein hans hvíli undir lágu og lítilfjörlegu moldarleiði.

þegar þu stendur hjá gröfinni og sèr bein hinna dauðu, þá líkjast þau hver öðrum, og þú getur ekki þekkt bein hins voldnga frá beinum hins vesala, ekki aðgreint bein hins skynuga frá beinum hins fáfróða, nè bein hins ríka frá beinum hins fátæka; rotnanin gjörir þau öll eins óþekkjanleg. Sá mismunur, sem ekki byggist á dyggðum og guðsótta, hverfur eins og reykur þegar dauðinn andar á hann, og konúngurinn og kotúnginn verða þá jafnt sekt og syndum hlaðnir og eru jafnt komnir upp á náð og miskunsemi hins eilífa allsherjar dómara. „Af þeim sem mikið hefur þegið verður og mikið heimtað", og sæll er þá sá, sem hèr var trúr yfir litlu. Betra er að vera minnstur í guðsríki enn mestur hèr á jörðu.

Möglaðu því ekki yfir högum þínum, kristinn maður! þó þú kunnir að hafa feingið minna enn margur annar af þessum tímanlegu gæðum; það eru ekki nema þrælar þessa heims, sem sjá ofsjónum yfir hagsældum náúnga síns. Drottinn sèr, hvað þèr hentar bezt; treystu honum og taktu ánægður við því, sem hann þèr úthlutar; gegn þú köllun þinni trúlega og feldu svo þig og öll þín efni á hans vald, sem ávöxtinn gefur. Getir þú hreinsað hjarta þitt og stjórnað girndum þínum, þá mun Guðs blessun fylgja þèr og þú munt láta þèr nægja hans náð.

Dauðinn fer eins með oss alla; í dauðanum hverfa öll tímanleg gæði; látum oss af þessu læra að safna oss fjársjóði á himni, sem aldrei þverrar" (Lúk. 12., 33.). það er einkenni allra jarðneskra hluta, að þeir veita oss ekki ætíð nè alstaðar unað og gleði, að þeir skilja hjartað eptir tómlegt og huggunarlaust, að hversu opt og hversu mikið sem vèr drekkum úr bikar hinnar tímanlegu gleðinnar, þá þyrstir oss þó alltaf aptur. En hin stundlegu gæðin eru ekki einúngis ófullkomin, heldur og stopul og hverful. Hvað er manna lof? Reykur, sem líður burt þegar minnst vonum varir. Hvað er mannleg hreysti? Ekki annað enn fúin og feiskin stoð undir því húsi, sem byggt er á sandi. Hvað er fegurð og fríðleiki? Fagurt blóm, sem bráðum visnar og verður að orma fæðu. Hvað eru mannleg hyggindi og kænska? Draumur um hina sönnu speki. Hvað er lán þitt og lukka? Óhreinn og ólgufullur sjór. Hvað er vit þitt og góðar gáfur? það eru grænir blómknappar á gröf þinni. Hvað er auður þinn og aflafè? Að

30*

lokunum fáeinar moldarrekur. Eins og vèr fyrst lítum ljós þessa heims aumir, snauðir og aðstoðarlausir, eins verðum vèr á oss komnir þegar vèr förum hèðan. Einkisvirði eru öll þessi tímanlegu auðæfi og fjármunir, nema þeim sè varið svoleiðis, að vèr getum uppskorið ávöxt þeirra í eilífðinni. „Gjörið yður vini af þeim rángfeingna mammoni“, segir frelsari vor í guðspjallinu, það er að skilja: gjörið yður vini af hinum stundlegu og stopulu fjármunum, „svo nær þèr farið hèðan, þá meðtaki þeir yður í eilífar tjaldbúðir“. Og hverir eru nú þessir vinir, sem rètta oss sína hjálparhönd og fylgja oss út yfir grafir vorar, þar sem allir aðrir vinir hèr á jörðu nema staðar á grafarbarmi vorum og geta ekki annað enn tregað oss og tárast? það eru *vorar athafnir*, vor verk, sem fylgja oss, þau verk, sem bera vitni um andans líf, sem eru sprottin af kristilegri trú og kristilegum kærleika, þau verk, sem ekki líkjast eigingirninnar ísköldu verkum, nè geðshrærínganna óstöðugu hvirfilbyljum, heldur verkum vors himneska föður, sem er kærleikurinn. Og þegar vèr missum allt, sem vèr hèr í lífi höfðum mestar mætur á, þegar heimslofið, gleðin og gullið missir fegurð sína í grafarinnar myrkrum, þegar jafnvel ástarinnar og vináttunnar himnesku blóm sýnast fölna, hvaða fjársjóður er það þá, sem ekki skilur við oss í dauðanum, nè nokkurn tíma þverrar? Hræðilegt væri að hugsa til þess að missa allt, sem hefur verið unaður og yndi vort í þessu lífi, ef himneskum huggunar geislum slæi ekki niður á þessa tilhugsun. Og þessi fjársjóður, sem ekki skilur við oss, er endurminníngin, og þetta himneska huggunarljós, sem leiðbeinir oss, er vonin: endurminníngin um hið sanna og góða, sem vèr höfum hugsað, áformað og aðhafzt, vonin um náð og miskunsemi hins eilífa dómara, sem dæmir oss ekki eptir vorum ófullkomnu verkum, heldur eptir vorum góða og guðlega vilja; vonin um kærleika vors himneska föður, sem hefur lofað að sameina þá aptur í sínum eilífu dýrðar heimkynnum, sem tíminn og dauðinn aðskildi, en sem voru honum trúir allt til dauðans. Æ, Drottinn! gef þú oss náð til þess að safna oss fjársjóði hjá þèr, sem aldrei þverrar; láttu vort æðsta hnoss og hlutskipti vera, að leita þín og breyta eptir þínum heilögu boðum: þá verður það vor hjartans æðsta unan að hafa umgeingni vora á himnum, því þar

sem vor fjársjóður er, þar eru og vor hjörtu, og þá munt þú, góði Guð! nær æfi vor er þrotin og vèr eigum að fara hèðan, meðtaka oss í eilífar tjaldbúðir fyrir Jesú forþènustu sakir! Amen.

---

## Á tíunda sunnudag eptir trinitatis.

### Bæn.

Þau tár, sem þú felldir yfir Jerúsalem, vor himneski lausnari! lýstu því, hve innilega þú elskaðir oss synduga menn, hve innilega þig lángaði til að frelsa oss frá syndinni og hennar hegníngu. Æ, láttu ekki þín elskutár verða til ónýtis á oss, heldur láttu þau hræra vor hjörtu og opna vor augu, svo vèr lærum að þekkja vorn vitjunartíma og sjáum, hvað til vors friðar heyrir! Hjálpa þú oss til að leita þín hér í náðarinnar ríki, svo að vèr getum fundið þig og fáum að vera þèr sameinaðir: þá munt þú ekki yfirgefa oss í dauðanum, heldur flytja oss frá dauðanum til lífsins, til eilífs lífs og eilífrar sælu! Amen.

### Guðspjallið

(Lúk. XIX., 41.—48.).

Þegar Jesús kom nær, og sá borgina (Jerúsalem), grèt hann yfir henni og sagði: æ, að þú að minnsta kosti á þessum þínum degi vissir, hvað til þíns friðar heyrir; en nú er þèr það hulið; því að sá tími mun koma yfir þig, að óvinir þínir munu gjöra hervirki um þig, setjast um þig, og þraungva þèr á alla vegu; leggja þig að velli og börn þín, sem í þèr eru, og ekki láta stein yfir steini standa, af því þú þekktir ekki þinn vitjunar tíma. Jesús gekk inn í musterið, og tók til að reka þá út, sem seldu og keyptu þar inni, og sagði til þeirra: skrifað er, að mitt hús skuli vera bænahús, en þèr hafið gjört það að ræníngja bæli. Hann kenndi hvern dag í musterinu; en kennimannahöfð-

íngjar, skriptlærðir og forríngjar lýðsins leituðust við að ráða hann af dögum, en vissu ekki, hvernig þeir skyldu fara að því; því állur lýðurinn hneig að honum og hlýddi hans orðum.

## Inngángur.

Opt og á margan hátt hafði Drottinn vitjað Gyðíngaþjóðarinnar, frá upphafi hafði hann dásamlega leitt hana og sýnt henni ótal merki sinnar föðurlegu forsjónar; hann hafði vitjað hennar með sínu lögmáli og fyrir munn sinna spámanna; já, öll Gyðíngasagan má með rèttu heita vitjunartími Drottins, því hún er saga sáttmála hans og fyrirheita, spádóma og kraptaverka. En í æðstum skilníngi byrjaði þó sá guðlegi vitjunartími í fyllíngu tímans, þegar Guðs eingetinn sonur íklæddist voru holdi; í honum birtist fyllíng Guðs náðar og sannleika; hann var — eins og guðspjallamaðurinn að orði kemst — hið sanna ljós, sem skein í myrkrinu, en myrkrið meðtók það ekki; hann kom til sinna, en hans eigin meðtóku hann ekki, af því þeir þekktu ekki sinn vitjunartíma, og það var hulið fyrir þeirra augum, hvað til þeirra friðar heyrði. Hann flutti þeim orð friðarins og hins eilífa lífsins; hans guðlegi kærleiki birtist þeim læknandi og lífgandi, og hann vildi draga þá til sín; en augu þeirra voru svo blinduð, að þeir sáu ekki sannleiksljósið, hjörtu þeirra voru svo harðsnúin, að þeir fundu ekki til hins eilífa kærleikans, og hugur þeirra drógst svo niður á við að jarðneskum og hègómlegum hlutum, að þeir sinntu ekki Guðs náðar köllun, heldur ofsóttu og líflètu hann, sem var vegurinn, sannleikurinn og lífið. Og vitjunartími Guðs náðar útrann og hinn tíminn fór í hönd, að Guð vitjaði Gyðíngaþjóðarinnar með sínum hegníngardómi, og hann, sem boðað hafði þeim friðinn, boðar þeim nú líka hegníngardóminn. Í þessa dags heilaga guðspjalli spáir Jesús um eyðileggíngu Jerúsalemsborgar og innbúa hennar, og um tvístrun Gyðíngaþjóðarinnar, og hjá Mattheusi í 24. kapítula tiltekur hann enn þá nákvæmar tímann, nær þetta muni að bera. Þar segir hann, að sú kynslóð, sem þá var uppi, muni ekki verða

undir lok liðin áður enn allt þetta komi fram. Og sannarlega kom það allt fram, eins og alkunnugt er, nálægt 40 árum síðar, þá Jerúsalemsborg og musteri var eyðilagt af Rómverjum, og allt fram á þenna dag hvílir dómur Guðs yfir Gyðíngaþjóðinni.

En með því þetta er eins og hvað annað í heilagri ritníngu ritað oss til lærdóms, huggunar og viðvörunar, þá látum oss, kristnir bræður! sameiginlega hugleiða:

*hvernig þessi Jesú spádómur er fullur viðvörunar fyrir hina vantrúuðu og andvaralausu, en huggunarfullur fyrir hina trúuðu og sannkristnu.*

Í þessum Jesú spádómi er sú aðvörun innifalin: að það, sem maðurinn sáir, muni hann uppskera. Og hversu vekjandi og viðvarandi talar þessi rödd til hins mikla mannfjölda, sem í hugsunarleysi geingur sinn lífsferil áfram, og skeytir eingu nema því, sem heyrir til þessa stundlega lífs viðurhalds! Hversu vekjandi talar hún til syndarans og leitast við að snúa huga hans inn á við og benda honum til þess, að þó hegníngin ekki sè ætíð á sýnilegan hátt samfara hverju syndsamlegu verki, sem maðurinn drýgir, þá hafi þó hinn heilagi löggjafi teingt andlegt og ósýnilegt band milli syndar og hegníngar í samvizkum vorum! Hversu vekjandi talar hún til syndarans og snýr huga hans upp á við og minnir hann á, að þó hótanir rèttlætisins rætist ekki að öllu leyti hèr á jörðu, þá sè himin og jörð samteingd með andlegum lögum, en ekki líkamlegum. Hún snýr huga hins andvaralausa fram á leið og minnir hann á, að þó illgresinu sè leyft að vaxa hjá hveitinu um stundar sakir, þá muni þó einhvern tíma koma uppskerutíminn. Já, einhvern tíma kemur uppskerutíminn; svoleiðis er það í líkamlegum efnum, svoleiðis er því og varið í andlegum efnum. Þetta segir tilfinníng fyrir reglu og rèttvísi sèrhverjum, sem skoðar stjórn heimsins, og sèr hversu ólíkt lukkunnar gæðum einatt er úthlutað hèr í veröldinni, hvernig rángsleitni, ofríki og undirferli einatt bera sigur úr býtum. Sá sigur getur ekki verið lángvinnur, því síður eilífur; það hlýtur samvizkan að segja sèrhverjum þeim, sem annaðhvort opinberlega eða leynilega gjörir sig sekan í syndsamlegu athæfi. Það sýnir

líka reynslan þráfaldlega, að því meir sem líður á æfi hins andvaralausa, þess meiri geigur og kvíði kemur yfir hann; þess betur finnur hann með sjálfum sèr, að hann með sínu óbetranlega hugarfari geingur mót umbunandi eilífð; hann fer þá einatt að finna til ófriðar í hjartanu, og að hann er í ósátt við Guð og sjálfan sig. Þess vegna er og sú hugvekja innifalin í Jesú spádómi: ó, að þú vissir, syndugur maður! hvað til þíns friðar heyrir! en það er nú hulið fyrir þínum augum. Þú leitar friðar, en finnur hann ekki, af því þú leitar hans í heiminum, en sá friður, sem heimurinn gefur, er hverfull og stopull, hvort heldur hans er leitað í eptirsókn jarðneskra gæða, eða í saðníngu holdlegra girnda og tilhneigínga. Stundlegu gæðin geta ekki veitt sannan frið, því þau hafa ekki sannarlegt verð í sjálfum sèr, heldur einúngis að því leyti sem þau eru meðtekin sem Guðs gjöf og þeim er varið samkvæmt gjafarans tilgángi til eflíngar og útbreiðslu hans ríkis, en sá, sem leitar sèr friðar í þeim, gleymir einmitt þessu; hann gleymir því, að leita fyrst guðsríkis og hinna eilífu gæða. Að leita sèr friðar í saðníngu girndanna er eins heimskulegt, því þær eru óseðjandi, og verða því óstjórnlegri, þess meira sem eptir þeim er látið; því meir sem þær eru saddar, þess tómlegra verður hjartað, því órólegri verður sálin, og því meir hverfur allur sannur friður úr hugskoti mannsins. Hið tímanlega kemur og hverfur, vex og eyðist, og getur því ekki veitt sannan frið; tíminn er ókyrr og ófriðlegur, hann beljar umhverfis oss eins og ólgusjór; en, æ, að vèr sjálfir værum ekki eins og ólgusjór, sem ritníngin líkir óguðlegum saman við, af því þeir finna hvergi frið: þeir velkjast í hafróti girnda sinna og syndsamlegra tilhneigínga, og þykir ekki eptirsókn í öðru enn því, sem fær á þeirra holdlega hugarfar, eða aflar þeim einhvers tímanlegs hagnaðar; út af þessu eru þeir áhyggjufullir, um það keppa þeir og þrátta, þar um snúast allar þeirra hugsanir, og þar að hnígur öll þeirra viðleitni. Til alls annars þykir þeim lítið koma, að minnsta kosti þekkja þeir ekkert æðra nè meir áríðandi, og þó þeir heyri stundum um þetta talað, þá snertir það ekki huga þeirra, og það er eins og það komi þeim ekki við. Þeir halda viðstöðulaust áfram í syndum sínum; en tíminn líður líka viðstöðulaust og ber þá viðstöðulaust áfram,

þángað til dauðinn tekur við þeim. Þá sjá þeir, ef til vill, það sem áður var hulið fyrir þeirra augum, að þeir hafa varið lífi sínu þvert á móti gjafarans tilgángi, af því þeir þekktu ekki sinn vitjunartíma. Þeir renna þá huganum til hins umliðna, en finna þar eigi huggandi endurminníngu. Þeir litast um allt í kríng um sig, en ekkert friðar þá, ekkert hjálpar þeim, og fram undan þeim liggur eilífðin, hið ókunna landið, sem verður því geigvænlegra í augum þeirra, sem þeir nálgast það meir; þeir sjá þar að sönnu höfn; — en það eru ekki friðarins hafnir.

Það er höfuðatriði kristinnar trúar, að Guð hafi látið boða frið fyrir Jesúm Krist, og hjá honum einum geti maðurinn fundið sannan frið og hvíld fyrir sálu sína. Ódauðlegur andi mannsins getur ekki hvílzt, nema í því, sem er eilíft, nema í honum, sem hefur lífið í sjálfum sèr. Þegar syndarinn snýr sèr til Guðs og leyfir hans anda inngaungu í hjarta sitt, þegar hann í trúnni á Jesúm Krist biður Guð af hjarta um fyrirgefníngu sinna synda og um náð til að geta betrazt og helgazt, þá lærir hann fyrst að þekkja, hvað til hans friðar heyrir, þá verður hann snortinn af Guðs anda, sem er friðarins andi. Þess vegna innibindur Jesú spádómur líka í sèr þá áminníngu: leitið Drottins og ákallið hann! Þá lærið þèr hvað til yðar friðar heyrir, því hann er yðar friðþægður faðir, og vill ekki syndarans dauða, heldur að hann snúi sèr og lifi. En spádómurinn bætir við áminnínguna þessu: leitið Drottins, *meðan hann er að finna!* ákallið hann, *meðan hann er yður nálægur!* En þèr finnið hann alstaðar, því hann er ekki fjarlægur neinum af oss: í honum erum, lifum og hrærumst vèr. Í hverri helzt lífsstöðu sem vèr erum og gegnum trúlega vorri köllun, þá finnum vèr hann, og þó oss finnist á stundum hann hverfa sjónum vorum, þá er það ekki hann, sem hverfur, heldur trúin í hjarta voru. Hans náð er hvern morgun ný yfir oss, og hans miskunsemi varir að eilífu. Æ, en það er einmitt þetta, sem villir sjónir fyrir hinum andvaralausa; hann heldur, að af því Guðs miskunsemi er eilíf, þá muni ætíð vera nógur tími að leita hans; af því hann sè alstaðar nálægur, þá sè jafnan tími til að ákalla hann. Hann gætir þess ekki, að maðurinn getur með áframhaldi í löstunum

gjört sig óhæfilegan fyrir íbúð Guðs anda, svo að hann, í stað þess að verða Guðs musteri, gjörir sig sem annað spillvirkja bæli; hann gleymir því, að oss er ekkert fyrirheit gefið í guðsorði um, að vèr getum fundið Guð í öðru lífi, ef vèr fyrirlítum hans náðarköllun í þessu lífi. Þvert á mót er þetta líf jafnan skoðað í heilagri ritníngu sem náðartími, en annað líf sem endurgjaldstími, hvar sèrhverjum muni verða goldið eptir hans verkum. Hinn andvaralausi gætir þess ekki, að einnig hèr í lífi birtast Guðs rèttlætisdómar bæði í samvizkum vorum, í lífi einstakra manna og í forlögum heilla þjóða, og upp á það er Jesú spádómur eptirtektavert dæmi, því hann tekur fram sambandið milli vantrúar Gyðíngaþjóðarinnar og þeirrar hegníngar, sem hún þegar hafði bakað sèr með syndum sínum. En þótt Guðs náð og þolinmæði sè óþreytanleg, þó hann kalli synduga menn til iðrunar og apturhvarfs, eins um hina elleftu sem hina þriðju stund, þá er hitt eingu að síður víst, að eins og öll blessun og sæla er í því fólgin, að geta snúið sèr til Guðs, eins er það bæði heimskulegt og hættulegt fyrir manninn að vilja slá því á frest; það sýnir, að hin sanna iðrun, hin sanna laungun eptir Guði, er ekki vöknuð í hjartanu, og á meðan getur maðurinn ekki orðið Guðs náðar aðnjótandi. En þar að auki eigum vèr einúngis ráð á þeim yfirstandanda tíma, en ekki vorum ókomnu dögum, og vitum ekki, hvort þeir verða margir eða fáir, nè hvernig vèr getum varið þeim; en hitt vitum vèr, að með hverri stund, sem líður, líður og á lífdaginn, og eptir því nálgast kvöld hans meir og meir, og mörgum af oss kann kvöldið að vera nær, en þeir sjálfir hugsa, eða vilja hugsa. Leitaðu því Drottins, kristinn maður! meðan hann er að finna! ákallaðu hann meðan hann er nálægur! Hversu mikið áttu eptir ógjört áður enn þú getir farið burt í friði! hversu margir meðbræðra þinna vænta og þurfa við hjálpar og huggunar, umburðarlyndis, heilræða og hluttekníngar! hversu margar dyggðir gætir þú ei æft! hversu margar syndsamlegar tilhneigíngar getur þú ekki svæft og sefað! hversu mörg tækifæri fær þú ekki til að sýna nægjusemi, stillíngu, þolinmæði, sáttgirni og kristilegan kærleika! Verkaðu sáluhjálp þína með ugg og ótta meðan Drottinn gefur þèr tíma og krapta, því tíminn líður og

kraptarnir þverra, kvöldið kemur og þá kallar Guð þig til reikníngsskapar!

Vèr höfum nú, kristnir bræður! nokkuð tekið fram þá viðvörun og áminníngu, sem Jesú spádómur um Jerúsalemsborgar eyðileggíngu inniheldur. Látum oss nú í *annan stað* hugleiða: hve huggunarfullur hann er fyrir hina trúuðu og sannkristnu.

þessi spádómur veitir hinum trúaða huggun, af því hann styrkir trúna á Jesúm, trúna á Jesú alskyggni og hans guðlega eðli; því einginn gat þá af mannlegu hyggjuviti fyrirsèð, að Jerúsalemsborg og musteri mundi þannig verða eyðilagt, og því síður ákveðið, hvernig og hve nær þetta mundi að bera. En eins og þessi Jesú spádómur rættist, eins munu líka öll hans fyrirheit rætast; hans kirkja mun vinna sigur yfir villu og vanþekkíng, hans ríki yfir myrkranna ríki, og hann mun vera með sínum trúuðu allt til enda veraldar. Jesú spádómur er huggunarfullur, af því hann styrkir trúnaðartraustið á Guðs forsjón og hans rèttlátu stjórn í heiminum. þó spádómur Jesú væri ekki annað enn rödd hins hegnandi rèttlætis, þá sýnir hann hinum trúaða, að þó rángsleitni, lestir og órèttvísi sýnist um stundar sakir bera sigur úr býtum, þá muni þetta ei verða svo æfinlega, heldur muni Guð á sínum tíma straffa hið illa, en launa hið góða. þetta veitir hinum trúaða þrek og krapta til að bera byrði lífsins, til að standa stöðugur á reynslunnar og freistínganna tíma og reynast trúr allt til enda. En Jesú spádómur er ekki einúngis rödd hins hegnandi rèttlætis, heldur og rödd hins eilífa kærleika. þegar vèr hugleiðum, mínir elskanlegu! *hvernig* Jesús fer að boða þenna hegníngardóm, hvað ber þá fyrir augu vor? gjörir hann það með heiptarfullum og ógnandi orðum? hefur hann gleði af því að tilkynna Gyðíngunum, að nú hafi þeir fyllt mæli sinna synda og fái ekki umflúið hina tilkomandi reiði? Ó, hvað fjarstætt hefði þetta verið honum, sem var sýnileg ímynd hins eilífa kærleika, honum, sem elskaði óvini sína fram í andlátið, sem bað fyrir þeim á krossinum, og lèt lífið af elsku til þeirra og vor allra syndugra manna! Hann grèt yfir borginni. Hjarta hans hrærðist af miskun og meðaumkun yfir vantrú og blindni borgarmanna,

yfir óbetranlegu hugarfari þjóðarinnar, yfir eymd og ófarsæld hennar og þeirri hegníngu, sem eptir Guðs alvísa ráði hlaut yfir hana að koma. En hjarta hans komst ekki einúngis við af blindni og ógæfu Gyðínganna, heldur og af syndaspillíngu mannkynsins yfir höfuð, af syndum mínum og þínum, kristinn maður! því hann sampýndist vorum eymdum, hann bar vorar syndir upp á trèð, og þeirra vegna var sál hans hrygg allt í dauðann. þess vegna er Jesú spádómur hinum trúaða svo huggunarfullur, að hann er honum vottur um Krists kærleika. Getur nokkur hlutur verið gleðilegri fyrir þig, kristinn maður! getur nokkur hlutur betur vakið fagnaðar og elsku tilfinníngar í brjósti þínu, enn þegar þú átt eitthvað bágt og ert í einhverjum raunum staddur og þú sèr innilega og viðkvæma hluttekníngu ástvinar þíns? Ó, eingin sjón er inndælli nè huggunarfyllri! Og hvað eru þó jarðneskir vinir í samanburði við hinn eina algóða himneska vininn? í samanburði við hann, sem sagt hefur: „komið til mín allir þèr, sem erfiðið og þúnga eruð hlaðnir, eg skal endurnæra yður!“ „hjá mèr skuluð þèr finna frið og hvíld fyrir sálir yðar“! það er þessi himneski vinurinn, sem hinn trúaði flýr til í öllum þrautum og þjáníngum lífsins; hann treystir því, að hann, sem forðum grèt yfir Jerúsalem, muni enn í dag hafa vakandi auga á högum sinna barna, hann muni vernda þau í háskanum, hjálpa þeim í neyðinni og senda þeim styrk af hæðum til að berjast góðri baráttu trúarinnar. það er þessi himneski vinurinn, sem hinn iðrandi leitar, því hann trúir og treystir því, að hann, sem forðum táraðist yfir syndum Jerúsalemsborgar, muni enn þá líta líknar og miskunar augum til syndugra manna, að hann, sem fyrir þá dó á krossinum, muni enn í dag fullvissa þá um náð og kærleika Guðs, þegar þeir í trúnni flýja að hans krossi, og gráta þar syndir sínar, þegar þeir með heitum iðrunartárum einsetja sèr að lifa honum, sem fyrir þá er dáinn og upp aptur risinn.

Já, Jesú spádómur er rödd hins eilífa kærleika, og hans tár yfir Jerúsalem eru heilög elskutár! og þau eru svo huggunarfull fyrir sannkristinn mann, af því þau sýna honum, að það er til hryggð, sem er eptir Guði, að það eru tár og andvörp til, sem ekki þreingja að andrúminu, heldur lètta og

lífga trúuð hjörtu; andvörp, sem ekki brjóta um þvert saklausa gleði, heldur auka hana og gjöra hana varanlegri, sem ekki veikla krapta sálarinnar, heldur styrkja þá til alls þess, sem er gott og Guði þóknanlegt. Í þess háttar andvörpunum birtist trúlynd, stillt og stöðug undirgefni þeirrar sálar, sem innan um stundlegt andstreymi og byltíngar lifir og hrærist í vonarljósi eilífrar sælu, og hefur sína umgeingni á himnum án þess þó að vanrækja sínar skyldur hèr á jörðunni. það er þessi hryggð eptir Guði, sem tárast yfir syndinni, en felur þó í sèr inndælar sælutilfinníngar, af því hún leiðir manninn til Guðs náðar og til lífsins í Guði; hún kennir oss hvernig vèr eigum að láta lifandi, trúaða og stöðuga umhugsun um Guð uppliífga, leiða og helga allar aðrar hugsanir vorar og tilfinníngar; hún kennir oss undirgefni undir Guðs vilja, gjörir oss viðbúna við öllum lukkunnar byltíngum, sigursæla í freistíngunum, þakkláta fyrir Drottins ástgjafir, reiðubúna og kostgæfna til allra góðra verka. þannig snýst Guðs barna hryggð í fögnuð og Drottinn þerrar öll tár af augum þeirra, hann lyptir anda þeirra í hæðirnar, svo þau í trúnni sjá fyrir neðan sig jörðina með allri hennar sorg og mæðu, með öllum þeim þokuskýjum, sem einatt skyggja á ráð hins eilífa, en fyrir ofan sig sjá þau heiðan himin, þar sjá þau almætti, speki og gæðsku og stjórn heimsins viðstöðulaust haldið áfram með himneskri fegurð og reglu. þar eru bústaðir og vistarverur vors himneska föður, þar verða og vorir bústaðir, þegar sálir vorar við endi þessa jarðneska lífs ná arfleifð heilagra í ljósinu og sjá Guð augliti til auglitis. En á meðan sèr hann oss, hann fylgir oss í þessum dimma dal með því eilífa augnatilliti, fyrir hverju ekkert rángt getur dulizt, ekkert óhreint fær staðizt. Látum oss því afleggja allan saurugleik holdsins og andans, látum oss afklæðast vorri eigingirni og voru holdlega hugarfari, en leita friðar og huggunar hjá honum, sem lætur alla hluti þèna þeim til góðs, sem hann elska, sem jafnan leiðir sín börn með mildiríkri föðurhendi, hvort heldur hann gefur eða burttekur, hvort heldur hann gleður eða grætir. Látum oss nú, kristnir bræður! innibinda þá huggun, sem Jesú spádómur veitir hinum trúaða í þeim orðum, að hann kennir oss að skoða tímann, sem vitjunartíma Guðs náðar, og teingir svoleiðis saman

tímann og eilífðina, jörðina og himininn. þegar vèr frá þessu sjónarmiði skoðum tímann, ó, hve margt verður þá ekki ljóst, sem annars er myrkt! það sem oss þykir þýngst og erfiðast, fær þá allt annað útlit og þýðíngu, það fær þá blessuð og heillarík áhrif á vor hjörtu og náið samband við vort innvortis andlega líf. þá verða jafnvel afleiðíngarnar af vorum brestum, vorri hrösun og yfirsjónum, ekki einúngis aðvarandi áminníngar um Guðs eilífa, hegnandi rèttlæti, heldur og líka, þegar þær leiða oss til iðrunar og apturhvarfs, til auðmýktar og undirgefni undir Guðs vilja — þá eru þær sá augljósasti og vissasti vottur um Guðs óendanlegu miskunsemi, sem í æðsta og sannasta skilníngi stýrir öllu til hins bezta fyrir alla þá, sem snúa sèr til hans, sem á hann vona og í honum leita sèr friðar og fagnaðar. þá verður allt, sem oss mætir hèr í lífi, augljósasti og vissasti vottur Guðs forsjónar; þá sjáum vèr, að það er hann, sem sendir ljós og myrkur yfir lífsferil vorn og breytir iðulega vorum högum, til þess vèr ekki skulum gleyma því, að tíminn er hans vitjunartími, til þess vèr aldrei skulum falla í andvaraleysis ómegin, eða rígbinda hug og hjörtu við stundlega hluti, heldur jafnan hafa það hugfast, að vèr erum hèr á jörðunni einúngis gestir og útlendir, og að oss er ætlað, eins með stríðu sem blíðu að búast og menntast undir eilíft óðal á voru rètta föðurlandi, í hans eilífa dýrðarríki. Ef vèr skoðum tímann eins og vitjunartíma Guðs, þá sjáum vèr að syndin ein getur skilið oss frá Guði, en að einginn annar hlutur getur skilið oss við hann, hvorki hæð nè dýpt, hvorki hið nálæga nè hið ókunna. Látum oss því rannsaka hjörtu vor og allt vort háttalag, svo vèr sjáum hvaða götu vèr gaungum, hvort vèr erum horfnir frá lífinu í Guði, hvort vèr höfum gleymt því sambandi, sem er milli himins og jarðar, milli Guðs og vor, hvort vèr höfum sökkt huga vorum niður í munað og áhyggjur þessa lífs, hvort vèr látum oss leiða af lystisemdum heimsins og höfum misst sjónar á því, sem til vors friðar heyrir. Hverfum því meðan tími er til aptur til vors himneska föður, hann mætir á miðri leið sèrhverju iðrandi barni sínu með útbreiddan miskunar og friðar faðm. Í hans himni er fögnuður og gleði yfir hverjum þeim, sem iðran gjörir, því Guðs andi tekur sèr þá bústað í hjarta

mannsins, hið eilífa vitjar þá hins tímanlega. Ó, hve hugglaðir megið þèr þá vera, þèr Guðs og manna vinir! sem við ljós Jesú orða skoðið tímann sem vitjunartíma Drottins, þèr sem kostið kapps um, að kærleiki, sannleiki og rèttlæti geti búið í húsum yðar og hjörtum, þèr sem ekki launið illt með illu, heldur leitizt við fyrir Guðs náð að yfirvinna hið illa með góðu, þrautirnar með þolinmæði, sorgina með stillíngu, freistíngarnar með stöðuglyndi, böl og mótlæti með bæn og iðjusemi, þrætur, ofsóknir, álas með sáttgirni og vitnisburði góðrar samvizku. Þèr sýnið, að Guð hefur vitjað yðar, og að þèr þekkið yðar vitjunartíma! Ó, hversu hugglaðir getið þèr geingið móti ókomna tímanum, hversu hughraustir getið þèr sagt: „Minn tími stendur, minn Guð! í höndum þín". Ó, þú eilífi tímans höfundur og herra! kenndu oss að telja vora daga, kenndu oss að búa oss rèttilega undir umskipti tímans og eilífðarinnar, og þegar þú í seinasta sinn vitjar vor hèr í tímanum, og býður oss að flytja hèðan, gefðu oss þá náð til þess, að geta tekið dauðanum sem þínum sendiboða, sem þínum friðareingli, sem á að flytja oss á þinn friðarfund. Ó, Guð, þú sem ekki ert Guð hinna dauðu, heldur hinna lifendu, glaðir skiljum vèr þá við þetta líf, glaðir skilum vèr þá dauðanum því, sem hann á: syndinni, sorginni, mæðunni og moldinni; en trúin á þig, friðurinn við þig og elskan til þín — það tilheyrir ekki dauðanum heldur lífinu — og lífið — hið sanna lífið — byrjar í dauðanum. Ó, Guð, vitjaðu vor í lífi og dauða! láttu oss leita þín í lífi og dauða, og flyttu oss frá dauðanum til lífsins! Bænheyr það í Jesú nafni! Amen.

---

## Á ellefta sunnudag eptir trinitatis.

### Bæn.

Gæðskuríki himneski faðir! vèr erum hèr saman komnir til að nálgast þig með bænaákalli og guðrækilegum hugleiðíngum; vertu ekki fjarlægur neinum af oss, heldur hrærðu vor hjörtu með þínum anda, svo þau verði hæfileg fyrir þína náðarnálægð. Láttu vor hjörtu auðmýkja sig fyrir þèr, og kenndu

oss að sjá og kannast við vorn óverðugleik, kannast við það, að þú ert allt, en vèr erum ekkert. Æ, láttu lifandi tilfinníngu þessa vors vanmáttar og breyskleika vekja hjá oss einlæga iðrun og koma oss til þess að biðja þig um styrk af hæðum, um nýja krapta til lífernisbetrunar, svo vèr í trúnni á þig og trausti til þinnar hjálpar fáum eflt vora sáluhjálp með ótta og andvara. Láttu vora bænaiðju nú og endrarnær vera þèr velþóknanlega, svo vèr rèttlættir og rèttlátari mættum snúa aptur til vorrar tímanlegu köllunar, og öll vor jarðneska iðja helgast af elskunni til þín! Amen.

## Guðspjallið

(Lúk. XVIII., 9.—14.).

Einhverju sinni sagði Jesús þeim, er þóttust vera rèttlátir og fyrirlitu aðra, þessa eptirlíkíngu. Tveir menn geingu upp í musterið að biðjast fyrir, einn var faríseari, en hinn tollheimtumaður. Faríssearinn stóð og baðst nú þannig fyrir með sjálfum sèr: Guð! eg þakka þèr, það eg er ekki eins og aðrir menn, ræníngjar, óráðvandir, hórdómsmenn, eða eins og þessi tollheimtumaður. Eg fasta tvisvar í viku og geld tíundir af öllu því eg á. En tollheimtumaðurinn stóð lángt í burtu frá og vildi ekki upplypta augum sínum til himins, heldur barði hann sèr á brjóst og sagði: Guð! vert þú mèr syndugum líknsamur! Sannlega segi eg yður: þessi fór rèttlátari enn hinn heim í sitt hús; því hver sem sig sjálfan upphefur, hann skal niðurlægjast, en hver sem sjálfan sig niðurlægir, hann mun upphafinn verða.

## Inngángur.

„Nálgizt þèr Guð, og þá mun hann nálgast yður“! þessa áminníngu gefur postulinn Jakob í síns brèfs 4. kapítula. Á margvíslegan hátt er maðurinn áminntur um að nálgast Guð. Hvert sem vèr lítum, hvort heldur í kríng um oss, eða til sjálfra vor, þá benda oss allir hlutir á hina hátignarfullu ósýnilegu veru, sem hefur opinberazt ekki einúngis í hinni ytri náttúru, heldur og í vorum eigin innra manni. þegar vèr hugleiðum þá dásamlegu röð og reglu og það nána samband,

sem birtist í öllum sköpuðum hlutum smáum og stórum, þegar vèr hugleiðum þá stórkostlegu viðburði, sem eingin mannleg framsýni gat fyrirsèð nè afstýrt, og sem hafa breytt ástandi heilla þjóða og forlögum einstakra manna, þegar vèr hugleiðum eðli sjálfra vor og eiginlegleika vora, sem geta tekið óendanlegum framförum, þá hljótum vèr að sannfærast um, að sú æðsta vera hefur skapað alla hluti og niðurraðað þeim, að hún viðheldur og stjórnar þeim öllum, að gjörvallt sköpunarverkið stendur í nánu sambandi við þá æðstu veru, sem vèr köllum Guð, og að vèr sèr í lagi erum kallaðir til þess, að komast í innilegan fèlagskap við hann, sem er höfundur og takmark tilveru vorrar. En hvernig eigum vèr vesalir, dauðlegir menn, að geta nálgazt hann, sem býr í hæðunum, hvernig á duptið að geta nálgazt hinn alvalda Drottin himins og jarðar? Þetta væri oss líka ómögulegt, ef hann hefði ekki sjálfur nálgazt oss, ef hann hefði ekki af sinni ómræðilegu föðurelsku tekið sín veiku og hjálpar þurfandi börn í sinn föðurfaðm. Hann hefur á öllum öldum nálgazt oss mennina, en allra mest í sínum elskulega syni, vorum frelsara Jesú Kristi; hann er hið eilífa sameiníngarband milli himins og jarðar, sá einasti meðalgángari milli Guðs og vor; hann hefur opnað oss aðgáng til föðursins og sjálfur sagt: „eg em vegurinn, sannleikurinn og lífið, einginn kemur til föðursins, nema fyrir mig". En það er mikill munur á því, hvernig mennirnir fara að nálgast Guð, og mikill munur á þeirri blessun, sem þeir með því bera úr býtum. Það er komið undir ólíku hugarfari þeirra, hvort þeir hafa af því mikla, litla, eða jafnvel einga blessun. Sumir nálgast Guð með hrokafullum hjörtum og sjálfbýrgíngsskap, og fara heim aptur án þess bænaiðjan hafi nokkur betrandi áhrif á þá, en aðrir nálgast Guð með iðrandi og harmþrúngnum hjörtum af endurminníngu synda sinna, en með trúnaðartrausti, og fara heim aptur fullvissir um Guðs náð og útbúnir með nýjum kröptum til að halda áfram sinni lífernisbetrun. Hið nýlesna guðspjall sýnir oss dæmi upp á þetta gagnstæða sálarástand, og sá sami mismunur á sèr á öllum tímum stað meðal kristinna manna, því miður, í sèrhverjum kristnum söfnuði. Vèr, sem hèr erum samansafnaðir, erum vissulega híngað komnir til þess að nálgast Guð. En höfum vèr nú allir rannsakað hjörtu vor, hvort vèr

erum komnir með farísearans eða tollheimtumannsins hugarfari? Annarshvors þessara manna líkist vort hugarfar meira eða minna. Vèr getum ekki skyggnzt inn í annara hjörtu; það getur einúngis hinn alltsjáandi; en vèr getum skyggnzt inn í vor eigin hjörtu, og það viljum vèr með Guðs aðstoð gjöra á þessari stundu, og hugleiða:

*með hvaða hugarfari vèr eigum að nálgast Guð til þess hann nálgist oss með sinni blessun.*

„Nálgizt þèr Guð með auðmjúkum hjörtum, þá nálgast hann yður með sinni náð"! Djúpt í mannlegu eðli, eins og það birtist hèr á jörðunni, liggur sjálfbyrgíngsskapar og drambsemis vísir, sem vex og magnast þegar hann fær eitthvert tilefni til þess, annaðhvort utan frá, eða að innan, annaðhvort af lukkunnar gæðum, sem falla í mannsins skaut, eða af upphefð og yfirráðum yfir öðrum, eða af því maðurinn finnur til þeirra yfirburða, sem ágætir líkama og sálar eiginlegleikar veita. Jafnvel án nokkurs sýnilegs tilefnis vex þetta illgresi í mannlegri náttúru, og fær svo mikil yfirráð yfir hjarta mannsins, að það kæfir eða aflagar hans góðu eiginlegleika. Að vísu hafa sumir haldið, að þessi rótgróna eigingirni hjá manninum væri náttúrleg og jafnvel skaðlaus, og enda að nokkru leyti nauðsynleg, til að hvetja manninn til að stunda gagn sitt. En af ávöxtunum megið þèr þekkja þá; gott trè getur ekki borið vondan ávöxt. Og hvaðan sprettur óþreyan, sem aldrei er ánægð með sín kjör, og aldrei fær óskir sínar uppfylltar? Hvaðan sprettur ómiskunsemin, sem með oftrausti á sínum eigin fullkomlegleikum ekki vill sýna öðrum neina vægð eða vorkunsemi? Hvaðan sprettur fyrirlitníng fyrir annara rèttindum, sem einúngis lætur sèr annt um, að gæta síns eigin rèttar? Hvaðan sprettur kaldsinni, kærleiksleysi og tilfinníngarleysi fyrir annara eymdum, sem í öllu fylgir þeirri reglu, að hver er sjálfum sèr næstur? Hvaðan spretta þessar og ótal aðrar orsakir til ósamlyndis, þrætu og álfúðar meðal mannanna; hvaðan spretta þær, nema frá mannlegri eigingirni, sem birtist í ótal myndum í mannlegu lífi? Vèr hvorki getum rakið nè ætlum að rekja eigingirninnar margþætta vef, því hún er svo samtvinnuð hugsunum og hegðun manna, að bágt er að lýsa öllum hennar

stefnum. En það er víst, að eins og eigingirnin truflar meira enn allt annað eindrægni og bróðurlegan kærleika manna á meðal, þannig stríðir og einginn hlutur eins og hún móti því sambandi, sem að rèttu lagi á að vera milli skaparans og skapaðra skepna. Að vilja nálgast Guð með hjartað fullt af eigingirni og oftrausti á eigin rèttlæti, er hið sama sem að gjöra sèr það ómögulegt að verða Guðs náðar aðnjótandi. Sá sem treystir upp á mátt sinn og megin og þykist einkis þarfnast, hann hefur sjálfa guðsþjónustuna, eins og farísearinn í guðspjallinu, einúngis fyrir meðal til að ala drambsemi sína; hann leitar í sjálfri andaktinni að stoð og styttu fyrir eigingirni sína, og vílar ekki fyrir sèr að leggja sjálfan sig og sitt eigið rèttlæti undir dóm hins alltsjáanda, heilaga Drottins. Með slíku hugarfari megið þèr ekki, kærir bræður! nálgast Guð, nei, nálgizt hann með auðmjúkum hjörtum, þá nálgast hann yður með sinni náð, og hvaða tilfinníng getur verið eins samhljóða vorn rètta sambandi við hinn eilífa? eða hvernig skyldum vèr, dauðlegir menn, dirfast að koma fram fyrir Drottin himins og jarðar án þess að finna til vanmáttar vors? Hvað höfum vèr, sem vèr höfum ekki þegið af honum? Hvað megnum vèr án hans hjálpar og aðstoðar? Hversu ólík sem kjör vor kunna að vera, þá erum vèr þó honum allir jafnt undirgefnir, allir eins varnarlausir án hans verndar, allir eins ófarsælir án hans náðar. Og þeir einir geta fært sèr hans náð í nyt, sem í auðmýkt hjartans finna til þarfar sinnar og taka fúslega móti hans náðargáfum. Ó, Drottinn! þegar vèr lyptum huganum upp til þín, sem býr í himnesku dýrðarljósi, þegar vèr lítum í kríng um oss á þitt ómælilega alheimsríki og sjáum, að vor jörð er í samanburði við það, eins og einn dropi í samanburði við sjáfarhafið, eins og ómerkilegt ar í sólargeislanum; þegar vèr hugleiðum þitt almætti, þína speki, þitt rèttlæti, sem birtist svo áþreifanlega í forlögum heilla þjóða og einstakra manna; þegar vèr gætum að því, hvernig þú útsendir dauðans eingil og kallar til þín innbúa jarðarinnar svo þúsundum skiptir, og að hvorki æska, völd, auðæfi, nè vizka getur mótstaðið þinni kallandi röddu, hvernig þú sendir út þrumur og storma og umturnar á einu augnabliki því, sem menn í margar aldir hafa verið að byggja, hvernig þú allt í einu getur upphafið og lítillækkað, lífgað og

deytt, skapað og gjört að eingu — æ, megum vèr þá ekki niðurkrjúpa frammi fyrir þinni hátign, og auðmjúkir kannast við vorn vanmátt og í auðmýkt fela oss í þína almættishönd! Já, beygið yður undir Guðs voldugu hönd, svo hann upphefji yður á sínum tíma! Auðmýktin er sá einasti rètti vegur til þeirrar sönnu upphefðar; hún færir aptur í lag sambandið milli Guðs og manna, eins og það var í öndverðu, þegar Guð var manninum allt í öllu', og maðurinn var ekkert af sjálfum sèr, heldur allt fyrir hann, í hverjum hann lifir, er og hrærist. Útrými maðurinn þessari auðmýktar og undirgefnis tilfinníngu úr hjarta sínu, þá fá kraptar hans skakka stefnu, svo hann þjónar eigingirninni, en vinnur ekki Guðs verk, og líf hans verður ekki annað enn órólegur og þýðíngarlaus draumur. En ef þú þar á móti, kristinn maður! lætur auðmýktar tilfinníngu gagntaka hjarta þitt, þá gleymir þú að sönnu sjálfum þèr og þínu rèttlæti, en ávinnur með því hið æðra og sanna líf: lífið í Guði.

Nálgizt þèr Guð með iðrandi hjörtum, þá mun hann nálgast yður með krapti til betrunar og helgunar! Mundi nokkur geta nálgazt Guð án þess að finna til blygðunar af sínum eigin óverðugleik? Guðs nafn minnir oss ekki einúngis á hátign, almætti og speki, heldur og á heilagleika, gæðsku, rèttlæti og alskyggni. Og hvernig ætlum vèr að geta nálgazt þessa æðstu veru án þess innst í hjörtum vorum að finna til auðmýktar og ángurs af ófullkomlegleika vorum? Blindur hlyti sá maður að vera, sem ekki sæi breyskleika sinn og fyndi til synda sinna, þegar hann kemur fram fyrir heilagan Guð. Sá sem í slíku augnabliki er blindaður af sjálfbyrgíngsskap, eins og farísearinn, og lítur einúngis á mannkosti sína, en sèr ekki bresti sína, hann hefur aldrei hugleitt, hvað það er, að standa frammi fyrir honum, sem er hjartnanna og nýrnanna rannsakari, sem sèr hverja syndsamlega hugrenníngu, hverja heimuglega girnd, sèrhvern óbeit á hinu góða, sèrhverja tilhneigíng til hins illa, sèrhvern óhreinan og eigingjarnan tilgáng, sem einatt loðir við þau góðverk, sem vèr stærum oss af. Í heilagleikans hreina, himneska ljósi sjáum vèr bezt vanhelgi vora. Og þess vegna mætti einginn syndugur maður

nálgast heilagan Guð, væri hann ekki líka hinn eilífi kærleiki, faðir allrar miskunar, sem hefur elskað heiminn svo, að hann sendi sinn eingetinn son til þess, að hver, sem á hann trúir, ekki skuli fyrirfarast, heldur hafa eilíft líf. Þess vegna megum vèr nú, svo ófullkomnir sem vèr erum, nálgast Guð; því hann rekur eingan frá sèr, sem til hans leitar. En eins og kærleikurinn og heilagleikinn hjá Guði verða að einum kærleiksfullum og heilögum vilja, þeim nefnilega, að allir syndarar mættu snúa sèr og hverfa aptur til lífsins í Guði, eins eigum vèr, þegar vèr nálgumst Guð, að sameina tilfinníngu vors ófullkomlegleika við helgunarlaungun, og þannig nálgast Guð með iðrandi hjörtum. Hversu lítið og lauslega sem maðurinn prófar sjálfan sig, þegar hann mætir frammi fyrir Guði, þá finnur hann, að hann er ekki eins og hann ætti að vera, að hann hefur mikils að iðrast og þarf í mörgu tilliti að betrast, og þessi tilfinníng hans er að því skapi lifandi sem betrunarásetníngur hans er einlægur og alvarlegur. Já, ef vèr vildum allir gánga í reikníngsskap við sjálfa oss, ef vèr allir vildum hugleiða, hversu fjærri vèr erum þeirri fullkomnun, sem Guð heimtar af oss, ef vèr allir vildum á þessari stundu rifja upp með oss vora umliðnu æfi og aðgæta, hvílík hún hefur verið og hvílík hún hefði getað verið, þá mættum vèr vissulega allir af innsta grunni hjartans í einu hljóði undirtaka og biðja: „Guð, vertu mèr syndugum líknsamur“! Já, kæru vinir! syndarar erum vèr allir, en erum vèr allir iðrandi syndarar? Einginn annar ætti að koma í Drottins heilaga hús í þeim tilgángi að nálgast Guð, því sá, sem ekki kemur þángað í þeim tilgángi, að leita hjá Guði styrks og krapta til lífernis betrunar, fer ekki rèttlátari aptur heim í sitt hús. En ef vèr í þessum tilgángi gaungum í Guðs hús, þá mun heilagur Guð gefa oss krapta til helgunar. Í eingum hreinna tilgángi getur maðurinn nálgazt Drottin sinn, í eingum æðra tilgángi getur hann leitað Guðs hjálpar, enn þegar hann biður hann að leggja sèr lið og krapta til lífernisbetrunar. Þá biður maðurinn um það, sem er samhljóða Guðs vilja, og getur því verið viss um bænheyrslu. Að vísu megum vèr biðja Guð um stundleg gæði, um huggun í sorginni, um raunalètti, um bót á sèrhverju böli og hjálp í sèrhverju andstreymi lífsins, en allt þetta eigum vèr að fela

speki hans á hendar, sem betur sèr enn vèr, hvað oss er fyrir beztu. Þar á mót megum vèr ætíð vera vissir um, að bæn um krapta til að sigra hið illa og gjöra hið góða stígur upp að hásæti hins eilífa og snýr þaðan aptur með bænheyrslu og blessun fyrir hinn biðjanda. Meðlæti og mótlæti, heilsa og vanheilsa, fátækt og ríkidæmi, sorg og gleði, líf og dauði — allt þetta eru einúngis meðul í Guðs forsjónarhendi, sem öll miða til vorrar betrunar og helgunar; og hver á að veita oss krapta til að gánga þann veg, sem leiðir til þessa augnamiðs, nema hann, sem hefur leitt oss á þenna veg, sem hefur boðið oss að vera heilagir, og lofað að vera máttugur í vorum veikleika? Ó, nálgizt þá Guð með iðrandi hjörtum og leitið liðs og krapta hjá honum, biðjið hann um styrk í trúnni, styrk í framkvæmdinni, þá megið þèr vera vissir um, að hann, sem heyrði bæn tollheimtumannsins, ekki muni synja yður um bænheyrslu, heldur með sínum krapti efla framför yðar á helgunarinnar vegi.

Nálgizt þèr Guð með trúnaðartrausti, með trúaröruggum hjörtum, þá mun hann nálgast yður með sinni hjálp og huggun! Sá sem sjaldan eða aldrei biður Guð, sem sjaldan eða aldrei snýr huga sínum til andaktar í Guðs húsi, sjaldan eða aldrei kemst við af guðrækilegum tilfinníngum, verður Guði svo ókunnugur, að hann getur ekki nálgazt Guð með fullu trúnaðartrausti, ekki einu sinni þegar neyðin þrýstir honum til að nálgast Guð; því trúnaðartraustið á Guði byggist á innilegri sannfæríngu um almætti hans og gæðsku, og þessi sannfæríng kemur ekki ætíð þegar menn þurfa á henni að halda, hafi þeir ekki eins á góðu dögunum viðhaldið sambandi sínu við Guð sem föður hreinu og óflekkuðu, og leitazt við að vera hans börn. Gleymi menn skapara sínum í áhyggjum og sorgum þessa lífs, í glaumi og ginníngum heimsins, láti menn heilar vikur, mánuði og má ske heil ár líða án þess hjartanlega og innilega að nálgast vorn mesta velgjörðaföður, þá verður hugmyndin um gæðakuríkan Guð óljós og ógreinileg í huga vorum, svo vèr tökum oss hans nafn í munn andaktar og meiníngarlaust. Hvernig getum vèr þá búizt við því, að hafa fullt traust á Guði á neyðarinnar tíma, þegar vèr í meðlætinu svo lítið höfum hirt um að leita trausts hjá honum?

Og er það ekki hræðilegt, að þegar útséð er um alla mannlega hjálp og öll mannleg huggun reynist ónóg, að vèr skulum þá fara á mis við þá sönnu huggun, að vèr þá ekki skulum geta með barnlegri undirgefni og lifandi trúnaðartrausti falið oss og öll vor efni Guðs föðurforsjón á hendur? Að nálgast Guð án trúnaðartrausts er hið sama sem að efast um hans gæðsku og kærleika, hvaðan vèr einmitt ættum að vænta oss hjálpar og huggunar. Að oss finnst böl og mótlæti, það sem oss mætir, svo þúngt og beiskt, kemur án efa til af því, að oss vantar trúnaðartraust á Guði; þetta yrði oss lángt um lèttbærara, ef vèr í hjörtum vorum værum sannfærðir um, að Guð úthlutar því ekki einúngis eptir speki sinni, heldur og eptir gæðsku sinni, og að það einúngis miðar til vorrar sönnu farsældar. Og þegar einhver mæða, eitthvert mótlæti ber oss að höndum, og oss finnst vèr vera einmana og yfirgefnir í veröldinni, og vèr grátandi lyptum augum vorum til himins, en sjáum þar ekkert vonarljós og finnum eingan hugfróa af því að hugsa til Guðs, nè verðum varir við nokkra bænheyrslu í hjörtum vorum — æ, þá felst víst í djúpi sálar vorrar leynilegur efi, leynilegt vantraust, sem aptrar bæn vorri frá því að fljúga á trúarinnar og vonarinnar vængjum upp að hásæti vors himneska föður, og þess vegna finnum vèr ekki í bæninni huggun eða harmalètti. Vor himneski faðir vill, að sín börn skuli trúa sèr og treysta. Að vísu hefur hann gefið þeim marga stoð og styttu að halda sèr við hèr á jörðunni, að vísu hefur hann gefið þeim krapta og meðul til að efla með velgeingni þeirra, að vísu vill hann ekki, að menn skuli leggja árar í bát og bíða teikns af himni, heldur láta þá neyta þeirra krapta, sem hann hefur gefið þeim; en samt sem áður eigum vèr að treysta honum meir enn öllu öðru, og megum ekki reiða oss á neitt annað án hans. Sè það hans vilji, að vèr missum það, sem vèr elskum og unnum hugástum, þá ber oss að gæta þess, að missirinn er ekki óbætanlegur, meðan vèr eigum hann að og erum sannfærðir um hans elsku. Sælir erum vèr, ef vèr í öllum vorum efnum, andlegum og líkamlegum, getum treyst Drottni; sælir erum vèr, ef vèr með fullu trúnaðartrausti getum falið oss og öll vor efni í hans forsjónarhönd, og þolinmóðir í þrautum og vonglaðir tekið hverju því, sem speki hans og gæðska lætur oss að höndum

bera; sælir erum vèr, ef vèr getum nálgazt Guð með auðmjúkum, iðrandi og trúarörruggum hjörtum, þá mun hann nálgast oss með sinni náð, sínum krapti og sinni huggun.

Æ, yfirgef þú oss aldrei, Drottinn! heldur vertu oss jafnan nálægur, ekki einúngis með þinni almáttugu alstaðarnálægð, heldur með þinni helgandi náð. Vertu hjá oss í vöku og svefni, í lífi og dauða! Amen.

---

## Á tólfta sunnudag eptir trinitatis.

### Bæn.

Öll þín handaverk, Drottinn! bera vitni um þína eilífu og óendanlegu fullkomlegleika; allir skapaðir hlutir víðfrægja þína dýrð, en af öllum þínum sköpuðu skepnum hefur eingin meiri orsök til þessa, enn vèr mennirnir. Þína guðdómsmynd hefur þú lagt niður í vorar sálir, og þitt heilaga nafn á vorar varir; þú hefur gefið oss skynsemi til að geta þekkt þig, og málfæri til að geta lofað og vegsamað þig. En æ, hvernig verjum vèr nú þessum þínum dýrmætu náðargjöfum? hversu lítið hirðum vèr nú um að upplýsa vora skynsemi og auðga hana að þekkíngu um þitt ráð og þinn vilja? hversu lítið hirðum vèr um að verja því málfæri, sem þú gafst oss, þèr til dýrðar? Ó, Drottinn! kenndu oss að leita þíns sannleika, kenndu oss að tala sannleikann, þá verða þínar hugsanir að vorum hugsunum, og þín orð að vorum orðum; því þín orð eru líf, andi og sannleikur. Helgaðu oss, góði Guð! í þínum sannleika, svo hann verði uppspretta vorra hugsana, orða og gjörða; sendu þinn anda í vor hjörtu, sannleikans heilaga anda, svo vèr hèr framgaungum í sannleikanum og verðum hæfilegir fyrir eilífa sælu síðar meir, þar sem einglar og útvaldir lofa og vegsama þitt heilaga nafn og allar túngur játa, að þú sèrt Drottinn að eilífu. Amen.

### Guðspjallið

(Mark. VII., 31.—37.).

Þegar Jesús fór á burt aptur frá landamerkjum Týrí og Sídónis, kom hann til sjáfarins í Galíleu, í miðjar byggðir þeirra tíu staða. Þar leiddu þeir til hans mann, sem

daufur og málhaltur var, og báðu, að Jesús legði hendur yfir hann. Jesús vèk honum afsíðis frá fólkinu; lèt fíngur sína í eyru hans; hrækti frá sèr og áhrærði hans túngu; leit upp til himins, andvarpaði og sagði: hephata! (það þýðir: opna þig!). Jafnsnart upplukust eyru hans og fjötur túngunnar losnuðu, svo hann talaði rètt. Frá þessu bannaði Jesús að segja nokkrum; en því meir sem hann bannaði þetta, þess meir víðfrægðu þeir það. Sjálfa þá furðaði þetta mjög og þeir sögðu: allt gjörði hann vel, því heyrnarlausum gefur hann heyrn og mállausum mál.

## Inngángur.

Frelsari vor var vanur að lækna þá sjúku, sem leituðu hans hjálpar, einúngis með einu orði, eða með eintómum vilja sínum. En af því upplesna guðspjalli sjáum vèr, að í þetta sinn gjörði hann það með meiri umsvifum enn endrar nær. Þó má einnig hèr sjá, að Jesú orð læknaði hinn veika, því þegar hann sagði: opna þig! þá upplukust eyru hans og fjötur túngunnar losnuðu. En með því að láta fíngur sína í eyru hins heyrnarlausa og snerta túngu hans, vildi Jesús vekja eptirtekt hans og þeirra, sem viðstaddir voru, á þeim veikleika, sem hann ætlaði að lækna. Með því minnir hann oss alla á þá skyldu vora, að grennslast eptir því, hvað oss er ábótavant, og leitast við að ráða bót á því. Einnig vildi hann með því að líta upp til himins sýna oss, að vèr eigum að leita og getum einúngis þaðan vænzt sannrar og verulegrar hjálpar í öllu voru böli. Eptirtektavert er það líka, að Jesús andvarpaði um leið og hann gaf þessum sjúklíngi aptur heyrn og mál. Án efa var það bænarandvarp, sem frelsarinn sendi upp til síns himneska föður, meðaumkunarandvarp yfir bágindum þessa vesala manns, er vantaði málið, þessa tignarfullu Guðs gjöf, sem fremur öllu öðru einkennir manninn frá öðrum skepnum. Skeð getur og, að það hafi verið hryggðarandvarp út af því, hvernig mennirnir svo tíðum vanbrúka þessa dýrmætu gjöf; að minnsta kosti ættum vèr að andvarpa yfir þessu, og láta það vera hugvekju fyrir oss um leið og vèr nú frá þessu almenna yfirliti

yfir hið upplesna guðspjall snúum oss til þess sèrstaklega efnis, sem vèr á þessari guðrækNisstundu stuttlega viljum hugleiða, að íhuga *mannlegt málfæri*, eða *þá Guðs gjöf að geta talað*, og viljum vèr fyrst yfirvega, hvað þessi gjöf er dýrmæt, og í annan stað, hvaða ábyrgð henni fylgir. Lát þèr þóknast orðræður míns munns og málið míns hjarta, Dróttinn! mitt hjálpræði og minn endurlausnari!

Þótt það væri mikið kraptaverk, að hinn daufi og málhalti fèkk ekki einúngis heyrnina aptur að Jesú boði, heldur tók til að tala rètt, það er: skýrt og skilmerkilega, þá má það ei síður heita dásamlegt, er vèr á hverjum degi og hverri stundu sjálfir gjörum, þegar vèr látum hver öðrum í ljósi hugsanir vorar og tilfinníngar með orðum, eða þeim hljóðmyndum, sem á vörmu spori hverfa aptur. Þegar vèr aðgætum, hvernig tal vort er samansettt af margvíslegum og breytilegum samstöfum, sem allt í einu verða að fylgja hver á eptir annari, hvernig raustin ekki einúngis í saung, heldur og í daglegu tali, ýmist verður að hækka, ýmist að lækka og breytast á ótal vegu, og hvernig allt þetta er komið undir þeim áhrifum, sem sálin hvert augnablik hefur á þau verkfæri, sem mynda orðin, þá hljótum vèr að dást að þessu óskiljanlega furðurverki. Og þegar vèr jafnframt hugleiðum, að sèrhvert orð, sem vèr tölum, er bendíng sálarinnar, búníngur vissra hugsana eða tilfinnínga, sem vèr viljum láta í ljósi, að það erum vèr sjálfir, sem með þessu eins og úthellum hjörtum vorum, og getum þannig sýnt öðrum vorn innra mann, þá er þetta enn dásamlegra; því það er þá ekki leingur hagleiksbyggíng líkamans, heldur órannsakanlegt eðli sálar vorrar, sem vekur hjá oss undran. En eigum vèr að láta þar með búið? Er það nóg, að vèr furðum oss á þessu Drottins dásamlega handaverki? Eigum vèr ekki einnig að lypta huganum upp til hans, sem hefur „plantað eyrað og augað tilbúið“? sem sjálfur er hið eilífa orð, sem nær yfir himin og jörð? Látum oss framfalla og tilbiðja, látum oss beygja knè vort fyrir Drottni vorum skapara, látum oss lofsýngja honum, því „allt gjörði hann vel“. Dásamleg er sú gáfa, að geta talað ei síður í verkunum sínum enn í eðli sínu. Fyrir hana getur mannleg skynsemi opinberazt. Gæti maðurinn

ekki talað, þá gæti hann naumast hugsað. Að sönnu getur heyrnar- og máilaus maður með teiknum og bendíngum náð nokkuri þekkíngu og jafnvel gjört sèr nokkurn veginn skýra hugmynd um Guð. Við tilfinníngu hans fyrir rèttu og raungu sameinast grunur um tilveru hins eilífa alheimsskapara. En þessi þekkíng hins heyrnar- og máilausa fæst fyrir kennslu, og hún byggist á þeim framförum mannlegrar skynsemi, sem ekki væru mögulegar, ef málið væri ekki til. Yfir höfuð verður ekki maðurinn að manni, eða fullnuma, fyrr enn hann er orðinn altalandi; eptir því sem börnin læra að nefna hlutina á nafn eptir því læra þau að þekkja þá. Vèr lesum í 1. Mós. b. 2., 19., að „þegar Guð hafði skapað manninn, lèt hann alls kyns dýr merkurinnar og alls kyns fugla koma til mannsins, til að vita hvaða nafn hann gæfi hverju þeirra“. Þannig myndaðist í öndverðu málið, þegar maðurinn fór að litast um og þekkja hlutina í kríng um sig. Allt frá þeim tíma hefur málið verið menntunar og uppfræðíngar meðal, bæði fyrir hvern einstakan mann og gjörvallt mannkynið. Málið er ekki einúngis ómissandi til að viðhalda umgeingni vina og kunníngja, heldur og til að viðhalda allri stjórn og skipulagi mannlegs fèlags. En af öllum málsins heillaríku verkunum, er eingin eins mikilvæg og blessunarfull og boðun þess sannleika og þeirrar náðar, sem Guðs opinberaða orð hefur að geyma. Fyrst talaði Guð til feðranna í fleiri skipti, segir postulinn, og með mörgu móti fyrir munn sinna spámanna, og loksins hefur hann til vor talað fyrir soninn; íklæddur mannlegu holdi talaði hann og á mannlegu máli, en þó hefur einginn talað eins og hann, því hann hafði orð hins eilífa lífsins, eins og lærisveinar hans komust að orði, og þeir bæði heyrðu og sáu hans dýrð, dýrð sem hins eingetna föðursins, sem var fullur náðar og sannleika. Og eptir hans himnaför fóru þeir út um heiminn til að boða hans orð, og feingu nýja gáfu til að tala það, sem andinn blès þeim í brjóst. Einnig til vor er guðsorð komið; einnig oss gjörir það hluttakandi í hans náð og sannleika. Má oss þá ekki þykja mikið til málsins koma, þar eð það er meðal til vorrar sáluhjálpar; þar eð vèr með því getum beðið Guð og vegsamað hann; þar eð sjálfur Guð með sínu orði nálgast oss og kallar

oss til sín, upplýsir oss, huggar oss og helgar, veitir oss náð og frið og eilíft líf.

En eins og sú gjöf Guðs, að geta talað, er dýrmæt og ómissandi fyrir oss, eins er hún líka ábyrgðarmikil. En hvernig misbrúka menn þó ekki þessa gáfu í daglegu lífi með lygi og ósannindum, og jafnvel við sjálfa guðsþjónustugjörðina með hræsni og hugsunarleysi. Sú skylda, sem í þessu tilliti fyrst og fremst liggur oss á herðum, er, að tala sannleikann. Að forðast ósannsögli, er skylda ekki einúngis við náúnga vorn, svo vèr drögum hann ekki á tálar, heldur og við sjálfa oss; því með ósannindum komumst vèr í stríð við skynsemi vora, afneitum vorri eigin meðvitund og um leið manneðli voru, sem skynsemi gæddar verur. Að tala satt, er líka skylda við Guð, sem er sannleikurinn sjálfur og sèr vorar hugsanir, og þegar þær eru ósamhljóða vorum orðum, getur hann ekki með velþóknun litið niður til vor. En vèr erum allir meira eða minna hneigðir til ósannsöglis; því með því vèr erum fæddir í synd, þá erum vèr vegna vorrar spilltu náttúru hneigðir til lyginnar, sem var orsök til þess, að syndin er inn komin í heiminn, og sem í eðli sínu er gagnstæð Guðs alsanna eðli. Þetta er þó ei svo að skilja, að allir menn sèu gjarnir á að ljúga vísvitandi, eða í þeim tilgángi að skaða aðra. Þvert á móti forðast sèrhver ráðvandur maður að ljúga nokkru upp á aðra til að gjöra þeim skaða. En þó verður það mörgum á — sem yfir höfuð þykja vænir menn — bæði að gjöra meira enn tilhlýðilegt er úr því illa, sem þeir lasta, og úr því góða, sem þeir hrósa, og eins þegar þeir tala um sjálfa sig að leyfa sèr að víkja frá sannleikanum til að fegra með því einhvern brest, eða tilleggja sèr einhverja fullkomlegleika. Margir halda og, að þau ósannindi, sem ekki skaði aðra, sèu syndlaus og saklaus. En öll ósannindi leiða frá því, sem er satt og rètt, og sá sem segir ósatt, þó hann álíti það skaðlaust, veit ekki nema ósannsögli hans geti haft ófyrirsjáanlegar afleiðíngar, og svoleiðis komið miklu illu til leiðar. En það er sitt hvað, að segja ósatt, og að þegja yfir því sem satt er. Máltækið segir, „að opt megi satt kyrt liggja", og er það opt svo. Að ljósta því upp, sem oss er sagt í trúnaði, er eins vítavert og að eyða fjármunum, sem oss er trúað fyrir. Það getur jafnvel orðið

skylda, að draga að opinbera almenn sannindi. það var margt, sem sjálfur Jesús ekki sagði tilheyrendum nè lærisveinum sínum af því þeir gátu ekki borið það, af því þeir hefðu misskilið það. þannig er því og varið fyrir oss; vèr verðum að dylja margt fyrir börnum vorum meðan þau ekki geta borið, eða skilið það. En þó megum vèr ekki þar fyrir ljúga að þeim, eða leyfa þeim að segja ósatt; því það er heilög skylda vor, að venja þau frá blautu barnsbeini á sannsögli og hreinskilni. Hvílík gleði er það ekki fyrir foreldrana, þegar börnin fara fyrst að tala — ó, að sèrhver faðir og móðir vildi hugleyða, í hvaða tilgángi Guð hefur gefið oss þessa gáfu, og að hún á að vera verkfæri sannleikans og kærleikans, til að koma oss í samfèlag, ekki einúngis við menn, heldur og við Guð.

það er til ósannsögli, sem sprettur af laungun eptir að þóknast mönnum. En sjaldan nær hún tilgángi sínum, því allt sem er ósatt og hræsnisfullt verður fyrr eða síðar opinbert. Og hvað er þó tíðara, enn að gjöra sèr upp vinsamlegt viðmót við aðra? En sá sannkristni er vinalegur án þess að gjöra sèr það upp, því hann vill öllum vel, og leitast við að sýna öðrum kristilegan kærleika bæði í orði og verki. Án þess að hika sèr við að segja meiníngu sína, þegar skyldan býður, álítur hann það þó gagnstætt kristilegum hyggindum að ýfa aðra að nauðsynjalausu, eða vera sèr úti um óvild þeirra einúngis af því, að honum fellur ekki við þá. Umhugsun um eigin brot og bresti aptrar honum frá, að dæma aðra hart í hjarta sínu; þess vegna leiðir hann hjá sèr bæði last og smjaður. þannig ávinnur hann sèr virðíngu og elsku annara manna, en mest af öllu lætur hann sèr vera umhugað um að þóknast Guði. þeir sem hræsna fyrir mönnum gjöra það ekki ósjaldan fyrir Guði sjálfum, og er þess háttar skinhelgi sú heimskulegasta lygi, sem hugsazt getur, og þar hjá svo hættuleg fyrir manninn; því allar guðræknisiðkanir, sem eiga að vekja þær betri tilfinníngar og endurskapa hjarta mannsins, missa smámsaman allan sinn krapt hjá þeim, sem nálgast Guð einúngis með munninum og heiðra hann einúngis með vörunum, en hverra hjörtu eru lángt í burtu frá honum. En sè nú öll hræsnisfull bænaiðja stórkostleg misbrúkun þeirrar talsgáfu, sem Guð hefur gefið oss, hversu hegníngarvert mun það þá ekki vera, að

bera falskan vitnisburð, staðfesta hann með eiði, með því að ákalla Guð og hans heilaga orð. Oss hryllir alla, elskulegu bræður! við meinsæri sem hinum grófasta glæp. Meinsærismaðurinn kallar hinn alltsjáanda Guð til vitnis í sama augnabliki og hann talar ósatt; hann ákallar hefnd hins almáttuga og rèttláta Guðs, og brýtur þó hans boð í sama augnabliki. Með þessu sýnir hann fyrirlitníngu fyrir Guði og afneitar honum; hann afsalar sèr öllu samfèlagi við Guð um tíma og eilífð. Margan hefur og hryllt við meinsæri áður enn hann veik af sannleikans vegi, en eptir að hann eitt sinn hafði vikið af honum, leiddist hann af einni lygð til annarar, og endaði að lokunum sem meinsærismaður. Sömuleiðis er það hegníngarverð misbrúkun talsgáfunnar og lýsir stakri lèttúð, að vitna til Guðs við hvað eina í daglegu tali, til að fullvissa um sannleika einhvers hlutar, eða um að menn vilji efna loforð sín. Hvílíkri syndsamlegri lèttúð þetta lýsi, sèst bezt af því, að mörgum er eins tamt í þessu skyni að ákalla lyginnar föður, og ætla sèr með því að styrkja sannleikann. Ó, að vèr ætíð, kristnir bræður! hefðum hugfest þessi orð lausnara vors: „yðar ræða sè já, þegar játa skal, og nei, þegar neita skal, því það, sem þar er fram yfir, er af hinum vonda“.

Á móti eingu boðorði er mönnum hættara við að syndga, enn móti áttunda boðorðinu, og við þessu er mörgum hætt, sem þykjast vera ráðvandir og rèttkristnir, en sem ekki ætíð stjórna túngu sinni, nè hugleiða hvað þeir segja, ljósta því upp, sem leynt átti að vera, tala þvert á móti sannfæríngu sinni, ýkja og rángfæra, dæma um það, sem þeir þekkja ekki, lofa því, sem þeir geta ekki haldið, gorta af sjálfum sèr og gjöra lítið úr öðrum. Fæstum kemur til hugar, hve miklu illu þeir með þessu tali þeirra geti komið til leiðar. „Sjá“, segir postulinn Jakob, „í hversu miklum skógi lítill eldur getur kveikt“! „Túngan er og eldur; verkanir hennar eru eins hastarlegar, ákafar og eyðandi eins og eldsins. Eitt orð flýgur eins og neisti, kveikir óvild milli vina og vandamanna, og truflar samlyndi manna á heimilum og í stærri fèlögum; neistann má þó slökkva, en talað orð verður ekki aptur tekið. Í staðinn fyrir það hús, sem brennur til ösku, má byggja aptur annað eins gott, eða betra, en sjaldan verður bætt aptur gott mannorð, sem spillt

hefur verið með ósönnum óhróðri. Túngan er heimur fullur ránglætis, segir postulinn, og þetta má með sanni segja, því allt sem talað er og skrifað og fært í frásögur manna á milli, er það ekki heimur út af fyrir sig, og er þessi heimur ekki fullur ránglætis, fullur af ýkjum og ósannindum, fullur af óhróðri og ómildum dómum um náúnga vorn?

Allir megum vèr, kristnir bræður! óttast þá ábyrgð, sem málfærinu fylgir, þessari dýrmætu gjöf, sem Drottinn hefur veitt oss, sem skynsemi gæddum verum; því vèr eigum að standa reikníngsskap, ekki einúngis af því illa, sem vèr með misbrúkun þessarar gáfu höfum komið til leiðar, heldur og af því góða, sem vèr með rèttri brúkun hennar hefðum getað komið til leiðar, en sem vèr höfum forsómað. Að þegja, þegar vèr eigum að tala, er synd, eins og það er synd að tala í ótíma. Þegar þú, kristinn maður! heyrir náúnganum hallmælt og veizt að hann er saklaus, og þú gætir tekið málstað hans, en gjörir það ekki, þá brýtur þú það boðorð, sem segir: „þú átt ekki að bera falskan vitnisburð“.

Hèr megum vèr ekki gleyma því, sem Jesús sjálfur sagði um misbrúkun túngunnar, þegar hann bar faríseunum þessa synd á brýn: „Þèr nöðrukyn“, sagði hann, „hvernig skylduð þèr kunna gott að mæla, þar þèr sjálfir eruð vondir; því af gnægð hjartans mælir munnurinn? — Eg segi yður satt, fyrir hvert það illyrði, er menn mæla, skulu þeir á dómsins degi reikníngsskap lúka“. Ætti ekki þessi harða ræða vors milda frelsara að vekja hjá oss eptirtekt á þeim áríðanda lærdómi, sem hún hefur að geyma? Hann varar oss ekki einúngis við að syndga með orðunum, heldur bendir oss einnig á, að þess háttar syndir hafi upptök sín frá hugarfari voru og hjartalagi, og um leið og hann minnir oss á þann reikníngsskap, sem vèr eigum að lúka á dómsdegi, segir hann oss með berum orðum, að þá muni ekki einúngis verða leiddar í ljós opinberar og heimuglegar gjörðir vorar, heldur muni þá einnig orð vor og hugsanir verða prófaðar og dæmdar. Vèr eigum að standa reikníngsskap, ekki einúngis af orðum, heldur og af hugsunum vorum; því af hugarfari voru spretta orð og gjörðir. Einginn þekkir oss, eins og vèr erum, nema allsvitandi Guð; en þó eigum vèr að leitast við, að læra sjálfir að þekkja oss, því án

sjálfsprófunar og sjálfsþekkíngar er öll betrun ómöguleg. Eins og vèr daglega eigum að biðja Guð, eins eigum vèr daglega að prófa sjálfa, oss; á hverju kvöldi, þegar vèr leggjum oss til hvíldar, eigum vèr að hugleiða, ekki einúngis hvað vèr hvern dag höfum að hafzt, heldur hvað vèr höfum talað og hugsað, og ef vèr þá verðum þess varir, að vèr höfum talað eitthvað ósatt eða syndsamlegt, þá hugleiðum, hvað það er, sem hefur komið oss til þess, og vèr munum sjá, að það hefur annaðhvort verið lèttúð og hugsunarleysi, eða drambsemi og hègómadýrð, eða eigingirni, eða það hefur sprottið af laungun eptir að þóknast mönnum, eða af einhverjum öðrum syndsamlegum tilgángi. Og þegar vèr fáum uppgötvað, hvaðan vort syndsamlega tal hefur sín upptök, þá reynum til að varast það, iðrast og betrast. En hverju munum vèr fá áorkað, nema vèr með auðmjúkri bæn flýum til frelsarans, og fæðumst að nýju fyrir hans anda. Þess vegna segir postulinn Páll, áður enn hann varar við misbrúkun túngunnar: „íklæðizt hinum nýja manni, sem skapaður er eptir Guði í rèttlæti og heilagleika sannleikans"; og því næst áminnir hann með þessum orðum: „afleggið lygar og talið sannleika hver við náúnga sinn" (Ef. 4., 22.). Ræða vor verður samhljóða sannleikanum undir eins og hjartalagið verður það, en hjartalagið verður það einúngis fyrir Guðs-náð, og Guðs náð er oss öllum framboðin, fyrst til syndafyrirgefníngar og síðan til helgunar. Snúðu þèr því til Jesú, kristinn maður! sè það einlægur ásetníngur þinn, að gæta vel hjarta þíns og túngu þinnar. Hann, sem á efsta degi samansafnar oss að sínum dómstóli, kallar oss nú að sínum náðarstóli; nú vill hann, ekki einúngis fyrirgefa oss syndirnar, ef vèr með alvarlegri iðrun og trú leggjum þær niður hjá hans krossi, heldur styrkja vora betrun og vora framför í öllu góðu og hjálpa oss til að gánga sannleikans og dyggðanna veg. Látum oss því með djörfúng gánga fram að náðarstólnum, svo vèr fyrir Jesú forþènustu sakir verðum friðþægðir og helgaðir. Og þegar vèr nálgumst náðarstólinn með einlægum hjörtum og öruggu trúnaðartrausti (eins og postulinn segir), þá þurfum vèr ekki að láta ótta fyrir mönnum aptra oss frá að tala það, sem er satt og rètt. Og nær vèr höfum gát á túngu vorri, svo vèr ekki með henni syndgum móti Guði nè mönnum, þá þurfum vèr

ekki að óttast annara túngur nè annara dóma um oss, því Drottinn er sá sem dæmir oss; æ, biðjum hann að gánga ekki í rèttlætisdóm við oss, heldur dæma oss eptir sinni eilífu náð og miskunsemi í Jesú nafni! Amen.

---

## Á þrettánda sunnudag eptir trinitatis.

### Bæn.

Eilífi miskunsemdanna faðir! þú elskar miskunsemina, og miskunsemin er sú fórn, sem þèr þóknast. Láttu þessa hugleiðíngu jafnan vera oss hugfasta, láttu hana hafa áhrif á breytni vora við aðra. Vèr megum með þakklæti viðurkenna, að þú í sálum vorum hefur gróðursett tilhneigíngu til að hjálpa nauðstöddum, og með því gjört oss lèttara fyrir að gegna þessari skyldu vorri. Vèr viðurkennum með þakklæti, að þú með þínum óteljandi velgjörðum við oss mennina hefur gefið oss þá sterkustu hvöt til að líkna og liðsinna öðrum, en einkum með þinni miskunsemi við oss synduga menn, með þeim kærleika, sem þú auðsýndir oss, þegar þú gafst oss þinn eingetinn son og alla góða hluti með honum. Láttu þetta alfullkomna miskunseminnar dæmi standa oss jafnan fyrir hugskotssjónum í allri vorri breytni við náúngann, svo vèr af þinni elsku lærum að elska þig og vora meðbræður, þá verðum vèr þín börn og fáum staðizt fyrir þínu augliti á hinum mikla degi, þegar þú kallar oss til reiknίngsskapar. Láttu allar vorar hugsanir, orð og athafnir stjórnast af þínum anda, og spretta af elskunni til þín, þá mun hvorki hið nálæga nè hið ókomna, hvorki líf nè dauði fá skilið oss við þig. Amen.

### Guðspjallið
(Lúk. X., 23.—37.).

Jesús snèri sèr til sinna lærisveina og sagði þeim einslega: Sæl eru þau augu, sem sjá það, er þèr sjáið! því eg segi yður, að margir spámenn og konúngar vildu hafa sèð það, er þèr sjáið, en sáu það ekki, og heyrt það, sem

þèr heyrið, en þeir heyrðu það ekki. Lögvitríngur nokkur stóð þá upp, freistaði Jesú og sagði: meistari! hvernig á eg að breyta, svo eg eignist eilífft líf? Jesús svaraði: hvað er skrifað í lögmálinu? hvernig les þú? Lögvitríngurinn svaraði: elska skaltu Drottin Guð þinn af öllu hjarta þínu, og af allri öndu þinni, og af öllum mætti þínum, og af öllu hugskoti þínu, og náúnga þinn eins og sjálfan þig. Jesús sagði: þú svaraðir rètt, gjör það og muntu lifa. En hinn vildi rèttlæta sjálfan sig, og spurði Jesúm: hver er þá minn náúngi? Jesús svaraði: Maður nokkur fór frá Jerúsalem ofan til Jeríkó, og fèll í hendur ræníngja, sem flettu hann klæðum, veittu honum áverka og lètu hann eptir dauðvona. En svo bar til, að kennimaður nokkur fór ofan þenna sama veg, og þá er hann leit hinn hrasaða, gekk hann fram hjá honum; það sama gjörði levítinn, því þegar hann kom nærri þeim stað og sá hann, gekk hann þar fram hjá. En samverskur maður nokkur fór um farinn veg, kom þar nærri honum, og er hann leit hann, hrærðist hann af miskun við hann, gekk að honum, batt um sár hans, hellti í þau viðsmjöri og víni, lagði hann upp á sinn eik og flutti til gestgjafa húss og gaf gætur að honum. Degi síðar er hann var ferðbúinn, tók hann upp tvo penínga, fèkk þá gestgjafanum og sagði: haf þú gát á þeim særða, og hvað þú leggur meira út, það skal eg borga, þegar eg kem aptur. Hver þeirra þriggja virðist þèr vera náúngi þess, sem fèll í hendur ræníngjanna? Hann svaraði: sá sem gjörði miskunarverkið á honum. Jesús sagði: far þú og gjör hið sama.

### Inngángur.

„Sá sem hefur þessa heims auðæfi og sèr bróður sinn líða neyð og apturlykur sínu hjarta fyrir honum, hvernig getur elskan til Guðs verið staðföst hjá honum? Börn mín! elskum

ekki með orði og túngu, heldur með verki og í sannleika". Með þessum orðum varar guðspjallamaðurinn Jóhannes oss (1. Jóh. 3., 17.—18.) bæði við þeirri ómiskunsemi, sem sprettur af ágirnd, og við því kærleikans yfirskyni, sem einúngis sýnir sig í meiníngarlausum orðum, án þess að eiga sèr rót í hugarfarinu, eða koma fram í verkinu. Margur fullvissar um velvild sína og þènustusemi, en þegar á það reynir og þegar á að sýna það í verki, þá er hann ekki viðlátinn, þá leitar hann allra undanbragða. Svoleiðis breytir ekki sá, sem hefur kristilegan kærleika; hann elskar ekki með orði og túngu, heldur með verki og í sannleika. Þó má ekki taka þetta svoleiðis, að kærleikurinn sè einúngis innifalinn í gjöfum og greiðvikni, því hann sýnir sig eins í orðum og umgeingni. Opt eru vinsamleg orð og góð ráð meira verð, enn gjafir, fyrir hinn bágstadda. Það er opt, að menn geta ekki öðruvísi sýnt góðvild sína, enn með orðum, með því að upplýsa og leiðrètta, áminna og hugga. Það er því ekki meiníng postulans, að sönn mannelska geti ekki sýnt sig í orðum, þegar þau eru töluð í einlægni og góðu skyni — því þá eru þau jafngild góðverkum — heldur er hitt meiníng hans, að vèr megum ekki með mjúkmælum eða uppgjörðum meðaumkunarorðum koma oss hjá að gefa eða hjálpa nauðstöddum, þegar skylda vor býður. En áður enn vèr höldum leingra áfram í útlistun þessa efnis, viljum vèr byggja hana á þeirri aðalhugleiðíngu:

hvaðan kristileg mannelska eigi að spretta, og hvernig hún eigi að sýna sig.

Eigi elska til náúngans að hafa gildi í Guðs augum, verður hún að eiga sèr rót í elskunni til Guðs. Einúngis þeim, sem gæta beggja þessara æðstu boðorða, heitir Jesús eilífu lífi. Hans eigin mannelska rann saman við elskuna til hans himneska föður; það var föðursins verk og vilji, sem hann gjörði; það var föðursins náð og sannleiki, sem hann auglýsti á jörðunni; það var föðursins kærleiki, sem hann vildi veita þeim, er á sig trýðu. „Eg hef auglýst þeim þitt nafn", sagði hann, „og mun auglýsa það, svo að sú elska, með hverri þú elskaðir mig, sè í þeim, og eg í þeim". „Í því er elska Guðs til vor

augljós orðin“, segir postulinn, „að Guð sendi sinn eingetinn son í heiminn, að vèr skyldum lifa fyrir hann; þèr elskanlegir! fyrst Guð hefur svo elskað oss, þá ber oss að elska hver annan. Einginn hefur nokkurn tíma Guð sèð, en ef vèr elskum hver annan, þá er Guð stöðuglega í oss, og hans kærleiki er fullkomnaður í oss (1. Jóh. 3.). þegar í Mósis lögmáli var elska til náúngans sett í samband við elskuna til Guðs; þess vegna svaraði og lögvitríngurinn rètt upp á Jesú spurníngu; en þegar Jesús sagði: „gjör það og muntu lifa“! þá fór hann að teljast undan og rèttlæta sig; því með þessari áminníngu vildi vor guðdómlegi frelsari fá hann til að kannast við syndasekt sína, við vanmátt hans til að uppfylla lögmálið og við þörf hans á þeirri náð og fyrirgefníngu, sem evangelium frambýður. Við þetta kannaðist hann þó ekki, heldur vildi rèttlæta sjálfan sig, þó hann vissi sig sekan. Og eins og öllum þeim er hætt við, sem byggja sína sáluhjálparvon á sínu eigin rèttlæti, þá vildi hann veikja gildi þessa boðorðs, sem hann hafði brotið, og spurði: „hver er þá minn náúngi“? En meiníng hans var: hverjum á eg að auðsýna minn kærleika? öllum get eg þó ekki hjálpað, og hvaða skyldur hef eg við aðra enn þá, sem mèr eru næstir og nánastir? Hið æðsta boðorð, að elska Guð, hafði hann vissulega ekki uppfyllt; því sá getur ekki elskað Guð, sem ekki elskar náúngann, en um það boðorð, að elska Guð um fram allt, var ómögulegt að vekja nokkurn efa. En um mannelskuboðorðið komu kennifeður Gyðínganna sèr ekki saman. þeir vildu ekki kalla aðra náúnga enn þá, sem þeim voru nánast teingdir, annaðhvort vegna ætternis og skyldugleika, eða fyrir sameiginlega guðsþjónustu, sem aðskildi þá frá heiðíngjunum. En Kristur var kominn til að gjöra allar þjóðir að Drottins þjóð og stofna guðsríki í öllum löndum. þess vegna notaði hann og sèrhvert tækifæri til að leiðrètta hugmyndir Gyðínganna um lögmálið og evangelium. þetta var líka tilgángur hans með dæmisögunni um miskunsemi hins samverska manns, með henni vildi hann sýna lögvitríngnum ekki einúngis, hvernig mannelska hans ætti að vera sameinuð framkvæmdarsemi, hjálp og liðveizlu, heldur og hverja menn ættu að kalla náúnga sinn. Hvað nú því boðorði viðvíkur, að elska náúngann eins og sjálfan sig, þá hefur Jesús því til útskýr-

íngar gefið oss þá aðdáanlegu reglu, sem vèr ætíð megum fylgja: „allt sem þèr viljið að mennirnir gjöri yður, það skuluð þèr og þeim gjöra". Einginn sannleikur getur verið ljósari, eingin skuldbindíng vafaminni enn sú, sem innibinzt í þessum gullvægu orðum; því þau eru byggð á þeirri náttúrlegu tilfinníngu, að vèr erum allir menn, og eigum sem bræður að breyta hver við annan með sanngirni og kærleika. Eg segi, að þessi regla sè byggð á þeirri tilfinníngu, að vèr erum allir menn, því vissulega getur faðirinn af barni sínu, húsbóndinn af þjóni sínum og hinn yfirboðni af undirgefnum heimtað það, sem þessir ekki mega heimta af þeim aptur; en jafnvel í þessu tilliti má faðirinn ekki heimta það af barni sínu, nè húsbóndinn af þjóni sínum, eða hinn yfirboðni af þeim undirgefnu, sem þeim þækti ránglátt og ósanngjarnt að láta heimta af sèr, ef þeir væru í hinna sporum. Þjónninn getur orðið húsbóndi og húsbóndinn þjónn, hinn ríki getur orðið fátækur og hinn fátæki ríkur, hinn heilbrigði getur orðið veikur og sjúklíngurinn feingið heilsuna aptur. Öll vor ytri kjör eru breytíngunni undirorpin, en alltaf verðum vèr *menn*, í því tilliti erum vèr og verðum allir hver öðrum líkir; þess vegna eigum vèr jafnan að skoða aðra sem meðbræður vora og setja oss í þeirra stað. Skaparinn hefur gróðursett í mannlegri náttúru laungun eptir fèlagsskap; reynslan kennir oss, að einginn getur án annara hjálpar verið; skynsemin verndar eins allra rètt, meðfæddur velvilji lætur oss gleðjast af annara gleði, tilfinníngar hjartans minna oss á að gjöra öðrum gott. Guðsorð segir oss þar að auki, að vèr sèum allir komnir af sömu mönnum, sem voru skapaðir í Guðs mynd, en fèllu frá Guði, að vèr höfum allir tekið þátt í þessari syndaspillíngu, en að vèr allir eigum miskunsaman föður á himnum, að hann fyrir oss alla hafi framselt sinn eingetinn son, að vèr allir erum fyrir hann endurleystir, að vèr allir fyrir trúna á hann getum sem Guðs börn öðlazt eilíft líf. Vèr erum svoleiðis allir bræður og systur, börn þess eina, algóða himneska föður.

Að vísu var mannelska fyrirskipuð í gamla testamentinu; þar var boðið að hryggja ekki ekkjur eða föðurlausa, að hjálpa nauðstöddum og jafnvel að liðsinna óvini sínum. En þó varð

þetta boðorð yfirgripsmeira og hreinna og fèkk lángt um æðri þýðíngu bæði við lærdóm og eptirdæmi vors guðdómlega frelsara. „Nýtt boðorð gef eg yður", sagði hann, „að þèr elskið hver annan eins og eg hef elskað yður"; og nýtt mátti það kallast af þessu, sem hann bætti við, „eins og eg hef elskað yður"; hann benti með því til síns eptirdæmis, því einginn hafði áður elskað eins og hann. þess vegna sagði hann líka: „þetta er mitt boðorð" (Jóh. 15., 12.); sitt kallaði hann það, því hann tók það úr sínu eigin hjarta og lagði það í hjörtu sinna lærisveina. „Meiri elsku", sagði hann, „hefur einginn, enn þá, að maður láti líf sitt fyrir sína vini; þèr eruð mínir vinir, ef þèr gjörið það, sem eg hef boðið yður". þetta elskunnar boðorð, sem hann gaf nóttina áður enn hann gekk út í pínuna, var eins og hans seinasti vilji, eins og testamentisgjörð, sem hann staðfesti með sínum dauða. Í þessu eina boðorði, sem er svo auðskilið og svo hjartnæmt, finnum vèr allt, sem viðvíkur skyldum vorum við náúngann, og um leið og það setur oss Jesú heilaga dæmi lifandi fyrir sjónir, veitir það oss krapta til að elska aðra, krapta til að elska þá bræður, sem Jesús af elsku gekk í dauðann fyrir. þetta boðorð hefur því guðlegan uppruna og ævarandi gildi; það er boðorð hins eilífa og almáttuga, þó ógnar það oss ekki með hans almætti, það hótar oss ekki hefnd og reiði eins og boðorðin, sem út voru gefin á Sínaífjalli; það talar ekki til vor sem þræla, heldur sem barna; það talar til vor sem bræðra, og býður oss að líkjast vorum himneska föður; það sýnir oss föðurinn opinberaðan í syninum, hinn eilífa kærleika auglýstan í voru holdi; það sýnir oss, hvernig vèr getum fullnægt þessu háleita boði frelsarans: „verið fullkomnir, eins og faðir yðar er fullkominn", með því að elska hver annan eins og Kristur elskaði oss. Elskunnar boðorð innibindur því í sèr þá æðstu skuldbindíngu og þá sterkustu hvöt. það hvetur oss til að hlýða vorum himneska föður eins og elskandi börn, það hvetur oss til sem þakklátir bræður að laga oss eptir vorum guðdómlega bróður.

Eins og Jesú mannelskufulla eptirdæmi er hið hreinasta og fullkomnasta, eins má og eptir því breyta hvernig sem ástatt er fyrir oss, og það getur jafnan verið ljós á vorum

vegum og lampi vorra fóta. Komist þú, kristinn maður! í efa um, hvort þú eigir að meta meir elsku til náúnga þinna eða þær skyldur, sem staða þín leggur þèr á herðar, þá hugsaðu til Jesú, sem ekkert lèt aptra sèr frá að kenna guðsorð, heldur sagði: „sèrhver sá, sem gjörir vilja míns himneska föður, er minn bróðir og systir og móðir.“ En samt sem áður lèt hann sèr á krossinum annt um sína nauðstöddu móður, og fól hana á hendur ásjá síns ástkæra lærisveins. Sèrtu í efa um, hvort þú eigir að meta meir ást á fósturjörð þinni, eða almenna mannelsku, þá hugsaðu til Jesú, sem fyrst af öllu leitaði glataðra sauða af húsi Ísraels, en lèt þó sitt guðdómlega orð útbreiðast um allan heiminn, sem á sínum hèrvistardögum gjörði einkanlega gott í því landi, sem hann var fæddur í, en lèt þó sitt eilífa ríki ná til allra landa og allra tíma. Sèrtu í efa um, hvort þú eigir að meta meir andlegar eða veraldlegar skyldur, þá hugsaðu til Jesú, sem sannfærði heiminn um synd, en var þó valdstjórninni hlýðinn, sem gaf keisaranum hvað keisarans er og Guði hvað Guðs er.

Af þessum rótum á kristileg mannelska að spretta, og svoleiðis á hún að vera löguð, og einginn getur afneitað henni, sem kallar sig kristinn. En þó sýnist hugarfar og hegðun margra manna lýsa því, að þeir þekki ekki nè kannist við þetta boðorð: „elskaðu náúngann eins og sjálfan þig!“ og þegar þeir eiga að auðsýna einhverjum kristilegan kærleika, þá þekkja þeir eingan náúnga leingur, þá gleyma þeir Guðs lögmáli og þess æðstu boðorðum, þá muna þeir einúngis eptir þeirri veraldlegu forsjálnisreglu: „hver er sjálfum sèr næstur“. Það er náttúrlegt þó menn vilji sjálfum sèr vel, það er ekki heldur bannað í guðsorði; en eins og náttúran býður oss að elska oss sjálfa, eins býður Guðs lögmál oss að elska náúngann. Það er því ekki synd að leita sinna eigin hagsmuna, heldur hitt, að vera tilfinníngarlaus fyrir annara velvegnun, því með því sýna menn, að þeir elska ekki Guð; því „sá, sem ekki elskar bróður sinn, hvern hann sèr, hvernig má hann Guð elska, sem hann ekki sèr?“ Án efa er það skylda vor að ala önn fyrir sjálfum oss og vorum nánustu náúngum, og hvernig geta menn vænt sèr almennrar mannelsku af þeim, sem vanrækja þessar skyldur? hvernig geta menn vænt almennrar mannelsku af þeim

foreldrum, sem vanrækja uppeldi og menntun barna sinna? eða af þeim börnum, sem annaðhvort gleyma sínum gömlu foreldrum, eða sýna þeim vanþakklæti og láta þá hjálparlausa? Og sèu þeir nú til, sem við sína nánustu náúnga fótum troða mannelskunnar boðorð, geta menn þá furðað sig á því, þó þeir dragi sig í hlè, þegar hjálpa á einhverjum út í frá, einhverjum fjarskyldari? þó þeir þá spyrji, hver sè þeirra náúngi? hvort það standi ekki öðrum nær að hjálpa enn þeim? hvort þeir eigi ekki að geyma hjálp sína handa öðrum bágstöddum, sem þeim sè nákomnari? þessar viðbárur hrekur Jesús með dæmisögunni í guðspjallinu, og sýnir oss, að sá er ætíð vor náúngi, sem helzt þarfnast vorrar hjálpar og sem vèr erum næstir til að hjálpa, hvort sem hann er skyldur eða vandalaus, kunnugur eða ókunnugur, vinur eða óvinur, samlendur eða útlendur, kristinn eða heiðíngi. Sá sem þú sèr nauðstaddan og þú getur hjálpað, hann er náúngi þinn, kristinn maður! þèr stendur næst að hjálpa honum, þú ert af Guði sendur til að rètta honum hjálparhönd. Eins og presturinn og levítinn með sinni kærleikslausu aðferð minna oss á tregðu vora og hirðuleysi í að hjálpa vorum nauðstadda náúnga, eins sýnir oss dæmi þess samverska manns, hvernig vèr eigum að auðsýna öðrum kristilegan kærleika. það sýnir oss, hvernig sannur mannvinur flýtir sèr að hjálpa hinum nauðstadda, án þess að spyrja um, hver eða hvílíkur hann er, eða vænta launa og þakklætis þar fyrir. Gyðíngar og samverskir höfðu ekkert samneyti hvorki í andlegu nè veraldlegu tilliti, heldur þvert á móti hötuðu og fyrirlitu hvorir aðra. Um þetta hugsaði ekki sá samverski maður, heldur flýtti sèr að hjálpa hinum hrasaða Gyðíngi; hann hafði þetta boðorð hugfast: „elskaðu náúngann eins og sjálfan þig", og undir eins og hann sá hinn hrasaða, fann hann til þess í hjarta sínu, að hann var hans náúngi. Ættum vèr þá, kristnir menn! sem höfum Jesú lærdóm og dæmi að breyta eptir, að spyrja að því, hvort hinn nauðstaddi, sem þarf líknar og liðsinnis við, sè vor náúngi? ættum vèr að fara í manngreinarálit, vèr sem vitum, að Guðs son gekk í dauðann af elsku til allra manna, og að hann á efsta degi mun segja við þá, sem fyrir hann öðlast eilíft líf: „það sem þèr gjörðuð einum af þessum mínum **minnstu bræðrum** það gjörðuð þèr mèr".

En margir gjöra sèr þá hugmynd um kristilegan kærleika, að hann sè einúngis innifalinn í örlæti og gjafmildi; um leið og þeir rètta þurfamanninum ölmusu víla þeir ekki fyrir sèr að svíkja aðra eða hata og drepa niður þeirra góða mannorði, og þetta kalla þeir kristindóm. Að sönnu er það kærleiksverk að rètta þurfamönnum hjálparhönd, þegar hjálpsemin sprettur af hreinum og kærleiksfullum hvötum, en um þá hjálp, sem ekki sprettur af þessum hvötum, segir postulinn Páll: „þó eg brytjaði allar eigur mínar niður fyrir fátæka, en hefði ekki kærleikann, væri það mèr til einkis gagns“ (1. Kor. 13., 3.), og enn fremur lýsir hann kærleikanum með þessum orðum: „kærleikurinn er umburðarlyndur, góðviljaður, ekki öfundsjúkur, ekki raupsamur, ekki hrokafullur, gjörir ekkert ósæmilegt, er ekki sèrplæginn, ekki reiðigjarn, tilreiknar ekki illt, gleðst ekki af órèttvísi, en elskar ráðvendni, er þagmælskur, trúir öllu, vonar allt, umber allt“. En um fram allt skulum vèr minnast þess, hvernig Jesús sjálfur hefur kennt oss að elska. „Verið miskunsamir“, segir hann, eins og yðar himneski faðir er miskunsamur, elskið óvini yðar, blessið þá sem yður bölva, gjörið þeim gott, sem yður hata, biðjið fyrir þeim, sem yður gjöra skaða og ofsækja yður“! Svoleiðis hefur hann kennt, ekki einúngis með orðum, heldur og í verki; hann gekk í kríng, gjörði gott og hjálpaði öllum; hann lèt eingan synjandi frá sèr fara, og á krossinum bað hann fyrir óvinum sínum með þessum orðum: „faðir, fyrirgef þeim! þeir vita ekki hvað þeir gjöra“. Allt hans líf og hans dauði var einskær elska og miskunsemi.

En hvernig eigum vèr, syndugir menn, að geta fylgt þessu heilaga dæmi, hlýðnast þessu háleita boði? það gætum vèr ekki, hefði ekki Jesús, sem frelsari vor, endurleyst oss úr ánauð syndarinnar, og með sinni friðþægíngu veitt oss nýja krapta og styrkt samband vort við Guð. Viljir þú, kristinn maður! geta fylgt dæmi frelsara þíns, verður þú fyrst að krjúpa niður við hans kross með iðrun og trú og finna með sjálfum þèr, að hann hefur einnig frelsað þig frá hegníngu og valdi syndarinnar. Með þessari tilfinníngu í brjósti þínu, sem styrkist fyrir daglega betran þína, getur þú dáið syndinni og orðið nýr maður og þannig fylgt Jesú eptir. Hann mun sjálfur nálgast

þig á veginum og rètta þèr sína hjálparhönd, styðja þig þegar þú hrasar, reisa þig á fætur aptur, ef þú fellur; en þú munt ekki falla meðan þú heldur þèr fast við hann með bæn og árvekni og baráttu og trausti til Drottins náðar, sem í breyskum er máttugur Hinn eilífi kærleiki mun þá senda sinn anda niður í hjarta þitt og kenna þèr að elska önnur börn hans sem bræður og systur, og kristileg mannelska mun breiða blessun sína yfir gjörvallt líf þitt; hún mun breiða blessun sína yfir dauða þinn, og á eilífðarinnar morgni muntu fá að heyra þessi huggunarríku orð af frelsarans munni: „kom þú blessað, barn míns föður, og eignastu það ríki, sem þèr er fyrirbúið frá veraldarinnar upphafi“! Amen.

---

## Á fjórtánda sunnudag eptir trinitatis.

### Bæn.

Frá þèr, gæðskuríki himneski faðir! kemur öll góð og fullkomin gjöf. Þú sendir oss sorg og gleði, blítt og strítt, en allir þínir vegir eru einber miskun og trúfesti, allar þínar ráðstafanir miða til þess, að draga vor hjörtu til þín og sælufullrar sameiníngar við þig. En skammsýni vor og skeytíngarleysi er skuld í því, að vèr ekki ætíð sjáum þinn vísdómsfulla og gæðskuríka tilgáng. Góðu daganna njótum vèr einatt í hugsunarleysi, án þess að þakka þèr fyrir þá og vegsama þína föðurlegu gæðsku, og í mótlætinu möglum vèr og gleymum því, að það á einnig að miða til vorrar farsældar eflíngar, að það á að losa huga vorn við hègóma veraldarinnar, kenna oss þolinmæði, traust á þèr og undirgefni undir þinn vilja. Æ, góði faðir! fyrirgefðu oss í Jesú nafni gleymsku vora og gáleysi, gefðu oss náð til þess að sjá og kannast við þína óendanlegu gæðsku, náð til þess að þekkja og þakka þínar velgjörðir, og gefa þèr einum dýrðina í öllum hlutum. Bænheyr það í Jesú nafni! Amen.

### Guðspjallið
(Lúk. XVII., 11.—19.).

Það skeði, þegar Jesús gekk til Jerúsalem, að hann ferðaðist í gegnum miðja Samaríu og Galíleu; en þá er

hann gekk inn í kauptún nokkurt, mættu honum tíu menn líkþráir, sem stóðu lángt frá, kölluðu og sögðu: Jesús, góði meistari, miskuna þú oss! Þegar Jesus leit þá, sagði hann til þeirra: farið þèr og sýnið yður kennimönnunum. En svo bar við er þeir geingu þaðan, að þeir urðu hreinir. Einn af þessum, þegar hann sá, að hann var heill orðinn, snèri aptur, lofandi Guð með hárri raust, fèll til fóta Jesú og þakkaði honum; en þessi maður var samverskur. Jesús sagði: voru þeir ekki tíu, sem heilbrigðir urðu? hvar eru hinir níu? fundust eingvir, sem vildu aptur snúa og lofa Guð, nema þessi útlendíngur? Jesús sagði við hann: stattu upp og far leiðar þinnar! þín trú hefur frelsað þig.

### Inngángur.

„Það er fagurt að þakka Drottni og lofsýngja þínu nafni, þú æðsti"! Þessi Davíðs orð mun vissulega sèrhver sá vera fús á að taka sèr í munn, sem í þrautum og stríði þessa lífs hefur fundið hjálp og huggun hjá miskunsemdanna föður, og sem nú eptir afstaðnar þrautir lítur með þakklæti til baka yfir liðna tímann og virðir fyrir sèr Drottins dásamlegu handleiðslu. Oss mennina vantar vissulega aldrei tilefni til að þakka Guði, sem allt frá fæðíngu vorri hefur gætt vor og verndað oss, viðhaldið heilsu vorri og kröptum, linað sorgir og áhyggjur vorar, blessað vor störf og fyrirtæki, huggað oss með sínu heilaga orði og sínum náðarfyrirheitum, sent oss styrk og krapta þegar vèr ætluðum að örmagnast undir lífsins byrði, sent oss sálarfrið og rósemi, þegar ángist og óþreyja bjó í hjörtum vorum. En þó þetta mætti daglega minna sèrhvern á að þakka algóðum Guði, eru þó mannleg hjörtu svo breysk og lèttúðarfull, að þau þurfa enn þá áþreifanlegri og bersýnilegri bendíngar við, til að geta munað eptir því, að mennirnir eru upp á Guð komnir í öllum hlutum, til að geta munað eptir vanmætti sínum og því nána sambandi, sem á að vera milli skaparans og hans sköpuðu skepna, til að geta munað eptir þeim heilaga sannleika, að Guð er vort einasta áreiðanlega athvarf, að án hans megnum vèr ekkert, að vor gleði og sorg, heilsa og kraptar, líf og dauði,

stendur í Drottins hendi. Og vèr munum allir, sem erum orðnir nokkuð reyndir í skóla lífsins, hafa feingið einhverjar þess konar bendíngar. þessar bendíngar eru þær þjáníngar, sem Guð af speki sinni og elsku með ýmsu móti lætur oss að höndum bera, og sem vèr án efa allir höfum feingið meira eða minna að reyna. En höfum vèr allir gætt að því, að Guð á eins þakklæti skilið af oss fyrir þetta sem annað? Til þess að nefna þær þjáníngar, sem optast koma fyrir, og sem hið upplesna guðspjall gefur oss tilefni til, hve fáir skilja rètt hina andlegu þýðíngu sjúkdómanna, og að Guð á eins þakklæti vort skilið fyrir þá, eins og fyrir heilsu og heilbrigði! Látum því hugleiðíngar vorar á þessari stundu lúta að því, að skýra fyrir oss þann sannleika:

*að Drottinn sendir oss sjúkdómana í gæðskuríkum tilgángi.*

Sjúkdómarnir eiga að snúa huga vorum frá veröldinni og hègóma hennar og koma oss til að rannsaka oss sjálfa. það er sagt um þá tíu líkþráu í guðspjallinu, að þeir hafi staðið lángt frá, því sjúkleiki þeirra aðskildi þá sem óhreina frá mannlegu fèlagi. Svoleiðis er og sèrhverjum sjúkdómi varið, hann aðskilur sjúklínginn frá veröldinni og minnir hann með því á að skilja hugann við veraldlegar hugsanir og girndir; sjúkdómurinn heldur oss inni í húsum vorum og minnir oss með því á að snúa huganum inn í hjörtu vor og rannsaka oss sjálfa. Á heilbrigðu dögunum hættir mönnum við að gefa sig alla við störfum hins ytra lífs, og margir eru svo niðursokknir í veraldlegar áhyggjur og sorgir, að þeir aldrei gefa sèr tíma til að rannsaka sín eigin hjörtu. þær stundir, sem þeir ekki geta gefið sig við veraldlegum sýslunum, eru þeim óbærilegar leiðindastundir, og til að umflýja sjálfa sig freistast þeir til að stytta sèr þessar stundir á margan óleyfilegan og syndsamlegan hátt, og venjast meir og meir á, að vanrækja hið eina nauðsynlega og gleyma því, að þeir hafa ódauðlega sál. Til að vekja mennina af þessum andlega svefni og fá þá til að ránka við sèr hefur gæðska Drottins ýmisleg meðul, sem þeir ekki mundu hagnýta sèr, ef þeir væru látnir sjálfráðir. Eitt af þess háttar meðulum eru sjúkdómarnir. þetta

heilsumeðal er hart aðgaungu og maðurinn á bágt með að sætta sig við það. En hjá því verður ekki komizt; Guðs agandi hönd varpar manninum á sóttarsængina. Nú yfirgefur veröldin hann og geingur fram hjá honum; hann má nú standa áleingdar og horfa á viðburðanna rás, en þá fer hann líka að sjá fánýti veraldarinnar, hennar ónýtt yndi og svikulu værð, þá fer hann líka að finna, hvernig hún hefur dregið hann á tálar og yfirgefið hann. Þá fara að vakna hjá manninum alvarlegri hugleiðíngar, og hann fer að verða hæfilegri til að taka á móti betri áhrifum og leita sèr áreiðanlegra athvarfs. Svoleiðis undirbýr Guð betrun mannsins og hans frelsandi náð getur nú fyrirstöðulaust haldið áfram því byrjaða verki.

Sjúkdómarnir eiga að snúa huga vorum til Guðs og kenna oss að þekkja vorn eigin vanmátt, en minna oss á, að hjá Drottni einum er hjálp að finna. Þeir líkþráu menn, sem getið er um í guðspjallinu hófu upp raddir sínar og sögðu: „Jesús, góði meistari, miskuna þú oss“! Þeir höfðu reynt, að hvorki gátu þeir læknað sig sjálfir, nè feingið hjálp hjá öðrum mönnum, og nú snèru þeir sèr með bæn og trúnaðartrausti til Jesú. Sömu verkun eiga sjúkdómarnir að hafa hjá oss, því annars skiljum vèr ekki Guðs gæðskuríka tilgáng með þá, og aumkunarverðir erum vèr, ef vèr ekki skiljum hann. Aumkunarverður er sá maður, sem hvorki getur hjálpað sèr sjálfur, nè feingið hjálp hjá öðrum mönnum, nè heldur getur leitað hjálpar hjá Guði, af því hann vantar trúna. Hann finnur einúngis til sviða og sárinda sjúkleikans, og skoðar hann sem eitthvert þýngsta mótlæti; hann hlýtur að örmagnast undir krossins byrði og falla í orvæntíng; hann sèr ekki, að Guð er æ hinn sami náðugur og miskunsamur faðir, en að hann vill, að vèr skulum taka sinnaskipti til þess vèr getum orðið sannfarsælir. Það er í sjálfu sèr hvorki Guði mótstæðilegt nè skaðlegt þó vèr sèum heilbrigðir, glaðir og lukkulegir; en hafi heilbrigði vor verið orsök í, að vèr urðum kaldsinna og kærulausir, skeytíngarlausir um skyldur vorar, hugsunarlausir um vora eilífu farsæld, þá þurfti Guð að vekja oss og leiða oss aptur á rèttan veg; hann varð að láta oss finna til þess, að hann er allt, en vèr erum ekkert, og til þessa finnum vèr hvergi betur enn á sóttarsænginni. Þegar vèr liggjum þar þjáðir af

sjúkleikanum, og einginn mannlegur máttur, eingin mannleg kunnátta getur læknað og naumast linað vorar þjáníngar, eingin hjúkrun er svo nákvæm og ástúðleg, að hún geti stytt vorar andvökustundir, hvert skyldum vèr þá renna vorum döpru augum, til hvers skyldum vèr þá snúa vorum þegjandi andvörpunum, vorum mæddu hjörtum, nema til vors himneska föður, sem vèr, því miður, svo opt gleymum á heilbrigðu dögunum? þá finnum vèr með blygðun til þessarar gleymsku vorrar, þá finnum vèr ángraðir til vors óverðugleika. Vèr getum ekki annað enn auðmýkt oss undir Guðs voldugu hönd, sem ekki leggur oss þýngri byrði á herðar, enn vèr höfum unnið til, og ekki heldur meira, enn vèr getum borið, en kemur oss einúngis með kærleika til að rannsaka sjálfa oss, hugleiða vor mörgu brot og bresti og flýja með iðrandi hjörtum til hans, sem kemur með hjálpina, þegar hans tími er kominn, þegar hann er búinn að ná sínum gæðskuríka tilgángi hjá oss. þá möglum vèr ei leingur, heldur gefum oss í undirgefni hans handleiðslu á vald, og bíðum með þolinmæði eptir hans hjálp; þá hreinsumst vèr líka meir og meir af allri saurgun holdsins og andans og verðum meir og meir sameinaðir Drottni, sem, þó líkami og sál vanmegnist, er vor hjartans huggun og hlutskipti æfinlega.

Sjúkdómarnir eiga að hreinsa oss af syndinni, og gjöra oss handgeingna Guðs orði, sem er sálarinnar andlega heilsumeðal. Jesús sagði til þeirra líkþráu manna, sem höfðu leitað hans hjálpar: „farið og sýnið yður kennimönnunum“! „En það skeði svo, þá er þeir geingu þaðan, að þeir urðu hreinir“. Með því að bjóða þeim, að gæta þessarar lögskipuðu venju, vildi Jesús sýna, að það er ætíð skylda vor, þegar líkt stendur á fyrir oss, að gæta allrar þeirrar reglu, sem skipulag mannlegs fèlags útheimtir, og hafa allar þær varúðarreglur, sem oss eru fyrirlagðar. þetta gildir ekki einúngis í líkamlegum, heldur og í andlegum efnum. það eru til andleg meðul, sem oss eru gefin í gæðskuríkum og vísdómsfullum tilgángi, og sem vèr því ekki megum lítilsvirða það er bæði heimskulegt og hættulegt að halda, að hver upplýstur maður þurfi ekki á neinni útvortis hjálp, neinum útvortis meðulum að halda sèr til betrunar og huggunar, að hann þurfi hvorki guðsorðs nè sakramentanna, nè hinnar opinberu guðs-

þjónustugjörðar við, að hann geti ekkert af þessu lært eða numið, sem hann viti ekki áður, og hann geti með eigin áreynslu og eptirþánka vakið í sálu sinni þau áhrif og áform, sem miða til að efla hans tímanlegu og eilífu farsæld. Hversu óáreiðanleg þessi ætlan er, sèst bezt af líferni þeirra manna, sem halda henni fram, því þegar eitthvað bjátar á, þá reynist sjálfstraust þeirra svikult, þá verða þeir huglausir og ráðþrota og gefa að lokunum alla von frá sèr. því handgeingnari, sem vèr verðum vorum guðdómlegu trúarbrögðum, því síður viljum vèr missa þau menntunar og betrunar meðul, sem þau bjóða oss; vèr finnum þá, að sálin þarf daglegrar fæðu við, eins og líkaminn, og að trúarbrögðin veita oss hana, ef vèr alúðlega leitum hennar og meðtökum hana með gleði. En ef vèr ekki gjörum það, hvernig fáum vèr þá viðhaldið voru andlega lífi og glætt það? Ef vèr á heilbrigðu dögunum gleymum Guðs orði og hans náðarmeðulum, þá er hætt við, að kaldsinni og skeytíngarleysi um vor sáluhjálparefni fái smámsaman yfirhönd hjá oss, svo að hjörtu vor hrindi frá sèr áhrifum guðlegrar náðar. Er það þá ekki sèrleg velgjörð Guðs, að hann varpar oss á sóttarsængina? þar finnum vèr bezt, að öll mannleg speki er ónóg; þar tökum vèr með hjartans feginleik og alvöru móti öllu því, sem vekur og styrkir hið sanna líf sálarinnar, sem lífgar hjá oss góðar og guðlegar hugsanir, og viðheldur vorri djörfúng og sinnisrósemi. Aldrei verður guðsorð oss kærara, huggunarfyllra nè auðskildara, enn þegar vèr heyrum það, lesum eða hugleiðum á sóttarsæng vorri; aldrei minnumst vèr frelsara vors með meiri andakt, aldrei er hans endurminníng huggunarfyllri fyrir oss, enn þegar vèr í veikindum vorum meðtökum í helguðu brauði og víni pant hans náðar nálægðar. Aldrei lærum vèr betur enn þá að rannsaka og prófa sjálfa oss, hvergi lærum vèr betur undirgefni undir Guðs vilja, hvergi lærist oss betur sáttgirni og mannelska. Að Drottinn er ekki einúngis hjartnanna rannsakari, heldur og miskunsamur faðir allra hreinhjartaðra, lærum vèr þá því betur að sjá, því trúlegar sem vèr hagnýtum oss þau meðul, sem hann hefur gefið oss til að hreinsa oss af syndinni, af saurgun holdsins og andans. Smámsaman fer oss þá svoleiðis fram, að vèr biðjum Guð ei svo mjög um heilbrigði líkamans eins og sálarinnar, og vor æðsta unaðsemd verður

að fá að reyna það, að þó vor ytri maður eyðist, þá endurnýast hinn innri dag frá degi. Sælir erum vèr, ef vèr með þessu hugarfari fáum að skilja hèr við á sáluhjálplegri stund, og flytja úr þessari jarðnesku tjaldbúð í þau eilífu friðar heimkynni!

Sjúkdómarnir eiga að vekja hjá oss innilegt þakklæti fyrir Guðs náð. Guðspjallið segir oss, að einn af þeim líkþráu mönnum, sem Jesús læknaði, snèri aptur lofandi Guð með hárri raust. Þá sagði Jesús: „voru ekki tíu hreinsaðir? en hvar eru þá hinir níu"? Af öllum þeim ódyggðum, sem óprýða oss mennina, er eingin ljótari enn vanþakklætið, og þó er eingin almennari. Hvar eru flestir þeirra, sem á neyðarinnar tíma fundu líka hjálp og þessir líkþráu menn? Þeir eru staddir á sínum fornu villuvegum, komnir í sinn gamla syndavana; þeir kveinuðu einúngis yfir líkamans kvöl og kránkleika, þeim var einúngis annt um að fá aptur líkamans heilsu, og þegar þeir feingu hana, þá gleymdu þeir því, sem þeir á sóttarsænginni höfðu lært, því sem þeir höfðu lofað og ásett sèr. Þeir hafa reynt bæði Guðs hirtíngu og hans náð, og hvorugt hefur hrifið nè borið varanlegan ávöxt hjá þeim. Guð láti oss ekki vera í tölu slíkra manna! Með hvaða tilfinníngum mættum vèr þá í næsta sinn leggjast á sóttarsængina, og, ef til vill, rísa ekki þaðan á fætur aptur fyrr enn vèr verðum kallaðir til reikníngsskapar! Ó, kristinn maður! þú, sem lágst veikur, þú, sem lágst hjálparlaus og yfirgefinn, og varst að fram kominn, en varst hrifinn úr dauðans kverkum á svo dásamlegan hátt, varst svo náðarsamlega sparaður til þess þú feingir tíma til betrunar, tíma til að viðurkenna og vegsama Drottins kærleika og miskunsemi — gættu skyldu þinnar, gættu að þeirri ábyrgð, sem þú hefur, breyttu eptir þeim eina, sem guðspjallið segir hafi snúið aptur og lofað Guð með hárri röddu! Þakkaðu Guði, ekki einúngis með orði og túngu, heldur og í verki og sannleika. Þakkaðu Guði með því, að hafa hans gæðsku jafnan í fersku minni! Þú manst, hvernig þú lágst þjáður og þúngt haldinn, og einginn mannlegur máttur eða kunnátta gat linað kvöl þína, veitt þèr nokkra hjálp eða hugfró, og þó fèkkstu linun, hjálp og huggun. Og hvaðan kom þetta? Æ, þú veizt, hvaðan öll góð og fullkomin gjöf kemur, hún kemur hèr að ofan frá föður ljósanna.

Og heilbrigðin er ein af þeim góðu og fullkomnu gjöfum, það finnur þú bezt þegar þú hefur misst hana, en fyrir Guðs náð feingið hana aptur. Nú ertu aptur orðinn heill heilsu; nú getur þú aptur notið lífsins saklausu skemmtana, aptur glaðzt af sambúð vina og vandamanna, aptur gegnt störfum köllunar þinnar, aptur aflað þèr daglegs brauðs, þèr og þínum til viðurværis. Þegar þú hugleiðir þetta, þá hefur þú vissulega orsök til að þakka Guði, og þó þig kunni eitthvað að bresta, þá líttu meir á það, hve mikið þú hefur þegið, gættu þess í guðsótta og njóttu þess með nægjusemi og gleymdu ekki þeirri gæðsku, sem Drottinn hefur þèr auðsýnt.

Þakkaðu Guði með því að verja vel þeim stutta tíma, sem þèr er lèntur; þú veizt hve skammt þú áttir eptir að skilja hèr við, og hve mikið þú þá hefðir skilið eptir hálfgjört, eða ógjört, hve margt það var, sem þú þá áttir eptir að taka iðrun fyrir. Með hvaða tilfinníngum mundir þú þá hafa komið fram fyrir dómstól Drottins? En hann gaf þèr enn þá lítinn tíma; notaðu hann svoleiðis, að þú verðir betur undirbúinn, þegar kallið kemur til þín í næsta sinn. Hugsaðu vel um, hvaða skyldur þèr liggja á herðum, og kappkostaðu að gegna þeim vel og trúlega; sláðu því ekki á frest til morguns, sem þú getur gjört í dag, því þá fær þú annaðhvort nýjum störfum að gegna, eða starfatími þinn er þá úti. Legðu því sem fyrst af brek þín og bresti, en legðu alla stund á betrun og helgun hjartans, og ráðstafaðu svo þínu húsi, því þú hlýtur þó að deyja. Stundin er óviss, en þú veizt, hversu fljótt hana getur að borið; með hverju augnabliki nálgast hún. Augnablikin líða hjá og hverfa, en gættu þess, að þau á flugi sínu ásaki þig ekki, heldur sendi þèr friðsamlega kveðju.

Þakkaðu Guði með því að taka innilegan þátt í kjörum þeirra krossberenda, sem enn stynja undir sjúkdómsins byrði. Það eru til margvíslegar þjáníngar í veröldinni, sem allar þykja meira eða minna þúngbærar, en hafi menn heilsu og krapta, þá geta þeir optast nær með skynsamlegri yfirvegun og einlægum vilja afstýrt þeim, aflètt þeim eða linað þær. En sá sjúki er aumkunarverðastur. Hversu skynsamur sem hann er og hvað feginn sem hann vill, getur hann ekki svipt kvölina

hennar hvassa broddi, hennar eyðileggjanda afli. Hann getur eingrar gleði notið, heldur finnst honum, að hann sè sèr og öðrum til byrði. Æ, huggaðu hann, hjúkraðu honum með nákvæmni og þolinmæði án þess að þreytast, og þegar hann hefur viðþol og getur veitt því eptirtekt, þá kenndu honum það, sem þú á sóttarsænginni sjálfur lærðir, kenndu honum í kærleika, hvernig gæðskuríkur Guð ætlast til þess, að sjúkdómarnir losi huga vorn við hègóma veraldarinnar, lypti sálum vorum upp til himíns, hreinsi þær og helgi. Og hvort sem Guðs náð þóknast að leiða hinn sjúka aptur til þessa lífs og sleppa honum aptur um stund út á reynslunnar skeið, eða að leiða hann án frekari reynslu heim til föðurhúsanna, þá lætur Drottinn ekki breytni þína ólaunaða, því hann hefur sagt: „sjúkur var eg, og þèr vitjuðuð mín; það sem þèr gjörðuð einum af þessum mínum minnstu bræðrum, það gjörðuð þèr mèr".

þetta útlit fá jafnvel hinar myrkustu stundir lífsins, þegar vèr skoðum þær í ljósi kristinnar trúar. þenna gæðskuríka tilgáng hefur Guð með því, að senda oss sjúkdómana, eins og hverja aðra þjáníngu, og það er hans gæðskuríkur vilji, að vèr færum oss þessar hans bendíngar rèttilega í nyt. Já, Drottinn! vèr þökkum þèr með hrærðum hjörtum fyrir allar þínar óteljandi velgjörðir, og eins fyrir þær þjáníngar, sem þèr þóknast að vitja vor með, því vèr vitum, að þær spretta af þinni föðurgæðsku. Vèr felum oss framvegis í þína föðurlegu umsjón. þóknist þèr að leggja oss kross á herðar, þá gefðu oss náð til þess, að taka því með auðsveipni og undirgefni undir þinn vilja; láttu oss aldrei gleyma því, að vèr erum ferðamenn og framandi hèr á jörðunni, en að vort rètta föðurland er á himnum. Og nær þèr þóknast að kalla oss hèðan, æ, láttu oss þá vera vel undir það búna, leiddu oss þá til þín og í það himneska ríki, sem þú hefur þínum trúlyndum börnum heitið! Amen.

---

# Á fimmtánda sunnudag eptir trinitatis.

## Bæn.

Algóði himneski Guð og faðir! himin og jörð auglýsa þína dýrð og kunngjöra verkin þinna handa. Allir skapaðir hlutir bera vitni um þitt óendanlega almætti, speki og gæðsku; þín föðurlega forsjón viðheldur öllum hlutum og vakir yfir þeim. Æ, hversu margar velgjörðir höfum vèr ekki þegið af þinni gæðsku, hversu opt höfum vèr ekki mátt þreifa á þinni föðurlegu handleiðslu, en hversu opt höfum vèr ekki þegið þínar velgjörðir í hugsunarleysi, án þess að hugleiða, að þær koma hèr að ofan frá þèr, gjafaranum allra góðra hluta, og án þess að þakka þèr fyrir þær; hversu opt höfum vèr ekki notið þinnar handleiðslu, án þess að þekkja þína forsjónarhönd, án þess að kannast við það, að það varst þú, sem gættir vor og verndaðir oss! En hversu opt höfum vèr þar á mót freistað þinnar forsjónar með óskynsamlegri og syndsamlegri breytni! Og af hverju kemur öll þessi villa í hugsunum vorum og hegðan? af hverju öðru enn því, að vèr ekki fyrst og fremst leitum þín og þíns rèttlætis? þar af sprettur vort vanþakklæti við þig, vort vantraust á þèr, já, þaðan sprettur líka vort oftraust, þegar vèr breytum syndsamlega og ætlumst þó til að sleppa hjá syndarinnar ófarsælu afleiðíngum. Æ, gefðu oss náð til þess, góði Guð! að geta leitað þín, eins og þú ávalt leitar vor, og eins og þú leitast við að leiða oss á rèttan veg; gefðu oss náð til þess að geta leitað þíns rèttlætis í elskunni til þín og hlýðni við þín boðorð, þá megum vèr óhult reiða oss á þig og treysta þinni föðurlegu forsjón bæði í meðlæti og mótlæti, og á dauðastundunni getum vèr þá ókvíðnir falið vorn anda í frelsarans nafni í þína föðurhönd! Amen.

## Guðspjallið

(Matth. VI., 24.—32.).

**Jesús sagði við sína lærisveina: Einginn kann tveimur herrum að þjóna, því annaðhvort afrækir hann þann eina og elskar hinn annan, eða aðhyllast þann eina og fyrirlítur hinn annan: þannig getið þèr ekki verið bæði þjónar Guðs og mammons. Þar fyrir segi eg yður: verið ekki hugsjúkir fyrir yðru lífi, hvað þèr skuluð eta og drekka, ekki heldur fyrir yðar líkama, hverju þèr skuluð klæðast; eða er ekki lífið meira vert enn fæðan, og líkaminn meir enn klæðnaðurinn? Lítið til fuglanna í loptinu, sem hvorki sá nè upp-**

skera, ekki heldur safna þeir í kornhlöður, þó fæðir yðar himneski faðir þá; eða, eruð þèr ekki miklu ágætari enn þeir? en hver yðar getur með áhyggju sinni aukið einni alin við hæð sína? En vegna hvers eruð þèr hugsjúkir fyrir klæðnaðinum? Hyggið að akursins liljugrösum, hvernig þau vaxa, hvorki vinna þau nè spinna; en eg segi yður, að Salómon í öllu sínu skrauti var ekki svo fagurlega búinn sem eitt af þeim; en ef Guð nú skrýðir svo grasið á jörðunni, það í dag stendur, en á morgun verður kastað í ofn, hversu miklu fremur mun hann klæða yður, þèr lítiltrúaðir! Þèr skuluð því ekki hugsjúkir vera svo segjandi: hvað eigum vèr að eta? hvað eigum vèr að drekka? með hverju eigum vèr að klæðast? — slíka áhyggju hafa heiðnar þjóðir — en yðar himneski faðir veit, að þèr þurfið alls þessa við. Þess vegna leitið fyrst og fremst Guðs ríkis og hans rèttlætis, þá mun yður allt þetta veitast. Verið því ekki hugsjúkir fyrir morgundeginum, því hann mun sjálfur bera umhyggju fyrir sèr; hverjum degi nægir sín þjáníng.

## Inngángur.

Þó þau guðdómlegu orð vors frelsara, sem vèr heyrðum í upplesnu guðspjalli sèu í sjálfum sèr auðskilin, hafa þau þó verið misskilníngi undirorpin, og menn hafa óttazt fyrir, að þetta guðspjall, sem bannar oss að bera áhyggju fyrir morgundeginum, kynni að verða misskilið og misbrúkað, og gefa tilefni til iðjuleysis og hugsunarleysis um tímanlega velferð, einkum meðal þeirra, sem með handafla sínum verða að leita sèr atvinnu. En þó sú umkvörtun, að iðjuleysi og ódugnaður sèu almennir lestir hjá oss og fari víða hvar í vöxt, kunni að vera á rökum byggð, þá verður þetta ekki kennt guðsorði, eða orðum frelsarans í áminnstu guðspjalli; því þessir lestir eru án efa almennastir meðal þeirra, sem sjaldan eða aldrei koma í guðshús, sjaldan eða aldrei lesa eða hugleiða hans orð. Það er því ekki misskilníngur á guðsorði, sem leiðir menn til iðjuleysis,

ódugnaðar, svalls og óráðvendni, heldur er það þvert á móti skeytíngarleysi í því að hafa guðsorð um hönd, hirðuleysi í því að hlýða því í kirkjunni og heimahúsum, og óbeit á að hugsa um Guð, um hans boðorð og fyrirheit, sem er sú eiginlega orsök til spillíngar þeirra. Samt sem áður er það skylda guðsorðs kennenda, til að koma í veg fyrir allan misskilníng, að útlista það orð, sem þeir eiga að boða, og leitast við að gjöra það ávaxtarsamt, eins fyrir skilnínginn og hjartað. Til slíkrar útlistunar vildi eg því og verja þessari stundu, þó eg viti að fæstir yðar, kærir bræður! hafi hennar eiginlega þörf, þar flestir yðar munu skilja rètt það upplesna guðspjall, og vil eg þá með Guðs aðstoð taka fyrir umtalsefni:

*traust á Guðs forsjón*, og fyrst minnast á oftraust og síðan á vantraust.

Það sem stendur í voru upplesna guðspjalli talaði Jesús einkanlega til lærisveina sinna. Þeir áttu að yfirgefa sín veraldlegu störf og fylgja honum til að nema hans orð og boða það síðan víðs vegar út um heiminn. Þess vegna áminnti hann þá um að gefa sig einúngis við þeirra nýju, helgu köllun, en hugsa ekki um tímanlega hagsmuni; því guðleg forsjón, sem ber umhyggju fyrir öllum hlutum, mundi líka ala önn fyrir þeim, ef þeir gegndu trúlega því embætti, sem Guð hafði falið þeim á hendur. Vinna áttu þeir þó, vinna í Drottins víngarði og hafa uppeldi sitt af því. Þá vantaði heldur aldrei það, sem þeir þurftu að hafa til lífsins viðurhalds, þegar þeir seinna, sem Drottins postular, fóru út um heiminn að boða hans orð. Svoleiðis geingur það enn í dag, því embættin eru margvísleg og náðargáfurnar margvíslegar: sumir vinna með höndum sínum, sumir með sálarkröptunum, sumir bjóða og ráða, sumir hlýða og framkvæma, sumir afla oss daglegs brauðs af sjó eða landi, aðrir afla sálum vorum fæðu og vísa oss veg sáluhjálparinnar. Þar að auki ætlaði Jesús með þessu tali sínu að vara oss mennina yfir höfuð bæði við óþarflegri búksorg og við því holdlega hugarfari, sem metur eign og nautn jarðneskra gæða mest af öllu. „Er ekki lífið“, segir hann, „meira enn fæðslan“, og meinar með því, að með því vèr lifum ekki til að eta og drekka, heldur etum og drekkum til að lifa, þá eigum vèr að láta oss vera mest umhugað um sjálft lífið, og hvernig vèr

getum varið því samkvæmt vorri sönnu og eilífu ákvörðun, en ekki um mat og drykk, sem einúngis miðar til að viðhalda því hèr í tímanum. Þess vegna segir hann: „leitið fyrst Guðs ríkis og hans rèttlætis, þá mun yður allt þetta tilleggjast“, nefnilega: það sem vèr hèr á jörðunni þurfum til líkamans viðurhalds. En sá, sem leitar Guðs ríkis og hans rèttlætis, eyðir ekki tíð sinni í iðjuleysi; hann vanrækir ekki sína köllun, hann sóar því ekki í svalli og syndsamlegu líferni, sem hann með vinnu sinni hefur aflað sèr. Það eru einkum þessi orð: „þèr skuluð ekki bera áhyggju fyrir morgundeginum“! sem menn hafa misskilið, en meiníng þeirra orða er það, að vèr skulum ekki láta umhyggju fyrir ókomna tímanum valda oss kvíða og órósemi, eða festa hjörtu vor við tímanlega hluti, heldur skulum vèr láta hverjum degi nægja sína þjáníngu. Ef menn á hverjum degi gjöra það, sem þeir eiga að gjöra, þá þurfa menn ekki að bera áhyggju fyrir sèr. Vissulega yrði nú ómögulegt að gjöra margt af því, sem morgundagurinn útheimtir, væri það ekki marga daga, vikur og mánuði fyrir fram undirbúið; en þetta skeður einmitt með því, að gjöra það á hverjum degi, sem þeim degi tilheyrir; við það venst maðurinn á reglusemi í vinnu sinni, og getur hvert kvöld geingið ókvíðinn til hvíldar og byrjað hvern dag með bæn og trausti til Drottins. Það er því áhyggjan, sem Kristur hefur bannað, en hvorki skynsamleg umhyggja nè fyrirhyggja. Því hver hefur mesta ángist og áhyggju fyrir morgundeginum? Einmitt sá, sem einga umhyggju ber fyrir honum, sá sem frá einum degi til annars slær því á frest, sem hann á að gjöra, þángað til hann loksins annaðhvort ekki getur gjört það, eða verður að gjöra það svo illa, að það kemur ekki að notum. Sá sem ekki í tíma safnar neinum forða handa heimili sínu, eða svallar því út á einum degi, sem átti að hrökkva heilar vikur eða mánuði, hvílíka sorg og áhyggju hlýtur hann síðan að hafa, þegar hann vantar viðurværi og verður að gánga fyrir hvers manns dyr til að fá einhverja hjálp, kemur, ef til vill, jafnnær aptur og heyrir óp barna sinna, sem biðja hann um brauð, en hefur ekkert að gefa þeim. Þá fyrst ber hann áhyggju fyrir morgundeginum, það er: kvíðir fyrir honum. Þá hlýtur hann að bera áhyggju af því hann hefur ekki haft neina fyrirhyggju; af því

hann hefur ekki látið hvern dag bera sína þjáníngu, hlýtur hann nú að bera margra daga og vikna þjáníngu, það er: þau vandræði, þá neyð og þá samvizkukvöl, sem forsómun hans og hirðuleysi bakar honum. Þannig eigum vèr, kristnir bræður! að taka þessi orð: „berið ekki áhyggju fyrir morgundeginum"! En, kynni einhver að segja: samlíkíngarnar um fuglana, sem hvorki sá nè uppskera og fá þó fæðu sína, og um liljugrösin, sem hvorki vinna nè spinna og eru þó klædd — sýnast styrkja þá meiníngu, að vèr í trausti til Guðs forsjónar eigum að sleppa allri umhyggju fyrir vorri tímanlegu velferð. En í hverju skyni vísar Jesús oss á fuglana og liljugrösin? er það til að hvetja oss til iðjuleysis? er það til að banna oss þau störf, án hverra eingin hússtjórn, ekkert fèlag getur átt sèr stað? nei, heldur til að sýna oss, að Guð beri sèr í lagi umhyggju fyrir oss mönnunum, sínum skynsemi gæddu skepnum, ef vèr ekki víkjum af sannleikans og dyggðanna vegi, eða vanrækjum vora köllun. En þó frelsarinn brýni ei svo mjög fyrir oss þær skyldur, sem snerta vora tímanlegu velferð, eins og guðsótta og mannelsku og traust á guðlegri forsjón, þá er það eðlilegt, því hann þurfti síður að minna oss á tímanlega hluti, sem jafnvel heiðíngjar og börn þessa heims láta sèr svo umhugað um. Vor guðdómlegi frelsari var ekki kominn í heiminn til þess, að fræða oss um þá hluti, sem fjötra oss við jörðina, heldur til að kenna oss að safna himneskum fjársjóðum, því hann gjörði ráð fyrir, að vèr mundum sjálfir bera skynbragð á það, sem útheimtist til vorrar tímanlegu velgeingnis eflíngar. Það sem hann í þessa dags heilaga guðspjalli einkanlega minnir oss á, er það, að gleyma ekki vorri eilífu ákvörðun af of mikilli umhugsun um jarðneska hluti, bera ekki svo mikla umhyggju fyrir voru jarðneska lífi, að vèr gleymum voru æðra, sanna, ódauðlega lífi. Hann varar oss við að verða þrælar þessara stundlegu muna, með því hann segir: „einginn getur tveimur herrum þjónað, Guði og mammoni".

Af þessari útlistun guðspjallsins höfum vèr þegar, kæru vinir! sèð, hvernig vèr eigum að skilja Jesú kenníngu um traustið á Guðs forsjón; látum oss nú nákvæmar hugleiða, hvernig þessu trausti eigi að vera háttað og á hverju það eigi að byggjast.

í vissum skilníngi má svo að orði kveða, að vèr lifum allir af Guðs forsjón, því hans forsjón viðheldur lífi allra skapaðra skepna. En vèr oftreystum Guðs forsjón, ef vèr vörpum á Drottin þeirri áhyggju vorri, sem hann hefur ætlazt til að vèr bærum sjálfir. Það eru margir sem halda, að fyrst Guð hefur viðburðanna rás og forlög hvers manns í sinni hendi, þá munum vèr ekki sjálfir þurfa að hafa neitt fyrir vorri tímanlegu og andlegu farsæld. En mennirnir, sem eru gæddir skynsemi og frjálsræði, sem sjá, hvað rètt er og rángt, nytsamlegt og skaðlegt, eiga sjálfir að skaparans boði og samkvæmt hans vilja að verja þeim kröptum, sem hann hefur gefið þeim, og hagnýta sèr hlutina í náttúrunni sem meðul til sinnar farsældar eflíngar. Þess vegna geta þeir einir treyst Guðs forsjón, sem rækilega leitast við að gegna sinni köllun og sýna kristilega forsjálni, iðjusemi og nægjusemi. Prófaðu þig nú sjálfan, kristinn maður! Gegnir þú rækilega og trúlega köllun þinni, ef þú gjörir ekkert þarflegt? Er það kristileg forsjálni með iðjuleysi og óþrifnaði, óhófi, svalli og drykkjuskap að leiða ógæfu yfir þig og þína? Og ef þú breytir þannig, hvernig vogar þú þá að treysta Guði, hvers boð og vilja þú fyrirlítur og fótum treður? Nei, þú treystir honum heldur ekki, en þú læzt treysta honum til að fegra lesti þína fyrir sjálfum þèr og öðrum; þú vogar ekki með trúnaðartrausti að lypta huganum upp til hans, sem þú veizt, að á síðan mun kalla þig til reiknísngsskapar fyrir vanbrúkun þess náðartíma, sem þú í hugsunarleysi burtsóar. „Ef sá er nokkur", segir postulinn Páll, „sem ekki annast náúnga sinn, helzt ef þeir eru heimilismenn hans, hann hefur afneitað trúnni, og er verri enn heiðíngi". En eins og það er ókristilegt að oftreysta Guðs forsjón án þess að vilja neyta krapta sinna og verja þeim eptir Guðs boðum, eins er það að hinu leytinu heiðínglegt, að trúa á mátt sinn og megin, að reiða sig einúngis á sína krapta og sína eigin viðburði, og við þessu hættir þó mörgum, sem kalla sig kristna, það er að skilja: meðan allt geingur vel, meðan fyrirtæki þeirra heppnast og hafa æskilegan framgáng, því þegar eitthvað geingur þeim á móti, þá kenna þeir sèr það ekki sjálfum, heldur óheppninni. En hvað er heppni og óheppni? er það ekki Guðs ráðstöfun? Það er því Guð, sem þeir ásaka og kenna um, þegar eitthvað mis-

tekst fyrir þeim. En þegar þeim geingur allt að óskum, þá kannast þeir ekki við, að Guð eigi neinn þátt í því, og það, sem vèr köllum Guðs blessun, þekkja þeir ekki, heldur þakka þeir allt dugnaði sínum, forsjálni sinni og framkvæmdarsemi. Hjá flestum sprettur þetta af holdlegu hugarfari, sem er óvinátta gegn Guði, sem leiðir frá Guði og öllu samneyti við hann; en hjá sumum kemur það til af því, að þeir þykjast vera öðrum vitrari; þeir nema staðar í hugsunum sínum við hina sýnilegu náttúru, við krapta hennar og þau lög, sem hún fylgir, og sem þeir þykjast geta skilið og útreiknað, en þeir lypta ekki huganum hærra. Þeir halda, að Drottinn hafi látið náttúruna frá sèr, og skipti sèr ekki framar af henni úr því hann eitt sinn var búinn að mynda hana. Náttúran er því þeirra Guð, og henni tileinka þeir allt, sem ekki er mannaverk, eða það, sem þeir kalla hendíng og tilviljun. Hjá þessum mönnum á það heima, sem postulinn Páll sagði um heiðnu spekíngana, að þó þeir þekktu Guð, vegsömuðu þeir hann ekki sem Guð, heldur tilbæðu skepnuna í stað skaparans; þeir gæta þess ekki, að náttúran yrði að eingu, ef henni væri ekki viðhaldið af almætti hins eilífa, sem ber alla hluti með orði síns máttar. Sumir játa það, að Drottinn viðhaldi náttúrunni yfir höfuð, en halda, að hann beri ekki umhyggju fyrir hverjum einstökum sèr í lagi. En hinn almáttugi og óendanlegi Guð er ekki takmarkaður af tíma og rúmi, heldur er hann öllum hlutum ofar um leið og hann er í öllum hlutum, svo hann getur sèð og verndað eins hið minnsta sem hið mesta í sínu víðlenda ríki. Vissulega getum vèr ekki hugsað um Guðs ómælilega ríki og hans óteljandi veraldir án þess oss komi til hugar þessi Davíðs orð: hvað er maðurinn þess, að þú minnist hans, og mannsins barn, að þú vitjir þess"? En svo mikill er skaparans óendanlegi kærleiki, að hann lætur sèr annt um allar sínar lifandi skepnur, og mundi hann þá gleyma oss mönnunum, sem hann hefur skapað í sinni mynd, sem hann hefur blásið í brjóst sínum guðdómlega anda, oss, sem hann vill gjöra að sínum börnum, sem hann hefur sent sinn eingetinn son til frelsis og sáluhjálpar? Að vísu getur mannleg skynsemi ekki leyst úr þeirri spurníngu, hvernig Guð verkar í náttúrunni og er þó fyrir ofan hana, eða úr því, hvernig vèr erum, lifum og hrærumst í eilífum Guði, en hugsum þó, áformum og vinnum,

hver með sinni eigin skynsemi, með frjálsum vilja og sínum eigin kröptum. En hvað þurfum vèr að vita meira um þetta, enn það sem Kristur hefur opinberað oss, sem segir um sjálfan sig: „einginn fer upp til himins nema sá, sem niðurstè af himni, mannsins son, sem er á himnum; vèr tölum það sem vèr vitum, og það sem vèr höfum sèð það vitnum vèr“. Og þegar hann, sem er á himnum, fullvissar oss um, að einginn smáfugl detti til jarðar án vors himneska föður vilja, og að öll vor höfuðhár sèu talin, ættum vèr þá ekki að láta oss þetta lynda bæði hvað þekkíngu og farsæld vora snertir? Hann, sem fæðir fugla himinsins og klæðir liljugrös jarðarinnar, mun hann ekki ala önn fyrir oss mönnunum, sem hann hefur sett lángt um ofar í sköpunarverkinu?

Reynslan ber líka á margfaldan hátt vitni um Guðs sèrdeilislegu forsjón bæði í náttúrunni, sem hann hefur lagað eins og bezt á við á hverjum stað, og í viðburðanna rás í mannkynssögunni, sem hann leiðir eptir sínu vísdómsráði, og er opinberan Krists í holdinu í sambandi við handleiðslu Guðs á Gyðíngaþjóðinni hin ljósasta og órækasta röksemd fyrir þessu. Sömuleiðis getur hver einstakur maður — ef hann vill gefa gætur að því — orðið þess var, að Guðs forsjón vakir yfir honum, að hún gætir hans og viðheldur honum, frelsar hann bæði fra slysum og lífshættum, og eins frá synd og andlegri hrösun. En þetta er mikið komið undir trú og eptirtekt hvers eins. En það sem liggur ljóst fyrir allra augum og sem vantrúaðir og óguðlegir menn hljóta að sjá, er það, að án Guðs forsjónar hefði einginn af oss þá fæðu, sem vèr daglega neytum. Ágóði lands og sjáfar er undir veðráttunni kominn, og við hana getur einginn maður ráðið, heldur er það Drottinn, sem sendir dögg af himni og gefur frjófsamar árstíðir, og með þessu vill hann eflaust daglega minna oss á, að vèr erum upp á hann í öllu komnir, og eigum honum allt gott að þakka. Já, allir megum vèr játa, að vèr eigum hans föðurgæðsku allt gott að þakka, og þó oss kunni að virðast, að vèr getum eignað sjálfum oss eitthvað í hinum einstöku atriðum lífsins, þá sjáum vèr þó, þegar vèr rennum augunum yfir vora liðnu æfi, að vèr höfum dásamlega verið leiddir af Drottins hendi, að hans forsjón hefur stjórnað vorum lífskjörum og blessað vor störf og fyrirtæki.

Hversu ólík sem staða vor og kríngumstæður kunna að vera, þá vakir þó Guðs alltsjáandi auga yfir oss öllum, og hann rèttir oss sína hjálpar og verndar hönd, ef vèr ekki sjálfir með syndum og vantrú snúum oss frá honum; því ef vèr ekki trúum á Guð eða skeytum um hans vilja, þá getum vèr ei heldur treyst honum. Að vísu lætur náttúrunnar herra sína sól upprenna yfir vonda og góða og rigna yfir ráðvanda og óráðvanda; en hann, sem er faðir allra, sem börn kallast, verndar þó sèr í lagi sín hlýðnu og trúlyndu börn. Og þó honum stundum þóknist að synja þeim um tímanlega hjálp, sendir hann þeim þó andlega huggun og lætur þau svo áþreifanlega fá að reyna, að þau eru geymd í hans náðarfaðmi, að þau eru vernduð af hans föðurkærleika. Gætum að því, elskulegu bræður! að trú og hlýðni eru skilyrði fyrir því, að vèr getum treyst Guðs forsjón. Frá blautu barnsbeini höfum vèr lært að ákalla Guð sem vorn föður á himnum, og þegar í heilagri skírn vorum vèr teknir í tölu Guðs barna. En hversu margir hafa ei síðan sleppt sínu barnslega hugarfari og afsalað sèr sínum barnarètti! eða afsala menn sèr honum ekki, þegar menn aldrei hugsa um hann, skeyta hvorki um skyldur nè áminníngar, og hvorki hlýða Guðs boðum nè treysta hans náðarfyrirheitum?

Til Guðs forsjónar heyrir stjórn og verndan kristilegrar kirkju. Hvar sem hans orð er boðað, þar er hann sjálfur nálægur og verkar fyrir sinn anda í orðinu. Hvar sem vèr erum og hvert sem vèr förum, þá er hann oss nálægur, ef vèr venjum oss á að nálgast hann með bæn og guðrækilegum hugleiðíngum; hann er oss þá nálægur með huggun og áminníngum sinna heilögu sannleiksorða. Sá góði hirðirinn, sem lèt lífið fyrir sína sauði, fylgir oss ávalt með sinni handleiðslu, og hann hefur með dæmisögunni um hinn týnda sauð fullvissað oss um og sýnt oss, hve annt hinum eilífa kærleika er um, að einginn af oss glatist. Hlýddu hans kallandi röddu, kæri vinur! þú, sem sèr villu þína og ángrast af henni og vilt snúa aptur. Hann kemur sjálfur til þín til að hugga þig og fullvissa þig um, að þínar syndir sèu þèr fyrirgefnar, til að leiða þig á betrunarinnar veg með sinni helgandi náð. En það koma stundum þær reynslustundir fyrir oss, að oss finnst vèr vera

einmana og yfirgefnir, oss finnst Drottinn snúa ásjónu sinni frá oss, hversu innilega sem vèr biðjum hann, oss finnst, að hann neiti oss um sinn frið, um sína hjálp og huggun. En sè iðran vor einlæg, sèu betrunaráform vor alvarleg, þá látum ekki þenna undandrátt veikja vort trúnaðartraust, látum oss ekki þreytast að biðja í Jesú nafni, heldur segjum eins og Jakob forðum: „Drottinn, eg sleppi þèr ekki fyrr enn þú blessar mig!“ og þá munum vèr, eins og hann, vinna sigur trúarinnar, og Drottinn mun eflaust bænheyra og blessa oss, og fullvissa oss um sína náð. Leitum þá fyrst Guðs ríkis og hans rèttlætis, þá megum vèr ókvíðnir fela oss og öll vor efni í Guðs forsjónar hönd. Breytum svoleiðis, að vèr jafnan með fögnuði getum hugsað til þessara orða, sem Drottinn á efsta degi mun tala til sinna útvöldu: „komið blessuð börn míns föður, og eignizt það ríki, sem yður er fyrirbúið frá veraldarinnar upphafi!“ Guð gefi oss náð til þess í Jesú nafni! Amen.

---

## Á sextánda sunnudag eptir trinitatis.

### Bæn.

Ó, þú herra lífsins og dauðans, himneski, algóði Guð og faðir! þú gefur lífið og tekur það aptur þegar þinni mildiríku speki þóknast; vegsamað sè þitt heilaga nafn! kenndu oss, Drottinn! svoleiðis að telja vora daga, að vèr öðlumst speki í vor hjörtu, þá speki, að hafa það hugfast, að vèr erum dauðlegir, láttu þessa umhugsun uppörfa oss til að verja vel vorum fáu hèrvistardögum, til að lifa kristilega og þèr þóknanlega. Láttu umhugsun um dauðann minna oss á að höndla hið eilífa lífið í lifandi trú á þig og Jesúm Krist, svo vèr fáum að lifa þótt vèr deyum. Þú hefur svoleiðis lagað alla hluti, að þeir geta minnt oss á dauða vorn, ef vèr veittum því eptirtekt, en þó er ekkert betur lagað til þess enn dauði meðbræðra vorra; þá er oss lifandi settur fyrir sjónir vor eiginn dauðlegleiki; láttu oss aldrei byrgja augu vor fyrir þessari lærdómsríku sjón, heldur veita henni eptirtekt, svo hún geti haft áhrif á vora breytni og vakið hjá oss viðleitni eptir að lifa svoleiðis, að nær vèr deyum, þá megi minníng vor lifa í blessun hjá þeim, sem eptir lifa, en vèr sjálfir ná landi lifenda, þar sem einginn dauði framar er. Bænheyr það í Jesú nafni! Amen.

## Guðspjallið

(Lúk. VII., 11.—17.).

Það skeði, að Jesús gekk til þeirrar borgar, sem kallaðist Nain; voru þá í ferð með honum margir af lærisveinum hans og fjöldi fólks.. Nú er þeir komu að borgarhliðinu, þá var framliðinn maður borinn út, einkasonur móður sinnar, sem var ekkja, og fylgdi henni fjöldi bæjarmanna. En þegar Jesús leit hana, hrærðist hann miskunar yfir henni og sagði við hana: grát þú ekki! síðan gekk hann nær, hrærði við líkbörunum — en þeir, sem báru, stóðu við — og sagði: þú, úngmenni, eg segi þèr, rís þú upp! Þá settist sá upp, sem framliðinn var, og tók til að mæla; en Jesús gaf hann aptur móðurinni. Allir urðu óttaslegnir, lofuðu Guð og sögðu: spámaður mikill er á meðal vor upprisinn, og Guð hefur litið í náð sinni til síns fólks. En þessi fregn um hann barst út um allt Gyðíngaland og öll þau hèruð, er í grennd voru.

## Inngángur.

Hið upplesna guðspjall sýnir oss tvær hliðar mannlegs lífs. Önnur hliðin er dimm og myrk, en hin er björt og fögur, upplýst af honum, sem hefur sigrað vald syndarinnar og dauðans. Að öðru leytinu segir það oss frá, að framliðinn maður var borinn út, einkasonur móður sinnar, sem var ekkja. Og hve hrærandi eru ekki þessi fáu og einföldu orð. Að hún var ekkja hlýtur strax að hræra til meðaumkunar. Hún var búin að missa bezta vininn sinn, og nú mætti henni önnur þýngslaþraut; nú varð hún að fylgja sínum einkasyni til grafarinnar, þeim eina ástvininum, sem eptir var, þeim eina, sem hún unni heitast. Það var þúngur gángur! Hvað ekkaþrúngið mun ei hjarta þessarar ekkju hafa verið, þar sem hún náföl og niðurlút af sorg og söknuði fylgdi líki síns framliðna sonar, sveipuð dökkri sorgarblæju! Þar sem hún máttvana varð að

styðjast við vandalausa hjálparhönd, með því hún bæði hafði misst manninn og einkasoninn! þetta var sorglegt, en þó svo almennt í veröldinni. En að hinu leytinu sjáum vèr, að mitt í hryggð móðurinnar mætir henni óvænt og óvenjuleg gleði, þegar Jesús segir við hana: „grát þú ekki"! og hinn framliðni vaknar aptur til lífsins við þetta eina orð af honum, sem leiddi í ljós lífið og ódauðleikann — og Jesús gaf hann aptur móðurinni. Og þar eð vèr vitum, að Jesús með þessu kraptaverki, ekki einúngis sannaði sitt guðlega vald og sinn guðlega kærleika, heldur einnig fyrirmyndaði þá eilífu upprisu í sínu dýrðarríki, þar sem allir sanntrúaðir menn aptur sjást, og æfinlega saman búa, hvílíka huggun og von veitir oss þá ekki þetta guðspjall, hvort sem vèr heldur syrgjum ástvini vora, eða hugsum til viðskilnaðar sjálfra vor!

Marga lærdómsríka hugvekju getur þetta guðspjall gefið oss, og þó vèr ekki skoðum annað í því, enn jarðarför hins framliðna, getur það gefið oss tilefni til guðrækilegra hugleiðínga. „Spámaður mikill er á meðal vor upprisinn og Guð hefur vitjað síns fólks"; þannig hrópaði líkfylgdin óttaslegin og lofaði Guð. Og vèr, kristnir menn! sem þekkjum Jesúm, ekki einúngis sem mikinn spámann, heldur sem Guðs son, dáinn og upprisinn oss til frelsis og sáluhjálpar, ættum vèr að fylgja nokkrum framliðnum kristnum bróður eða systur til þeirra síðasta legurúms án þess að lypta hjörtum vorum upp til Guðs, án þess að andvarpa yfir syndum vorum og biðja Guð um náð og miskunsemi, án þess að lypta augum trúarinnar og vonarinnar upp til ljóssins og friðarins eilífu bústaða? Látum oss, elskulegu bræður! á þessari stundu brýna þetta efni betur fyrir oss með því stuttlega að íhuga:

*hvaða hugvekju jarðarför framliðinna geti gefið oss, fyrst yfir höfuð og svo við sèrleg tækifæri.*

það sem jarðarför framliðinna fyrst hlýtur að vekja eptirtekt vora á, er dauðlegt eðli sjálfra vor. það er víst, að vèr þurfum ekki að fylgja neinum til grafarinnar til að verða minntir á þetta, því flestir hlutir minna oss á það. Sjaldan líður svo nokkurt ár, að ekki burtkallist einhver af kunníngjum vorum, og vèr vitum, að aldrei líður svo nokkur dagur, að

ekki skilji hèr við margir af meðbræðrum vorum. Allir hlutir, bæði innra hjá oss og fyrir utan oss, eru svoleiðis lagaðir, að þeir eiga að minna oss, ekki einúngis á það, að vèr hljótum einhvern tíma að deyja, heldur og á það, að dauða vorn getur hvern dag, hvert augnablik að borið. Þetta er svo alkunnugt og óyggjandi, að eingum getur komið til hugar að efast um það, og vèr heyrum um það talað ekki einúngis við jarðarför framliðinna, eða á prèdikunarstólnum, heldur og opt og einatt í daglegu lífi. Og þó sýnist öll vor breytni og háttsemi lýsa því, að vèr þekkjum ekki þenna sannleika eða drögum hann í efa. Einginn getur borið á móti því, að mennirnir sèu dauðlegir yfir höfuð, en fæstir vilja trúa því, þó þeir sèu dauðveikir, að þeir eigi skammt eptir ólifað, og margur hrumur og háaldraður sjúklíngur vill ekki heyra það, að hann hljóti hèr við að skilja, og sýnir með því ekki einúngis, hve fast hann hángir við þetta líf, heldur og að hann telur það víst að fá að lifa leingur. Og sè nú þessu þannig varið fyrir hrumum og sjúkum gamalmennum, þá er ekki að furða, þó hinum, sem eru heilbrigðir og í blóma lífsins, komi illa að heyra þessi orð: „ráðstafa þínu húsi, því þú hlýtur að deyja!" Og hve margir eru þeir ekki, sem slá því á frest að ráðstafa sínu húsi þángað til það er orðið um seinan. Og þegar menn þannig gleyma veraldlegum störfum og vanrækja þau undir eins og þau minna á dauðann, og það þeir menn, sem þó hugsa mest um veraldlega hluti, þá er ekki furða, þó þeir vanræki umhyggju fyrir andlegum efnum, þó þeir skjóti iðrun sinni og betrun á frest þángað til þeir leggjast á sóttarsængina, eða jafnvel á banasængina, þángað til þeir hafa misst heyrn og mál og rænu og geta ekki leingur hugleitt, hvað til þeirra friðar heyrir.

Að sönnu væri það hvorki kristilegt nè skynsamlegt, að sökkva sèr svoleiðis niður í umhugsun um dauðann, að það truflaði oss í að gegna vorri köllun og vorum skyldum, kæmi oss til að taka oss út úr mannlegu fèlagi, gjörði oss sorgbitna og áhyggjufulla, spillti heilsu vorri og stytti vort líf; en ekki sæmir það heldur skynsemi gæddum verum, og því síður kristnum mönnum, að elska þetta líf svo dátt, að vèr öldúngis gleymum eilífðinni, eða festum hjörtu vor svo fast við veröldina, eins og vèr ættum hèr aldrei við að skilja. „Eg hlýt

að vinna verk þess, sem mig sendi, meðan dagur er. Nóttin kemur þá einginn fær erfiðað", sagði Jesús, þegar hann var að búa sig undir dauðans nótt, og hefur hann með þessum orðum gefið oss lærdómsríka hugvekju, ekki einúngis um það, hvernig vèr eigum að verja tímanum, heldur og um það, hvernig vèr eigum að hugsa um dauðann. Um leið og hann býður oss að gæta þess, að vèr hljótum að deyja, hvetur hann oss til að vinna meðan vèr lifum, en vinna vor á að lúta að því, að höndla hið eilífa og ódauðlega líf einmitt þess vegna, að þetta líf er svo óstöðugt og hverfult, og einmitt þess vegna eigum vèr að hugsa til næturinnar, sem bráðum fer í hönd, svo vèr ekki sóum burt þeim fáu augnablikum meðan dagur er. Sannkristinn maður deyr á hverjum degi veröldinni, svo hann geti lifað Guði.

Gjörvöll náttúran minnir oss á dauðann, umskipti dags og nætur, árstímanna skipti minna oss á vort endadægur, og jörðin sjálf, sem vèr gaungum á, bendir oss á vort síðasta legurúm. Til grafarinnar leiðir oss sèrhver vegur, sem vèr gaungum, sèrhvert fótmál, er vèr stígum. Dauðinn fylgir oss alstaðar, eins og vor skuggi, en eins lítinn gaum og vèr gefum að skugga vorum, eins lítið hugsum vèr eða hirðum um dauðann. Einmitt af því, að allir hlutir verða til þess alltaf að minna oss á dauðann, þá gefum vèr því svo lítinn gaum. þess vegna þurfum vèr sèrlegrar áminníngar við til að geta munað eptir dauða vorum, og jarðarför framliðinna meðbræðra er vel til þess fallin að gefa oss slíka áminníngu, og það er þá eins og þessi rödd ávarpi oss úr gröfunum: „í dag mèr, á morgun þèr!" það er alvarlegur gángur, mínir elskanlegu! sem má vekja alvarlegar hugsanir, þegar vèr fylgjum framliðnum bróður eða systur frá þeim stað, sem var heimili hans hèr í lífi, til þess staðar, sem á að verða heimili vor allra, og hvar oss öllum er búið legurúm. Sá framliðni sjálfur vísar oss veginn, vèr fylgjum honum; hann vísar oss þann veg, sem vèr allir einhvern tíma eigum að gánga og hvaðan einginn snýr aptur, og þegar vèr komum inn í þann vígða reit, hvar leiðin eru alltaf að fjölga, þá gefur klukknahljóðið til kynna, að einhver er dáinn, sem nú á að grafa, og svo lángt sem þetta klukknahljóð nær mætti sèrhverjum, sem það heyrir, koma til hugar

að dauðastund hans getur bráðum að borið, og mættu þá ekki hinir hugleiða þetta, sem standa hjá gröfinni og heyra þessi orð: „af jörðu ertu kominn, að jörðu skaltu aptur verða!“ Allt sem vèr heyrum og sjáum við slíkt tækifæri er eins vekjandi og lærdómsríkt, og þegar búið er að jarða, þá er þó opt og tíðum allt gleymt; menn skoða þann framliðna eins og hann hefði aldrei lifað, og sjálfa sig eins og þeir ættu aldrei að deyja. Skeð getur þó, að einhver hugsi til hins framliðna, sumir um hans eptirlátnu fjármuni, sumir um börn hans og ekkju, ef hann hefur það eptir sig látið, sumir um breytni hans og háttalag, sumir um sjúkdóm og andlát hans. — Hver ætli verði nú næst grafinn í þessum reit? svoleiðis kann má ske einhver að spyrja sjálfan sig, en í sama augnabliki fer hann að hugsa um eitthvað annað, eða honum dettur einhver annar eldri og hrumari í hug, sem honum þykir líklegt, að ekki muni eiga lángt eptir ólifað. Þegar búið er að grafa hinn dauða, þá fer hver aptur heim til sín, einn til verzlunar sinnar, annar til handiðnar sinnar, þriðji til embættisstarfa sinna, fjórði til vinnu sinnar eða einhverra annara útrèttínga, og sumir má ske til þess að sóa tímanum burt í iðjuleysi eða einhverju enn verra, án þess nokkur alvarlega hugleiði, að hann, ef til vill, ekki lifir árið, mánuðinn, vikuna út, eða þann daginn allan, sem er að líða. Og þetta er þó það efni, sem vèr við jarðarför meðbræðra vorra ekki einúngis ættum að hugleiða, heldur er því svo varið, að vèr naumast getum komizt hjá því að hugleiða það. Hvar, ef ekki við gröf framliðinna, ættum vèr að íhuga þessi Davíðs orð: „milli mín og dauðans er að eins eitt fótmál.“ Þessi orð eiga alstaðar heima. Á hverjum aldri, í hverri stètt og stöðu, er að eins eitt fótmál milli vor og dauðans, og þetta fótmál er snart stigið; dauðinn fer ekki í manngreinarálit, hann burtkippir eins úngum og öldruðum, voldugum og vesölum, viljugum og nauðugum. „Dauðinn dvelur ekki“ segir Sírak, hann fer ekki eptir því, þó menn eigi margt eptir ógjört eða hálfgjört, þó menn láti eptir sig ekkju og munaðarlaus úngbörn; hann lætur ekkert tefja sig, hvorki bænir vina og vandamanna, nè tár og trega eptirþreyjandi ektamaka og barna, því „bón ei nè bræði mildir hans beiska heiptarþel“. Allt þetta leiðir jarðarför framliðinna oss

fyrir sjónir, og hversu eptirtektavert er það ei, þó vèr ekki skoðuðum dauðann öðruvísi enn sem endi þessa vors jarðneska lífs. Hinn framliðni er fluttur frá húsi sínu og heimili, stundum frá ektamaka og börnum, frá öllu því, sem hann hafði sveitzt fyrir og samandregið, frá öllu því, sem hann átti og unni hugástum í lífinu, frá öllu því, sem er fagurt í náttúrunni og ánægjulegt í mannlegu fèlagi. Og hvert er hann fluttur? Í hinn dimma og geigvæna legstað, sem vèr köllum gröf. Væri tilveru vorri og lífi þar með lokið, þá væri þetta ekki nein gleðileg tilhugsun. En dauðinn er ekki einúngis viðskilnaður við þetta líf, ekki einúngis útgángur úr tímanum, heldur og inngángur í eilífðina. Vissulega er dauðinn óttalegur sem syndarinnar hegníng; en lofaður sè Guð, sem oss hefur sigurinn gefið fyrir Jesúm Krist! hann hefur sýnt, að hann hafði vald yfir dauðanum, hann hefur leitt í ljós lífið og ódauðleikann, og hver, sem á hann trúir, mun lifa þótt hann deyi. En guðsorð kennir oss, að hinu megin grafarinnar sèu ekki einúngis ljóssins og sælunnar bústaðir, heldur og myrkranna og glötunarinnar; það kennir oss, að á eptir dauðanum komi dómurinn. Ættum vèr þá ekki, meðan vèr enn stöndum ofan jarðar, að hlýða röddu hins eilífa miskunarans, sem segir: „sjá, eg vil ekki syndarans dauða, heldur að hann snúi sèr og lifi“? Á síðan hljótum vèr þó ásamt öllum þeim, sem í gröfunum eru, að hlýða hans röddu, þegar vèr mætum fyrir hans dómstóli til að standa reikníngsskap af því, sem vèr höfum að hafzt í líkamans lífi, hvort heldur það hefur verið gott eða illt.

Þetta er það helzta sem jarðarför framliðinna minnir oss á viðvíkjandi dauða vorum. Þar að auki gefa slík tilfelli oss margvíslegt hugleiðíngarefni, allt eptir þeim ýmislegu kríngumstæðum, sem eiga sèr stað í mannlegu lífi; en einna eptirtektaverðast er það, hvernig menn burtkallast á öllum aldri. Hvað úngbörn snertir, þá eru fáir vanir að syrgja þau, nema foreldrarnir og þeir sem næstir þeim standa. Þó hlýtur það að vekja athygli hvers manns, að af úngbörnum, sem fæðast, burtkallast meir enn fjórði hlutinn áður enn þau verða þrèvetur. Hvílíkur missir er ei þetta, ekki einúngis fyrir náttúruna og mannlegt fèlag, heldur og, eins og það sýnist, fyrir guðsríki. Það er missir fyrir náttúruna, þegar það, sem fæðist til að lifa, til að

blómgast og bera ávöxt, deyr út áður enn það getur vaxið, auk heldur orðið fullþroska. Missir er það fyrir mannlegt fèlag, að svo mörg mannsefni, sem hefðu getað unnið því gagn með tímanum, skuli þannig hverfa án þess að skilja eptir aðrar menjar tilveru sinnar, enn leiði þau, sem þau hvíla undir. Og missir sýnist það vera fyrir guðsríki, að svo margar sálir skuli fara á mis við kristilega uppfræðíngu og kristilegt líferni, og þannig sviptast undirbúníngi undir annað æðra og fullkomnara líf. Það er náttúrlegt, þó margur hugsi þannig við jarðarför úngbarna, og mannleg skynsemi getur í þessu efni veitt litla huggun, því það er lítil huggun í því, að í náttúrunni yfir höfuð spillist árlega svo margt frækorn og deyr út af svo margur vísir. Þar á móti sýnir kristileg trú oss, hvernig frelsarinn tekur úngbörnin sèr í fáng og segir, að þeim heyri guðsríki til; hún fullvissar oss þannig um, að þó þau hèr í lífi ekki hafi getað lært að þekkja skapara sinn og frelsara, þá muni þau á himnum fá þessa þekkíngu og þar öðlast lángt um fullkomnari uppfræðíngu, enn þau hèr á jörðunni hefðu getað feingið. Sælla er það fyrir hverja foreldra, að vita börn sín geymd í gröfinni, enn að týna þeim í synd og solli veraldarinnar; sælufullt og gleðilegt er það, að geta hugsað til þeirra á himnum í sambúð og samfèlagi við hann, sem er faðir allra, sem börn kallast bæði á himni og jörðu.

Hversu opt ræðst ekki dauðinn á æskuna? hversu opt hafa ekki úngir og efnilegir menn orðið honum að herfángi? Hve mörg ekkja hefur ekki eins og ekkjan í Nain hlotið að sjá á bak sínum einkasyni, sem var hennar eina stoð og stytta, yndi hennar og eptirlæti? Hversu opt hefur ei dauðinn kippt þeim burt á æskuárum, sem litu út fyrir að mundu verða mannlegu fèlagi og fósturjörðu sinni til gagns og sóma? Við fráfall slíkra gjörvilegra æskumanna hlýtur oss að renna það til rifja, að öll mannleg von skuli vera svo fallvölt, og vèr spyrjum með sjálfum oss, hvers vegna þessum hafi verið burtrykkt, en hinir skildir eptir, sem eru sjálfum sèr og öðrum til byrði? En sem kristnir eigum vèr að leggja oss undir Drottins vilja, því hans vegir eru órannsakanlegir; sem kristnum ber oss að treysta því, að allar hans ráðstafanir sèu einber speki og gæðska, og við slík tækifæri huggar ritníngin oss með þessum

orðum: „fullnuma orðinn á stuttum tíma lifði hann lángan aldur, af því sál hans var Drottni þóknanleg hraðaði hún sèr til hans hèðan frá vonzkunni“ (Spek. b. 4., 13.). Án efa er slíkum guðhræddum og efnilegum æskumanni fyrirhugað rúm í æðra heimi, sem hann þegar við burtför sína hèðan er orðinn hæfilegur fyrir. Ekki er heldur miðhluti æfinnar — þessi framkvæmdanna og atorkunnar tími — óhultari fyrir dauðans atlögu, hvorki heilsa nè hreysti nè nokkurt atgjörfi sálar eða líkama getur verið vörn móti honum; því það er eins og skáldið segir:

Reyr, stör, sem rósir vænar
Reiknar hann jafn-fánýtt.

Við jarðarför þeirra, sem hnignir eru á efra aldur, er sorgin blönduð gleðitilfinníngum. Hafi hinn framliðni verið guðhræddur og ráðvandur maður, þá gleðjumst vèr af því, að reynslutími hans er á enda og hann hefur feingið sáluhjálplegan viðskilnað. Hversu fögur og lærdómsrík er ei jarðarför slíkra manna, sem á dauðastundunni geta sagt: „Drottinn! láttu nú þjón þinn í friði fara“. En hafi hinn framliðni þar á mót verið óráðvandur og iðrunarlaust haldið áfram í syndum sínum, þá þykir mönnum vænt um, að hann er skilinn við það heimili, það byggðarlag eða sveitarfèlag, þar sem hann lifði öðrum til ama og ásteytíngar; en sorgarefni er það, að fylgja moldum slíkra manna til grafarinnar, og hugsa til mannlegrar spillíngar, hugsa til þess, að sá framliðni skuli hafa burtsóað þeim lánga náðartíma, sem honum var gefinn, án þess að vilja hlýðnast áminníngum guðsorða, eða búa sig undir eilífðina, hvar hann nú stendur frammi fyrir Drottni sínum og dómara.

Menn kvarta yfir því, hvað lífið sè stutt, og hvað það sè mæðufullt, stundum yfir þessu hvorutveggja undir eins. Ætti oss þá ekki að lánga til þess að ná hinu eilífa lífinu, sem aldrei tekur enda, sem er laust við alla sút og sorg. Jafnvel sá leingsti lífstími hèr á jörðunni er, þegar hann er liðinn, eins og eitt augnablik, en undir þessu augnabliki eru kjör vor í eilífðinni komin, og fyrst einginn aldur, einginn dagur, eingin stund er óhult fyrir dauðans atlögu, ætti þá ekki öll vor æfi að vera sífeldur undirbúníngur undir dauðann, með því að

gegna þeim skyldum trúlega og í guðsótta, sem oss eru á herðar lagðar? ættum vèr ekki jafnan að hafa hugföst þessi orð frelsara vors: „vakið, því þèr vitið ekki nær húsbóndinn muni koma, hvort heldur að aptni, um miðnætti, um aptureldíng, eða að morgni, að hann ekki komi þegar yður sízt varir og finni yður sofandi“! Við jarðarför framliðinna er það ekki einúngis mismunur á aldri, heldur og á útvortis kjörum, á stètt og stöðu þeirra í lífinu, sem vekur athygli vora. En hversu ólíkt sem þetta er, þá eru þó allra jarðneskra leifar sömu forlögum undirorpnar, dauðans og rotnunarinnar herfáng. En við jarðarför framliðinna eigum vèr ei að festa hugann við moldir hinna burtsofnuðu, heldur við sálir þeirra, sem komnar eru inn á land ódauðleikans, þó ekki til þess að setja oss í dómarasæti Drottins til að dæma þá framliðnu, heldur til að biðja Guð hver í sínu lagi um náð til þess að geta breytt svoleiðis eptir hans heilaga vilja, að vèr á efsta degi megum upprísa til eilífs lífs. Jarðarför framliðinna minnir oss þannig á upprisu vora úr gröfunum og hinn efsta allsherjardóm. Það liggur fyrir oss öllum, kæru vinir! fyrr eða síðar að leggjast í vorar grafir. Innan lítils tíma verður má ske einhverjum af oss fylgt til grafarinnar, og ætti þá ekki þessi tilhugsun að knýja oss til að leita hans, sem er upprisan og lífið, knýja oss til að fylgja Jesú í trú og hlýðni og stöðuglyndi? Ef vèr fylgjum honum, þá mun hann leiða oss yfir þenna táranna og dauðans dal til síns föður himneska bústaðar, þar sem allir þeir. er honum tilheyra, safnast saman í eilífum friði og gleði. Þá þurfum vèr ei heldur við missi ástvina vorra, sem á undan oss burtkallast hèðan, að syrgja sem þeir, er einga von hafa. Grát þú ekki! segir Jesús við oss, eins og hann sagði við ekkjuna í Nain, og sýnir oss, hvernig hann bæði hefur vald og vilja til að sameina guðhrædda ástvini aptur í æðra heimi. Já, ef vèr fylgjum Jesú, þá munum vèr með hverju fótmáli, er flytur oss nær gröfinni, nálgast himininn, og sú fullvissa mun ávalt hugga oss, að þó moldin hverfi aptur til jarðarinnar, þá fari andi vor til Guðs, sem gaf hann; hughraustir getum vèr þá lifað og dáið í Jesú nafni. Amen.

---

## Á seytjánda sunnudag eptir trinitatis.

### Bæn.

Fyrir þínu heilaga augliti, Drottinn! mætum vèr á þessari helgu stund til að biðja þig og lofa þig. Þú þekkir hjörtu og hugrenníngar vor allrà, þú sèr, hvort vèr einúngis nálgumst þig með vörunum, hvort hjörtu vor eru lángt í burtu. Æ, það getur ekki dulizt fyrir sjálfum oss, að hjörtu vor eru einatt köld og hugsanir vorar hvarflandi, svo að vor bænaiðja og vor lofgjörð verður að hálfvelgju. Kenndu oss, góði Guð! að biðja þig heitt og innilega, að hugsa um þig með andakt og lotníngu, svo vèr dýrkum þig og þjónum þèr í anda og sannleika. Helgaðu vorar guðræknisathafnir nú og endrarnær, svo þær fái vakið hjá oss elsku til þín og laungun eptir að hlýða þínu heilaga orði, laungun eptir að geyma það í góðum og siðsömum hjörtum, þá munum vèr fá að reyna, að það er kraptur Guðs til sáluhjálpar, þá mun það verða vor inndælasta gleði að verja þeim degi, sem sèr í lagi er helgaður þinni þjónustu, til að lofa og vegsama þitt heilaga nafn, til að hugleiða vor sáluhjálparefni og búa oss undir vora eilífu ákvörðun. Og vor helgidagaiðja mun þá bera oss blessaða ávexti og hafa betrandi og helgandi áhrif á vort hugarfar og alla vora breytni, og gjöra oss hæfilega til að fá inntöku í þitt himneska ríki, þar sem einglar og útvaldir sýngja þèr eilíft lof og dýrð. Gefðu oss náð til þessa í Jesú nafni! Amen.

### Guðspjallið

(Lúk. XIV., 1.—11.).

Svo bar við einhvern tíma, að Jesús kom á hvíldardegi í hús eins af höfðíngjum faríseanna, brauðs að neyta, og þeir höfðu varðhald á honum. En frammi fyrir honum stóð maður nokkur vatnssjúkur. Jesús spurði lögvitríngana og faríseana: er það leyfilegt að lækna á hvíldardegi? Þeir þögðu. Jesús tók á hinum vatnssjúka, læknaði hann og lèt hann svo á burt fara, en sagði við þá: ef einhver yðar á asna eða naut, sem fellur í pytt, dregur hann það ekki jafnskjótt upp þó hvíldardagur sè? En — til þess gátu þeir eingu svarað. Jesús sagði þá þessa eptirlíkíngu til þeirra, sem til borðsins sátu — þegar hann sá, hvernig þeir möttust um hin æðstu sæti —: Þegar þèr er boðið af

einhverjum til veizlu, þá set þig ekki í hið æðsta sæti; verið getur, að annar æðri þèr sè boðinn, og sá komi, sem þèr bauð og honum, og segi við þig: gef þessum rúm! og hljótir þú svo með kinnroða að hafa hið yzta sæti. Heldur nær þèr er boðið þá set þig í hinn yzta sess, svo þegar sá kemur, sem þèr bauð, segi hann við þig: vinur, þoka þèr upp betur! þá mun þèr virðíng veitast af þínum sessunautum; því — hver sig sjálfur upphefur, hann mun niðurlægast, og hver sem sig sjálfan niðurlægir, hann mun upphafinn verða.

## Inngángur.

„Á morgun er sabbatsdagur, heilagur hvíldardagur Drottins". þessi orð, sem lesa má í 2. Mósis bók 16. kap. 23. v., sýna að sabbatsdagurinn var haldinn heilagur hjá Gyðíngum áður enn lögmálið var útgefið á fjallinu Sínai. Án efa hefur það verið gömul venja hjá ættfeðrum Gýðínganna, að halda sjöunda daginn helgan, til endurminníngar þess, sem sagt er í frásögunni um sköpunina, að Guð hvíldist eða hætti að skapa á sjöunda deginum. Síðan var þessi venja staðfest með þessu boðorði: „minnstu að helga hvíldardaginn Drottins Guðs þíns"! þetta boðorð, sem var byggt á mannelskufullum grundvelli, höfðu Gyðíngarnir rángfært og misbrúkað, þeir höfðu í því sem öðru fleiru haldið bókstafnum, en sleppt andanum. þann dag, sem var ætlaður til hvíldar fyrir menn og skepnur og til að viðhalda Guðs dýrð meðal Gyðínganna, höfðu þeir gjört að byrði fyrir aðra, og vildu heldur, að honum væri varið í algjörlegu iðjuleysi enn til kærleiksverka. Merkilegt dæmi upp á þetta sýnir oss hið upplesna guðspjall, þar sem farísearnir og hinir skriptlærðu vildu ekki leyfa Jesú að lækna á sabbatsdegi. En Jesús hirti ekki um þeirra hræsnisfullu setníngu, heldur læknaði hinn vatnssjúka, og í guðspjöllunum eru fleiri svipaðar frásögur. Mun þá frelsari vor hafa ætlað að aftaka hvíldardaginn? Ó, mínir vinir! alla hræsni, allt yfirskyn guðhræðslunnar hefur hann aftekið og bannað, bæði í þessu og öllu öðru tilliti. En hitt hefur hann ekki aftekið, sem miðar til og er nauðsynlegt

til að vekja sanna guðrækni og viðhalda henni. Að sönnu kendi hann, að Guði væri ekki kærari tilbeiðslan á einum stað enn öðrum, en þó vitum vèr, hve vandlætíngasamur hann var fyrir musterið í Jerúsalem, sem hann kallaði síns föður hús. Hann ætlaðist vissulega ekki til að guðhræðsla vor skyldi vera bundin við vissa tíma, en þó var hann sjálfur vissa tíma á bænum til síns himneska föður, og minnti oss þar með á, hvað það væri nauðsynlegt að gefa sèr tíma og tómstund til þessa. Hann ætlaðist vissulega ekki til, að vèr skyldum eyða lífi voru í iðjuleysi, en vèr vitum þó, hvernig hann talaði um þá iðjusemi, sem ekki gefur sèr tíma til að leita Guðs og hans rèttlætis. það var því vissulega samkvæmt tilgángi frelsara vors, að hans postular tilskipuðu, að söfnuðirnir kæmu saman til guðræknisiðkana á vissum tímum, og að þeir dagar, sem þar til voru helgaðir, það er: sunnudagarnir, skyldu vera hvíldardagar. þar eð sumum á vorum dögum hefur þókt þessi tilskipun miður nauðsynleg, mundi það ei vera óþarft að hugleiða þetta efni nokkuð nákvæmar, og viljum vèr því verja þessari guðræknisstundu til að íhuga:

*til hvers sunnudagurinn sèr í lagi sè ætlaður.*

Sunnudagurinn er fyrst ætlaður til hvíldar. Móses bauð Gyðíngum að halda helgan hvíldardaginn, og í 5. Mósis bókar 5. kapítula stendur: „Sex daga skaltu verk þitt vinna, en sjöundi dagur er hvíldardagur Drottins þíns Guðs, þá skaltu ekkert erfiði fremja, ekki sonur þinn eða dóttir, ei heldur húskarl þinn eða ambátt, eigi uxi þinn nè asni, nè nokkur af þínum gripum“. þó vèr ekki skoðum þetta boðorð öðru vísi enn sem borgaralega tilskipun, þá er það sèrlega milt og mannúðlegt; því að sönnu er mönnunum ætlað að vinna, að sönnu eiga þeir að neyta síns brauðs í sveita síns andlitis, en þó eru þeir ekki ætlaðir til sífeldrar þrælkunar án hvíldar eða gleði; þvert á móti er það vilji Drottins, sem sendir dögg af himni og gefur frjófsamar árstíðir, að vèr með þakklæti skulum neyta hans velgjörða og gleðjast af hans miskunsemi. Fyrir þá, sem hljóta að sveitast og vinna baki brotnu alla vikuna, má það því vera gleðileg tilhugsun að eiga hvíldardag, og þó þeir, sem eiga með sig sjálfir og geta tekið sèr hvíldardaga nær þeir

vilja, þurfi ekki á lögboðnum hvíldardegi að halda, þá talar þó þetta boðorð: „minnstu að helga hvíldardaginn Drottins Guðs þíns“! þeirra máli, sem undir aðra eru gefnir, og býður húsbændunum að sýna vægð og vorkunsemi mönnum og skepnum. En þó er það ekki ósjaldan, að menn kvarta einmitt yfir þessari hvíld á sunnudeginum, kvarta yfir því, að þeim finnist einginn dagur eins lángur og leiðinlegur og hann, og kvarta þó jafnframt yfir sífeldum störfum, sífeldri mæðu og erfiði. En lýsir það ekki aumkunarverðri andans fátækt að kvíða fyrir þeim degi, sem mönnum er sett í sjálfs vald, hvernig þeir vilji verja? Eða hvernig er þeim mönnum viðhjálpandi, sem hvorki þola erfiði nè hvíld, hvorki þjónustu nè frelsi? Sýslunum vorum í veröldinni er opt svoleiðis varið, að þær draga allan huga vorn niður til jarðarinnar, og vilja festa huga vorn í umsvifum þessa lífs, í áhyggjum og sorgum, og þess vegna eigum vèr stundum að sleppa þessum sýslunum og taka oss tíma til hvíldar; en hvíld er annað enn iðjuleysi, og iðjulausir eigum vèr aldrei að vera, og það er ekki meiníngin, að sálin eigi að vera aðgjörðalaus, þegar hún ekki er að hugsa um þær veraldlegu hversdagslegu sýslanir, heldur hitt, að sú hvíld og þær skemmtanir, sem frelsi vort á sunnudagana tilbýður oss, eigi að vera svoleiðis lagað, að það geti lypt huga vorum til himins og helgað vor daglegu störf; þess vegna er líka sagt í boðorðinu: „minnstu að h e l g a hvíldardaginn Drottins Guðs þíns“! það er: þegar þú hvílist og sleppir þínum veraldlegu störfum, áttu að helga Guði þína hvíld. Í Mósislögum var öll líkamleg vinna harðlega bönnuð á sabbatsdeginum, en af frelsisanda evangelii er þetta svoleiðis mildað, að á sunnudögum eru leyfð ekki einúngis öll mannelskuverk, heldur og nauðsynjaverk; því það eru ekki verkin í sjálfum sèr, sem vanhelga sunnudaginn, heldur hið veraldlega hugarfar, sem þau vitna um, það hugarfar, sem fjötrað er af jarðneskum sýslunum og sorgum. Einginn getur þjónað tveimur herrum: Guði og mammóni segir Jesús, og hvað er það annað enn mammons þjónusta, ef þú, kristinn maður! á þeim degi, sem sèr í lagi er ætlaður til þess, að vèr á honum hvílumst í Drottni og lyptum huganum frá veröldinni upp til Guðs — ef þú á honum, segi eg, ekki einúngis sjálfur gefur þig við veraldlegum sýslunum í ágóða skyni og

án þess nokkur nauðsyn bjóði, heldur einnig heldur hjúum þínum og verkamönnum til vinnu, og svoleiðis sviptir sjálfan þig og aðra tíma og tækifæri til að verja hvíldardeginum til andaktar og guðræknisiðkana? Sè það líka ókristilegt, að neita þeim vinnudýrum hvíldar á sunnudögunum, sem höfð hafa verið til þrælkunar alla vikuna, þá má geta því nærri, að það er því ókristilegra, að unna ekki sínum sannkristnum náúnga þeirrar hvíldar, sem Guðs og manna lög bjóða. Sè það skylda vor að uppörfa meðbræður vora til guðrækni og gánga á undan þeim með góðu eptirdæmi, þá má nærri geta, að það er skyldu vorri gagnstætt að leggja þeim á hvíldardeginum þá byrði á herðar, sem gjöri þeim ómögulegt eða mjög torvelt, að helga þenna dag Drottni sèr til uppfræðíngar og betrunar. Á þeim degi eiga menn sèr í lagi að sleppa jarðneskum hugsunum, en gefa sig við himneskum og andlegum efnum, því sunnudagurinn er ekki einúngis ætlaður til hvíldar, heldur og í öðru lagi til bænaiðju og guðræknisiðkana.

Að vísu á ekki einúngis sunnudagurinn að vera helgaður Guði, heldur og allir æfidagar vorir; að vísu segir postulinn, að sönn guðsþjónusta sè í því innifalin, að vitja ekkna og föðurlausra í þreyngíngu þeirra og halda sèr flekklausum af heiminum; en þessi orð taka ekki fram hið guðrækilega atriði í góðu siðferði, og því er þörfum sálna vorra ekki þar með að öllu leyti fullnægt, því að í hjarta hvers manns býr laungun eptir Guði, og sálin lætur sèr ekki lynda þá þekkíngu, sem hlutanna margbreyttu myndir fylla með augað, nè þá nautn, sem hið jarðneska veitir skilníngarvitunum, heldur þráir hún annað æðra: hið eilífa og sælufulla. Þessa laungun getur maðurinn kæft með því að sökkva sálu sinni niður í stundlegan munað og festa allan hugann við jarðneska hluti, en hann fer þá á mis við sína sönnu ákvörðun, þegar hann heldur sínum æðri eiginlegleikum fjötruðum í stað þess að fullkomna þá. Slökktu því ekki andann, kristinn maður! þann helga lifandi anda, sem leiptrar innst í sálu þinni; kæfðu ekki þær guðrækilegu tilfinníngar, sem kvikna í hjarta þínu, heldur gefðu þeim tíma og tækifæri til að glæðast og þróast, svo þær geti haft áhrif á vilja þinn og breytni þína. En hvernig verður þessu framgeingt? Er það veraldarinnar fánýta gleði, eru það

veraldlegar áhyggjur og ásókn í jarðneskan munað, sem gjörir sáluna hæfilega fyrir íbúð Guðs anda, fyrir íbúð guðrækilegra hugleiðínga? Nei, þessir hlutir kenna oss ekki, hvernig vèr fáum erft eilíft líf. Þess vegna er það nauðsynlegt, að vèr á vissum tímum sleppum vorum veraldlegu störfum, og gefum oss tíma og tómstund til að hlýða þeirri röddn, sem talar til vor um Guð og hans heilaga orð, og þegar vèr með andakt hlýðum guðsorði, þá helgum vèr hvíldardaginn. Og í þessu skyni eigum vèr að gánga í guðshús. Að vísu getum vèr beðið Guð og eigum að biðja hann í heimahúsum og hvar sem vèr erum staddir, en mundi þetta ekki gleymast mörgum af oss, ef vèr aldrei geingjum í guðshús, og notuðum ekki sunnudaginn til að taka þátt í þeirri opinberu guðsþjónustugjörð? Vissulega er guðshús betur lagað enn nokkur annar staður til að glæða vora andakt og vekja hjá oss guðrækilegar tilfinníngar. Á þeim heilaga stað kallar guðsorð alla til bænar og lofgjörðar og til að snúa huga vorum frá tvístrandi og tælandi hègóma heimsins upp í hæðirnar til hins eilífa andanna föður; í guðshúsi leitar rödd guðsorða innst í hjörtu vor og vekur hjá oss guðlegar tilfinníngar, þar sem vèr allir í auðmýkt krjúpum niður við náðarskör Drottins, leitum hans líknar og miskunar og biðjum hann í Jesú nafni um fyrirgefníngu vorra synda, um styrk og stöðuglyndi til að bera byrði lífsins og reynast honum trúir. Þar er ekkert manngreinarálit, þar byrtast allir sem börn þess himneska föður, voldugir og vesalir, ríkir og fátækir, úngir og gamlir. Á þessum heilaga stað hljómar rödd aðvörunarinnar í eyrum hins andvaralausa, og leitast við að vekja hann og leiða honum fyrir sjónir alla þá óblessun og óhamíngju, sem af syndunum leiðir. Hún minnir hann á, að Guð er heilagur og rèttlátur, og að hann lætur ekki að sèr hæða; hún býður honum að leita Drottins meðan hann er að finna, meðan sá lífstími yfir stendur, sem oss er lèntur til apturhvarfs og undirbúníngs undir eilífðina. Þar hljóma orð huggunarinnar í eyrum allra iðrandi og ístöðulausra, í eyrum allra harmþrúnginna og krossberenda, hvort heldur krossinn er lagður á herðar eða hjörtu vor, hvort heldur vèr eigum í stríði við útvortis eða innvortis mæðu, þá er oss það huggun og harmalèttir að heyra það náðarfyrirheit Drottins

iðulega brýnt fyrir oss, að Guð vilji ekki dauða syndugs manns, heldur að hann snúi sèr og lifi, að heyra oss iðulega boðað þetta frelsarans huggunarávarp: „komið til mín, allir þèr, sem erfiðið og þúnga eruð hlaðnir! eg skal endurnæra yður“. Þar getur hinn þjáði setzt niður og tárast yfir eymdum sínum; þaðan getur hann litið trúar og vonar augum upp til himins, upp til miskunsemdanna föður. Hvergi styrkist trúin og traustið á Guði betur enn í því húsi, sem honum er helgað, og þar finnum vèr svo glögglega, þegar vèr sendum bænir og barnakvak upp í hæðirnar til hans, að hann er faðir allra, sem börn kallast, og að hrein og tær hugsvölun streymir frá hinum eilífu lindum lífsins niður í hjörtu trúaðra. Þú verður, ef til vill, kristinn maður! alla þá rúmhelgu daga vikunnar að vinna fyrir viðurværi þínu og þinna; ætli þú á sunnudögum og öðrum helgum dögum gefir þèr tíma til andlegra hugleiðínga, til að hugsa um sálarástand þitt og þína eilífu ákvörðun, ef þú vanrækir að koma iðulega í guðshús? Hætt er við því, að á þessu verði misbrestur. En þó þú lesir í heimahúsum og hugsir endrarnær til Guðs og biðjir hann, eins og þú átt að gjöra, munu þó hugsanir þínar hvergi verða eins hreinar eða tilfinníngar þínar eins viðkvæmar og alvörugefnar og í guðshúsi, ef þú geingur þángað til að uppfræðast, huggast og betrast; því þá skilur þú eptir hversdagsleg umsvif og sýslanir heima hjá þèr. Í guðshúsi er ekkert, sem þarf að glepja fyrir þèr, heldur miðar þar allt til að lypta huga og hjörtum upp til hans, sem öll góð og fullkomin gjöf kemur frá. Þar sèr þú aðra samkristna bræður þína og systur, sem koma þángað í sama skyni og þú, að biðja og vegsama Guð, sem eiga allir sama föður, sama endurlausnara og sömu sáluhjálparvon. Ekkert getur betur enn þetta blíðkað og mýkt hjörtu vor, treyst og styrkt vort bræðralag og glætt elsku til náúngans í voru brjósti, sem er eitthvert hið æðsta og helgasta boðorð kristinnar trúar.

Svo heillarík áhrif á oss, mínir vinir! getur gángur vor í guðshús á helgum dögum haft, ef vèr hlýðum guðsorði með andakt og eptirtekt; en kirkjugánga vor getur einnig haft góðar afleiðíngar fyrir aðra, einkum fyrir börn vor og þá yngri í söfnuðinum; eða mun það vera gott eptirdæmi fyrir þá, eða miða til að innræta hjá þeim elsku til Guðs og lotníngu fyrir

hans orði, ef þeir hvorki heyra guðsorð haft um hönd í heimahúsum, nè sjá foreldra og húsbændur skeyta um að hlýða því í guðshúsi? Vissulega hlýtur þetta að hafa skaðlegar verkanir fyrir siðferði og guðrækni þeirra, og hvílíkur ábyrgðarhluti er það þá fyrir hina, sem með sínu vonda eptirdæmi leiða þá ýngri afvega og kæla eða slökkva alla laungum þeirra eptir Guði og hans orði! Að vísu er hin ytri siðsemi ekki óbrigðull vottur um guðrækilegt hugarfar — því menn geta haft yfirskyn guðhræðslunnar en afneitað hennar krapti — en þó er ekki líkindi til, að hugarfarið sè heilbrigt þar sem hin ytri siðsemi er horfin, því gott trè getur ekki borið vondan ávöxt. En eins og hver einstakur maður lætur trúrækni sína í ljósi með því, hvernig hann ver helgum dögum, og gefur með því öðrum gott eða illt eptirdæmi, eins er hinum einstöku kristilegu söfnuðum varið. Þar sem hið kristilega trúarlíf er með fullu fjöri í söfnuðunum, þar er guðsorð haft iðulega um hönd, og þrátt fyrir margar torfærur og tálmanir kosta menn kapps um vetur og sumar á helgum dögum að taka þátt í þeirri opinberu guðsþjónustugjörð; og hversu ánægjulegt er ei þetta fyrir sjálfan söfnuðinn og fyrir þá, sem eiga að kenna guðsorð, og hversu gott eptirdæmi gefur það ei hinum ýngri í söfnuðunum og öðrum út í frá? — Eg ætla ekki að fara leingra út í þetta efni, heldur fela yður það á hendur til frekari hugleiðíngar; einúngis vil eg biðja Guð þess af hjarta, að vekja og glæða þann kristilega guðræknisanda meðal vor, sem verði honum til dýrðar og söfnuðunum til sáluhjálpar nota.

L o k s i n s  e r  s u n n u d a g u r i n n  æ t l a ð u r  t i l  g l e ð i. Í sjálfu sèr er hvíldin gleði, þegar menn hafa erfiðað trúlega og rækilega í sinni köllun, og þessi gleði helgast við bænaiðjuna, þegar hinn sannkristni ver hvíldardeginum til að biðja og vegsama Guð. Sú sanna gleði er hjá Guði, og hjá honum leitar sannkristinn maður sinnar gleði. En auk þeirrar andlegu gleði, sem sunnudagurinn veitir oss, þá getum vèr einnig á sunnudögunum notið margra saklausra skemmtana, einúngis verðum vèr þá að gæta þess, að þessar skemmtanir ekki dragi hjörtu vor frá öllum guðrækilegum hugleiðíngum, eða hneyxli aðra meðbræður vora. En sú mesta gleði, sem vèr á sunnudögunum getum notið, er innifalin í því að gjöra öðrum gott, og þetta

sýnir oss Jesú dæmi í hinu upplesna guðspjalli, þegar hann læknaði þann vatnssjúka mann. Eins eigum vèr að gjöra gott og leita þar í vorrar beztu gleði, og til þessa gefast oss mörg tækifæri. Þess háttar góðverk eru ei ætíð innifalin í gjöfum, heldur í greiðvikni, þènustusemi, viðkvæmnri hlutteknίngu í annara kjörum og vinsamlegum eða og fræðandi samræðum. Þú þekkir, ef til vill, einhvern gamlan, fátækan sjúklíng, sem stynur undir krossins byrði á sóttarsænginni, og ef þú vitjar hans, er það ekki gleði fyrir hann, er það ekki gleði fyrir þitt kristilega hugarfar? Að gjöra gott á helgum dögum er ekki einúngis gleðilegt og samhljóða sunnudagsins tilgángi, heldur þjónum vèr einnig Guði með því; því — eins og áður er á vikið — þá segir postulinn: „hrein og óflekkuð guðsdýrkun fyrir Guði föður er sú, að vitja munaðarlausra og ekkna í þeirra þreyngíngu, og að varðveita sjálfan sig flekklausan frá heiminum“. Hugarfarið og breytnin verður að vera hvað öðru samfara, ef vèr eigum að geta þjónað Guði í anda og sannleika.

Æ, látum oss þá allir sameiginlega taka fyrir oss þann ásetníng, að helga hvíldardaginn og verja honum með bæn og guðrækilegum hugleiðíngum, og með því að láta eitthvað gott af oss leiða, og ef vèr framkvæmum þenna ásetníng, mun hann hafa betrandi og helgandi áhrif á hugarfar vort; hann mun helga alla vinnu vora hina daga vikunnar og kenna oss að erfiða í guðsótta, hann mun gjöra oss ánægða og glaða með vort hlutskipti: þá verður hvíldardagurinn oss sannur hvíldardagur, ekki einúngis fyrir líkama vorn, heldur og fyrir sálir vorar; hann verður þá fögur fyrirmyndun þess eilífa hvíldardags í guðsríki, þar sem allt er friður og fögnuður í heilögum anda. Amen.

## Á átjánda sunnudag eptir trinitatis.

### Bæn.

Algóði himneski Guð og faðir! þú sem að ert eilífur kærleikur, og aldrei þreytist að auðsýna oss náð og kærleika, fyrirgefðu oss í Jesú nafni kaldsinni vort og kærleiksleysi. Æ, Drottinn! þú veizt alla hluti, þú veizt líka, að oss lángar til að elska þig, þú veizt, að andinn er reiðubúinn, en holdið er veikt; sendu oss þinn anda og láttu þinn eilífa kærleika lífga og glæða elskuna til þín í vorum hjörtum, svo vèr getum borið kærleikans ávexti. Hvergi finnur sálin hvíld nè sannan frið nema í þínum kærleika, nema í sameiníngunni við þig; það er hin æðsta sæla, það er hið sanna líf, að vera þèr sameinaður í kærleikanum. Sá sem elskar þig, Drottinn! hann finnur og reynir í hjarta sínu, að elskan er sterkari enn dauðinn, að það líf, sem lifir í þínum eilífa kærleika, getur ekki dáið, af því það sprettur frá þèr, frá þínu eilífa kærleikseðli, og leiðir aptur til þín. Gefðu oss náð til þess að geta elskað þig af öllu hjarta! Bænheyr það í Jesú nafni! Amen.

### Guðspjallið

(Matth. XXII., 34.—49.).

Nú er farísear vissu, að Jesús hafði gjört sadúsea orðlausa, hèldu þeir ráð sitt, og stóð þá upp lögvitríngur nokkur til að freista hans og sagði: meistari! hvert er hið æðsta boðorð í lögmálinu? Jesús svaraði: elska skaltu Drottin Guð þinn af öllu hjarta þínu, og af allri öndu þinni, og af öllu hugskoti þínu. Þetta er hið fyrsta og æðsta boðorð; og þessu líkt er hitt: elska skaltu náúnga þinn eins og sjálfan þig; í þessum tveimur boðorðum er innibundið allt lögmálið og spámennirnir. En þá farísearnir voru til samans komnir, spurði Jesús þá að og sagði: hvað virðist yður um Krist, hvers son hann sè? Þeir svöruðu honum, Davíðs. Jesús spurði þá aptur: hví kallar Davíð hann þá Drottin í andagipt sinni, er hann segir: Drottinn sagði mínum Drottni: sit þú mèr til hægri handar, þángað til eg hefi gjört óvini þína að skör fóta þinna? Nú, ef Davíð kallar hann Drottin, hvernig er hann þá hans sonur?

**En einginn gat svarað honum einu orði, ekki heldur dirfðist nokkur upp frá þeim degi hann framar að spyrja.**

Inngángur.

Samtal það við lögvitrínginn og faríseana, sem vèr heyrðum upplesið í þessa dags heilaga guðspjalli, átti Jesús á seinustu hèrvistardögum sínum. Gyðíngarnir voru samtaka í því að freista hans og fella hann, en þeim tókst það ekki. Nýlega hafði vor guðdómlegi frelsari með speki sinni niðurþaggað sadúseana, og nú kom einn til hans úr flokki faríseanna í sama flærðarfulla tilgángi, en Jesú sannleiksorðum fylgdi sá kraptur, að óvinir hans urðu að þagna og gátu ekki svarað honum einu orði. það sem hinn lögvitri farísei hugsaði, að Jesús mundi flaska á og ekki geta svarað, var sú spurníng: hvert væri hið æðsta boðorð í lögmálinu? Svo voru Gyðíngar búnir að rángfæra og afbaka Guðs heilaga lögmál, svo var hinn dauði bókstafur búinn að bera andann ofurliða, að lýðurinn, og einkum farísearnir, skoðuðu Guðs boðorð sem hvert annað verk, er menn gætu unnið án nokkurs tillits til hjartalagsins, og hèldu það væri nóg, að gæta hinnar ytri siðsemi, þó hjörtun væru lángt frá Guði og fjarlæg kærleikanum, sem þó er uppspretta allra sannarlegra góðverka. þess vegna tekur Jesús þetta fyrst og fremst fram: „þú átt að elska Drottin Guð þinn af öllu hjarta þínu, og af allri öndu þinni, og af öllu hugskoti þínu“! Af þessu viljum vèr á þessari guðræknisstundu taka oss tilefni til að hugleiða það, sem vor frelsari kallar hið fyrsta og æðsta boðorð, nefnilega: *elskuna til Guðs.* Látum oss fyrst skoða hana út af fyrir sig, og svo í sambandi við elskuna til náúngans og við Krists evangelium.

Elskan til Guðs sýnir sig fyrst í laungun eptir að komast í nánara samfèlag við Guð, það er það, sem ritníngin kallar að húngra og þyrsta eptir rèttlætinu. Maðurinn er svoleiðis gjörður, að hann lángar til að sameinast því, sem hann elskar; elski hann jarðneska og tímanlega hluti, þá sækist hann eptir að handsama þá og sameinast þeim; sá, sem elskar Guð, leitar Guðs til að geta sameinast honum. En til þess að

slík sameiníng geti komizt á, þarf að vera eitthvað líkt, einhver sambljóðan og skyldugleiki hjá manninum og því sem hann elskar, því „hvað elskar sèr líkt“. Og til þess að geta sameinast Guði, þarf eitthvað að vera líkt hjá Guði og manninum, en „Guð er heilagur og án helgunar fær hann einginn sèð“, segir postulinn (Ebr. 12., 14.). Þess vegna verður öll vor hegðun að miða til þess, að oss fari æ meir og meir fram í helgun og guðsótta. Þegar það þess vegna er sagt, að elskan til Guðs sè innifalin í innilegri laungun eptir nánari sameiníngu við hann, þá gefur það til kynna, að eingin sannarleg laungun eptir sameiníngu við Guð geti gefizt, nema henni sè samfara alvarleg viðleitni eptir að taka framförum í dyggð og guðsótta. Því leingra sem þú, kristinn maður! kemst á þínum helgunarvegi, því meir nálgast þú Guð, í því nánara samfèlag við hann kemst þú. Því meir sem þú losast við þitt holdlega hugarfar, við spilltar girndir og tilhneigíngar, því meir sem þú afleggur syndsamlegan vana, þess meir nálgast þú Drottin. Guð er ljós, og því verðum vèr að leita ljóssins, ef vèr viljum verða honum sameinaðir; Guð er eilífur sannleiki, þess vegna verðum vèr að leita sannleikans og fylgja honum, ef vèr viljum finna Guð; Guð er eilíf gæðska og rèttlæti, þess vegna verðum vèr að stunda það, sem gott og rèttvíst er; Guð er eilífur friður, kærleiki og miskunsemi, og þetta verðum vèr allt að ástunda, að láta vera mark og mið vorrar breytni. Að stunda þessar dyggðir ætti að vera oss ljúft og inndælt, af því það er Guðs vilji, já, heyrir til hans eðlis, og hefur svo heillaríkar afleiðíngar fyrir sjálfa oss og aðra. Spyrji menn því, hjá hverjum sè sannarleg laungun eptir samfèlagi við Guð, þá verður svarið þetta: hjá þeim, sem hefur innilega laungun eptir að betrast og helgast; en helgunin er ávöxtur trúarinnar og getur ekki án hennar verið. Sú sanna elska til Guðs er enn fremur innifalin í þeirri gleði og fögnuði, sem því fylgir að umgángast Guð. Það er hverjum manni eiginlegt að vilja umgángast þann sem hann elskar. Guð getum vèr umgeingizt bæði í hans orði, í bæninni og í líferni voru. Í sínu orði ávarpar Guð oss með kærleiksfullum áminníngum, aðvörunum og bendíngum. Í bæninni leitar sál vor upp til

Guðs, til þess að bera fram fyrir hann nauðsynjar vorar, biðja hann fyrirgefníngar á syndum vorum og yfirsjónum, og vegsama hann fyrir allar hans náðarveitíngar. Guðsorð og bænin samteingja himin og jörð; í bæninni úthellum vèr hjörtum vorum fyrir Guði, og í sínu orði svarar hann oss og veitir sálum vorum hugsvölun; í lögmálinu segir Guð oss, hvað hann heimtar af oss, og í evangelio, hvað hann veitir oss og hvers vèr megum vænta. Ef vèr þekkjum guðsorð, þá þekkjum vèr líka Guð; hann hefur opinberazt í honum, sem er ljós heimsins. Sæll er sá, sem í auðmýkt framgeingur við ljós guðsorða, og lætur geislaskin þess leiða sig til ljóssins eilífu uppsprettu. Að biðja Guð og hafa hans orð kostgæfilega um hönd, verður að vera hvort öðru samfara. Viljir þú því, kristinn maður! verða bænheyrður af Guði, þá verður þú að læra af hans orði, hvernig þú átt að biðja og hvers þú átt að biðja, því ekki væri það gott eða nytsamlegt fyrir þig, að fá allt það, sem óstýrilátt hjarta þitt girnist; af sjálfum þèr veiztu ekki „hvers biðja ber, breyskleikinn holds því veldur". Og þegar þú hefur fengið einhverja náðarvelgjörð af Guði — og það þiggjum vèr á hverri stundu, á hverju augnabliki — þá vegsamaðu hann og þakkaðu honum af hjarta. Þegar þú gjörir þetta, þá er umgeingni þín við Guð eins og hún á að vera, og þá muntu reyna, að þessi umgeingni verður því inndælli og unaðarfyllri, sem hún varir leingur og hefur meiri áhrif á líferni þitt; því vèr eigum að umgángast Guð bæði í hans orði, í bæninni og í líferni voru. En meiníngin er sú, að vèr eigum jafnan að hafa það hugfast, að vèr lifum í augsýn alltsjáanda Guðs. Hvert sem þú fer, þá hafðu Guð í för með þèr; það sem þú áformar, þá hafðu Guð í ráðum með þèr; það sem þú hugsar, þá hugsaðu um, hvort Guði muni líka það vel! Hvað rækilega sem vèr lesum guðsorð, og hvað innilega sem vèr biðjum hann, þá verður þó umgeingni vor við hann næsta ófullkomin, nema vèr einnig höfum hann oss fyrir augum í líferni voru, svo það beri vott um kristilegan kærleika og kristilega auðmýkt. Þegar þú, kristinn maður! fyrir náð Guðs anda ert kominn svo lángt, að þú hefur yndi af að lesa guðsorð, að biðja hann og hafa hann fyrir augum þèr í líferni þínu, þá ertu kominn í tölu Guðs elskenda, í tölu þeirra sem umgángast Guð og þykir það inndælt að um-

gángast hann. Og skyldi oss ekki alla, kristnir bræður! lánga til þess að geta elskað Guð? er það ekki svo ótal margt, sem hvetur og knýr oss til þessa? Hvert sem vèr snúum huga vorum, hvert sem vèr rennum augum vorum, þá mætir oss alstaðar sá algóði Guð, sem verðskuldar innilegustu og lotníngarfyllstu elsku. Hvort sem þú ert úngur eða gamall, ríkur eða fátækur, glaður eða hryggur, þá áttu Guði mikið að þakka, þá máttu játa, að hann hefur veitt þèr náð á náð ofan, og að þú ert minni allri hans miskunsemi og trúfesti. Allt þitt líf er náðargjöf Guðs; af hans náð ertu það sem þú ert; þú getur ekki sagt: eg átti heimtíng á að fæðast og að verða skynsemi gædd vera; eg átti heimtíng á því vegna sálargáfna minna og míns ódauðlega eðlis að ráða yfir öllum dýrum jarðarinnar. Af einskærri náð ertu orðinn til og skapaður í Guðs mynd; náð Guðs lènti þèr skynsemi og frjálsræði; hún ól önn fyrir þèr meðan þú varst ómálga barn, hún fylgdi þèr þegar þú drógst á legg; hún veitti þèr vöxt og viðgáng og lèt sálar og líkama krapta þína æfast og styrkjast; hún gaf þèr tækifæri til að uppfræðast um þín sáluhjálparefni; hún kveikti sèrhverja góða og guðrækilega tilfinníng í hjarta þínu; hún sendi þèr styrk í freistíngunum, huggun í sorginni; hún hlífði þèr við hættunum og hreif þig úr dauðans kverkum; hún veitti þèr þann hjartans frið og þá hugarins rósemi, sem þú ekki gazt fundið í veröldinni; hún kenndi þèr að biðja og hafa umgeingni þína á himnum. Sèrðu ekki Guðs elsku í öllu þessu? Sèrðu ekki, að það er himnesk föðurhönd, sem leiðir þig um torfærur lífsins, að það er hönd þíns himneska föður, sem vill leiða þig til sín? Og er það þá mögulegt, að þú getir hjá því komizt að verða snortinn af elsku til Guðs, sem svoleiðis verndar þig og elur önn fyrir þèr? Er það þá mögulegt, að þú sèrt svo kaldsinna og tilfinníngarlaus, að þú finnir ekki til elsku nè þakklætis við gjafara lífsins, við gjafara allra góðra hluta? Og segi nú samvizkan þèr, að þú hafir ekki nógsamlega gætt að Guðs handleiðslu á þèr, að þú hafir þegið velgjörðir hans í hugsunarleysi, án þess að elska hann eða þakka honum fyrir þær; æ, láttu þá þessa náðarstund vekja þig til umhugsunar um sjálfan þig og breytni þína, svo þú lærir að þekkja Guðs kærleika og meta rètt hans náðarríku velgjörðir,

svo að elska til Guðs megi vakna í sálu þinni og bera ávöxt í breytni þinni.

Í breytninni verður elskan til Guðs að bera ávexti; hún verður að komast í samband við elskuna til náúngans. Sú sanna elska til Guðs sýnir sig í hlýðni við Guð; því það er manninum eiginlegt, að vilja gjöra vilja þess, sem hann elskar, og í því er elskan til Guðs innifalin, að vèr höldum hans boðorð, segir guðspjallamaðurinn Jóhannes. Öllum Guðs boðorðum er svo varið, að þau miða til mannanna sönnu heilla; gætu mennirnir haldið þau öll, þá væru þeir fullkomlega sælir; einmitt í því er ógæfa þeirra innifalin, að þeir breyta á móti Guðs vilja. Dásamlega og náðarsamlega hefur Guð lagað allt, sem snertir samband hans við oss mennina. Ef vèr hlýðum Guðs vilja, þá eflum vèr með því vora eigin farsæld um leið og vèr verðum hluttakandi í Guðs náð og kærleika og hæfir til að fá hlutdeild í himneskum fögnuði og eilífri sælu. Þess vegna er sèrhvert brot Guðs boðorða ekki einúngis brot á móti Guði, heldur og á móti sjálfum oss, móti vorri eigin farsæld og sáluhjálp. Þess vegna ætti oss um ekkert að vera eins umhugað og það, að leitast við að halda Guðs boðorð, leitast við að gjöra hans vilja; en þetta boðorð höfum vèr af honum, að vèr skulum elska hver annan. Jesús setti þessi tvö boðorð, að elska Guð og að elska náúngann, hvort við hliðina á öðru; en það má líka segja, að þau sèu eitt boðorð. Þessi tvö boðorð eru eins og orsök og afleiðíng; því sá, sem elskar Guð af hjarta, elskar líka náúnga sinn. Þar sem elskuna til Guðs vantar, þar geta eingin sannarleg mannelskuverk átt sèr stað. Ef elskan til Guðs ekki knýr oss til athafna vorra, þá spretta þær af einhverjum óhreinum upptökum, einhverjum eigingjörnum hvötum, einhverjum hègómlegum tilgángi, hversu fagrar sem þær kunna að sýnast. Ekkert getur staðizt eða reynzt vel, nema það sem í Guði er gjört, nema það sem gjört er af elsku til hans; þeir einir eru sannir mannvinir, sem líka eru Guðs vinir, því annars draga þeir sig í hlè þegar mest á liggur, ef þeir ekki sjá sèr í neinu tilliti ágóðavon af góðverkum sínum, og af þvílíkum mönnum getur eingin þjóð, ekkert fèlag haft sannarlegt gagn. Eða hvað lángt mundum vèr komast í samlyndi og eindrægni í húsum vorum og á heimilum, ef vèr

hefðum ekkert tillit til Guðs; ef vèr elskuðum hverir aðra einúngis fyrir eigin hagsmuna sakir, einúngis meðan eigingirnin byði oss það? Ektamaka, börn, vini elskar þú ekki nóg nè rèttilega, kristinn maður! fyrr enn þú elskar þau í Guði, það er: fyrr enn þú vilt leggja allt í sölurnar, hægð og makindi, hvíld og skemmtanir, já, og jafnvel lífið, til þess að gjöra Guðs vilja; og þegar þú svoleiðis ert sameinaður í elskunni, þá geturðu fyrst gjört það, sem þèr áður var ómögulegt, þá geturðu gjört gott, án þess að vilja sýnast góður í annara augum, hjálpað, án þess að vænta endurgjalds, tekið þátt í annara böli, glaðzt af annara velgeingni, talað sannleikann, án þess að óttast mennina, tekið málstað þess, sem órèttinn líður haldið með öllu því, sem gott er, en mótstaðið hinu vonda. Ef allir elskuðu Guð, þá væri minni eymd á jörðunni, en þar nú er. En meðan hver lítur á sinn eigin hagnað, meðan hver fer eptir því, sem eigingirnin blæs honum í brjóst, þá er ekki að búast við öðru, enn að hatur og tvídrægni og kærleiksleysi búi manna á meðal, og að þessir andlegu óvinir trufli alla eindrægni þeirra, sem áttu að vera limir á sama andlega líkama, sem áttu að styrkja hver annan og hjálpa hver öðrum af bróðurlegum kærleika.

Vèr vitum allir, kristnir bræður! í hverju elskan til náúngans er innifalin, vèr þekkjum skyldur vorar við náúngann, en það er spillíng vor og eigingirni, sem aptrar oss frá að gegna þeim, eins og vera ber, oss brestur meir vilja enn vit, og það er því verra fyrir oss. Vèr þekkjum allir þá algildu reglu, sem frelsarinn hefur gefið fyrir breytni vorri við náúngann, „að vèr eigum að breyta eins við hann og vèr viljum að hann breyti við oss“. Vèr vitum, að kristilegur bróðurkærleiki á að sýna sig í viðleitni eptir að efla náúngans tímanlegu og eilífu farsæld, í vægð og vorkunsemi, í sáttgirni og friðsemi; vèr vitum, að vèr eigum að vera miskunsamir og fúsir á að hjálpa vorum nauðstöddu bræðrum. En þetta gleymist og er vanrækt af öllum þeim, sem ekki finna til Guðs kærleika, sem ekki elska Guð. Öll sönn og veruleg dyggð er undir því komin, að vèr elskum Guð, að vèr höldum þau háleitu boðorð, sem Jesús tók fram í þessa dags heilaga guðspjalli. þessi boðorð voru ekki ný, því á þeim hvíldi hinn

gamli sáttmáli, í þeim var innibundið allt lögmálið og spámennirnir, en þau lágu þar sem hulinn fjársjóður; Jesús flutti þau inn í hjörtun; hann setti þau í samband við sitt evangelium, í samband við lærdóminn um sig sem lausnara heimsins, í samband við kærleikseðli síns himneska föður. það er náttúrlegt, kristnir bræður! þó vèr finnum til vanmáttar og veikleika vors, þó vèr vantreystum kröptum vorum til þess að geta elskað Guð af öllu hjarta, og hver um sig spyrji: hvernig á eg að því að fara, að geta elskað Guð af öllu hjarta? eg er svo kaldsinna og svo breyskur, að elska mín getur ekki orðið annað enn hálfvelgja. En látum oss minnast þess, sem í guðspjallinu stendur: hvað er það sem Jesús setur þar í samband hvað við annað? Setur hann ekki hin æðstu boðorð í lögmálinu í samband við sjálfan sig? þegar hann var búinn að leysa spurníngu lögvitríngsins um boðorðin, þá spyr hann: „hvað virðist yður um Krist“? þetta sýnir oss sambandið milli lögmálsins og evangelii; það sýnir oss, hversu árángurslaust það er að þekkja boðorð lögmálsins, nema vèr þekkjum hann, sem fullkomnaði lögmálið, hversu lítið er með því unnið að þekkja vorar helgustu skyldur, nema vèr líka þekkjum þann krapt, sem er máttugur í hinum veiku og styrkir þá til að uppfylla þær. Og, mínir elskanlegu! hvað virðist yður um Krist? Hafið þèr reynt það í hjörtum yðar, að hann er orðinn yður speki frá Guði til rèttlætis, helgunar og endurlausnar? vitið þèr, að þèr fyrir hann hafið aðgáng til föðursins, að þèr fyrir hann getið sem góð börn elskað yðar himneska föður? Ef vèr erum innilega sannfærðir um Krists guðlega eðli, um hans guðlegu hjálp og aðstoð, þá getum vèr óskelfdir sagt: þín boðorð, Drottinn! eru ekki þúng. þegar vèr trúum og treystum Jesú friðþægíng og endurlausn, þá getum vèr elskað Guð, án þess að skelfast af hans rèttlæti. Eingin tímanleg gæði, sem Drottinn veitir oss, geta eins lífgað hinn útkulnaða kærleika í hjörtum vorum, eins og þau gæði, sem hann veitir oss í sínu náðarríki. Dásamleg er hans opinberan bæði í náttúrunnar og náðarinnar ríki, en þó er það einúngis í náðarinnar ríki, sem vèr getum endurfæðzt og orðið að nýjum og betri mönnum. Dásamleg eru verkin Drottins í hinni sýnilegu veröld; dásamleg er hans handleiðsla á oss; dásamlegar

hans velgjörðir við oss, og vèr getum ekki íhugað þetta, ekki horft á það, án dýpstu undrunar og lotníngar. En ef vèr jafnframt rennum augum vorum inn í náðarinnar ríki, og virðum fyrir oss leyndardóm Krists holdtekju og friðþægíngar, þá hljóta hjörtu vor að hrærast til elsku og þakklætis. Þegar vèr hugleiðum, hve dýru verði vèr erum keyptir, og hugleiðum Guðs og Krists óendanlega kærleika, þá hljótum vèr að fá viðbjóð við syndinni og öllu því, sem Guði er á móti, þá hlýtur heimselskan að kólna, en elska til Guðs að vakna í hjörtum vorum.

Gætum þess því, góðir bræður! að betrun vor og helgun verður í dag og alla daga að byrja á Kristi og í trúnni á hann; hann er grundvöllurinn og lífið. Og þegar vèr spyrjum sjálfa oss, hvernig vèr eigum að geta elskað Guð rèttilega og náúnga vorn, þá finnum vèr svarið í þessum orðum, sem Jesús sagði við lærisveina sína: „sá sem er mèr áfastur og eg er með, hann ber mikinn ávöxt, því án mín megnið þèr ekkert". Sèum vèr Kristi áfastir, sèum vèr honum sameinaðir, þá getum vèr orðið fullkomnir í kærleikanum, en annars ekki. Hann er höfundur og fullkomnari vorrar trúar, og þegar vèr af hans lærdómi, hans heilaga lífi og hans endurlausn sjáum, að Guð er eilífur kærleiki, eilífur miskunsemdanna faðir, þá getum vèr ekki annað enn elskað hann, af því hann hefur gjört oss svo ómræðilega mikið gott; þá getum vèr ekki annað enn elskað bræðurna, af því þeir, eins og vèr, eru börn hins sama algóða föður, og eins og vèr endurleystir og dýru verði keyptir: vèr getum ekki annað, því Krists kærleiki þvíngar oss. Leyndardómur friðþægíngarinnar er oss auðskilinn sem leyndardómur kærleikans, sem elskunnar æðsta opinberun, með því Kristur lèt líf sitt til þess að vekja oss frá dauðanum. Og þegar Krists líf, sem sýnileg ímynd hins eilífa kærleika, upprennur fyrir trúna í hjörtum vorum, þá lífgar það hinn útkulnaða kærleika til Guðs og manna í sálum vorum, svo vèr getum borið mikinn ávöxt; þá finnum vèr, að án Krists megnum vèr ekkert, en að vèr megnum alla hluti fyrir hann, sem oss máttuga gjörir.

Ó, að kærleikans æðsta boðorð gæti nú hrært hjörtu vor, svo að vèr í trúnni á Jesúm Krist byrjuðum nýtt líf, kærleikans líf eptir Guðs vilja, svo að vèr í trú og kærleika gætum höndlað hið eilífa lífið. Alltaf breiðir vor algóði himneski faðir

sinn náðarfaðm út á móti oss, og hans eilífa kærleiksrödd kallar á sín villuráfandi börn; flýjum í hans faðm og hlýðum hans röddu, meðan hann gefur oss til þess tíma og tækifæri, meðan hann kallar oss til kærleikans og áður enn hann kallar oss til dómsins. Hann gefi oss öllum til þess sína náð í Jesú nafni! Amen.

---

## Á nítjánda sunnudag eptir trinitatis.

### Bæn.

Upp í hæðirnar til þín, himneski faðir! lyptum vèr hjörtum vorum á þessari helgu stundu. Æ, vèr finnum til þess, að vèr erum minni allri þinni miskun og trúfesti, að vèr syndgum daglega og brjótum þín blessuðu boðorð í hugrenníngum, orðum og verkum; vèr finnum til þess og ángrumst af því, að oss verður svo lítið ágeingt í voru betrunarverki, að hjörtun eru einatt svo köld og kærleikslaus, viljinn til hins góða svo veikur og framtakslaus. Fyrirgefðu oss, himneski faðir! í Jesú nafni allar vorar syndir, huggaðu oss með þínum heilaga anda, þegar samvizkan ásakar oss og oss liggur við að örvænta oss þinnar náðar og miskunar, svo vèr fáum hvíld fyrir sálir vorar og getum, styrktir af þínum anda, borið trúarinnar ávexti í heilögu líferni; æ, helga þú oss með þínum heilaga anda, svo það verði vort æðsta mark og mið, vort mesta yndi og unun að gánga á þínum vegi og hlýða þínum heilögu boðum, þángað til vèr förum hèðan heim til þín, heim til vors rètta föðurlands og fáum að sjá þig augliti til auglitis og vegsama þig um alla eilífð! Amen.

### Guðspjallið
(Matt. IX., 1.—8.).

Jesús stè á skip, fór yfirum aptur og kom í sína borg. Þeir færðu þar til hans limafallssjúkan mann, sem lá í rekkju sinni. En þegar Jesús leit þeirra trú, sagði hann við hinn limafallssjúka: vertu hughraustur, sonur! þèr eru þínar syndir fyrirgefnar. Nokkrir af skriptlærðum sögðu með sjálfum sèr: þessi guðlastar; en er Jesús sá þeirra hug-

renníngar, sagði hann: því hugsið þèr svo illt í yðar hjörtum? hvort er auðveldara að segja: þèr eru þínar syndir fyrirgefnar, ellegar að segja: statt upp og gakk? En svo að þèr vitið, að mannsins sonur hefir vald til að fyrirgefa syndir á jörðunni, þá — sagði hann við þann limafallssjúka — statt upp, tak sæng þína og gakk heim til þín. Hann stóð upp og fór heim til sín. En þegar fólkið sá þetta, undraðist það, og lofaði Guð, að hann hefði gefið mönnunum slíkt vald.

## Inngángur.

„Veg þinna boðorða vil eg hlaupa þegar þú hugsvalar hjarta mínu". þessi eptirtektaverðu orð, sem lesa má í Davíðs sálmi 119., v. 32., sýna oss Guðs náð sem helgandi um leið og hún rèttlætir og huggar. því betur sem sál hins trúaða finnur til þeirrar huggunar og þess friðar, sem frelsari vor veitir ástvinum sínum, þess meir uppörfast hún af hans kærleika til að hlýða hans boðum. þó sjáum vèr, að margir tileinka sèr fyrirheit guðlegrar náðar, en leitast þó ekki fyrir alvöru við að bæta ráð sitt. En þetta er svikul huggun, sem leiðir af sèr andvaraleysi, og er sá friður, sem þannig fæst, hættulegri enn ófriður glæpamannsins. Glæpamaðurinn veit af því, að hann fer villur vegar, og þegar hann heyrir hina aðvarandi röddu, þá veit hann, að hún kallar til sín, og getur, ef til vill, vaknað og sèð að sèr og orðið hólpinn. En þú þar á mót, sem með dauðri trú reiðir þig á Guðs náð, þó þú ekkert skeytir um þína lífernisbetrun, þó þú hvorki vakir nè biðjir, nè stríðir við hið illa innra hjá þèr og fyrir utan þig, nè heldur leitist við að gjöra það, sem rètt er og gott — þú sefur á barmi glötunarinnar og Guð náði þig, ef þú vaknar ekki fyrr enn dauðinn fleygir þèr niður í hið eilífa myrkranna djúp! Margir eru þeir, því miður, til, „sem hafa á sèr yfirbragð guðhræðslunnar, en afneita hennar krapti", sem hrósa sèr af trú sinni, en sýna hana ekki í verkinu, sem öðrum fremur þykjast vera Guðs börn, þó þeir ekki hlýði hans boðum. Við þessu tekur hið heilaga upplesna guðspjall oss vara, því það setur oss fyrir sjónir, ekki

einúngis hvernig vèr fáum fyrirgefníngu synda vorra fyrir trúna á Jesúm Krist, heldur og, hvernig þessi trú á að hafa sanna iðrun og lífernisbetrun í för með sèr. Yfir höfuð sýnir guðspjallið oss með dæmi hins limafallssjúka, hvernig trúarlífi sanniðrandi syndara, sem flýr til Jesú, á að vera varið. Hinn limafallssjúki þurfti ekki einúngis líkamlegrar lækníngar við, heldur og andlegra hjálpar. það er ekki ólíklegt, að hann hafi með óreglulegum lifnaði sjálfur bakað sèr þenna sjúkleika; að minnsta kosti hafði sjúkdómurinn vakið hjá honum eptirtekt á hans auma og hjálparþurfandi sálarástandi. þess vegna vildi Jesús, sem sá inn í hans iðrandi hjarta, lækna sál hans á undan líkamanum, og ávarpaði hann því með þessum sáluhjálplegu orðum: „vertu hughraustur, sonur! þèr eru þínar syndir fyrirgefnar"! En Jesús lèt sèr ekki þetta lynda, heldur bætti hann einnig þessum orðum við: „statt upp, tak sæng þína og far heim til þín"! og gaf honum þannig ekki einúngis líkamans heilsu aptur, heldur veitti honum einnig krapta til að skilja við syndina og gánga veg rèttlætisins; því þetta kraptaverk var eins og flestöll dásemdarverk Drottins vors ekki að eins heilsusamlegt fyrir líkamann, heldur og fyrir sálina, og sýnir oss, hvernig hann enn í dag á andlegan hátt læknar hin lemstruðu og sundurkrömdu hjörtun og gefur þeim þrek og krapta til að rísa upp úr syndunum og byrja nýtt líf. Af þessu viljum vèr taka oss tilefni til að hugleiða:

*hvernig trúin á Jesúm ekki einúngis huggar oss með því að fullvissa oss um fyrirgefníngu vorra synda, heldur veitir oss einnig hug og dug til lífernisbetrunar;* eða með öðrum orðum: *sambandið milli rèttlætíngar og helgunar.*

„Að vilja veitir mèr hægt, en að framkvæma hið góða megna eg ekki". þannig kvartar Páll postuli yfir vanmætti sínum (Róm. 7., 18.), og megum vèr ekki allir taka undir með honum og kvarta eins og hann? „Hið góða sem eg vil, það gjöri eg ekki", segir hann enn fremur, „en hið illa, sem eg ekki vil, það gjöri eg. En ef eg gjöri það sem eg ekki vil, þá aðhefst eg þetta ekki framar, heldur syndin, sem í mèr býr" (19.—20.). Syndin býr í oss öllum, bræður góðir! ekki

einúngis hinum andvaralausu, heldur og í sanniðrandi mönnum þó hún ekki fái fullkomin yfirráð í þeim. Þeir sem með postulanum geta sagt: „eg hefi mætur á Guðs lögmáli eptir hinum innra manni“, verða þó að játa eins og hann: „eg sè annað lögmál í mínum limum, sem stríðir gegn lögmáli míns hugskots, og hertekur mig undir lögmál syndarinnar, sem er í mínum limum“. En um leið og postulinn eins og iðrandi syndari ángraður andvarpar og segir: „eg vesall maður! hver mun frelsa mig frá líkama þessa dauða“? endar hann syndajátníngu sína með þessu fagnaðarríka sigurópi trúarinnar: „eg þakka Guði fyrir Jesúm Krist vorn Drottin! Svo þjóna eg þá að sönnu með hugskotinu lögmáli Guðs, en með holdinu lögmáli syndarinnar. Svo er nú eingin fyrirdæmíng yfir þeim, sem eru í Kristó Jesú, sem ekki gánga eptir holdinu, heldur eptir andanum“. Þessi seinustu orð útskýra hin fyrri og sýna oss, að vèr ekki getum feingið oss af þeim tilefni til þeirrar hættulegu ímyndunar, að vèr getum verið sannkristnir fyrir það þó vèr látum eptir vorum syndsamlegu girndum og tilhneigíngum. Nei, „andans lögmál, sem lífgar í Kristó Jesú“, segir sami postuli, „hefur frelsað mig frá lögmáli syndarinnar og dauðans“. Meðan vèr ekki iðrumst synda vorra, erum vèr þeirra þrælar, en fyrir Guðs náð fæðumst vèr að nýju til veglegs frelsis Guðs barna, eins og Jesús hefur heitið öllum þeim, sem á hann trúa. Að vísu verður hinn gamli maður aldrei algjörlega deyddur meðan vèr lifum í þessum synduga heimi; en hinn nýi maður, sem Guðs andi myndar hjá trúuðum, verður þó hinum yfirsterkari fyrir daglega bæn og baráttu. Í hverju er nú mismunurinn á iðrunarlausum og sanniðrandi mönnum innifalinn? Hann er ekki svo mjög kominn undir hinni ytri háttsemi, sem mennirnir eru vanir að dæma um; því margur, sem í æskunni hefur verið lastafullur, verður með aldrinum ráðsettur, án þess hann verði þó nokkurn tíma sannkristinn maður. Í hverju er þá sú lífernisbetrun fólgin, sem hefur gildi í Guðs augum? Fyrst og fremst í því, að maðurinn þannig ángrist af syndum sínum, að hann ekki einúngis óttist þeirra illu afleiðíngar, heldur einnig fái viðbjóð við syndinni sjálfri, af því hún er fráhvarf frá Guði. Ángrinu verður alvarlegur betrunarásetníngur að vera samfara. En hvernig getur þetta

átt sèr stað, nema maðurinn trúi því, að hans fyrri syndir sèu honum fyrirgefnar? Hvernig getur sá, sem finnur til þess, að hann vegna syndarinnar er skilinn við Guð, hina eilífu uppsprettu alls góðs, feingið hug og dug til að breyta eptir hans heilaga vilja? Ekki hefði hinn glataði sonur getað sagt: „eg vil taka mig upp og fara til föður míns", hefði hann ekki treyst því, að hann mundi ekki útskúfa sèr, heldur taka á móti sèr með föðurlegri mildi; en þetta traust hefði hann ekki getað haft, hefði hann ekki fundið hjá sèr alvarlegan betrunarásetníng. Jafnvel barnið, sem grátandi flýr til móður sinnar þegar því hefur orðið eitthvað á og það óttast fyrir hirtíngu, gæti ekki beðið fyrirgefníngar, ef það ekki segði og hugsaði með sjálfu sèr: eg skal aldrei gjöra það optar. Þannig hlýtur rèttlætíngin að hafa í för með sèr helgunina, sem er Guðs verk innra hjá oss, og sýnir sig í daglegri betrun vors hugarfars og lífernis, í þeim góðverkum og kristilegu dyggðum, sem eru ávextir sannrar og lifandi trúar; eða með öðrum orðum: þegar vèr leitum Guðs miskunar í lifandi trú, frelsar hann oss ekki einúngis frá hegníngu syndarinnar og ásökunum samvizkunnar, heldur og frá valdi og yfirráðum syndarinnar í vorum hjörtum. Það þarf ekki að fara mörgum orðum um, hvernig þetta samband milli rèttlætíngar og helgunar er byggt á heilagri ritníngu. Vèr vitum allir, að Páll postuli, sem svo iðulega brýnir það fyrir oss, að trúin sè einkaskilyrði fyrir vorri sáluhjálpar von, lætur þó aldrei hjálíða að uppörfa oss til kristilegs lífernis, er sè nauðsynleg afleiðíng hinnar sönnu trúar. Þèr munið líka, að þegar Jesús sagði við iðrandi syndara: „trú þín hefur frelsað þig, far þú í friði", bætti hann þessu við: „og syndga ekki framar", og sýndi oss þannig, bæði það, að maðurinn rèttlætist einúngis fyrir trúna, og líka hitt, að helgunin verður að koma á eptir. Þegar hann kallaði og sagði: „komið til mín allir þèr, sem erfiðið og þúnga eruð hlaðnir, eg vil gefa yður hvíld", þá bætti hann þessari upphvatníngu við: „gángið undir mitt ok og lærið af mèr, því eg er hógvær og af hjarta lítillátur" (Matth. 11., 28.-29.). Hvað er hans ok annað enn það ástarband, sem þrýstir oss til að hlýða hans boðum? Og ef vèr ekki skeytum um það, hvernig fáum vèr þá tileinkað oss þá hugsvölun og sálarhvíld, sem hann með þessu skilyrði hefur

heitið? Og með því hann sjálfur vitnar til sinnar hógværðar og auðmýktar, getum vèr þá gjört oss í hugarlund, að honum muni geðjast að andlegum hroka og drambsemi þeirra, sem stæra sig af sinni trú og þykjast af henni upp yfir öðrum bræðrum sínum? „Eflið yðar sáluhjálp með áhyggju og andvara", segir postulinn Páll (Filipp. 2., 12.), og enn fremur segir hann: „sá sem þykist standa, gæti að sèr, að hann ekki falli" (1. Kor. 10., 12.); og Drottinn sjálfur gaf sínum beztu og nánustu vinum þessa áminníngu: „vakið og biðjið, svo þèr fallið ekki í freistni, andinn er að vísu reiðubúinn, en holdið er veikt"! (Matth. 26., 41.). Trúin sjálf verður að freistíngarefni fyrir oss, þegar vèr gjörum hana eins og að átrúnaði vorum, en gleymum frelsaranum, sem á að vera heilagt mark og mið trúar vorrar, þegar vèr stærum oss af trú vorri, þar sem vèr þvert á mót jafnan ættum að andvarpa og biðja: „Guð, vertu mèr aumum syndara líknsamur!" „eg trúi, en hjálpa þú vantrú minni"! (Lúk. 18., 13., Mark. 9., 23.). Hvernig fór ekki fyrir Pètri, sem fremur hinum lærisveinunum stærði sig af trúarhreysti sinni? Hversu djúpt fèll hann ekki sömu nóttina þá er hann þrisvar afneitaði frelsara sínum! En Jesús, sem þegar hafði áður sagt: „eg hefi beðið fyrir þèr, að þín trú skyldi ekki þrotna", leit til hans með svo föðurlegu og guðdómlegu augnatilliti, að hann gekk út og grèt sáran. Speigla þú þig í honum, þú sem með ofstrausti á guðrækni þinni og sjálfum þèr ert kominn á hrösunar veg. Ef þú tárast yfir andlegri drambsemi þinni og í auðmýkt leitast við að temja þèr það kristilega hugarfar og líferni, sem er ávöxtur sannrar iðrunar, þá verður þú aptur tekinn til náðar eins og Pètur, og getur eins og hann staðið stöðugur allt til enda og breytt eptir þeirri áminníngu hans, að auðsýna í trú þinni dyggðina, í dyggðinni þekkínguna, í þekkíngunni bindindið, í bindindinu þolinmæðina, í þolinmæðinni guðrækninа, í guðrækninni bróðurelskuna, í bróðurelskunni elskuna til allra" (2. Pèt. 1., 5.—7.). Þar sem syndanna fyrirgefníng er, þar er og líf og sáluhjálp, þar er það trúarinnar og kærleikans líf, sem heilagur andi vekur hjá endurfæddum mönnum, þar er „hið hulda líf með Kristi í Guði"; þar er sú sæla, sem sprettur af rèttlætíngu og sálarfriði; þar er sú helgun, án hverrar eínginn fær Guð að sjá.

Af þessu sjáum vèr, kristnir bræður! að þó helgunin sýni sig í athöfnum og breytni mannsins, er hún þó ávöxtur trúarinnar og hefur sömu upptök og rèttlætíngin; en þær eru báðar verkanir heilags anda og afleiðíngar af Krists friðþægíngu, sem frelsar oss úr fjötrum syndanna og vísar oss veginn til síns himneska ríkis. Guð gæfi, að vèr vildum alvarlega hugleiða þetta og bera það saman við vort sálarástand; Guð gæfi, að vèr reyndum það á sjálfum oss, að þegar vèr finnum til huggunar af fullvissunni um vorra synda fyrirgefníngu, þá fyndum vèr oss um leið knúða og styrkta af kærleika til Guðs og Krists, til að hlýðnast þeirra boðum og gegna vorri köllun trúlega, til að bera með þolinmæði það mótlæti, sem fyrir oss kann að koma, til að stríða kappsamlega við freistíngar heimsins og vorar syndsamlegu girndir, til að vaka og biðja, og í stuttu máli: „til þess þolgóðir að geta runnið það skeið, sem oss er fyrirsett, horfandi til trúarinnar uppbyrjara og fullkomnara Jesú“ (Hebr. 12., 1.)! En áður enn vèr getum tileinkað oss huggun rèttlætíngarinnar og þann krapt til helgunar, sem henni er samfara, verðum vèr að snúa oss til Guðs, og vèr sjáum af guðspjallinu, hvað til þessa útheimtist, sem sè, að vèr sjáum og könnumst við vorn andlega sjúkleik og með stöðugri trú snúum oss til hans, sem einn getur læknað oss. Flý þú til Jesúm, ekki einúngis þú, sem enn ert á æskuskeiði, og sem hefur villzt út á lastanna slóð, en villt nú hryggur og hnugginn snúa aptur á rèttan veg, heldur og þú, sem eldri ert og ert orðinn flæktur í lángvinnum syndavana, sem þú vantreystir þèr til að geta lagt niður. Flýið til frelsarans með sama trúnaðartrausti og hinn limafallssjúki, sem guðspjallið getur um, og þèr munuð eins og hann fá að reyna dásamlegar verkanir guðlegrar náðar, og ekki einúngis öðlast huggun og sálarfrið, heldur og krapta til að geta risið upp úr syndunum og lifað nýju kristilegu lífi. Vanræktu ekki náðartímann, syndugur maður! hvort sem þú ert úngur eða gamall, og finnir þú nú til iðrunar og ángurs á þessari guðrækni stundu, þá snúðu þèr til Jesú, sem hefur bæði vilja og mátt til að reisa þig á fætur aptur. Láttu ekki hugfallast fyrir það þó hans hjálp ekki komi undir eins og þú væntir hennar, því hann vill að eins reyna þína iðrun og trú. Far þú að eins og hinn limafallssjúki; guðspjalla-

maðurinn Markús segir oss frá því (2., 4.), að þegar hann ekki komst fyrir mannþraunginni inn um dyrnar, þá fèkk hann rofið gat á þakið upp yfir Jesú, og lèt sængina, sem hann lá í, síga þar niður um. Eins átt þú að leita hans með þvílíkri ástundun og alvöru, með svo óþreytandi alúð og trúartrausti, að þú getir sigrazt á öllum þeim tálmunum, sem heimurinn og þín holdlega náttúra leggja fyrir þig. þá muntu einnig verða var við Jesú heilögu nálægð; þá muntu einnig geta heimfært til þín þessi huggunarríku orð: „vertu hughraustur sonur, þèr eru þínar syndir fyrirgefnar"! þú munt verða var við hugsvalanda krapt þessara orða, eins og þú heyrðir þau af hans eigin munni, heyrðir þau töluð af honum, „sem hefur vald til að fyrirgefa syndir á jörðinni". Og þegar þú finnur, að þessi náðarinnar orð fylla hjarta þitt friði og lètta af þèr syndabyrði þinni, þá muntu líka heyra hann enn fremur segja við þig: „statt upp og gakk"! „Far heim til þín"! sagði Jesús við hinn limafallssjúka, sem hann læknaði, og minnti hann með því á heimilis skyldur hans, á þær skyldur, sem hann hafði sem húsfaðir við konu, börn og hjú. þegar hann læknar þinn andlega sjúkleik, þá minnir hann þig líka á að vanrækja ekki skyldur við náúnga þína og vandamenn eða neitt það, sem heyrir til köllunar þinnar. En þar eð vort rètta heimili ekki er hèr á jörðu, þá minna þessi orð: „far heim til þín"! oss á, að vèr sèum útlendir ferðamenn hèr í tímanum, eigum að fara þann veg, sem liggur til enna himnesku föðurhúsa. Eins og hinn limafallssjúki, eptir að hann var heill orðinn, sjálfur gat „tekið sæng sína", sem hann áður var borinn í af öðrum, eins munt þú og með fulltíngi heilags anda fá þrótt og þrek til að ráða við syndsamlegar girndir þínar, sem þú áður lágst í fánginn og fjötraður og máttvana. þú, sem áður ekki varst sjálfs þíns ráðandi, heldur varst leikhnöttur vondra fýsna, þræll holdsins og heimsins, munt nú reyna, að þú hefur fengið frelsi Guðs barna fyrir aðstoð frelsara þíns, sem gefur þèr krapta til að leggja niður ljótan syndavana, láta af illu, en stunda það sem gott er. Að vísu munt þú enn verða fyrir freistíngum af ginníngum heimsins og girnda þinna; en þú munt vinna sigur yfir þeim, ef þú biður Guð innilega, vakir yfir sjálfum þèr dyggilega og stríðir við þær af alefli. þá stríðir þú ekki einnsaman,

því Jesús er með þèr, og kraptur hans anda mun styrkja þig og styðja. Ef þú í trúnni á hann og bæn til hans daglega vinnur að þinni lífernisbetrun, þá muntu daglega reyna, að hann er í veikum máttugur. Og í hvert sinn sem þú ángrast af þeim breyskleika syndum, sem enn þá við þig loða, þá muntu fá nýtt hugrekki og nýja djörfúng, þegar þú í trúnni heldur þèr fast við frelsara þinn og segir: „veg þinna boðorða vil eg hlaupa, þegar þú hugsvalar hjarta mínu". Ef þèr því, kærir bræður! viljið fá hugsvölun fyrir hjörtu yðar, þá gángið á Drottins vegum; en til þess útheimtist aptur, að þèr leitið hans náðar, leitið sálum yðar hugsvölunar og hvíldar í trúnni á Jesúm Krist. Þetta er hið óslítandi samband milli Guðs rèttlætandi og hans helgandi náðar, og sá, sem vill fá fyrirgefníngu synda sinna, verður að finna laungun til helgunar í hjarta sínu, eins og líka hinn, sem vill verða „heilagur eins og sá, sem oss hefur kallað", hlýtur fyrst og fremst að biðja Guð í Jesú nafni um uppgjöf á brotum sínum og yfirsjónum. En þegar maðurinn þannig er tekinn til náðar af Guði og kominn á helgunarinnar veg, þá er hann á leiðinni heim til sín, heim til þess himneska föðurlandsins; þá er hann ekki leingur efablandinn um, hvort hann eigi að gánga lífsins eða glötunarinnar veg; hann er þá ekki leingur á báðum áttum um, hvort hann eigi heldur að þjóna Drottni eða syndinni; hann hefur þá sífelt Guðs vilja fyrir augum; fyrir Guðs vilja stríðir hann og líður, fyrir hann lifir hann og deyr. Drottinn! gefðu oss náð til þess að biðja svoleiðis, að vèr verðum vissir um þína náð og velþóknun, og náð til þess að lifa svoleiðis, að vèr á dauðastundinni glaðir getum falið vorn anda í þínar föðurhendur! Bænheyr það í Jesú nafni! Amen.

---

# Á tuttugasta sunnudag eptir trinitatis.

## Bæn.

Þú hefur, himneski gæðskuríki Guð og faðir! kallað oss alla til þinnar þjónustu, boðið oss öllum að verða þegnar þíns ríkis, þess náðarríkis, sem þinn eingetinn sonur, frelsari vor Jesús Kristur, stofnaði hèr á jörðunni; þú hefur látið hann kenna oss, hvernig vèr, sem trúlyndir þjónar þínir, eigum að breyta eptir þínum heilaga vilja og gegna þínum heilögu boðum, sem öll miða til vorrar sönnu farsældar; þín eilífa náð ætlaðist til þess, að vèr skyldum allir verða í útvaldra tölu, í tölu þeirra, sem á síðan verða þegnar í þínu dýrðarríki á himnum. En með ángri megum vèr játa og viðurkenna, að vèr svo opt höfum daufheyrzt við þinni köllun, en hlaupið eptir holdsins og heimsins ginnandi röddum; með hjartanlegu ángri megum vèr játa, að vèr svo opt höfum verið hugsunarlausir um eilífðina, skeytíngarlausir um vora sáluhjálp. Æ, fyrirgefðu oss í Jesú nafni þetta vort hirðuleysi; fyrirgefðu oss í hans nafni allar vorar syndir og yfirsjónir; vèr trúum því og treystum, að þó vor misgjörð sè mörg og stór, þá sè þó þín náð miklu stærri, því hún er eilíf og óumbreytanleg. Sendu oss þinn heilaga anda og láttu hann hræra vor hjörtu og vekja oss til umhugsunar um vora eilífu ákvörðun; láttu þessa umhugsun knýja oss til að efla vora sáluhjálp með ugg og andvara; vertu máttugur í vorum vanmætti, og gefðu oss krapta til að berjast trúarinnar góðu baráttu, svo vèr megum finnast í tölu útvaldra, í tölu þinna barna. Bænheyr það í Jesú nafni! Amen.

## Guðspjallið
(Matth. XII., 1.—14.).

Jesús talaði enn aptur í eptirlíkíngum til farísеanna og sagði; Himnaríki er líkt þeim konúngi, sem hèlt brúðkaup sonar síns, og sendi út þjóna sína að kalla boðsmennina til brúðskaupsins, en þeir vildu ekki koma. Í annað sinn sendi hann út aðra þjóna og sagði: segið þèr boðsmönnunum: sjáið, mína máltíð hefi eg tilbúið, uxar mínir og alifè er slátrað og allt er reiðubúið, komið til brúðkaupsins! En þeir skeyttu því ekki og geingu á burt, einn á sinn búgarð, en annar til verzlunar sinnar; en sumir tóku sendimennina og smánuðu þá og drápu. Þegar kon-

úngurinn heyrði þetta, varð hann reiður, sendi út herlið sitt, fyrirfór þessum morðíngjum og brenndi borg þeirra. Þar eptir sagði hann til þjóna sinna: brúðkaupið er að sönnu reiðubúið, en þeir, sem voru boðnir, voru þess ekki verðir; farið því út á gatnamót og bjóðið til brúðkaupsins hverjum sem þèr finnið. Þjónarnir geingu út á strætin, samansöfnuðu öllum, sem þeir fundu, vondum og góðum, svo veizlusalurinn varð alskipaður borðgestum. En þá er konúngurinn gekk inn að sjá þá, sem til borðsins sátu, leit hann þar einn mann ekki skrýddan brúðkaups klæði, og sagði til hans: vinur! hví komst þú híngað og klæddir þig ekki brúðkaups klæðum? En hann þagði. Þá sagði konúngurinn til þjóna sinna: bindið hans hendur og fætur og kastið honum ut í yztu myrkur, þar sem vera mun óp og tannagnýstran; því margir eru kallaðir, en fáir útvaldir.

### Inngángur.

Guðspjallamaðurinn Lúkas segir frá því í sinnar guðspjallabókar 13. kapítula, að þegar Jesús gekk í kríng og kenndi, þá hafi einhver spurt hann á þessa leið: „Meistari, munu þeir ekki verða fáir, sem hólpnir verða“? Þessu svaraði Jesús ekki beinlínis, heldur sagði hann til fólksins: „keppizt að komast gegn um hið þraunga hliðið; því eg segi yður satt, að margir eru þeir, sem leitast við að koma þar inn, en geta það ekki“. Guðspjallamaðurinn getur ekki um, hver það var, sem lagði þessa spurníngu fyrir Jesúm, eða í hvaða tilgángi hann gjörði það, hvort það var einhver sjálfbyrgíngur meðal faríseanna, sem þóttist vera viss um sína sáluhjálp, eða vantrúaður sadúsei, eða einhver guðhræddur maður, sem var vonardaufur um sína og annara eilífu farsæld. Þó sjáum vèr af Jesú svari, að hann hefur ætlað með því að lækka andlegan hroka faríseanna og Gyðínganna yfir höfuð, og jafnvel margra kristinna manna, sem telja það sjálfsagt, að þeir sèu meðal þeirra fáu, er útvaldir munu verða, og eru fúsir á að fordæma flesta aðra.

Annars hefur frelsarinn með svari sínu gefið oss bendíngu um það, að vèr skulum ei svo mjög láta oss varða það, hve margir að lokunum verði sáluhólpnir, heldur kappkosta hver í sínu lagi að sigrast á öllu því, sem vill aptra oss frá að komast inn í himnaríki, hvort heldur þessar tálmanir koma að utan úr syndum spilltri veröldu, eða innan að úr spilltu hugarfari sjálfra vor. „Margir eru kallaðir, en fáir útvaldir". Með þessum orðum, er standa seinast í því upplesna guðspjalli, og útskýra þýðíngu dæmisögunnar, sýnist Jesús beinlínis hafa svarað þeirri spurníngu, er vèr áður nefndum. En ef vèr gætum betur að, munum vèr þó komast að raun um, að þessu er ei þannig varið; vèr munum komast að raun um, að Jesús með þessum orðum: „margir eru kallaðir, en fáir útvaldir", ekki hefur ætlað að kveða upp dómsatkvæði um kjör vor í eilífðinni, heldur eru það *aðvörunarorð töluð til vor hèr í tímanum*. Látum oss verja þessari guðrækinsstundu til þess, með Guðs aðstoð, að hugleiða *þetta efni* nákvæmar.

Það hefur verið kenndur sá lærdómur í kristilegri kirkju — þó ekki í þeirri evangelisku lútersku kirkju — að Guð hafi frá eilífð útvalið suma til sælu, en útskúfað sumum í endalausa eymd og glötun. Þetta er óttaleg tilhugsun; en hin er næstum því eins hræðileg, að af öllum þeim óteljandi sálum, sem hafa lifað hèr í tímanum, muni við heimsendirinn að eins fáeinar fá inngaungu í guðsríki, og að hin miklu verk Drottins, sköpunin og endurlausnin, skuli þannig að miklu leyti verða árángurslaus. Hvernig verður slíkri kenníngu komið heim við skynsamlega hugmynd um speki Guðs og gæðsku, við kristilega trú á hinn eilífa kærleika, sem er höfundur og stjórnari allra hluta; höfundur, ekki einúngis náttúrunnar, heldur og frjálsræðisins, lögmálsins og evangelii? En þessi kenníng er ekki einúngis gagnstæð sannfæríngu vorri, heldur hefur hún og skaðleg áhrif á líferni vort; hún hindrar betrun vora, og gjörir oss annaðhvort andvaralausa eða örvæntíngarfulla. Látum oss sjá, hvaða verkanir hún hefur á ýmislegt sálarástand manna, hjá þeim, sem eru andlega hrokafullir, og hjá hinum, sem eru ístöðulausir, hjá sannarlegum guðsbörnum og opinberum glæpamönnum. Sá hrokafulli þakkar Guði, að hann er ekki eins og

aðrir menn. Mundi sú hugsun geta betrað hann, að þeir sèu fáir, sem verði sáluhólpnir, mundi hún ei þvert á móti auka drambsemi hans? mundi hún ekki koma honum til að hugsa: eg er þó einn af þeim fáu útvöldu? Aptur er hèr annar, sem ekki vogar að lypta augum sínum til himins, þegar hann skoðar hugarfar og háttalag sitt, og ber það saman við kröfur lögmálsins. Hann stynur undir sinni syndabyrði, og undir frelsarans krossi skelfur hann af ótta og vantrausti; honum finnst trú sín vera veik, og öll viðleitni sín að feta í fótspor frelsarans árángurslaus. Mundi þá ekki þessi ístöðulausa sál verða öldúngis örvæntíngarfull af þeirri tilhugsun, að ekki verði nema fáeinir; sem að lokunum komizt hjá hinum eilífa dauða, þrátt fyrir allar þær ráðstafanir, sem Guð hefur gjört til að frelsa mennina og leiða þá til eilífs lífs? En þessi tilhugsun er líka næsta geigvænleg fyrir hinn trúarsterka mann, sem þegar hèr í lífi finnur til sælufullrar sameiníngar við Guð, og hefur auðmjúka en þó vissa von um að verða sáluhólpinn í eilífðinni. Hann hlyti þó að bera kvíðboga fyrir annara eilífu kjörum; því sönn og lifandi trú getur ekki verið köld og kærleikslaus, og sá sem elskar Guð, elskar og náúngann. Og eins og Guð vill ekki dauða syndugs manns, eins vilja og guðsbörn, að sem flestir yrðu sáluhólpnir. Hvað óttalegt væri það þá fyrir hinn guðhrædda að hugsa til þess, að mestum hluta mannkynsins yrði útskúfað í hin yztu myrkur! Mundi ekki umhugsun um eilífar ófarir flestra manna hljóta að skerða sælu hans? Getur hið guðelskandi hjarta feingið huggun hèr í lífi, eða gleði á himnum af þeirri sannfæríngu, að mannkynið sè yfir höfuð fætt til eymdar og ógæfu, ekki einúngis hèr í tímanum, heldur og í eilífðinni? Og hvað nú þá snertir, sem lifa ókristilega og iðrunarlausir, og sem því ekki geta dregið sjálfa sig á tálar með falskri sáluhjálparvon, þá hlýtur sú hugsun, að fáir komist hjá fordæmíngunni, að verða þeim til nokkurs konar huggunar og lífernisbetrun þeirra til hindrunar. Auk þeirrar venjulegu afsökunar: hvers vegna þarf eg að vera betri enn flestir aðrir? þá mundi sú hugsun gjörsamlega fæla þá frá allri lífernisbetrun; hvernig verður það mögulegt fyrir mig að fá inngaungu í guðsríki, fyrst einúngis fáeinir komast þángað af svo mörgum, er minna hafa brotið enn eg, og úr því tala fordæmdra er svo

stór, þá verð eg að sætta mig við sömu kjör og aðrir. Þannig fær hinn óguðlegi djöfullegt hugrekki mitt í örvæntíngunni. Vèr sjáum svoleiðis, elskulegu bræður! að eins og það er hættulegt, að hugga sig við það, að svo margir muni verða sáluhólpnir, eins og það væri hættulegt að hugsa með sèr: fyrst svo margir verða sáluhólpnir, hví skyldi eg þá ekki líka verða það? — eins skaðlegt og hættulegt er það að hugsa, að ekki muni verða nema fáeinir frelsaðir frá eilífri glötun. Þó tala þeirra kunni, því miður, að verða stór, sem á dómsdegi verður útskúfað frá Guðs augliti, þá er það þó hvergi í heilagri ritníngu sagt, að þessir muni verða fleiri enn hinir, sem sáluhólpnir verða. Allt sem oss í þessu efni ríður á að vita er það, sem frelsarinn hefur kennt oss, að á efsta degi verði eilífur skilnaður gjörður milli þeirra, sem hann kallar blessuð börn síns föður, og hinna, sem reknir verða í hin yztu myrkur. Þegar vèr skoðum dæmisögu þá, sem vort upplesna guðspjall hljóðar um, þá sjáum vèr, að Jesús sèr í lagi átti tal við Gyðíngana, sem fyrst og fremst voru kallaðir til þess guðsríkis, sem lausnari vor stofnaði hèr á jörðunni, og Jesús gefur Gyðíngum í skyn, að þó fáir þeirra hlýði kölluninni, muni þó guðsríki samt sem áður útbreiðast á jörðunni, og evangelium muni verða boðað öllum þjóðum. Þar eð sagt er í dæmisögunni, að vondir og góðir hafi verið boðnir til brúðkaupsins, þá getur þessi máltíð ekki þýtt hið sælufulla líf á himnum, heldur Krists kirkju hèr á jörðunni, sem Jesús á öðrum stað samlíkir við akur, þar sem illgresið sprettur við hliðina á góða sæðinu. En þar sem konúngurinn leit einn mann ekki skrýddan brúðkaupsklæði, og hann bauð að binda hendur hans og fætur og kasta honum í hin yztu myrkur, þar sem væri óp og tannagnýstran — þá merkir þetta vissulega þann dóm, sem uppkveðinn verður yfir sèrhverjum á efsta degi, og jafnvel á dauðastundunni. En þetta verður ekki tekið sem svar upp á þá spurníngu, hvort margir eða fáir muni sáluhólpnir verða, því þá gætu iðrunarlausir syndarar tekið sèr falska huggunargrein af því, að það var ekki nema einn, sem vantaði brúðkaupsklæði, af öllum þeim, sem til borðsins sátu. Þetta óttalega útskúfunardæmi er því af lausnara vorum framsett oss til viðvörunar meðan vèr dveljum hèr í þessum reynslunnar skóla, og þessi

orð, sem standa í sambandi við það: „margir eru kallaðir, en fáir útvaldir", eru sömuleiðis aðvörunarorð, töluð til vor hèr í tímanum.

Þannig getum vèr, kristnir bræður! komizt hjá þeirri óttalegu hugsun, að hin eilífa uppskera af öllu því, sem Guð hefur látið sá hèr í tímanum, verði ekki annað enn visin blöð, sem í eldinn verði kastað. Nei, vèr væntum þess, að eins og lausnari vor forðum sagði: uppskeran er mikil, eins muni hann og með guðlegum fögnuði geta sagt hið sama á efsta degi, þegar hann sendir út sína himnesku þjóna, segjandi: safnið hveitinu í mína kornhlöðu! En þessi hugleiðíng yrði gjörsamlega misskilin, ef nokkur iðrunarlaus syndari tæki sèr þar af tilefni til að styrkja sig í þeirri fölsku von, að fyrst margir verði sáluhólpnir, þá muni hann líka verða það, án þess hann þurfi að taka sèr það nærri, eða hafa mikið fyrir sáluhjálp sinni. Það eru einúngis hinir guðhræddu, sem geta glatt sig við þá tilhugsun, að tala útvaldra muni verða mikil, en ekki óguðlegir; því þar sem það eykur sælutilfinníngu guðhræddra manna, að sem flestir verði með þeim sáluhólpnir, þá hlýtur það að auka eymd og ófarsæld hins óguðlega, að verða útilokaður frá þeirri sælu, sem svo margir verða hluttakandi í. Gættu þessa, þú sem fegrar syndir þínar fyrir sjálfum þèr, og huggar þig með því, að þú sèrt ekki verri enn aðrir. Af þeim fjölda, sem nú fylgir þèr á lastanna vegi, kunna má ske margir að snúa sèr til Guðs, iðrast synda sinna og verða sáluhólpnir. En hvað ætlar þú að gjöra? ætlar þú að halda iðrunarlaust áfram í syndum þínum, og verða svo útskúfaður í hin eilífu myrkur? Nei, oss er í guðsorði boðið að efla vora sáluhjálp með ótta og andvara, og að verja þessu voru tímanlega lífi til þess að gjöra vora útvalníngu vissa; vèr megum ekki vera hugsunarlausir um það, eða láta það ráðast eins og það vill, hvort vèr verðum í útvaldra eða fordæmdra tölu, og því er hvergi heitið í guðsorði, að þeir, sem hèr í lífi fyrirlíta Guðs náð og fótum troða hans boðorð, hafi nokkurrar líknar að vænta í eilífðinni. Nú er oss gefinn tími til iðrunar og apturhvarfs, en hvað leingi það verður veit einginn af oss; reiddu þig ekki á heilbrigði, fjör nè æsku; því dauðinn getur hitt þig í dag eða á morgun, og kjör þín í eilífðinni fara eptir því, hvernig þú ert

undirbúinn undir viðskilnað þinn. Í dag hefur þú tíma og tækifæri til að hugleiða, hvað til þíns eilífa friðar heyrir. Já, vèr þurfum daglegrar áminníngar við til þess að falla ekki í andvaraleysi, og daglega skulum vèr því minnast þessara orða frelsarans, er eg áður um gat: „keppizt að komast gegn um hið þraunga hliðið, því eg segi yður satt, að margir eru þeir, sem leitast við að komast þar inn, en geta það ekki". Gætum að, að þessi aðvörun gildir ekki um þá, sem eru Guði öldúngis fráhverfir og lifa iðrunarlaust í opinberum glæpum; því um þá verður ei sagt, að þeir leitist við að komast gegn um hið þraunga hliðið, heldur öllu fremur um þá, sem sýna einhverja viðleitni eptir að komast inn í himnaríki, en gjöra það ekki af hreinu hjarta, sem hagnýta sèr náðarmeðulin, en misbrúka þau, sem hafa yfirskyn guðhræðslunnar, en afneita hennar krapti, sem annaðhvort treysta sínu eigin rèttlæti, eða syndga í trausti til Guðs náðar, sem hafa Jesú nafn á vörunum, en afneita honum í hjartanu, með því þeir skeyta ekki um hans boðorð, nè sýna ávexti trúarinnar í kristilegu líferni. Til slíkra manna má heimfæra það, sem frelsarinn sagði við Gyðíngana: „Frá þeim tíma húsbóndinn er uppstaðinn og hefur lokað dyrunum, munuð þèr, sem fyrir utan standið, taka að berja upp á og segja: Lúk þú upp fyrir oss, herra! en hann mun svara: Eg þekki yður ekki, eg veit ekki hvaðan þèr eruð. Þá munuð þèr segja: Vèr höfum etið og drukkið með þèr, og á strætum vorum kenndir þú. En hann mun segja: Eg þekki yður ekki, nè veit hvaðan þèr eruð; farið frá mèr allir illgjörðamenn"! Hvílík viðvörun felst ei í þessum orðum! Þau áminna oss um að leita Drottins meðan hann er að finna, ákalla hann meðan hann er nálægur, því sá tími muni eitt sinn koma, að vèr ekki getum fundið hann, þótt vèr leitum. Hið sama sýna oss afdrif þess manns í eptirlíkíngunni, sem ekki var skrýddur brúðkaupsklæði, og sem því var útskúfað í hin yztu myrkur; hjá Guði er ljósið, lífið og sælan, en þar sem hans náð og miskunsemi ekki er, þar er myrkrið, dauðinn og glötunin. Frelsarinn hefur í guðspjallinu bent oss á þær tálmanir, sem venjulegast aptra mönnum frá að hlýða Guðs köllun, þar sem hann segir, að þeir sem boðnir voru geingu burt, einn á sinn búgarð, en annar til verzlunar sinnar, en hinir gripu þjónana,

lögðu þeim háðúngar til og drápu þá. Heimselska og veraldlegar áhyggjur eru þær almennustu tálmanir og torfærur á sáluhjálparvegi mannsins. Það eru fáir, sem kunna að brúka heiminn án þess að misbrúka hann, þó það mætti vera öllum í augum uppi, að einginn getur tekið með sèr inn í eilífðina neitt af þeim veraldar munum, sem menn svo ákaft sækjast eptir. Of mikil heimselska gjörir manninn skeytíngar- og hirðulausan um hið andlega og eilífa, og hún getur gjört hann Guði svo fráhverfan, að hann fyrirlíti guðsorð, fái óbeit á öllum guðlegum áminníngum og hatist við allt það, sem vill draga hjarta hans frá heiminum til Guðs. Þannig gekk það til fyrir Gyðíngum, sem ekki þekktu sinn vitjunartíma; þannig geingur það enn til fyrir öllum þeim, sem ekki vita hvað til þeirra friðar heyrir. Guð upplýsi alla þá, sem þannig fara villir vegar, svo þeir læri að þekkja hans náð og hlýða hans köllun! Æ, ef þeir hugsuðu til síns endadægurs, ef þeir af alvöru renndu huganum til sinnar dauðastundar og hugleiddu, að þeir í dauðans myrkri ekki geta vænt sèr huggunar og friðar af neinum öðrum, enn Guði og frelsaranum, sem þeir nú óvirða og fyrirlíta, þá mundu þeir vissulega öðru vísi taka aðvörunum guðsorða og alvarlega leitast við að gjöra sína útvalníngu vissa. Það er, mínir vinir! hrærandi sjón, að vera viðstaddur, þegar þeir skilja við, sem rètt undir andlátið vakna til umhugsunar um eilífðina, er þeir áður ekkert skeyttu um, vakna til lifandi þekkíngar á Guði og frelsara sínum, sem þeir áður hafa fyrirlitið, og má ske lagt háðúngar til. Hvergi nema þar geta menn gjört sèr skýra hugmynd um, hvílík ángist getur gagntekið sálu hins deyjanda, hve sára iðrun hann getur tekið fyrir það, að hafa forsómað og fyrirlitið Guðs náðarköllun, og hvernig sèrhver illa brúkuð náðarstund eins og brennur á samvizku hans. Vèr erum allir, kristnir bræður! kallaðir til guðsríkis, allir boðnir til þess himneska brúðkaups, til eilífs lífs og eilífrar sælu; jafnvel þessi stúnd, sem nú líður yfir oss, er köllun Guðs til vor, áminníng um, að gjöra vora útvalníngu vissa, að vera skrýddir brúðkaupsklæðum, að íklæðast hinum nýja manni, sem eptir Guði er gjörður í sannarlegu rèttlæti og helgun. Öll vor æfi hèr á jörðunni er náðarköllun Guðs; hann kallar oss til síns ríkis á hverri stundu lífsins, á hverri stundu

dagsins, með sínum náðarríku velgjörðum, áminníngum og uppörfunum, en einginn af oss veit, nær honum þóknast að kalla oss burtu úr þessu lífi, og sæll er sá, sem rèttilega er búinn undir þá seinustu köllun, sæll er sá, sem íklæddur kristilegri trú og kærleika, hertygaður ljóssins vopnum, getur geingið á hólm við hinn seinasta óvin, dauðann: hann fer frá dauðanum til lífsins, frá myrkrinu til ljóssins.

Æ, himneski miskunsemdanna faðir! þú sem aldrei þreytist að auðsýna oss þína náð, að kalla oss til þíns ríkis, gefðu oss náð til þess, að hlýða þinni köllun með iðrandi og trúuðum hjörtum, skrýddu oss þeim rèttu brúðkaupsklæðum: lifandi trú og kristilegum kærleika, svo vèr fáum höndlað eilíft líf og gjört vora útvalníngu vissa! Bænheyr það í Jesú nafni! Amen.

---

## Á tuttugasta og fyrsta sunnudag eptir trinitatis.

### Bæn.

Þú hefur, himneski faðir! gefið oss þinn eingetinn son, og látið hann opinbera oss þitt vísdómsfulla ráð og þinn heilaga vilja. Þekkíngu á þínu heilaga orði og vora tímanlegu og eilífu farsæld hefur þú nákvæmlega sameinað, til að vekja hjá oss laungun eptir að nema þitt orð og breyta eptir því. Og þó höfum vèr svo litlar mætur á þínu orði, gjörum oss svo lítið far um að breyta eptir þínum vilja, og erum svo skeytíngarlausir um vora sönnu farsæld. Æ, sannfærðu oss með þínu sáluhjálplega orði um það, að sú sanna speki er innifalin í því að óttast þig, sú sanna farsæld í því að hlýða þínum boðum! Láttu krapt þinna sannleiksorða hræra vor hjörtu og hafa áhrif á alla vora breytni! Menntaðu oss með þínu orði og anda, svo vèr verðum sannkristnir, góðir og trúlyndir þegnar í þínu ríki hèr á jörðunni, og á síðan í þínu dýrðarríki á himnum, þar sem vor sanni borgarrèttur er! Bænheyr það í Jesú nafni! Amen.

### Guðspjallið.

(Jóh. IV., 47.—53.).

Þar var konúngsmaður nokkur, hvers sonur lá sjúkur í Kapernaum. Þegar hann heyrði, að Jesús var kominn

frá Júdeu í Galíleu, fór hann til Jesú og bað hann koma að lækna son sinn, því hann lægi dauðvona. Jesús svaraði: þèr trúið ekki nema þèr sjáið teikn og stórmerki. Konúngsmaðurinn sagði: herra! kom þú, áður sonur minn andast. Jesús sagði þá við hann: far þú! sonur þinn lifir. Maðurinn trúði þeim orðum, sem Jesús sagði honum, og gekk þaðan; áður enn hann komst heim, mættu honum þjónar hans og sögðu: sonur þinn lifir. Hann spurði þá að, nær honum hefði batnað. Þeir svöruðu: í gær um sjöundu stundu hvarf kaldan frá honum. Þá sá faðirinn, að það var á þeim tíma, er Jesús hafði sagt: sonur þinn lifir. Og hann trúði og allt hans heimafólk.

## Inngángur.

„Og hann trúði og allt hans heimafólk". Með þessum orðum endar vort upplesna heilaga guðspjall, og þau sýna oss, hve dásamlegar verkanir þetta Jesú kraptaverk hafði, hve heillaríkar afleiðíngar þess voru fyrir þenna konúngsmann, þar eð hann ekki einúngis sjálfur, heldur og allir vandamenn og þjónar hans sannfærðust um, að Jesús væri af Guði sendur, og tóku þá trú, sem hann var kominn til að boða. Mikil velgjörð var það, sem Jesús sýndi honum, að gefa syni hans aptur líf og heilsu, en þó var hin enn þá meiri, að láta nýtt þekkíngarljós upprenna í hjarta hans og þeirra, sem honum voru áhángandi, svo þeir meðtóku Jesú lærdóm og trúðu á hann. Ef vèr, mínir vinir! rennum augunum yfir hið upplesna guðspjall og gætum að því, hvernig guðspjallamaðurinn í fám orðum lýsir breytni þessa konúngsmanns og þjóna hans, ef vèr gætum að, hve annt þessi hryggi faðir lætur sèr vera um að leita Jesú hjálpar, hve trúaröruggur hann snýr aptur, þegar Jesús segir við hann: „sonur þinn lifir"; ef vèr hyggjum að, með hvílíkri gleði þjónar hans skunduðu á móti honum til að segja honum frá bata sonar hans, og þeirri nákvæmu eptirtekt, sem þeir höfðu haft á breytíngu sjúkdómsins og hverju þar að lútandi smáatviki, sjáum sèr þá ekki í þessu það traust, þá

skyldurækt og hjartaþel bæði hjá húsbónda og hjúum, sem hlaut að gjöra slíkt heimili farsælt og friðsamlegt? Á eingan fèlagskap hafa trúarbrögðin meiri og blessunarríkari áhrif enn á húsfèlag vort og heimilisbrag, á samlyndi hjóna, foreldra og barna og á alla sambúð húsbænda og hjúa, og vil eg á þessari guðræknisstundu leitast við að sýna:

*hvílíka heill guðrækni hafi í för með sèr fyrir hvert heimili*, og þá *fyrst* hugleiða: hvaða heimili vèr getum kallað guðrækin, og *í annan máta*: hvílíka heill og blessun af því leiði.

Það heimili er guðrækið, þar sem guðsorð býr ríkulega, bæði í hjörtum og breytni manna, þar sem menn láta sèr annt um, að afla sèr þekkíngar á trúarbrögðunum og rækilega breyta eptir Guðs boðum. Þar sem greinilega þekkíngu á guðsorði vantar, þar vantar áreiðanlegar reglur fyrir breytninni, og sú guðrækni, sem ekki er byggð á rèttum hugmyndum um Guð, um sjálfa oss og skyldur vorar, hún er byggð á sandi; hún er lítið annnað enn ímyndun og yfirskyn. Til þess hefur Guð opinberað oss sitt heilaga orð, að vèr skyldum þekkja það, og vanþekkíng á því sýnir, að menn vantar lyst og laungun til að nema það, til að uppfræðast um Guð og hans vilja. Um þetta getur bæði eðli trúarbragðanna sjálfra og það færi, sem vèr höfum á að þekkja þau, sannfært oss. Ef trúarbrögðin hefðu ekki annað að geyma, enn myrka og óskiljanlega leyndardóma, sem hvorki fræddu oss nè betruðu hjörtu vor, lètu þau oss í efa og óvissu um það, hvernig vèr erum teknir í sátt við heilagan Guð, ef þau einúngis kenndu oss að þekkja skyldurnar og vanmátt vorn í að uppfylla þær, en sýndu oss ekki, hvaðan vèr ættum að leita styrks og krapta til þess; ef þau bönnuðu oss allar saklausar skemmtanir, og hefðu ekkert fyrirheit fyrir þetta líf; ef þau sviptu oss þeirri von um eilíft líf, sem er gróðursett í sálum vorum: þá væri nokkur von til þess, þó mennirnir lètu sèr ei svo annt um að þekkja trúarbragðalærdómana. En nú eru vor guðdómlegu trúarbrögð svoleiðið löguð, að leyndardómar þeirra mega vekja hjá oss heilaga undrun og dýpstu lotníngu fyrir þeirri æðstu veru, og að þau fylla hjörtu vor með huggun, friði og fögnuði;

þau kenna oss ekki einúngis, hvernig syndugir menn geti fundið náð hjá Guði, heldur og, hvernig þeir geti feingið krapta til að vinna þau verk, sem honum eru velþóknanleg; þau gefa fyrirheit bæði fyrir þetta og annað líf, og hafa að geyma öll þau sannindi, sem oss ríður á að vita, og sem oss mætti vera ljúft að læra og nema, þar eð þau miða til vorrar tímanlegrar og eilífrar farsældar eflíngar. Er það þá ekki auðsèð, að þekkíngarskortur á guðsorði er að kenna viljaleysi manna og hirðuleysi þeirra í að nema það og hafa það um hönd? Vantaði menn tækifæri til að afla sèr þessarar þekkíngar, væri skortur á guðsorðabókum hjá oss, vantaði menn alla tilsögn í guðsorði, eða gætu menn ekki feingið hana án stórvægilegrar fyrirhafnar og ókljúfandi kostnaðar, þá væri nokkur vorkun, þó þetta deyfði lyst og laungun vora eptir að uppfræðast um Guðs ráð og vilja. En þessu eru ekki þannig varið. Vèr höfum nóg færi á að heyra, lesa og hugleiða guðsorð, bæði í kirkjunni og í heimahúsum; oss vantar ekki góðar guðsorðabækur, og vèr höfum þannig faung á að afla oss þekkíngar á sannindum kristindómsins. Hvað er það þá annað, enn tregða og viljaleysi, sem aptrar svo mörgum frá því? Eða mun elska til guðsorðs búa fyrir hjá þeim, sem hvorki vilja heyra það nè lesa? Getur guðhræðsla og trúrækni átt heima, þar sem hvorki húsbændur nè hjú, yfirboðnir eða undirgefnir, hafa minnstu laungun eptir að þekkja guðsorð og álíta hverri þeirri stundu til ónýtis varið, sem varið er til að hafa það um hönd, og vilja heldur hafa sjálfan hvíldardaginn til alls annars, enn að koma þángað, sem talað er um Guð og guðlega hluti, og því síður taka sèr sjálfir bók í hönd á helgum dögum? Nei, guðsótti og trúrækni á heima einúngis í þeim húsum og á þeim heimilum, þar sem bæði yfirboðnir og undirgefnir gjöra sèr far um að taka framförum í Guðs þekkíngu; þar sem hjónin í samtali sínu hvort við annað eru samhuga í að lofa og vegsama hinn eilífa miskunsemdanna föður og þakka honum; þar sem foreldrarnir leitast við að innræta börnunum guðsótta og kenna þeim á únga aldri að þekkja skapara sinn, þar sem húsbændurnir eru svo fjarlægir því, að aptra hjúum sínum frá að leita sèr uppfræðíngar í guðsorði heima og í guðshúsi, að þeir þvert á móti upphvetja hjúin til þessa, gefa þeim tíma

til þess, og gánga í því á undan þeim með góðu eptirdæmi. Hèr ætti má ske vel við að tala um húslestra — um lestur guðsorðs í heimahúsum, sem, því miður, er allt of vanræktur meðal vor; en eg vil í þetta sinn einúngis geta þess, að þó slíkar guðræknisæfíngar sèu undirorpnar vanbrúkun, eins og öll þau náðarmeðul, sem Guð hefur gefið oss, þá mun þó eingínn geta neitað því, að það er heilög og háleit skylda allra kristinna húsbænda, að efla og glæða guðsþekkíngu í húsum sínum, eins og þeim frekast er mögulegt; að þeir ættu, svo opt sem því verður við komið, með bænum og guðsorða lestri að stuðla til andaktar og uppfræðíngar hjúa sinna, og að það er skylda hvers manns að biðja Guð og ákalla hann, hve nær sem honum gefst tími og tómstund til þess. Væri þetta rækilega gjört í húsum og á heimilum vorum, þá mundi bera meir á sönnum guðsótta og trúrækni meðal vor. Trúrækni og guðsótti eiga þar heima, sem menn ekki einúngis láta sèr annt um að heyra guðsorð, heldur og geyma það í góðum og siðsömum hjörtum, og kosta kapps um að breyta eptir Guðs boðum. Þetta er einmitt vottur um það, að vor trúarbragða þekkíng ekki sè dauð og ávaxtarlaus, heldur sönn og lifandi; þetta er einmitt það, sem aðskilur sanna guðrækni frá hræsni og skinhelgi. Hræsnarinn þekkist frá sönnum Guðs vini á því, að hræsnarinn þekkir vilja herra síns, en gjörir hann ekki, ellegar gjörir hann til að þóknast mönnum og fá hrós af þeim. Sá þar á móti, sem er sannarlega guðrækinn, gjörir það, sem hann veit er Guðs vilji, af elsku til hans og laungun eptir að þóknast honum, og er eins ástundunarsamur í því, að hlýðnast Guði, eins og í því, að kynna sèr hans vilja; „því þá eruð þèr mínir vinir“, segir frelsarinn, „ef þèr gjörið það, sem eg býð yður“. Það er í þessu tilliti eptirtektavert, að postulinn Páll í brèfinu til Kólossuborgarmanna, 3. kap., þar sem hann er að áminna þá um að uppfræða hver annan með sálmum og lofsaungum, þar sem hann er að áminna þá til guðsótta, strax á eptir brýnir fyrir þeim þær skyldur, sem viðvíkja húsfèlagi þeirra, og sem á þeim hvíldu sem hjónum, foreldrum og börnum, húsbændum og hjúum; sýnir ekki postulinn hèr með berum orðum, að vèr eigum að sýna vort guðrækilega hugarfar í breytninni, að vèr

eigum að sýna ávexti trúarinnar í kristilegu líferni, að vort bænahald, guðsorða lestur og kirkjugánga gagnar oss ekki, ef vèr ekki leitumst við að hlýða Guðs boðum, ef vèr ekki heima færum oss það í nyt, sem vèr höfum heyrt í guðshúsi; ef hjónin ekki sýna hvort öðru elsku, nákvæmni og umburðarlyndi eptir Guðs boðum; ef foreldrarnir vanrækja gott uppeldi og kristilega uppfræðíngu barna sinna, og ef þeir vanrækja ekki einúngis að auðga þau að þekkíngu, heldur og að innræta þeim dyggð og guðsótta, og skemma þau annaðhvort með of mikilli hörku eða of miklu dálæti; ef börnin ekki með iðni og ástundun, með elsku og auðsveipni sýna, að þau geta matið umhyggju foreldranna og reyna til að vera þeim til gleði; ef húsbændurnir ekki í breytni sinni við hjúin hugleiða það, að þeir eiga líka herra yfir sèr á himnum, sem þeir á síðan eiga að standa reiknúngsskap, og sem ekki fer í manngreinarálit; ef hjúin reyna ekki til með dyggð og trúmennsku að stunda gagn húsbænda sinna og gjöra verk sín, ekki af þrælsótta, eða til að þóknast mönnum, heldur af guðsótta og til að þóknast honum.

Hèr af sjáum vèr, kærir bræður! hve náið samband er á milli þekkíngar á trúarbragðalærdómunum og breytninnar, og farsælt er það heimili, þar sem greinileg þekkíng og guðrækileg breytni haldast í hendur. Og þessa farsæld viljum vèr nú gjör hugleiða. Hversu farsæl er ekki sambúð þeirra hjóna, hverra innbyrðis elska er sameinuð lotníngu fyrir Guði og einlægri elsku til hans, þar sem guðsótti helgar hjónaástina. Án guðsótta getur sú heitasta elska ekki gjört hjónin sannfarsæl. Guðsótti er sú áreiðanlegasta trygging fyrir því, að þau rjúfi ekki þann hollustueið, sem þau hafa svarið hvort öðru; guðsótti linar sèrhvert böl og eykur sèrhverja gleði þeirra; eiga þau lukkukjörum að hrósa, þá þakka þau Guði sameiginlega, og hafa yndi af því að lofa hann, komi mótlæti upp á fyrir þeim, þá gjöra þau það ekki þýngra með mögli og harmatölum, heldur segja með Job: „Við höfum meðtekið það góða af Drottins hendi, ber okkur þá ekki líka að meðtaka það illa? Drottinn gaf, Drottinn burt tók, sè nafnið Drottins vegsamað". Þó þau verði vör við einhvern vanmátt eða ófullkomlegleika hvort hjá öðru, þá kælir það ekki elsku þeirra, heldur leitast

þau við að laga bresti sína, eru fús á að fyrirgefa hvort öðru, og álíta það skyldu sína og gleði að efla hvort annars fullkomnun og farsæld. Eingra manna farsæld er meiri hèr á jörðunni, enn þeirra hjóna, sem framgánga í guðsótta, því eigi elskan það nafn skilið, sem postulinn Páll gefur henni, þegar hann kallar hana band fullkomlegleikans, þá er það víst, að sú hjónaást, sem byggist á guðsótta, má með rèttu heita það, því hún er það band, sem ekkert getur slitið nema dauðinn. Barnauppeldið er blessunar- og heillaríkt verk bæði fyrir foreldra og börn, þegar dyggðugir, ráðvandir og guðhræddir foreldrar hafa þá gleði að sjá fyrirhöfn sína heppnast, þegar börnin vaxa að aldri, vizku og náð hjá Guði og mönnum. Ekkert erfiði er í sjálfu sèr eins fyrirhafnarmikið og áhyggjufullt, eins og barnauppeldið; ráðvandir foreldrar bera sífelda umhyggju fyrir andlegri, eilífri og tímanlegri velferð barna sinna. En ekkert erfiði hefur aðra eins heill og blessun í för með sèr. Um þetta getið þèr bezt borið, þèr dyggðugu og guðhræddu foreldrar! Var það ekki innileg og inndæl gleði, sem þèr höfðuð af góðum og auðsveipum börnum? innileg og inndæl gleði að vita af gæfu þeirra, og að þau með ástundun og atorku gjörðu sig hæfileg fyrir hylli Guðs og manna? Og hversu stór er ekki þessi gleði, þegar hún er borin saman við þá sorg, sem dyggðugir foreldrar hafa af slæmum og illa örtuðum börnum, og sælir eru þó foreldrarnir mitt í ófarsæld sinni, ef þeir ekki þurfa að ásaka sig sjálfa fyrir það, að þeir af blindri elsku og óskynsamlegu dálæti hafi forsómað í tíma að laga bresti barna sinna. En lærið líka, þèr únglíngar og börn! að meta rètt og þakka þá velgjörð Guðs, að hann lèt yður fæðast af dyggðugum og guðhræddum foreldrum, að uppeldi yðar var falið þeim á hendur, sem snemma reyndu til að gróðursetja guðsótta í hjörtum yðar, og leiðbeina yður á dyggðanna veg. Hefðuð þèr ekki notið þessarar Drottins dýrmætu velgjörðar, þá væruð þèr má ske eins og svo margir aðrir æskumenn komnir út á lastanna veg, þá væruð þèr má ske í þeirra tölu, sem eru foreldrum sínum til sorgar og mæðu og skuld í því, að þeir hryggir og ángraðir verða að leggjast í gröf sína. Ó, metið þessa lukku yðar, elskið foreldra yðar, og verið þeim til gleði með ráðvendni og dyggðugri breytni. Sýnið að þèr rètt metið umhyggju

þeirra með því að ala önn fyrir þeim, eins og yður fremst er mögulegt. Vaxið í þekkíngu, dyggð og guðsótta! þá munuð þèr uppskera blessun fyrir ykkur sjálf, og verða foreldrum ykkar til blessunar, huggunar og gleði á þeirra elliárum.

Húsbænda og yfirboðinna staða hlýtur að vera þægileg, þegar þeim er sýnd hlýðni, ekki af þrælsótta, heldur af elsku, af guðsótta og þeirri sannfæríngu, að það, sem boðið er, sè skynsamlegt og gott. þegar vèr gætum að þeim umkvörtunum, sem heyrast um óhlýðni hjúa og undirgefinna, þá er vissulega opt skuldin hjá þeim, sem yfir öðrum eiga að segja, af því þeir gleymdu því, að hjú þeirra og undirgefnir eru frjálsar og skynsemi gæddar verur eins og þeir, gleyma því, að sú hlýðni er vissust og áreiðanlegust, sem sprettur af velvild og elsku. Leitizt því við, þèr sem af Drottni eruð yfir aðra settir, að ávinna yður elsku þeirra, sem yður eiga að hlýða, og sannfærið þá um, að þèr eruð rèttlátir, sanngjarnir og kærleiksfullir, þá munuð þèr gjöra þjóna yðar farsæla, uppörva þá góðu til ástundunar, en betra þá vondu ef mögulegt er; þá munuð þèr fremur verða álitnir sem foreldrar, en sem húsbændur, og ávinna yður virðíngu og elsku. Og hversu farsælir eru ei að hinu leytinu þeir undirgefnu, sem kunna að meta það, að þeir eiga góða og kristilega húsbændur, þeir reyna með dyggð og trúmennsku að ávinna sèr hylli og elsku húsbænda sinna, og hafa Guð fyrir augum sèr í allri sinni breytni. Og getur hjá því farið, að slíkt hugarfar gjöri þá farsæla?

Farsælt er þá hvert það heimili, hvar guðsorð og guðrækni eiga heima; farsælt er það hèr í tímanum, en farsælla verður það í eilífðinni. Hvílík gleði mun það ei verða fyrir hin dyggðugu og guðhræddu hjón, þegar þau aptur sjást á sælunnar landi, þar sem eilíft ástar og vináttu band sameinar þau um alla eilífð! Hvílík gleði mun það ei verða fyrir guðhrædda foreldra að sjá þau börn, sem þeir uppólu hèr í guðsótta, meðtaka af Drottni dyggðanna verðlaun — kórónu lífsins! Og hvílík gleði mun það ei verða fyrir dyggðuga húsbændur og þjóna þeirra, að hittast aptur á eilífðarinnar landi með þeirri sælufullu meðvitund, að þeir hafi verið trúir ráðsmenn Guðs ýmislegu náðargjafa — hvort heldur Drottinn hefur sett þá yfir mikið eða lítið — og geta vænzt þess, sem góðir og trú-

lyndir þjónar, að mega inngánga í fögnuð herra síns! það er því áreiðanlegt, sem postulinn segir, að guðhræðslan hefur fyrirheit bæði fyrir þetta og fyrir annað líf; það er því áreiðanlegt, að ekkert heimili er eins farsælt og það, hvar dyggð, trúrækni og guðsótti eiga heima.

Allir erum vèr, kæru vinir! í þeirri stöðu, að vèr getum heimfært til vor það sem nú hefur verið sagt. Ó, að þær skyldur, sem trúrækni og guðsótti leggja oss á herðar, væru á þessari stundu svoleiðis útlistaðar, og sú farsæld, sem þar af leiðir, svoleiðis útmáluð, að sèrhver af oss ekki einúngis óskaði sèr þessarar farsældar, heldur og leitaðist við að afla sèr hennar! Ó, að Guðs góði andi, kærleikans og friðarins andi, tæki sèr bústað í vorum hjörtum og gjörði oss hæfilega til að byrja og fullkomna hið góða! ó, að þessa dags guðrækilegu hugleiðíngar gætu borið ávexti í vorri breytni: æ, þá mundum vèr finna fleiri farsæl heimili, þá mundu fleiri hjón búa saman í friði og kærleika, fleiri foreldrar vera glaðir, fleiri börn vera vel uppalin, fleiri góðir og sanngjarnir húsbændur, fleiri trú og dygg hjú. Og um fleiri mætti þá segja, eins og sagt er um konúngsmanninn í guðspjallinu: „hann trúði og allt hans heimafólk“. Amen.

---

## Á tuttugasta og annan sunnudag eptir trinitatis.

### Bæn.

Þú vilt, Drottinn! að vèr skulum fyrirgefa öðrum eins og þú hefur fyrirgefið oss. Sáttgjarnt og mannelskufullt hugarfar er þèr þóknanlegt, af því þú ert sjálfur eilíf gæðska. Æ, skapa þú í oss hreint hjarta, svo vèr getum fyrirgefið af hjarta, en látum hvorki hatur nè hefndargirni festa þar rætur. Kenn þú oss að hertygja oss gegn mótgjörðum og áreitíngum annara með sömu hógværð og þú, vor guðdómlegi frelsari! sýndir óvinum þínum. Innrættu sjálfur með kærleikans og friðarins anda hjá oss um-

burðarlyndi við þá, sem brjóta á móti oss, svo vèr getum fetað í fótspor frelsara vors og orðið þinnar náðar og miskunar aðnjótandi í lífi, dauða og dómi! Bænheyr oss, himneski faðir! í Jesú nafni! Amen.

## Guðspjallið

(Mátth. XVIII., 23.—35.).

Jesús sagði við sína lærisveina: Himnaríki er eins háttað og konúngi einum, er reikníngsskap vildi halda við þjóna sína; en er hann kom til að halda reiknínginn, kom einn fyrir hann, sem honum var skyldugur um tíu þúsundir punda; og sem hann nú ekki hafði þau til að borga með skuld sína, bauð konúngurinn að selja hann, konu hans og börn og allt sem hann ætti, til að borga þar með. Þjónninn fèll til fóta hans, bað hann og sagði: haf þolinmæði við mig, allt skal eg gjalda þèr! Konúngurinn sá aumur á þeim þjóni, lèt hann lausan og gaf honum upp alla skuldina. En er hann gekk út, hitti hann einn af samþjónum sínum, sem átti að gjalda honum hundrað penínga; þenna handtók hann, greip fyrir kverkar honum og sagði: gjald það, þú ert mèr skyldugur! Samþjónninn fèll til fóta hans, bað hann og sagði: hafðu þolinmæði við mig, allt skal eg gjalda þèr! En hann vildi ekki, heldur fór á burtu og lèt hann í dýflissu, unz hann hafði borgað sína skuld. Þegar samþjónar hans sáu hvað skeði, urðu þeir mjög hryggvir, fóru og kunngjörðu konúnginum það sem gjörzt hafði. Þá kallaði konúngur hann fyrir sig og sagði: þú, illi þegn! alla þína skuld gaf eg þèr upp, af því þú baðst mig; bar þèr þá ekki miskunsamur að vera við þinn samþjón, eins og eg var þèr miskunsamur? Konúngurinn varð reiður og ofurseldi þann þjón kvölurunum, þángað til hann hafði borgað allt það, sem hann var skyldugur. Svo mun og minn himneski faðir gjöra við yður, ef að hver og einn yðar fyrirgefur ekki af hjarta bróður sínum hans misgjörðir.

## Inngángur.

það má óhætt fullyrða, að holdlegri náttúru vorri fellur ekkert þýngra enn að elska óvini sína, að blessa þá, sem oss bölva, og fyrirgefa þeim af hjarta, sem gjöra oss eitthvað á móti, og að sá, sem er búinn að temja sèr þessar dyggðir, hefur náð miklum framförum í kristilegu trúarlífi, eptir því sem oss breyskum mönnum er unnt að ná hèr í heimi. Vort syndum spillta eðli, vorar geðshræríngar, raung og aflöguð sómatilfinníng og ýmsir rótgrónir hleypidómar gjöra oss þá skyldu svo þúngbæra, að elska óvini vora og fyrirgefa þeim af hjarta, sem gjöra á hluta vorn. Og þó er þetta skýlaust boð kristilegrar trúar, og vèr getum ekki heitið sannkristnir, nema vèr ástundum að hlýða því. Oss er bannað að ala heipt og hatur í hjörtum vorum, en boðið að vera sáttgjarnir og fúsir á að fyrirgefa vorum skuldunautum, og þessa skyldu brýnir frelsarinn fyrir oss með dæmi þjónsins í guðspjallinu, sem var harður og miskunarlaus við samþjón sinn, þar sem þó herra hans hafði auðsýnt honum þá vægð og miskunsemi að gefa honum upp lángtum stærri skuld. þessa harðúð og ómiskunsemi, þetta mannvonzkufulla hugarfar bar konúngurinn honum á brýn með þessum orðum: „þú, illi þegn! alla þína skuld gaf eg þèr upp af því þú baðst mig; bar þèr þá ekki miskunsamur að vera við þinn samþjón, eins og eg var þèr miskunsamur“? Og að frelsari vor með þessari dæmisögu einkum og sèr í lagi lítur til þeirra, sem eru **heiptræknir** og **hefndargjarnir**, sjáum vèr af þeim orðum, sem standa seinast í guðspjallinu. „Svo mun og“, segir hann, „minn himneski faðir gjöra við yður, ef að hver og einn yðar fyrirgefur ekki af hjarta bróður sínum hans misgjörðir“. Látum oss nema staðar við þessi orð endurlausnara vors, og verja þessari helgu stundu til að innræta oss *sáttgirni*. Legg þú oss til þessa lið og krapta kærleikans og miskunarinnar himneski faðir, í Jesú nafni!

Sáttgirni er innifalin í því, að vèr ölum ekki hatur í hjartanu til þeirra, sem eitthvað hafa gjört á hluta vorn, að vèr ekki reynum til að hefna þess óréttar, sem þeir hafa gjört

oss, heldur fyrirgefum þeim af hjarta, og sèum reiðubúnir til að gjöra þeim gott, ef vèr getum og þeir þurfa þess við. Það er því sjálfsagt, að sáttgirnin á að vera einlæg og ná til allra. Hún á að ná til allra, hvort sem þeir eiga að sèr mikið eða lítið, hvort það eru heldur vinir vorir eða óvinir. Þess vegna segir Jesús oss í guðspjallinu, að „hver og einn eigi að fyrirgefa bróður sínum“, það er að skilja: öllum án undantekníngar, því ritníngin talar um alla menn sem bræður. En hversu ólíkt er þetta þeirri hugmynd, sem margir gjöra sèr um sáttgirnina! Sumir umbera yfirmönnum sínum allt og þola jafnvel, að þeir sèu áreittir af jafníngjum sínum; en verði einhverjum, sem þeir eiga yfir að segja eða er minni máttar enn þeir, að gjöra þeim eitthvað til miska, þá fyllast þeir heipt og reiði, og eru ekki í rónni fyrr enn þeir eru búnir að hefna sín á þeim. Þetta lýsir auðvirðilegu hugleysi og ótta fyrir mönnum. Aptur eru aðrir svo sinnaðir, að þeir æsast mest við yfirmenn sína og þola þeim ekki hið allra minnsta, án þess að hefna þess á einhvern hátt í orði eða verki. Þetta sprettur af drambsemi og of mikilli eigingirni, sem leiðir af sèr hefndargirni og heiptrækið hugarfar. Sumir eru fúsir á að fyrirgefa þeim, sem þeir halda að hafi móðgað sig óviljandi, en vilja ekki fyrirgefa hinum, sem þeir hugsa að hafi styggt sig vísvitandi eða af ásettu ráði. Sumir eiga hægra með að fyrirgefa óvinum sínum enn vinum og vandamönnum. Reynslan sýnir, því miður, að einatt bjó heipt og hatur í hjörtum þeirra, sem náttúran ætlaði að samteingja með ástarinnar og frændseminnar bandi. Því verður ekki heldur neitað, að þær mótgjörðir eru þýngstar, sem vèr verðum fyrir af þeim, er vèr köllum vini vora, og sem vèr sízt eigum von á, að muni gjöra á hluta vorn. Er ekki grátlegt að lesa frásöguna um Jósep og bræður hans, eða um breytni Absalons við Davíð föður sinn? Og þó sjáum vèr af sáttgirni Jóseps og af trega Davíðs við dauða þessa hans óhlýðna sonar, að vèr bæði eigum að fyrirgefa og getum fyrirgefið þær mótgjörðir, sem vèr verðum fyrir af vinum vorum og náúngum. Eins og vèr eigum að fyrirgefa öllum, sem eitthvað brjóta á móti oss, eins eigum vèr og að fyrirgefa allt, sem oss er gjört á móti, því frelsarinn býður oss að fyrirgefa bróður vorum „hans misgjörðir“, það er að skilja: hvað sem

hann brýtur á móti oss og hversu opt sem honum kann að verða það. þetta sjáum vèr einna bezt af því svari, sem Jesús gaf Pètri, þegar hann spurði hann, „hversu opt hann ætti að fyrirgefa þeim, sem gjörði á móti sèr, og hvort sèr væri ekki nóg, að gjöra það sjö sinnum. þá svaraði Jesús og sagði: „ekki sjö sinnum, heldur sjötíu sinnum sjö sinnum" (Matth. 18., 21.—22.), og sýndi með því, að vèr eigum að fyrirgefa náúnga vorum, hversu opt sem hann gjörir oss eitthvað á móti. En hve margir eru þeir þó ekki, sem gleyma þessu! Hinn drambsami og virðíngagjarni getur umborið það þó haft sè af honum í kaupum og sölum, eða þó hann sè á einhvern hátt fèflettur; en haldi hann, að einhver hafi gjört lítið úr sèr eða sè virðíng hans meidd, þá reiðist hann ákaflega og leitast við að hefna sín. Hinn ágjarni getur þolað, að hann sè hæddur og fyrirlitinn, en snerti nokkur fjármuni hans, sem hann trúir á, þá er komið við hjartað í honum, og ekki við öðru að búast, enn að hann hefni þess. þannig fer sáttgirni eða hefndargirni eptir því, hvernig girndum manna er varið og hvað þeir eru mest hneigðir fyrir. því miður hugsa margir svoleiðis: þó eg sè áreittur nokkrum sinnum, þá get eg fyrirgefið; en það má ofbjóða mèr eins og öðrum, og hver getur ætlazt til, að eg liggi undir ójöfnuði annara til leingdar án þess að hefna mín? Æ, þú, sem þannig hugsar, gleymir því boði frelsara þíns, að fyrirgefa bróður þínum, ekki einúngis sjö sinnum, heldur og sjötíu sinnum sjö sinnum. það sem Jesús þessu næst heimtar af oss er, að sáttgirni vor sè einlæg og að vèr fyrirgefum af hjarta. þetta er hið rètta einkenni þessarar dyggðar eins og allra kristilegra dyggða. Sáttgirni vor á að koma fra hjartanu, og vèr megum hvorki svíkja sjálfa oss nè aðra með hræsnisfullum vinalátum. Er það einlæg sáttgirni, þegar menn sættast einúngis til að sýnast sáttgjarnir í heimsins augum? Eða verður það kallað sáttgirni, þegar menn eru eins blíðmálir og vinalegir við óvini sína, eins og þeir væru þeirra beztu vinir, en reyna til með vinarkossi eins og Júdas að leyna heiptar og haturs fullu hjartalagi? Eða þegar sá, sem er áreittur af öðrum, segir: eg ætla ekki að hefna mín og get það ekki, en Guð mun endurgjalda það; er það að vera sáttgjarn? Lýsir það ekki miklu fremur hinni mestu heiptrækni og ósáttgirni? Vitnar

ekki líka aðferð sumra manna um ósáttgirni, sem þykjast ekki vilja hefna sín sjálfir, en skjóta sèrhverju misklíðarefni, hversu ómerkilegt sem það er, til lands laga og rèttar, og flækja sig og aðra í lagadeilum og málaferlum, sem eyða tíma og fjármunum, trufla sinnisrósemi og auka hatur og óvild? Fjarri fer og því, að þeir fyrirgefi af hjarta, sem segja: eg vil ekki hata þá nè gjöra þeim illt, sem brjóta á móti mèr; en þeir mega ekki heldur búast við því af mèr, að eg gjöri þeim gott, eða sýni þeim vinahót. Getum vèr með sanni sagt, að vèr höfum burtrýmt öllu hatri úr hjörtum vorum, ef vèr ekki viljum gjöra óvinum vorum gott, þegar þeir þurfa þess við og oss gefst færi á því? Eða er það einhlítt fyrir oss, kristna menn, að hata ekki óvini vora? Eigum vèr ekki líka eptir Jesú boði að elska þá? Og getum vèr sagt, að þessi elska sè einlæg, nema hún sýni sig, eins og postulinn Jóhannes kemst að orði, „í verki og sannleika“? Þess vegna varar Páll postuli oss ekki einúngis við heiptrækni og hefndargirni, heldur býður oss jafnframt að gjöra óvinum vorum gott, með þessum orðum: „ef óvin þinn húngrar, þá gef honum að eta, ef hann þyrstir, þá gef honum að drekka“ (Róm. 12., 20.). Þannig á þá sáttgirni vor að vera löguð, kærir bræður! hún á að vera sönn og einlæg og ná til allra manna, hvort sem gjört er á hluta vorn opt eða sjaldan, mikið eða lítið; sè henni ekki þannig varið, þá er hún ekki kristileg.

Margt er það, sem ætti að geta minnt oss á kristilega sáttgirni og komið oss til að fyrirgefa af hjarta. Þegar frelsarinn í guðspjallinu býður, að sèrhver skuli fyrirgefa bróður sínum hans misgjörðir, kennir hann oss þá ekki að skoða aðra menn, ekki einúngis sem samþjóna vora og verkamenn Guðs, sem er Drottinn vor allra, heldur og sem bræður og börn ens sama himneska föður? Og með því skaparinn hefur teingt svo sterkt og innilegt bræðraband milli vor allra, hversu óviðurkvæmilegt er það þá ekki, að vilja slíta það með deilum, hatri og óvináttu! Eins og hatur og hefndargirni er gagnstætt gæðskuríkum tilgángi Drottins, eins er það í sjálfu sèr óviðurkvæmilegt, því fæstir munu óska að eiga ósáttgjarna óvini, eða vægðarlausa og hefndargjarna mótstöðumenn; hitt munu flestir kjósa, að aðrir sèu sáttgjarnir og fúsir á að fyrirgefa; en ef vèr

sækjum þessa, ættum vèr þá að gleyma þessu gullvæga boði frelsara vors: „allt sem þèr viljið að aðrir menn gjöri yður, hið sama skuluð þèr og þeim gjöra“? Ef vèr líka hlutdrægnislaust virðum fyrir oss þær mótgjörðir, sem vanar eru að vaxa mönnum svo mjög í augum, þá munum vèr komast að raun um, að það er ekki ætíð svo mikið í þær varið. Það var, ef til vill, sjálfum þèr að kenna, kristinn maður! að þú varst áreittur af öðrum; þú gjörðir þeim má ske gramt í geði eða gafst fyrst tilefni til þess órèttar, sem þú þykist hafa orðið fyrir. Þèr þókti, ef til vill, þú ekki vera haldur í eins miklum metum og þèr fannst þú eiga skilið, og þetta gróf um sig hjá þèr, svo upp af því spratt hatur í hjarta þínu. Þèr var, ef til vill, synjað um eitthvað, sem þú beiddist, af því það var ekki rètt eða mögulegt að veita þèr það; eða þèr var sagður einhver sannleiki, sem eigingirni þinni þókti óþægilegt að heyra og þú reiddist af. Ef til vill reiddist þú af einhverju orði, sem náúnga þínum varð að tala í bráðræði, en sem hann fyrir laungu er búinn að taka iðrun fyrir, eða af því, sem aungum hefur komið til hugar að tala, en sem hefur verið logið upp á aðra til að skaða þá og æsa þig upp á móti þeim. Af þessum og því um líkum ómerkilegum og lítilfjörlegum upptökum sprettur optast nær sú óvild og heiptrækni, sem viðgeingst meðal kristinna manna. Ef vèr ætíð hefðum þetta hugfast, mundum vèr síður ljá reiðinni rúm í hjörtum vorum, eða að minnsta kosti ekki vera eins lángræknir og þykkjuþúngir og vèr nú erum. Vèr megum þó sjálfir vera búnir að reka oss á það, að heiptrækni og ósáttgirni er skaðleg fyrir sjálfa oss og aðra, því af hatri sprettur hatur, af óvináttu óvinátta annara, og þannig gjörum vèr sjálfum oss lífið næsta leiðinlegt og óþreyjufullt, þar sem vèr með sáttgirni og umburðarlyndi við aðra gætum eytt hatrinu í hjörtum þeirra, og kennt þeim, sem hafa gjört á hluta vorn, að kannast við yfirsjón sína og iðrast hennar, komið þeim til að vingast við oss, og þannig, eins og postulinn kemst að orði, „safnað glóðum elds yfir höfuð þeim“ (Róm. 12., 20.). En þó hvetur ekkert oss eins kröptuglega til sáttgirni eins og rödd Guðs heilögu orða. Hve fús er ekki góður Guð á að fyrirgefa oss vorar syndir og misgjörðir, þó vèr syndgum á móti honum daglega mikið og margvíslega, þó syndaskuld vor

sè svo mikil, að henni megi samlíkja við hin „tíu þúsund pund“ í guðspjallinu, og vèr getum aldrei goldið hana. Og þó eru syndir vorar aldrei svo margar nè miklar, að Guð vilji ekki fyrirgefa oss þær fyrir Krists skuld, þegar vèr biðjum hann fyrirgefníngar á þeim með iðrandi hjörtum. „Alla þína skuld gaf eg þèr upp af því þú baðst mig“, segir guðspjallið. Ættum vèr þá ekki að vera fúsir á að fyrirgefa öðrum, fyrst Guð er svo fús á að fyrirgefa oss? Ættum vèr að vera ómiskunsamir og ósáttgjarnir, fyrst hann auðsýnir oss svo mikla vægð og miskunsemi? „Bar þèr þá ekki miskunsamur að vera við þinn samþjón, eins og eg var þèr miskunsamur“? sagði konúngurinn við hinn miskunarlausa þjón, og hið sama segir hann enn í dag við alla þá, sem ala heipt og hatur í hjarta sínu. Ætti ekki þetta að mýkja vor hörðu hjörtu, ætti það ekki að hvetja oss til sáttgirni og minna oss á þetta Jesú boðorð: „verið miskunsamir eins og yðar himneski faðir er miskunsamur“! (Lúk. 6., 36.).

Í heilagri ritníngu koma fram mörg fögur dæmi upp á *sáttgirni*, bæði Jóseps, Stefani og margra annara Guðs vina, en þó ekkert eins fagurt og dæmi frelsara vors, sem vèr eigum að nema þessa dyggð af eins og allar aðrar dyggðir. Þegar hann var negldur á krossinn og varð að þola óumræðilegar kvalir vor vegna, þá bað hann fyrir óvinum sínum og sagði: “faðir! fyrirgef þeim, því þeir vita ekki hvað þeir gjöra“. Ó, hve dásamlegt eptirdæmi hefur vor deyjandi lausnari gefið oss, kristnir bræður! En hugsið þó ekki, að það sè nóg, að þèr á dauðastundinni breytið eptir honum í þessu og farið þá fyrst að fyrirgefa óvinum yðar. Það er eingínn órækur vottur um sáttgirni yðar, þó þèr í andlátinu gleymið mótgjörðum annara, því þá hafið þèr líklega annað að hugsa: um syndir sjálfra yðar. Eins og sèrhver tilfinníng í brjósti vors blessaða frelsara var einber elska og mildi, þannig eigið þèr og á heilbrigðu dögunum að láta hið sama mannelskufulla hugarfar búa í yður, svo þèr getið bæði lifað og dáið sem sáttgjarnir og sannkristnir menn.

Guðsorð kennir oss bezt að þekkja þær hinar ófarsælu afleiðíngar, sem heiptrækni og ósáttgirni hefur, og þessi þekkíng ætti kröptuglega að uppörfa oss til að innræta oss sáttgirni

og umburðarlyndi við aðra. Ekkert spillir tímanlegri, andlegri og eilífri farsæld vorri meir enn ósáttgirni; eins og nagandi eiturormur vefur hún sig um hjörtu vor og eyðir vorum sálar og líkama kröptum; vegna hennar hefur margur látið líf og eignir; og hún slítur sundur öll hin helgustu bönd. Já, ekkert er vorri andlegu og eilífu farsæld meir til tálmunar og fyrirstöðu enn að hafa hatursfullt, hefndargjarnt og heiptrækið hjartalag. Hinn ósáttgjarni getur ekki orðið Guðs náðar aðnjótandi eða vænt sèr miskunar og syndafyrirgefníngar af honum, þegar hann ekki vill fyrirgefa bræðrum sínum, því frelsarinn hefur með berum orðum sagt: „fyrirgefið, þá mun yður fyrirgefið verða“ (Lúk. 9., 37.). En af þessu leiðir, að hinn ósáttgjarni getur ekki haft sannarlega hugarrósemi, því „hver vill vænta sèr vægð og frið, vera ósáttur þó við Guð“? Og hvílíka kvöl hlýtur ekki hinn ósáttgjarni að bera daglega í brjósti sínu þegar hjarta hans er fullt af hatri og hefndargirni! Þó honum kunni að finnast hefndin sæt, þá er þó þessi sætleiki blandaður með svo mikilli og svo banvænni beiskju, að hún drepur hans andlega líf og hans eilífu sáluhjálp; hve óttalegt hlýtur það ekki að vera fyrir hann að hugsa til eilífðarinnar og eiga von á því, að ósáttgirni hans verði þar hegnt og að „ómiskunsamur dómur gángi yfir þann, sem ekki auðsýnir miskun“ (Jak. 2., 13.). Í guðspjallinu minnir frelsarinn oss á þær ófarsælu afleiðíngar, sem ósáttgirnin hefur í eilífðinni, þegar hann segir: „þá varð konúngurinn reiður og ofurseldi þann þjón kvölurunum, þángað til hann hafði borgað það sem hann var skyldugur“, og seinast bætir hann þessu við: „svo mun og minn himneski faðir gjöra við yður, ef að hver og einn yðar fyrirgefur ekki af hjarta bróður sínum hans misgjörðir“. — Hvernig getur nokkur sá þakkað Guði rèttilega fyrir hans velgjörðir eða glaðzt af gjöfum hans, sem finnur til óþreyju í hjarta sínu meðan þeir eru glaðir, sem honum þykir hafi gjört sèr gramt í geði, og sem hefur þann ásetníng að leitast við að hefna sín á þeim? Hvernig getur sá beðið Guð rèttilega eða vænzt sèr bænheyrslu, sem biður með heiptræknu og ósáttgjörnu hugarfari? Hvernig getur hann af hjarta sagt: „fyrirgef oss vorar skuldir, *svo sem* vèr og fyrirgefum vorum skuldunautum“? Því hvað þýðir þessi bæn í munni hins ósáttgjarna

annað enn þetta: „þú sèr það, allsvitandi Guð! að hjarta mitt býr yfir ósáttgirni og hatri við þá, sem hafa móðgað mig; þitt alskyggna auga sèr þá heipt og hefndargirni, sem felst í hjarta mínu á þessari stundu meðan eg bið þig fyrirgefníngar á syndum mínum. Þú hefur sjálfur sagt í þínu orði, að þú viljir fara eins með mig eins og eg fer með óvini mína, og að oss muni aptur verða mælt með þeim sama mæli og vèr mælum öðrum. Æ, far þú þá eins ómiskunsamlega með mig og eg fer með þá; sviptu mig hèr eptir þinni náð og miskun og láttu þína hefnd og hegníngu koma yfir mig“. Er þetta ekki hryllileg tilhugsun? Er það ekki hræðilegt, að maðurinn með ósáttgirni sinni skuli snúa bænum sínum í bölvun, og mana Guðs hefnd yfir sig í stað þess að biðja hann vægðar og miskunar? Eða getur hinn ósáttgjarni haft nokkurt gagn af að heyra guðsorð og fræðast um Guðs vilja, þegar hann lætur allar hans áminníngar og uppörfanir til sáttgirni og umburðarlyndis eins og vind um eyrun þjóta, og svíkur sjálfan sig með því að vera „orðsins heyrari, en ekki þess gjörari“? Eða getur hann haft nokkurt gagn af því að gánga til guðsborðs og neyta þeirrar heilögu náðarmáltíðar, sem setur oss Krists kærleika fyrir sjónir og minnir oss á, að vèr ekki einúngis eigum að elska Guð, heldur einnig vora meðendurleystu bræður, og að vèr, eptir postulans Páls áminníngu, „eigum að fyrirgefa hver öðrum, eins og Guð hefur fyrirgefið oss“? Nei, það er syndsamleg misbrúkun, að neyta þessarar kærleikans máltíðar með hjartað fullt af hatri og óvináttu við bræður sína.

Ef vèr því, kristnir bræður! viljum hafa nokkur not af heyrn og lestri guðsorðs, af bænum vorum og guðsþjónustu vorri, þá höfum jafnan í huga þessa áminníngu frelsarans: „þegar þú færir gáfu þína til altarisins og þèr kemur þar til hugar, að bróðir þinn eigi eitthvað útistandandi við þig, þá skil þar eptir gáfu þína við altarið og far áður að sætta þig við bróður þinn, og kom þá að offra gáfu þinni“ (Matth. 5., 23.). Guð gefi það af náð sinni, að vèr, sem hèr höfum hans orð um hönd, hlýðum þessari hans áminnandi röddu og tökum fyrir oss þann staðfasta ásetníng, að fyrirgefa bræðrum vorum af hjarta þeirra misgjörðir. Já, Guð minn góður! mín syndaskuld er mikil og meiri enn svo, að eg fái nokkurn tíma borgað

hana; en þú, eilífa gæðskan! gefur mèr upp alla skuldina af einskærri náð og miskunsemi; æ, því vil eg vera fús á að fyrirgefa öðrum, og aldrei skal hatur til þeirra, sem gjöra mèr á móti, festa rætur í hjarta mínu; eg vil biðja fyrir óvinum mínum og blessa þá á minni dauðastundu. Æ, styrktu mig í þessum ásetníngi; styrktu mig í því að breyta eptir frelsara mínum, svo eg megi tilheyra honum í lífi og dauða, um tíma og eilífð! Bænheyr það í hans nafni! Amen.

---

## Á tuttugasta og þriðja sunnudag eptir trinitatis.

### Bæn.

Gæðskuríki Guð og faðir! Í þínu heilaga orði hefur þú kennt oss að þekkja vora eilífu ákvörðun, og sýnt oss, hvernig vèr eigum að leitast við að ná henni. Þú ætlaðist til, að vèr skyldum verja þessu lífi til undirbúníngs undir eilífðina; þú settir oss hèr í skóla reynslunnar, svo að hver sá, sem reyndist vel, feingi trúrra þjóna verðlaun við enda reynslutímans. Þess vegna fèkkst þú sèrhverjum af oss verk að vinna í þessu lífi, og sèrhverjum pund í hendur, sem hann átti að verja þèr til dýrðar, en sèr til sáluhjálpar. En hvernig hagnýtum vèr nú oss þenna náðartíma? hvernig verjum vèr þessu pundi? gjörum vèr það, eins og þú ætlaðist til? Gegnum vèr vorri jarðnesku köllun þannig, að vèr með því leitum vorrar eilífu ákvörðunar? eða burtsóum vèr tímanum í hugsunarleysi og syndsamlegu athæfi, og gröfum það pund í jörðu, sem þú fèkkst oss í hendur? Þitt alskyggna auga þekkir sèrhvern af oss, því þú ert hjartnanna rannsakari; en það megum vèr allir játa, að vèr erum breyskir og ófullkomnir, að vèr erum ónýtir þjónar, og að vèr einatt vanrækjum þær skyldur, sem á oss hvíla. Æ, gef þú oss vitsmuni og vilja til að búa oss rèttilega undir annað líf, og vertu máttugur í vorum veikleika, svo vèr getum framkvæmt þau góðu áform, sem þú vekur í hjörtum vorum. Amen.

### Guðspjallið
(Matth. XXII., 15.—22.).

Farísearnir geingu á burt og hèldu ráð, hvernig þeir feingi veitt Jesúm í orðum. Þeir sendu til hans lærisveina

sína með Heródesar þènurum, er spyrja skyldu á þessa leið: Meistari! vèr vitum, að þú ert sannsögull, kennir Guðs vilja í sannleika, þú mælir ekki sem hver vill heyra og fer ekki að mannvirðíngum. Þar fyrir seg þú oss, hvað þèr lízt: leyfist að gefa keisaranum skatt eða ekki? En þegar Jesús merkti vonzku þeirra, sagði hann: hví freistið þèr mín? hræsnarar! sýnið mèr skattpenínginn. Þeir feingu honum þá penínginn. Jesús spurði þá: hvers mynd og yfirskript er þetta? Þeir svöruðu: keisarans. Jesús sagði þeim: gjaldið þá keisaranum hvað keisarans er, og það Guði hvað Guðs er. En þegar þeir heyrðu þetta, undruðust þeir, yfirgáfu hann og geingu á burt.

## Inngángur.

Hjá Gyðíngaþjóðinni var megn óánægja og óþreyju umbrot, þegar Jesús hóf hjá þeim sína heilögu kenníngu til að stofna Guðs náðarríki hèr á jörðunni. Til þess að falla ekki fyrir vèlum og árásum óvina sinna áður enn hans tími væri kominn, varð Jesús að við hafa hina mestu varkárni, þar eð þeir freistuðu hans á allar lundir, og leituðust við að fá hann til að segja eitthvað, sem þeir gætu gefið honum að sök. Eins og vèr heyrðum af því upplesna guðspjalli, hèldu farísearnir ráð um það, hvernig þeir feingi veitt Jesúm í orðum; þeir vissu það og viðurkenndu, að Jesús kenndi Guðs götu í sannleika, og sagði sannleikann hver sem í hlut átti; þeir hugsuðu því, að hann af ást á fósturjörðu sinni kynni að láta eitthvert orð falla um keisarann, sem þeir gætu klagað hann fyrir. En Jesús, sem sá hrekkvísi þeirra, sagði þeim hreint og beint, að þeir væru hræsnarar, og bætti við þessum merkilegu orðum: „gefið keisaranum hvað keisarans er, og það Guði hvað Guðs er"! Þannig ákvað Jesús ekkert um það, hvað keisaranum bæri, heldur hefur hann lagt það á vald hins almenna borgaralega kristilega fèlags, að gefa lög um fèlagsskyldur sínar, en einúngis boðið að uppfylla þessar skyldur eins og hinar, sem vèr eigum Guði að lúka. Það, sem hann því í þessu tilliti hefur fyrirskipað, er það, að vèr með kristilegri samvizkusemi

gegnum bæði þeim skyldum, sem lög og fèlagsheillir útheimta, og eins hinum æðri skyldum vorum við Guð. En það er vor skylda að gæta þess, að þessar skyldur komi ekki í stríð hverjar við aðrar, og til þess viljum vèr stuðla með því á þessari guðræknisstundu stuttlega að hugleiða:

*hvernig kristinn maður á að leitast við að ná sinni eilífu ákvörðun með því að gegna sínum tímanlegu skyldum.*

Vèr erum allir borgarar í mannlegu fèlagi, og höfum allir skyldur á hendi við mannlegt fèlag, en vèr erum líka allir þegnar í guðsríki, og höfum skyldur á hendi sem slíkir þegnar. En vèr megum ekki ímynda oss, að þessar skyldur sèu svo ólíks og gagnstæðs eðlis, að vèr hljótum að vanrækja aðrarhvorar, þvert á móti eru þær svo náteingdar, að því betur og rækilegar sem vèr gegnum vorri tímanlegu köllun, þess betur uppfyllum vèr vora eilífu ákvörðun, ef vèr að eins gegnum vorri tímanlegu köllun með kristilegu og guðrækilegu hugarfari. Það er að sönnu satt, að þegar vèr hugleiðum, hversu gjarnir vèr erum á, að gefa oss alla við veraldlegum sýslunum, að ofþýngja oss með áhyggjum og sorgum þessa lífs, þá megum vèr með nokkurs konar ótta og kvíða stunda vor jarðnesku störf, svo framarlega sem oss er um það hugað, að verja þessu lífi til undirbúníngs undir annað líf, þar eð jarðnesku störfin geta svo hæglega dregið allan huga vorn til sín, og látið oss gleyma himninum og guðsríki. En þó megum vèr ekki láta þenna ótta fæla oss frá vorri tímanlegu köllun eða koma oss til að vanrækja hana. Sú sanna og rètta speki er innifalin í því, að brúka heiminn svoleiðis, að vèr ekki misbrúkum hann, að verja svo þeim tímanlegu hlutum, að þeir verði meðal í vorri hendi til að ná æðra eilífu augnamiði.

Ef vèr nú aðgætum í hverju vor tímanlega köllun er innifalin, þá liggur það sèrhverjum af oss næst, að vèr eigum allir eitthvert heimili og höfum einhverjum heimilisskyldum að gegna, og vèr sjáum bezt, hve áríðandi þessar skyldur eru, af þeim skaðlegu og ófarsælu afleiðíngum, sem það hefur að vanrækja þær. Hversu margir húsfeður hafa ei með því að vanrækja sína köllun leitt eymd og ógæfu yfir sig og

sína, ekki einúngis í tímanlegum, heldur og í andlegum efnum! því neyð og atvinnuskortur, sem eiginlega ætti að knýja oss til að leita Guðs og biðja hann, verður einatt orsök til syndar og lasta. Sá, sem því öldúngis forsómar að efla sína og sinna tímanlegu velgeingni, leggur því opt grundvöllinn til þeirra eilífu ófara; hann lærir aldrei að þekkja, hversu dýrmætar og áríðandi þessar skyldur eru, og missir því sjónar á tilgángi þessa lífs, sem átti að mennta hann og undirbúa undir hið eilífa lífið. Sú húsmóðir, sem vanrækir uppeldi barna sinna — þessa dýrmætu og helgu skyldu — sem lætur í ljósi sífelda óánægju, mögl og kærleiksleysi, hún hefur mikla synd að bera á samvizku sinni, hún kemur miklu illu til leiðar. Ógæfa barna og ótal afkomenda getur átt rót sína í hirðuleysi, lèttúð og kærleiksleysi einnar móður. Og megum vèr þá ekki játa og viðurkenna, að sú kona, sem með iðjusemi, alúð og elsku gegnir sinni köllun, sem með blíðu og nákvæmni gjörir manni sínum lífið yndislegt, og uppelur börn sín í guðsótta og góðu framferði, megum vèr ekki játa og viðurkenna, að hún leitast við að ná sinni eilífu ákvörðun með því að gegna trúlega sínum tímanlegu skyldum? Er ekki hennar köllun háleit og mikilsverð, þó lítið beri á henni í heimsins augum? Sá húsfaðir, sem einkisvirðir ástúð og umönnun konu sinnar, sem ekki vill rètta henni hjálparhönd, eða lètta af henni neinni byrði, hve mikla ábyrgð hefur hann að bera! En sá þar á mót, sem virðir og elskar konu sína, vorkennir henni og leitast við með öllu móti að gjöra skyldunnar æfíngu lèttbæra, sem hvorki sparar krapta nè fjármuni til að uppala börn sín vel og kristilega, og útvega þeim þá menníngu, sem þau geta móti tekið, hann er í sannleika virðíngarverður. Með þessari sameiginlegu vinnu, sameiginlegu hjálp og hluttekníngu, leita hjónin sinnar eilífu ákvörðunar. Þó verkahríngurinn í húsfèlaginu sè lítill, þá verður hann stór og þýðíngarmikill, þegar guðrækni og kristilegt hugarfar eiga þar heima, þegar iðjusemin, sparsemin og kærleikurinn helgast af Jesú anda. Þar sem þessar kristilegu dyggðir eiga heima, þar er Jesús jafnan nálægur með sinni náð og blessun; hann opinberast þar á ósýnilegan hátt, líkt og heilög ritníng segir oss, að hann hafi heimsókt tvær systur, er auðsýndu honum gestrisni. Frásagan um Mörtu og

Maríu hefur sèrlega þýðíngu í tilliti til vorra heimilisstarfa. Menn hafa opt tekið Jesú orð við Mörtu sem álas fyrir búsýslu hennar. En það sýnist ekki hafa verið meiníng hans. Jesús ávarpaði hana ekki til þess, að hindra hana frá þessum störfum. því þá hefði hann gjört það strax og hann kom, heldur setti hann mildilega ofan í við hana fyrir þann skort á kærleika, sem hún sýndi systur sinni með því að ásaka hana. „María hefur útvalið hið góða hlutskiptið", sagði Jesús til að gefa til kynna, að vèr, mitt í vorum tímanlegu og veraldlegu sýslunum, aldrei megum gleyma upplýsíngu og farsæld vorra sálna, að vèr í öllum vorum störfum eigum að hafa Guð og eilífðina fyrir augum oss. Í því er einmitt sú sanna spekin innifalin, að velkjast ekki svo í sorgum og áhyggjum þessa lífs, að mæðast ekki í svo mörgu, að vèr gleymum því eina nauðsynlega, heldur að vèr gegnum vorri köllun í guðsótta og minnumst þess jafnan, að vor köllun er ekki einúngis veraldlegs heldur og andlegs og eilífs eðlis, og að vèr eigum að vinna öll vor verk svoleiðis, að þau verði Guði velþóknanleg. Þá munum vèr finna til þess og verða þess varir í hjörtum vorum, að vor köllun kemur frá Drottni, að hann hefur úthlutað oss vorum verkahríng, hvort sem hann er stór eða lítill, og það er hans vilji að vèr gegnum vorri köllun trúlega, svo vèr á síðan verðum settir yfir annað meira og meðtökum trúrra þjóna verðlaun. Látum oss því, að postulans boði, breyta forsjálega, ekki sem fávísir, heldur sem vísir. Látum oss að hans boði nota tímann og vinna verk vorrar köllunar meðan dagur er, því þegar nóttin kemur fær einginn erfiðað. Og til þess að gefa oss tækifæri til að starfa að vorri eilífu köllun hefur Drottinn tilskipað hvíldardaginn. Og hversu ljúft og inndælt verður það ei fyrir þann, sem sex daga vikunnar hefur orðið að gefa sig við þeim sýslunum, sem sèr í lagi lúta að voru jarðneska lífi, hversu ljúft og inndælt verður það ei fyrir hann, að gefa Guði hvað Guðs er á hvíldardeginum! Þó má ekki taka þetta svo, eins og vèr megum gleyma Guði hina daga vikunnar, eins og þessir dagar ekki líka tilheyri Drottni, heldur er það svo að skilja, að umhugsunin um Guð, þakklæti við hann og bænin til hans — sem vèr eigum að iðka og temja oss jafnvel mitt í vinnu vorri — verður enn þá innilegri og fjörugri á þeim degi, sem honum

er helgaður og ætlaður oss til uppfræðíngar um hans eilífu veru og eiginlegleika, um hans ráð og vilja. Og sæll er sá, sem á hvíldardeginum getur minnzt vinnu sinnar hina daga vikunnar með þeirri meðvitund, að hann hafi unnið í ótta Drottins, að vinna hans hafi miðað til þess að undirbúa hann undir eilífðina.

þegar vèr nú enn fremur spyrjum sjálfa oss, í hverju vor tímanlega köllun er innifalin, þá er það í því, að efla almennar fèlagsheillir, og sá, sem rèttilega leggur stund á þetta, leitar sinnar eilífu ákvörðunar. Reynslan hefur æfinlega sýnt, að sannkristinn maður er góður og uppbyggilegur fèlagsmaður. það er ákvörðun þjóðfèlagsins, að mennta mannkynið og búa það undir eilífðina. Að sönnu er hin ytri lögun mannlegs fèlags margbreytt og breytíngum undirorpin eptir ýmislegu ásigkomulagi tímanna, en af því ljós kristinnar trúar getur skinið í skjóli þess, af því það verndar sannleika, siðprýði og kærleika manna á meðal, af því það hlynnir að öllum kristilegum dyggðum, þá eiga kristnir menn eptir Jesú boðum að vera viljugir á að greiða lögboðnar skyldur og skatta, sem varið er til almennra fèlagsheilla. það er því skylda allra góðra og upplýstra meðlima kristilegs fèlags, að verja kröptum sínum því til heillaeflíngar. það er því helgur skattur, sem hver góður þegn geldur í þarfir fósturjarðar sinnar, ekki einúngis sá skattur, sem er innifalinn í fjárútlátum, heldur og sá, sem innifalinn er í nytsömum fyrirtækjum, í stjórnsemi, í hluttekníngu, fyrirhöfn og sjálfsafneitun almenníngs vegna. það er þess háttar kristileg starfsemi í fèlaginu, ekki einúngis eptir laganna fyrirmælum, heldur og eptir kristindómsins æðri anda og kærleika, sem Kristur meinar, þegar hann býður oss að gefa keisaranum hvað keisarans er. Og þegar kristinn maður þannig neytir krapta sinna eptir beztu þekkíngu og af ítrasta megni, án þess að hræsna fyrir mönnum, þá leitar hann vissulega sinnar eilífu ákvörðunar, og getur vænzt þess, að verk hans beri blessunarfulla ávexti, þegar hann í guðsótta gjörir það, sem hann álítur vera skyldu sína. þó óvinir hans reyni til að leggja tálsnörur fyrir hann eins og fyrir Jesúm, þarf hann ekki að kvíða, eða láta hugfallast, því þegar hann fylgir sannleikanum og breytir eptir beztu vitund, þá er verk hans Guði þóknanlegt, og þá er

Drottinn með honum með sinni vernd og aðstoð. Í því er þjóðfèlagsins æðsta lukka innifalin, að allir góðir meðlimir taki innilegan þátt í öllum þeim málefnum, sem snerta hag þess og heillir. En þegar kristinn maður er ekki í þeirri stöðu, að hann geti tekið þátt í almennum fèlagsmálefnum, eða hafi ljósa sannfæríngu um þau, þá á hann að gegna þeim skyldum, sem liggja honum nær. Sá sem veitir heimili sínu góða og kristilega forstöðu, vinnur með því almenníngsheillum mikið gagn, því heimilislífið er stofn og undirstaða hins almenna fèlagslífs.

Þegar vèr nú rennum huganum til fósturjarðar vorrar, og gætum þess, að vèr erum hèr bornir og barnfæddir, að hèr höfum vèr feingið kristilega uppfræðíngu, höfum sameiginlegt mál til að láta í ljósi hugsanir vorar, og erum fósturjörðu vorri teingdir með svo innilegum ástarböndum, ættu þá ekki helgar þakklætis og elsku tilfinníngar að vakna hjá oss? ættum vèr ekki að vilja verja öllum kröptum vorum til að efla heill og hagsæld fósturjarðar vorrar? Og þó oss kunni að þykja eitthvað að, þó það geti ekki dulizt oss, að spilltur aldarandi einnig hafi náð til vor, ætti þá ekki þetta að vera uppörfun fyrir oss að reyna til að bæta og lagfæra það, sem vèr frekast megnum hver í sinni stètt og stöðu? Að leggja fyrst og fremst kapp á betrun sjálfra vor, stunda siðprýði og reglusemi í húsum og á heimilum vorum, og því næst að því leyti sem kraptar og kríngumstæður leyfa, styðja öll góð og kristileg fyrirtæki, sem miða til almenníngs uppfræðíngar, eða tímanlegrar velgeingnis eflíngar? Einúngis verðum vèr jafnan að hafa það hugfast, að láta þær skyldur sitja í fyrirrúmi, sem húsfèlag vort af oss heimtar, áður enn vèr gefum oss við almennum fèlagsmálefnum. Það væri illa ástatt fyrir mannlegu fèlagi, ef heill þess væri komin undir mismunandi tillögum einstakra manna, sem hefðu vanrækt hús og nánustu náúnga til þess að hugsa um almenníngsmálefni, þar eð almenn velgeingni sprettur einmitt af ráðdeild, iðjusemi og atorku einstakra manna. Sannkristinn maður gefur því keisaranum hvað keisarans er svoleiðis, að hann hvorki spillir tíma nè kröptum sínum til þeirra fyrirtækja, sem hann ekki gjörla þekkir, og um hverra nytsemi hann er ekki sannfærður, nè heldur liggur á liði sínu, nè skorast undan að

efla almenníngs heillir þegar sannfæríng hans býður honum það. Gaungum því ekki sem fávísir, heldur sem vísir, einnig í þessu tilliti. Æfíð, og ekki sízt í almennum fèlagsmálefnum, er það nauðsynlegt, að velja þau rèttu meðul, hafa rèttan og góðan tilgáng og muna eptir því, hvaðan sú sanna vizka kemur. Vissulega mundi margt fara betur og skipulegar fram hjá oss, vissulega mundu mörg fyrirtæki bera betri og blómlegri ávexti, ef þeir, sem stofnuðu þau og studdu að framkvæmd þeirra, aldrei hefðu gleymt því, að gefa líka Guði hvað Guðs er, það er: jafnan hefðu haft gott og guðlegt augnamið fyrir hugskotssjónum, gefið fyrst og fremst Guði dýrðina, og látið hans anda stjórna verkum sínum. Aldrei má það gleymast, að eins og hinir sýnilegu hlutir eru orðnir til af hinum ósýnilegu, eins eiga allar vorar tímanlegu skyldur rót sína í vorri eilífu ákvörðun, og að elskan til sjálfra vor, til náúnga vorra og til fósturjarðar vorrar á að byggjast á elskunni til Guðs; því það er vor eilífa ákvörðun að elska hann og sameinast honum. Ef vèr jafnan höfum þetta fyrir augum í allri vorri breytni, þá gefum vèr Guði hvað hans er, þá helgum vèr honum öll vor áform, allar vorar gjörðir, og þá munu öll vor verk, sem unnin eru í lifandi trú og kærleika, bera ávexti fyrir eilífðina, miða til að gjöra oss hæfilega til að ná vorri eilífu ákvörðun. Æ, gleymum því aldrei, kærir bræður! að vor borgarrèttur er á himnum, að á himnum er vort sanna og rètta föðurland. Hèr erum vèr gestir og framandi, en höfum þó háleitum skyldum að gegna, sem vèr ekki megum vanrækja; því skaparinn ætlaðist til, að þetta líf skyldi vera reynsluskóli, til að mennta og undirbúa oss undir hið æðra eilífa lífið, og þess vegna er oss boðið hèr í lífi að höndla eilíft líf, og þetta gjörum vèr, ef vèr gefum Guði hvað Guðs er og keisaranum hvað keisarans er, ef vèr leitum vorrar eilífu ákvörðunar með því, að gegna vorum tímanlegu skyldum í guðsótta.

En hvað getum vèr gefið þèr, góði Guð! hvað getum vèr aumir syndarar gefið þèr, sem átt himin og jörð og alla hluti? Æ, vèr getum ekkert gefið þèr, nema vor breysku og ófullkomnu hjörtu; þau viljum vèr gefa þèr, og elska þig af öllu hjarta, vegsama þig með önd og líkama, sem þú átt. Æ, láttu oss vera þína æfinlega eign; láttu oss tilheyra þèr í lífi og

dauða; láttu oss í sameiníngunni við þig höndla eilíft líf og eilífa sælu! Bænheyr það í Jesú nafni! Amen.

---

## Á allra heilagra messu.

### Bæn.

Að vera í náð hjá þèr, heilagi himneski faðir! í því er öll sæla innifalin; en þessarar náðar getum vèr ekki orðið aðnjótandi, nema vèr finnum til þess, að vèr erum náðarþurfar, nema vèr sèum andlega volaðir. Æ, gefðu oss náð til þess að kannast við vorn óverðugleik, vorar syndir og voru breyskleika, svo vèr af öllu hjarta flýum til þinnar miskunar, af öllu hjarta iðrumst vorra synda, og einsetjum oss af öllu hjarta að hlýða þèr og beygja oss undir þinn náðugan og vísdómsfullan vilja. Þá verðum vèr ríkir af trú, von og kærleika, og látum oss nægja þína náð, því vèr finnum þá til þess, að hún er oss allt, uppspretta allrar sælu og unaðar. Já, Drottinn! þú ert allt, en vèr erum ekkert, vèr erum dupt og aska, syndugir og brotlegir menn; en í trúnni á þig og elskunni til þín megnum vèr alla hluti, því þú ert máttugur í vorum veikleika og gefur oss krapta til að yfirvinna heiminn, og þessi sannfæríng gjörir oss eilíflega sæla, því hún sameinar oss þèr, sem ert hin alsæla og eilífa uppspretta lífsins. Þèr sè lof og dýrð að eilífu! Amen.

### Guðspjallið
(Matth. V., 1.—12.).

Þegar Jesús leit fólkið, gekk hann upp á fjallið; en þá er hann setti sig niður, geingu lærisveinarnir til hans. Jesús talaði til þeirra og sagði: Sælir eru þeir, sem andlega eru volaðir, því þeirra er himnaríki. Sælir eru þeir, sem harma, því þeir munu huggaðir verða. Sælir eru hógværir, því þeir munu jarðríkið erfa. Sælir eru þeir, sem húngra og þyrsta eptir rèttlætinu, því þeir skulu saddir verða. Sælir eru miskunsamir, því þeir munu miskun öðlast. Sælir eru hreinhjartaðir, því þeir mun Guð sjá. Sælir eru þeir,

sem friðinn semja, því þeir munu Guðs börn kallaðir verða. Sælir eru þeir, sem fyrir rèttlætisins sakir ofsóktir verða, því þeirra er himnaríki. Sælir eruð þèr, þegar menn hallmæla yður og ofsókn veita, og tala í gegn yður alla vonzku fyrir mínar sakir, þó ljúgandi; fagnið þèr og verið glaðir, því yðar verðkaup er mikið á himnum. Þannig ofsóktu þeir þá spámenn, sem fyrir yður voru.

## Inngángur.

Hið upplesna heilaga guðspjall er upphaf hinnar dásamlegu fjallræðu lausnara vors. Í þessari ræðu kenndi Jesús oss að skoða lögmálið frá hinu æðsta sjónarmiði sem ávöxt kærleikans, og sýndi oss, hvernig allar dyggðir eiga að spretta af elsku til Guðs og manna, og hvernig þær þá hafa sín verðlaun bæði hèr og síðar meir. Þannig byrjar hann ræðu sína með því, að hann kállar þá sæla, sem almennt eru álitnir ófarsælir, fátækir, sorgbitnir, sem húngra og þyrsta og eru ofsóktir og þjáðir, og með þeim dyggðum, sem eru lítils metnar í veröldinni, með auðmýkt, hógværð, miskunsemi og hreinu hjarta segir hann, að Guðs börn muni eignast jarðríki, erfa himnaríki og fá að sjá Guð. Af þessu sjáum vèr, að Krists lærdómur er ekki af þessum heimi. — „Sælir eru þeir, sem andlega eru volaðir, því þeirra er himnaríki“. Með þessum orðum byrjar Jesús ræðu sína og kennir oss með þeim að skoða þetta líf frá allt öðru sjónarmiði enn tíðkanlegt er í veröldinni. Hann talar til hinna andlega voluðu, ekki um veraldleg gæði nè um þá hluti, sem vanir eru að vekja hjá mönnum drambsemi, ágirnd, rángsleitni, öfund, hatur og illvilja, heldur um himnaríki og þá eilífu arfleifð, sem öllum guðsbörnum er fyrirbúin. Hann kallar þá ekki vansæla, heldur sæla, þó þá vanti tímanleg gæði, sem tileinka sèr þau hin andlegu gæðin, sem evangelium veitir. Látum oss, kærir bræður! verja þessari helgu stundu til að íhuga þetta betur og hugleiða:

*hvernig Krists lærdómur kennir oss að skoða fátæktina í tímanlegu og andlegu tilliti.*

I.

„Sælir eru þeir, sem eru andlega volaðir“, segir Jesús. Þess vegna má einginn ætla, að hann verði sæll einúngis vegna sinnar tímanlegu fátæktar. Mörgum er svo varið, að þó þeir fegnir vildu vera ríkir, þykjast þeir þó af fátækt sinni og halda, að þeir eingaungu vegna hennar sèu meiri í guðsríki, enn hinir, sem betur geingur í veröldinni, en sem þeir þó með sjálfum sèr öfunda. Margir hafa misskilið þá staði í heilagri ritníngu, þar sem talað er um ríkidæmi, eins og það aptraði mönnum frá inntöku í guðsríki. Þannig er hjá Matth. 19., 16. sagt, að maður nokkur hafi spurt Jesúm, hvað hann ætti að gjöra til þess hann öðlaðist eilíft líf. Og er Jesús benti honum á að halda boðorðin og hinn kvaðst hafa gætt þeirra, þá mælti Jesús: „viljir þú algjörr verða, þá far og sel eigur þínar og gef þær fátækum, þá muntu fjársjóð eignast á himni, kom svo og fylg mèr“. En er hinn úngi maður heyrði þetta, varð hann hryggur og fór í burtu; því hann var mjög auðugur að fè. Þá tók Jesús til orða við lærisveina sína: „sannlega segi eg yður, að torvelt mun það verða ríkum manni að inngánga í himnaríki, og enn framar segi eg yður: að auðveldara er úlfaldanum að gánga í gegnum nálaraugað, enn ríkum manni inn í guðsríki“. En er lærisveinar hans heyrðu þetta, hnykkti þeim við og mæltu: „hver getur þá orðið hólpinn“? Þá leit Jesús til þeirra og mælti: „mönnum er þetta að vísu ómögulegt, en Guði er einginn hlutur ómáttugur“. Af þessum seinustu orðum frelsarans sjáum vèr, að það var ekki meiníng hans að útiloka hina ríku úr guðsríki, þar eð hann vísaði þeim til Guðs náðar, sem ein getur gjört það mögulegt eins fyrir fátæka og ríka að öðlast eilíft líf. Einkanlega var það Jesú tilgángur að vekja eptirtekt hins únga manns á því, hve ófullkomin dyggð hans væri; þess vegna sagði hann strax við hann: „hví kallar þú mig góðan! einginn er góður nema Guð“. Þegar hinn heilagi guðdómlegi meistari vildi ekki kalla sig góðan, hvernig átti þá sá, sem kom til að fræðast af honum um sinn sáluhjálpar veg, að geta staðizt í Guðs augum vegna síns eigin rèttlætis? Þó vitnaði hann til hlýðni sinnar við lögmálið; en þegar hann ekki kenndi sig mann til þeirrar sjálfsafneitunar, sem Jesús heimtaði af honum, þá varð hann hryggur,

af því hann sá, hve mikið hann vantaði til að vera algjörr. Hvað nú hin orðin snertir, sem menn hafa misskilið: „auðveldara er úlfaldanum að gánga gegnum nálaraugað, enn ríkum manni inn í guðsríki“, þá meinti Jesús ekki annað með þeim, enn að það er fleira, sem freistar hinna ríku til syndar og glepur guðrækni þeirra, enn þeirra sem fátækir eru. Að vísu freistar neyðin margra til að brjóta lögin; þar á mót freistar auðlegð og allsnægtir til lasta, og það því fremur sem hinir ríku eiga hægra með að komast hjá hegníngu borgaralegra laga. Þar að auki fylgir auðnum mikil áhyggja og umsvif, sem vilja fá manninn til að gleyma „hinu eina nauðsynlega“, og því veitir þeim svo þúngt að afneita heiminum og hafa sína umgeingni á himnum. En mest hætta er þó hinum ríku búin af svikum auðsins; því þegar menn reyna, að þeir með honum geta náð öllu því, sem þeir vilja hendinni til rètta: áliti, metorðum og upphefð, þá ofurselja þeir honum hjarta sitt, hugsa einúngis um hann, en gleyma Guði, því „einginn getur þjónað tveimur herrum, Guði og mammoni“. En geti þeir, sem ríkir eru, sigrazt á þeim freistíngum og tálsnörum, sem þeim eru búnar, þá eru þeir Guði þeim mun þóknanlegri; eins og að sínu leyti fátæklíngarnir, þegar þeir ekki láta neinn skort tæla sig af rèttum vegi, einga eymd veikja trú sína eða skerða hlýðni sína við Guð. Í hverri stöðu sem menn eru og hvernig sem hinum ytri lífskjörum þeirra er varið, geta þeir verið ráðvandir eða óráðvandir, iðjusamir eða letíngar, miskunsamir eða ómiskunsamir, lygnir eða sannorðir, hefndargjarnir eða sáttgjarnir, dramblátir eða hógværir, skírlífir eða lauslátir, bindindissamir eða óreglumenn, og í stuttu máli: guðhræddir eða óguðlegir, og eptir þessu einúngis fer Guð í dómi sínum. Það eru ekki allir, þó ríkir sèu, eins sokknir niður í munaðarlífi nè eins skeytíngarlausir um sína eilífu sáluhjálp, eins og sá ríki maður, hjá hvers dyrum Lazarus lá. Lazarus var fluttur í faðm Abrahams, en Abraham hafði þó verið ríkur meðan hann lifði hèr á jörðinni. Það eru ekki heldur allir, þó fátækir sèu, eins guðhræddir og Lazarus var, nè eins vel búnir undir burtför sína hèðan. Margir fátæklíngar eru eins holdlega og veraldlega sinnaðir, eins harðbrjósta og hrokafullir eins og hinir ríku. Og hversu margir hafa ekki sjálfir með löstum og syndum sínum steypt

sèr í eymd og ógæfu, án þess að láta það vekja hjá sèr iðrun og apturhvarf? En þegar hinn fátæki er guðhræddur, þá á hann vin á himnum: Drottin himins og jarðar, sem er með honum og annast hann þó allir vinir hèr á jörðinni bregðist. Ríkidæmi er Guðs blessun þegar það er rètt feingið og því er vel varið. Hve virðíngarverður er eigi sá maður, sem með ráðvendni og dugnaði ver eigum sínum sèr og öðrum til gagns! Hann gagnast fósturjörðu sinni, ekki einúngis með því að hjálpa nauðstöddum, heldur og með því að útvega öðrum atvinnu og útbreiða nytsamlega menntun og þekkíngu. Einnig í kristilegri kirkju þarf fjármuna við til að stofna og efla ýmisleg guðrækileg fyrirtæki; án þeirra verða hvorki kirkjur byggðar, nè hinir fátæku styrktir, og yfir höfuð að tala eingin mannelskuverk framin. „Drottinn er sá, sem gjörir fátækan og ríkan". En einhverjum kann nú að koma til hugar: fyrst Jesús bauð hinu ríka úngmenni að gefa fátækum allar eigur sínar og fylgja sèr, svo hann gæti eignazt fjársjóð á himni, ætlaðist hann þá ekki til, að allir, sem fyrir hann vildu öðlast eilíft líf, skyldu afsala sèr jarðneskum fjármunum og lifa í fátækt? það sem Jesús sagði við hinn únga mann, var ekki almennt boðorð, heldur laut einúngis að því, að ef hann vildi verða fullkominn, þá yrði hann að fylgja sèr og verða einn af sendiboðum hans út um heiminn; en postular Krists urðu að losa sig við allar þær áhyggjur, sem ríkidæminu eru samfara. En af þessu verður ekki dregin sú ályktun, að allir, sem nú vilja vera Krists lærisveinar og fylgja honum á lífsins vegi, þurfi þarfyrir að yfirgefa sína tímanlegu köllun og skipta eigum sínum upp milli hinna miður efnuðu, því af því mundi leiða, ekki einúngis óreglu, heldur og eymd og spillíng fyrir mannlegt fèlag. þó kemur það, sem Jesús sagði við hið ríka úngmenni, oss öllum að því leyti við, að þegar guðsorð og samvizka vor bjóða oss að verja eigum vorum til almenníngs heilla eða eflíngar guðsríkis, þá megum vèr ekki skorast undan því, heldur eigum vèr að vera reiðubúnir til að leggja allt og jafnvel lífið í sölurnar fyrir Krists sakir. Frelsari vor vill einúngis draga vor hjörtu frá hinum tímanlegu fjármunum, svo þeir dragi oss ekki frá Guði, og hann varar oss svo opt og alvarlega einúngis við því hinu holdlega hugarfari, sem metur auðinn mest af öllu, og heldur, að hann sè þau æðstu gæði. þetta er líka meiníng

þessara hans orða: „safnið yður ekki auðæfum í heimi þessum, hvar mölur og ryð eta þau og hvar þjófar grafa til og stela; safnið yður heldur auðæfum á himnum, hvar þeim hvorki grandar mölur eða ryð, nè þjófar grafast til þeirra og stela þeim; því hvar sem auðæfi yðar eru, þar er og yðvart hjarta" (Matth. 6., 19.—21.). Að vísu lítur það svo út, eins og hinum fyrstu kristnu hafi komið til hugar, að einginn ætti að eiga meira enn annar, því hinir efnuðu seldu fasteignir sínar og feingu söfnuðinum andvirðið í hendur; en þetta gjörði hver eptir eigin vild, án þess það væri fyrirskipað, og mátti þó hæglega koma þessu við þá, meðan kristinn söfnuður var lítill og fráskilinn borgaralegu fèlagi. Því síður varð slík skylda lögð kristnum mönnum á herðar, þegar fráleið og söfnuðurinn óx og sameinaðist þjóðfèlaginu, og til þess gefur ekki heldur Jesú lærdómur neina ástæðu, því hann miðar þvert á mót, til að styrkja og helga þau bönd, sem halda þjóðfèlaginu saman. Frelsarinn, sem bauð „að gefa keisaranum það sem keisarans væri", hlaut og að vilja, að hver og einn feingi að halda því, sem hans væri, því án þess getur mannlegt fèlag ekki staðizt. Í þessu lífi hverfur aldrei mismunurinn á hinni ytri lífsstöðu mannanna; þess er ekki að vænta fyrr enn í öðru lífi, að hinir veraldlegu yfirburðir og ójöfnur líði undir lok; þar verða margir fyrstir hinir síðustu, og margir síðastir hinir fyrstu. Þó má í vissu tilliti svo að orði kveða, að sá mikli mismunur, sem er á háum og lágum, ríkum og fátækum verði þegar hèr í lífi nokkuð mínkaður fyrir eðallyndi og mannelsku hinna ríku og fyrir iðjusemi og þolinmæði hinna fátæku, en um fram allt fyrir það kristilega hugarfar, sem aptrar hjarta mannsins frá að festast of mjög við hið jarðneska og gjörir sèrhvern ánægðan með sitt hlutskipti. Til þessa guðrækilega hugarfars heyrir, að þeir, sem eru öðrum æðri og fremri, gleymi því aldrei, að þeir í Guðs augum eru fátækir, syndugir og dauðlegir menn, og að hinir, sem þjóna öðrum og vinna fyrir þá, gjöri það ekki einúngis mannanna vegna, heldur Guði til vilja, og meti meir hina himnesku arfleifð enn nokkur jarðnesk laun; að hinir æðri og lægri sèu mannlegri valdstètt hlýðnir vegna Drottins; að þeir, sem minna hafa þegið af gæðum þessa heims, hugsi eins og postulinn: „guðhræðsla með nægjusemi er mikill ávinn-

íngur“, og að hinir, sem meira er lánað, hafi jafnan hugföst þessi Jesú aðvörunarorð: „hvað gagnar það manninum, þó hann eignist allan heiminn, ef hann líður tjón á sálu sinni“? það sem snertir vora eilífu sáluhjálp er oss öllum sameiginlegt. Í sínu heilaga orði lætur Guð boða oss öllum, í hverri stètt og stöðu sem vèr erum, að eins og vèr allir erum skapaðir í Guðs mynd, en fallnir í synd og hvorfnir frá honum, eins verðum vèr og frelsaðir frá synd og dauða, ef vèr með einlægri iðrun trúum á hans eingetinn son, sem vor vegna varð maður og gekk í dauðann. Fyrir hann getum vèr, sem bræður og systur, orðið Guðs börn og erfíngjar hans himneska ríkis. þetta er sá rètti jöfnuður meðal mannanna og sá eini, sem hèr á jörðu getur átt sèr stað. Að öðru leyti er ekki eins mikill munur á kjörum mannanna eins og menn almennt halda, þegar litið er til þeirrar sönnu ánægju eða gleði, sem þeir hafa af stundlegum gæðum. Margir, sem baða í rósum og geta notið allrá lífsins unaðsemda, hafa þó að stríða við heilsuleysi eða eitthvað mótdrægt, svo þeir vildu fegnir óska sèr að vera í hinna sporum, sem þurfa að vinna baki brotnu, en þekkja ekki til þeirrar áhyggju og þess andstreymis, sem upphefð og auðlegð einatt er samfara. Af eingu sjáum vèr betur, að lífsins sanna farsæld er ekki komin undir ríkidæmi, eða öðrum tímanlegum gæðum, enn af því, að sjálfur frelsarinn lifði í fátækt og lítilmótlegri stöðu. Væri það vor æðsta ákvörðun hèr í lífi, að afla oss fjár og frama, „klæðast purpura og dýrindislíni og lifa hvern dag í dýrðlegum fögnuði“, mundi þá ekki Jesús, sem oss er settur til fyrirmyndar, hafa kostað kapps um þetta? og hve hægt hefði honum veitt að eignast öll ríki veraldarinnar og þeirra dýrð? En hann fæddist í fátækt, hann lifði og dó í fátækt. „Refar hafa holur“, sagði hann, „og fuglar himins skýli, en mannsins sonur hefur hvergi höfði sínu að að halla“ (Matth. 8., 20.). Hversu ríkur var hann þó ekki í sinni fátækt! Hvað er allt gull og silfur, góz og garðar, hvað eru öll þau metorð og þær nafnbætur, sem hinir voldugustu konúngar þessarar veraldar geta sæmt aðra með, í samanburði við þá ráðstöfun, sem Jesús hefur eptir sig látið og staðfest með sínu dýrmæta blóði, og sem gjörir oss að erfíngjum guðsríkis og þess eilífu dýrðar! „Einginn ónýtir þá ráðstöfun manns, sem

staðfest er", segir postulinn Páll (Gal. 3., 15.). þegar þessi ráðstöfun snertir tímanlega fjármuni, þá flýtir erfínginn sèr að ná þeim undir eins og eigandinn er dáinn. En þegar talað er um ráðstöfun, sem Jesús hefur gjört, þá hirða fæstir um að tileinka sèr þau náðarinnar auðæfi, þá himnesku fjársjóði og það eilífa sæluhnoss, sem hann hefur heitið öllum sínum trúlyndu lærisveinum. Já, menn ekki einúngis hirða lítið um þetta, heldur einnig fyrirlíta það, af því þeir þekkja það ekki og finna ekki, að þeir hafa þess þörf, heldur þykjast vera einfærir um að efla sína tímanlegu og eilífu farsæld. En „sælir eru þeir, sem eru andlega volaðir", segir Jesús, „því þeirra er himnaríki".

II.

En hvað er það, að vera andlega volaður? Í hverju er andleg fátækt innifalin? Í þeirri viðurkenníngu, að vèr sèum aumir og syndugir menn; með því játum vèr ekki einúngis vorn breyskleika og veikleika, heldur einnig vora syndasekt, sem vèr höfum safnað frá blautu barnsbeini, en getum ekki borgað, og að vèr verðskuldum ekki annað enn eymd og útskúfun frá Guðs augliti. En eru þá ekki allir menn eptir þessu andlega volaðir? og hvernig getum vèr orðið sælir fyrir það, eða fyrir þá skuld átt von á himnaríki? þetta svarar sèr sjálft þegar vèr lesum leingra áfram í þessa dags heilaga guðspjalli; því frelsarinn sýnir oss þar hugarfar þeirra, sem hann kallar andlega volaða. Hann kallar þá þessu nafni, sem játa syndir sínar og hryggjast af þeim. þess vegna segir hann og rètt á eptir: „sælir eru þeir, sem harma, því þeir munu huggaðir verða". Hann meinar þá sem eru hryggvir af syndum sínum, sem finna til „hryggðar eptir Guði, er afrekar betrun til sáluhjálpar". þess vegna talar hann og enn fremur um „hógværa", sem af Guðs náð hafa feingið huggun, frið og sálarrósemi, og ekki finna til annarar óþreyju enn þeirrar, sem sprettur af húngri og þorsta þeirra eptir rèttlætinu, eptir því, sem endurnærir sálir þeirra. þess vegna er og helgunin, sem á að koma á eptir rèttlætíngunni, berlega tekin fram með þessum orðum: sælir eru miskunsamir, hreinhjartaðir, þeir sem friðinn semja og þeir sem ofsóktir verða fyrir rèttlætisins og Kristi

sakir. Hið fyrsta stig á vorum helgunar vegi er þannig, að vèr finnum til vorrar syndasektar og könnumst við hana. Og hversu auðvelt ætti þetta að vera fyrir oss! Vèr eigum að elska Guð yfir alla hluti og náúngann eins og sjálfa oss; en hver gjörir þetta eins og hann á að gjöra? Megum vèr ekki þvert á mót allir viðurkenna, að vèr höfum brotið Guðs boðorð margfaldlega í hugsunum, orðum og verkum? Og þó láta menn aptur augun af lèttúð og skeytíngarleysi og vilja ekki sjá sína syndaskuld! Hinni andlegu fátækt er opt eins varið og hinni tímanlegu; menn verða hennar ekki ætíð varir, nè kannast við hana. Sumir eru í stórskuldum og lifa þó eins og þeir væru flugríkir. Þeir leyna fjárhag sínum, ekki einúngis fyrir öðrum út í frá, heldur og fyrir sjálfum sèr, eða að minnsta kosti fyrir konu og börnum. Þeir hafa eingan jöfnuð á tekjum sínum og útgjöldum; safna svo skuldum þángað til þeir verða gjaldþrota. Þar á mót gæta aðrir að sèr í tíma, og þeim tekst með sparnaði og reglusemi að rètta við fjárhag sinn. Eins er þessu varið í andlegum efnum. Sumir eru í annara augum, að minnsta kosti í sínum eigin augum, ríkir af trú og kærleika og öllum kristilegum dyggðum, þó þeir eigi ærna skuld að gjalda Guði, sem rannsakar hjörtun og nírun. Aptur verða aðrir með hryggð og ángri varir við eymdarástand sálar sinnar, og ef þeir flýja til frelsara síns með einlægri iðrun, með lifandi trúnaðartrausti, með þakklátum, elskandi og bljúgum hjörtum, þá verða þeir sælir einmitt sökum sinnar andlegu fátæktar, það er að skilja, sökum Krists friðþægíngar, sem þeir í auðmýkt reiða sig á, en ekki á sitt eigið rèttlæti, og sem ekki einúngis afrekar oss syndanna fyrirgefníngu, heldur einnig leggur oss lið og krapta til að byrja nýtt líf og vinna sigur yfir heiminum og vorum syndsamlegu tilhneigíngum. „Ráðstafa þínu húsi, því þú hlýtur að deyja"! Þannig ávarpar oss á hverjum degi bæði hin dauða náttúra og tímans hraða rás. En vèr gefum því ekki gaum. Vèr drögum reikníngsskapinn á frest dag eptir dag og ár eptir ár, þángað til dauðinn kemur loksins að óvörum og rekur oss af eignum vorum og sviptir oss öllum vorum jarðnesku fjármunum. Þá verður reikníngsskapurinn heimtaður af oss, og aumlega staddir erum vèr þá, ef vèr hèr í lífi aldrei höfum hirt um að gjöra upp reikníngin. Margir halda, að það sè

nógur tími til þessa á sóttarsænginni. En hversu óvíst er ekki þetta, kristinn maður! áttu það víst að leggjast veikur áður enn þú skilur hèr við? Getur það ekki hæglega skeð, að þú dettir niður dauður þar sem þú situr, stendur eða geingur? Og þó það liggi fyrir þèr að leggjast í banasængina, er það þá líklegt, að þú þjáður af kvöl og pínu og ef til vill rænulaus getir unnið það verk, sem þú áttir svo bágt með að fá þig til á heilbrigðu dögunum? Ættum vèr þá ekki í tíma að búa oss undir þessa mikilvægu stund, sem vèr ekki getum hjá komizt, og sem leiðir yfir oss annaðhvort eilífa gleði eða eilífa ángist? Ættum vèr ekki fyrst og fremst með einlægri sjálfsprófun að læra að þekkja vora syndaskuld, og þegar vèr höfum það gjört og verðum þess varir, að vor mörgu brot og ávirðíngar spretta af Guði fráhverfu hugarfari, ættum vèr þá ekki að flýja til hans, sem einn getur hjálpað oss, sem kom í heiminn til þess að frelsa oss frá synd og dauða? Æ, flýum til hans, sem er vor mesti velgjörari, voldugur og ríkur, alvitur og gæðskuríkur! hann veitir oss það lífsins brauð, sem seður og endurnærir oss að eilífu; hann vill auðga oss á himnum og jafnvel hèr á jörðunni; auðga oss með því, sem meira er í varið, enn alla veraldarinnar muni, og sem eitt saman getur veitt oss sanna gleði; auðga oss með ástgjöfum andans og náðarinnar, með þekkíngu, sannfæríngu og trúnaðartrausti, hugsvölun og friði, þolinmæði og von, þakklátsemi og kærleiksfullu hjarta. Þessi náðarinnar auðæfi, sem einginn veraldlegur máttur getur svipt oss, sem gjöra oss ánægða í mótlætinu, þolinmóða í þjáníngunum, hughrausta í dauðanum og sæla í eilífðinni, sem þegar hèr í tímanum mitt í eymdum og andstreymi opna fyrir oss guðsríki í hjörtum sjálfra vor — eru þau ekki þess verð, að vèr sækjumst eptir þeim og eignumst þau? Ættum vèr að meta þau minna enn tímanlega fjármuni, sem geta brugðizt oss þegar minnst varir, sem vèr í dauðanum ekki höfum annað eptir af enn söknuð og tómleika, og hinu megin grafarinnar ekki annað enn ángist og kvöl, ef vèr hèr í lífi ekki höfum sókzt eptir öðru enn því, sem er stundlegt og stopult? Fátækir erum vèr allir. Jafnvel af tímanlegum gæðum vantar hina ríku ætíð eitthvað til þess þeir þykist vera sælir. Fátækir erum vèr einkanlega af því, sem er andlegt og eilíft. Æ, að vèr gættum

þess í tíma og flýðum til Guðs náðar, sem aldrei þrýtur og þreytist! Við fátækt vora megum vèr kannast, ekki einúngis þegar vèr hugsum til vorra synda og afbrota, heldur og við íhugun þess, hversu breyskir vèr erum og hve veikar og ófullkomnar allar vorar dyggða tilraunir eru; af hjarta megum vèr játa, að allt gott, sem vèr eigum, og það lítið gott, sem vèr gjörum, það er allt Guðs gjöf og hans verk, því „Guð er sá, sem verkar í oss bæði viljann og máttinn eptir sinni velþóknun". það sè því fjarri oss, að hrokast upp af veraldlegri auðlegð eða andlegum yfirburðum, því allt höfum vèr þegið og erum ónýtir þjónar. Æ, Drottinn! láttu oss finna til þessa; láttu það innræta oss auðmýkt og undirgefni undir þinn vilja; láttu oss aldrei gleyma því, að þú „mótstendur dramblátum, en gefur auðmjúkum og lítillátum þína náð", og að þín náð er uppspretta allrar sannrar farsældar og blessunar um tíma og eilífð! Amen.

---

## Á tuttugasta og fjórða sunnudag eptir trinitatis.

### Bæn.

Miskunsami himneski faðir! lífdagar vorir leika í þinni hendi, þú ert herra lífsins og dauðans. Kenndu oss að lifa svoleiðis, að vèr með sannarlegri djörfúng getum tekið dauða vorum. Láttu oss jafnan hafa það hugfast, að æfidagar vorir eru ætlaðir til erfiðis, til að efla vora sáluhjálp í þínum ótta. Æ, þitt alskyggna auga sèr bezt, hvernig vèr híngað til höfum varið lífsins dýrmætu stundum; æ, sannfærðu oss um það, hversu það er heimskulegt og ófarsælt, að eyða þeim í iðjuleysi og sóa þeim í syndarinnar og heimsins þjónustu. Vektu hjá oss einlæga iðrun og ángur af hirðuleysi voru, og þann staðfasta ásetníng að vinna trúlega það verk, sem þú hefur oss í hendur feingið, meðan dagur er, og jafnan hugleiða, að nóttin kemur, þá einginn fær erfiðað, og reiknúngsskapardagurinn upp rennur, þá sèrhver verður dæmdur eptir sínum athöfnum! Styrk þú oss til allra góðra verka í Jesú nafni! Amen.

## Guðspjallið

(Matth. IX., 18.—26.).

**Þegar Jesús talaði þetta til þeirra, kom þar að höfðíngi nokkur, sem bað hann og sagði: dóttir mín er nýsáluð, en kom þú og legg hönd þína yfir hana, þá mun hún lifna. Jesús stóð upp og fylgdi honum, og líka hans lærisveinar. En kona nokkur, hver eð hafði blóðfall haft í tólf ár, gekk að baki Jesú og snerti fald klæðnaðar hans; því hún sagði við sjálfa sig: mætti eg að eins snerta klæðnað hans, mundi eg verða heilbrigð. Jesús snèri sèr við, leit til hennar og sagði: vertu hughraust, dóttir! trú þín gjörði þig heilbrigða; á sömu stundu varð konan heilbrigð. En þegar Jesús kom inn í höfðíngjans hús, og sá þar lúðurþeytara og þys fólksins, sagði hann: farið þèr í burtu, því stúlkan er ekki dauð, heldur sefur hún; en þeir hlóu að honum. Þegar fólkið var komið út, gekk Jesús þar inn, tók um hönd stúlkunnar, og hún stóð upp, og barst fregnin um þetta út um allt það hèrað.**

### Inngángur.

Hið upplesna guðspjall sýnir oss eitt af óteljandi dæmum upp á það, að dauðinn hlífir eingum aldri frá atlögu sinni. Frá sóttarsæng dauðvona dóttur skundar hryggur og harmþrúnginn faðir á Jesú fund með þessi sorgartíðindi: „dóttir mín er nýsáluð", og í trausti til Jesú almættis biður hann hann, að koma og leggja hönd sína yfir hana til þess hún geti lifnað við. Og Jesús bænheyrði hann, stóð upp og fylgdi honum. En áður hann uppvekti dóttur hans frá dauðum, fullvissaði hann þá viðstöddu um, að hún væri ekki dauð, heldur svæfi. En þeir trúðu honum ekki; þeir sáu ekki, hvað þessi orð: „stúlkan er ekki dauð, heldur sefur hún", voru hátignarfull, huggunar og lærdóms rík; því einginn gat talað þau, nema hann, sem hafði vald yfir dauðanum, hann, sem var upprisan og lífið; huggunar og lærdóms rík voru þessi orð, ekki einúngis

fyrir náúnga þessarar framliðnu stúlku, heldur og fyrir alla eptirþreyjandi ástvini framliðinna, og fyrir oss alla; því með þessum orðum hefur Jesús sýnt oss, að dauðinn er ekki annað enn vær og fastur svefn; og hvílíkan lærdóm hefur ei þessi hugsun að geyma, hvort heldur vèr lítum til þessa lífs og þess ætlunarverks, sem Drottinn hefur feingið oss hèr að vinna, eða til eilífðarinnar og þeirra kjara, sem þar bíða vor, þegar vèr aptur vöknum af dauðans svefni. Látum oss því, mínir elskanlegú! á þessari guðræknisstundu taka þá hugsun til frekari hugleiðíngar: *að dauðinn er svefn.*

þessi hugsun, að dauðinn er svefn, á fyrst að hvetja oss til að verja vel þessu lífi, sem er sá erfiðistími, sem Guð hefur úthlutað oss. Svefninn er vanur að vera sætastur og værastur hjá þeim, sem leggjast lúnir til hvíldar að loknu erfiði dagsins, og eins búum vèr oss undir væran dauðasvefn með því, að verja æfidögum vorum til nytsamlegs erfiðis. Og með sanni má kalla æfidaga vora erfiðistíma, því mikið og áríðandi er það verk, sem vèr eigum að vinna; það er mikið, því það innibindur í sèr skyldur við Guð, sjálfa oss og aðra; það er áríðandi, því undir því er komin vor andlega, tímanlega og eilífa farsæld, og því kallar frelsarinn það, að afla sèr þeirrar fæðu, sem varir til eilífs lífs, og postulinn Páll kallar það, að efla sína sáluhjálp með áhyggju og andvara, og að safna sèr í fjársjóðu góðum stofni til hins ókomna. það er raung og skaðleg ímyndun, að hugsa, að það sè nóg að gegna einstöku skyldum, sem oss falla lèttast og vèr erum lundlægnastir á, en að vèr megum vanrækja allar aðrar skyldur. Um leið og kristileg trú brýnir fyrir oss kærleikann, sem hið æðsta boðorð og uppfyllíngu lögmálsins, býður hún oss undantekníngarlaust, að uppfylla allar vorar skyldur, því þær eiga allar rót sína í kærleikanum. Sú umhyggja, sem vèr eigum að bera fyrir sál og líkama, það kapp, sem vèr eigum að leggja á vora uppfræðíngu, svo vèr getum breytt eins og skynsemi gæddar verur og góðir borgarar mannlegs fèlags, sú trúmennska og árvekni, sem vèr eigum að sýna í vorri köllun, í þeirri stètt og stöðu, sem sèrhverjum af oss er úthlutuð: allt þetta er vant að vera mikilli fyrirhöfn og erfiðismunum bundið. Og ættum vèr ekki

jafnan að hafa þetta hugfast, svo vèr ekki sóuðum burtu æfi vorri, annaðhvort í iðjuleysi, eða til þeirra athafna, sem eru syndsamlegar og skaðlegar fyrir sjálfa oss og aðra? Ættum vèr ekki jafnan að hafa það hugfast, að þetta líf er stutt og stopult, að það er opt á enda fyrr enn oss varir, og ætti ekki þessi umhugsun að hvetja oss til að erfiða meðan dagur er? En ættum vèr ekki líka að hafa það hugfast, að alúð og árvekni í vorri stundlegu köllun, í vorum jarðnesku störfum, er ekki einhlít til þess, að vèr fáum varið lífsins degi vel sem erfiðistíma, ef vèr gleymum því erfiði, sem er allra nauðsynlegast og mest áríðandi: að efla vora sáluhjálp með ótta og andvara, að leitast við að betra vor hjörtu, að hreinsa oss af allri saurgun holdsins og andans, en taka æ meiri og meiri framförum í dyggð og guðsótta? þetta er það sèrlegasta og mest áríðandi verk, sem Guð hefur feingið oss að vinna. Og hvílíkan tíma, árvekni, alúð og kostgæfni þarf ekki til þess að vinna það vel og trúlega! það er ekki fyrirhafnarlaust, að gróðursetja Guðs þekkíngu hjá þeim, sem einga lyst eða laungun hafa til að þekkja Guð og hans vilja; það er ekki fyrirhafnarlaust, að uppræta syndarinnar illgresi úr mannlegu hjarta, en gróðursetja þar aptur elsku til hins góða; það er ekki fyrirhafnarlaust, að sigra þann mótþróa og mótspyrnu, sem mannlegt hjarta veitir áhrifum guðlegrar náðar, yfirbuga þær viðbárur og afsakanir, sem menn fegra með yfirsjónir sínar og ávirðíngar, og sem koma þeim til að skjóta á frest iðrun sinni og apturhvarfi. Og þegar iðrunarverkið fyrir Guðs náð er nú byrjað hjá manninum, og hann er sjálfur farinn að fá laungun og krapta til líffernisbetrunar, þá er það þó ekki fyrirhafnarlaust eða svipstundar verk, að halda betrun sinni áfram, að sigrast á syndsamlegum tilhneigíngum, að stjórna skapi sínu og geðshræríngum, að standa af sèr tillokkanir og tálsnörur heimsins, að læra þolinmæði og undirgefni undir Guðs vilja, að útrýma eigingirninni og heimselskunni úr hjartanu og gjöra það hæfilegt fyrir íbúð Guðs orðs og anda. Ó, hve fjarri eru þeir því, að skilja rètt tilgáng og þýðíngu þessa lífs, sem sjaldan eða aldrei hugleiða þetta, sem í hugsunar- og hirðuleysi sóa burt sínum fáu en þó svo dýrmætu lífsstundum, sem láta straum tímans bera sig fram í hið mikla eilífðar haf, án þess að hafa feingið Guð sèr

til fylgdar á lífsleiðinni, og hugsað til þess í tíma að ná friðarins höfnum. Sæll er því sá, sem jafnan gætir sinnar tímanlegu og eilífu köllunar, sem jafnan man til þess, að hann á að verja vel þeim náttúrunnar, lukkunnar og náðarinnar gæðum, sem Guð hefur gefið honum, sem aldrei gleymir því, að hann á með erfiði sínu að leita Guðs dýrðar, en ekki sinnar eigin dýrðar, og að hann bezt eflir sína eigin farsæld með því að efla annara. Sá, sem jafnan hefur þetta hugfast í breytni sinni, getur ókvíðinn og venglaður tekið úthalli æfidagsins, ókvíðinn og venglaður litið dauðans nótt nálgast og upprenna, þegar hann með frelsarans dæmi fyrir augum hefur unnið verk sinnar köllunar meðan dagur var. Sá sem þannig ver lífdögum sínum sem erfiðistíma, getur í Guðs nafni geingið ókvíðinn til hvíldar á grafarinnar beð, og vænt þess, að dauðasvefninn verði vær og sætur. Manninum er, eins og öllum lifandi skepnum, innrættur ótti fyrir dauðanum, og það væri ekki furða, þó maðurinn óttaðist dauðann meir enn aðrar skepnur, af því hann sèr betur enn þær eðli og afleiðíngar dauðans. Eingum mun þykja það vandalaust verk að deyja, sem með alvöru hugsar um þetta seinasta mest umvarðandi fótmál, er flytur oss úr tímanum inn í eilífðina, annaðhvort í eilífa sælu eða eilífa ófarsæld. Þar eð nú dauðinn er syndarinnar hegníng, þar eð hann slítur sundur þau sterku bönd, sem samtengja sál og líkama, og sviptir oss öllum unaði og gleði lífsins, hrífur oss úr faðmi ástvina vorra og flytur oss fram fyrir dómstól Drottins, er dæma mun sèrhvern eptir því, sem hann í líkamans lífi hefur aðhafzt gott eða illt — er þó ekki þessi mikla breytíng á kjörum vorum þess verð, að vèr gaumgæfilega hugleiðum hana? eða er hún svoleiðis löguð, að vèr án alls ótta getum hugsað til hennar? Vèr hljótum að varast að taka lèttúð fyrir djörfúng og hugprýði, eða halda, að þeir hafi burtrýmt öllum ótta fyrir dauðanum úr brjósti sínu, sem tala um hann með nokkurs konar skeytíngarleysi, og bíða hans með nokkurs konar frekju. Orsökin til þessa er opt annaðhvort hugsunarleysi eða óánægja með þetta líf, eða uppgerðarhugrekki. Og opt hefur reynslan sýnt, að þeir, sem töluðu um dauðann með fyrirlitníngu, og geingu hlæjandi móti honum, urðu skyndilega ótta-

slegnir, þegar hann nálgaðist þá, og fundu að síðustunni til beiskju hans. Það er því ekki furða, þó guðsbörn, sem sjá hvað mikið undir því er komið að deyja vel og kristilega, geti ekki ætíð án nokkurs konar ótta hugsað til dauða síns; það er ekki furða, þó dauðastríðið á stundum verði þeim þúngbært, og þó þau kunni á dauðastundunni að seilast með skjálfandi hendi eptir því himneska hnossi. En verður þessum ótta fyrir dauðanum ekki burtrýmt? verður ekki sá kvíði sefaður, sem sannarleg guðsbörn stundum bera fyrir þessum síðasta óvini, svo þau geti tekið honum með sannarlegri djörfúng? Hið bezta og einasta meðal til þessa er að skoða dauðann, eins og guðsorð kennir öllum sannkristnum að skoða hann, ekki sem hegníngu, heldur sem ábata, inngáng til annars betra og sælla lífs, sem vor frelsari hefur opnað oss aðgáng til. Þá verður dauðinn ekki leingur óttalegur, ekki leingur óvinur, heldur vinur þeirra, sem deyja í samfèlagi við Jesúm, sendur til að frelsa þá frá eymd og andstreymi þessa lífs, og flytja þá í eilífa sælu. Þá þurfa þeir ekki leingur að óttast þann reikníngsskap, sem þeir eiga að lúka, því þeir vita, að dómarinn er ekki einúngis heilagur og rèttlátur, heldur og náðugur og miskunsamur, og fyrir Jesúm Krist friðþægður faðir. Skeð getur, að ángist og ótti gagntaki þá á dauðastundunni, og að dauðastríð þeirra verði hart og þúngbært, en þó munu þeir að lokunum vinna sigur; þeir eru stríðsmenn Jesú Krists, og það er eins og þeir enn í dauðanum berjist með annari hendi, en grípi með hinni hið eilífa hnossið, lífsins eilífu kórónu; þeir eru eins og ferðamenn, sem við enda leiðar sinnar mæta einhverjum torfærum og farartálma; en þetta sigra þeir allt saman, og hinn þreytti ferðamaður geingur til hvíldar, og dauðinn verður honum vær og endurnærandi svefn. Að vísu verður líkaminn aptur að moldu, sem hann er kominn af, en hann hvílist þá af þjónustu syndarinnar og er laus við þann kránkleika og veikleika, sem hann hèr var háður. Endurnærandi hvíld er dauðinn fyrir sálu þess, er deyr í Drottni; því þó hún sofni ekki þegar hún skilur við líkamann, þá frelsast hún frá allri saurgun syndarinnar, losast við alla óreglu girnda og geðshræríngа, sem í þessari syndum spilltu veröld einatt raskaði friði og rósemi hennar. Þó þess vegna dauði allra manna yfir höfuð kallist svefn, þá er þó

þessi samlíkíng í heilagri ritníngu sèr í lagi höfð um dauða trúaðra. þar er sagt, að þeir sem þjóni Drottni inngángi í frið og hvílist eins og í hvílurúmum sínum. „Lazarus vinur vor sefur", segir Jesús, „og eg fer að uppvekja hann". Og postulinn Páll, sem víða samlíkir dauðanum við svefn, hefur þessa samlíkíngu einúngis þar, sem hann talar um dauða trúaðra. það er enn þá eitt, sem hlýtur að lina dauðans beiskju hjá sannarlegum guðsbörnum, og burtrýma öllum ótta fyrir honum, og það er þetta: að þeir, sem í Kristi burt sofna, munu á síðan verða uppvaktir; og sú hugsun, að dauðinn líkist svefni, styrkir því vonina um dýrðlega upprisu hjá öllum sannkristnum.

Eins og dauða sannkristinna manna í heilagri ritníngu er samlíkt við svefn, þannig er og talað um upprisu þeirra, eins og þeir sèu vaktir af svefni. „það er vilji þess, er mig sendi", segir Jesús, „að eg glati eingum af þeim, sem hann gaf mèr, heldur uppveki hann á efsta degi". Og á sama stað segir hann: „það er vilji þess, sem mig sendi, að hver, sem sèr soninn og trúir á hann, hafi eilíft líf, og eg mun uppvekja hann á efsta degi". „þèr vitið", segir postulinn Páll, „að hann, sem uppvakti Drottin Jesúm, mun og uppvekja oss fyrir hann". Og þessi samlíkíng á sèrlega vel einkum við upprisu hinna guðhræddu; hún sýnir, að eins og svefninn ekki varir nema um stundar sakir, eins muni aðskilnaður sálar og líkama ekki vara æfinlega, og að rödd Guðs sonar muni á síðan kalla þá, eins og alla, til að upprísa úr gröfunum; en þessi samlíkíng sýnir líka upprisunnar dýrðlegu afleiðíngar. Eins og hinn þreytti erfiðismaður afþreytist með svefninum og safnar nýjum kröptum til vinnu sinnar, eins verður sannkristinn maður í dauðanum viðskila við þann veikleika, breyskleika og ófullkomleika, sem fylgdu honum í þessu lífi, og safnar í upprisunni nýjum kröptum til að halda áfram því sælufulla verki, sem hann þegar hèr í lífi hafði byrjað, að þekkja og elska Guð og gjöra hans vilja. Postulinn Páll kennir oss, að þekkíng vor á Guði muni í eilífðinni verða lángt um skýrari og greinilegri enn nú; „nú sjáum vèr", segir hann, „í þoku og ráðgátu, en þá munum vèr sjá augliti til auglitis; nú þekkjum vèr að nokkru leyti, en þá mun eg þekkja eins og eg er sjálfur þekktur". Upprisa guðsbarna er því innifalin í því, að þau vakna til að

sjá Guð, til að skoða dýrð hans og dásemdarverk, vakna íklædd dýrðlegum líkama til að lifa eilífu sælufullu lífi. Vissu fyrir þessu höfum vèr í Guðs opinberaða orði. Að vísu þykist mannleg skynsemi geta ráðið í það og sèð það með nokkurn veginn vissu, að í dauðanum muni einhver breytíng komast á tilveru vora, svo að vèr hinu megin grafarinnar fáum laun eða sætum hegníngu fyrir breytni vora hèr. En skynsemin sèr ekki nema nokkurs konar bjarma þess; Jesús hefur leitt í ljós lífið og ódauðleikann. Hann var upprisan og lífið, og eins og hann með guðlegu valdi kallaði aptur aðra til lífsins, þannig varð hann og með sinni upprisu frumgróði allra þeirra, sem burtsofnaðir eru, eins og postulinn Páll að orði kemst; hann inngekk til sinnar dýrðar, og hèt að tilbúa þar öllum sínum elskendum stað, og postulinn skoðar dýrðlega upprisu trúaðra sem ávöxt og afleiðíng af Jesú upprisu; „því ef vèr trúum því", segir hann, „að Jesús sè dáinn og upp aptur risinn, þá mun Guð sömuleiðis fyrir Jesúm leiða til sín þá sem sofnaðir eru". Ó, hvílík huggun er það ei fyrir alla sannkristna að vita, að þeir muni upp aptur vakna í samfèlagi við þeirra frelsara, að vita að borgarrèttur þeirra er á himnum, hvaðan þeir vænta Drottins vors Jesú Krists, sem mun ummynda þeirra auðvirðilega líkama, svo hann verði líkur hans dýrðarlíkama eptir þeim krapti, með hverjum hann megnar að leggja allt undir sig.

Látum oss, mínir elskanlegu! enn þá einu sinni brýna fyrir oss þessa hugsun, að dauðinn er svefn, látum hana vara oss við að sóa burt í synd og svefni lífsins dýrmætu stundum, en hvetja oss til að verja þeim vel, svo vèr fáum væran dauðasvefn, og megum aptur uppvaknaðir inngánga til þeirrar sælu, sem guðsbörnum er heitin.

Svæfðu ekki samvizku þína, syndugur maður! þegar hún ætlar að vakna, og þegar hún ásakar þig fyrir tómlæti og hirðuleysi í að leita Guðs ríkis og hans rèttlætis; gjörðu þèr ekki far um að gleyma dauða þínum, eða hrinda burt umhugsun um hann. Þó þessi umhugsun sè þèr óþægileg, meðan þú lætur eptir girndum þínum og syndin hefur yfirráð í hjarta þínu, þá er hún þèr þó næsta nauðsynleg og ómissandi til að sannfæra þig um, að með þessu hugarfari og háttalagi getir þú ekki vænt þèr rólegs dauðasvefns, til að minna þig á þann

reiknıngsskap, sem fyrir þèr liggur, og hans ófarsælu afleiðíngar fyrir þig í eilífðinni. Hlýddu því náðarinnar rödd, sem kallar þig til iðrunar og apturhvarfs! „Vakna þú sem sefur og rís upp frá dauðum, þá mun Kristur lýsa þèr“! Enn þá er tími til að vakna af syndanna svefni, að afleggja myrkraverkin og íklæðast hertygjum ljóssins; en kvöldrökkur æfinnar rennur upp og nóttin nálgast, og svefn dauðans getur sigið á þig áður enn þig varir, og þá er of seint að vakna; því á eptir dauðanum kemur dómurinn. En þú, guðhræddi, sannkristni maður! leitaðu þèr huggunar í þeirri hugsun, að dauðinn er svefn! Þú sem daglega býr þig undir dauðann og leitar þinnar helgunar með bæn til Guðs, trúmennsku í þinni köllun og ástundun í að gjöra Guðs vilja, láttu þèr ekki leiðast erfiði þitt, þótt þú kunnir að eiga við margt að stríða bæði innra hjá sjálfum þèr, og í heiminum fyrir utan þig. Óskaðu þèr ekki dauðans til að stytta lífsins mæðustundir, því þær eru þèr úthlutaðar af Drottni til að efla þína helgun og sáluhjálp. En fagna þú líka, þegar lausnartími þinn nálgast, þegar þú fær að flytja hèðan á friðarins land og vera með Kristi. Þó öll þín verk sèu ófullkomin, þá láttu það ekki vekja hjá þèr hræðslu við dauðann; ekkert er fullkomið í augum hins alfullkomna, nema rèttlæti hans eingetna sonar, og þetta verður þèr tilreiknað, þegar þú vinnur í trúnni á hann. Guð lítur einúngis á hjartalagið, á hreinskilni og einlægni vilja þíns, og hafir þú hèr í auðmýkt og undirgefni undir Guðs vilja leitað þinnar eilífu ákvörðunar, þá muntu uppskera trúrra þjóna verðlaun í eilífðinni. Hugglaður getur þú þá beðið dauða þíns, huggladur í dauðanum hneigt höfuð þitt og lagzt til hvíldar á grafarinnar beð, og með ódauðleikans von og vissu og eilífðarlaungun í brjósti þínu útaf sofnað. Gefðu oss, Drottinn! náð til þess að verja vorum lífdögum svoleiðis, að vèr eptir dauðans nótt vöknum á eilífðarinnar morgni í ljóssins og sælunnar himnesku bústöðum! Amen.

---

## Á tuttugasta og fimmta sunnudag eptir trinitatis.

### Bæn.

Himneski gæðskurfki Guð og faðir! Þú hefur kennt oss í þínu orði, að þú hafir tilsett dag, og að á honum munir þú dæma lifendur og dauða og útbýta sèrhverjum launum. eða hegníngu eptir því, hvort hann í þessu lífi hefur aðhafzt gott eða illt. Þú ert eilífur Drottinn og dómari! og þínir dómar birtast einnig hèr í tímanum í mannkynssögunni og í samvizkum vorum; hèr eru þeir vekjandi, áminnandi og aðvarandi, en á síðasta degi ákveða þeir eilíf kjör allra manna. Æ, gefðu oss náð til þess, að gefa gaum að þínum dómum, að dómi sögunnar og samvizkunnar, svo vèr ekki gaungum í andvaraleysi gegnum þetta líf, heldur eflum vora sáluhjálp með ótta og andvara og höfum jafnan hugfast, að vèr á síðan eigum að mæta fyrir þínum himneska dómstóli og standa þèr reikníngsskap af því, hvernig vèr höfum varið þessu voru jarðneska lífi. Vertu oss náðugur faðir, vægur og miskunsamur dómari, í Jesú nafni! Amen.

### Guðspjallið

(Matth. XXIV., 15.—28.).

Jesús sagði við sína lærisveina: Þegar þèr sjáið viðurstyggð eyðileggíngarinnar í þeim helga stað, sem Daníel hefur spáð um (hver sem les það, gefi gaum að því), þá flýi hver sá, sem í Júdeu er, til fjalla; hver sá, sem er á húsþaki, varist að fara ofan í hús sitt til að taka nokkuð þaðan, og hver sem er á akri, snúi hann ekki heim aptur, til að taka klæði sín. Æ, vesalar eru á þeim tíma konur þúngaðar og þær sem börn hafa á brjósti! Biðjið, að yðar flótti verði ekki um vetur, og ekki á þvottdegi, því þá mun verða svo mikil hörmúng, að þvílík var ekki frá veraldar upphafi til þessarar stundar, og ekki heldur mun verða, og nema þessir dagar verði styttir, verður ekkert hold hólpið; en fyrir útvaldra sakir munu þeir styttast. Ef nokkur segir þá til yðar: hèr er Kristur eða þar, þá skuluð þèr ekki trúa

því, þar upp munu rísa falskristar og falskennendur, sem gjöra munu mikil tákn og undur, svo í villu munu leiðast, ef mögulegt væri, jafnvel útvaldir. Gætið nú þess, að eg hefi sagt yður þetta fyrir. Þar fyrir, ef sagt er við yður: sjáið, hann er á eyðimörku! þá gángið ekki út þángað: sjáið, hann er í launkofum! þá trúið því ekki. Því eins og eldíngin út gengur frá austri og skín allt til vesturs, eins mun og verða tilkoma mannsins sonar; því þar sem hræið er, þángað munu ernirnir safnast.

Inngángur.

„Vor Guð kemur og þegir ekki; eldur geingur undan honum og í kríng um hann er mikill stormvindur; hann kallar á himin og jörð til að dæma sitt fólk“ (sálm. 50., 3.—4.). Einhvern tíma munu þessi orð rætast í æðsta skilníngi; einhvern tíma kemur Drottinn ekki einúngis með þann eld og stormvind, sem í náttúrunni eru þjónar hans og sendiboðar, heldur með þann eld, sem höfuðskepnurnar bráðna í, og þann stormvind, sem kraptar himinsins hrærast af og skjálfa. Þá kallar hann til dómsins allar þjóðir frá uppruna sólar og allt til hennar niðurgaungu, og lætur himin og jörð bera vitni um það. Þá verður hinu eilífa rèttlæti niður skipað. Þó eru þessi orð úr Davíðs sálmi um tilkomu Drottins ekki töluð um hinn seinasta allsherjardóm, sem felldur verður yfir öllum þjóðum, heldur um hegníngardóm, er hann mundi upp kveða hèr í tímanum yfir Gyðíngum, sem voru hans útvalin þjóð. Hvort sem nú þessi orð að eins fela í sèr almenna aðvörun fyrir hina spilltu Gyðínga þjóð, eða þau eru spádómur um afdrif hennar, þá eru þau eptirtektaverð fyrir oss. Af Gyðíngasögunni sjáum vèr, að þau rættust fullkomlega, og að Guð opt og margsinnis vitjaði þessarar fráhverfu þjóðar með sínum hegníngardómum, þángað til hún hafði fyllt mæli synda sinna, og hann tvístraði henni víðs vegar út um heiminn. Þegar Jerúsalem, sem hafði deytt spámenninna, loksins útskúfaði Guðs syni og negldi hann á krossinn, þá rauf Drottinn sáttmála sinn við þenna óhlýðna lýð. Þá var líka tilgángi hans þegar náð, með því frelsari

heimsins var þá búinn að fullkomna sitt endurlausnarverk og farið að prèdika náðarlærdóminn í öllum löndum, og „allar þjóðir farnar að hljóta blessun af Abrahams sæði“. það sem spámennirnir fyrir laungu höfðu sagt fyrir, því spáði Kristur sjálfur við mörg tækifæri, bæði opinberlega þegar hann kenndi í musterinu og einslega við lærisveina sína, og þess háttar spádómur um eyðileggíngu Jesúsalemsborgar og tvístrun Gyðínga-þjóðarinnar er inntak vors heilaga guðspjalls í dag. þegar þessi spádómur er borinn saman við forlög Gyðíngaþjóðarinnar, gefur hann oss marga lærdómsríka hugvekju. Yfirhöfuð sjáum vèr af þessum samanburði, að þegar mennirnir ekki vilja gefa gaum að hinum venjulegu bendíngum Drottins, þá sendir hann eitthvert sèrlegt mótlæti til að vekja þá, og vitjar þannig með sínu eilífa rèttlæti hèr í tímanum stundum heilla þjóða, stundum einstakra manna. En af því þessir stundlegu hirtíngardómar hitta stundum eins hina dyggðugu og hina óráðvöndu, þá megum vèr ekki blanda þeim saman við hinn algilda rèttlætisdóm, sem ekki byrjar fyrr enn í eilífðinni. þetta efni viljum vèr nú betur hugleiða og læra af því, að vera harðir við sjálfa oss, en mildir í dómum vorum um aðra. Verjum þessari helgu stundu til að íhuga:

*hvernig Guð hirtir oss hèr í tímanum til að minna oss á þann dóm, sem felldur verður yfir oss í eilífðinni,* og viljum vèr þá *fyrst* gæta þess, að almennar landplágur eins og hvert annað mótlæti eru ekki einúngis þeim til viðvörunar, sem fyrir þessu verða, heldur öllum yfirhöfuð, og *þessu næst*, hversu ókristilegt það væri, að setja sig í Guðs stað og dæma þá, sem hann agar eða reynir í mótlætínganna skóla.

„Hver sem les það gefi gaum að því“ segir Jesús í guðspjallinu um spádóm Daníels, þar sem hann boðar „viðurstyggð eyðileggíngarinnar í þeim helga stað“ (9., 26.—27. 12., 11.). Ættum vèr þá, kristnir menn! aungan gaum að gefa þessu? Getur nokkur vissari sönnun feingizt fyrir áreiðanlegleika og mikilvægi þessa spádóms enn það, að Kristur sjálfur brýnir hann fyrir lærisveinum sínum og sameinar við hann sinn eigin spádóm um eyðileggíngu borgarinnar og musterisins? En auk þess sem Jesús þannig vekur athygli vort á inntaki og þýð-

ífagu þessa forna spádóms, þá sjáum vèr einnig, að guðleg forsjón, sem stýrir rás allra tíma og tilburða, bendir oss á hann, og sýnir oss, hvernig hann auðsjáanlega hefur rætzt í öllum greinum. Fjörutíu árum eptir Krists dauða kom sú „höfðíngjaþjóð“, sem Daníel hafði talað um, hin volduga þjóð Rómverja „eins og stórflóð“ yfir borgina og allt Gyðíngaland. Þá var „viðurstyggð eyðileggíngarinnar í þeim helga stað“, það er að skilja: óvinirnir höfðu brotizt inn í helgidóminn og reist þar upp skurðgoð sín og líkneski, sem voru viðurstyggð í augum Gyðíngaþjóðarinnar. Síðan var musterið eyðilagt og ekki látinn steinn yfir steini. Þá varð fórnfæríngunum og hinni levítisku guðsþjónustu ekki leingur haldið áfram; þess vegna leyfði Guð ekki heldur, að Jerúsalems musteri yrði aptur byggt, því sú tilraun, sem gjörð var til þess, varð að aungu sökum þess, að eldur gaus þar upp úr jörðinni og eyðilagði undirstöðuna, sem búið var að leggja, svo það rættist, sem Daníel hafði sagt fyrir, „að það mundi verða í eyði allt til enda“. Á eins dásamlegan hátt rættist Krists eiginn spádómur í öllum þeim atvikum, sem guðspjallið bendir til. Þá varð hver að flýja, sem vildi forða lífi sínu. Eins var nauðsynlegt að vara við falskristum og falskennendum, því þá risu þeir margir upp og tældu Gyðíngalýðinn, sem alltaf bjóst við, að nýr Messías mundi koma og frelsa sig. Þá rættust líka þessi Jesú orð: „þá mun verða svo mikil hörmúng, að þvílík var ekki frá veraldar upphafi til þessarar stundar og ekki heldur mun verða“. Vèr skulum ekki fara mörgum orðum um alla þá eymd og hörmúng, sem húngur og drepsótt leiddu yfir þessa ófarsælu borg, áður enn hún fèll í hendur óvina sinna, eða um þau hræðilegu manndráp og níðíngsverk, sem framin voru eptir að hún var unnin og eyðilögð. Einúngis skulum vèr nefna hin saklausu börn og mæður þeirra, sem Jesús í guðspjallinu minnist á með þessum viðkvæmu orðum: „Æ, vesalar eru á þeim tíma konur þúngaðar og þær, sem börn hafa á brjósti“. Þau börn, sem ekki voru þegar dáin af húngri, voru lögð með spjótum í faðmi mæðra sinna, eða slitin frá þeim og þeim fleygt undir hestafætur eða í brennandi eldsloga. En hryllilegast af öllu er það, að húngrið þrýsti mæðrunum til að eta þeirra eigin börn. Þá hafa þar, ef til vill, verið einhverjar aldraðar konur, sem hafa

minnzt þess, er Jesús sagði, þegar hann bar krossinn til Golgata: „þèr, Jerúsalems dætur! grátið ekki yfir mèr, heldur yfir sjálfum yður og börnum yðar“. Án efa hafa þar þá verið mörg gráhærð gamalmenni, sem rak minni til þessara Jesú orða: „þá munu menn taka til að segja við fjöllin: fallið yfir oss! og við hálsana: hyljið oss“! Heppnir voru þeir, sem dóu fyrir sverðseggjum; en margir voru krossfestir, margir lifandi krufðir, margir herteknir og þeim síðan kastað fyrir óargadýr, sem rifu þá sundur; margir voru seldir mansali, og hinir flúðu úr landi. Ellefu hundruð þúsund manns lètu lífið. Hve óttaleg fullnusta veittist þannig þeim refsidómi, sem fólst í þessu vitstola ópi Gyðínganna: „krossfestu, krossfestu hann! hans blóð komi yfir oss og börn vor“! þetta var hegníngardómur Drottins yfir hans óhlýðnu þjóð. þess hærra sem hún stóð sem útvalin Guðs þjóð, þess hærra hlaut fall hennar að verða, þegar hún algjörlega hvarf frá Guði, og með því hún hafði haft mikla yfirburði yfir aðrar þjóðir, þá varð hegníng hennar að vera svo mikil, að hún vekti eptirtekt annara þjóða: Sannarlega rættist það og, sem stendur í Davíðs sálmi, „að þegar Drottinn ætlaði að dæma sitt fólk, kallaði hann til vitnis um það himin og jörð frá uppruna sólar og allt til hennar niðurgaungu“. Í gjörvöllu Rómaveldi, sem náði bæði um vestur- og austurlönd, þókti það furðu gegna, að svo voldugt ríki hefði þurft að hafa svo mikið fyrir því að undiroka þessa litlu þjóð og vinna höfuðborg hennar. þetta er líka einn af hinum merkilegu viðburðum í mannkynssögunni; en þó er það allra merkilegast, að tvístrun Gyðínganna um allan heim minnir einlægt á, hvernig það rættist, sem Drottinn vor sagði þeim fyrir. þó þeir hafi verið sífelldum ofsóknum undirorpnir, hafa þeir þó aldrei orðið upprættir af jörðinni þar sem þó margar aðrar voldugri og fjölmennari þjóðir eru liðnar undir lok. Aðskildir frá þeim þjóðum, sem þeir lifa hjá, standa Gyðíngarnir sem lifandi vottur um uppfyllíngu spádómanna og guðlegan sannleika heilagrar ritníngar.

Ættum vèr þá ekki að gefa gaum að þessu, kristnir menn! Ættum vèr að láta oss ekkert varða um það, sem spámennirnir og guðspjallamennirnir hafa ritað um þessa þjóð, þar sem þó Drottins orð er frá henni til vor komið, þar sem þó frelsari

vor lifði og kenndi hjá henni, píndist og dó, og stofnaði sína kirkju? Ísraels lýður var kjörinn af Guði ekki einúngis til að viðhalda trúnni á hann, heldur og til að vera nokkurs konar skuggsjá fyrir mannkynið, sem vèr gætum sèð í bæði þá náð, sem Guð vill veita oss öllum, og það vanþakklæti, þá vantrú og óhlýðni, sem kemur svo mörgum af oss til að hafna Guðs náð. Og mættum vèr þá ekki, ef vèr lítum til sjálfra vor, hræðast þann hegníngardóm, sem vèr sjáum felldan yfir þessari þjóð? Ættum vèr ekki að láta hann minna oss á vora eigin syndasekt og þann dóm, sem bíður vor allra, annaðhvort hèr í tímanum eða þá í eilífðinni? Hafi Guð ekki þyrmt þessari þjóð, sem hann frá upphafi hafði eins og tekið að sèr, verndað og viðhaldið, sem hann hefði leitt svo dásamlega og gefið svo vegleg fyrirheit, og sem hann loksins lèt sinn eingetinn son fæðast hjá, megum vèr þá ekki óttast hans heilögu hegníngu, ef vèr fyrirlítum ríkdóm hans gæðsku, þolinmæði og lánglundargeðs? Þessi hugleiðíng vor miðar til þess, að vèr getum heimfært hana til sjálfra vor; en til þess útheimtist, að vèr höfum rèttan skilníng á refsidómum Drottins hèr í tímanum.

Auk hinna saklausu barna hafa án efa verið margir vænir og guðhræddir menn í Jerúsalem, sem urðu fyrir sömu óförum og hinir óguðlegu og iðrunarlausu. Þær þjáníngar, sem voru hegníng hinna óguðlegu, áttu að reyna hina guðhræddu og undirbúa þá undir hið rètta endurgjald og eilífa sælu í öðru lífi, því þessi refsidómur Drottins var felldur yfir Gyðíngaþjóðinni yfir höfuð, en ekki hverjum einstökum Gyðíngi sèr í lagi. En hafi nú eyðileggíngu Jerúsalems borgar þannig verið háttað, þá á það sèr ekki síður stað um þær plágur, sem koma af óáran og öðrum náttúrunnar verkunum. Vèr eigum að skoða þær sem aðvaranir og bendíngar Guðs til heilla þjóða, en ekki sem hegníngu hinna einstöku manna, sem fyrir þeim verða, því þær koma yfir vonda og góða án greinarmunar. Eins og Guð lætur sína sól skína yfir rèttláta og ránglátá, eins lætur hann óveður, eldgos og hallæri koma yfir hvoratveggja. Þeir refsidómar, sem gánga yfir löndin og yfir heilar þjóðir, eigum vèr að skoða sem betrunarmeðul, sumpart fyrir þá, sem fyrir þessu verða, að svo miklu leyti sem þeir gefa gaum að Drottins aðvarandi röddu, sumpart fyrir aðra, sem

geta sèð forlög sín af ófðrum hinna, og mega búast við sömu hegníngu ef þeir bæta ekki ráð sitt. Á viðlíkan hátt er mörgum þeim þjáníngum varið, sem einstakir menn verða fyrir; þær miða til viðvörunar ekki einúngis fyrir sjálfa krossberendurna, heldur og fyrir alla, sem til þekkja; já, þegar Drottinn leggur sína hirtandi hönd á syndugan mann, þá er það fremur öðrum til viðvörunar, enn til að hegna honum sjálfum. Hvað þá hegníngu að öðru leyti snertir, sem hver einstakur maður verður fyrir í þessu lífi, þá sprettur hún, eins og vèr allir vitum, sumpart af ásökunum samvizkunnar og sumpart af eðlilegum afleiðíngum misgjörðanna, eða hún kemur frá veraldlegu yfirvaldi. En hèr erum vèr að tala um hina almennu refsidóma, eða hinar svo kölluðu landplágur, og megum vèr játa, að þær eru í mörgu tilliti mannlegum skilníngi ofvaxnar. Hver getur úr því leyst, hvers vegna harðindi gánga yfir sumar sveitir, en sneyða hjá næstu sveitum; hvers vegna drepsóttir sneyða hjá sumum bæjum, en gjöreyða öðrum, og í stuttu máli, hvers vegna hinn alvaldi hirtir eitt land fremur enn annað, eina sveit fremur enn aðra og einn bæ fremur enn annan? Hversu óskiljanlegir eru dómar Drottins og órekjandi hans vegir! Sèrhver dæmi sjálfan sig, hugarfar og líferni sitt. Einginn maður, hversu rèttlátur sem hann kann að þykjast, eða er haldinn af öðrum, já, alls einginn getur í augsýn allsvitanda Guðs borið á móti því, að hann eins og aðrir ekki einúngis þurfi bendíngar og aðvörunar við, heldur einnig aga og hirtíngar. Æ, hve hæglega sofnum vèr ekki í syndsamlegu andvaraleysi og burtsóum þeim tíma, sem oss er gefinn til sjálfsprófunar og betrunar! hve nauðsynlegt er það ekki, að vèr sèum vaktir af syndasvefni vorum annaðhvort með þjáníngum sjálfra vor eða annara! En þessir tímanlegu hirtíngardómar Drottins verða, því miður, hjá mörgum öldúngis árángurslausir, og kemur þetta hjá flestum til af iðrunarleysi og þeirri vantrú, sem því er samfara, en hjá sumum af því þeir gjöra sèr rángar hugmyndir um náttúruna, sem þeir hugsa, að Guð muni ekkert skipta sèr af, heldur láta hana sjálfa fara leiðar sinnar, eptir þeim lögum og með þeim kröptum, sem hann í öndverðu gaf henni. Sèrhver umbrot höfuðskepnanna og óvenjulegar byltíngar í náttúrunni, sem hafa áhrif á mannlegt líf, skoða þeir sem tilviljun,

eða sem viðleitni hinnar meðvitundarlausu náttúru eptir að ná sèr aptur og komast í samt lag. Að öðru kannast þeir við þá nytsemi, sem þessar byltíngar náttúrunnar geti haft, og játa, að þrumur og stormar hreinsi loptið og að þetta sè hollt fyrir menn og skepnur, en hinu neita þeir, að það eigi rót sína í sambandi mannanna við Guð, sem náttúrunnar og þeirra skapara og Drottin. En varastu, kristinn maður! þannig að skoða sköpunarverkið, án þess jafnframt að lypta augunum upp til skapara þíns; varastu að halda, að þær þjáníngar, sem þig hitta og sem þú með syndum þínum hefur unnið til, sèu eintómar verkanir náttúrunnar eða blindra forlaga; því þessar þjáníngar eru bendíngar hins rèttláta og gæðskuríka Guðs, sem hefur náttúruna og forlög vor í sinni hendi. Vissulega eigum vèr ekki að missa sjónar á hinum náttúrlegu orsökum, heldur rekja þær eins lángt og vèr getum; en hinn yzta hlekk í þessari keðju verðum vèr þó að hugsa oss í hendi hins almáttuga, sem er öllum hlutum æðri, af því hann er höfundur allra hluta. Ef vèr trúum því, að Guð hafi ekki einúngis með speki sinni og almætti skapað heiminn, heldur einnig viðhaldi honum og stjórni með sinni alskyggni og alvitru forsjón, þá hljótum vèr einnig að trúa því, að allar þær þjáníngar og plágur, sem spretta af verkunum náttúrunnar og viðburðanna rás, komi frá Guði og sèu bendíngar hans heilaga rèttlætis. Falli ekki einn smáfugl til jarðar nè eitt hár af höfði voru án vilja vors himneska föður, hvernig getum vèr þá ímyndað oss, að hallæri, drepsóttir og aðrar plágur fari yfir löndin án þess hann, sem hefur veröldina í sinni hendi, gefi gaum að því eða stjórni því eptir vísdómsfullum lögum og í vísdómsfullum tilgángi, þó það sè oss óskiljanlegt? En þegar vèr nú skoðum landplágur og almennar þjáníngar eins og bendíngar Drottins oss til viðvörunnar og betrunar, þá verðum vèr að hinu leytinu að varast þá ímyndun, að það mótlæti, sem án alls greinarmunar hittir vonda og góða, sè einhver sèrleg hegníng frá Guði, eða að nokkur sè brotlegur fyrir það, þó hann sè þjáður af einhverjum krossburði. Fyrir marga er krossinn náðarmerki Guðs, sem þeir glaðir bera í fótspor frelsara síns og styrkjast við hans helga kross, án þess að telja sèr mótlætið til gildis. Hver getur líka sagt, að hann hafi ekki í neinu tilliti unnið til mótlætisins?

þó þú sèrt óaðfinnanlegur í augum annara manna og sèrt ekki sjálfur valdur að böli þínu, þá getur þú þó ekki sagt, að þú sèrt sýkn saka í Guðs augum. Og með því þú ekki getur sagt þig syndlausan, þá hlýtur þú og að játa, að hvað sem þú hèr í lífi verður að þola, þá er það lángt um minna enn þú hefur til unnið, því hinar þýngstu tímanlegu þrautir komast ekki í samjöfnuð við þá eilífu pínu, sem af syndinni mundi leiða nema Guðs náð afstýrði því. þess vegna kvartar ekki sannkristinn maður yfir þjáníngum sínum, heldur ber þær með þolinmæði og gleði, af því hann skoðar þær bæði sem væga hirtíngu og sem betrunarmeðal. „Drottinn! eg veit, að þínir dómar eru rèttir, og að þú hefur lítillækkað mig með trúfesti" (sálm. 119., 75.), þannig hugsar hann með þakklátu hjarta í mótlæti sínu, því hann játar, að mannlegt hjarta þarf „lítillækkunar" við í mótlætínganna skóla, og veit, að Drottinn lítillækkar með „trúfesti", samkvæmt sínum trúfasta kærleika, sem birtist í sjálfri hirtíngunni. „Hvern Drottinn elskar, þann agar hann". Og elskar ekki gott barn föður sinn þó hann agi það? Kannast það ekki grátandi við elsku hans og yfirsjón sína? En þó vèr játum, að þjáníngar vorar sèu nauðsynleg hirtíng, þá verðum vèr að varast þá ómildu dóma, sem opt eru felldir yfir þeim, sem rata í einhverjar raunir, og vèr megum ekki hugsa, að þeir sèu syndugri enn aðrir. þessir ómildu dómar spretta sumpart af því, að menn eru svo gjarnir á að dæma aðra og sjá ögnina í auga bróður síns, án þess þeir verði varir við bjálkann í sínu eigin auga, sumpart af því þeir vilja þannig hliðra sèr hjá að hjálpa hinum nauðstadda. þó spretta þeir einnig meðfram af þeirri rèttlætis tilfinníngu, að það mótlæti, sem maðurinn verður fyrir, eigi að samvara því hinu illa, sem hann drýgir; en þetta samband milli hegníngar og syndar getur mannleg skammsýni ekki ætíð sèð. Sumir menn lifa ekki einúngis í óhófi og munaði, heldur og lastafullu líferni, og halda þó heilsu sinni, komast til hárrar elli, og hafa allsnægtir til dauðadags. Aptur spilla aðrir með einni einustu yfirsjón allri sinni tímanlegu velferð. Suma menn ásækir einhver sèrleg óheppni; öll þeirra fyrirtæki mislukkast og þeirra beztu áform eru lögð út á vesta veg. Væri það nú ekki syndsamlegt að halda, að Guð ætlaði að hegna þessum mönnum fremur enn

öðrum? þvert á móti eigum vèr að hugsa, að með þeim krossi, sem Guð leggur slíkum mönnum á herðar, þá ætli hann af sinni náð að uppörfa þá til að gánga þann veg um þenna sorgadal, sem liggur til eilífrar gleði. Frelsari vor hefur bezt kennt oss, hvernig vèr eigum að hugsa og dæma um þetta. þegar lærisveinar hans spurðu hann: „hvor syndgaði, þessi eða foreldrar hans, að hann skyldi fæðast blindur"? ávitaði Jesús þá og sagði: „hvorki hefur þessi syndgað nè foreldrar hans, heldur til þess að Guðs verk yrði á honum opinbert", það er að skilja: það dásemdarverk Guðs, að Kristur auglýsti á þessum blinda manni sinn guðlega mátt, með því að opna augu hans, svo trúarinnar geislar gætu skinið inn í það. Sömuleiðis hefur Jesús á öðrum stað talað berlega um þetta efni. Pilatus hafði látið drepa nokkra uppreistarmenn úr Galíleu í musterinu meðan á guðsþjónustunni stóð, svo þeirra blóð hafði blandazt við blóð fórnardýranna. þegar Jesús frètti þetta, sagði hann: „haldið þèr, að þessir Galílear hafi verið syndugri enn allir aðrir í Galíleu fyrir það að þeir liðu þetta"? Um leið minntist Jesús þess, er einhverju sinni hafði viðborið, að turn nokkur í Sílóa hrundi og varð átján manns að bana. þetta skeði ekki af manna völdum. Hvernig átti þá að skoða það? Átti að skoða það eins og sèrlegan hegníngardóm yfir þeim mönnum, sem fyrir því urðu? Nei, heldur sem almenna viðvörun. „Ætlið þèr", sagði Jesús enn fremur, „að þessir átján hafi verið meira sekir enn allir þeir, sem í Jerúsalem búa? Nei, segi eg yður; en nema þèr bætið ráð yðar, munuð þèr allir eins fyrirfarast" (Lúk. 13., 1.—4.). Einnig oss, kæru bræður! ávarpar frelsarinn á þessari helgu stundu með þessum orðum: nema þèr bætið ráð yðar, munuð þèr allir eins fyrirfarast! Fyrirfarast mun hinn iðrunarlausi, ekki eins og þeir, sem turninn í Sílóa fèll yfir, ekki eins og þeir, sem líflátnir voru í musterinu, nè heldur eins og íbúar Jerúsalems borgar þegar hún var eyðilögð, því þess háttar ófarir geta hitt bæði rèttláta og rángláta, heldur eins og þeir, sem mannsins sonur á síðan mun ávarpa með þessum orðum: „farið frá mèr, þèr bölvaðir, í þann eilífa eld, sem fyrirbúinn er djöflinum og öllum hans árum"! því þá fyrst upprennur sá rètti endurgjaldstími, þá fyrst auglýsir heilagur Guð sitt eilífa rèttlæti, þá fyrst mun

hann, sem dæmir lifendur og dauða, eilíflega aðskilja ljóssins og myrkranna börn. Hèr lætur hann sína sól upprenna yfir vonda og góða, hèr lætur hann rigna yfir rèttláta og ránglátu, hèr lætur hann illgresið spretta með hveitinu til uppskerutímans; en þegar sá tími kemur, mun hann segja við kornskurðarmennina: „safnið fyrst illgresinu saman og bindið það í knippi til að brenna því, en safnið hveitinu í mína kornhlöðu". Sèrhver dagur æfi vorrar minnir oss á hinn síðasta dag, því einginn af oss veit, nema hann verði vor síðasti dagur hèr á jörðinni. Líf vort getur slokknað í dag, en dauða vorum er dómurinn samfara. En þessa daga höfum vèr líka sèrlega uppörfun til að hugsa til þess reiknîngsskapar, sem bíður vor í eilífðinni, því nú er þetta kirkjuár bráðum útrunnið; og ættum vèr þá ekki að renna huganum til baka og grennslast eptir því, hvernig vèr höfum hagnýtt oss þenna náðartíma? Mun nokkur vilja skorast undan þessu, þó hann ekki finni hjá sèr, að hann hafi drýgt sèrlega stórglæpi? þó vèr nú gleymdum þeim reiknîngsskap, sem vèr eigum Guði að lúka, munum vèr þá geta staðizt fyrir dómstóli samvizku vorrar? En þegar Guð nú þar á ofan kallar oss til reiknîngsskapar, hverju getum vèr þá svarað? Megum vèr þá ekki allir andvarpa með tollheimtumanninum og segja: „Guð vertu mèr syndugum líknsamur"! Komi þetta andvarp frá iðrandi hjarta, sem með ángri finnur til synda sinna og til þess, hvílík ófarsæld það er, að láta syndina skilja sig við Guð; sè þessu andvarpi sameinaður alvarlegur betrunar ásetníngur; hafir þú ekki einúngis húngur og þorsta eptir rèttlætinu, heldur einnig traust á Guðs náð, sem frelsarinn hefur afrekað oss og sem vèr með sannri trú getum tileinkað oss: þá kemur hann sjálfur til þín og veitir þèr samvizkufrið og krapta til betrunar og helgunar, og þá þarftu hvorki að óttast fyrir dauða nè dómi. Æ, að vèr þó á þessari stundu vildum taka í þá hjálparhönd, sem vor mildiríki lausnari rèttir að oss, og leyfa honum að reisa oss á fætur og leiða oss á náðarinnar og lífsins veg, svo að vèr, hvað sem oss mætir, getum tekið undir með postulanum og sagt: „ef vèr lifum, þá lifum vèr Drottni, ef vèr deyum, þá deyum vèr Drottni, svo að hvort sem vèr lifum eða deyum, þá heyrum vèr Drottni til". Guð gefi oss náð til þess í Jesú nafni! Amen.

---

# Á tuttugasta og sjötta sunnudag eptir trinitatis.

## Bæn.

Æ, Drottinn! þegar eg hugsa til synda minna og misgjörða, þegar eg hugsa til veikleika míns og vanmáttar í hinu góða, þá fyllist hjarta mitt hryggð og ángri; þegar eg hugsa til ókomna tímans, til þeirra freistínga, sem fyrir mig kunna að koma, þeirra þjáninga, sem mín kunna að bíða, æ þá titra eg af ótta og kvíða. Hvergi fæ eg huggun eða hvíld sálu minni nema í bæninni til þín, minn himneski ljúfi lausnari! þú hefur boðið öllum þjáðum krossberendum að koma til þín og fá hjá þèr huggun og endurnæríngu; upp til þín mæni eg mínum trúar og vonar augum, en til þín get eg ekki komizt nema þú „komir áður til mín"; æ, kom þú þá til mín, góði Jesú! og taktu þèr bústað í sálu minni; fullvissaðu mig um fyrirgefníngu minna synda; vertu máttugur í mínum veikleika, og gef þú mèr djörfúng og hugrekki til að berjast góðri baráttu trúarinnar, hug og dug til að fylgja þèr og taka þitt ok mèr á herðar: þá mun eg þegar kvöld míns lífs er komið — og það kemur, ef til vill, innan skamms — fá að koma til þín á friðarins land og vera hjá þèr um alla eilífð. Amen.

## Guðspjallið

(Matth. XI., 25.—30.).

Á þeim sama tíma sagði Jesús: Eg þakka þèr, faðir og Drottinn himins og jarðar! að þú duldir þetta fyrir spekíngum og vitríngum, en opinberaðir það smælíngjum. Sannarlega hefur þèr, faðir! þóknazt, að svo skyldi vera. Allir hlutir eru mèr í vald gefnir af föður mínum. Einginn þekkir soninn nema faðirinn, og einginn þekkir föðurinn nema sonurinn og þeir sem hann vill það auglýsa. Komið til mín allir þèr, sem erfiðið og eruð þúnga hlaðnir, eg skal endurnæra yður. Takið á yður mitt ok, og lærið af mèr, því eg er hógvær og af hjarta lítillátur, og munuð þèr finna hvíld sálum yðar, því mitt ok er inndælt og mín byrði lètt.

## Inngángur.

„Eg mun breyta þeirra sorg í unaðsemd og hugga þá og gleðja þá eptir þeirra armæðu" (Jer. 31., 13.). Þannig huggaði

Drottinn Gyðíngaþjóðina fyrir munn spámannsins, þegar hún stundi undir ánauðarokinu í Babel fjarri fósturjörðu feðra sinna. Gyðíngarnir höfðu sjálfir bakað sèr eymd sína með misgjörðum sínum og syndum, og þó heitir Drottinn því að hugga og gleðja þá eptir þeirra armæðu. Gyðíngasagan hefur marga lærdóma að geyma, margar fyrirmyndanir og viðvaranir, sem mega vekja eptirtekt mannkynsins á öllum öldum. Í heilagri ritníngu eru tímar hins gamla og hins nýja testamentis bornir saman, sem skuggi og líkami, sem skýma og upprennandi morgunstjarna, sem fyrirheit, spádómur, eptirvæntíng og uppfyllíng þeirra. Ísraels börn, sem voru erfíngjar fyrirheitisins, voru fyrirmyndan hins kristna andlega Ísraels, sem varð hluttakandi í uppfyllíngu fyrirheitanna. Hin helga Jerúsalems borg verður í kristindóminum að himneskri Jerúsalem, og Zíon að hinni almennilegu kristilegu kirkju, þar sem allir menn eiga að tilbiðja Drottin í anda og sannleika, og Babel, þar sem Gyðíngarnir sátu herleiddir, er sorgleg afmálun heiðínglegs hugarfars á öllum tímum, þegar hugskot mannsins er blindað og hann er fjötraður í hlekkjum syndarinnar, þegar hann tilbiður skurðgoð syndsamlegra girnda og lifir án Guðs í heiminum. Þessar samlíkíngar, sem opt koma fyrir í heilagri ritníngu, eru næsta þýðíngarmiklar. Vèr erum Guðs eignarfólk í æðra skilníngi; vèr erum börn fyrirheitisins, aðnjótandi guðlegrar opinberunar og himneskra velgjörða; vèr höfum nýja Jerúsalem af himnum komna, það er að skilja: kristindóminn, þenna trúarinnar, kærleikans og vonarinnar helgidóm, uppljómaðan af Guðs dýrð í náð og sannleika; þar prèdika þjónar Drottins um Guð, „sem var í Kristi og friðþægði heiminn við sjálfan sig", um iðrun, trú og helgun, um fyrirgefníngu syndanna og eilífa sáluhjálp í frelsarans Jesú nafni. En það er líka til Babel, heiðið land, og þángað verða margir herleiddir af ginníngum holdsins og heimsins, því hugarfari og líferni sumra manna er svo háttað, að þeir lifa án Krists; þó þeir kalli sig kristna, og þó þeir lifi í útvortis samfèlagi við hann, þá eru þeir honum þó ekki sameinaðir í trúnni, eða í hlýðni við hans boðorð. Þegar maðurinn með syndum sínum skilur við Guð, þá missir hann borgararètt sinn í hinni himnesku Jerúsalem; hann kemst þá í útlegðarstand og verður fjötraður í blindni og löstum; fyrr

eða síðar finnur hann þá til þess, hve þúngt þetta ánauðarok er, og hvílík ógæfa það er fyrir hann að hafa slitið samfèlag sitt við Guð. En þó maðurinn þannig fjarlægist skapara sinn, sleppir hann þó ekki hendinni af þessu sínu villuráfandi barni, heldur leitast við að leiða það aptur til sín með áminníngum og náðarfyrirheitum sinna heilögu orða. Enn þá ávarpar Guð synduga menn með þessum huggunarfullu orðum: „eg mun breyta þeirra sorg í unaðsemd og hugga þá og gleðja þá eptir þeirra armæðu". En þeir einir geta heimfært til sín þetta guðlega fyrirheit, sem hafa „auðmjúkan og sundurkraminn anda", sem stynja undir syndabyrði sinni og þrá lausn frá henni, sem iðrandi kannast við vanþakklæti sitt við góðan Guð og húngra og þyrsta eptir hans rèttlæti. Til þessara ángruðu og iðrandi krossberenda talar líka frelsari vor í dag þessi huggunarinnar orð: „komið til mín allir þèr, sem erfiðið og eruð þúnga hlaðnir, eg skal endurnæra yður"! Því hvernig sem krossburði vorum að öðru leyti er varið, hvort sem hann er andlegur eða líkamlegur, þá er þó syndakrossinn þýngstur, af því hann skilur oss við Guð, og allir erum vèr þúnga syndanna hlaðnir og þurfum endurnæríngar við og hvíldar sálum vorum. Til að útskýra þetta enn betur fyrir oss, viljum vèr á þessari helgu stundu hugleiða:

*hryggð og huggun iðrandi syndara.*

1. Iðrandi syndari lítur til *umliðna tímans* og spyr hryggur og ángraður: hver mun afplána þær syndir, sem eg hefi drýgt? Margir forðast að hugsa til sinnar umliðnu æfi. Stundum eru þeir niðursokknir í veraldlegar áhyggjur og bera kvíðboga fyrir morgundeginum, eða þeir eru með sjálfum sèr hræddir um, að umhugsun um liðna tímann kunni að vekja hjá þeim einhverja órósemi, sem geti tafið fyrir þeim og truflað gleði þeirra. Stundum eru þeir svo lèttúðarfullir, eða svo blindir og harðsvíraðir, að þeir ekki sjá neitt tilefni til ángurs og iðrunar í sinni undanförnu breytni, nè kannast við, að hún geti gefið þeim nokkra bendíngu eða viðvörun. „En vakna þú sem sefur og rís upp frá dauðum, þá mun Kristur lýsa þèr"! (Efes. 5., 14.). En maðurinn vaknar fyrst af synda svefni sínum á þann hátt, að samvizka hans verður fyrir lög-

málið snortin af Krists anda, svo að hann finnur til þess, að hann hefur illa breytt og gjört sig sekan og hegníngarverðan. þannig bað Davíð af hrærðu hjarta, þegar hann leit aptur til lífernis síns: „hugsaðu ekki til minna æskusynda, heldur hugsaðu til mín, Drottinn, eptir þinni miklu miskunsemi"! þannig varð Pètur snortinn af Jesú augnatilliti, svo „hann gekk út og grèt sáran" þegar hann hugsaði til þess, að hann hafði afneitað Drottni sínum. þannig breiddi hinn glataði sonur faðminn út á móti föður sínum, andvarpaði og sagði: „faðir, eg hefi syndgað"! þegar Guðs andi er búinn að vekja hjarta syndugs manns, þá leiðir hann syndarann að andlegum spegli sálarinnar, svo hann skoði þar brot sín og ávirðíngar. „Hve aumur og vesall, fátækur og nakinn" er hann þá ekki í sínum eigin augum! Æ, hvað sèr hann? hann sèr hjarta sitt syndum saurgað; hann sèr, hvernig hann hefur brotizt úr faðmi síns himneska föður og hlaupið út á girndanna og glötunarinnar veg; hvernig hann hefur sóað burt sinni himnesku arfleifð, spillt sakleysi sínu og sálarfriði í fánýtum og syndsamlegum lystisemdum; hann sèr, hvernig náðarinnar og sælunnar himin, sem áður var heiður og bjartur, er nú hulinn og dimmur; hann sèr, hvernig hann alltaf hefur sokkið leingra og leingra niður í eymdadjúp syndarinnar, og að hann vantar hug og krapta til að komast upp þaðan. þegar hann hefur skoðað þessa sína eigin mynd, verður honum þá ekki fyrst fyrir að spyrja: Hver mun afplána mínar syndir? hver mun lètta af mèr þessari þúngu byrði og lækna mitt sundurkramda hjarta? Æ, hvernig get eg friðþægt fyrir syndir mínar? get eg það með lífi mínu eða tárum mínum? Nei, með aungu get eg afplánað mína syndaskuld, og einginn getur afplánað hana nema lausnari minn, sem með pínu sinni og dauða hefur friðþægt mannkynið við heilagan Guð; „því það er sannur lærdómur og í alla staði meðtækilegur, að Jesús Kristur er kominn í heiminn til að gjöra synduga menn sáluhólpna, meðal hverra eg er hinn helzti" (1. Tím. 1., 15.). þess vegna varðveita iðrandi hjörtu trúna á Jesú Krists endurlausn og fyrir þau er friðþægíngarlærdómurinn friðarins evangelium, himneskur boðskapur, sem endurnærir hinar örmagna og sárþyrstu sálir, þó allar hinar jarðnesku huggunar lindir þrjóti, sem styður og styrkir þegar allir mannlegir kraptar bila,

sem lýsir og leiðbeinir, þó öll hin jarðnesku vizkuljósin slokkni, og sem aptur leiðir hinn iðrandi syndara í faðm hinnar eilífu náðar.

2. Iðrandi syndari lítur til *yfirstandanda tímans* og spyr hryggur og ángraður: hver mun leiða mig nær Guði og koma mèr í nánara samfèlag við hann? Hryggur og ángraður andvarpar hann og segir: þó Jesús sè friðþægíng fyrir allrar veraldarinnar syndir, þó hann hafi opnað mèr miskunar faðm hins algóða föður og gefið mèr kost á að fá inntöku í náðarinnar himin, er eg þó einn af þeim, sem standa áleingdar og eru fjarlægir heilögum Guði. Þegar Guðs andi er búinn að vekja syndugan mann af syndasvefni hans, svo hann „fær stíng í hjartað“, eins og tilheyrendur Pèturs postula forðum, þá getur hann ekki fundið hvíld fyrir sálu sína í munaði og lystisemdum þessa lífs, nè þaggað niður ásakanir samvizkunnar með endurminníngu einstaka góðverka, sem hann kann að hafa gjört. Hann má hryggur játa, að þau eru lèttvæg á metaskálum hins eilífa rèttlætis, að hans svo kölluðu góðverk opt hefur vantað guðhræðslunnar krapt og kærleikans líf, að þau opt hafa sprottið af heimuglegri eigingirni eða hègómadýrð, af ótta fyrir mönnum, af sjálfsþótta eða öðrum óhreinum og syndsamlegum hvötum. Hann má hryggur játa, að „hann hefur mætur á Guðs lögmáli eptir hinum innra manni, en að hann sèr annað lögmál í sínum limum“, í sinni holdlegu náttúru, svo að hann opt „gjörir hið illa, sem hann ekki vill, en gjörir ekki hið góða, sem hann vill“. (Róm. 7., 22.). Enn þá verður hann var við það, að syndsamleg gleði vill draga hann til sín, að hann vill elska tvo herra og þjóna tveimur herrum, Kristi og Belíal, Guði og heiminum. Að vísu hefur hann orðið var við hræríngar Guðs anda í sálu sinni; en þó er betrun hans enn þá ófullkomin og hann finnur gjörla til þess, að hann á enn lángt eptir ófarið til að geta náð helgunarinnar takmarki. Að vísu hefur Guðs andi vakið hjá honum andvara og áhyggju, ekki um hin margvíslegu veraldargæði, heldur um hið „eina nauðsynlega; en þó þarf hann að hafa hugfasta þessa postulans áminníngu: „takið sinnaskipti og hver yðar láti skíra sig til nafns Jesú Krists til fyrirgefníngar syndanna, þá munuð þèr öðlast gjöf heilags anda“ (Post. gjörn. 2., 38.). Þannig finnur

hinn iðrandi syndari til þess, hvað hann enn þá vantar; hann finnur, að hann enn vantar áframhald á betrunarinnar vegi fyrir aðstoð Guðs anda, og að hann þarf alltaf betur og betur að sameinast Guði og frelsara sínum í trúnni og kærleikanum. En hann biður Guð og þreytist ekki; hann vinnur að sinni sáluhjálp með þolinmæði og stöðuglyndi, og þó hann vantreysti sjálfum sèr og vanmætti sínum, treystir hann þó Guði, sem er máttugur í veikleikanum. Þegar þú því, iðrandi sál! hrygg og ángruð ákallar Drottin og biður hann af hjarta með sálmaskáldsins orðum: Ó, Drottinn, send mèr anda þinn, ást og náð í mitt hjarta inn! þá mun hann vissulega þegar hans tími er kominn gefa þèr vitnisburð andans um það, að þú sèrt tekinn til náðar og eigir himneska arfleifð í vændum. Finnir þú enn þá einatt til þess með hryggð og hugarángri, að trú þín er veik og kraptar þínir ætla að bila, þá hugsa þú til þess, að helganin er fyrst lítill neisti áður enn hún verður að björtum loga, sem stígur upp til himins; hugsa þú til þess, að trúin vex eins og frækornið í jörðinni á ósýnilegan hátt, ef jarðvegur hjartans er gljúpur, svo að hinir guðlegu ljósgeislar og daggardropar geta haft áhrif á hann og endurnært þar og glætt hið hulda lífsefni trúarinnar. Legg þú fram það sem í þínu valdi stendur, en þetta er: að vaka, biðja og stríða, þá mun Guð gefa þèr sigurinn; gleym þú ekki að planta og vökva, þá mun Guð gefa ávöxtinn.

3. Iðrandi syndari lítur til *ókomna tímans* og spyr hryggur og ángraður: hvernig mun eg breyskur maður trúlega geta haldið betrun minni áfram og staðið stöðugur allt til enda? Flestir menn horfa vonaraugum og með áhyggju fram á ókomna tímann, já, margir bera svo mikla áhyggju fyrir morgundeginum, að þeir gleyma að gegna skyldum og neyta gleði yfirstandanda tímans. En þèr vitið, að þessar áhyggjur og vonir optast nær snerta hina tímanlegu og jarðnesku hluti, en ná ekki til þess, sem mönnunum þó er mest áríðandi, ná ekki til þessa boðorðs: „eflið yðar sáluhjálp með ugg og andvara“! En þeim, sem vaknaður er af syndanna svefni, sem vaknaður er til hins andlega lífs, kennir Guðs andi að skoða tilgáng þessa lífs og ákvörðun sálarinnar frá æðra

sjónarmiði. Sá, sem fyrir alvöru lætur sèr umhugað um sína sáluhjálp, þekkir sína háleitu og himnesku köllun; en hann þekkir líka hið hættulega vald syndarinnar, breyskleika sinn og þörf sína á Guðs aðstoð til að geta haldið sínu betrunarverki áfram og reynzt trúr allt til enda; hann ber helga áhyggju fyrir morgundeginum, ekki í þeim skilníngi, að morgundagurinn skuli færa honum veraldlegan ávinníng eða uppfyllíngu tímanlegra óska, heldur er honum umhugað um það, að geta tekið framförum í dyggð og guðsótta og að hver komandi dagur geti flutt hann nær Guði, nær ljóssins og sælunnar himnesku bústöðum. Og þegar hann rennir nú augunum fram yfir ókomna tímann, þá veit hann, að þó hann í hjarta sínu hafi guðrækilegar tilfinníngar og einlæg betrunaráform, þá er þó þetta hjarta hans veikt og breyskt, sem heitir því, „að láta jafnvel lífið með Kristi“ meðan freistíngarnar eru lángt burtu, en afneitar honum þó á freistíngartímanum, og er þá svo eigingjarnt eða fullt af ótta fyrir mönnum, að það vill ekkert þola nè láta á móti sèr fyrir Kristi nafns sakir. Þegar hann lítur fram á ókomna tímann, þá sèr hann sig einnig umkríngdan af vonzku veraldarinnar, sem hatar sannleikann, sem með kaldsinni og kærleiksleysi, með undirferli eða ofríki, með fyrirlitníngu eða lèttúðarfullu háði reynir til að bæla niður það sem gott er, og kallar trúna víngl og hugarburð, guðshræðsluna geðveiki eða hræsni og von eilífs lífs eintóma draumóra. Í því er áhyggja iðrandi sálar innifalin, að geta gætt trúar sinnar, af því hún veit, að hjartað er veikt fyrir, og er hrædd um, að það kunni að hrasa vegna þess það hefur áður hrasað, og af því hún veit, að veröldin er köld og kærleikslaus og óvinveitt öllu því, sem er heilagt og gott. Æ, „vèr höfum öruggt traust, sem til Drottins flýum til að höndla þá sæluvon, sem oss er geymd, sem vèr höfum eins og akkeri sálarinnar, óbifanlega og stöðuga“ (Hèbr. 6., 18.—19.). Vèr höfum hönd frelsara vors, sem hann rèttir oss eins og Pètri, þegar vèr trúarveikir verðum óttaslegnir; vèr höfum hjarta frelsara vors, sem vèr getum hallað oss að eins og Jóhannes, þegar vèr ætlum að örmagnast í enu harða stríði við hold og heim. Hvar ættum vèr að leita liðs og krapta í breyskleika vorum og kaldsinni veraldarinnar, ef Jesús ekki styrkti vora trú og hjálpaði oss til að stríða og

vinna sigur? Hann gjörir oss árvakra, svo vèr hvorki af hugleysi flýum hættur og freistíngar, nè heldur ófyrirsynju og að þarflausu stofnum oss í þær. Hann gefur oss anda bænarinnar, svo vèr grátandi og biðjandi „sleppum ekki Drottni fyrr enn hann blessar oss“. Hann leiðir oss að sínu heilaga orði og sýnir oss, hve mildilega Guðs föðurlega ásjóna skín á móti oss; hann leiðir oss að sínu náðarborði, svo að vèr verðum hluttakandi í hans heilaga líkama og blóði og getum af hjarta tekið undir og sagt: „Jesú, þín minníng mjög sæt er“! þá verðum vèr „sterkir í Guðs krapti og vinnum sigur fyrir hann, sem oss elskað hefur“. Komi síðan freistíngar stundir fyrir oss, þá fær hjarta vort huggun af þessum frelsarans orðum: „eg hefi beðið fyrir þèr, að þín trú ekki skyldi þrotna“ (Lúk. 22., 32.); leggi Guð oss kross á herðar, þá styrkist hin iðrandi sál af þessari Jesú áminníngu: „takið á yður mitt ok og lærið af mèr, því eg er hógvær og af hjarta lítillátur“; reyni veröldin til að tæla oss með ógnunum sínum eða fagurgala, þá látum vèr ekki hugfallast og „sleppum ekki vorum örugga móð“, því vèr vitum, að „hann mun mikil laun öðlast“, og getum hughraustir spurt: „ef Guð er með oss, hver getur þá verið á móti oss“? sèum vèr að ráðstöfun vors himneska föður leiddir í „grasgarð“ sorgarinnar og oss sè þar rèttur raunanna og mæðunnar beiski bikar, þá föllum vèr fram og biðjum: faðir! sè það þinn vilji, þá taktu þenna bikar frá mèr; þó ekki minn, heldur verði þinn vilji“! og gaungum síðan styrktir og endurnærðir móti þeim þrautum, sem bíða vor. Í stöðugri trú á vorn frelsara tökum vèr ókvíðnir ókomna tímanum, fullvissir um, að „vèr höfum árnaðarmann hjá föðurnum, sem situr við Guðs hægri hönd og biður fyrir oss“ (Róm. 8., 33.), og „að hann getur gjört þá sáluhólpna, sem hann lèt koma til Guðs“ (Hebr. 7., 25.). Látið nú þetta vera yðar huggun, þèr harmþrúngnu sálir! sem leitið og þarfnizt guðlegrar hugsvölunar, sem stynjið undir yðar þúngu syndabyrði, sem eruð hryggar og ángraðar af breyskleika og vanmætti yðar, og vantreystið því, að þèr munið geta staðið stöðugar allt til enda og náð helgunarinnar takmarki. Gleymið því ekki, að öll sönn huggun kemur hèr að ofan frá miskunsemdanna föður, frá Guði allrar huggunar, og biðjið hann af öllu hjarta að senda yður anda

huggunarinnar og vera yður nálægur með sinni náð. Æ, komið til yðar frelsara; hann breiðir sinn miskunarfaðm út á móti yður og býður yður til sín, svo þèr fáið hvíld og huggun; ef þèr varpið yður í hans náðarfaðm, þá munuð þèr í hans nafni fá fyrirgefníngu yðar synda og hann mun leiða yður yfir hið nálæga og hið ókomna, í lífi og dauða til eilífs lífs og eilífrar sælu.

---

## Á tuttugasta og sjöunda sunnudag eptir trinitatis.

### Bæn.

Miskunsami góði Guð og faðir! Eingin tilhugsun og eingin tilfinníng mannlegs hjarta er eins inndæl og sælufull og sú, að vita sig í náð hjá þèr, þú sælunnar og lífsins eilífi faðir! og þessa sælu fáum vèr þegar hèr í lífi að reyna, þegar vèr kappkostum að breyta eptir þínum boðum, að þóknast þèr og elska þig. En því miður eru þessar sælustundir lífsins þó fáar, því heimselskan og girndir vorar tæla oss svo tíðum og draga hjörtu vor frá þèr, heita oss gleði og sælu, en svíkja oss og fylla þau ófriði og sorg. Láttu þinn náðaranda styrkja oss í þessu stríði og glæða hjá oss trúna og elskuna, svo vèr leitum allrar vorrar unaðsemdar hjá þèr og verðum varir við þitt ríki, þitt rèttlæti, þinn frið og fögnuð í sálum vorum, svo vèr í allri baráttu lífsins getum haldið fast við þig og sagt af hjarta: hjá þér, Drottinn! er gott að vera, þángað til þú flytur oss hèðan á sælunnar land og veitir oss þau eilífu gæði, sem þú hefur þínum elskendum heitið, „sem auga hefur ekki sèð, ekki eyra heyrt og í einkis huga komið“. Bænheyr það í Jesú nafni! Amen.

### Guðspjallið

(Matth. XVII., 1.—9.).

Að sex dögum liðnum tók Jesús Pètur, þá bræður Jakob og Jóhannes, og fór með þeim einslega upp á hátt fjall og ummyndaðist að þeim ásjáendum. Hans ásjána skein sem sól, og klæði hans urðu svo björt sem ljós. Og sjá, að þeim birtust þeir Móses og Elías, sem töluðu við Jesú. Pètur sagði til Jesú: gott er hèr að vera, herra! ef þèr svo sýnist, þá viljum vèr reisa hèr þrjár tjaldbúðir, eina handa þèr, aðra handa Mósi og hina þriðju handa

**Elíasi. Þegar hann var þetta að tala, bar yfir þá bjart ský, og úr því heyrðist rödd, er mælti: Þessi er minn elskulegur sonur, á hverjum eg hefi velþóknun; hlýðið þèr honum! En — þegar lærisveinarnir heyrðu það, fèllu þeir fram á sínar ásjánir, og urðu mjög hræddir. Jesús gekk þá til þeirra, tók á þeim og sagði: standið upp, og verið óhræddir! en þegar þeir litu upp, sáu þeir eingan, nema Jesú einan. En þá er þeir geingu ofan af fjallinu, sagði Jesús til þeirra: þèr skuluð eingum segja frá þessari sjón, þar til að mannsins sonur er upp aptur risinn frá dauðum.**

### Inngángur.

„Þessi er minn elskulegur sonur, að hverjum mèr vel þóknast; hlýðið þèr honum"! Þessi orð ennar himnesku raddar sýna oss, til hvers þessi dásamlega vitran sèr í lagi miðaði; hún átti að vera guðlegur vitnisburður um Guðs eingetinn son og áminníng um að hlýða hans boðum. En jafnframt því sem þessi vitran vísar oss til Krists, sem vors fræðara og frelsara, sýnir hún oss einnig, hverníg hann vill leiða oss til þeirrar eilífu sáluhjálpar, sem hann hefur afrekað oss. Þegar Pètur sagði: „herra! hèr er oss gott að vera; ef þú vilt, þá viljum vèr reisa hèr þrjár tjaldbúðir, þèr eina, Mósi eina og Elíasi eina", þá ímyndaði hann sèr, að hann væri þegar kominn í guðsríki, að minnsta kosti fann hann til þvílíkrar sælu af að sjá Krists dýrðlegu ummyndun og vera hjá honum, að hann lángaði til að staðnæmast og taka sèr bólfestu á fjallinu helga, í því himneska ljósi og þeim heilaga friði, sem þar umkríngdu hann. Hann fèkk þannig að reyna forsmekk þeirrar eilífu sælu, sem bíður allra guðsbarna við enda þessa vors jarðneska lífs. Látum þetta gefa oss tilefni til að í huga:

*hvaða hugmynd kristinn maður eigi að gjöra sèr um eilífa sáluhjálp.* Drottinn! láttu þessar hugleiðíngar vorar miða til þess, að hvetja oss til að efla vora sáluhjálp með ótta og andvara.

Á meðan maðurinn dregst með þenna synduga dauðans líkama, meðan hann er á vegferð sinni um þenna táranna dal, þá truflast sæla hans ekki einúngis af þeim krossi, sem guðs-

börn einatt hljóta að bera, heldur og af því stríði, sem hann alltaf á í bæði við veröldina og sína holdlegu náttúru, og af þeim breyskleika syndum og hrösunum, sem honum vilja til, þó hann vaki og biðji, svo hann einnig í andlegu tilliti mætti lánga til að leysast hèðan. Þegar nú dauðinn frelsar hann bæði frá freistíngum og líkamlegum og andlegum þjáníngum, og hann er fluttur í Guðs eilífu friðarheimkynni og hann þarf ekki leingur að gráta syndir sínar, nè óttast fyrir, að hann muni nokkurn tíma framar syndga, þá hlýtur þetta að vera óumræðileg sælutilfinníng fyrir hann, og fögnuður hans hlýtur að vera því meiri, sem hann er fullviss um, að sæla sín muni aldrei taka enda. Þó gleði vor í þessu lífi væri hrein og fullkomin, sem hún þó sjaldan er, þá getur hún ekki varað nema stutta stund. Þó einginn hlutur fyrir utan oss yrði til að raska henni, þó vèr ekki hefðum neitt verulegt óánægjuefni, mundum vèr þó sjálfir finna upp á einhverju og fá oss eitthvað til. Af því reynslan sýnir, að allt tímanlegt lán er stopult og hverfult, þá förum vèr undir eins og vèr hljótum einhver gæði að kvíða því, að vèr munum missa þau aptur, og því ber það opt við, að því meiri sem fögnuður vor er, þess meiri órósemi er honum samfara, og því vænna sem oss þykir um einhvern hlut, þess hræddari erum vèr um að missa hann. Já allt vort líf er ekki annað enn óttablönduð von. En eptir dauðann eru oss fyrirhugaðir eilífir bústaðir; þar hafa breytíngar og byltíngar tímans ekkert vald. yfir oss, og þar er gleðinni sú fullvissa samfara, að hún muni aldrei taka enda. Og hvílík sæla er ekki í þessu innifalin? Það væri jafnvel nóg tilefni til óumræðilegs fagnaðar að hugsa til þess, að í hinni nýju veröldu, sem hin frelsaða sál kemur í, er ekkert af því hinu illa, sem í þessu lífi þjáir oss synduga menn. Óþverrandi sæluuppspretta hlýtur það að vera fyrir hina útvöldu, að í öðru lífi hverfa þær skorður og tálmanir, sem hèr aptra þeim bæði frá að skoða Guðs óendandlegu dásemdarverk og að taka þeim framförum, sem þeim er ætlað að ná. Hve óumræðilega mikið mun ekki sálarinnar æðra líf skýrast og sjóndeildarhríngur hennar stækka einúngis við það, að hún yfirgefur þetta jarðneska hreisi, þessa líkamans tjaldbúð! Í sambandi við þetta æðra líf og þetta skæra skoðunarljós standa eflaust nýir verkahríngir,

samsvarandi þeim kröptum og hæfilegleikum, sem Guðs náð úthlutaði sèrhverjum og undirbjó hèr í tímanum, en sem þá verða lángt um fullkomnari. Munu ekki þeir, sem hèr í lífi voru gæddir háleitum gáfum og eiginlegleikum og leituðust af alefli við að gjöra Guðs vilja, en sem dauðinn kippti burt í byrjun skeiðhlaupsins eða í miðju kafi, munu þeir ekki fara hèðan til þess að reka annað æðra erindi Guðs í æðra betra heimi? Jesús segir sjálfur: „Æ, þú góði og trúlyndi þjón! þú varst trúr yfir litlu, eg vil setja þig yfir mikið; gakk inn í fögnuð herra þíns“! Og Páll postuli lætur oss ráða í það, að eins og það sè munur á fegurð stjarnanna, eins muni og verða munur á hinum sælu öndum á himnum, byggður á því, hve lángt þeir sèu komnir á hinum nýja skeiðvelli, sem þeir þá byrja. En látum oss ekki fara leingra út í þessa hugleiðíng, því það kynni að leiða oss leingra enn mannlegum anda er fært að fara í þessu efni. Látum oss það lynda, að hinir útvöldu eru allir óumræðilega sælir, og höldum oss eingaungu við það, sem felst í sjálfri hugmyndinni um sælu guðsríkis. Það er í sjálfu sèr sælufullt að vera góður og guðhræddur og það gjörir oss þegar hèr í lífi ánægða með vor kjör, þó vèr eigum við einhverja mæðu og andstreymi að berjast. Þessi sæla er ekki einúngis innifalin í samvizkufriði — og án hans getur einginn verið sæll þótt hann lifði í allsnægtum og hefði öll stundleg gæði í hendi sinni — heldur og í þeirri sèrlegu gleði, sem er samfara trúnni á almáttugan, alvitran og gæðskuríkan Guð, sem hefur skapað heiminn og viðheldur og stjórnar honum, samfara elsku til Guðs og náúngans, samfara þeirri sameiníngu við skapara vorn og frelsara, sem guðsorð kemur til leiðar í trúaðri sálu. Við þessa gleði kemst eingin önnur gleði í nokkurn samjöfnuð og hún er þegar hèr í lífi forsmekkur hins eilífa lífsins. Guðs börn eru þegar hèr á jörðunni í guðsríki. „Guðsríki er hið innra í yður“ segir Jesús (Lúk. 17., 21.), og postulinn Páll kallar það „rèttlæti, frið og fögnuð í heilögum anda“ (Róm. 14., 17.). Þegar þú, sannkristinn maður! í trúnni tileinkar þèr rèttlæti lausnara þíns og leitast við að breyta eptir honum, þá er þetta rèttlæti hinn fyrsti blómknappur þinnar eilífu sáluhjálpar. Ef þú þegar hèr í lífi hefur yndi og gleði af hinu góða og rètta, af því það er gott og rètt, ef þú þegar

hèr í lífi finnur til sælu af því að gjöra öðrum gott og efla þeirra farsæld, ef þú þegar hèr í lífi virðir sjálfan þig að því skapi, sem þú getur sigrazt á þínum syndsamlegu girndum, og þú tekur framförum í nytsamlegri þekkíngu og kristilegum dyggðum, hvílík sæla mun það þá verða fyrir þig í öðru lífi í þeim nýja verkahríng, með þeim nýju kröptum og gáfum, sem þú þar fær, að efla vísdómsráð hins eilífa og algóða föður í samfèlagi við hans heilögu eingla og alla útvalda! Sè guðsríki þegar hèr á jörðunni innifalið í rèttlæti, þá hlýtur það að vera það lángt um meir á himnum, því þángað fær ekkert ránglæti, ekkert óhreint eða saurugt komizt. Samfara rèttlætinu er friður, friður góðrar samvizku, og hann er sá dýrmætasti fjársjóður, sem vèr gætum eignazt, og vanti hann þá, eru öll stundleg gæði ekki annað enn hismi og hègómi. Hinn óguðlegi hefur margar þjáníngar; en þó hann væri laus við allar aðrar þjáníngar, hefði hann þó þá, að geta ekki verið ánægður með sjálfan sig. Hann ber í hjarta sínu naganda orm og brennanda eld og þeir fylgja honum inn í eilífðina, ef hann ekki bætir ráð sitt hèr í lífi og flýr til Guðs náðar.

Eins og nú hinn óguðlegi sjálfur flytur með sèr kveljanda anda í samvizkunni, auk þeirrar hegníngar, sem bíður hans í sambúð illra anda, eins ber hinn guðhræddi sjálfur með sèr sín verðlaun í endurminníngu þeirra dyggða, sem hann í þessu lífi hafði tamið sèr, og hann mun eins gleðjast af þessari endurminníngu þegar hann er kominn í samfèlag ljóssins eingla á himnum. Sè nú friður hjartans þegar í þessu lífi sæluefni fyrir hinn guðhrædda, þó hann alltaf eigi í stríði við óvini sálar sinnar, þó honum verði opt að hrasa af breyskleika og þó hann sè margvíslegu mótlæti undirorpinn í þessari syndum spilltu veröldu, hve miklu sælli mun hann þá ekki verða í hinum eilífu friðarins heimkynnum, þar sem eingar freistíngar og ekkert andstreymi er framar til! Auk þeirrar gleði, sem rèttlætið og friður samvizkunnar hafa í för með sèr, talar postulinn um sèrlegan fögnuð í guðsríki, sem verkun heilags anda. Það er þessi fögnuður, sem er sèrlegt einkenni guðsbarna, sanniðrandi kristinna manna, og hann sprettur af þeirra innilega samfèlagi við Guð, sem þeir sjá með augum trúarinnar og umfaðma í kærleikanum, jafnframt því sem þeir með þakklátsemi og undirgefni undir hans vilja leitast við að breyta

eptir hans boðum. þessi fögnuður í heilögum anda er hin æðsta unaðsemd þessa lífs og forsmekkur eilífrar sælu. Af þessu sjáum vèr, kærir bræður! að í sjálfri hugmyndinni um guðsríki, eins og það þegar hèr á jörðinni birtist í rèttlæti, friði og fögnuði í heilögum anda, felst hugmyndin um eilífa sáluhjálp. þessi hugmynd, ásamt þeirri fullvissu, að allar þær þjáníngar og þrautir, sem vèr hèr í lífi verðum að þola og sem eru afleiðíngar syndarinnar, hverfa í öðru lífi, ætti að geta gjört oss glaða og ánægða á þessari vorri jarðnesku vegferð. En bæði í þessa dags guðspjalli og annarstaðar í heilagri ritníngu finnum vèr leyst úr nokkrum sèrstaklegum spurníngum, sem skynsemin og laungun hjarta vors hreifa um ástand útvaldra í eilífðinni. þessar spurníngar eru einkum tvær; önnur sú, hvort vèr í öðru lífi munum fá skýrari þekkíngu á öllu því, sem vèr hèr sjáum svo óglöggt, á skipulagi, rás og ákvörðun alheimsins, á guðlegri forsjón og á Guði sjálfum, sem allt lifir og hrærist í; hin sú, hvort vèr megum búast við því, að finna þá aptur hinu megin grafarinnar, sem vèr hèr í lífi virtum og unnum hugástum. Hvað fyrri spurnínguna snertir, þá er það óyggjandi, að sálir útvaldra, sem verða gæddar nýjum kröptum og hæfilegleikum og settar á æðra sjónarmið, munu fá skýrari og fullkomnari þekkíngu á stærð og skipulagi sköpunarverksins, á fegurð þess og tilgángi. En um Guð sjálfan segir ritníngin, „að hann búi í því ljósi, sem einginn fái til komizt“ (1. Tím. 6., 16.). En þó ekkert endanlegt auga þoli um eilífð að horfa í þetta ljós, að því leyti sem hinn óendanlega lífsins uppspetta býr í því, mun þó birta þess síður blinda augu útvaldra enn vor dauðlegra manna, og Páll postuli segir, „að vèr munum sjá þar Guð augliti til auglitis“, og Jóhannes heitir oss því, „að vèr þar munum fá að sjá Guð eins og hann er“. Án efa meina þeir báðir til þeirrar skoðunar Guðs, sem veitist í Jesú Kristi, sem er „ljómi hans dýrðar og eptirmynd hans veru“. Og Jesú eigin orð fullvissa oss um, að hinir sælu andar muni fá að sjá hann á himnum, því að í bæninni til síns himneska föður segir hann: „faðir! eg vil að þeir, sem þú gafst mèr, skuli vera hjá mèr, svo að þeir sjái mína dýrð“. Sýnishorn af þessari hans dýrð sáu lærisveinar hans á fjallinu, þegar „ásjóna hans skein sem sol og klæði hans urðu svo björt

sem ljós". Eptir því sem annar guðspjallamaður segir, voru þeir yfirkomnir af svefni og vöknuðu við þessa himnesku birtu og við hina guðlegu rödd, og þá varð Pètur svo frá sèr numinn af fögnuði, að hann sagði: „hèr er oss gott að vera". þetta er fögur fyrirmyndan þess, hvernig sál hins guðhrædda vaknar af dauðans svefni í eilífu lífi. Sú gleðilega tilhugsan, að vèr fáum að nálgast frelsara vorn í öðru lífi og sjá hann bæði sem Guð og mann, þessi gleðilega tilhugsan innibindur í sèr allt sem vèr getum hugsað oss háleitt og fagurt, heilagt og dýrðlegt og sælufullt. Ætti ekki þessi tilhugsan að fá oss til að trúa hans orðum og feta í hans fótspor? Er hún ekki þess verð, að vèr berum þjáníngarnar með þolinmæði og sýnum stöðuglyndi og sjálfsafneitun? Og þó eru þeir svo margir, sem alls ekki fagna því að komast á fund frelsara síns, og er það ekki kynja, þegar þeir hvorki elska hann nè trúa honum eða þekkja hann nema einúngis að nafninu til; því þó þeir opt hafi heyrt Jesúm nefndan á nafn, vita þeir þó ekki, hvað þetta nafn þýðir; þeir vita ekki, að Jesús er þeirra frelsari, því þeir finna ekki til synda sinna nè til þess, að þeir hafi þörf á að komast í sátt við Guð. Ekki vita þeir heldur, að Krists nafn merkir konúng, því þeir þekkja ekki hans ríki, þeir þekkja ekki annað guðsríki enn það, sem hann stjórnar með almætti sínu og nær til allra lifandi skepna; en þeir hafa einga hugmynd um Guðs náðarríki hèr á jörðinni, þar sem Kristur er vor andlegur konúngur og hjálpar oss til að berjast við vora andlegu óvini og veitir oss Guðs frið, „sem er öllum skilníngi æðri". Hvernig ættu þeir þá að geta gjört sèr nokkra hugmynd um hann sem konúng í dýrðarinnar ríki, þar sem hann eptir dauðann saman safnar ástvinum sínum? Einginn nema sá sem elskar frelsara sinn af hjarta getur fundið til þess, hve sælufullt það verður að sjá og skoða hans dýrð.

Æ, að vèr allir, kærir bræður! einlæglega vildum prófa sjálfa oss og gæta þess, að lifandi trú og innileg elska til frelsarans og bræðra vorra er skilyrði fyrir því, að vèr getum heyrt honum til hèr í tímanum, og eptir dauðann feingið inntöku í hans ríki. Jafnvel þekkíng vor á honum er því hreinni og áreiðanlegri, sem hjörtu vor eru hreinni og breytni vor ráðvandari „Sælir eru hreinhjartaðir", segir Jesús, „því þeir

munu Guð sjá". Hin spurníngin, sem mannleg hjörtu lángar svo mjög til að fá svarað, snertir þá von, að vèr munum í öðru lífi aptur fá að sjá ástvini vora. Heilög ritníng staðfestir einnig þessa von með berum orðum; hún segir, að útvaldir muni sitja til borðs með Abraham, Ísak og Jakob í guðsríki", og um Lazarus er sagt: „að hann hafi verið borinn af einglum í faðm Abrahams"; eins er í þessa dags heilaga guðspjalli bent til ens sama, þar sem vèr sjáum Móses og Elías birtast á fjallinu. Samtal þeirra við Jesú sýnir fèlagskap og samneyti útvaldra á himnum, og að þeir birtust lærisveinunum gaf þeim von um, að þeir mundu eptir dauðann ná þeirra sæla fundi. Liggi það nú fyrir oss, í bústöðum vors himneska föður að finna þá, sem vèr aldrei höfum áður sèð, sem voru uppi mörgum öldum á undan oss, hve miklu fremur megum vèr þá ekki vænta þess, að fá að sjá aptur þá framliðnu bræður og systur, sem vèr hèr í lífi þekktum og unnum hugástum. Og þegar vèr þar finnumst aptur, þá munum vèr aldrei framar skilja. Þar þurfa ekki hin góðu guðelskandi hjón að kvíða því að missa hvort annað, ekki foreldrarnir að missa börn sín, nè börnin foreldra sína, því allir góðir ástvinir sjást þar um eilífð ummyndaðir og dýrðlegir, um leið og þeir skoða Guðs óendanlegu dýrð og sjá hann augliti til auglitis. Æ, þurfum vèr ekki allir þessarar huggunar við? Höfum vèr ekki allir misst einhvern trúan og tryggan vin, einhvern ástkæran náúnga eða vandamann, sem dauðinn hefur svipt oss? Þó eru það ekki aðrir enn guðhræddir, sem geta haft huggun og gleði af þeirri von, að fá að sjást aptur hinu megin grafarinnar, því fyrir óguðlega hlýtur sú tilhugsun að vera hræðileg, að hittast aptur í hinum yztu myrkrum.

Látum oss því, bræður góðir! lifa svoleiðis og breyta svo hver við annan, að vèr með gleði getum hugsað til þess, að hittast á eilífðarinnar landi frammi fyrir hinum eilífa dómaranum. Þá munum vèr ekki heldur harma missi ástvina vorra eins og þeir, sem einga von hafa, heldur þolinmóðlega bíða sælla samfunda hjá Guði.

Þannig er þeirri hugmynd um eilífa sáluhjálp varið, sem guðsorð kennir oss, og samsvarar hún að öllu leyti kröfum skynseminnar. Og hve sælir erum vèr kristnir menn, að vèr höfum þessa himnesku von að styðjast við á vorri jarðnesku vegferð! Æ, að vèr aldrei slepptum henni úr huga vorum, aldrei yfirgæfum þann veg, sem hún vísar oss, aldrei gleymdum, að veröldin fyrirferst með hennar lystisemdum, en að sá, sem gjörir Guðs vilja, varir að eilífu! Amen.